# SAFN

TIL

## SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENTA

AÐ FORNU OG NYJU

GEFIÐ ÚT

AF

**HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI**

FIMTA BINDI

REYKJAVÍK
PRENTSMIÐJAN GUTENBERG
1915—1929

# Yfirlit efnisins.

---



---

# SÓLARLJÓÐ

GEFIN ÚT

MEÐ SKÍRINGUM OG ATHUGASEMDUM

AF

BIRNI M. ÓLSEN

[SAFN TIL SÖGU ÍSLANDS OG ÍSL. BÓKMENTA V NR. 1]



REIKJAVÍK
PRENTSMIÐJAN GUTENBERG
1915

# Formáli.

Vorið 1913 las jeg Sólarljóð með lærisveinum mínum við háskólann, og komst jeg þá að sumu leiti að annari niðurstöðu enn þeir, sem áður höfðu skírt kvæðið, bæði um skilning á kvæðinu í heild sinni og á einstökum stöðum þess.

Í birjun næsta árs (1914) barst mjer í hendur 1. hefti af hinu nýja norska tímariti, er nefnist »Edda«. Þar las jeg ritgjörð eftir hinn norska vísindamann Fredrik Paasche, sem beinist sjerstaklega að Sólarljóðum (»St. Michael og hans engle. En studie over den ældre katolske skaldedigtning, Draumkvædet og særlig Sólarljóð«, Edda, 1914, 33. —74. bls.). Mjer var það mikið gleðiefni að sjá, að þessi maður hjelt fram mjög líkum skoðunum og jeg hafði haldið fram árið áður um kvæðið í heild sinni og skírði suma staði alveg eins og jeg, þó að hvorugur vissi um rannsóknir hins. Ritgjörð hans ber vott um dæmafáan fróðleik í kristilegum miðaldaritum og miðaldakvæðum, bæði íslenskum og útlendum; hún er laus við alla hleipidóma og rituð með þeim hlíleik og þeirri samúð gagnvart kaþólskri trú feðra vorra, sem enginn skírandi Sólarljóða má án vera. Síðar hefur Paasche skírt Sólarljóð enn nánar í hinu merkilega riti sínu Kristendom og kvad, en studie i norrøn middelalder, Kria 1914, 135.—171. bls.

Loks barst mjer nú í vor níútkomin útgáfa Sólarljóða eftir Hjalmar Falk, prófessor við háskólann í Kristíaníu (Sólarljóð av Hjalmar Falk, Kristiania 1914. Videnskapsselskapets skrifter. II. Hist.-filos. Klasse 1914. No. 7). Þeirri útgáfu filgja mjög svo fróðlegar skíringar og athugasemdir.

Þetta eru hinar síðustu tilraunir til að skíra Sólarljóð. Grundvöllurinn var lagður áður, first af þeim mönnum, sem gáfu út 1. bindi af Eddukvæðaútgáfu Árnanefndar 1787, því að þar er kvæðið gefið út í firsta sinn. Síðan var kvæðið látið filgja flestum Eddukvæðaútgáfum, þó að það eigi þar í rauninni ekki heima. Má þar sjerstaklega nefna útgáfu Rask's (1818), enn þó einkum útg. S. Bugge's (1867), því að þar eru flest handrit höfð til hliðsjónar og glögg grein gerð firir, hvað í þeim stendur; er því sú útgáfa enn í dag nauðsinleg hverjum þeim, sem fæst við að skíra Sólarljóð. Auk þess gaf Guðbrandur Vigfússon kvæðið út í Corpus poeticum boreale og Finnur Jónsson í Skjaldedigtning I A 628.—640. bls. og I B 635.—648. bls. Þar, í Skjalded., er greint nákvæmlega, hvað stendur í fáum úrvalshandritum og filgir dönsk þíðing. Af þíðingum skal jeg sjerstaklega nefna þíðing á þísku eftir Alexander Baumgartner í ferðabók hans um Ísland og Færeijar (Nordische Fahrten I, Island und die Färöer, 3. auflage, Freiburg i. Breisgau, 1902). Þíðingunni filgja fróðlegar athugasemdir, og ifirleitt má segja, að þíðingin beri að ímsu leiti vott um glöggari skilning á efni kvæðisins enn komið hafði fram áður, enda er það engin furða, því að hjer er kvæðið í firsta sinn skírt af hámentuðum kaþólskum presti.

Þó að svona margir ágætismenn hafi lagt sig fram til að skíra Sólarljóð, þá vantar þó enn mikið á, að kvæðið sje skírt til hlítar. Útgáfa sú, sem hjer fer á eftir, er tilraun til að greiða úr nokkrum flóknum stöðum og efla rjettan skilning á kvæðinu í heild sinni og á sambandi þess við önnur kvæði.

Við textann hef jeg sjerstaklega haft hliðsjón af útgáfum þeirra S. Bugge's og Finns Jónssonar í Skjaldedigtning I A með þeim orðamun, sem þar er greindur. Ef einhver lesháttur stafar af leiðrjettingu og stendur ekki í neinu handriti, er þess getið neðanmáls, hvað í handritum stendur, enn annars þótti mjer óþarfi að greina orðamun handritanna, því að hver sem vill getur kint sjer hann í áðurnefndum útgáfum. Til þess að menn

skilji betur þráðinn í kvæðinu, hef jeg bætt við firirsögnum firir einstökum köflum þess frá sjálfum mjer. Þær standa ekki í neinum handritum.

Sólarljóð eru því miður ekki til í neinu gömlu eða góðu handriti, heldur að eins í tiltölulega ungum pappírshandritum (frá 17. öld og ingri), sem öll virðast stafa frá einu og sama eldra handriti[1]). Því er engin furða, þó að kvæðið sje víða afbakað.

Í athugasemdum mínum og skíringum hef jeg auðvitað stuðst við það, sem áður hefur verið ritað um kvæðið, ekki síst við rannsóknir F. Paasche's og útgáfu Hj. Falk's. Í tilvitnunum til þeirra táknar »P. Edda« ritgjörð Paasche's í Eddu, »P. Kvad« bók sama Kristendom og kvad, og »Hj. Falk« útgáfu Falk's.

»B.« táknar útg. S. Bugge's í Norrœn Fornkvæði, Kria, 1867.

»F. J.« táknar útg. Finns Jónssonar í Skjaldedigtning.

1) Eitt handrit, nr. 1109 fol. í Ny kgl. saml., vitnar beint í skinnhandrit (»membrana«), enn sú tilvitnun er tekin eftir eldra handriti, því að 1109 er ekki ritað fir enn eftir miðja 18. öld eftir handriti, sem Jón konrektor Egilsson († 1784) átti og borið hafði verið saman við íms önnur handrit (B. formálinn XLVI. og LX. bls. Kr. Kålund, Katalog ifir konungl. safnið 112. bls.).

# Sólarljóð.

## *I. Dœmaþáttr.*

*1. dœmi: Greppr ok Gestr.*

1. Fé ok fjörvi
rænti fyrða kind
sá enn grimmi Greppr.
Yfir þá vegu[1])
er hann varðaði
náði engi kvikr komask.

2. Einn hann át
opt harðla,
aldri bauð hann manni til matar.
áðr en móðr
ok meginlítill
Gestr[2]) af götu kom.

3. Drykks of þurfi
lézk enn dæsti maðr
ok vanmettr vera.
Hræddu hjarta
hann lézk trúa
þeim er áðr hafði vályndr verit.

---

1) götu *hdrr.*

2) *Hjer bæta hdrr. við:* gangandi, *enn það raskar kveðandi og virðisl ofaukið. Líklega er villan sprottin af talshættinum* ala gest ok ganganda, *sem kemur firir í Homilíubókinni norsku bls. 123*[6]*, sbr. Hávam. 132*[7].

4. Mat ok drykk
veitti hann þeim er móðr var,
alt af heilum hug.
Guðs hann gáði,
góðu hánum beindi,
þvít hann hugðisk værligr[1]) vera.

5. Upp hinn stóð,
ilt hann hugði,
eigi var þarfsamliga þegit,
synð hans svall,
sofanda myrði
fróðan, fjölvaran.

6. Himna guð
bað hann hjálpa sér,
þá er[2]) hann veginn vaknaði.
En sá gat
við synðum taka,
er hann hafði saklausan svikit.

7. Helgir englar
kómu ór himnum ofan
ok tóku sál hans til sín:
í hreinu lifi
hón skal [lifa
æ[3]) með almátkum guði.

---

1) *Flest hdrr. hafa* vælligr (-legr), *sem í rauninni er ekki annað enn* værligr, *ritað eftir nýísl. framburði* (rl = ll, *sbr.* Stulla *f.* Sturla, fallegur *f.* farligr), *sjá Konr. Gíslason: ,Om helrim' 57.—58. bls. og Efterl. skrifter II. 258.—264. bls. Aðrir leshættir* (vælegr, valegr) *eru annaðhvort afbökun firir* vælligr *eða tilraun ritara til að skíra það, sem hann skildi ekki.*

2) *slept í hdrr.*

3) *Frá* [ æ lifa *hdrr.*

*2. dæmi: Unnarr ok Sævaldi.*

8. Auð né heilsu
ræðr engi maðr,
þót[1]) hánum gangi greitt.
Margan þat sœkir
er minst of varir:
engi ræðr sættum sjálfr.

9. Ekki þeir hugðu
Unnarr ok Sævaldi,
at þeim mundi heill hrapa.
Nøktir þeir urðu
ok [næmðir hvivetna[2])
ok runnu sem vargar til viðar.

*3. dæmi. Sváfaðr ok Skartheðinn.*

10. Munaðar ríki
hefir margan tregat,
opt verðr kvalræði af konum.
Meingar þær urðu;
þó enn mátki guð
skapaði skírliga.

11. Sáttir þeir váru
Sváfaðr ok Skartheðinn,
hvárgi mátti annars án vera,
fyrr en þeir œddusk
fyr einni konu:
hón var þeim til lýta lagin.

12. Hvárskis þeir gáðu
fyr þá hvítu mey
leiks né ljóssa daga.
Øngvan hlut
máttu þeir annan muna
en þat ljósa lík.

---

1) þó *hdrr.*
2) *Frá* [ *flest handrit hafa* næmir hvervetna.

13. Daprar þeim urðu
enar dimmu nætr,
øngvan máttu þeir sætan sofa.
En af þeim harmi
rann heipt saman
millum virkta vina.

14. Fádœmi verða
í flestum stöðum
goldin grimmliga:
á hólm þeir gengu
fyr et horska víf
ok fengu báðir bana.

*4. dœmi: Ráðný ok Véboði.*

15. Ofmetnað drýgja
skyldi engi maðr,
þat hefik sannliga sét,
þvíat þeir hverfa
er hánum fylgja
flestir guði frá.

16. Rík þau váru
Ráðný ok Véboði
ok hugðusk gott eitt gera.
Nú þau sitja
ok sárum snúa
ymsum elda til.

17. Á sik ein[1]) þau trúðu
ok þóttusk ein vera
allri þjóð yfir.
En þó leizk
þeirra hagr
annan veg almátkum guði.

---

1) *Getgáta; slept í hdrr.*

18. Munað þau drýgðu
á marga vegu
ok höfðu gull fyr gaman.
Nú er þeim goldit,
er þau ganga skulu
millum frosts ok funa.

*5. dœmi: Sörli enn góðráði ok Vigúlfr.*

19. Óvinum þínum
trúðu aldregi,
þót þér fagrt mæli fyrir.
[Góðu þót heiti[1]),
gott er annars
víti hafa at varnaði.

20. Svá hánum gafsk
Sörla enum góðráða,
þá er hann lagði á [Vígúlfs vald[2]).
Tryggliga hann trúði,
— en hinn at tálum varð, —
sinum bróðurbana.

21. Grið hann þeim selði
af góðum hug,
en þeir hétu hánum gulli í gegn.
Sáttir létusk,
meðan saman drukku,
en þó kómu flærðir fram.

22. En þá eptir
á öðrum degi,
er þeir höfðu í Rýgjardal riðit,
sverðum þeir meiddu
þann er saklauss var
ok létu hans fjörvi farit.

---

1) *Frá* [ góðu þú heit *hdrr.*
2) *Frá* [ vald hans Vigúlfs *hdrr.*

23. Lík hans þeir drógu
á leynigötu
ok brytjuðu í brunn niðr.
Dylja þeir vildu,
en dróttinn sá
heilagr himnum af.

24. Sál hans bað
enn sanni guð
í sinn fögnuð fara.
En sökudólgar
hygg ek síðla muni
kallaðir frá kvölum.

## *II. Ráðatal.*

*1. ráð.*

25. Dísir bið þú þér
dróttins mála
vera hollar í hugum.
Viku eptir
mun þér vilja þins
[at óskum ganga alt[1]).

*2. ráð.*

26. Reiðiverk,
[þá er þér runnit[2]) hefir,
bœt þú ei illu yfir,
grœttan gœla
skaltu með góðum hlutum:
þat kveða sálu sama.

*3. ráð.*

27. Á guð skal heita
til góðra hluta,

1) *Frá* [ alt at óskum ganga (gá) *hdrr.*
2) *Frá* [ þau þú unnit *hdrr.*

þann er hefir skatna skapat.
Mjök fyrir verðr
manna hverr,
er seinar[1]) finna föður.

*4. ráð.*

28. Æsta dugir
einkum vandliga
þess er þykkir vant vera.
Alls [á mis[2]) verðr
sá er einskis biðr —
fár hyggr þegjanda þörf.

*5. ráð.*

29. Siðla ek kom
snimma kallaðr
til Dómvalds dyra;
þangat ætlumk;
því mér heitit var.
Sá hefir krás er krefr.

*6. ráð.*

30. Synðir því valda,
at sárhryggvir[3]) förum
œgisheimi ór.
Engi óttask,
nema ilt geri.
Gott er vammalausum vera.

*7. ráð.*

31. Úlfum glíkir
þykkja allir þeir
er eiga hverfan hug.

---

1) *Eitt hdr. hefur* seint, *hin flest* sér.

2) *Frá [ misskrifað á ímsan hátt í hdrr.* (a me, ami, a me, a vel [væl, vil]).

3) vér hryggvir *hdrr.*

Svá mun gefask
þeim er ganga skal
þær enar glœddu götur.

*Niðurlagserindi.*

32. Vinsamlig ráð
ok viti bundin
kenni ek þér sjau saman.
Gørla þau mun
ok glata aldregi,
öll eru þau nýt at nema.

## *III. þáttr. Um líf ok dauða ok annat líf.*

*1. Lífit.*

33. Frá því er at segja,
hvé sæll ek var
ynðisheimi í,
ok hinu öðru,
hvé ýta synir
verða nauðgir at nám.

34. Vil ok dul
tælir virða sonu
þá er fíkjask á fé.
Ljósir aurar
verða at löngum trega.
Margan hefir auðr apat.

35. Glaðr at mörgu
þótta ek gumnum vera
því ek vissa fátt fyrir.
Dvalarheim
hefir dróttinn skapat
munaðfullan mjök.

36. Lútr ek sat,
lengi ek hölluðumk,
mjök var ek þá lystr at lifa.
En sá réð
er ríkri[1]) var.
Frammi eru feigs götur.

*2. Dauðinn.*

37. Heljar reip
kómu harðliga
sveigð at síðum mér,
slíta ek vilda,
en þau seig vóru.
Létt er lauss at fara.

38. Einn ek vissa,
hversu alla vega
sullu sútir mér,
Heljar meyjar
er mér hrolla buðu
[á hverju kveldi heim[2]).

39. Sól ek sá,
sanna dagstjörnu,
drúpa dynheimum í.
En Heljar grind
heyrða ek á annan veg
þjóta þungliga.

40. Sól ek sá
setta dreyrstöfum.
Mjök var ek þá ór heimi hallr.
Máttug hón leizk
á marga vegu
frá því er fyrri var.

---

1) ríkr *hdrr.*
2) *Frá* [ heim á hverju kveldi *hdrr.*

41. Sól ek sá —
svá þótti mér,
sem ek sæja göfgan guð.
Henni ek laut
hinzta sinni
alda heimi í.

42. Sól ek sá —
svá hón geislaði,
at ek þóttumk vætki vita.
En Gylfa[1]) straumar
grenjuðu á annan veg
blandnir mjök við blóð.

43. Sól ek sá
á sjónum skjálfandi
hræzlufullr ok hnipinn,
þvít hjarta mitt
var harðla mjök
runnit sundr í sega.

44. Sól ek sá
sjaldan hryggvari.
Mjök var ek þá ór heimi hallr.
Tunga mín
var til trés metin
ok kólnat at fyr utan.

45. Sól ek sá
síðan aldregi
eptir þann dapra dag,
þvít fjarla[2]) vötn
luktusk fyrir mér saman,
en ek hvarf kallaðr frá kvölum.

---

1) gylfar (gilvar, gilnar) *hdr.*
2) fjalla *hdrr. Sbr.* vælligr *firir* værligr 4[6].

46. Vánarstjarna fló
— þá var ek fœddr —
brott frá brjósti mér,
hátt-at hón fló,
hvergi settisk,
svá at hón mætti hvíld hafa.

*3. Líkit náttsett ok grafit.*

47. Öllum lengri
var sú en eina nótt,
er ek lá stirðr á strám.
Þá merkir þat
er guð mælti,
at maðr er moldu samr.

48. Virði þat ok viti
enn virki guð,
sá er skóp hauðr ok himin,
hversu munaðarlausir
margir fara,
þót við skylda skili.

49. Sinna verka
nýtr seggja hverr.
Sæll er sá er gott gerir.
Auði frá
er mér ætluð var
sandi orpin sæng.

*4. Hörundar hungr ok laugavatn. Á Nornastóli. För um sigrheima.*

50. Hörundar hungr
tælir hölða opt,
hann hefir margr til mikinn,
laugavatn
er mér leiðast var
eitt allra hluta.

51. Á Nornastóli
sat ek niu daga,
þaðan var ek á hæst[1]) hafinn.
gýgjar sól
er skein grimmliga
ór [skýjum skýdrúpnis[2]).

52. Utan ok innan
þóttumk alla fara
sigrheima sjau.
Upp ok niðr
leitaða ek œðra vegar,
hvar mér væri greiðastar götur.

5. *Í kvölheimum.*

a. Sálirnar.

53. Frá því er at segja,
hvat ek fyrst of sá,
þá er ek var í kvölheima kominn.
Sviðnir fuglar,
er sálir váru,
flugu svá margir sem mý.

b. Vánardreki ok Glævaldr.

54. Vestan sá ek fljúga
Vánardreka
ok fell á Glævalds götu,
vængi þeir skóku,
svát víða þótti mér
springa hauðr ok himinn.

c. Sólarhjörtrinn.

55. Sólar hjört
leit ek sunnan fara,

---

1) hest *hdrr.*
2) *Frá* [ skýdrupnis (-drypnis, -dripnis, -deipnis) skýjum (skyrmi, skirmi) *hdr.*

hann [teymði tvá[1]) saman.
fœtr hans
stóðu foldu á,
en tóku horn til himins.

d. Niðja synir.

56. Norðan sá ek ríða
niðja sonu
ok váru sjau saman.
Hornum fullum
drukku þeir enn hreina mjöð
ór brunni Baugregins.

e. Píslir ranglátra.

57. Vindr þagði,
vötn stöðvaði,
þá heyrða ek grimmligan gný.
Sínum munum[2])
svipvísar konur
mólu mold til matar.

58. Dreyrga steina
þær enar dökku konur
drógu daprliga.
Blóðug hjörtu
hengu þeim fyr brjóst utan
mœdd við miklum trega.

59. Margan mann
sá ek meiddan fara
á þeim glœddu götum.
Andlit þeirra
þóttu mér öll vera
rýgjar blóði roðin.

1) *Frá* [ teymðu tveir *hdrr.*
2) mönnum *hdrr.*

60. Marga menn
sá ek moldar gengna,
þá er eigi máttu þjónustu ná.
Heiðnar stjörnur
stóðu yfir höfði þeim,
fáðar feiknstöfum.

61. Menn sá ek þá
er mjök ala
öfund um annars hagi.
Blóðgar rúnar
váru á brjósti þeim
merkðar meinliga.

62. Menn sá ek þar
marga ófegna,
þeir váru villir vega.
Þat kaupir sá
er þessa heims
apask at óheillum.

63. Menn sá ek þá
er mörgum hlutum
véltu um annars eign.
Flokkum þeir fóru
til Fégjarnsborgar,
ok höfðu byrðar af blýi.

64. Menn sá ek þá,
er margan höfðu
fé ok fjörvi rænt.
Brjóst í gegnum
rendu brögnum þeim
öflgir eitrdrekar.

65. Menn sá ek þá
er minst vildu
halda helga daga.

Hendr þeirra
váru á heitum steinum
negldar nauðliga.

66. Menn sá ek þá
er af mikillæti
virðask vánum framar.
Klæði þeirra
váru kynliga[1])
eldi um slegin.

67. Menn sá ek þá
er mart höfðu
orð á annan logit.
Heljar hrafnar
ór höfði þeim
harðliga sjónir slitu.

68. Allar ógnir
fær þú eigi vitat
þær er helgengnir hafa.
Sœtar syndir
verða at sárum bótum —
æ koma mein eptir munuð.

*6. Í paradís. Ömbun réttlátra.*

69. Menn sá ek þá
er mart höfðu
gefit at guðs lögum.
Hreinir kyndlar
váru yfir höfði þeim
brendir bjartliga.

70. Menn sá ek þá
er af miklum hug
veittu fátækum frama.

---

1) kýmiliga *hdrr.*

Lásu englar bœkr
ok ymna[1]) skript
helgar[2]) yfir höfði þeim.

71. Menn sá ek þá
er mjök höfðu
hungri farit hörund.
Englar guðs
lutu öllum þeim,
þat er œzta unað.

72. Menn sá ek þá
er móðum[3]) höfðu
látit mat í munn.
Hvílur þeirra
váru á himingeislum
hafðar hagliga.

73. Helgar meyjar
höfðu hreinliga
sál af synðum þvegit
manna þeirra
er á mörgum degi
píndu sjálfa sik.

74. Hávar reiðir
sá ek með himnum fara;
þær eiga götur til guðs.
Menn þeim stýra
er myrðir eru
alls fyr øngvar sakir.

---

1) himna *hdr. (þ. e. AM. 166 b, 8°, því að hin sleppa öllu þessu vísuorði). Mindirnar* ymni og hymni *(lat.* hymnus) *skiftast á í fornum hdrr.*

2) *Þetta orð stendur í hdrr. næst á undan* bœkr *í 4. vísuorði.*

3) móður *hdrr.*

75. Enn mátki faðir!
[Enn mæzti[1]) sonr!
Heilagr andi himins!
Þik bið ek skilja,
er skapat hefir,
oss alla eymðum frá

### *IV. Rúnaþáttr. Njarðardœtr.*

*1. Starf Njarðardœtra.*

76. Hringvör[2]) ok Listvör
sitja í Herðis dyrum
organs stóli á.
Norna[3]) dreyri
fellr ór nösum þeim,
sá vekr fjón með firum.

77. Óðins kván
rœr á jarðar skipi
[móðug á[4]) munað.
Seglum hennar
verðr síð hlaðit
þeim er á þráreipum þruma.

*2. Rúnaletrið.*

78. Arfi, faðir
einn þér ráðit hefik
ok þeir Sólkötlu synir

---

1) *Frá* [ mestr *eða* mesti *hdrr.*

2) Bingvör *flest hdr., sem líklega er ritvilla fyrir* Ringvör, *þ. e.* Hringvör *(með norskum rithætti). Eitt hdr. hefur* Wijngvör.

3) járna *hdrr.*

4) *Frá* [ *svo eitt hdr., önnur* móðuga *eða* í móðuga, *og tvö* í móðugum.

hjartar horn
þat er ór haugi bar
enn vitri Vígdvalinn:

79. »Hér eru rúnar
er ristit hafa
Njarðar dœtr níu:
Baugveig[1]) en elzta
ok Kreppvör en yngsta
ok þeirra systr sjau.

80. Bölvi[2]) hverju
þeir belt hafa
Sváfr ok Sváfrlogi
blóð þeir vökðu
ok benjar sugu
illum[3]) ey vana«.

### *V. Niðrlag.*

81. Kvæði þetta
er ek þér kent hefi
skaltu fyr kvikum kveða:
Sólarljóð,
er sýnask munu
minst at mörgu login.

82. Hér vit skiljumk
ok hittask munum
á feginsdegi fira.

---

1) *Svo í ímsum hdrr., þar á meðal í 1109 fol., sem sumstaðar vitnar í skinnhdr.; önnur hafa:* badueing, baudveing *o. fl.*
2) *Slept í hdrr.*
3) undir illum *hdrr.*

Dróttinn minn
gefi dauðum ró,
hinum líkn er lifa[1].

---

1) *Sum hdrr. bæta við þessu erindi:*

Dásamligt fræði
var þér í draumi kveðit,
en þú sátt it sanna.
Fyrða engi
var svá fróðr um skapaðr,
er áðr heyrði Sólarljóðs sögu.

## Athugasemdir og skíringar.

Firsta þátt kvæðisins hef jeg kallað **Dæmaþátt**, því að í honum klæðir höf. heilræði sín í dæmisagna búning.

Sama er Óðinn látinn gera í Hávamálum. Þar skírir hann skaðsemd ofdrikkjunnar með sögunni um sjálfan sig, þegar hann »*varð ofrölvi*« í garði hins fróða Fjalars[1]). Til skíringar lífsreglunni »*Meyjar orðum skyli mangi trúa né því er kveðr kona*« segir hann frá, hvernig Billings mær ginti hann[2]). Því til sönnunar, að maður eigi að læra að koma vel orði firir sig og ekki vera »*fimbulfambi, sá es fátt kann segja*«, segir hann, hvernig hann náði skáldamiðinum úr höndum hins aldna jötuns: »*fátt gat ek þegjandi þar*«, segir hann, »*mörgum orðum mæltak í minn frama í Suttungs sölum*«[3]). Til marks um spakmælið »*svá er auðr sem augabragð, hann es valtastr vina*« tekur hann dæmið: »*Fullar grindr sá ek fyr Fitjungs sonum, nú bera þeir vánar völ*«[4]).

Vjer munum síðar sjá dæmi þess, að höf. Sólarljóða hefur þekt og notað Hávamál. Því er líklegt, að hann hafi sniðið þennan firsta þátt kvæðis síns eftir dæmisögunum í Hávamálum.

Í *firsta dæmi* felst sá siðalærdómur, að það er aldrei of seint að snúast til guðs (svo P. Kvad, 138. bls., sbr. Sólarl. 27. er.): eitt miskunarverk, sprottið af sannri iðrun

1) Hávamál 11.—14. erindi. Tilvitnanir til Eddukvæða eru hjer miðaðar við útg. Finns Jónssonar, Rvík 1905, því að hana eiga flestir hjer á landi.

2) Hávam. 96.—102. erindi.

3) Hávam. 104.—110. er.

4) Hávam. 78. er.

(sbr. *af heilum hug* í 4. er.) og guðsótta (sbr. *guðs hann gáði* í 4. er. og *Himna guð bað hann hjálpa sér* í 6. er.), bætir firir allar eldri sindir (sbr. Hj. Falk, 3. bls.). Jafnframt felst í dæminu firirheiti um eilífa sælu firir þann, sem er veginn saklaus (sbr. 74. er.) og ógnun til morðingjans um eilífa glötun (sbr. 64. er.), því að hann verður að taka á sig sindir þess mans, sem hann mirðir (er. $6^{4-6}$).

Guðbr. Vigfússon og S. Bugge hjeldu því fram, að 80. er. kvæðisins, vísan um Sváfr og Sváfrloga, hefði frá birjun verið upphafserindi þessarar dæmisögu, og Hj. Falk filgir þeim í þessu. Jeg mun síðar sína fram á, að þetta erindi á vel við, þar sem það stendur í handritunum, ef alt er rjett skilið. Helsta ástæðan til þess að flitja vísuna fram firir var sú, að ef það er ekki gert, þá var svo að sjá, sem þeir tveir menn, sem þessi dæmisaga segir frá, væri ekki nefndir á nafn, eins og í þeim fjórum dæmisögum sem á eftir fara (Unnarr og Sævaldi í 2. dæmi, Sváfaðr og Skartheðinn í 3. dæmi o. s. frv.). Með því að láta firstu dæmisöguna birja á vísunni um Sváfr og Sváfrloga vanst það, að þá var hún um tvo nafngreinda menn eins og hinar dæmisögurnar. Enn þetta er hreinn óþarfi, því að jeg get ekki sjeð neitt því til firirstöðu, að Greppr í 1. erindi og Gestr í 2. sjeu eiginnöfn, hið firra nafn ræningjans og hið síðara nafn morðingjans. Gestr er algengt nafn bæði að fornu og níju og á vel við um morðingjann, sem gistir hjá ræningjanum. Orðið *greppr* getur þitt bæði ‚skáld‘ og ‚ófrínilegur eða tröllslegur maður‘ (Svarfd. k. $23^{80}$: *sá þar fara grepp harðla mikinn gagnvart sér ok var þar Klaufi kominn;* í Flat. I 565. bls. er Dofri kallaður *greppr mikill;* sbr. *greppligr* og *greppliga).* Síðari merkingin á hjer mjög vel við sem nafn á ræningjanum. Að vísu kemur Greppr hvergi annars staðar firir sem karlmannsnafn svo að jeg viti, enn það kemur firir sem auknefni, líklega dregið af svip mansins eða stærð (Halldórr greppr í Sturl.[3] II 236. bls.), og frá auknefni til eiginnafns er stutt fótmál. Til samanburðar má taka það fram, að í Stjörnu-Odda draum 109. bls. eru tveir stiga-

menn nefndir *Garpr* (sem er mjög líkt *Greppr)* og *Gnýr* (sbr. Hj. Falk 4. bls.).

$1^{1-2}$ *Fé ok fjörvi rænti* sbr. $64^{2-3}$. $1^4$: Leiðrjettingin er nauðsinleg sakir stuðlasetningarinnar.

$2^{4-6}$: Þessi lísing á Gesti og nafn hans bendir til, að höf. hafi ekki hugsað sjer hann sem ræningja heldur að eins sem vegfaranda.

$3^{4-6}$ *Hræddu hjarta — trúa:* sbr. Hugsvinnsmál (Gerings útg.) $16^{4-5}$: *með hreinu hjarta skaltu á hann trúa; — vályndr:* ‚illur eða grimmur í lund', sbr. Hugsm. $123^6$: *illt er vályndum at vera (veillyndum* sum hdrr. og svo ritar F. J.).

$4^6$ *værligr:* í gömlu máli kemur *værr* firir í merkingunni ‚blíður', t. d. í stafrofsritgjörðinni firstu í Sn. E. II bls. $22^1$: *svá er mörg við ver sinn vær* (»adeo placida« Svb. Eg.) og í vísu í 4. ritgjörð, s. st. bls. $218^6$: *nú er vær konan færi;* í Sturl.$^3$ I bls. $75^{21}$ á víst að lesa: *Pat var mælt, at Kjartan væri værr at henni* (þ. e. blíður við hana)[1]). Lísingarorð afleidd af öðrum lísingarorðum með endingunni *-ligr* hafa oft alveg sömu þíðing og þau orð, sem þau eru leidd af, sjá A. Torp, Gamalnorsk ordavleiding (framan við Hægstad og Torp, Gamalnorsk ordbok) § 49; t. d. þiðir *blíðligr* stundum alveg sama og *blíðr* (Fritzner$^2$ undir *blíðligr).* Eftir því ætti *værligr* að geta þítt alveg sama og *værr.* Sú þíðing á hjer mjög vel við. Greppr, sem annars var *vályndr* ($3^6$), ætlaði sjer *(hugðisk)* — í þetta sinn — að vera blíður við komumann.

$5^6$ *fróðan, fjölvaran:* Hugsunin virðist vera: þó að hann (ɔ: Greppr) væri annars margkunnandi og mjög var um sig. Við *fróðan* sbr. *fróðhugaðr* Hugsm. $3^5$.

7. *Helgir englar* o. s. frv.: sbr. Maríu sögu 81. bls.: *kómu helgir englar dróttins ok báru sál hans til himinríkis*

---

1) Sbr. Sturl.$^3$ I bls. $133^{1-2}$: *samfarir þeirra vóru eigi mjök værar* (svo Króksfjarðarbók; hinn handritaflokkurinn hefur *með værðum,* sem er sama). Hjer sjest *værr* á takmörkunum milli hinnar upphaflegu þíðingar ‚sem við má búa' (af *vera,* sbr. *verit er nú meðan vært er* Eyrb. útg. Gerings k. 55, 7) og hinnar ingri ‚bliður'.

*fagnaðar, ok nú nýtr hann þar eilífs fagnaðar at eilífu með öllum guðs heilögum mönnum* (Hj. Falk 4. bls.).

---

Siðalærdómur 2. *dæmis* virðist vera: Allir jarðneskir hlutir — auður og heilsa — eru fallvaltir. Í 1. dæmi sýndi höf., að miskunsamur guð er það bjargfasta athvarf, sem vjer getum reitt oss á. Nú (og í dæmunum sem á eftir fara) sýnir hann hverfulleik jarðneskra hluta (P. Kvad 139. bls.).

8² *ræðr engi maðr:* sbr. Hugsm. 34⁵: *(aldrlagi sínu) ræðr engi maðr.* — 8⁴ *sækir:* sbr. Gróg. 12²⁻³: *ef þik sækja kemr frost á fjalli háu.* — 8⁵ *er minst of varir:* sbr. Fjölsvinnsmál 20⁵: *er fæstan varir,* Hugsm. 47⁵: *þá er sízt varir.*

9² *Unnarr ok Sævaldi:* þessi nöfn koma hvergi fyrir annars staðar og eru auðsjáanlega tilbúin af höf. *Unnarr* táknar siglingamann (af *unnr,* ‚alda') eða kaupmann, *Sævaldi* sjóvíking eða sækonung. Báðir eru hugsaðir sem auðkýfingar. — 9³ *at þeim mundi heill hrapa:* sbr. Reginsmál 25⁶: *illt es fyr heill at hrapa.* — 9⁴ *Nøktir:* s. s. ‚blásnauðir', sbr. orð Jobs, þegar hann frjettir eignatjón sitt: *Nakinn kom jeg af móðurskauti og nakinn mun jeg aftur þangað fara* (Jobs bók 1, 21). — 9⁵ *næmðir hvívetna:* þ. e. sviftir öllu. Sbr. Eyvindr Háleygjatal 11⁶, Sigurðarkv. meiri 5⁴ (= Brot 1⁴), Goðrkv. forna (II) 37 og 46³⁻⁴ *(hvítinga höfði næma).* Í því hdr. sem best er talið (AM. 166 b, 8°) stendur »*næmdir*«, enn ef svo er lesið, verður líka að lesa *hvívetna,* og svo stóð í hdr., sem Páll lögmaður Vídalín átti. Flestir lesa *næmir hvervetna,* sem á að þýða sama sem *tækir hvervetna,* hjer haft um seka menn (sbr. *vargar* í næsta vísuorði), ‚sem má taka höndum hvar sem vera skal'. Enn bæði er það, að *næmr* kemur aldrei fyrir í þessari merkingu, enda veit jeg ekki til, að sögnin *nema,* sem *næmr* er myndað af, sje haft um ‚að taka mann fastan'. Jeg held því, að leshátturinn *næmir hvervetna* sje afbökun úr *næmðir hvívetna,* og er það hjer auðsjáanlega sett til skýringar, hvernig á því stendur, að mennirnir »*urðu nøktir*«. — 9⁶ *runnu sem vargar til viðar:* hugsunin virðist vera: urðu sekir skóg-

armenn. Sbr. Fjölsvinnsm. 4[6]: *ok drif þú nú vargr at vegi*, Völsungakv. forna (H. H. II) 36[3—4]: *ef værir vargr á viðum úti.*

---

Siðalærdómur *3. dæmis* er tekinn fram þegar í upphafi með almennum orðum: *Munaðar ríki hefir margan tregat* (sbr. 68[6]: *æ koma mein eptir munuð). Munuð* táknar hjer líkamslosta[1]) eða holdlega ást til kvenna (í samsetningunni *munaðarlauss* í 48. er. virðist það tákna kærleik vina og vandamanna). Holdleg ást gerir mann óðan (sbr. *œddusk* 11[4]) og veldur »*heift milli virkta vina*« (13[5—6]). Sbr. Hj. Falk 6.—7. bls. P. Kvad 139. bls.

10[1] *Munaðar:* Í hinu eldra máli er þetta orð altaf kvennkins, *munúð* (eldra *munugð* firir *mun-hugð)* eða *munuð (-oð)*, eignarfall *munúðar* eða *munuðar (-oðar)*. Eignarfallið *munaðar* kemur, svo að jeg viti, first firir sem firri liður í bæjarnafninu *Munaðarnes* (á Ströndum) í 4. kafla Reikholtsmáldaga, sem er ritaður seint á 13. öld, og hefur orðið þá líklega verið í þann veginn að breitast í karlkinsorð (eins og það er nú í nýja málinu): *munaðr* með *a* í síðara atkvæði, sem helst um alla beiginguna. Orðið kemur firir á 6 stöðum í Sólarljóðum annaðhvort sjálfstætt eða sem liður í samsetningu (10[1], 18[1], 35[6], 48[4], 68[6] og 77[3]), og hafa handritin alstaðar *a* í næstfirsta atkvæði nema á einum stað (68[6]), þar virðast öll hdr. hafa *munuð* (þolfall). Enn handritin eru svo ung, að þau er ekki að marka. Ritarar þeirra hafa bersínilega skoðað orðið sem karlkinsorð (sbr. ritháttinn í *móðugum munað* við 78[3]), og sett inn hinar ingri mindir, þó að hinar eldri kunni að hafa staðið í frumritinu. Sá eini staður (68[6]), þar sem öll handrit hafa þolfallið *munuð*, vegur þungt á metunum gagnvart öllum hinum. Það hefði því líklega verið rjettara að setja inn hinar eldri mindir *(munuð-)* alstaðar í kvæðinu. Að öllum líkindum hefur orðið enn verið kvennkinsorð á dögum Sólarljóðahöfundarins. Að minsta kosti þori jeg ekki að ráða

1) Sbr. Hugsm. 70[3]: *ljót er líkams munuð.*

neitt um aldur kvæðisins af rithætti þessa orðs í handritunum. — 10[2] *tregat:* ‚gert hriggan‘, sbr. Sigrdrífum. 29[6]. — 10[4] *meingar:* ‚fullar meina‘, ‚sindugar‘, sbr. *meinfullr* = sindugur í Hauksbók bls. 158[20] og *meinalauss* eða *meinlauss* = sindlaus (sjá Fritzner[2]). Sbr. einnig *bölvísar konur* Sigrdrífumál 26[4]. — 10[6] *skapaði skírliga,* þ. e. skapaði þær á hreinan hátt, svo að þær þá vóru skírar, þ. e. sindlausar. Hugsunin virðist vera: Hin firsta kona var sindlaus frá skaparans hendi, enn síðar »*urðu*« þær sindugar.

Lísingin á konunum minnir að nokkru leiti á Hávam. 84: *Meyjar orðum* osfrv. og 81[1—2]: *At kveldi skal dag leyfa, konu es brend es.* Sbr. einnig Hugsm. 11[4—5]: *illra kvenna firr þú þik öllu lagi.*

11[2] *Sváfaðr ok Skartheðinn:* Hvorugt nafnið kemur firir annars staðar og bera bæði mark höfundarins. *Skart-Heðinn* er ljóst, mindað í líking við Skarp-Heðinn til að tákna skartsmann, sundurgerðamann í klæðaburði (‚maður í skrautlegum heðni‘, = skinnfeldi?). Líkrar merkingar hlítur hitt nafnið að vera. Svb. Egilsson setti það í samband við *sváf*[1]), spjótsheiti, sem að eins kemur firir í nafnaþulum Sn.E. (Lex. poët. undir *Svafaðr)* og sama gerir Hj. Falk (6. bls.). Enn afleiðslan er vafasöm. Nafnið minnir sterklega á nöfn í Helga kviðu Hjörvarðssonar, Sváfu Eylimadóttur, unnustu Helga, og Sváfni, afa hans, Sváfakonung. Það gæti beint verið mindað af nafninu *Sváfa,* og táknaði þá kvennhollan mann. Líklegra er þó, að höf. hafi sniðið nafn sitt eftir nafni Sváfnis konungs með því að setja á það aðra afleiðsluending og viljað á þann hátt tákna konungborið skrautmenni. Líka gæti nafnið verið mindað beint af sögninni *sofa* og táknað kvennsaman mann (sbr. *sofa hjá konu* Ármóðr, lv. 3, FJ. Skjalded. I B 511. bls., og *brjóta konu til svefnis* Grág. Staðarhólsbók bls. 331[23]), og hneigist jeg helst að þessari skíringu nafnsins. — 11[5] *fyr einni konu:* forsetningin táknar hjer tilefnið til þess að þeir *œddusk,* enn í þeirri

1) Líklega er þetta rjett mind orðsins (ekki *svaf).*

merkingu stjórnar *fyr* vanalega þolfalli. Í einu handriti stendur *fyr eina konu*, og er það líklega rjettara (sbr. $14^{5}$: *fyr et horska víf)*. — $11^{6}$: *lagin:* þ. e. áskõpuð, ákveðin af forlögunum. Sbr. Skírnism. $13^{4-6}$ *einu dœgri mér vas . . . alt líf of lagit;* Fjölsvinnsm. $47^{6}$: *þót þat sé við löst lagit;* Gripisspá $25^{6}$: *lagt es alt fyrir,* $23^{1-2}$: *Esa með löstum lögð æfi þér.* — *Lýti* virðist þiða nokkurn veginn sama og ‚löstur', ‚sind', sbr. *lýtum loginn,* ‚sem löstum er logið á' í Hugsm. $95^{3}$; *þjóð lýtum kend* Harms. 38; *En mik Atli kvað eigi mundu lýti ráða né löst gera* Oddrúnargr. $22^{1-4}$. Hugsunin virðist vera: Hún var ætluð til þess af forlögunum, að þeir skildu sindgast af henni. Annars þiðir talsháttурinn *leggja ehm ehð til lita* í níju máli ‚að leggja ehm ehð til ámælis'. Verið gæti, að sá talsháttur lægi firir hjer, og væri þá hugsunin: Þeir fengu óorð af henni. Þó mun hin skíringin rjettari.

12: Sbr. Hávam. 97: *Billings mey ek fann beðjum á sólhvíta sofa; jarls ynði þótti mér ekki vera nema við þat lík at lifa,* og $92^{4-5}$: *líki leyfa ens ljósa mans.* Hjer eru áhrifin frá Hávamálum deginum ljósari. — $12^{1-3}$ *Hvárskis þeir gáðu* osfrv. og $13^{1-3}$ *Daprar — sofa* minnir óg á Hávam. 115: *Hón svá gerir, at þú gáir eigi þings né þjóðans máls; mat þú villat né mannskis gaman, ferr þú sorgafullr at sofa.*

$13^{3}$ *sœtan:* hjer verður að undirskilja *blund* eða *svefn* (Nygaard, Norrøn syntaks § 91 anm. 3).

$14^{1}$ *Fádœmi:* s. s. fádœmaverk (»de vitiis rari exempli« Svb. Eg., Lex. poët.). Í sömu merkingu er *ódœmi* haft í Flat. II bls. $381^{29}$ (= *ódœmaverk,* sbr. $Fritzner^{2}$). — $14^{2}$ *í flestum stöðum* = ‚í flestum tilfellum', ‚oftast'.

Á því getur varla leikið nokkur efi, að höf. hefur haft í huga söguna um Billings mey í Hávamálum, þegar hann samdi þetta dæmi. Enn einkum hefur hann þó, að því er virðist, lagað efnið eftir Gunnlaugs sögu ormstungu (sjá Hj. Falk 6. bls.).

---

Í *4. dœmi* tekur höf. sjálfur fram í upphafi dæmisins þann siðalærdóm sem í því er fólginn, alveg eins og í 3.

dæmi: Varastu ofmetnað, því að hann leiðir til fráhvarfs frá guði (sbr. P. Kvad 139.—140. bls., Hj. Falk 7.—8. bls.).

15 *Ofmetnað drýgja* osfrv.: Um ofmetnað sbr. Stokkhólms Homilíub. 21. og 68. bls. og Homilíubókina norsku 48. bls. (P.). Við síðari helming vísunnar sbr. Flat. II 392. bls.: *fyrir ofdrambs sakar ok likams munuð hafði hann villzt ok snúizt frá guði ok týnt i því sálu sinni* (Hj. Falk).

$16^{1-2}$ *Rik — Ráðný ok Véboði: rikr* þíðir hjer auðvitað ‚voldugur' og nöfnin, sem hvergi koma firir nema hjer, eiga að tákna ríkilæti þeirra hjóna: *Ráðný,* ‚kona sem vill *ráða'*; bjer liggur áherslan á firri liðnum; síðari liðurinn, *-ný,* táknar ekki neitt annað enn það, að hann gerir nafnið að kvennmannsnafni (sbr. hin algengu kvennanöfn Guðný, Oddný, Signý og mörg fleiri). *Véboði,* ‚sá sem er vanur að *bjóða'*; hjer liggur áberslan á síðari liðnum, enn firri liðurinn, *Vé-,* hefur ekki aðra þíðing enn þá að gera nafnið líkt karlmannanöfnunum Vémundr, Vébjörn, Végeirr og mörgum fleirum. — $16^{3}$ *hugðusk:* = ‚bugðu sig', ‚þóttust'. Í því felst ofmetnaður þeirra hjóna, að þau miklast af góðverkum sínum. *gera:* um þessa orðmind sjá Finnur Jónsson, Skjaldesprog, 103. bls. — $16^{4-6}$ lísir refsingu þeirra bjóna í helvíti, sbr. $18^{4-6}$. — $16^{6}$ *ymsum:* = ‚ímist þessu (sári) eða hinu, eða því þriðja', osfrv.

$17^{1}$ *Á sik ein:* Jeg hef bætt við *ein,* því að annars vantar stuðil í vísuorðið (*á* er hjer of veikt til að bera stuðil), og af því að við það verður hugsunin skarpari og aflmeiri. Í því lísir sjer ofmetnaðurinn, að þau trúa á engan annan enn sig, ekki einu sinni á guð (sbr. *hverfa guði frá* $15^{4-6}$) og þikjast ein vera *allri þjóð yfir* — sbr. Stokkh. Hom. 21. bls.: *Fjöturr er lagðr á þann mann er svá er metnaðarfullr, at hann þykkisk yfir öllum öðrum* (Hj. Falk).

$18^{1}$ *Munað:* svo besta hdr. (AM. 166 b, 8°); flest önnur hdrr. hafa hjer *Munaðlifi,* og svo ritar F. J., enn þá verður að skifta vísuorðum þannig:

*Munaðlifi*
*þau drýgðu á marga vegu.*

Hugsunin kemur í sama stað niður, enn 2. vísuorð verður helst til langt. — $18^{2}$ *á marga vegu*, sbr. $40^{5}$ og $38^{3}$, Hugsm. $33^{2}$, $39^{2}$, $76^{2}$ (og $7^{5}$). — $18^{1-3}$: Ofmetnaður leiðir til líkams losta (1.—2. vo.) og ágirndar (3. vo.); hann er nefndur »drottning allra illra hluta« í Stokkh. Hom. 61. bls. — $18^{6}$ *millum frosts ok funa:* sama hugsunin og hjá Jónasi Hallgrímssini:

þar er ei nema eldur og ís,
alt í helvíti brennur og fris,
Satan og sálir dauðar.

Hún er algeng á miðöldunum bæði hjer á landi og annars staðar. Sbr. Harmsól $39^{3-4}$: *þar liggr elds á öldum ímu frost með bríma;* Lilja $73^{1-3}$: *Reknir brott í dauðans druknan drepnir menn, er þar skulu brenna, gnísta tennr í fýlu ok frosti;* Duggals leiðsla í Heilagra manna sögum I 335. bls.; Maríu saga 121. bls. Sjá Hj. Falk 8.—9. bls., sem greinir líka staði úr útlendum ritum.

---

Siðalærdómur 5. *dœmis* virðist í fljótu bragði vera: trúðu eigi óvinum þínum ($19^{1-3}$). Þessi kenning er að vísu ekki beint ókristileg, enn þó öllu fremur heiðin enn kristin, tekin beint út úr Hávamálum (89, sbr. 45—46, sjá og Sigrdrífum. 34 og Hugsm. 41 og 85). Og dæmið sem á eftir fer, afdrif þeirra Vígúlfs og Sörla hins góðráða, sínir, að höf. heldur þessu ekki fram öðruvísi enn sem higgilegri lífsreglu firir hið veraldlega líf, og verður ekki neitt á móti því haft frá kristilegu sjónarmiði. Á dæminu sjest, að sá sem svíkur óvin sinn grandalausan í trigðum fer í eilífar kvalir, enn sá sem er svikinn saklaus gengur inn í fögnuð drottins. Út úr dæminu verður þá ekki dreginn annar siðalærdómur enn þessi: Svík þú ekki óvin þinn saklausan ($22^{5}$) í trigðum. Ef þú gerir það, verður það þjer til glötunar, enn honum til sáluhjálpar. Þessi regla er í besta samræmi við hið háleita boðorð Krists: Elskið óvini iðar (Matth. 5, 44, Lúk. 6,

27)[1]), enn í beinni mótsögn við hina heiðnu lífsreglu í Hávamálum 43. og 45.—46. er. Óneitanlega kemur hjer fram nokkur tvískinnungur hjá höf., þar sem hann hefur annan fótinn í hinni veraldlegu, hálfheiðnu siðareglu (í hinum almennu inngangsorðum), enn hinn í kristilegri lífsspeki (í dæminu). Sbr. Hj. Falk 11.—13. bls. Þessi tvískinnungur higg jeg komi af áhrifum frá Hávamálum (og Hugsvinnsmálum?).

19³ *fagrt mæli:* sbr. Hávam. 45⁴: *fagrt skalt við þann mæla,* 91⁴ og 92¹. — 19⁴: Ef handritunum er filgt *(góðu þú heit),* hlítur hugsunin að vera hin sama sem í Hávam. 45³⁻⁴: *fagrt skalt við þann mæla en flátt hyggja ok gjalda lausung við lygi.* En þessi hugsun er algjörlega ósamboðin Sólarljóðahöfundinum og í beinni mótsögn við dæmið, sem á eftir fer. Leiðrjettingin *góðu þót heiti* stafar frá Hj. Falk 11. bls. og er í besta samræmi við það sem á undan gengur. Hugsunin er í rauninni alveg sú sama sem í undanfarandi setningu *(þót þér fagrt mæli fyrir),* enn er hjer höfð sem inngangsorð að viðvöruninni *gott er annars víti hafa at varnaði,* enn þar hefur höf. að eins firir augum þær sorglegu afleiðingar, sem trúgirni Sörla hafði firir hann í þessu lífi, og kemur það vel heim við hina veraldlegu lífsreglu í firri vísuhelmingnum. — 19⁶: sbr. Hugsm. 92⁴⁻⁵: *vánds manns víti láti sér at varnaði.*

20² *Sörla enum góðráða:* Sörli er gamalt nafn og gott og táknar víst ekki neitt sjerstakt; hjer lísir auknefnið lunderni mansins. — 20³ *á Vigúlfs vald:* leiðrjetting er nauðsinleg til þess að rjett kveðandi haldist. Þegar sjerorð (3. eða 6. vísuorð) í ljóðahætti endar á tveggja atkvæða orði með áherslu á firra atkvæði, þá er það atkvæði altaf stutt. Því getur þetta vísuorð ekki endað á *Vigúlfs.* Aftur á móti gæti *á vald Vigúlfi* staðist, og getur

1) Sbr. Stokkh. Hom. bls. 120, sjerstaklega orðin: *en þót óvinrinn geri sik óverðan nytjanna, þá nýtr þó sá er fyr honum bað eða honum kendi gott eða honum fyrirgaf.* Í dæmisögunni hjer gerir Vigúlfr sig »óverðan nytjanna«, en Sörli nítur þess, að hann firirgaf bróðurbana sínum eða vildi sættast við hann.

verið að það sje hið upphaflega, því að það er nær handritunum enn *á Vigúlfs vald*. *Vigúlfr* táknar auðvitað vígamann, enn annars kemur nafnið oftar firir. — $20^{4-6}$ *trygglíga — bróðurbana:* sbr. Hávam. 89: *Bróðurbana sínum . . . verðit maðr svá tryggr, at þessu trúi öllu.* Orðin *Trygglíga hann trúði sínum bróðurbana* eiga saman.

$21^{2}$ *af góðum hug:* sbr. Hugsm. $49^{2}$: *við góðan hug.* — $21^{3}$ *gulli:* ɔ: í bróðurbætur.

$22^{3}$ *Rýgjardal* (eða *Rygjardal?): Þetta örnefni kemur hvergi firir annars staðar og er auðsjáanlega tilbúið af höf. Firri liðurinn getur verið eignarfall af *rýgr*, ‚skörulegur kvennmaður' (sbr. *baugrýgr* og SnE. I 536. bls.: *rýgr heitir sú kona er ríkust er),* sbr. *Meyjavatn* (Ísl. Fornbrs. I 272. bls.), *Meyjarland* (bær í Skagafjarðarsíslu), *Meyjarhóll* (í Þingeijars.), *Kvennahváll* (eða *-hóll)* og *Kvennabrekka* (í Dalas.), síður af sama orði í merkingunni ‚tröllkona', sem varla kemur firir nema í nafnaþulum SnE. og rímum. Hugsandi væri, að höf. hefði haft í higgju vísu Gunnlaugs ormst. *Alin vas rýgr at rógi* og sett kvennheitið *rýgr* í samband við *róg,* ‚ófriður'; væri þá *Rýgjardalr* nokkurnveginn sama og ófriðardalur, og á það hjer vel við. Annars gæti nafnið verið mindað í líking við *Rýgjar- (Rygjar-?) -bit* í Noregi og táknaði þá ekki neitt sjerstaklega. — $22^{4}$ *meiddu:* = geltu? Sbr. aths. við $59^{2}$. — $22^{6}$ *fjörvi farit:* sbr. $1^{1-2}$ og $64^{3}$, Lokas. $57^{6}$, Fáfnism. $5^{3}$.

$24^{3}$ *í sinn fögnuð:* sbr. Líknarbraut $52^{5-8}$. — $24^{6}$ *kallaðir frá kvölum:* sbr. $45^{6}$.



Í öðrum þætti eru sett fram 7 sáluhjálpleg ráð, og nefni jeg því þáttinn **Ráðatal.** Höf. hefur bjer bersínilega haft ráðaþátt Hávamála, Loddfáfnismál, til firirmindar. Þetta sjest glögt, ef vjer berum niðurlagserindi þáttarins (32) saman við hið margítrekaða viðkvæði Loddfáfnismála: *Ráðumk þér Loddfáfnir, en þú ráð nemir, njóta munt ef nemr, þér munu góð ef getr.* Hjer svarar

*ráðumk þér* til *ráð kenni ek þér* í Sólarl. 32, *en þú ráð nemir* til *görla þau mun ok glata aldregi,* og *njóta munt ef nemr, þér munu góð ef getr* til *öll eru þau nýt at nema.* Hugsanirnar eru í rauninni nákvæmlega hinar sömu og settar fram í sömu röð. Og orðin *öll eru þau nýt at nema* í Sólarl. eru beinlínis bergmál af *njóta munt ef nemr* í Loddfáfnism. Munurinn er enginn annar en sá, að Sólarljóðahöf. hefur ekki viljað þreita lesendur sína á því að endurtaka þetta sem viðlag, heldur gerir hann úr því eitt niðurlagserindi. Þetta getur ekki verið eintóm tilviljun. Sólarljóðaskáldið hefur hjer haft firir sjer Loddfáfnismál og tekið eftir þeim þá hugmind að hafa ráðaþátt í kvæði sínu.

---

$25^{1-2}$ *Dísir dróttins mála:* s. s. *dróttins máladísir,* þ. e. þær dísir sem mæla við drottin, *sanctæ virgines, chorus virginum,* »helgar meyjar«, sem kaþólskir menn hugsa sjer að sjeu návistum við guð og beri fram firir hann bænir þeirra, sem á þær heita til árnaðar (P. Kvad 141. bls., Hj. Falk 15. bls.). Í prjedikuninni á allra heilagra messu í Stokkhólms Homilíubókinni er þeirra getið sjerstaklega með þessum orðum (bls. $41^{19}$): *Enn er sjá hátíð haldin helgum meyjum, þeim er gengu í spor Marie drotningar í því er þær höfnuðu öllum líkams munuðum fyr ást guðs ok vildu þjóna himneskum brúðguma í öllu athæfi sínu.* Síðar í sömu prjedikun eru þær nefndar *meyjar guðs* ($43^{9}$), sem minnir mjög á *dísir dróttins mála,* og rjett á eftir stendur: *Ef vér höldum á þessa lund hátíð allra heilagra, munu þeir láta sér sóma at vera árnendr órir á dómsdegi við guð.* Þeim til dírðar er ort Heilagra meyja drápa (F. J. Skjalded. II B 582.—597. bls.). Þar eru þær kallaðar *dróttins brúðir* (er. $59^{6}$) og skoðaðar sem hirð Maríu meijar, er kemur fram sem drotning þeirra. F. J. les *drottins málur (mála* = málvina), enn mjer finst sú leiðrjetting óþörf, og ef svo er skrifað, þá eru þær jafnframt nefndar *dísir* án nokkurrar viðbótar, en það nafn eitt sjer virðist ekki eiga sem best við um svo háleitar meijar, því að á því er heiðinn blær. — $25^{5-6}$ *vilja þíns at*

*óskum ganga alt:* eignarfallið *vilja þíns* stjórnast af *óskum.* Annars hafa flest handrit, þar á meðal það sem best er talið (AM. 166, b, 8°), *alt at óskum gá,* og gæti komið til mála að halda þeim leshætti óbreittum, ef vjer gætum gert ráð firir, að orðmindin *gá* firir *ganga* hefði verið komin inn í málið, þegar Sólarljóð vóru ort. Enn sú mind kemur naumast firir fir enn um miðbik 14. aldar (sbr. staði þá, sem vitnað er til hjá Svb. Eg. í Lex. poët. og Jóni Þorkelssini í Supplem. IV)[1]), og svo ung eru Sólarljóð varla. Hins vegar raskar *ganga* kveðandi síðast í vísuorði (sbr. ath. við $20^{3}$), og úr því er bætt með því að færa *alt* aftur firir *ganga* eða skifta um þessi orð *(ganga at óskum alt).* Til stuðnings leiðrjettingunni má taka fram, að á einum stað í Hugsm. ($74^{3}$) kemur *þótt gangi at óskum alt* firir sem sjerorð.

$26^{2}$ *þá er þér runnit hefir:* leiðrjetting er nauðsinleg, því að annars vantar stuðil, enda er hugsun vísuorðsins, eins og það stendur í hdrr. *(þau þú unnit hefir),* algerlega óþörf og afllaus, því að það segir sig sjálft, að reiðiverk, sem maður á ekki að bæta illu ifir, hlítur að vera »*unnit*«. Við *runnit hefir* verður að undirskilja *reiðin* og er það mjög eðlilegt, þar sem *reiðiverk* gengur rjett á undan. Hugsunin virðist vera: það er firirgefanlegt, þó að mönnum verði á að gera öðrum rangt til í reiði, enn hitt er ófirirgefanlegt að bæta illu ifir þegar manni hefur runnið reiðin. — $26^{3}$ *eigi illu:* er í rauninni sama sem stæði *góðu,* sbr. 4.—5. vísuorð. *Bæta yfir:* sbr. Hugsm. $82^{8}$: *ef engi bætti yfir* og Stokkh. Hom. bls. $179^{23-25}$: *sá er fyrri veldr óskilum við nóng* (ɔ: náunga) *sinn hann er skyldr at bæta fyrri yfir.* Tilsvarandi nafnorð: *yfirbót (-bætr).* — $26^{4-5}$ *gœla:* blíðka, gleðja; *hlutum:* hjer víst s. s. gjöfum. — $26^{6}$ *sálu sama:* sbr. Heil. manna sögur II bls. $356^{16}$: *sómir sálunni* (P.); *kveða:* sbr. Hugsm. $67^{6}$ og $109^{6}$, Sigrdrífum. $21^{6}$.

---

1) Elsti staðurinn er víst í Egils s., útg. F. J., Kh. 1886—8, 58. k. bls. $171^{22}$ í Möðruvallabók (AM. 132 fol.): *gáz* = gangast. Það hdr. er að dómi F. J. ekki eldra enn frá miðri 14. öld (form. XII. bls.).

27. Sama hugsun í Harmsól 41, sem hvetur til að sættast þegar í stað við guð, því að *opt verðr ægis leiptra ein stund viðum grundar . . . at seinum*, og í norsku Homilíubókinni bls. $25^{15}$: *Skynda skal hverr maðr sem einn at snúask til guðs, meðan hann má, at eigi seini hann ok megi eigi um siðir* (sbr. Hj. Falk 16. bls.). — $27^2$ *góðra hluta:* hjer = (sannra, andlegra) gæða; sbr. Stokkh. Hom. bls. $51^4$: *hvé sælt er hugskot þat er fyllisk góðra hluta* (Hj. Falk 16. bls.). — $27^4$ *verðr* = ‚glatar'; *fyrir* er atviksorð: Hver sem »seinar finna föður«, glatar miklu firir (það). — $27^5$ *manna hverr:* sbr. Hugsm. $32^5$, $54a^2$, $59^2$, $63^2$, $64^2$, $75^5$, $76^5$, $90^2$, $92^2$, $101^2$, $111^5$, $129^5$, $137^2$: *seggja (gumna, lýða, fyrða, ýta, bragna) hverr.*

28. Hugsun: »Biðjið og mun iður gefast«, Matth. 7, 7, sbr. Lúk. 11, 5—10 og 18, 1—8. Í síðari vísuhelmingnum snír höf. hugsuninni við: »þeim sem einskis biður mun ekkert gefast«. — $28^6$ *fár — þörf:* Sbr. orð Eiríks málspaka hjá Saxa (útg. Müller's bls. 209, Holder's bls. 139): *Pauci tacentis egestatem æstimant aut silentis necessitudinem metiuntur*, og Hávam. $104^3$: *fátt gat ek þegjandi þar.* Að vísu *veit* alvitur guð þörf manns, þó að hann þegi, enn hann gefur ekki gaum að henni, bætir ekki úr henni, nema hún komi fram í bæn; *hyggr* virðist hjer þýða: ‚athugar', ‚gefur gaum að'.

29. *Dómvaldr* er Kristur, sem dæmir lifendur og dauða. Firri vísuhelmingurinn minnir á dæmisöguna hjá Matth. $20^{1-15}$, sem líkir ríki himnanna við húsráðanda, sem gekk út til að ráða verkamenn í víngarð sinn. Hugsunin virðist vera: þó að þú komir seint til Krists, þá örvæntu ekki um inngöngu í himnaríki, heldur bið hann innilega líknar og mun hann bænheira þig. Sbr. 1. Jóh. 5, 13—15. Ráðið er nokkurs konar viðbót við 3. ráð (27). — $29^1$ *ek:* Hjer kemur sá maður, sem kvæðið er lagt í munn, fram í eigin persónu og kennir heilræði með því að skíra frá sinni eigin reinslu, sbr. $15^3$, $24^5$. Síðar sjest, að hann er dáinn maður, sem birtist sini sínum í draumi. — $29^4$ *þangat:* þ. e. »*til Dómvalds dyra*« = til himnaríkis. Faðirinn, sem nú birtist sini sínum á jarðríki, segist

munu hverfa aftur til himnaríkis. — 29[5]: *því:* ɔ: að jeg mætti hverfa þangað aftur. — 29[6] *krás:* Himnaríki er hjer líkt við dírðlega krás, sbr. Stokkh. Hom. bls. 150[18]: *þar* (þ. e. í himnaríki) *eru eilífir fagnaðir ok auðæfi ok krásir* og s. st. 144[5].

30. Ráð: Varastu sindir: »*Gott er vammalausum at vera*«. — 30[2] *sárhryggvir:* Breiting nauðsinleg sakir stuðlasetningarinnar. *sárhryggr* = sárlega hriggur, ‚gagntekinn af sárum trega', algengt í nútíðarmáli (sjá Jón Þorkelsson, Supplem. III). Sbr. *sármeiddr* Pétrsdr. 6[2] (F. J. Skjalded. II B 546). — 30[4] *œgisheimi ór:* ɔ: úr þessum ægilega heimi. — 30[6] *gott er vammalausum vera:* sbr. Hugsm. 3[3]: *ok vammalauss vera* (og 123[6]).

31. Ráð: vertu ekki hverflindur (svikull). — 31[1] *Úlfum glíkir:* um úlfinn sem ímind ótriggs mans sbr. Hj. Falk 17. bls. — 31[6] *þær enar glœddu götur* sbr. 59[8] og Hj. Falk 17.—18. bls., P. Kvad 142. bls.

32. Sbr. Hugsm. 2[1—3]: *Ástsamlig ráð kenni ek þér, minn einkason, mun þú þau eptir öll* og s. st. 103. — 32[6] *öll — nema:* sbr. Hugsm. 82[1—3]: *Örr at kenna skaltu öðrum gott ok svá nýtt at nema* og 121a[6], 126[3].



Þriðji þáttur, **um líf og dauða og annað líf,** er kjarni Sólarljóða, einkum kaflarnir um dauðann og lífið eftir dauðann, eins og eðlilegt er í kristilegu heilræðakvæði. Hávamál fara aftur á móti mjög lítið út í lífið eftir dauðann.

Í *1. kafla* lísir faðirinn stuttlega lífi sínu, játar, að hann hafi notið lífsins og skilið nauðugur við það. Siðalærdómur: Lifðu grandvarlega.

33[3] *ynðisheimi:* firir þann sem nítur lífsins, er þessi heimur *ynðisheimr,* firir þann sem þjáist af hinum hræðilegu afleiðingum sindanna er hann *œgisheimr* (30[3]). Stokkh. Homilíub. talar um »*skammætt ynði syndarinnar*« (bls. 51[2]).

34[1] *vil ok dul:* kemur oftar firir, sjá Lex. poët., 2.

útg., undir *dul;* einna ljósast kemur þiðing orðanna fram hjá Hallfreði í Ólafsdrápu $27^{7-8}$ (F. J. Skjalded. I B 156. bls.): *vætta virða dróttins vil es mest ok dul flestum;* bjer er tvent sem fer saman sem orsök og afleiðing: flestir vilja *(vil)* fegnir mega vænta konungs (að hann sje á lífi); því dilja þeir sannleikann firir sjálfum sjer *(dul)* — Ólafr er dáinn. Mjög líkt dæmi kemur firir í 1. stafrofsritg. Sn.E. II 22. bls.: *dul vættir ok vil, at lina muni erfiði ok víl:* menn vilja fegnir, að erfiði og víl lini *(vil)*, því dilja þeir sannleikann firir sjálfum sjer *(dul)* — erfiði og víl mun aldrei lina (í þessum heimi). Bæði orðin saman tekin — *dul ok vil* — virðast því tákna þá sjálfsblekking *(dul)*, sem kemur af því, að menn láta *vil* sína (vilja sinn eða girnd) hafa áhrif á dóm sinn. Þessi merking á ágætlega við á þeim stöðum, sem greindir vóru, og eins hjer í Sólarljóðum: Það er sjálfsblekking, sprottin af (fje)girnd, að auðurinn veiti sælu; nei, hann veldur »löngum trega«. — $34^{4-5}$: sbr. Hugsm. $33^{4-5}$: *margr verðr aumr, sá er fyr aurum ræðr; ljósir aurar:* (af lit silfursins) sbr. *ljóst Kraka barr* Þjóðólfr Arn. Sexstefja $27^{5-6}$. — $34^{6}$ *apat:* ‚gert að apa, fífli‘ sbr. Hávam. $75^{3}$: *margr verðr af aurum api;* Hugsm. $33^{6}$: *illt er auði at trúa;* líkt að orðalagi er Hugsm. $52^{6}$ (sbr. $100^{6}$): *ef hann hefir aurum amat.*

$35^{3}$: *þvít ek vissa fátt fyrir:* sbr. Hávam. $57^{4-6}$: *orlög sín viti engi fyrir — þeim es sorgalausastr sefi,* og Hugsm. $121^{1-3}$. — $35^{4}$ *dvalarheim:* ‚heim sem maður á að eins stundardvöl í‘, ‚stundlegan heim‘.

$36^{1-2}$ *lútr ek sat, lengi hölluðumk:* virðist tákna birjandi sjúkleik, sbr. $40^{3}$ og $44^{3}$. — $36^{6}$ *frammi:* = ‚frammi firir‘ (hinum feiga), ‚framm undan‘ (sbr. Hamðism. $18^{1}$: *fram lágu brautir); fram* táknar hjer stefnuna til heljar, sbr. Skírnismál $12^{1-2}$: *Hvárt est feigr, eða estu fram genginn,* Sig. sk. $52^{4}$: *þá es ér fram komið,* og *framfarinn, framliðinn* = dauður.

---

Í *öðrum kafla* lísir mælandinn helstríði sínu og sjerstaklega hinu síðasta æfikvöldi, þegar hann sá sólina

ganga í ægi í hinsta sinn. Í þessum kafla felst sú áminning til lifandi manna »*at láta sér eigi ór hug ganga andláts dœgr sitt*« (Stokkb. Hom. bls. $142^{27}$, sbr. $192^{19}$).

$37^1$ *Heljar reip:* þau bönd sem draga til Heljar (dauða), líklega er átt við sjúkdóma. *Hel* stendur hjer á takmörkunum milli þiðinganna ‚dauðagiðja' og ‚dauði'. — $37^2$ *harðliga:* á víst við *sveigð.* — $37^6$ *lauss:* ‚óbundinn', sbr. Baldrs draumar $14^5$, Fáfnism. $8^6$; mælandinn minnist þess, hve honum var ljett um vik, meðan hann var heill heilsu.

$38^2$ *alla vegu:* sjá við $18^2$. — $38^4$ *Heljar meyjar:* þernur Heljar eða dauðans, finst mjer eðlilegast að skilja sem persónugervinga sótta eða sjúkdóma (sbr. *Heljar reip* $37^1$). Samskonar líking finst hjá Lukianos, Charon 17. kap. — $38^{4-6}$: jeg tek saman: *er Heljar meyjar* (sjúkdómar mínir) *buðu mér hrolla-heim á hverju kveldi; hrolla* er eignarfall flt. af *hrollr; hrolla-heimr:* sbr. *ægisheimr* ($30^3$), *ynðisheimr* ($33^3$): þegar maður kvelst af angist út af sindum sínum, þá er þessi heimur honum *ægisheimr,* þegar hann nítur unaðsemda lífsins, þá *ynðisheimr,* og þegar hrollur fer um hann af bræðslu við dauðann, þá er heimurinn honum *hrolla-heimr; bjóða ehm hrollaheim,* sbr. *bjóða ehm ógn* o. fl. lík dæmi hjá Fritzner$^2$ undir *bjóða* 1. Í 6. vísuorði er leiðrjettingin nauðsinleg, til þess að kveðandi baldist (sbr. við $20^3$).

39—45: Við niðurlag 38. erindis *(á hverju kveldi)* hnítir nú mælandinn lísingu á síðasta kvöldinu, sem hann lifði, í 7 erindum, sem öll birja á *Sól ek sá.*

$39^2$ *sanna dagstjörnu:* líkt ok engilsaxn. *dægsteorra,* fornbáþ. *tagastern* virðist *dagstjarna* eiginlega tákna morgunstjörnuna, sem boðar daginn, og kemur firir í þeirri merkingu í Alex. s. 161. bls. (Hj. Falk 22. bls.). Enn hjer á morgunstjarnan ekkert erindi. Eftir sambandinu getur dagstjarnan ekki verið annað enn sólin; höf. hefur þó víst þekt hina merkinguna, enn bætir við *sanna* til að gefa í skin, að sólin, sem skín á daginn, enn ekki morgunstjarnan, sje hin eina sanna dagstjarna. — $39^3$ *drúpa dynheimum í: drúpa* = lúta, slúta, hneigjast (að sólar-

lagi) með döpru bragði (því að í *drúpa* felst einnig sorg); með þessu orði er gefið í skin, að sólin — eða sá sem á hana horfir, því að það sem sjest er komið undir augunum sem sjá — kunni ekki vel við sig »*dynheimum í*«, þ. e. í þessum jarðneska heimi (= *alda heimi* $41^6$) með öllum hans glaumi og hávaða, sem berst að eirum mælandans, þar sem hann liggur á banasænginni, enn »*á annan veg*« heirir hann Heljar grind þjóta — hann er »á milli heims og heljar«. Þetta »*á annan veg*« um dauðra ríkið mælir sterklega með, að *dynheimar* tákni ‚þennan heim‘ (sbr. nöfnin *ægisheimr, ynðisheimr, hrotlaheimr*, sem laga sig eftir því, hvernig á stendur í hvert skifti). — $39^4$ *Heljar grind:* hugmindin og nafnið er tekið úr norrænni goðafræði, sbr. Sn.E. I 40. og 178. bls. og Fornaldars. I 437. bls. (*hnigin er Helgrind*); *nágrindr* Skírnism. $35^3$, Lokas. $63^6$. Enn þó stiðst þetta meðfram við biflíustaði, sem tala um »hlið dauðans« (Jobsbók 38, 17, Sálmarnir 9, 14 og 107, 18) eða »hlið Heljar« (Matth. 16, 18). Hjer hlítur að vera átt við innganginn að dauðra ríkinu alment, ekki sjerstaklega við hlið helvítis.

$40^2$ *setta dreyrstöfum:* þiðir ekki »*blóði stokkna*« (Falk); *dreyrstafir* táknar hjer ekki annað enn hina dreirrauðu geisla kvöldsólarinnar (sbr. $42^6$); þetta stendur í nánu sambandi við næsta vísuorð ($40^3$): sólarlagið, sem mælandi lísir, er um leið æfi-sólsetur hans. — $40^3$: sbr. $36^2$ og $44^3$. — $40^6$ *frá því er fyrri var* = ‚frá því sem mjer leitst hún vera áður‘: augu mælanda opnast firir því, sem hann hafði ekki athugað áður, að sólin er máttug — enn mátt sinn hefur hún frá guði ($41^{2-3}$).

$41^{2-3}$ *svá þótti mér, sem ek sæja göfgan guð:* þessi orð sína og sanna, að »*sól*« í hinni margendurteknu setningu *sól ek sá* er ekki hugsuð sem neinn persónugervingur, heldur er hún blátt áfram hin náttúrlega sól, himinlíkaminn, enn hún minnir mælandann á »*göfgan guð*«; hann sjer í henni vott um almætti guðs ($40^{4-6}$) og gæsku, og það huggar hann í helstríðinu. — $41^6$ *alda heimr* = manna heimur, stundlegur heimur (sbr. *dynheimar* $39^3$).

$42^3$ *vætki vita:* sbr. Fms. VII $172^{17}$: *hann þóttist nær*

*ekki vita fyrir hræzlu;* þíðir eiginlega ‚vera meðvitundarlaus‘, hjer líklega nokkurn veginn sama og ‚vera höggdofa eða utan við sig‘ (af undrun). — 42[4] *Gytfa:* Besta hdr. (AM. 166 b 8°) hefur *Gylfar*, hinir leshættirnir eru auðsjáanlega ekki annað enn afbakanir af því. Þetta *Gylfar* er að minni higgju annaðhvort beint ritvilla firir *Gytfa*, eignarfall af *Gytfi*, eða önnur mind sama eignarfalls, dregin af annari beigingu (heteroklitisk mind)[1]), eins og nefnifallið væri *Gylfr* (*Gylfir* kemur firir t. d. í Konráðs rímum VIII 49[1] og *Gylfra völtr* er sjórinn kendur í Ólafsrímum B III 2[4] [F. J. Rímnasafn I 196. bls.]). Með því móti fæst mjög einföld og eðlileg skíring: *Gytfa(r) straumar* er ‚hafið‘, kenningin samsett í líking við *Gylfa röst* hjá Þórði Særekss. (hvort sem *röst* er þar haft upphaflega í merkingunni ‚land‘ eða ‚straumur‘) — annars kemur *Gylfir* beinlínis firir í þíðingunni *sjór* í gömlum rímum (slengt saman við Ægi), sjá K. Gísl. Efterl. skr. II 200. bls. — 42[5] *grenjuðu:* um brimhljóðið, sbr. Bisk. II 49[19]: ***boðaföll grenja á bæði borð; á annan veg:*** uppi, rjett firir ofan hafflötinn, geislar sólin; »*á annan veg*«, niðri, undir sólinni, grenjar hafið. — 42[6] ***blandnir mjök við blóð:*** þ. e. með hinu rauða litaskrauti sólarlagsins (sbr. 40[2]).

43[1—3] *Sót — skjátfandi:* = jeg sá sólina skjálfandi á sjónum. Mælandinn heldur áfram sólarlags-lísingunni. Áðan sást sólin ljóma rjett firir ofan hafflötinn, nú hvílir hún á haffletinum — og sínist skjálfa á honum, enn svo sínist flestum, þegar þeir horfa í sólina um sólarlagið. Orðin *á sjónum* standa í öllum handritum, og staðfesta þau til fulls skíringuna á *Gytfa straumar* í firra erindi. — *hræzlufuttr ok hnipinn:* þegar hann sjer sólina skjálfa í niðurgöngu sinni, minnist hann þess, að hann á örskamt eftir, og fer sjálfur að skjálfa af hræðslu við sindir sínar, að þær dragi hann til glötunar, sbr. Stokkh. Hom. bls. 168[34]: *Nú þarf hverr sér at ugga ok vera hræddr of sik, því at hann veit eigi hvat eptir kemr; hitt er sýnt at eptir illa atferð mun ilt koma, ef eigi verðr hér bætt innanheims í*

1) Sbr. *Surta* við hliðina á *Surtar.*

*skriptum ok í iðrun.* — $43^{4-6}$: Hjer er átt við *contritio cordis*, sundurkramning hjartans, sem er undanfari iðrunarinnar, sbr. Sálm. 51, 19 (Vulg. 50, 19): *sundurmarið og sundurkramið hjarta [cor contritum et humiliatum* Vulg.) *munt þú, ó Guð, eigi firirlíta.* — *í sega:* (af *segi* karlk.) = í smástikki.

$44^{2}$ *hryggvari:* hjer er bersínilega átt við »hrigð til iðrunar«, »Guði að skapi«, sem »verkar afturhvarf til hjálpræðis«, sbr. 2. Kor. 7, 9—10, og gefið í skin, að mælandinn hafi iðrast á síðustu stundu. — $44^{4-5}$ *tunga — til trés metin:* eiginlega ‚metin jafngildi trjes' (sbr. *meta til þriðjungs pennings* Dipl. Norv. IV 328), þ. e. stirð sem trje. — $44^{6}$ *at:* ɔ: að tungunni; líkaminn kólnar smátt og smátt að utan inn á við að tungunni. — *utan:* með stuttum hljóðstaf í firra atkvæði, ingri mind firir *útan*, sjá Finnur Jónsson, Skjaldesprog 122. bls.

$45^{4-6}$ Sambandið bendir til, að þau *vötn*, sem hjer eru nefnd, sje sama og kallaðir eru *Gylfa straumar* í 42. og *sjór* í 43. erindi; því getur varla komið til mála, að hjer sje að ræða um fjalla-vötn, vötn á fjöllum uppi. P. (Kvad 146. bls.) hefur, að því er jeg higg, skilið rjett orðin *luktust fyrir mér saman;* þau þiða sama sem *hurfu sjónum mínum* (eiginl. runnu saman í einn púnkt til að sjá), sbr. Landn. 1843, bls. $29^{10}$: *en er upp lauk firðinum,* Egils s. F. J. k. 27, 20: *en er þeir sá firðinum upp lúka,* um hið gagnstæða. Enn sje þetta rjett, virðist ljóst, að »*fjalla*« í hdrr. er ekki annað enn nírri ritháttur firir *fjarla*, þ. e. ‚í fjarska', ‚langt burtu'. Um rithátttinn sbr. $4^{6}$ og *valla* firir *varla*. Annars kemur »*fjalla*« = *fjarla* firir í Stokkh. Hom. $116^{12}$ (*eigi fjalla* = ‚nær'), og þar er einnig ritað *valla* firir *varla* á bls. $12^{14}$. Hugsunin virðist vera: Þegar sálin er skilin við líkamann (»*kölluð frá kvölum*« $45^{6}$), »*hverfur*« hún út í himingeiminn svo langt, að sjórinn eða fjörðurinn, sem sást frá banasænginni, likst saman og hverfur sjónum hennar í fjarska. Þessu er nákvæmar líst í næsta erindi.

$46^{1}$ *Vánarstjarna:* er víst rjett skírt af P. Kvad 146: »stjarna vonarinnar, sem flígur burt frá brjóstinu, er

sálin, sem skilur við líkamann og vonar að verða sæl«. — 46² *þá var ek fæddr:* dauðinn er hjer skoðaður sem fæðing til annars lífs, sjá P. Kvad 146—147. Sbr. Beletus, De divin. off. 4. k.: *Natalis vel Natale vel Natalicium vocatur sanctorum ex hoc sæculo commigratio, quia ut sæculo et mundo moriuntur, ita tunc cælo nascuntur* (tilvitnunin tekin eftir Du Cange u. Natalis). — 46⁴ *háttat = hátt þat,* ‚fremur hátt', sbr. *líttat* firir *lítt þat, léttr sá, lítinn þann* (Fritzner² u. *sá* 7, bls. 156a).

---

Í *3. kafla* hættir mælandinn um stund að segja frá sálunni, enn snír máli sínu að meðferð líkamans eftir dauðann.

47² *nótt:* þetta orð bendir til, að hjer sje átt við þann sið að *náttsetja* líkið, þ. e. búa um það, þar sem það átti að standa uppi firstu nóttina eftir andlátið, og fá prest til að vaka og lesa bænir ifir því með ættingjunum; þetta var nefnt *náttvaka, náttset (-setr), náttsæting* (sjá Fritzner² og Glossar Hertzberg's við Norges gl. love undir þessum orðum). — 47³ *strám:* þ. e. *nástrám* eða *líkstrám*, sem haft var undir manni í banalegu hans eða líkinu, meðan það stóð uppi (sbr. áðurnefndar orðabækur). — 47⁴ *merkir þat: =* sínir það sig *(þat* er þolfall). — 47⁵⁻⁶: *er mælti guð — samr:* 1. Mós. 3, 19: (guð segir við Adam) því að mold ert þú og til moldar skaltu aftur hverfa; *samr moldu =* samur (sama) sem mold, sbr. Nygaard, Norr. Syntaks § 103 g (og *jafn, líkr* með þágufalli).

48² *virki:* hjer líklega = ‚kærleiksríki', annars getur *virkr* líka þítt ‚kær'. — 48⁴ *munaðarlausir:* ‚sem ekki er sínt ástríki af öðrum'; *munaðr (munuð?)* virðist hjer haft um kærleik af hálfu skildmenna; nú er *munaðarlaus* haft um einstæðinga ‚sem engan eiga að', einkum um fátæk börn, föðurlaus og móðurlaus. — 48⁵ *fara: =* fara burt, deija. — 48⁶ *þót — skili,* þ. e. þó að þeir eigi eftir skildmenn á lífi, þegar þeir deija. — Mælandinn virðist kvarta ifir því, að sínir nánustu ættingjar hafi ekki sínt sjer nóga ræktarsemi við náttvökuna.

49. er. tekur stuttlega fram þann siðalærdóm, sem

felst í 3. kafla: Bigðu ekki sæluvon þína á firirbænum annara (48) nje á auð þinum — hann filgir þjer ekki í gröfina ($49^{4-6}$) — heldur að eins á sjálfum þjer, þínum eigin góðverkum. — $49^{1-2}$: sbr. Hugsm. 95a (F. J. 78): *sinna verka skal seggja hverr laun með leigum taka.* — $49^{3}$: sbr. Hugsm. $1^{3}$: *ok góð verk gera.* — $49^{4}$ *auði frá* = fjarri auði mínum. — $49^{5}$ *er:* virðist vera alveg ofaukið, sbr. $50^{5}$ og $51^{5}$. Dæmi úr Eddukvæðunum telur Gering í Wörterbuch zu d. lied. der Edda undir *es* 1 ($220^{38}$), og í gömlum rímum kemur það oft firir, t. d. í Grettis rímum II $20^{1}$, $36^{1}$, $52^{1}$, VII $34^{1}$ *(eð = er)*, $54^{1}$, VIII $53^{1}$, $60^{1}$ *(eð)*. — $49^{6}$ *sandi orpin sæng:* þ. e. gröfin.

---

Í *4. kafla* hverfur mælandinn aftur að sálinni. First er almenn hugleiðing um það, hve nauðsinlegt sje að hreinsa sig af sindum þegar í þessu lífi (50). Þá segir frá veru sálarinnar í hreinsunareldinum og lausn þaðan (51) og loks frá birjun ferðarinnar um »sigrheima« (52).

$50^{1}$ *Hörundar hungr:* holdsins físt *(hörund* hjer kvennk.). — $50^{3}$ *margr:* með því á mælandinn sjerstaklega við sjálfan sig (sbr. *mér* $50^{5}$). — $50^{4-6}$: hugsunin er: (meðan jeg þjáðist af hörundar hungri, þá) var »lauga vatn« mjer leiðast eitt allra hluta; *lauga vatn* táknar þá hreinsun af sindum, sem fæst með iðrunartárum; Stokkh. Hom. talar um, að vjer skulum »skíra hugskot vor í tárum« (bls. $60^{22}$) og »þvo í tárum sinda flekka af öndum vorum« (bls. $102^{16}$). Sbr. P. Kvad 147. bls., Hj. Falk 28.—29. bls. — $50^{5}$ *er:* virðist ofaukið, sjá við $49^{5}$. — $50^{6}$ *eitt:* herðir á merkingu orðanna (= langleiðast allra hluta).

$51^{1}$ *Á »norna stóli«* halda þeir P. og Hj. Falk að sje sama og ‚á banasænginni‘, enn það getur ekki verið rjett, því að banalegunni er þegar líst nákvæmlega fir í kvæðinu. Mælandinn tekur hjer auðsjáanlega upp aftur þann þráð, sem hann slepti í 46. erindi. Þar var sagt frá að sálin flaug burt úr líkamanum rjett eftir dauðann og *settist hvergi,* svo að hún mætti hvíld hafa. Hjer *situr* hún — á »norna stóli«, hjer er hún komin í kirð. »*Norna*

*stóll*« virðist því ekki geta táknað annað enn hinn firsta samastað sindugrar sálar eftir dauðann, enn það er eftir hugmindum kaþólskra manna *hreinsunareldurinn*. Ef svo er skírt, þá verður líka þetta erindi beint áframhald af hugsuninni í 50. erindi, og stiður það skíringuna. Þar var sínt, hve nauðsinlegt væri að hreinsa sig af sindum þegar í þessu lífi og að mælandinn hefði ekki gert það. Bein afleiðing af því er það, að sál hans verður að dvelja um stund í hreinsunareldi til að hreinsast af sindum. Líka kemur það vel heim, ef »*norna stóll*« er hreinsunareldurinn, að þegar sálin losnar þaðan, þá birjar þegar langferð hennar um »sigurheima«, sem loks endar í paradís. Þá er enn, að ef »*norna stóll*« ekki táknar hreinsunareldinn, þá fæ jeg ekki betur sjeð, enn að Sólarljóð geti hans hvergi að neinu, því að lísingin á píslum ranglátra í næsta kafla er auðsjáanlega lísing á kvölum helvítis, enn ekki hreinsunareldsins, eins og Hj. Falk virðist halda fram. Enn það væri mjög undarlegt, ef ekki væri minst einu orði á hreinsunareldinn í öðru eins kvæði og þessu. Jeg tel því vafalaust, að »*norna stóll*« tákni hreinsunareldinn. Enn orðin eru óljós og ervitt að segja, hvernig höf. hefur hugsað sjer þetta. Á því getur þó ekki leikið neinn efi, að höf. hefur hugsað sjer þessar nornir sem vondar tröllkinjaðar verur (sbr. *gýgjar sól* rjett á eftir), og var hann þar í fullu samræmi við þjóðtrú sinna tíma, sem gerði allar heiðnar vættir að tröllum, enda getur verið, að Võluspá $8^{5-8}$ hafi vakað firir honum og að hann hafi haldið að þær 3 *þursa meyjar*, sem þar er getið, væri sama sem þær *þrjár meyjar*, nornirnar, sem Vsp. 19 segir frá. Líks eðlis eru síðar í kvæðinu Njarðardæturnar níu. Þær bera sumar tröllkvenna nöfn, og ef getgáta Rasks við er. $76^4$ hefur hitt hið rjetta, sem líklegt þikir, þá rennur *norna dreyri* úr nösum þeim (sjá athugasemdir mínar við þann stað og IV. þátt allan). Nú mun jeg síðar sína, að Njarðardæturnar eru persónugervingar *höfuðsinda*. Og sjeu þær hugsaðar sem ein sjerstök tegund norna, virðist hið almenna hugtak *nornir* geta táknað sindir ifir höfuð. Hugmindina til þessarar líkingar

hefur höf. ef til vill fengið úr Sigurðar kv. sk. $7^{5-6}$: *ljótar nornir skópu oss langa þrá* (sbr. Sólarl. $77^{6}$ *á þráreipum)*, og má vera, að hann hafi munað eftir setningunni: *Nornir heita þær er nauð skapa* (Sn.E. I 557. bls.). »*Norna stóll*« virðist því geta verið = sinda stóll. Enn hvað þiðir *stóll?* Þess ber að geta, að Dante skoðar það sem hann kallar Purgatorio engan veginn sem eitt samfelt eldhaf, heldur sem stórt og hátt *fjall* með ímsum vistarverum. Hann hugsar sjer, að fjall þetta gnæfi hinumegin á jarðarhnettinum andfætis við Jerúsalem og að upp eftir hlíðum þess liggi 7 hringar eða belti, hvert upp af öðru, enn efst á tindinum, sem er hærri enn nokkurt annað fjall á jarðríki, sje hin jarðneska paradís. Í hverju belti eru sálirnar hreinsaðar af einhverri sjerstakri sind, og því eru þau jafnmörg og höfuðsindirnar — þær eru 7 hjá Dante — í firsta belti er hreinsað af ofmetnaði, í öðru af öfund osfrv. Nú er að vísu mart í lísingu Dantes á hreinsunarstaðnum[1]) skapað af ímindunarafli hans, enn megindrættirnir munu þó vera teknir eftir almennri þjóðtrú kaþólskra manna á hans dögum. Því virðist mega gera ráð firir, að höf. Sólarl. hafi hugsað sjer hreinsunarstaðinn sem fjall. Enn getur *stóll* þítt fjall? Víst er það, að orðin *stóll* og *sæti* koma firir sem síðari liður í fjallanöfnum íslenskum, t. d. *Tindastóll, Loðmundarsæti, Þrasasæti, Meyjarsæti. Nornastóll* virðist vera örnefni, mindað í líking við *Tindastóll* til að tákna fjallið, þar sem sindirnar eru hreinsaðar af sálunni. Er það nú tilviljun, að sálin situr *á Nornastóli* í *níu daga*, jafnmarga og Njarðardæturnar, þ. e. höfuðsindirnar, eru taldar síðar í kvæðinu (79), og að talan *níu* kemur hvergi firir í Sólarl. nema um þetta tvent? Er hjer ekki beint gefið í skin, að höf. hafi hugsað sjer 9 vistarverur (belti?) á sindahreinsunarfjallinu, eina firir hverja tegund sinda, og að sálin dveldi eina nótt í hverju belti? Jeg læt þetta liggja milli hluta, enn eitthvert samband hlítur hjer að vera á milli. Annars

1) Þetta er rjettari þíðing á Purgatorio enn ‚hreinsunareldur'.

má bera saman Hávam. 138[3] — þar er Óðinn látinn hanga *nætr allar níu* á »*vindga meiði*«. — 51[3] *á hæst:* svo hef jeg ritað (*e* og *æ* er oft ruglað saman í gömlum hdrr.); þíðing: ‚á hæsta tind Nornastóls' — eftir níu daga er sálin loksins komin upp á tindinn. Dvölin í hreinsunareldi er alveg óákveðin eftir kaþólskri trú, getur verið bæði löng og stutt, og fer það eftir tilgerðum mansins og eftir firirbænum þeirra, sem eftir lifa, sálumessum osfrv. Skírendurnir hafa verið í mestu vandræðum með »*á hest hafinn*«. Flestir halda, að hjer sje talað um »helhestinn«, sem sálin sje látin ríða á um sigurheima (svo Hj. Falk 29.—30. bls.). Enn P. tekur rjettilega fram, að sálin þurfi engan hest, hún flígur sjálf um geiminn (46). Sjálfur heldur P., að hjer sje átt við flutning líksins á hesti til greftrunar frá heimilinu til kirkju, eins og hann tíðkast á Íslandi (P. Kvad 148. bls.). Enn það nær engri átt. Frá greftruninni er búið að segja (49), og hjer ræðir um sálina, enn ekki líkið. — 51[4—6]: lísing á hinni ömurlegu útsjón frá tindi Nornastóls. Sólarljóðahöf. hugsar sjer auðsjáanlega ekki, eins og Dante, að þar sje hin jarðneska paradís. — *gýgjar sól:* minnir á urðarmánann í Eyrb. 52. k. og er líklega hugsuð sem nokkurs konar undirheimasól — höf. virðist hugsa sjer fjallið einhvers staðar í undirheimum, ekki hjer á jarðríki eins og Dante, enda getur sú hugmind hjá Dante ekki verið alþíðleg, því að hún stiðst við skoðanir lærðra manna á hnattlögun jarðar. — 51[5]: *er* ofaukið, sjá við 49[5]. — 51[6]: *ór skýjum skýdrúpnis:* orðaröð breitt til þess að kveðandi haldist (sbr. við 20[3]); verið gæti þó, að »*skýjum*« hefði verið framborið í einu atkvæði: *skjóm* (sbr. *skjóttr* f. *skýjóttr*, *bjóm* f. *býjum*, sjá Noreen, Altn. grt.[3] § 127 b), og þá þirfti ekki að breita röð orðanna; *skýdrúpnis* virðist helst liggja á bak við hina margvíslegu leshætti, og er það (*skýdrúpnir*) ekki óeðlilegt himinsheiti um skíjaðan himin (eiginl. ‚sá sem drúpir skíjum', ‚sem skí drúpa eða slúta niður frá'), sbr. himinskenningarnar *skýrann*, *skýtjald* o. fl. Bugge bjó sjer sjálfur til orðið *skindrepnir* út af skíringu Hervarars. við gátu Gestumblinda um þokuna (Herv. s.

útg. Bugges 239. bls.): *hann* (ɔ: *myrkvi*, þ. e. þoka) *drepr skini sólar*, og vildi setja það hjer inn; enn það orð, ef til væri, gæti eftir sjálfri gátuskíringunni ekki þítt annað enn ‚þoka'; hvernig menn geta fengið út úr því þiðinguna ‚næturhimin' er mjer alveg óskiljanlegt.

52. er. segir í almennum orðum frá þeirri ferð, sem nú birjar um »*sigrheima*«, þ. e. þá heima sem lúta hinu sigursæla valdi guðs eða Krists; *sigr-* gefur orðinu kristilegan blæ og greinir það frá heiðnum »*heimum*«, t. d. þeim, sem getið er um í Völuspá 2 og Vafþrm. 43 (sbr. Hj. Falk 31. bls.); *sigrheimar* grípur því ifir helvíti og paradís og þá heima sem þar eru á milli, 5 að tölu, því að heimarnir eru als sjö. Í 2 næstu köflum kvæðisins eru greindir nánar tveir þættir úr þessari ferðasögu sálarinnar um *sigrheima*. Um *sjö heima* tilfæra þeir P. (Kvad 149. bls.) og Hj. Falk (31. bls.) ímsa líka staði úr kristilegum miðaldaritum, sbr. einnig Kautsch, Die apokryphen und pseudepigraphen des Alten Testaments II 218. bls. neðanmáls. — $52^{4-6}$ sbr. Hávam. $106^{4-5}$: *yfir ok undir stóðumk jötna vegir.*

---

Í *5. kafla* segir sálin sjerstaklega frá því, sem hún sá á langferð sinni í »*kvölheimum*«, þ. e. helvíti.

$53^{4-6}$: þetta gerist auðsjáanlega í dirum helvítis eða rjett firir innan þær, því að það er hið firsta, sem sálin sjer. Sálirnar eru víst ekki sálir fordæmdra — þær koma síðar — heldur sálir, sem hafa sloppið úr hreinsunareldinum um leið og sál mælandans og eiga samleið við hana »um sigurheima«. Þær eru *sviðnar;* með því er beint gefið í skin, að þær sjeu níkomnar úr hreinsunareldinum, og staðfestir þetta skíring mína á 51. og 52. erindi.

$54^{2}$ *Váuardreka: Ván* er eiginlega árheiti; sjerstaklega segir Sn.E. I 112. bls., að svo hafi heitið á sú, sem mindaðist úr slefu Fenrisúlfsins, og Grímnismál telja *Ván* með þeim vötnum, sem »*falla gumnum nær en falla til heljar heðan*«. Í kenningum er *Ván* haft alveg eins og það þíddi sama sem *vatn* eða *haf* (sbr. Plácitusdrápu $2^{5-7}$:

*Vánar log* = eldur vatns eða hafs = gull, s. st. $9^1$: *fránskið Vánar* = skip), og sama þíðing held jeg að hjer liggi firir: *Vánardreki* virðist vera hafsdrekinn Leviathan, sem getið er um í Sálm. 104, 25—26: *Þar er hafið mikið og vítt á alla vegu . . . þar fara skipin um og Leviathan, er þú hefur skapað til að leika sér þar,* sbr. Ezech. 32, 2: *draco qui est in mari* (Vulg.) og Jobs bók 41, 1. Þó vil jeg als ekki fortaka, að höf. hafi hjer meðfram haft Heljarfljótið Ván í higgju, er hann gaf hafsdrekanum þetta nafn (sbr. Hj. Falk 33.—34.); *dreka* er þolfall eintölu. — $54^3$ *fell* = ljet fallast, settist. — *Glævaldr:* virðist vera nafn, eða rjettara sagt íslensk þíðing, á *Lucifer,* mindað af *glær,* adj., ‚gljáandi', ‚ljómandi' (sbr. *glær,* ‚sjór', sem eiginlega er sama orðið og *glær,* adj., og þíðir upphaflega hinn gljáandi hafflöt, enn fremur norska lísingarorðið *glæ,* ‚gulbleikur') og *-valdr* (sbr. *Dómvaldr* $29^3$, *Sævaldi* $9^2$). *Lucifer* þíðir eiginlega ‚morgunstjarna', enn fjekk síðan merkinguna ‚djöfull' af því að menn misskildu orð Esaiasar í k. 14, 12: *Quo modo cecidisti de caelo, Lucifer,* sbr. Lúk. 10, 18. Hið íslenska nafn hans *Glævaldr* er ágætlega valið, því að það »ljós« *(lux),* sem hann veldur, er að eins gljái á ifirborðinu, með öðrum orðum hjegómi. Í írsku leikriti um sköpun heimsins segir Lucifer: »Jeg er líkur skínandi eldi« (Bugge, Studier 77. bls.). Maríu s. 559. bls. segir um hann, að hann lokki menn *»í þann eld ok bruna er stendr án enda«.* *Glævalds gata* er því eflaust sama sem kallað er annars staðar í kvæðinu *enar glæddu gölur* ($31^6$ og $59^3$). Þar situr Glævaldr og glæðir götuna og þar setst Vánardreki niður hjá honum. — $54^{4-6}$ málar hræðslu sálarinnar *(þótti mér)* við djöflana; *þeir* fær nú sína rjettu þiðing, vísar til Vánardreka og Glævalds; áður vóru menn í mestu vandræðum að skíra fleirtöluna.

Þessa skíring á þessu erindi setti jeg fram við lærisveina mína 1913. Hún kemur heim við skíringar P.'s og Hj. Falks um það, að *Vánardreki* tákni djöful, enn leið okkar að þeirri niðurstöðu er frábrugðin. Skíring Falk's nálgast þó talsvert mína. P. heldur að djöfullinn sje kall-

aður *vánar dreki*, af því að hann »vonar að klófesta sálina«; það finst mjer of langt sótt.

55[1] *Sólar hjört:* jeg er samdóma P. og Hj. Falk um, að Sólar hjörturinn er Kristur, og svo skírði jeg 1913. Í Plácítus s. Hms. II 194—195 birtist Kristur Plácítusi í hjartar líki og ljómar »*krossmark sólu bjartara*« milli horna dírsins. Fleiri staði úr miðaldaritum þessu til stirkingar tilfæra þeir P. Kvad 151. bls. og Hj. Falk 34.—35. bls. — 55[3]: ef leshætti handritanna *(hann teymðu tveir saman)* er haldið, þá er engin önnur leið, úr því Sólarhjörturinn er sjálfur Kristur, enn að »*tveir saman*« sjeu hinar tvær persónur þrenningarinnar, faðirinn og heilagur andi. Svo skíra þeir P. og Hj. Falk staðinn, og svo skírði jeg 1913, jafnvel þó að mjer þætti það ganga hneixli næst hjá skáldinu að láta föðurinn og andann »*teyma*« Krist, eins og hann stæði skör lægra í þrenningunni enn hinar persónurnar. Leiðrjetting mín hreinsar þennan blett af Sólarljóðaskáldinu. Það er auðskilið, hvernig afbökunin er til komin. Í frumhandritinu hefur staðið: *hann teymði .ij. saman*, talan skrifuð með rómverskum tölum, eins og vant er; svo hefur afritari mislesið *tveir* firir *tvá* úr tölunni — hún getur þítt hvorttveggja — og breitt *teymði* í *teymðu*, því að annars varð setningin lokleisa. Í setningunni þannig lagfærðri felst þessi hugsun: *hann* — Kristur einn — *teymði* (þ. e. beislaði eða batt þá Vánardreka og Glævald) *tvá saman* (ɔ: þó að þeir væri tveir saman). *Teyma* stendur hjer í sinni upphaflegu merkingu ‚leggja taum við' (nú kallað vanalega ‚að hnýta upp í') eða þíðir ef til vill sama sem ‚að binda', því að *taumr* gæti líka þítt ‚band'. Höf. virðist hjer hafa haft í higgju evangelium Nicodemi eða Niðrstigningar sögu Hms. II 5. bls. (Kristur bindur Satan) og 6. bls. (Kristur bindur Belzebub). — 55[4—6]: til samanburðar vísar P. í St. Hom. 162[16] (sbr. Esai. 66, 1): *himinn es stóll minn en jörðina hefi ek at fótborði* o. fl. st.

56[2]: P. og Falk halda báðir, að *niðja (Niðja) synir* sjeu englar, sem koma til liðs við Krist, enn skíra annars orðin hvor á sinn hátt. Jeg álít óþarft að fara út í

þær skíringar þeirra, því að sambandið sínir glögglega, að niðurstaðan, sem þeir komast að, getur með engu móti verið rjett. Í firsta lagi þarf Kristur engrar hjálpar við; hann er einfær um að »*teyma*« djöflana ($55^3$). Í öðru lagi ættu englarnir, ef þeir kæmu til hjálpar Kristi, að koma í sveit hans, úr sömu átt og hann, enn nú koma þeir úr þveröfugri átt. Í þriðja lagi er als ekki gefið í skin, að þeir rjetti Kristi neina hjálparhönd; þeir virðast ekki koma fram á sjónarsviðið til neins annars enn að drekka hinn »hreina mjöð úr brunni Baugregins«, enn sú lísing á verknaði þeirra ber á sjer algerlega heiðinn blæ, eins og Falk sjálfur tekur fram, og á mjög illa við, ef hjer er átt við engla. Þessi heiðni blær á lísingunni virðist einmitt benda til þess, að hjer sje átt, ekki við kristnar verur, heldur við heiðingja. Kaþólskir menn gátu ekki trúað því, að góðir menn og grandvarir, sem höfðu lifað firir kristni, ættu að búa við helvítiskvalir um alla eilífð, enn hins vegar gátu þeir ekki orðið sáluhólpnir, af því að þá vantaði skírnina (sbr. Dante, Inferno, Canto IV 31—42). Því hugsuðu þeir sjer handa þeim sjerstakan samastað kvalalausan í undirheimum, sem var nefndur *limbus patrum*, ‚bústaður feðra (eða höfuðfeðra)‘. Hjá Dante er þessi vistarvera heiðinna manna hinn firsti hringur helvítis (Inferno, Canto IV 23—24), og þar hittir hann skáldbræður sína, Horatius, Ovidius og Lucanus, heimspekingana Sokrates, Plato o. fl. ágætismenn heiðna. *Niðjar* virðist hjer tákna ‚forfeður‘, eins og t. d. í vísunni í Sverris s. 164. k.: *ólíkr ertu yðrum niðjum, þeim er framráðir fyrri váru*, Hyndluljóð 14 (Bugge 11): *fornir niðjar*, Völuspá 15: *langniðjatal* = langfeðgatal o. fl. st. Í Ragnarsdrápu Braga $3^6$ er Jörmunrekr, faðir Randvés, kallaður *höfuðniði* sonar síns. *Niðja synir* virðist þíða alveg sama og *niðjar*, sbr. *ýta synir* = *ýtar* $33^5$, *virða synir* = *virðar* $34^2$. Sambandið bendir til, að hjer sje átt við heiðna forfeður. Því held jeg, að svæðið við *brunn Baugregins*, þar sem sálin sjer Niðja sonu »drekka hinn hreina mjöð hornum fullum«, sje nokkurs konar norrænn *limbus patrum*. Líklega hefur höf. hjer

haft í higgju Völuspá 28. er.: *Alt veitk, Óðinn, hvar þú auga falt í enum mæra Mímis brunni; drekkr mjöð Mímir morgin hverjan af veði Valföðrs.* Því liggur nærri að halda, að *brunnr Baugregins* sje Mímisbrunnur og *Baug-regin (-inn?)* = Mímir, enda er þetta forn skíring og nú síðast haldið fram af Hj. Falk 36.—37. bls. Jeg efast þó um, að hún sje rjett. Mjer þikir ekki líklegt, að Sólarljóðaskáldið hafi sett Mími, hinn forna jötun, til að ráða firir hinum norræna *limbus patrum.* Til þess gat hann varla kjörið annan enn Baldr hinn góða. Og nafnið *Baug-regin (-regin* hvorugsk. = ‚goð') á ágætlega við Baldr, því að hann er beint kallaður *‚eigandi Draupnis'*, sem Óðinn leggur á bálið með honum, þegar hann er brendur (Sn.E. I 260. og 176.—178. bls.), enn af Draupni drupu 8 hringar jafnhöfgir níundu hverja nótt. Í Baldrs draumum 6.—7. er. sjest það á spurningu Óðins og svari völunnar, að bæði baugar og mjöður bíður Baldrs í sölum Heljar *(Hveim eru bekkir baugum sánir, flet fagrliga flóið gulli? — Hér stendr Baldri of bruggin mjöðr, skírar veigar, liggr skjöldr yfir).* Þessi staður virðist sjerstaklega hafa vakað firir höf., þar sem hann setur Baldr ifir mjöðinn í undirheimum. — *Niðja synir* koma *norðan*, og er það eðlilegt, ef hjer er um sjerstakan norrænan *limbus patrum* að ræða (part af hinum almenna?). — Talan *sjau* er uppáhaldstala í Sólarl.: sigurheimarnir eru sjö ($52^3$), ráðavísurnar sjö (sbr. $32^3$), sólarvísurnar sjö — og *Niðja synir* sjö. Aðra skíring get jeg ekki gefið á því atriði. — Skáldið hefur ekki hugsað sjer líf hinna heiðnu forfeðra í undirheimum sem dapurt eða gleðisnautt; þeir gamna sjer við mjöðinn eins og Einherjar í Valhöllu við Heiðrúnardropa (Grímnism. 25). Enn nú hverfur kvæðið að hinum reglulega kvalastað. Hinn norræni *limbus patrum* er 1. »hringur« í helvíti eftir Sólarl. eins og tilsvarandi *limbus* hjá Dante.

$57^{1-3}$: kirð sú, sem hjer kemst á, er auðsjáanlega hugsuð sem mótsetning við vængjaskak djöflanna í 54. er. og bein afleiðing af því, að Kristur *teymir* þá ($55^3$). Kirðin stendur, þangað til sálin er komin inn í hinn

reglulega kvalastað, þá heirir hún *grimmligan gný.* — $57^{4-6}$: *svipvísar konur* eru bersínilega giftar konur, ótrúar mönnum sínum; ef leshætti handritanna er haldið í 4. vísuorði *(sínum mönnum)*, kemur fram sú hugsun, að hinir saklausu, sviknu eiginmenn eigi að jeta moldina, sem konur þeirra mala, enn það væri hróplegt ranglæti. Sambandið sínir, að hjer hefur frá upphafi staðið orð sem þíðir ‚friðill'. Því hef jeg sett *munum* firir *mönnum*, sbr. Hávam. $96^{3}$: *vættak mins munar* (um ástmeina) og Baldrs dr. $12^{5-6}$: *meyjar es at muni gráta.* Breitingin er væg, því að bæði orðin *(mönnum* og *munum)* má skammstafa alveg eins (sjá Kålund, Palæogr. Atlas, Oldn.-isl. Afdeling, II. Serie X. bls.). — $57^{6}$: *mólu:* að mala er verk ambátta, sbr. Gróttasöng o. fl. dæmi.

58: framhald um refsing ótrúrra kvenna. Falk heldur, að hjer sje átt við konur, sem fremja tröllskap, enn jeg finn hvergi andað í þá átt í þessum tveim vísum. — $58^{1}$ *steina:* ɔ: kvarnarsteina.

59. er. virðist vera um refsing karlmanna, sem hafa tælt konur til líkamslosta. Á það bendir *meiddir*, sem hjer líklega þíðir s. s. ‚geltir' (sbr. Sturl.[3] I $485^{17}$, $485^{21}$ [*meiðsl*], $487^{10}$ [*meiðing*], II $217^{4}$), og *rýgjar blóði roðin,* ɔ: roðin í blóði þess kvennmanns, sem hver hafði tælt — refsingin lagar sig eftir sindinni, »með hinu sama verður manninum refsað, sem hann sindgar með« (Spek. bók 11, 16). *Rýgr* táknar hjer als ekki tröllkonu eða galdranorn (sbr. við $22^{3}$).

60: um refsing þeirra, sem ekki meðtaka hina helgu kvöldmáltíð *(þjónustu)*, áður enn þeir deija. — $60^{2}$: *moldar gengna*, sbr. Grógaldr $2^{5}$: *er til moldar er komin.* — $60^{4-6}$: *heiðnar stjörnur* — *fáðar feiknstöfum* eru kinjastjörnur líkt og *gýgjar sól* $51^{4}$, enn um leið tákna þær að sálirnar sjeu útskúfaðar úr hóp kristinna sálna; þær eru málaðar *(fáðar)* ógurlegum kinjarúnum *(feiknstöfum)*, sem skjóta hinum píndu sálum skelk í bringu; í því felst refsing þeirra, því að eftir Elucidarius (Ann. f. nord. oldk. 1858, 163. bls.) er hræðsla ein af níu píslum helvítis (P. Kvad 155. bls.).

61: um refsing öfundsjúkra. — $61^3$: sbr. Hugsm. 64 (65). — $61^{4-6}$: rúnirnar eru merktar á brjósti þeim, af því að þar bjó lösturinn inni firir (P. Kvad 155. bls.).

62: um refsing þeirra sem »apast« (gera sig að öpum eða fíflum), er þeir sækjast eftir »þessa heims óheillum«, þ. e. hjegómlegu veraldar glisi, sem leiðir til glötunar; slíkir menn ráfa »*villir vegu*« (sbr. Hávam. $47^3$) í kvölheimum, af því að þeir viltust frá rjettum vegi í þessu lífi (P.).

63: um refsing ágjarnra manna. — $63^2$ *mörgum hlutum:* = með margskonar verknaði. — $63^3$ *annars eign:* sbr. Hugsm. $14^{4-5}$, $43^{4-5}$; *véla um ehð* þíðir annars ,að fást við ehð', enn hjer virðist það þíða ,að fara sviksamlega með ehð'. — $63^{4-6}$ *Fégjarnsborg* virðist tákna sjerstakan samastað (»hring«) firir ágjarna menn; *Fégjarn* sem borgin er kend við er víst Mammon (Hj. Falk 41.—42. bls.); þeir bera birðar af *blýi* í stað gullsins, sem þeir sóttust eftir; lík hugsun í Draumkvæðinu norska 39. er.

64: um refsing morðingja. — $64^3$ sbr. $1^{1-2}$. — $64^{4-6}$: eiturdrekar »*renna*« gegnum brjóst þeirra, eins og sverð þeirra gegnum brjóst þeirra manna, sem þeir drápu. — *rendu:* sbr. vísu Árna Magnússonar um dráp Þorbjargar ysju í Sturl.[3] I 407. bls.: *þar er brandr við rif rendi rauðr kerlingu snauðri.*

65: um refsing þeirra sem vanhelga hvíldardaginn með ónauðsinlegri vinnu; refsingin kemur niður á höndunum, sem unnu.

66: um refsing oflátunga. — $66^3$ *virðask:* »virða sig«, ,þikjast miklir', ,hreikja sjer', ,berast á'. — Refsingin kemur niður á klæðunum; það bendir til, að hjer sje sjerstaklega átt við »*mikillæti*« í klæðaburði.

67: um refsing ligara. Mjög lík hugsun í Fjölsvinnsmálum 45. er.: *Horskir hrafnar skulu þér á hám gálga slíta sjónir ór, ef þú þat lýgr* osfrv.

68: niðurlagserindi píslakaflans, setur fram í fögrum kjarnirðum siðalærdóm þann, sem í honum felst.

---

Í *6. kafla* segir sálin frá því, sem firir hana bar, þegar hún að lokum kom til himnaríkis.

69: umbun þeirra, sem hafa gefið til guðs þakka (til kirkna, klaustra osfrv.). Að þetta efni er sett first, bendir sterklega til, að höf. hafi verið klerkur.

70: umbun þeirra sem gáfu fátækum ölmusu. — $70^{4-6}$: textinn hefur ruglast, af því að afskrifarar settu inn *himna* (af *himinn)* firir *ymna;* við það raskaðist stuðlasetningin, sem menn reindu að bæta úr með því að setja *helgar* inn í 4. vísuorð. — *ymna skript:* hjer er víst átt við »engla ymnann« *Gloria in excelsis*, sem svo er nefndur af boðskap englanna (Lúkas 2, 14), sjá Stokkh. Hom. 122[22]: *En þá tók fjölði engla undir siðan ok sungu orð þessi, er nú heitir engla ymni: Gloria in excelsis.* — *helgar* á víst bæði við *bœkr* og *ymna skript* (nema *helgar* sje villa firir *helga?).*

71: umbun firir föstur.

72: umbun þeirra sem veita vegmóðum ferðamönnum beina. Slíkt þótti vænlegt til sáluhjálpar. Um 1100 stofna hjónin Tanni og Hallfríðr sælubú á Ferjubakka við Hvítá, þar sem mikil umferð var, og leggja svo firir, að sá maður, sem þar bír, skuli »ala alla þá menn, er hann higgur til góðs að alnir sjeu« (Ísl. Fornbrs. I 169. bls.). Á Kristbúinu að Keldugnúpi á Síðu skildi »ala alla þurfamenn og þá er fara skildra erinda« (Ísl. Fornbrs. I 201. bls.). Handritin hafa *móður* í 2. vo., enn það er bersínilega rangt — það er lítilla þakka vert og engra verðlauna í öðru lífi, þó að maður svelti ekki *móður* sína. Hugsunin hlítur hjer að vera hin sama, sem kemur fram í 1. dæmi, sjerstaklega í 4. erindi, því að þar er orðalagið mjög líkt og hjer, og þar er *móðr* líka haft í merkingunni ‚vegmóður‘.

73: umbun meinlætismanna. — *Helgar meyjar* sjá við 25. er. — *pína sjálfa sik:* sbr. Hugsm. 135. erindi.

72. og 73. erindi higg jeg annars hafi ranglega skift um sæti í handritunum. 73. er. (um meinlætismenn) er að efni til náskilt 71. er. (um föstuhald) og á best við næst á eftir því. Hins vegar virðast 72. og 74. er. eiga

að standa hvort á eftir öðru, því að bæði saman koma þau heim við efnið í 1. dæmi Dæmaþáttar (um Grepp). Mjög eðlilegt virðist, að röð erinda, sem birja alveg eins, geti raskast.

74: umbun þeirra, sem eru drepnir saklausir. — 74[1] *reiðir:* = vagnar; líklega hefur höf. hjer haft vagn Elíasar og himnaför hans (2. Kon. 2, 11) í huga (P. Kvad 157. bls.). Efnið í þessu minnir á afdrif Grepps í 1. dæmi (6.—7. er.) og Sörla í 5. dæmi (22. og 24. er.).

75: niðurlagserindi kaflans um umbun rjettlátra, bæn til heilagrar þrenningar að »skilja oss alla eimdum frá«, þ. e. leiða oss alla í himnaríkis sælu.



Í **Rúnaþætti** lísir höf. hinu ógurlega valdi höfuðsinda, er hann hugsar sjer sem fordæður *(Njarðar dætr)*, og þeim afleiðingum, sem þær hafa firir þá menn, sem beigja sig undir vald þeirra. Siðalærdómurinn, sem allur þátturinn stefnir að, felst í rúnaletrinu um Sváfr og Sváfrloga: Þeir sem drígja höfuðsindir, verða að vörgum í mans líki. Því kalla jeg þáttinn rúnaþátt. Hann minnir átakanlega á Rúnatal Hávamála, og higg jeg, að höf. hafi haft Hávamál firir augum, þegar hann rjeð af að hafa líka rúnaþátt í kvæði sínu.

Allar þær fordæður, sem nefndar eru í þessum kafla, eru bersínilega sambornar sistur eftir eðli sínu og allar hugsaðar sem dætur Njarðar. Að vísu eru þær Hringvör og Listvör (í 76. er.) ekki beint kallaðar Njarðardætur, enn nöfn þeirra eru steipt í sama mót og nafn Kreppvarar, sem er talin hin ingsta af Njarðardætrum í 79. er., og bendir það til, að Hringvör og Listvör sjeu tvær af þeim »sjö sistrum«, sem ekki eru nafngreindar í 79. erindi. Að svo sje, verður deginum ljósara, þegar þess er gætt, að sú fordæða, sem talin er næst þeim Hringvöru (í 77. er.), *Óðins kván*, sem *rœr á jarðarskipi móðug á munað* (líkamslosta, sbr. við 3. dæmi, 10[1]), er án als efa engin önnur enn hin norræna Venus, Freyja, sem »líkaði

vel mansöngur« og »gott er að heita á til ásta«, hún sem »snír hugum karla og kvenna til ásta« (Sn.E. I 96. og 114. bls.), hún sem er kölluð »fordæða meini blandin mjög« og hefur átt vingott við hvern einasta af Ásum (Lokasenna 30. og 32. er.); hún er hjer gerð að konu Óðins í stað Friggjar eins og í síðari ritum íslenskum, einkum í fornum rímum: t. d. er gullið kallað *Óðins kvánar* (= Freyju) *hvarma hverr* í Konráðs r. III 5 og í Skíðarímu kemur Freyja beint fram sem kona Óðins og er nefnd *Fjölnis víf* (sjá Skíðar. 174., sbr. 105., 108. og 112. er.). Sbr. Konr. Gíslason, Efterl. skr. II 200. bls. Enn Freyja var dóttir Njarðar, sem kunnugt er. Hún er því ein af þeim »sjö sistrum« sem ekki eru nafngreindar í 79. er., og hlítur þá að ganga sama ifir þær Hringvöru og Listvöru í 76. er.; þær eru líka Njarðardætur. — Í annan stað sjest það glögt á $77^{3-6}$ (*móðug á munað* osfrv.), að Freyja er hjer persónugervingur líkamslosta, sem var ein af höfuðsindunum. Enn þá hljóta sistur hennar, hinar Njarðardæturnar, að tákna hinar höfuðsindirnar. Svo skírði jeg 1913 og sama hefur P. dottið í hug (Kvad 160.—161. bls.). Höfuðsindirnar vóru oftast taldar sjö (t. d. í Skipan Páls erkibiskups Ísl. Fornbrs. II 750. bls., Leifum fornra krist. fræða, útg. Þorvalds Bjarnarsonar, 159. bls., og í Lilju 77.—78. er.), enn talan var als ekki ákveðin; stundum vóru þær taldar 8 (Stokkh. Hom. 61. bls.), stundum 9 (Alexanders s. 153.—156. bls.), alt upp í 11. Síðastnefndur staður úr Alexanders sögu er til mikillar skíringar öllum þessum kafla í Sólarl., eins og P. hefur bent á. Þar segir svo á 153. bls.: *Úti fyrir helvítis*[1]) *durum ok útan undir borgarveggjunum byggja þær drósir, er yfrit vald hafa hér á jarðríki.* Síðan eru »drósirnar« taldar með latínskum nöfnum og filgja íslenskar þíðingar: *Avaritia (ágirni), Superbia (drambsemi), Libido (lostasemi), Ebrietas (ofdrykkja),*

---

1) Í hinu latínska kvæði eftir Gautier de Chatillon (»meistara Galterus«), sem Alex. s. er þídd eftir, stendur hjer *Herebi* (þ. e. *erebi* af *erebus*, undirheimar, helvíti).

*Gula (offylli), Ira (reiði), Proditio*[1]) *(lymska), Detractio (áleitni), Adulatio (óeinurð).* Höf. Sólarl. virðist hjer beint hafa haft firir sjer þennan stað í Alex. s. eða hinu latínska frumriti hennar. Hann gerir »drósirnar« að dætrum Njarðar, auðsældargoðsins heiðna, því að auðurinn er undirrót ágirndarinnar, enn ágirndin er »rót alls ills«, móðir allra annara sinda (1. Tím. 6, 10).

76[1]: Hjer vantar stuðil. Bugge (og Hj. Falk) vilja bæta úr með því að rita: *Ljúgvör og Listvör | sitja í Læviss dyrum,* enn það er að irkja upp vísuna. Jeg rita *Hringvör,* sem stuðlar við *Herðis,* enn er þó í vafa, hvort jeg hef hitt hið rjetta. Firri liðurinn gæti verið dreginn af *hringr,* ‚sverð', og táknaði þá ófrið eða stirjöld. Óvíst er, hverja af höfuðsindunum Hringvör táknar, ef þetta er rjett; það gæti verið reiðin, því að hún veldur ófriði, gæti líka verið *detractio,* rógburður, því að róg og stirjöld eru að fornu skildar hugmindir. Annars er manndráp talið með höfuðsindum í Elucidarius (fotol. útg. 32. bls.), og liggur það í rauninni næst. Síðari liðurinn *-vör* er dreginn af tröllkvennaheitum *(Fjölvör, Leirvör, Svívör* o. fl.). — *Listvör* virðist dregið af *list* í merkingunni ‚vjelar', ‚svik' (svo Hj. Falk), og væri *Listvör* þá nafn á þeirri höfuðsind, sem Alex. s. kallar *Proditio.* Enn af því að *list* kemur varla firir í þessari merkingu, held jeg heldur, að nafnið sje afbakað firir *Lymskvör;* hafi það verið skrifað *Lẏscvör* í frumhdr., lá nærri, að 17. aldar afskrifarar læsu úr því *Listvör;* sbr. *lymska* = Proditio í Alex. s. — 76[2] *Herðir* virðist tákna ‚þann sem herðir hjörtun', ‚djöfulinn' (sbr. *hjörtu harðari steinum* Stokkh. Hom. 58[14], *herða hjörtu sín* Stjórn 437[21]); *Herðis dyrr:* sbr. *Dómvalds dyrr* 29[3], kemur í sama stað niður og *dyrr helvítis* á áðurgreindum stað í Alex. s. Ef til vill hefur »*Herebi*« í frumriti Alexanders sögu (sjá hjer að framan neðanmáls

---

1) Bls. 153[14] á víst að lesa: *þar hefz ok vel við Proditio, sú er leikr sér at lymsku ok prettum,* sbr. 156[7], þar sem *Proditio* kemur til sögunnar. Nafn hennar hefur auðsjáanlega fallið úr á bls. 153[14].

við 59. bls.) vakað firir skáldinu, þegar hann kallaði djöfulinn *Herði;* það er varla tilviljun að nöfnin eru svo hljómlík. — 76[3] *organs stóli á: organ* þíðir annars það sem nú er nefnt ‚orgel'. ‚Að sitja á organs stóli' er þá auðvitað sama sem að slá eða þeita organið. Annars táknaði *organum* á miðöldum líka eins konar ‚tvísöng', þannig lagaðan, að einn söng lagið, enn annar kvint eða kvart ofar eða neðar (Ambros, Geschichte der musik II 150.—151. bls.); ‚sitja á organs stóli' gæti þá þítt ‚að tvísingja'. Enn hvort sem hjer er átt við organslátt eða tvísöng, þá er ljóst að tilgangur drósanna er að lokka til sín mennina með sönglist sinni og draga þá undir sitt vald (sbr. Alex. s.), sem leiðir til dira helvítis. Höf. virðist hjer hafa haft í huga söng Sirenanna (Hom. Od. 12, 39 og 158, sbr. Hor. Sat. 2, 3, 14). — Annars minnir staðurinn á *rökstólana* í Völuspá og *þularstólinn* í Hávam. 111. — 76[4]: Leiðrjetting nauðsinleg sakir stuðlasetningar, og mjög líklegt, að getgáta Rasks *norna* hafi hitt á hið rjetta, sbr. hjer að framan á 47. bls. *Norna dreyri* táknar það sóttnæmi spillingarinnar, sem breiðist út frá »nornunum« til mannanna og vekur hjá þeim hatur *(fjón)*.

77: jörðin er hjer skoðuð sem eitt stórt skip, sem Freyja (= lostasemi) rær á; skipið fer þó eigi að eins firir árum, heldur líka firir seglum, sem hanga föst *(þruma)* á *þráreipum*, þ. e. reipum holdlegra físta; þau segl verða seint feld *(hlaðit)*, því að mennirnir losna seint við holdlegar fístir. — 77[3] *móðug:* ‚fíkin', ‚sólgin', leitt af *móðr*, karlk., sem táknar sterka geðshræring, hverju nafni sem nefnist, og þá einnig sterka girnd. —

78: hjer lætur skáldið föðurinn boða sini sínum ráðninguna á *hjartarhorninu*, þ. e. á rúnaletri því sem rist var á hjartarhornið, er Vígdvalinn bar úr haugi. Rúnir vóru oft ristnar á horn (Sigrdrífumál 6[4], Egill Skallagr. Lausav. 3, F. J. Skjalded. I B 43. bls.); önnur eða dípri þíðing felst varla í hjartarhorninu. Af *þér* í 2. vísuorði virðist mega ráða, að hornið sje í eign sonarins niðri á jarðríki. Af því að rúnaletrið, sem á eftir fer (í 79. og 80. er.), er auðsjáanlega grafletur ifir þá Sváfr og Sváfr-

loga ($80^3$), virðist ljóst, að haugurinn, sem hjer ræðir um, er haugur þessara tveggja hjer á jörðu, og að Vígdvalinn, sem (brítur hauginn og) ber hornið út þaðan, er hugsaður sem jarðneskur maður. Í nafninu Víg-Dvalinn virðist síðari liðurinn tákna rúnfróðan mann í líking við dverginn Dvalinn, sem er látinn rísta rúnir firir dvergum eða kenna þeim rúnir í Rúnatali Hávamála (Hávam. 143), enn firri liðurinn hefur ekki aðra þíðing enn þá að gera nafnið að karlmannsnafni í líking við *Vigfúss, Víglundr* og mörg fleiri. Ef þetta er rjett skíring, stiður nafnið mjög þá skoðun, að Rúnatal Hávamála sje firirmind Rúnaþáttarins í Sólarljóðum. Af því að faðirinn er dáinn og dvelur í himnaríki, hljóta *Sólkötlu synir* að vera einhverjir látnir menn, fjelagar hans hinumegin. P. heldur, að *Sólkatla* sje hin helga Jerúsalem og *Sólkötlu synir* samfjelag heilagra, og má vel vera, að það sje rjett. Enn líka getur verið, að *Sólkatla* sje hugsað sem nafn á látinni konu, margfróðri[1]) og góðri (það felst í *Sól-)*; verða þá *Sólkötlu synir* andaðir sinir þessarar margfróðu konu. Annars minna *Sólkötlu synir* sterklega á *Sólblinda synir* í Fjölsvinnsm. $10^3$.

79: hjer birjar rúnaletrið á því að segja, hver hafi rist rúnirnar, sem er altítt í rúna-áletrunum, enn aðalefni rúnanna kemur í næsta erindi. — *Baugveig* virðist tákna ágirndina *(avaritia)*, sbr. *Gullveig* í Völuspá 20; hún er talin elst Njarðardætra, því að ágirndin er rót allra sinda (sbr. áður). *Kreppvör* táknar líklega drambsemina *(superbia)*, eiginlega sú sem »fitjar upp á« efri vör, sem er drambs merki. Í 4. og 5. vísuorði ber síðara áhersluatkvæði stuðlana *(elzta : yngsta)*, og er það líklega með vilja gert; það gefur vísunni nokkurs konar þulu-blæ.

$80^1$ *Bölvi:* þessu orði hefur Bugge bætt inn í, og er það nauðsinleg viðbót sakir kveðandi og hugsanasambands. Stuðlasetningin fer betur, ef það er sett inn á

1) *Katla* kemur firir sem nafn á margfróðum eða fjölkunnugum konum, sbr. Eyrb. og Fóstbræðra sögu og Kötludraum í Ísl. gátum, þulum og skemtunum IV, 4.—15. bls.

undan, heldur enn á eftir, *hverju*. *Böl* táknar hjer ‚sind' (sbr. Konr. Gislason, Njála II 643.—644. bls.). Hugsunin er: þeir Sváfr og Sváfrlogi hafa drigt allar höfuðsindir. Nöfnin virðast leidd af *sofa* og tákna andvaraleisi þeirra fjelaga (sbr. *órækðar svefn* í Stokkh. Hom. $67^{11}$ og $151^{3}$). — Í síðari vísuhelmingnum felst siðalærdómurinn: Ef menn selja sig undir vald höfuðsinda, verða þeir að vörgum. Það er varga athæfi að »vekja blóð og sjúga benjar«, sbr. Völsungakv. (H. Hund. I) 37.—38. er.: *þú hefr etnar ulfa krásir . . . opt sár sogin með svölum munni* (brigsl til Sinfjötla, sem um hríð hafði verið í vargsham, sbr. s. st. $43^{3-4}$ og Völsungasögu 8. k.). Hugsunin er lík og í Sólarl. 31: *Úlfum glíkir* osfrv. — $80^{6}$: *undir* í hdrr. er að öllum líkindum skíring eða orðamunur við *benjar*, sem hefur slæðst inn í textann og á að falla burt (svo B. í útg. 1867). — *illum vana:* sbr. Sn.E. II 234. bls.: *synð spenr á sik illa venju;* Árni Jónsson, Guðm.dr. $39^{7-8}$: *áminnandi aptr at venda af ranginda venju langri.* — *ey:* ‚ávalt'; vafasamt, hvort það á við *sugu* eða við *illum.*

Jeg hef áður tekið það fram, að þessi vísa er hugsuð sem grafletur, sem Njarðardæturnar hafa »*ristit*« þeim Sváfrloga ($79^{2}$). Þetta er í líkingu talað. Án líkingar þíða orðin: það eru höfuðsindirnar allar níu, sem hafa gert þá fjelaga að þeim vörgum, sem þeir vóru (sbr. *Bölv hverju* $80^{1}$).



Nú kemur að lokum **niðurlag als kvæðisins** í 2 erindum. Þar er minst stuttlega á tilgang kvæðisins og nafn þess (81. er.). Þá kveður faðirinn son sinn með ósk eða spá um endurfundi hinumegin og endar á stuttri bæn firir lifendum og dauðum (82. er.).

$81^{1-3}$: Faðirinn, sem er dáinn, biður son sinn, sem er á lífi, að kveða kvæðið *fyrir kvikum*, þ. e. firir lifendum. Með því er gefið í skin, að kvæðið hafi að geima holl ráð firir lífið, kristilegar lífsreglur. — $81^{4}$ *Sólarljóð:*

nafnið virðist benda til hinna dírðlegu erinda fir í kvæðinu, sem lísa hinu hinsta sólarlagi og öll birja á *Sól ek sá;* nafnið er áminning til lifenda, að hugsa oft um dauða sinn og búa sig vel undir hann. — 81[5] *sýnask:* þ. e. ‚sína sig‘, ‚reinast‘ (ekki = ‚virðast‘).

82[3] *á feginsdegi fira:* sbr. Sverris s. 37. k. (Fms. VIII 98. bls.); þar segir Magnús konungur við Erling jarl, föður sinn, særðan til ólífis: »*Finnumsk á feginsdegi, faðir!*« *Feginsdagr* er *dies lætitiæ*, gleðidagur útvaldra, þegar þeir finnast eftir dóminn (P. Kvad 162. bls.). — 82[4–6]: Paasche vísar til firirbænarinnar firir dauðum í tíðabók kaþólsku kirkjunnar: *Requiem æternam dona eis, Domine!* Enn þá nær stendur þó firirbæn í Missale gothicum (frá 8. öld): *Tribue, quæsumus, ut viventes salutem, defuncti quietem consequantur sempiternam.* Hin fögru niðurlagsorð Sólarljóða virðast beint vera þídd eftir þeirri bæn (sbr. Baumgartner, Nordische fahrten, II, Island und die Färöer, 3. ausg., 285. bls. neðanmáls og Hj. Falk 54. bls.). Með þessari dírðlegu bæn klikkir kvæðið út. Við hana er engu að bæta; hjá henni verður alt smátt. Lengra hefur kvæðið aldrei verið. Vísa sú, sem það endar á í sumum handritum, er hjáróma og klaufaleg viðból frá síðari tímum. Að því má leiða mörg óiggjandi rök, enn jeg læt mjer nægja að taka það fram, að það líkist ekki Sólarljóðaskáldinu að klikkja út með því að »dásama« sjálfur sitt eigið kvæði, og að eintölumindin »*Sólarljóðs*«, borin saman við fleirtölumindina *Sólarljóð* í 81[4], kemur upp um falsarann.



Eftir efni sínu greinast Sólarljóð eðlilega í 4 þætti, sem hjer eru markaðir með firirsögnum, og er hver þáttur um sig ein samstæð og skipuleg heild.

Aftur á móti eru þættirnir fremur laust tengdir hver við annan, svo að sá þráður sem bindur þá saman, verður nokkuð á huldu og liggur ekki í augum uppi í firsta áliti.

Af þessu losi, sem í fljótu bragði virðist vera á uppistöðu[1]) kvæðisins, hafa ágætir vísindamenn viljað ráða, að sumir af þáttum kvæðisins væru síðari viðaukar eður og sjálfstæð kvæði, samtíða Sólarljóðum, sem ekki ættu neitt skilt við þau. S. Bugge vildi fella framan af kvæðinu bæði Dæmaþátt og Ráðatal (1.—32. er.), er hann taldi síðar við aukið. F. J. heldur, að Dæmaþáttur (1.—24. er.) sje sjerstakt kvæði, nokkurn veginn jafngamalt Sólarljóðum, og telur Rúnaþátt ásamt 54., 55. og 56. er. síðari viðbót; það sem eftir verður, þegar þessu er kastað burt, nefnir hann »hin eiginlegu Sólarljóð«. Enn þá nærgöngulli við kvæðið er þó Guðbrandur Vigfússon. Útgáfa hans í Corpus poët. Boreale I 202.—217. bls. er gott dæmi þess, hvernig ekki má fara með gamalt rit. Hann bír sjer til úr kvæðinu tvö sjerstök kvæði. Annað þeirra kallar hann »Sólarljóð«, og nær það ifir þriðja þátt kvæðisins og niðurlagserindin (33.—75. og 81.—82. er.). Hitt kvæðið kallar hann »The Christian's Wisdom«, og nær það ifir alt það af kvæðinu, sem ekki kemst firir í »Sólarljóðum« útgefandans og 2½ erindi úr Hávamálum(!) að auk.

Að minni higgju eru Sólarljóð, eins og þau eru til vor komin, eitt samstætt kvæði frá upphafi til enda, samið af einum og sama manni og laust við síðari íauka. Og þó að þættirnir, sem það er samsett af, sjeu nokkuð sundurleitir, þá má þó, ef vel er leitað, finna þann rauða þráð, sem gengur gegnum þá alla, sameinar þá og gerir þá að einni heild, enn það er hin siðferðislega (eþiska) stefna, sem einkennir kvæðið frá firsta til síðasta erindis. Þessi stefna velur sjer að eins mismunandi form. Stundum kemur hún fram í dæmisögum — svo í Dæmaþætti og ekki síður í »sólarsögu« sálarinnar af sjálfri sjer, um líf sitt og dauða og lífið hinumegin, sem er ekki annað enn ein stór fræðandi dæmisaga — stundum í beinum ráðleggingum eða kristilegum lífsregl-

1) Svo nefni jeg það sem kallað er útlendu nafni »komposition«, og er líkingin dregin af vefnaði.

um — svo í Ráðatali — stundum í líkingum — svo í Rúnaþætti um Njarðardæturnar. Enn sjálf stefnan er altaf söm við sig. Í öllu kvæðinu er ekki eitt einasta erindi sem ekki miðar að því að fræða kristna menn um, hvernig þeir eiga að lifa í þessum heimi, svo að þeir að lokum öðlist eilífa sælu með guði, og þetta á skáldið við, þar sem hann gefur í skin í niðurlaginu, að kvæðið sje ætlað lifendum ($81^3$: *skaltu fyr kvikum kveða).* Það er kristilegt lífsreglna og heilræða kvæði.

Höf. hefur orðið firir sterkum áhrifum af tveim kvæðum, sem setja fram heiðna lífsspeki, annað norræna, hitt klassiska. Þessi kvæði eru Hávamál og Disticha Catonis.

Endurminningar úr Hávamálum koma firir á einstökum stöðum í kvæðinu, ekki síst í 3. og 5. dæmi (sjá athugasemdir mínar hjer að framan við 12. og 19. er. o. fl. staði). Enn einkum hafa þó Hávamál haft áhrif á það form, sem Sólarljóðaskáldið gefur sínum kristilegu áminningum og lífsreglum. Þetta sínir sig first og fremst í bragarhættinum. Það getur ekki verið nein tilviljun, að höf. Sólarljóða hefur valið sjer ljóðahátt, hátt Hávamála, að irkja eftir, einkum þegar þess er gætt, að þau eru hið eina kristilega kvæði með þeim hætti. Í annan stað er auðsætt, að höf. hefur sniðið orðfæri sitt sem best hann gat eftir Hávamálum, og honum hefur tekist furðanlega að klæða sínar kristilegu hugmindir í búning, sem minnir á firirmindina. Loks hef jeg sínt það hjer að framan, að dæmisögur Hávamála hafa gefið höf. tilefni til að setja fram lífsreglur í dæmisögum og safna þeim saman í sjerstakan þátt, sem jeg kalla Dæmaþátt, enn fremur, að Ráðatal Sólarljóða á sjer firirmind í Loddfáfnismálum og Rúnaþátturinn að nokkru leiti í Rúnatali.

Hitt kvæðið, sem Sólarljóðaskáldið hefur haft til firirmindar, er Disticha Catonis, annaðhvort hið latínska frumrit eða hin íslenska þíðing, Hugsvinnsmál. Jeg hef hjer að framan í athugasemdunum við einstaka staði í Sólarljóðum bent á svo marga tilsvarandi staði í Hugsvinnsmálum, sem eru svo nauðalíkir, ímist að efni eða

orðfæri eða hvorutveggja, að hjer hlítur að vera eitthvert mjög náið samband á milli. Hj. Falk hefur á 57. bls. dregið saman í eitt marga slíka staði úr báðum kvæðunum, og mætti þó tína fleira til. Hann heldur, að Sólarljóðahöf. hafi haft firir sjer Hugsvinnsmál. Hjer við er það að athuga, að líkingarnar eru mjög oft ekki fólgnar í efni, heldur í orðfæri, og þessar líkingar virðast vera skáldinu alveg ósjálfráðar. Eðlilegasta skíringin á þessum ósjálfráðu líkingum virðist vera, að sami maður hafi þítt Disticha og ort Sólarljóð, og getur þá verið vafasamt, hvort Sólarljóðaskáldið hafi haft firir sjer sín eigin Hugsvinnsmál eða hið latínska frumrit þeirra, með öðrum orðum: hvort eldra sje, Hugsvinnsmál eða Sólarljóð. Samt sem áður hneigist jeg heldur að skoðun Falk's, að Sólarljóð sjeu ingri enn Hugsvinnsmál, og ræð jeg það einkum af einni af þessum ósjálfráðu líkingum, sem ekki hefur áður verið bent á. Það er einkennilegt við orðfæri beggja kvæðanna, að þau beita mjög oft firir sig atviksorðum, sem enda á *-liga,* og firir braglist þeirra, að þau setja þessi atviksorð langoftast í enda vísuorðs, ekki þó frumorðs (svo nefni jeg 1. og 4. vo. í ljóðahætti), heldur annaðhvort viðurorðs (svo nefni jeg 2. og 5. vo. í sama hætti) eða sjerorðs (3. og 6. vo.). Að þessu leiti taka Hugsm. og Sólarl. sig alveg út úr öðrum kvæðum með sama hætti. Í Eddukvæðum með ljóðahætti eru atviksorð á *-liga* mjög fátíð og eiga sjer ekki neitt ákveðið sæti í vísunni. Úr þeim man jeg ekki eftir fleiri dæmum enn þessum: *árliga* Hávam. 33[1] og *frœknliga* Helga kviða Hjörv., Hrímgerðarmál 1[4], hvortveggja fremst í frumorði, og *bráðliga* Fáfnism. 39[5], síðast í viðurorði. Úr öðrum ljóðaháttarkvæðum: *snarliga* Eiríksmál 5[2], síðast í viðurorði, *hyggiliga* Eyvindr, Hákonarmál 11[4], *ofarliga* Heiðreks gátur 34[4] (Skjalded. II B 246. bls.), bæði þessi fremst í frumorði, og loks *heimskliga* Vísur úr Gautreks s. 2[1], sem mindar frumorð út af firir sig.

Í Hugsvinnsmálum koma firir þessi dæmi:

a) atviksorðið stendur síðast í viðurorði: *iðuliga* 45[5], 48[2], 100[5] og 135a[5]; *bliðliga* 11[2], *þungliga* 51[2],

*fram(ar)liga* $58^2$, *rangliga* $66^2$; (*vandliga* $20^2$ er vafasamt).

b) atviksorðið stendur síðast í sjerorði: *iðuliga* $17^6$, *kunnliga* $5^3$ (eflaust rjettara enn *kynniliga*, sbr. útg. F. J. $6^3$).

c) atviksorðið stendur ekki síðast í vísuorði: *varliga* $9^3$.

Í Sólarljóðum finnast þessi dæmi:

a) atviksorðið stendur síðast í viðurorði: *vandliga* $28^2$, *harðliga* $37^2$, *grimmliga* $51^5$, *kynliga* (*kýmiliga* hdrr.) $66^5$, *hreinliga* $73^2$.

b) atviksorðið stendur síðast í sjerorði: *skírliga* $10^6$, *grimmliga* $14^3$, *þungliga* $39^6$, *daprliga* $58^3$, *meinliga* $61^6$, *nauðliga* $65^6$, *bjartliga* $69^6$, *hagliga* $72^6$.

c) atviksorðið stendur ekki síðast í vísuorði: *þarfsamliga* $5^3$, *sannliga* $15^3$, *tryggliga* $20^4$, *harðliga* $67^6$.

Varla get jeg hugsað mjer sterkari sönnun firir því, að Sólarljóð og Hugsvinnsmál sjeu eftir sama manninn, enn það, að þau skuli tvö ein halda svona hóp í þessu einkennilega atriði gagnvart öllum öðrum kvæðum með sama hætti. Enn ef vjer berum þau saman hvort við annað, þá sjest, að Sólarljóð eru lengra á leið komin í tíðkun þessara atviksorða. Að vísu eru áhöld milli kvæðanna um tíðleik atviksorðanna í niðurlagi viðurorða, og þar hafa Hugsvinnsmál jafnvel ifirtökin ifir Sólarljóð. Enn aftur á móti kemur það miklu oftar firir í Sólarljóðum enn Hugsvinnsmálum, að slík atviksorð standi síðast í sjerorði; þar eru 8 dæmi í Sólarljóðum gegn 2 í Hugsm. Þetta er mjög eðlilegt, ef Hugsvinnsmálahöfundurinn og Sólarljóðaskáldið er sami maðurinn, enn þó því að eins, að Sólarljóð sjeu ingri enn Hugsvinnsmál. Vjer sjáum á Hugsm., að höf. þeirra hefur haft tilhneiging til að bregða firir sig áðurnefndum atviksorðum í lok viðurorða og líka enn þó miklu síður í lok sjerorða. Með vaxandi aldri og æfingu í að irkja var hætt við, að þessi tilhneiging kæmist upp í vana. Þegar sami maðurinn síðar orti Sólarljóð, var það því vel skiljanlegt, að hann

ljeti sjerorðin oftar enda á slíkum atviksorðum enn í firra kvæðinu.

Það er fleira, sem sínir, að þessi tvö kvæði muni vera eftir sama manninn. Til þess tel jeg það, að bragarhátturinn er hinn sami, enn þó einkum, að sami andi gengur í gegnum bæði kvæðin. Í þeim báðum lísir sjer sami áhugi á siðferðislegum lífsreglum, klæddum í fögur og kjarnorð ljóð, og þó að Hugsvinnsmál sjeu að nafninu þiðing á heiðnum spakmælum, þá kemur þó víða fram í þiðingunni kristileg lífsskoðun alveg eins og í Sólarljóðum (sbr. útg. Gerings, formálann IX. bls.).

Vjer skiljum nú betur, hvernig Sólarljóð eru til orðin. Höfundurinn hefur án als efa verið klerkur. Jeg sje ekkert það í kvæðinu, sem mælir á móti því, heldur alt sem mælir með því (sbr. athugasemd við 69. er.), og ef það er hann sem hefur samið Hugsvinnsmál, hlítur hann að hafa verið latínulærður. Hann hefur þegar á unga aldri hneigst að lífsspeki og lesið Hávamál sjer til ánægju og fróðleiks. Í prestaskólanum eða klaustrinu hefur hann kinst Disticha Catonis, því að það rit mun hafa verið eitt af þeim sem mest var lesið af prestlingum (sbr. Sn.E. II 26. bls.). Þetta heiðna heilræðakvæði fjell honum svo vel í geð, að hann þíddi það í íslensk ljóð, sem hann nefndi Hugsvinnsmál. Nokkru, ef til vill löngu, síðar kom honum til hugar, að það væri þarft verk og mundi verða vel þegið, ef hann gæti gefið samtíð sinni kristilegt heilræðakvæði í líking við Hávamál og Hugsvinnsmál. Þetta varð til þess, að hann orti Sólarljóð. Að hann hafi haft Hugsvinnsmál eða frumrit þeirra í huga, þegar hann samdi kvæðið, sjest á umgjörð kvæðisins. Það er alt lagt í munn föður, sem kennir sini sínum lífsreglur kvæðisins (sjá 81[2]). Þessi umgjörð er bersínilega tekin eftir Hugsvinnsmálum (Disticha). Munurinn er að eins sá, að eftir Sólarl. vitrast faðirinn sini sínum í draumi, enn svo er ekki í Hugsvinnsm. Sólarljóð eru draumvitran. Þessa hugmind, enn örfátt annað, virðist skáldið hafa fengið úr leiðsluritum (visionslitteratur) miðaldanna. Úr Hávamál-

um tók skáldið hugmindina til Dæmaþáttar, Ráðatals og Rúnaþáttar, sem áður er sínt.[1])

Afstaðan við Hávamál og Hugsvinnsmál (Disticha) í sambandi við það, að kvæðið er draumvitran, skírir til fulls það los, sem virtist vera á uppistöðu Sólarljóða. Bæði Hávamál, eins og þau eru til vor komin, og Disticha eru sundurlausar hugleiðingar, og uppistaða Sólarljóða er hátíð hjá uppistöðu þeirra. Það er rjett, að í Sólarljóðum er hlje milli þátta líkt og í sjónleik og að nítt efni birjar með hverjum þætti. Enn skáldlegt rjettmæti þessara málhvílda og straumhvarfa helgast af því, sem ekki má gleima, að kvæðið er draumvitran. Kvæðið er sönn ímind draums, slær eins og hann á svipstundu úr einu efni í annað. Jeg sje því enga ástæðu til að vefengja eða útiloka neinn af þáttum kvæðisins. Dæmaþátturinn, sem flestir hafa hneixlast á, er að efni og formi í besta samræmi við það sem á eftir fer; 1. dæmið kemur að efni til saman við 72. og 74. er. (sjá

1) Þriðji þáttur kvæðisins, um líf og dauða og annað líf, er sá eini, sem ekki á sjer neina firirmind í Hávamálum, og er það ofur eðlilegt. Í heiðni vóru lífsreglur og spakmæli lítt miðuð við endurgjald í öðru lífi, heldur beindust að því að kenna mönnum verklega (praktiska) lífsspeki firir þetta líf. Því minnast Hávam. als ekki á endurgjald í öðru lífi. Enn með kristninni varð gagngerð breiting á afstöðu manna til annars lífs. Menn fóru að hugsa miklu meira um, hvað við tæki eftir dauðann. Hræðslan við refsingar annars heims og vonin um eilífa sælu hinumegin urðu hinar öflugustu hvatir til góðrar breitni í þessu lífi og hið sterkasta aðhald af hálfu klerkanna, sem beittu óspart firir sig ógnum helvítis til að vara menn við illu og verðlaunum rjettlátra í paradís til að laða menn að kenningum kirkjunnar. Það er því mjög svo eðlilegt, að Sólarljóðaskáldið gerir 3. þátt að meginkjarna kvæðis síns. Kristilegt heilræðakvæði hlaut að leggja langmesta áherslu á þetta efni. Af Eddukvæðunum er það eiginlega Völuspá ein, sem talar um hegning vondra manna og verðlaun góðra eftir dauðann (Vsp. 37 og 63). Jeg þori ekki að fullirða, að þessi erindi Völuspár hafi vakað firir Sólarljóðaskáldinu í þessum þætti, enn grun hef jeg um, að hið margendurtekna *sá ek (ek sá)* í Sólarl. sje sniðið eftir hinum margitrekuðu orðum völunnar í Vsp. *sá hón (sér hón)*, sem þar standa meðal annars í upphafi erindanna um endurgjald og umbun.

athugasemd við þau); sömu eða mjög líkir talshættir koma firir í Dæmaþætti og öðrum þáttum, t. d. *ræna fé ok fjörvi* $1^{1-2}$ og $64^{2-3}$, *kallaðr frá kvölum* $24^{6}$ og $45^{6}$; *munaðar ríki hefir margan tregat* $10^{1-2}$ minnir á *æ koma mein eptir munuð* $68^{6}$; sú tilhneiging skáldsins að smíða sjálfur eiginnöfn, sem kemur fram í Dæmaþætti (*Unnarr, Sævaldi* osfrv.), lísir sjer líka í öðrum þáttum (*Vánardreki, Glævaldr, Baugregin* í 3. þætti, nöfn Njarðardætra, *Sólkalla, Vígdvalinn, Sváfr, Sváfrlogi* í Rúnaþætti). Mælandinn í Dæmaþætti er bersínilega hinn sami dauði maður, faðirinn, sem eftirfarandi þættir eru lagðir í munn. Að hann er dáinn sjest glögt á því, að hann veit fullri vissu um afdrif þeirra manna, er hann segir frá, hinumegin grafar. Alt þetta, og þarmeð Dæmaþátturinn allur, sver sig í sömu ætt, til sama höfundar. Sbr. Hj. Falk 54. bls.

Á því virðist enginn efi, að Sólarljóðaskáldið hefur þekt Svipdagsmál. Því til sönnunar er 67. erindi um písl ligara, sem er sama efnis og Fjölsm. 45. er. (sjá athugas. við 67). *Alda heimr* í 41. er. minnir á *ljóðheima* í Grógaldri $2^{6}$: *ór ljóðheimum liðin* (sbr. *í kvölheima kominn* Sólarl. $53^{3}$) og *moldar genginn* $60^{2}$ á Gróg. $2^{5}$: *til moldar komin*. *Sólkötlu synir* $78^{3}$ svipar mjög til Fjölsm. $10^{3}$: *Sólblinda synir*, og nöfnin *Sváfr, Sváfrlogi* (og *Sváfaðr*) í $80^{3}$ (og $11^{2}$) til Fjölsm. $8^{3}$: *Sváfrþorinn* (afi Menglaðar), og ifirleitt virðist sú tilhneiging, sem Sólarljóðaskáldið hefur til að smíða eiginnöfn, vera runnin frá eða að minsta kosti alin af Fjölsvinnsmálum, því að þar er mikið af þess konar nöfnum, t. d. *Menglöð, Sólbjartr, Vindkaldr, Várkaldr* o. fl. mannanöfn og fjallsnafnið *Lyfjaberg* (sbr. *Nornastóll* í Sólarl.).

Um aldur Sólarljóða hafa menn ekki verið á eitt sáttir, og einkennilegt er, að því betur sem menn hafa rannsakað kvæðið, því lengra hafa menn fært aldurstakmörkin niður á við (Hj. Falk 56. bls.). Rosenberg og Keyser hjeldu, að kvæðið væri samið laust firir eða um árið 1000, þegar heiðnin var í fjörbrotum; Guðbrandur Vigfússon og A. Chr. Bang hugðu það vera frá lokum

11. aldar; Finnur Jónsson ætlar það vera samið seint á 12. öld, og nú heldur Hj. Falk því fram, að það sje ekki eldra enn frá miðri 13. öld. Jeg hef áður hneigst að skoðun Finns Jónssonar, enn því meira sem jeg hef fengist við kvæðið, því dípra sem jeg hef reint að krifja það til mergjar, því sannfærðari hef jeg orðið um það, að kvæðið væri talsvert ingra enn við Finnur Jónsson höfum haldið. Það hlítur að vera nokkrum árum ingra enn Hugsvinnsmál, sem áður er sínt. Nú eru Hugsm. varla eldri enn frá síðari helmingi 13. aldar, og er þá hæfilegt að setja Sólarljóð í lok sömu aldar. Í athugasemdunum hjer að framan við Rúnaþátt hef jeg drepið á það, sem P. benti til firstur manna, að höf. muni við samning þess þáttar hafa haft firir sjer staðinn um höfuðsinda-drósirnar í Alexanders sögu eða frumriti hennar Alexandreis »meistara Galterusar«. Alexanders saga virðist vera þídd af Brandi ábóta Jónssini árið 1262 í utanferð hans eftir boði Magnúss konungs Hákonarsonar (Gyðinga sögur, útg. Guðm. Þorlákssonar, 101. bls., sbr. Ísl. ann. 1262). Ef Sólarljóðaskáldið hefur haft þá sögu firir sjer, kemur það vel heim, að Sólarljóð sjeu ort seint á 13. öld, og jafnvel þó að það væri frumritið latínska, sem lá firir honum, þá er ekki víst, að það hafi komið til Íslands fir enn um það leiti sem Brandr þíddi kvæði Galterusar, því að það er ekki ort fir enn í lok 12. aldar. Hafi Sólarljóðahöfundurinn haft firir sjer Gunnlaugs sögu ormstungu, þegar hann samdi 3. dæmi Dæmaþáttar, eins og efnið virðist benda til, þá getur kvæðið ekki verið eldra enn frá síðustu árum 13. aldar, því að Gunnlaugs saga virðist vera samin seint á sömu öld (sjá ritgjörð mína Om Gunnlaugs saga ormst., Kh. 1911, 54. bls.). Enn vera má, að skáldið hafi þekt aðalefni Gunnl. s. af munnmælum einum, og þá fellur þessi röksemd niður. Til sama tíma benda og ingri orðmindir: *svikit* $6^6$ firir eldra *svikvit* er varla komið inn í málið fir enn á öðrum fjórðungi 13. aldar[1]); *utan* $44^6$ firir eldra *útan* er varla

1) Elsti kaflinn af AM. 645, 4°, sem að dómi Larsson's er skrifaður á árunum 1225—1250, hefur báðar þessar mindir.

eldra enn frá síðari helmingi 13. aldar. Ef orðmindin *gá* firir *ganga* er upphafleg í 25[6] (sbr. athugas. við þann stað), getur kvæðið varla verið ort fir enn nokkru eftir aldamótin 1300. Að kvæðið sje tiltölulega ungt, sjest og á því að það gerir Freyju að konu Óðins.

Þó að kvæðið sje ekki gamalt, er það einn af hinum skærustu gimsteinum bókmenta vorra. Í þeim gimsteini brotna ljósöldur útlendrar og innlendrar menningar, því að skáldið stendur með annan fótinn í kenningum kirkjunnar enn hinn í Hávamálum. »Röddin er Jakobs, enn hendurnar Esaús«. Hugsanir kvæðisins eru hákirkjulegar, rammkaþólskar, í besta samræmi við kenningar presta á dögum höfundarins, eins og P. best sínir, innfluttar frá Norðurálfu með kristninni. Enn búningur hugsananna, bragarhátturinn, orðfærið, í einu orði listin, er spunnin af rammíslenskum toga, sem á upptök sín lengst aftur í heiðni, í spakmælakveðskap heiðninnar, í Hávamálum. Fornskáldakveðskapurinn hafði þegar firir löngu gengið í þjónustu kirkjunnar, eins og sjest á hinum mörgu helgikvæðum. Nú, í Sólarljóðum, tekur kirkjan Eddukveðskapinn í þjónustu sína, því að Sólarljóð eru kristilegt Eddukvæði, kristileg Hávamál, og hefur kvæðið því ekki alveg ófirirsinju verið tekið inn í Eddukvæðaútgáfur.

Engum nema Guðbrandi Vigfússini hefur, svo að jeg viti, dottið í hug að efast um, að Sólarljóð væri til orðin á Íslandi. Þar, og hvergi nema þar, eru þau skilirði firir hendi um það leiti, sem kvæðið er til orðið, sem þarf til að skapa slíkt kvæði. Þar, og hvergi nema þar, má um þær mundir gera ráð firir þeirri djúpu þekkingu og þeim næma skilningi á list hins forna spakmælakveðskapar, sem kvæðið ber vott um. Handritin eru líka öll íslensk. Þjóðsaga, sem rekja má til ofanverðrar 17. aldar, eignar Sæmundi fróða kvæðið, enn hún fellur um sjálfa sig, því að kvæðið er miklu ingra enn frá dögum Sæmundar.

Því miður verður víst aldrei leist úr þeirri gátu, hver sje höf. þessa dírðlega kvæðis, enn með kvæðinu hefur hann markað sjer sæti í fremstu röð meðal íslenskra skálda. Að orðsnild og háfleigu ímindunarafli á hann sjer

fáa líka. Hin gullfagra lísing á sólarlaginu í 39.—45. erindi er eins dæmi í hinum fornu bókmentum vorum[1]). Jeg hef svift þessa lísing nokkru af þeim dularfulla blæ, sem eldri skírendur höfðu lagt ifir hana, enn við það nítur hún sín enn betur sem náttúrulísing. Ágætlega hefur P. (Kvad 167.—168. bls.) líst þeirri snild, sem kemur fram í kvæðinu. Hann setur þar Sólarljóð á bekk með Völuspá og Lilju. Lengra verður ekki jafnað, enn að minni higgju er sá samjöfnuður fullkomlega rjettmætur.

Að endingu leifi jeg mjer að benda listamönnum vorum, tónskáldum, málurum og mindasmiðum á þau verkefni, sem bíða þeirra í Sólarljóðum. Varla get jeg hugsað mjer fegurra efni í íslenskt *oratorium* enn Sólarljóð. Og eru ekki hinar mörgu mindir, sem kvæðið bregður firir hugskots augu vor, eins og skapaðar til að íklæðast holdi og blóði af íslenskri list? Jeg hef það traust til íslenskra listamanna, að þeir láti ekki þennan fjársjóð ónotaðan. Jeg sje í anda næstu útgáfu Sólarljóða prídda mindum, gerðum af meistarahöndum.

---

1) Sbr. Th. Hjelmkvist: Naturskildringarna i den norrøna diktningen 121.—122. bls.: »Solstroferna innehålla den mest stämningsfulla teckning af aftonens skönhet, som finnes i norrön litteratur«.



## Leiðrjettingar.

Í útgáfu þessari hef jeg gert greinarmun á æ og œ bæði í texta kvæðisins og í tilvitnunum til þess í athugasemdunum. Ef Sólarljóð eru ekki eldri enn frá lokum 13. aldar (sbr. 72.—73. bls.), er þetta miður rjett, því að um þær mundir eru þessi hljóð runnin saman. Ónákvæmni í greiningu þessara stafa hef jeg orðið var við á bls. $9^{8}$: sætan les sœtan.

Á bls. $25^{8}$ og $25^{15}$ hefur misprentast *er* firir *es*.

$63^{25}$ les *Bölvi*

# ÞEGAR REYKJAVÍK VAR FJÓRTÁN VETRA

## BROT ÚR SÖGU REYKJAVÍKUR

EFTIR

**JÓN HELGASON**

MEÐ ÞREM MYNDUM OG EINUM UPPDRÆTTI

[SAFN TIL SÖGU ÍSLANDS OG ÍSL. BÓKMENTA V NR. 2]



REYKJAVÍK — PRENTSMIÐJAN GUTENBERG — 1916

# Formáli.

Um allmörg undanfarin ár hefi ég varið nokkuru af tómstundum mínum til þess að kynna mér sögu Reykjavíkurbæjar á eldri tíð. Hefi ég sérstaklega gefið mig að tímabilinu frá því er bærinn okkar fær kaupstaðarréttindi fram að miðbiki 19. aldar.

Einn árangur þessara eftirgrenslana minna er þessi litla ritgerð, sem hér birtist. Hún er að stofninum til fyrirlestur, sem ég flutti hér í bænum á næstliðnum vetri, og á hún að gefa mönnum nokkurn veginn áreiðanlega hugmynd um útlit bæjarins á morgni 19. aldar. Til þess lítur fyrirsögnin »*Þegar Reykjavík var fjórtán vetra*« og er með því umgerð ritgerðarinnar ákveðin. Hér er því ekki um neina Reykjavíkur-sögu að ræða, heldur um lítið brot úr sögu, sem auðskilið er þegar þess er gætt, að meginhluti bæjarins byggist ekki fyr en eftir þann tíma. Auðnist mér aldur og heilsa til að halda áfram rannsóknum mínum á þessu sérstaka efni, þá er það ásetningur minn, að láta ekki staðar numið við þetta litla brot. En þar sem þessi er ásetningur minn, hefi ég ekki hirt um, að þessu sinni, að hafa myndirnar fleiri í ritgerð minni en þar eru, enda er á þessum ófriðartímum öll bókagerð þeim kostnaðar-erfiðleikum bundin, að hlífast verður sem mest við allan aukakostnað.

Eðlilega er mönnum forvitni á að vita, hvaðan ég hafi allan þann fróðleik, sem hér er á borð borinn. Þeirri spurningu er fljótsvarað. Hann er mestmegins grafinn upp úr þeirri, mér liggur við að segja, óþrotlegu gullnámu fróðleiks og þekkingar á sögu þjóðar vorrar, sem vér eigum þar sem er *þjóðskjalasafn* vort. Úr skjalasöfnum stift-

amtmanna, landfógeta og bæjarfógeta, úr bréfabókum, þingbókum, dómabókum, uppboðsbókum, veðmálabókum, manntalsbókum, úr kirkjubókum og sálnaregistrum, úr skýrslum um verzlun og siglingar o. s. frv., er meginhluti efnisins samandreginn. Ég hefi ekki hirt um að vísa til skjalasafnsheimilda að þessu sinni nema sem allra minst, en til prentaðra heimilda hefi ég vísað allnákvæmlega í neðanmálsgreinum.

Reykjavík 31. maí 1916.

---

Ég hefi sett ritgerð þeirri, sem hér fer á eftir, yfirskriftina »Þegar Reykjavík var fjórtán vetra«. Er sá aldur miðaður við árið 1787, þó alls kostar nákvæmt sé það ekki. Tilskipanirnar um hið takmarkaða verzlunarfrelsi Íslandi til handa voru gefnar út 18. ág. og 17. nóv. árið áður, en öðluðust gildi frá 1. jan. árið eftir. En með verzlunarfrelsinu, þótt takmarkað væri, hefst saga Reykjavíkur-kaupstaðar. Ég hefi valið 14 ára aldurinn svo sem það aldursskeið, er segja má um, að kaupstaðar-sjálfsmeðvitundin sé nokkurn veginn vöknuð og nokkur reynsla fyrir því fengin, að hinn ungi kaupstaður ætli að ná þeim vexti og þrifum, er samsvari þeirri ákvörðun hans að verða höfuðstaður landsins.

Því verður þá ekki heldur neitað, að vöxturinn hefir verið allhraðfara þessi fjórtán fyrstu aldursár höfuðstaðarins, enda þótt ekki verði sagt, að íbúunum hafi fjölgað tiltakanlega á þessum árum. En þetta mun hafa sínar ákveðnu orsakir. Orsakirnar eru vafalaust hin mikla óáran, sem gekk yfir land vort síðasta hálfa mannsaldur 18. aldarinnar og gerði alla framfærslu manna svo erfiða, einkum við sjávarsíðuna, og óvenju mikill manndauði á þeim bágindaárum.

Til þess nú að gera sér sem glegsta grein fyrir vexti bæjarins þessi fyrstu fjórtán ár, ber nauðsyn til að renna augunum yfir kaupstaðinn á fæðingarári hans, sem ég tel hér 1787, þótt ekki sé alveg nákvæmt af áður tilgreindum ástæðum.

Lengra aftur í tímann hirði ég ekki um að fara. Saga Reykjavíkur næsta mannsaldurinn fyrir 1787 er að réttu lagi ekki annað en saga Reykjavíkur-»innréttinganna«, þ. e. verksmiðju-fyrirtækisins, sem Skúli landfógeti Magnússon fékk komið hér á fót með óþrotleg-

legum dugnaði sínum og bar fyrir brjósti mestallan síðari hluta æfi sinnar. En sögu innréttinganna eigum vér að sumu leyti þegar skráða í ágætu riti, sem flestir söguvinir vor á meðal hafa lesið[1]). Fyrir þann tíma aftur, er innréttingarnar komust á fót, fara tiltölulega mjög litlar sögur af Reykjavík, þótt hún væri stór jörð og góð og vafalaust vel setin lengst af.

Árið 1787 er öll bygð Reykjavíkur að heita má saman komin vestur undir Grjóta-brekkunni fyrir vestan kvosina, þar sem nú heitir Aðalstræti. Þar höfðu innréttingarnar verið reistar í upphafi, tvær nokkurn veginn hliðstæðar húsaraðir milli hafnarinnar að norðan og Tjarnarinnar að sunnan. Hús þessi tilheyra öll innréttingunum, að undan teknum 4—5 húsum nyrzt í götunni, sem tilheyra kongsverzluninni, sem þar hefir þá verið rekin sjö undanfarin ár, og litlu húsi rétt fyrir austan þau, Fálkahúsinu. Spölkorn austar með ströndinni stendur ljótur og fallinn moldarkofi. Eiga innréttingarnar hann og er það *Reipslagarahúsið* svonefnda (Fabriqve-hus nr. 10). En milli þessa moldarkofa að austan og Fálkahússins er Reipslagarabrautin með stöngum sínum og hjólum, þar sem nú er vesturhluti Hafnarstrætis, frá Pósthússtræti að Veltusundi. Fyrir sunnan brautina er hlaðinn mikill steingarður, aðallega til varnar mót sjávargangi, og nær hann alla leið austur að læknum skamt þar fyrir ofan sem lækurinn fellur til sjávar. Fyrir sunnan steingarð þennan liggur mikill og sléttur völlur, þó lítt grasgefinn, alla leið suður að Tjörninni. Nefnist hann einu nafni *Austurvöllur*, þótt syðsti hluti hans beri líka sérstakt nafn, Tjarnarvöllur. Austurvöllur er þá minst sexfalt stærri en nú er hann. Er hann einn hluti Reykjavíkur-túnsins og hefir kaupmaðurinn og aðalforstjóri innréttinganna — sem nú er einn og sami maður — afnot hans. Á elzta Reykjavíkur-

1) Jón Jónsson dósent: Skúli landfógeti Magnússon. Reykjavík 1912.

uppdrættinum, sem ég hefi séð, er völlurinn þá líka kallaður »Köbmandens Eng«[1]).

Byggingar eru alls engar á þessum mikla velli. Aðeins er farið að undirbúa dómkirkjubygginguna þar í suðurjaðri vallarins, næst Tjörninni, þar sem hún skerst lengst inn á völlinn til norðurs.

*Sóknarkirkjan* gamla stendur enn vestan til í kirkjugarðinum, mitt á milli Litunarhússins og Smiðjunnar (þar sem nú er Herkastalinn og Ásbyrgi) að sunnan og aðalhúss innréttinganna (forstjóra- og kaupmannsbústaðarins, þar sem nú er Brauns-verzlun) að norðan, beint austur af Lóskurðarstofunni (þar sem nú er klæðskerabúð H. Andersens). Umhverfis kirkjuna liggja á þrjá vegu öll helztu hús innréttinganna.

Reykjavíkur-kirkja hefir þá fyrir nokkuru verið dubbuð til dómkirkju, því að bundið hefir verið fastmælum, að Skálholtsstóll flytjist til Reykjavíkur við næstu biskupaskifti, og latínuskólinn er þegar kominn þangað suður og skólahús reist handa honum á Hólavelli. En svo fornfáleg er Reykjavíkur-kirkja orðin, að búist er við að hún sligist alveg ofan í grunn undir tignarheitinu »dómkirkja«. Stjórnin hefir því, eftir allmiklar bollaleggingar um málið, komist að þeirri niðurstöðu, að ekki megi minna vera en að dómkirkjan sé úr steini. Kostnaður við smíði hennar hefir verið áætlaður nál. 6250 dölum auk vinnulauna. Í fyrstu hafði verið talað um að taka sjóð Skálholts-dómkirkju, er þá nam 2000 dölum, og verja til hinnar nýju dómkirkju í Reykjavík. En ekki veit ég, hvort það hefir verið gert þegar til kastanna kom og auðsætt var, hve skamt sjóðurinn mundi hrökkva.

Reykjavíkur-bæjarhúsin gömlu hafa þá að líkindum verið löngu horfin. Dagar þeirra hafa verið taldir

---

1) Uppdráttur þessi er til á landsbókasafninu, en er að öðru leyti mjög svo ófullkominn og illa gerður. Hver gert hefir, veit ég ekki.

þegar innréttingarnar voru settar á stofn. Fyrir hinum nýju húsum hafa gömlu húsin orðið að þoka.

Hvar hafa þau bæjarhús staðið?

Mér er næst geði að ætla, að þau hafi legið í beinni röð frá austri til vesturs, frá útnorðurhorni kirkjugarðsins upp undir Grjótabrekkuna fyrir vestan, þ. e. yfir þvert Aðalstræti, sem nú er, frá húsi Brauns-verzlunar upp að húsi Stefáns hins oddhaga Eiríkssonar. Eftir þeirri venju, sem verið hefir lengst af hér á landi með tilhögun húsaskipunar á kirkjustöðum, hefir reglan verið sú, að framstafn kirkjunnar horfði við manni á aðra hönd, er komið var út úr bæjardyrum. Nú hefir framstafn kirkjunnar hér vitanlega snúið út að Aðalstræti, sem nú er. Eins má gera ráð fyrir, að bæjarhúsin hafi ekki verið fyrir sunnan kirkjuna, því að þá hefði annaðhvort kirkjan staðið að húsabaki, sem hvergi tíðkast, eða bæjarhúsin horft mót norðri. Hitt er margfalt sennilegra, að þau hafi legið fyrir norðan kirkjuna og vestan. Þá hafa bæjarhúsin horft mót suðri og sólu, en snúið bakinu með húsagarði og heygarði móti norðanáttinni, sem gera má ráð fyrir, að ekki hafi verið hlýrri þá hér um slóðir en nú er hún. Loks er eitt atriði, sem mér virðist styðja þá skoðun mína á legu bæjarhúsanna, sem hér hefir verið haldið fram, að bæjarhúsa-röðin hafi legið frá austri til vesturs: Eitt af húsum innréttinganna, upphaflega íbúð spunakvenna (»Logement for Spindersker«), er lá áreiðanlega þar sem nú er Grjótagata nr. 4 (hús Stefáns Eiríkssonar), er í öllum upptalningum innréttinga-húsanna kallað »Skálinn« (»Skavlen« eða »Skalen«). Hvernig stendur á því nafni? Öll hin húsin eru venjulega auðkend tölustöfum (»Fabriqve-hus Nr. 1«, »Fabr.hus Nr. 2« o. s. frv.) og til nánari skýringar sett í svigum aldönsk heiti (»Directörens Hus«, »Kontor- og Magazinhus«, »Rebslagervaaning«, »Overskærerstue« o. s. frv.); en þetta hús eitt ber hið íslenzka heiti »Skálinn«. Mér virðist liggja næst að ætla, að svo standi á því, að þetta hús hafi upphaflega verið eitt af bæjarhúsunum gömlu (vestasta húsið)

og verið nefnt þessu hér á landi svo algenga nafni, en nafnið síðan loðað við húsið eftir að það var orðið spunakvennahús innréttinganna, eða þau hús, er seinna risu á sama grunni. En þetta hús lá frá norðri til suðurs. Sé nú tilgáta mín rétt, að Skálinn hafi upphaflega verið eitt af bæjarhúsunum, þá hafa þau sennilega einnig legið frá norðri til suðurs og myndað samanhangandi húsaröð frá austri til vesturs, með heygarði að húsabaki. Þó er auðvitað engan veginn loku fyrir það skotið, að þeir geti haft eitthvað til síns máls, sem, eins og t. d. Eiríkur prófessor Briem,[1]) ætla, að Reykjavíkur-bæjarhúsin hafi horft mót austri og húsaröðin legið frá norðri til suðurs, vestanvert við Aðalstræti, þótt mér bæði vegna legu kirkjunnar, vegna þess hvernig Skálinn sneri og vegna norðanáttarinnar þyki hitt sennilegra. En í sjálfu sér skiftir þetta atriði ekki miklu máli.

Innréttinga-húsin þarna í kringum kirkjuna eru ýmist timbur- eða torfbyggingar. Öll aðalhúsin (íbúð forstjóra og kaupmanns, íbúð bókhaldara og undirkaupmanns, aðalvefnaðarhúsið, Spunastofan og Lóskurðarstofan) eru úr timbri gerð og sum þeirra með múruðum binding. Minni húsin aftur öll úr torfi. Vér viljum renna augunum yfir þessi hús, sem árið 1787 standa þarna í kringum kirkjuna og kirkjugarðinn. Fyrir austan götuna og norðan kirkjuna er *bústaður forstjórans og kaupmannsins* (Fabriqve-hus Nr. 1), allmikið hús með háu risi, og fyrir norðan það fjós eitt mikið (Fabr.hus Nr. 18), en fyrir austan heygarður og eitthvað af minni húsum úr torfi.' Fyrir vestan götuna, andspænis þeim, eru tvö allstór hús áföst eða því sem næst. Nyrðra húsið er *íbúð undirforstjóra og bókhaldara* (Fabr.hus Nr. 2, venjulega nefnt *Kontor- og Magazinhus)*, en syðra húsið er *Vefnaðarstofan* (Fabr.hus Nr. 3). En að baki þessum tveim timburhúsum er langt og mjótt moldarhús. Það er *Skálinn*, upphaflega íbúð

1) Eirikur Briem: »Landnám Ingólfs« í Árbók Fornleifafélagsins 1913.

spunakvenna (Logement for Spindersker eða Fabr.hus Nr. 7). Fyrir sunnan þessi hús liggur stígur upp eftir brekkunni upp í Grjótahverfið, en fyrir sunnan stiginn þessi þrjú hús hvert suður af öðru: *Spunastofan* (Fabr.-hus Nr. 4), *Lóskurðarstofan* (Fabr.hus Nr. 5, sem jafnframt er bústaður »assistenta«) ásamt útihúsi (Fabr.hus Nr. 6) og syðst *Ullarstofan* (Fabr.hus Nr. 8 á horninu á Aðalstræti og Túngötu, sem nú er). Snúa þessi þrjú hús öll austurgafli fram að götunni og eru býsna mikil hús. Hið síðasttalda er torfbygging, en hin úr tré. Fyrir suðurenda götunnar (lítið eitt sunnar en Herkastalinn er nú) er *Litunarhúsið* (Fabr.hus Nr. 14) ásamt geymsluhúsi (Fabr.hus Nr. 15), en austur af því aftur *Smiðjan* (Fabr.hus Nr. 11, þar sem nú er Ásbyrgi). Suður af þessum tveim síðastnefndu býlum liggja fjögur smærri býli, ætluð ýmsu verkafólki innréttinganna: *Íbúð reipslagara* (Rebslagervaaningen, Fabr.hus Nr. 21), *Lóskerabýlið* (Overskærervaaningen, Fabr.hus nr. 23), *Vefarasveinabýlið* (Fabr.hus Nr. 22) og *Beykisíbúðin* (Bödkerværelserne, Fabr.hus Nr. 12). Öll þessi sex hús, sem nú hafa verið nefnd, eru torfbyggingar. Þá eru enn ótalin af húsum innréttinganna tvö geymsluhús fyrir vestan götuna norður af íbúð undirforstjóra, annað úr tré (Fabr.hus Nr. 9), en hitt torfbygging talsvert norðar (Fabr.hus Nr. 16). Andspænis síðarnefndu húsi, en þó nokkuru sunnar (þar sem nú er Hotel Ísland), er tvílyft vörugeymsluhús nýtt, er tilheyrir kongsverzluninni, en norður af torfbyggingunni liggja *kongsverzlunar-húsin*, þrjú fyrir vestan götuna (»krambúðin« fremst við götuna, en tvö geymsluhús að baki lítið eitt vestar) og eitt (geymsluhús) fyrir austan götuna. Þar fyrir austan er *Fálkahúsið* með dálitlu útieldhúsi fyrir norðan.

Þá er lýst þeirri Reykjavík, er blasir við sólu þann mikla dag í sögu vorri, er hún af kongsins mildi fær kaupstaðarréttindi. Nefndin frá 1770 (»Landskommissionen« svo nefnda) á að hafa lagt það til í nefndaráliti sínu til stjórnarinnar, að hinum nýja kaupstað og væntanlega höfuðstað landsins, yrði gefið nýtt nafn, þegar þar

að kæmi, í tilefni af forfrömuninni, og hann þá helzt látinn heita í höfuðið á sjálfri hátigninni, Kristjáni VII Danakonungi. Ég læt með öllu ósagt, hvort mönnum hefði beint þótt vænna um, að höfuðstaðurinn okkar hefði borið t. d. nafnið »Kristjánsstaður« eða jafnvel »Kristjánsborg«. Mér fyrir mitt leyti þykir vænt um, að hann fékk að halda gamla staðarnafninu Reykjavík, og geri ég helzt ráð fyrir, að fleiri líti svipað á það mál.

En umhverfis hinn nýja kaupstað, bæði að austanverðu og vestan, blasa við oss allmörg býli, fyrir utan sjálfa kaupstaðarlóðina. Þó ekki öll. Því að nýfundið skjal, dags. 12. febr. 1787, innihaldandi útmælingu á kaupstaðarlóðinni, prentað sem fylgiskjal hér að aftan, undirritað af þáverandi sýslumanni Kjósar- og Gullbringusýslu, Vigfúsi Thórarensen í Brautarholti (seinna á Hliðarenda), ber það svo ótvíræðilega með sér, sem frekast verður á kosið, að konungur hefir ætlazt til þess, að *Arnarhóllinn* og alt það tún, sem honum fylgir og fylgja ber — en það var kongseign, eins og jörðin Reykjavík, — skuli leggjast til kaupstaðarlóðarinnar. En þetta skjal hefir einhvern veginn lagst fyrir og gleymst fljótt — eða stiftamtmenn vorir, hafi þeir þekt það, ekki hirt um að halda tilveru þess á lofti, svo notasælt sem jafnstórt tún var í sambandi við embættisbústaðinn. Og afleiðingin hefir því orðið sú, að kaupstaður vor hefir nú í senn 130 ár verið látinn kaupa háu verði af landsstjórninni hverja feralin í þessu túni, sem sannanlega var honum í upphafi gefið af konungi og því kaupstaðarins ótvíræð eign[1]). Auk býlanna á Arnarhólslóð: Arnarhólsins, með kotunum *Sölvahól* og *Arnarhólskoti* fyrir norðan sig og hinu mikla *Tugthúsi* í brekkunni fyrir sunnan og vestan, sjáum vér þrjú býli sunnar í hallanum niður að kvosinni og Tjörninni:

1) Í þessu gjafabréfi er og tilnefnd *Effersey* sem gefin kaupstaðnum, og henni það til ágætis talið, hve hentug hún sé til að setja þar upp vígi höfuðstaðnum til varnar! En í bréfi frá Rentukammerinu til Meldals amtmanns, dags. 13. sept. 1791, er Effersey tekin aftur.

*Þingholt, Stuðlakot* og *Skálholtskot* syðst. Þau tvö síðarnefndu eru bæði gamlar hjáleigur frá Reykjavík, en hið þriðja tómthúsbýli, grasnytjarlaust og miklu yngra, sem hefir dregið nafn sitt af þinghúsi hreppsins, er enn stendur þar lítið eitt neðar í hallanum, en hverfur nokkuru síðar. En á túnunum fyrir sunnan og vestan kaupstaðarlóðina liggja hinar hjáleigurnar, sem áður voru: *Melkot* syðst, þá *Melshús,* þá *Hólakot* (eða Hólkot), en mitt á milli þeirra, þar sem völlurinn er hæstur: *Hólavallarskólinn,* þá reistur fyrir tveim árum. Norðar á túninu sést *Landakot* á hátúninu vestast, og þar norður af tvö kot minni, *Skakkakot* og *Halakot,* en *Götuhúsin* lítið eitt austar og norðar, og *Grjótinn* næst kaupstaðnum. Frá Grjóta, sem nú er orðinn dálítið kotahverfi, norður að sjó, er engin bygð komin, og vestur með sjónum fyrir vestan kongsverzlunarhúsin, er heldur engin bygð, fyr en kemur vestur að *Hlíðarhúsum,* með hjáleigunni *Ánanaust* þar fyrir vestan. En spölkorn suður af þeirri hjáleigu er aftur *Sel,* með hjáleigunni *Bráðræði.*

Þá skal aftur horfið að umtalsefninu, »þegar Reykjavík var fjórtán vetra«, og reynt að gera grein fyrir því, hversu ræzt hefir úr þessum unga kaupstað á þessum fyrstu uppvaxtarárum hans, hvernig hann er útlits um það bil, er ársól nítjándu aldarinnar rís úr tímans djúpi.

Fyrir austan Reykjavíkur-læk má heita, að alt sé með kyrrum kjörum, eins og það var fjórtán árum áður.

**Arnarhóllinn** stendur þar ef til vill enn óásjálegri en nokkuru sinni áður, aumlegra kothreysi en svo, að nokkurum detti í hug, að þar hafi nokkuru sinni veglegri húsakynni verið. Og þó hefir svo verið án efa. Niðurlægingarstaða Arnarhóls hefst, þá er tugthúsið var sett á stofn þar í túnfætinum, og grasnytin öll undan honum dregin og lögð til tugthússins, embættismönnum þess til afnota. Áður höfðu búið myndarbændur á Arnarhóli. Á fyrri hluta 18. aldar búa þar þrír feðgar, hver fram af öðrum, *Tómas Bergsteinsson, Jón Tómasson* og

*Gissur Jónsson* lögréttumaður, meðal fremstu manna sveitarinnar á sinni tið. Í Jarðabók Árna Magnússonar (frá 1703) er Tómas talinn búandi á Arnarhóli í tvíbýli við Jón Bergsteinsson, er sennilega hefir verið bróðir hans. Tómas Bergsteinsson var móðurfaðir Sigurðar í Götuhúsum Erlendssonar (er síðar verður nefndur); er yfir höfuð mikil ætt Reykvíkinga frá honum runnin. Björg, dóttir Jóns Tómassonar, átti Guðmund Davíðsson í Hlíðarhúsum, og verður ættmóðir margra þeirra Hlíðarhúsamanna. Gissur lögréttumaður átti Silfu, dóttur Jóns sýslumanns Hjaltalíns[1]), er dvaldist hjá Gissuri síðustu æfiár sín og andaðist á Arnarhóli (1754). En nú má Arnarhóllinn segja: »mín höfuðprýði er niður fallin«. Þar hýrast í mikilli fátækt tvær eða þrjár tómthússfjölskyldur (ein þeirra eru þau hjónin Ólafur Valdason og Sigríður Jörensdóttir, er urðu foreldar hins mikla svakamennis, Hróbjartar í Traðarkoti, orðlagðasta brennivínsmanns Reykjavíkur á fyrri hluta 19. aldar). Þjóðvegurinn — Arnarhóls-traðirnar, sem enn sér votta fyrir sunnan í hólnum — liggur þar fast við kálgarðinn, svo að hreysi þetta er það, sem fyrst blasir við ferðamönnum, er til höfuðstaðarins koma. Þó fékk Arnarhóllinn að standa, þangað til Hoppe stiftamtmaður eldri vann það gustukaverk á honum, að rífa hann til grunna og slétta yfir bæjarstæðið 1828. Síðasti Arnarhóls-búandinn var

1) Þrjú önnur af börnum Jóns sýslumanns ólu aldur sinn í þessu bygðarlagi: *Oddur* lögréttumaður og lögsagnari Hjaltalín á Rauðará (afi þeirra læknanna Odds í Bjarnarhöfn og Jóns landlæknis og Guðrúnar í Bráðræði, ömmu Jóns héraðslæknis Hjaltalíns Sigurðssonar), *Níels* lögréttumaður Hjaltalín í Hlíðarhúsum (er síðar verður nefndur) og *Gunnhildur* eldri, er átti Sighvat í Grjóta Jónsson (einn af ættfeðrum Sighvatar bankastjóra Bjarnasonar). *Gunnhildur yngri*, kölluð »kongamóðir«, átti Davíð Sörensen Grönager, reipslagara á Stapa. Hún var »svarkur« mikill — segir Espólín —, gekk fyrir Friðrik konung V í íslenzkum kvenbúnaði, til að útvega móður sinni viðurlífispeninga og bónda sínum hamp til færaspuna, og fékk hvorttveggja. Konungur lauk lofsorði á búnað hennar, nema svörtu hempuna og »sykurtoppinn«, en svo kallaði konungur faldinn. (Ísl. Árb. XI, 32).

Sveinn Ólafsson, faðir Málfríðar (»Fríðu Sveins«)[1], er hér í bæ þótti kvenna fríðust um 1830. Þegar Sveinn flutti frá Arnarhóli, bygði hann sér lítinn bæ, er hann nefndi Þingvöll, þar sem nú er hús Björns heit. Guðmundssonar kaupmanns. Nú stendur rétt við austurkálgarðshornið á Arnarhóli hinum forna eitt af landsvors allra mestu og veglegustu stórhýsum, hið mikla hús, er geymir öll aðalsöfn vor og dýrustu eign þjóðar vorrar, Landsbókasafnið, Þjóðskjalasafnið, Þjóðmenjasafnið og Náttúrugripasafnið. —

Þá er **Sölvahóll** norðar í túninu, og **Arnarhólskot** rétt upp af Sölvahóls-vör, fyrir sunnan Jörundar-virki (»Battaríið«). Hið síðar nefnda býli féll áður en liðinn var fyrsti áratugur 19. aldar, en Sölvahóll stendur fram á þennan dag, eins og Jón Snorrason (frá Engey Sigurðssonar) bygði hann eftir 1830, og gefur góða hugmynd um útlit Reykjavíkur-torfbæja — hinna betri — á fyrri hluta 19. aldar. Allar líkur eru til þess, að Sölvahóll sé sama býlið, sem í Jarðabók Á. M. er nefnt *Litli Arnarhóll.*

**Tugthúsið** stendur auðvitað enn í túnfæti Arnarhólstúnsins, eins og það reis þar á árum 1759—64, mest allra húsa á landi hér í þann tíð, að undantekinni Viðeyjarstofu einni. Engan, sem ríður niður Arnarhólstraðir í þá daga, dreymir um þann vegsauka, sem þetta mikla — en jafnframt, vegna nafnsins, hálfskuggalega — hús eigi í vændum á ókominni tíð, er tugthúss-heitið breytist í hið ólíkt veglegra heiti »*Kongsgarður*«[2], þegar húsið er orðið bústaður æðstu valdsstjórnar landsins, stiftamtmannssetur, seinna landshöfðingjabústaður og loks stjórnarráðshús. Æfiferill hússins þessi fyrstu 40 æfiár þess hefir þá ekki heldur verið neinn frægðarferill.

1) Í hinu mikla myndaverki Gaimards er stór og fögur mynd af Fríðu í íslenzka faldbúnaðinum, eins og hann tíðkaðist um þær mundir.

2) Því nafni er húsið venjulega nefnt í Sálnaregistrum Reykjavíkur-prestakalls, eftir að það er orðið stiftamtmannssetur.

Mesti ólestur hefir verið á allri stjórn þess og umsjón. Tugthúss-ráðsmaðurinn fyrsti, *Guðmundur* stúdent *Vigfússon* (eitt sinn í bili settur sýslumaður í Kjósar- og Gullbringusýslu, síðar bóndi í Belgsholti og síðast í Hjarðarholti, † 1809), sem þar var á árunum 1764—86, var drykkfeldur í meira lagi, svo eftirlitið með föngunum eða tugthúss-limunum fór alt í handaskolum. Þeir virðast hafa leikið býsna lausum hala þar í húsinu, og gengið út og inn eftir vild sinni. Eitt sinn er brotist inn í kongsverzlunar-húsin í Effersey og stolið allmyndarlega. En þeir, sem að því verki unnu, voru limir úr tugthúsinu. Einnig Víkur-menn fengu að kenna á eftirlitsleysinu í tugthúsinu, svo ósjaldan sem það bar við, að brotist væri inn hjá þeim. Það kom jafnvel fyrir, að framið var innbrot í tugthúsinu sjálfu, hjá yfirmönnum og tilsjónarmönnum þess! Loks munu þess og hafa verið dæmi, að fangar ættu börn saman þar í tugthúsinu. Einatt voru tugthúss-limirnir leigðir sem »ódýr vinnukraftur« ýmsum af höfðingjunum í nágrenninu við Reykjavík, svo sem vormenn, sem kaupamenn að sumrinu, haustmenn o. s. frv.. Leigan var ákveðin 6 skildingar á dag, auk fæðis, eða 2 mörk kúrant um vikuna fyrir karlmenn, 1 mark fyrir kvenmenn. Arnes Pálsson fjallaþjófur, sem var þar til heimilis rúm 30 ár, dvaldist einatt langdvölum hjá amtmönnum á Bessastöðum og þótti mætur verkmaður (enda mun Vibe amtmaður hafa útvegað honum lausn um síðir). Síðustu ár aldarinnar var Arnes niðursetningur í Grjóta, þá örvasa gamalmenni. Þaðan fluttist hann í Engey og dó þar 1805. Viðurgerningur limanna var stundum fremur lélegur og aðbúnaðurinn yfirleitt. Þess er aftur og aftur getið hér í kirkjubókum, að limir hafi dáið úr »hor og vesöld«. Þó hefir vafalaust mörgum fanganum þótt vistin þar miklu ákjósanlegri en heima í sveit sinni, þótt frelsið væri takmarkað; svo þröngan kost átti almenningur einatt við að búa á þeim bágindaárum, sem gengu yfir landið á síðari hluta 18. aldar. Enda kom það býsna sjaldan fyrir, að fangarnir strykju úr vist-

inni. Í rauninni var tugthús þetta aðallega *þrælkunarhús* eða *letigarður*, — það sem Danir kalla »Tvangsarbejdsanstalt«, enda upphaflega sett á fót til þess að geyma flakkaralýð og flækinga, sem ekki nenti að vinna, en fór um sveitir iðjulaus og betlandi, og var orðið sannkölluð landplága um miðbik 18. aldar. *Skúli* landfógeti *Magnússon* mun hafa verið fyrsti hvatamaður að því, að tugthúsið var sett á stofn[1]). Tillaga hans var sú, að konungseignin Þingeyraklaustur væri lögð til tugthússtofnunar og varð niðurstaðan að lokum, að stjórnin gaf samþykki sitt til, að tekjur Þingeyraklausturs og Arnarhóllinn skyldi lagt tugthúsinu til reksturs, þangað til því hefði vaxið svo fiskur um hrygg, að það gæti sjálft kostað rekstur sinn. Glæpamenn skyldu ekki látnir taka þar út refsingu, heldur skyldi senda þá á Tugt- og Rasphúsið í Kaupmannahöfn. En til geymslu voru glæpamenn einatt sendir þangað, meðan þeir biðu dóms eða eftir að dómur hafði verið kveðinn upp, þangað til ferð féll til útlanda. Einatt virðist tugthúsið hafa verið notað meðfram sem ómagaframfærslu-stofnun, ósjálfbjarga og húsviltum fjölskyldum verið holað þar niður í bili. T. d. búa þar ekki færri en fjórar slíkar fjölskyldur það ár, sem hér ræðir um, en þess er þá líka að gæta, að limirnir voru þá með langfæsta móti, einir fjórir. Flestir munu þeir hafa orðið 40. Fyrir kom það og, að útlendingum, sem hingað voru sendir af stjórninni, var, er hingað kom, fengin íbúð í tugthúsinu. Þar höfðu t. a. m. *landsnefndarmennirnir* (þeir Andreas Holt etazráð, Þorkell Fjeldsted Jónsson lögmaður, Tómas Windekilde kancelliráð og Eyjólfur Jónsonius skrifari þeirra) bækistöðu sína, meðan þeir dvöldust hér syðra. Þangað var strandmælingamönnum og erlendum iðnaðarmönnum (t. d. dómkirkjusmiðunum) vísað til gistingar. Meira að segja átti sjálfur stiftamtmaðurinn, Friðrik greifi af Trampe, ekki í annað hús að venda fyrsta veturinn, sem hann dvaldist hér, en tugthúsið.

---

1) Sbr. Lovsamling for Island, III, bls. 182 og síðar.

Embættismenn tugthússins voru ráðsmaður (Ökonomus), upphaflega með 60 rdl. árslaunum, og fangavörður (Tugtemester) með 45 rdl. árslaunum, auk leigulausra afnota Arnarhólstúnsins að hálfu hvor. Auk þeirra var þar skipaður dyravörður með 20 rdl. launum og næturvörður með sömu launum; ennfremur »katechet«, útlærður stúdent, er annast skyldi bænaflutning og húslestur, svo og uppfræðslu limanna í kristindómi á helgum dögum (með 10 rdl. árslaunum). Þegar Guðm. Vigfússon fór frá tugthúsinu, var skipaður í hans stað danskur maður, *Henrich Scheel*, er var þar nokkur ár. Hann bygði síðan »Gamla klúbbinn« og var þar veitingasali i fullan mannsaldur. Af öðrum ráðsmönnum er nafnkunnastur *Guðmundur Þórðarson* frá Sámsstöðum, Þórðarsonar á Kjörseyri (nefndist hann venjulega »Thordersen í *Múrnum*, sbr. í »Steininum« nú), er seinna varð faktor í Hafnarfirði og dó þar skömmu eftir aldamótin 1800. Hann átti Steinunni Helgadóttur (frá Ökrum Guðmundssonar). Meðal barna þeirra hjóna, sem fæddust í Múrnum, var *Helgi G. Thordersen*, er síðar varð dómkirkjuprestur og því næst biskup. Um sérstakan fangavörð er ekki talað fyr en síðustu ár Guðm. Vigfússonar. Þá hefir þótt sérstök ástæða til að skerpa eftirlitið, og var skipaður danskur maður í fangavarðarstöðuna. Sá hét *Sigvardt Brún*. Var hann mesta hörkutól, er jafnan hafði refsivöndinn á lofti og lét engar ávirðingar limanna, jafnvel ekki hinar óverulegustu, óátaldar. Var sagt, að einatt sæi á limunum eftir ábarningar hans og misþyrmingar. Eftir hann tók við því embætti danskur verzlunarmaður, *Jóhannes Zoëga*, er áður hafði verið við kongsverzlunina í Vestmannaeyjum. Þar kemur Zoëga-nafnið fyrst inn í sögu Reykjavíkur; því að þessi Jóhannes verður forfaðir Zoëgaættarinnar hér á landi, sem löngum hefir verið kynsæl talin. Hann átti hérlenda konu, Ástríði Jónsdóttur, ættaða úr Landeyjum. Reyndist hann á alt annan veg í stöðu sinni en fyrirrennari hans, og var hans saknað,

vegna mannúðlegrar framkomu sinnar, er hann eftir nokkur ár hvarf frá þeirri sýslau.

Tugthúsið var lagt niður 1816. En í rauninni var búið að leggja það niður áður. Espólín segir, að Castenskjold stiftamtmaður hafi (árið 1813) »þótzt neyddur til að reka alla fanga brott af tugthúsi, og hafi sett þá á sveitirnar, þó þær væru ofþyngdar áður«; hafi þó lofað að gjalda sveitunum seinna kostnaðinn, en það aldrei verið gert[1]). Þegar Moltke gerðist stiftamtmaður hér (1819—23) fékk hann tugthúsinu gamla breytt í stiftamtmannsbústað og settist þar að með fjölskyldu sinni. Aftur höfðu stiftamtmennirnir á undan honum, Fredrik Trampe greifi (1805—10) og Joh. Carl Thurah Castenskjold (1812—19) búið í húsi fyrir neðan læk, er Ísleifur yfirdómari Einarsson hafði látið reisa árið 1802. Það hús var nú gert að yfirréttarhúsi og bæjarþingstofu, með íbúð handa öðrum lögregluþjóni bæjarins niðri, en »svartholi« uppi á loftinu í vesturenda og (fram undir miðbik 19. aldar) íbúð stiftamtmannsskrifara í austurenda. Seinna var þar prestaskólinn.

Fyrir sunnan tugthússlóðina og Arnarhólstúnið var steingarður mikill hlaðinn neðan frá læknum upp alla brekkuna upp fyrir hús það, er Jón háyfirdómari Pétursson bjó í löngu síðar allan sinn búskap hér í bæ. Fyrir sunnan þennan garð hét þá, næst læknum, Stuðlakots-tún alla leið suður að Stuðlakoti — eða Stöðulkoti —, votlent mjög neðst. En ofar í brekkunni (sem seinna var tekið að kalla Ingólfsbrekku) fyrir sunnan Arnarhólstúngarðinn, stóð Þingholt. Sennilega verður það býli ekki til fyr en innréttingarnar koma hér á fót. Í Jarðabók Á. M. er það ekki nefnt. Þar eru nú býlin orðin fjögur eða fimm í röð, fremur lítilfjörleg hreysi tómthúsmanna. Upphaflega var býlið að eins eitt, og stóð þar sem seinna hét í Loftsbæ (eftir Lofti Þorkelssyni frá Kleppi, er þar bjó lengi), þ. e. nú nr. 3 í Þingholtsstræti. Í elzta sálnaregistri prestakallsins (frá

---

1) Sbr. Ísl. Árb. XII. bls. 69.

1769) eru fjórar fjölskyldur taldar búandi í Þingholti, en líklega hafa býlin þá ekki verið fleiri en tvö, en þeim hefir fjölgað seinna. Í einu af þessum kotum byrjaði búskap 1803 *Einar* stúdent *Jónsson* og Ingveldur Jafetsdóttir (lóskera Illugasonar í Grjóta). Kemur Einar talsvert við þróunarsögu Reykjavíkur fyrstu 40 ár 19. aldarinnar og verður hans síðar nánar getið. Í Þingholti bjó fjölda ára framan af 19. öld annar Einar Jónsson, tómthúsmaður († 1834 háaldraður), og Málfríður Einarsdóttir kona hans. Dóttir þeirra, Bergþóra, átti Ara Magnússon í Hjallakoti (Arabæ), er síðar bjó í Skálholtskoti. Í syðsta Þingholtsbænum bjó lengi Helgi trésmiður Jónsson, ættaður úr Norðursýslu, faðir þeirra Jónasar organista og Helga kaupmanns. Eftir 1820 tekur að byggjast ofar í holtinu, þar sem nú er Ingólfsstræti. Nefndist þar fyrst *Nýja Þingholt*, en er býlum fjölgaði, hvarf það nafn og önnur komu í staðinn, t. d. *Bjarg* (þar sem nú er steinhús Lárusar heit. Lúðvígssonar), *Stafn* (þar sem Alexius Árnason pólití bjó; nú er þar hús fyrv. sýslum. Fr. Siemsen), *Ofanleiti*, *Grímsbær* (þar sem nú er hús Júlíus heit. amtm. Havsteen og Guðm. próf. Magnússonar).

Í **Stuðlakoti** bjuggu um þetta skeið fimm fjölskyldur, en býlin hafa naumast verið fleiri en þrjú, eins og þau eru lengi fram eftir öldinni: Norðurbær, Miðbær og Syðstibær. Þar bjó þá meðal annara Páll Þórðarson, mikill atorkumaður, faðir Magnúsar Pálssonar, er bygði Holtið (er seinna nefndist Pálsbær, eftir Páli syni Magnúsar), þar sem nú er hús Halldórs Þórðarsonar bókbindara. Löngu seinna bjó í Norðurbænum Jón Árnason (bróðir Alexíusar), kallaður »ríki«, er gaf bænum aleigu sína (Jóns Árnasonar legat), í Miðbænum Guðmundur Guðmundsson, faðir Björns heit. kaupmanns, Þorsteins yfirmatsmanns og þeirra systkina, og í Syðstabænum Eiríkur smiður Eiríksson, faðir frú Guðríðar Birgittu, ekkju Steingríms rektors Thorsteinsson.

Einnig í **Skálholtskoti** búa um þetta skeið fimm fjölskyldur tómthúsmanna, þar á meðal Gissur vaktari

Magnússon (úr Effersey), er seinna bjó lengi í Hólakoti, og Sigurður Ásmundsson, faðir Ásmundar í Grjóta og Einars í Melkoti, föður Magnúsar, sem enn býr þar. Löngu síðar bjuggu þar fjölda ára *Ari Magnússon* og *Bergþóra Einarsdóttir,* sem mikill ættleggur Reykvíkinga er kominn frá. Synir þeirra voru þeir Jón í Skálholtskoti, Einar á Tóftum, Magnús í Þingholti og Hannes (faðir Ástráðs afgreiðslumanns).

Meginbreytingarinnar, sem orðið hefir á Reykjavík þessi fjórtán ár síðan er hún fékk kaupstaðarréttindi, er þó auðvitað að leita í kvosinni sjálfri.

Þar eru nú komnar tvær götur alsettar húsum og litilsháttar tekið að votta fyrir hinni þriðju; þessar götur eru Hafnarstræti og Aðalstræti, en þriðja gatan er Austurstræti, sem nú er. Steingarðurinn mikli, er áður lá austan frá læk, norður með Austurvelli og vestur undir Fálkahús, er nú horfinn með öllu og í hans stað komin allþétt timburhúsaröð austan frá læk og vestur í Aðalstræti.

Eðlilega standa öll þrif hins unga kaupstaðar í nánasta sambandi við það, að verzlunin hefir verið gefin laus fyrir alla þegna Danakonungs; enda taka þegar næstu árin á eftir útlendir kaupmenn að flykkjast hingað. Árið 1788 — sama árið sem tilskipunin um verzlunarfrelsið öðlast gildi — koma 55 skip til landsins, en árið áður (1787) að eins 8. Sumir þessara kaupmanna höfðu áður verið í þjónustu kongsverzlunarinnar bæði hér og annarsstaðar. Aðrir voru farmenn, er komu hingað á skipum sínum til að verzla við landsmenn og héldu svo aftur heim að haustinu (»spekúlantar«, »farende Handlere«). Flestir voru þeir frá Danmörku, einkum frá Jótlandi sunnanverðu. Á það benda nöfn elztu Reykjavíkur-verzlananna: Faneyska verzlunin (stofnendur hennar og eigendur frá Fanö), Flensborgarverzlunin (stofnendur hennar og eigendur frá Flensborg), Norðborgar-verzlunin (stofnandi hennar og eigandi um fjölda ára frá þorpinu Nordborg á Als), Ran-

derska verzlunin (stofnendur hennar og eigendur frá Randers). Nokkurir voru frá Noregi. Til þess bendir nafnið »Norska húsið«, þar sem Kahr stórkaupmaður frá Björgvin verzlaði nokkur ár. Norsk var einnig hin svo nefnda Isaachsens-verzlun (eigandinn var stórkaupmaður og konsúll í Kristjánssandi). En einnig íslenzkir menn tóku að verzla hér, einkum þó menn, er áður höfðu verið í förum eða dvalist erlendis langdvölum, t. d. Páll Björnsson Brekkmann timburmaður, Egill Helgason Sandholt og Þorkell Guðmundsson Bergmann. Og fleiri mætti nefna.

En því fleiri sem hingað sigldu skipum sínum til verzlunarviðskifta við landsmenn, þess óhjákvæmilegra varð, að svo og svo mikið væri óselt að haustinu af þeim varningi, sem þessir lausakaupmenn höfðu haft meðferðis. Heldur en að flytja hinn óselda varning heim aftur, var hann fluttur á land og hús reist til að geyma hann í og ef til vill selja að vetrinum. Annaðhvort var þá fenginn einhver hérlendur maður, til að annast gæzlu á honum og sölu, eða einhver af skipsmönnum beint skilinn eftir hér í þeim tilgangi (eftirlegumaður). Með þessum hætti verða ýmsir þessara lausakaupmanna (»farende Handlere«) að fastakaupmönnum. Sjálfir halda þeir venjulega heim að haustinu, en »faktorinn« eða »assistentinn« verður þá hér eftir.

Þegar nú þessa er gætt, verður það skiljanlegt, hvers vegna langflestar af elztu »útmælingunum« hér á kaupstaðarlóðinni eru til handa útlendum skipherrum: Skipper Thielsen, Skipper Tofte, Skipper Rödgaard, Skipper Mindelberg, Skipper Ahrentzen og hvað þeir nú heita allir þessir elztu aðstandendur Reykjavíkur- og Faxaflóa-verzlunarinnar. Því að það er eftirtektarvert, að margir þessara manna binda sig ekki við eina höfn, heldur setja verzlanir á stofn víðar í sama verzlunarumdæminu. T. d. eiga Flensborgarmenn og Norðborgarmenn verzlanir bæði í Reykjavík, í Hafnarfirði og Keflavík; Randerska verzlunin er bæði í Reykjavík og í Hafnarfirði; Jacobæus bæði í Keflavík og í Reykjavík;

Bjarni riddari Sívertsen bæði í Hafnarfirði og Reykjavík; Petræus bæði í Reykjavík, Hafnarfirði og Vestmannaeyjum.

Þá verður hitt ekki síður skiljanlegt, að strandlengjan hér í bænum byggist fyrst eftir að breytingin verður á verzlunarfyrirkomulaginu. Vitanlega var ekkert eðlilegra en að kaupmenn, sem höfðu skip í förum, hyltust til að geta reist hús sín sem allra næst höfninni. En kaupmönnum gat ekki nægt það eitt, að fá útmælda lóð undir húsin sín, þeir urðu líka að fá nægilegt svæði til fiskþurkunar og fyrir báta sína, er þeir voru dregnir á land. Þótt því kaupmenn fengju útmælt undir hús sín fyrir sunnan reipslagarabrautina, varð brautin að þoka jafnskjótt og tekur að byggjast, svo að kaupmenn gætu fengið »stakkstæði« á svæðinu milli verzlunarhúsanna og fjöruborðsins.

Allar elztu lóðarmælingarnar, sem bókfærðar eru hér í bæ á þessu svæði, eru annars vegar miðaðar við »Tværgaden«, eða »den fra Hovedgaden udgaaede Tværgade«, og hins vegar við »den gamle Rebslagerbane«. Þessi »Tværgade« sem hér er átt við, er stígur sá, er myndast fyrir sunnan verzlunarhúsin í Hafnarstræti, í norðurjaðri Austurvallar. Hún fær síðar nafnið *»Langa stétt«* (»Lange Fortov«), en nú er þar Austurstræti kallað. En »den gamle Rebslagerbane« er auðvitað það, er seinna var lengi kallað Strandgata, en nú Hafnarstræti. Frá útmælingu Páls Björnssonar Brekkmanns er skýrt svofeldum orðum í bréfabók Skúla landfógeta: »Tömmermand Poel Biörnsen paa den nordre Side ud i Tvergaden næst op til og östenfore Fisker anviiste Plads, som i Længden fra samme öst efter holder 60 Alen, og i Bredden fra Tvergaden nord til Rebslagerbanen 27 Alen, da Vaanings- og Handelshuset opföres inde ved Tvergaden«.

Þegar hér er komið sögu kaupstaðarins (1801), er, eins og ég tók fram, öll spildan næst sjónum austan frá læk og vestur í Aðalstræti, alsett húsum; er verzlun rekin í flestum þeirra og jafnframt búið í þeim. Enda

eru nú kaupmennirnir í Reykjavík orðnir alls 11 að tölu, að ótöldum nokkurum »borgurum«; en svo nefndust framan af þeir, er verzluðu hér án þess að hafa skip í förum. Má það með sanni heita mikil viðkoma á jafnskömmum tíma, einum fjórtán árum, og höfðu þó nokkurir þegar gengið úr skaftinu, þegar hér er komið sögunni.

Árið 1801 er Reykjavíkur-verzlunin, og Faxaflóaverzlunin yfirleitt, í höndum þessara 11 kaupmanna, sem talist geta með réttu feður Reykjavíkur-verzlunarinnar. Þeir eiga það vissulega skilið, að þeirra sé minst, svo mikinn þátt sem þeir eiga í fyrsta vexti höfuðstáðarins og þrifum:

1. *Bjarni* riddari *Sivertsen* (faktor hans hér er þá Sigurður stúd. Guðlaugsson, er seinna varð sýslumaður).

2. *Christian Adolph Jacobæus* (faktor hans hér er Arni stúd. Jónsson, kallaður Reynistaðar-mágur).

3. *Holst* (Boy Petersen Holst o. fél. eða Flensborgarverzlun. Faktor hér er Adser Knudsen).

4. *Isaachsen* (konsúll í Kristjánssandi; faktor hans hér er Fredrik Baade).

5. *Jess Thomsen* í Norðborg (Norðborgar-verzlun. Faktor hér Clavs Mohr).

6. *Rödgaards* eða józka verzlunin (Faneyjarmannaverzlun. Faktor hér Gunnlaugur stúdent Halldórsson).

7. *Sunchenberg,* fyrsti kaupmaður bæjarins (faktor hér Kristófer Faber).

8. *Tofte* o. fél. (faktor þeirra hér er Jens Severin Tofte, seinna veitingasali hér í bæ).

9. *Þorkell Guðmundsson Bergmann* (sjálfur búsettur hér, en Magnús Ólsen Bergmann þó talinn faktor hans).

10. *Welling & Hansen* eða Randerska verzlunin (faktor hér Johan Erland Böye).

11. *Westy Petræus.* (Sjálfur búsettur hér).

Auk þessara höfuðfeðra Reykjavíkur-verzlunarinnar má og telja nokkura, er hér ráku verzlun þá í smáum

stíl, svo sem »borgarar«, t. d. Egil Helgason Sandholt, Pál B. Brekkmann, Jón Jónsson Laxdal, Jón Gíslason o. fl. Hér er einnig nefndur sem verzlari í Reykjavík á þessum árum Andreas Mitchell, dansk-skozkur að ætt, allmikið riðinn við kaup á húsum og annað brask. Um eitt skeið er Jóhannes Zoëga eldri talinn faktor Mitchells.

Þótt að sjálfsögðu megi gera ráð fyrir, að sumar þessar verzlanir kaupmannanna hér hafi verið í smáum stíl, verður þó ekki annað sagt, en að Reykjavík hafi farið vel af stað sem kaupstaður og hafi þegar 14 vetra sýnt í verkinu, að hún ber *kaupstaðar*-nafnið með heiðri og sóma. Eins og fyr segir, höfðu nokkurir af kaupmönnum þeim, er hér höfðu byrjað fastaverzlun, gengið úr skaftinu, þegar hér er komið, eða hætt verzlun sinni. Þrjá þeirra kunnum vér að nefna; það eru þeir Georg Andr. Kyhn, Ahrentzen og Kristófer Kahr. Þeir reka hér verzlun að eins skamma stund, og eru allir horfnir úr sögunni áður en 18. öldin hverfur í tímans gröf; en allir höfðu þeir komið hér upp verzlunarhúsum, og fengu sum þeirra að standa, en sum voru rifin (t. d. Kyhnshús).

Þegar nú litið er til fólksfjöldans hér í kaupstaðnum þetta ár — tala kaupstaðarbúa er þá einar 307 sálir — þá er sízt að furða, þótt það yrði verzlunarstéttin, er hér í bæ réð lögum og lofum framan af og enda fram eftir öllu, og hún yrði til þess algerlega að móta kaupstaðinn á uppvaxtarárum hans. Reykjavík er auðvitað ekki eini bærinn, sem það á heima um. Hið sanna er miklu fremur hitt, að slíkt hið sama á heima um allflesta kaupstaði. Þrif þeirra í uppvextinum hafa jafnan staðið í nánasta sambandi við þrif viðskiftalífsins. Munurinn á Reykjavík og öðrum kaupstöðum er sá aðallega, að hér er verzlunin mestmegins í höndum útlendinga, sem hafa litla sem enga samúð með tungu landsmanna og þjóðerni, og því má ekki búast við neinum þjóðlegum áhrifum úr þeirri átt eða áhrifum til þjóðlegrar vakningar af nokkurri tegund.

Þess er þá ekki heldur að dyljast, að Reykjavík er á þessu tímaskeiði aðallega danskur kaupstaður og er svo fram eftir öldinni. Auðvitað á hin aldanska og hálfdanska verzlunarstétt hér mikinn þátt í þessu, en sízt allan. Því Reykjavík átti ekki úr háum söðli að detta í þjóðlegu tilliti. Danskan réði hér lögum og lofum ekki síður meðan Reykjavík var ofurlitið verksmiðjuþorp en eftir að hún hafði fengið kaupstaðarréttindi. Og eins og það var hér, svo var það um alt land. Hve óþjóðlegir Íslendingar sjálfir voru orðnir, og enda þeirra betri menn, sýna bezt tillögur Bjarna skólameistara Jónssonar til Landsnefndarinnar frá 1770. Hann telur það ekki að eins gagnslaust, heldur beint skaðlegt, að vera að halda í íslenzka tungu, sem enginn skilji þegar komið sé út fyrir landsteinana, í stað þess að dæmi Norðmanna og Færeyinga að taka upp dönskuna! Fyrir því er mikið vafamál, hvort Reykjavík hefði orðið svo miklu íslenzkari bær og þjóðlegri í uppvextinum, þótt verzlunin hér hefði öll verið í höndum innlendra manna. Hin þjóðlegu áhrif á höfuðstaðinn hefðu átt að koma úr alt annari átt en frá verzlunarstéttinni, sem sé frá mentalýðnum, hinum mentuðu leiðtogum þjóðarinnar. En úr þeirri átt var lítilla áhrifa að vænta á höfuðstað vorn á frumbýlingsskapar-árum hans. Að vísu var hér í bæ um þessar mundir latínuskóli; en hann var kominn í mestu niðurlægingu, mestmegins fyrir drykkjuskaparóreglu skólameistarans, sem árum saman sá varla sólina nokkurn dag. En auk hans og konrektors eða undirkennarans, var ekki nema einn embættismaður hér í bænum. Það var landfógetinn *Páll Michael Finne,* ef ég man rétt »danskur júristi« eins og hann var danskur að ætt og uppruna. Allir hinir embættismennirnir, sem helzt hefði mátt vænta áhrifa frá, bjuggu fyrir utan kaupstaðinn. Stiftamtmaðurinn bjó í Viðey, háyfirdómarinn á Leirá í Borgarfjarðarsýslu, biskupinn á Lambastöðum á Seltjarnarnesi, landlæknirinn, lyfsalinn og annar yfirréttardómarinn í Nesi við Seltjörn; hinn meðdómarinn sezt

að vísu að hér í bænum 1802, en flyzt héðan þrem árum síðar suður að Brekku á Álftanesi; sýslumaðurinn í Gullbringu- og Kjósarsýslu situr og á Lambastöðum og loks dómkirkjupresturinn vestur á Seli. Um áhrif frá þessum mönnum á bæjarlífið hér gat því naumast verið að ræða, eins og á stóð. Hins vegar átti kaupstaðarlýðurinn langmest að skifta við verzlanirnar. Þangað sóttu þeir nauðsynjar sínar, sem þeir gátu ekki aflað sér á annan veg. Þar var helzt atvinnu að fá. Og þeim var allur þorri manna að ýmsu leyti háður. Er því ekki nema eðlilegt, að Reykvíkingar þeirra tíma drægju einkum dám af verzlunarstéttinni.

Eins og áður er tekið fram, voru götur kaupstaðarins um þessar mundir orðnar tvær og lítilsháttar tekið að votta fyrir hinni þriðju. Þar sem það nú er höfuðtilgangur ritgerðar þessarar að kynna mönnum bygðina, eins og hún var hér á morgni nítjándu aldar, verð ég nú að biðja lesendur mína að ganga með mér vestur eftir annari þessari götu vestur í Aðalstræti og umhverfi hennar, svo að þeir geti fengið nokkurn veginn áreiðanlegt og glögt yfirlit yfir bygðina, sem hér er komin, þegar Reykjavík er fjórtán vetra. En eins og ég verð alt af öðru hvoru að fara lengra aftur í tímann, svo verð ég líka að fara fram í tímann og til skilningsauka að tengja fortíð við nútíð svo sem bezt ég get.

Þegar kemur niður Arnarhóls-traðirnar, verður fyrir oss brú yfir Tjarnarlækinn, kippkorn fyrir norðan tugthúss-lóðina. Þegar kemur yfir þessa brú, sem líklega hefir þótt allmikið mannvirki í þann tíð, skiftist vegurinn. Má nú annaðhvort fara vestur úr sunnan megin við verzlunarhúsa-röðina eða norðan megin. Síðari leiðin er aðalvegurinn og því skulum vér fara hana.

Austast í þessari götu, á hægri hönd þegar komið er niður úr tröðunum og yfir brúna, verður fyrir oss **Ísaachsens-hús**, þar sem norskur konsúll og stórkaupmaður, *Daniel Isaachsen* í Kristjánssandi, hefir verzlun sína, sem norskur maður, Fredrik Baade (kvæntur ís-

lenzkri konu, Önnu Snorradóttur), veitir nú forstöðu. Ísaachsen hafði látið gera hús þetta árið 1792 og mun þá hafa byrjað þar verzlun sína, en Daníel Sölvesen Trude veitir henni forstöðu fyrstu árin. En verzlun þessi stóð aldrei með neinum blóma og er svo að sjá sem hún hafi hætt nokkuru eftir aldamótin. Árin 1805—07 virðist *Jón* borgari *Laxdal* hafa haft þar lítilsháttar verzlun. Sá Jón var sonur Jóns garðyrkjumanns, er þá bjó í Hólakoti hér í bænum, Grímssonar (lögsagnara á Stóru-Giljá í Húnavatnssýslu). Bróðir Jóns yngri var Grímur borgari Laxdal, er síðar verður getið. Jón Laxdal hafði bygt hið síðar svonefnda »gamla yfirréttarhús« (er Björn Gunnlögsen yfirkennari átti og bjó í löngu síðar), haft þar verzlun og veitingasölu, en lagst í óreglu. Hann átti danska konu, Bolettu (eða Birgittu) Soffíu, og fóru þau utan nálægt 1807 og koma ekki við sögu hér eftir það. En árið 1809 er þinglýst sala á Ísaachsens-húsinu til handa Fredrik Trampe greifa og stiftamtmanni. Hann var allmikið við húsakaup riðinn árin, sem hann var hér. Hefir hann líklega ekki vitað aðra leið arðvænlegri til að ávaxta peninga sína hér í bankaleysinu en að setja þá í húseignir. Eftir að Trampe er farinn héðan, kaupir Bjarni riddari hús Ísaachsens og flytur í það sölubúð sína (Sivertsensbúð). Mun hús þetta hafa staðið þar sem nú er hús það, er Jes konsúll Zimsen hefir í skrifstofur sínar, og að líkindum, að minsta kosti að einhverju leyti, eitt og sama húsið.

En *Bjarni* riddari *Sivertsen* (÷ 1833) hafði annars frá upphafi verzlun sína í næsta húsi, þar rétt fyrir sunnan. Hafði hann látið reisa það 1797, er hann hóf verzlun sína hér í bæ (aðalverzlunin stóð ávalt í Hafnarfirði). Stendur hús þetta fram á þennan dag, þó allmiklu stærra nú, en það var upphaflega, og hefir ávalt verið kent við Sivertsen (Sivertsens-hús). Bjarni riddari var vafalaust einn af mestu ágætismönnum hinnar íslenzku kaupmannastéttar á 19. öld, afburða atorkumaður í flestum greinum, vitur maður og réttsýnn. Hann var bóndason austan úr Selvogi. Faðir hans, Sig-

urður Pálsson, bjó í Nesi, efnalaus maður. Bjarni kvæntist ungur Rannveigu Filippusdóttur (prests í Kálfholti Gunnarssonar † 1779), efnaðri ekkju Jóns lögréttumanns í Nesi Halldórssonar. Hafði Bjarni þá enn ekki lært að draga til stafs, en Rannveig heimtaði, að hann lærði þá list sem skjótast, svo að hann stæði ekki að baki fyrri manni sínum í þeirri grein, en hann hafði verið skrifari góður. Gerði Bjarni þegar að vilja sinnar góðu konu og varð brátt leikinn í listinni. Sonur Rannveigar af fyrra hjónabandi var Steindór stúdent og skipherra í Hafnarfirði, er kallaði sig *Waage* (af því að hann var ættaður úr Selvogi), faðir þeirra Agnesar konu Árna Matthiesens í Hafnarfirði og Guðrúnar konu Mattíasar kaupmanns, bróður Árna, (þeirra sonur er Bjarni hringjari Mattíasson). En sonur Rannveigar með Bjarna riddara var *Sigurður Sivertsen* kaupmaður, er átti Guðrúnu systur Helga biskups (en synir þeirra voru Hans Anton factor í Reykjavík og Pétur í Höfn, faðir séra Sig. P. Sivertsens háskólakennara). Dóttir Bjarna riddara og Rannveigar var Járngerður, er átti Hans Wöllner Koefoed sýslumann í Rvík, síðar bæjarfógeta á Kongsbergi í Noregi. Bjarni riddari auðgaðist snemma af verzlun sinni og hafði mörg skip í förum. Alkunn er ágæt framkoma hans Íslands vegna á ófriðarárunum í byrjun 19. aldar. Reykjavíkur-verzlun Bjarna riddara veitti í upphafi forstöðu Sigurður stúdent Guðlaugsson, er seinna (frá 1806) var um 12 ára skeið settur sýslumaður í Snæfellsness-sýslu, en af honum tók við forstöðunni Filippus signetasmiður Gunnarsson, bróðursonur Rannveigar, konu Bjarna riddara. Filippus andaðist hér í bæ 1812. Þá tók við forstöðu verzlunarinnar *Símon Hansen* (einn þeirra fjögra Bátsandabræðra, er síðar verður nánar getið) og hafði hann hana á hendi unz hann sjálfur byrjaði að verzla 1816 í Fjeldstedshúsi (þ. e. Brekkmannshúsinu yngra) vestar í Hafnarstræti. En eftir hann mun Sigurður Sivertsen, sonur Bjarna, er þá var orðinn meðeigandi Sivertsens-verzlananna, hafa tekið við forstöðu Reykjavíkur-verzlunarinnar. Hann

var sízt jafnoki föður síns í verzlunarsökum, enda blómgaðist verzlunin lítt eftir það, þótt henni væri í horfinu haldið nokkurn veginn meðan Bjarni lifði. En eftir það hnignaði henni ár frá ári. Húsin voru upphaflega tvö. Eystra húsið var aðalverzlunarhúsið; í öðrum enda þess var upphaflega sölubúðin (unz hún var flutt í hús Ísaachsens fyrir norðan götuna), en í hinum íbúð verzlunarstjóra. En í hinu húsinu þar fyrir vestan var vörugeymsla. Hið síðar talda hús keypti löngu síðar *Ditlev Thomsen* eldri kaupmaður og flutti þangað verzlun sína, sem áður hafði verið í gamla yfirréttarhúsinu, og í því húsi verzlaði hann og sonur hans H. Th. A. Thomsen eftir hans dag fram undir 1880; en í garðinum fyrir sunnan geymsluhúsið bygði D. Thomsen íbúðarhús úr steini, sem enn stendur þar sem einn hluti hins mikla Thomsenshúss út að Lækjartorgi. En Sivertsensbúð eignaðist C. Fr. Siemsen, þegar Sivertsensverzlunin hætti. Í Sivertsenshúsi var prestaskóli haldinn frá 1849 til 1872, en þá afsögðu stúdentar með öllu að sækja kenslu lengur í þeim húsakynnum, svo léleg þóttu þau; var skólinn þá fluttur í húsið í Austurstræti, þar sem hann var haldinn upp frá því, þar til Háskóli Íslands var stofnaður (1911).

Fyrir vestan Sivertsenshúsin tóku við hús **Jacobæus-verzlunarinnar,** er löngu seinna urðu eign M. Smiths konsúls, en nú eru kend við Nýhöfn. *Christian Adolph Jacobæus* kaupmaður hafði aðalbækistöðu sína í Keflavík og var fæddur þar 1767. En hér setti hann verzlun á fót árið 1795, og var þá í félagi við *Just Ludvigsen* stórkaupmann í Kaupmannahöfn. Flutti Jacobæus hingað inn eftir eitt af Keflavíkur-húsum sínum (fiskgeymsluhús) og lét endurreisa það hér austast á lóðinni; var sölubúð í öðrum enda, en íbúð í hinum. Árið 1799 lét hann flytja á sama hátt að sunnan annað hús og endurreisa, svo sem vörugeymsluhús, rétt fyrir vestan hið fyrra. Þriðja húsið lét hann smíða 1806 út að »þvergötunni«. En fjórða hús þessarar eignar (hús það, er Sigurður lektor Melsted átti seinna og bjó í) var

ekki smíðað fyr en 1818. Það lét gera Gísli Símonarson kaupmaður, er þá var orðinn sameigandi verzlunarinnar. *Árni* stúdent *Jónsson,* Reynistaðar-mágur, veitti verzlun þessari forstöðu framan af til 1805. Hann lét Jörgen Jörgensen sællar minningar dubba sig til land- og bæjarfógeta (í stað R. Frydensbergs, sem Jörgensen rak frá embætti). En það varð að eins stundarhefð og Árna lítill sæmdarauki, þótt ekki sé neins misjafns getið frá þessum 8 daga embættisferli hans. En út af þessu orti Páll skáldi »Býfógeta-vísur«[1]) sínar; lýkur þeim með þessu erindi:

Loks ég vona lenda fá
lífs úr sloppinn hreti
í neðri bygð og nefnast þá
neðsti býfógeti.

Árni átti Hólmfríði Halldórsdóttur frá Reynistað Vídalíns. Henni sendi Páll Hjálmarsson (síðasti skólameistari á Hólum, seinna prófastur á Stað á Reykjanesi) eftirfarandi stöku, er hún hafði brugðið trygðum við hann:

Meingað galli er meyjarþel
mátti' eg sanna þarna;
Fofnispalla fögur þél
farðu alla daga vel.

Dóttir þeirra Árna var Guðrún, síðari kona Óla Sandholts faktors. Eftir að Árni hafði látið af forstöðu Jacobæusverzlunarinnar, hafði hann lítilsháttar verzlun vestur í Aðalstræti, en fluttist seinna (1818) með Óla Sandholt til Keflavíkur og andaðist þar nál. 1825. Eftirmaður hans við Jacobæus-verzlunina hér varð *Gísli Símonarson* frá Málmey á Skagafirði, dugnaðarmaður mikill, er nokkurum árum síðar (1811) varð eigandi verzlunarinnar að ¼ móti þeim Jacobæusi og Ludvigsen. Eftir það sat Gísli lengst af ytra, nema að sumrinu. Segir sagan, að Gísli flyttist héðan í fyrstu mest vegna konu sinnar, Guðrúnar Bjarnadóttur, sem hann grunaði um

1) Þær eru prentaðar í Jörundarsögu dr. Jóns Þorkelssonar.

of náinn kunnleika við Castenskjold stiftamtmann. Gísli Símonarson þótti jafnan reynast löndum sínum ágætlega, og var talinn prýði íslenzkrar kaupmannastéttar á sinni tíð. Haustið 1836 datt hann út úr vagni á götu í Kaupm.höfn og beið síðar bana af. Af faktorum Jacobæus-verzlunar, eftir að Gísli fluttist héðan, ber sérstaklega að nefna *Einar* stúdent *Jónsson*, bróður séra Sigurðar á Rafnseyri (föður Jóns Sigurðssonar, er átti Ingibjörgu dóttur Einars). Kona Einars var Ingveldur Jafetsdóttir (lóskera Illugasonar í Grjóta). Bjuggu þau fyrst í Þingholti, sem fyr segir, en seinna árum saman í Mýrarhúsum, og gekk Einar þá á morgni hverjum inn til bæjarins til verzlunarstarfa sinna. Synir Einars og Ingveldar voru þeir séra Ólafur á Stað (faðir Þorl. O. Johnson kaupm. og Jóhannesar sál. sýslumanns á Sauðárkrók), séra Guðmundur í Arnarbæli (faðir frú Guðríðar konu séra Ólafs fríkirkjupr. Ólafssonar) og Jafet gullsmiður (faðir Nikulásar veitingasala og Einars faktors). Seinna flúttist Einar hingað til bæjarins í íbúðarhús, sem hann hafði látið byggja þar sem nú er Hotel Island. (Hann bygði einnig hús það við Túngötu, er síðar átti Þórður háyfird. Sveinbjörnsson, og bjó þar síðustu árin, sem hann lifði, † 1839). Þegar Einar um 1820 lét af forstöðu Jacobæus-verzlunarinnar, verzlaði hann nokkur ár, eftir því sem næst verður komist, í Sunchenbergs-húsunum; en er Wellejus eignaðist þau, gerðist hann um hríð faktor við verzlun P. C. Knudtzons (1827—35). En eftir það rak hann verzlun fyrir eigin reikning, fyrst í húsum Wellejusar, en síðan í litilli búðarholu í húsi sínu í Aðalstræti.

Eftirmaður Einars stúdents við Jacobæus-verzlun var nokkur ár danskur maður, C. W. Ebbesen, er síðar verzlaði hér fyrir eigin reikning (og bjó þá í húsi því, er Guðbrandur smiður Stefánsson hafði látið smiða fyrir sunnan Lækjarkot, en seinna nefndist »maddömu Thorgrímsenshús« og löngu seinna »Waageshús«), en af honum tók við stjórn verzlunarinnar *Peter Duus* (1824—26), sá er seinna var í Keflavík. Árið 1836 eign-

aðist verzlunarfélagið *Wejl & Gerson* Jacobæusar-húsin, en bjó skamma stund að þeim, því að það varð gjaldþrota ári seinna, en þá eignuðust þeir P. C. Knudtzon og Wibroe húsin (1838). Eftir það verzlar *Hans Baagöe* þar í húsunum nokkur ár, og hefir hann líklega haft þau á leigu. Á Baagöe fyrst að hafa bygt sér hús á Austurvelli (þar sem seinna stóð hús frú Herdísar Benediktsen), en P. C. Knudtzon af hrekk að hafa bygt heljarmikið vörugeymsluhús fyrir framan gluggana hjá honum, svo að tók fyrir alla sól. Hafi þá Baagöe ekki séð sér annað fært en rífa húsið og byggja það síðan upp aftur austur í Hafnarstræti, í stað Jacobæusar-búðarinnar gömlu[1]; en þetta vörugeymsluhús Knudtzons hafi síðan verið nefnt »Drillenborg«; (það varð seinna annað af »frönsku húsunum« svo nefndu, hið vestra). Hans Baagöe hafði um fjölda ára verið faktor á Húsavík og var orðlagður sæmdarmaður. Er hans minst í Fjölni (I. árg.) sem þess útlendings, er bezt hafi unað hag sínum á Íslandi, telji sig hálforðinn Íslending eftir um 30 ára dvöl hér. Er hann sérstaklega lofaður fyrir trjáplöntunar- og garðyrkjutilraunir sínar þar nyrðra. Kona hans var Solveig Jónsdóttir, ættuð úr Skagafirði, merkiskona, og dóttir þeirra Jakobína, kona Jóns landlæknis Hjaltalíns. Sonur Solveigar Baagöe af fyrra hjónabandi var Niels kaupm. Nielsen á Siglufirði, faðir frú Sylvíu Thorgrímsen á Eyrarbakka, en hana ólu þau Baagöeshjón upp frá því hún var tveggja ára. Þau bjuggu 1840—44 í íbúðarhúsi Jacobæus-eignarinnar (Melsteðshúsi sem síðar varð) og var garðurinn fyrir framan húsið þá talinn bezt ræktaði bletturinn í Reykjavík. Árið 1846 eignaðist Jón yfirdómari Johnsen (frá Ármóti) Jacobæusarhúsin og seldi þau nokkuru síðar Marteini Smith kaupmanni, öll nema íbúðarhúsið, er hann seldi Sigurði Melsteð.

Næst fyrir vestan Jacobæusar-eignina var józka húsið svo nefnda (»Jydens Hus« eða »det jydske Hus«

1) Eftir frásögn Geirs kaupmanns Zoëga.

er það venjulega nefnt í manntali prestakallsins). Þar hafði *Morten Jensen Rödgaard* skipherra og þeir Faneyjarmenn (»det fanöeske Interessentskab«[1])) verzlun sína. Reipslagarahús innréttinganna hafði staðið þar upphaflega. Það hús hafði Páll Brekkmann keypt árið 1790 fyrir 23 rdl. 36 sk., og sýnir það, að kofinn hefir þá ekki þótt mikils virði. En Páll hefir sennilega selt Rödgaard skipherra, því að hann lætur reisa þar 1792 verzlunarhús sitt og þeirra félaga. Þar er Adser Knudsen faktor þeirra Faneyjarmanna síðustu ár 18. aldarinnar, en flyzt árið 1800 yfir í Flensborgara-húsin. Tekur þá við forstöðunni í józka húsinu *Gunnlaugur* stúdent *Halldórsson* frá Sámsstöðum í Fljótshlíð Pálssonar. Hann var útskrifaður úr Hólavallarskóla 1792 og hafði síðar verið skrifari hjá Finne landfógeta. Kona hans var Ingibjörg, dóttir Sigurðar timburmanns Magnússonar, er bjó í svonefndum Timburmannsbæ vestur hjá Tjörn; þau skildu 1812. Nokkurum árum síðar fór Gunnlaugur utan og mun hafa andast í Rípum. Laúnsonur Gunnlaugs með Þorkötlu Jónsdóttur (móður Egils bókbindara Jónssonar) var Friðrik trésmiður í Efstabæ í Þingholtum, faðir Sigurðar steinsmiðs Friðrikssonar og Sigurlaugar, konu Lúðvígs Alexiussonar steinsmiðs. Seinna voru þeir *Magnús Ólsen Bergmann* og *Helgi Ólsen Bergmann*, bræður Björns Ólsens á Þingeyrum, sín tvö árin hvor faktorar Rödgaards í józka húsinu. Faðir þeirra, Ólafur á Vindhæli Guðmundsson, var bróðir Þorkels Bergmanns kaupmanns. Espólín segir um þá Helga og Magnús, að þeir hafi verið »knálegir menn« báðir og hinn síðarnefnda hafi mátt kalla »bæði sterk-

---

1) Á Reykjavikur-uppdrættinum í hinu ágæta riti dr. Kr. Kaalunds: Historisk-topografisk Beskrivelse af Island I. b., er félag þetta kallað »det *færöeske* Interessentskab«, en það er bersýnilega misletrun. Hér hefir aldrei neitt færeyskt félag rekið verzlun, enda tekur frumuppdráttur þeirra Ohlsens og Aanums, sem til er á landsbókasafni, öll tvímæli af í þessu tilliti, því að þar stendur greinilega *»fanöeske«*, en ekki »færöeske«.

an og harðgjörvan«[1]). Þeir bræður fluttust síðar til Vestmannaeyja og voru þar við verzlun. 1816 varð Helgi lögsagnari Vigfúsar sýslumanns Thórarensen, en andaðist í ágúst 1818 (46 ára). Magnús mun hafa verið faktor Petræusar þar í Eyjum (bjó á Kornhól), en var jafnframt lögsagnari þar 1818—21. Nokkuru síðar fluttist hann að Skildinganesi. Þegar jarðskjálftakippurinn skók dómkirkjuna á hvítasunnudag 1825 meðan dómkirkjuprestur (Árni Helgason) var í stólnum og söfnuðurinn brauzt út úr kirkjunni gegnum brotna gluggana felmtsfullur með ópi og óhljóðum, þá á Magnús að hafa setið einn kyrr í sæti sínu með drenghnokka sér við hlið og látið sér hvergi bregða. Þá fyrst er allir voru út farnir, einnig prestur og biskup (herra Steingrímur, er þá var alveg nýkominn út hingað frá biskupsvígslu í Khöfn), og fyrirsjáanlegt var, að guðsþjónustu yrði ekki haldið áfram, hafði Magnús staðið upp og haldið heim[2]). Kona hans var Þórunn Teitsdóttir, vefara Sveinssonar í Teitsbæ (sjá síðar), og eitt af börnum þeirra Teitur gullsmiður Bergmann í Litlabæ á Akranesi (faðir Guðrúnar, konu Snæbjarnar kaupm. Þorvaldssonar). Síðustu ár æfi sinnar dvaldist Magnús í Norðurlandi og andaðist þar. En Helgi Ó. Bergmann, bróðir Magnúsar, átti Björgu Davíðsdóttur, hafnsögumanns í Hlíðarhúsum Guðmundssonar (sjá síðar) og voru börn þeirra Davíð verzlunarmaður, sá er bygði Davíðshús á grunni Ullarstofunnar gömlu, og Guðrún, er átti launson með Jóh. E. V. Heilmann bakara[3]), Jóhann Heilmann, er um eitt skeið verzlaði hér í bæ.

Árið 1807 lét Rödgaard af verzlun hér í bæ og keypti þá Adser Knudsen józka húsið. Hefir hann þó

1) Sbr. Íslands Árbækur XII, bls. 9.

2) Sbr. Íslands Árbækur XII, bls. 152.

3) Heilmann bakari († 1870) var móðurbróðir *Georgs Schepelerns* prests, þess er líkræðuna flutti við útför Jóns Sigurðssonar í Khöfn. Hann var síðast prófastur við Holmens-kirkju í Khöfn, orðlagður kennimaður á sinni tíð. Heilmann var alla tíð hjá Daniel Bernhöft bakarameistara.

naumast nokkuru sinni haft þar verzlun, því auk þess sem hann hafði tveim árum áður keypt randersku húsin og rak þar verzlun, þá var hann nú á förum héðan (sjá síðar). Í sálnaregistri 1808 er Jens Klog »selvhandler« talinn búa í józka húsinu og hefir líklega rekið þar einhverja smáverzlun það ár. Sá Jens Klog var bróðir Tómasar landlæknis Klog, óreglumaður mikill; gerðist hann einn af helztu liðsmönnum Jörgensens hér 1809, en drakk sér til ólífis skömmu síðar. Ekkja hans, Guðrún Klog, var um fjölda ára sveitarlimur hér í bæ. Svo er að sjá, sem Bjarni riddari hafi eignast þetta hús og aðrar húsaeignir Adsers Knudsens hér í bæ eftir burtför hans héðan. Í afsalsbréfi frá O. P. Chr. Möller til verzlunarfélagsins Andresen & Schmidt frá 1821, er t. d. beint tekið fram, að húsið hafi verið keypt af »Ridder Sivertsen 1809«. Sá *Ole Peter Christjan Möller* sezt að þar í húsinu árið 1810 og rekur þar verzlun, sumpart fyrir eigin reikning, en sumpart í félagi við þá Andresen & Schmidt, til 1833. Möller þessi var danskur að ætt og uppruna (fæddur á Sjálandi 1777). Hann var að ýmsu leyti merkur maður, og kemur allmikið við sögu þau 30 ár, sem hann var búsettur hér í bæ. Hann hafði áður verið fyrir verzlun Jakobs Plúms í Ólafsvík. Hafði hann framan af íbúð sína í józka húsinu, en húsakynnin voru of lítil og slæm fyrir fjölskyldumann; fyrir því flutti hann úr húsinu 1815 og bjó eftir það lengi í Aðalstræti, fyrst í Sunchenbergshúsi (faktors-íbúðinni sem áður var), en seinna mörg ár í Bergmannsstofu, sem hann eignaðist 1820. En í józka húsinu bjuggu þessi ár hinir og þessir (t. d. Óli Sandholt 1816, Jacobsen faktor, faðir Sveinbjarnar kaupmanns, 1819, Torfi Thorgrímsen, faðir Guðmundar faktors á Eyrarbakka, o. fl.), sem við verzlun Möllers voru riðnir. Árið 1821 selur Möller, sem fyr er vikið að, þeim *Andresen & Schmidt* húseignir sínar hér í bæ (en þær voru þá: józka húsið með vörugeymsluhúsi[1]) og

1) Það sem Gröndal segir í Reykjavíkur-lýsing sinni (í Eimreiðinni VI) um vörugeymsluhúsið, sem enn stendur að húsa-

litilli »assistenta«-íbúð, sem hann hafði sjálfur látið byggja, hið fyrra 1818, hið síðara 1819, og Bergmannsstofa) til að kvitta með því skuldir sínar við þá, eftir því sem tekið er fram í áðurnefndu afsalsbréfi. Þó hélt hann áfram verzluninni í józka húsinu, að líkindum aðallega sem faktor þeirra Andresens & Schmidts, til 1833, er hann slítur sambandi við þá að fullu og öllu. Gerðist þá Edvard Thomsen, sá er seinna var í Vestmannaeyjum (faðir L. E. Sveinbjörnsson háyfirdómara), faktor þeirra og eftir hann Thaae nokkur. En 1843 hættu þeir Andresen & Schmidt verzlun hér og seldu húsin öll *Þorsteini (Kúld) Jónssyni* stúdent og kaupmanni, er verzlaði þar til dauðadags. Þorsteinn var sonur Jóns prests á Auðkúlu (þaðan líklega »Kúlds«-nafnið, sem Þorsteinn tók upp) Jónssonar og Jórunnar Þorsteinsdóttur, varð stúdent frá Bessastöðum 1831, en gerðist síðan kaupmaður († í Rvík 20. nóv. 1859, 52 ára). Laundóttir hans með Vigdísi Steindórsdóttur (skipherra Waage) var Anna, er fyrst átti séra Þorvald Ásgeirsson, síðan Sigfús ljósmyndara Eymundsson, en skildi við báða. Þorsteinn var allmikið við bókaútgáfu riðinn á fyrri árum. — En af gamla Möller er það að segja, að eftir að hann hafði slitið sambandi við þá Andresen & Schmidt, setti hann nýja verzlun á fót í húsi því, er seinna var kent við Guðnýju Möller (það hús lét Möller reisa 1834), en bjó í húsi þar næst fyrir austan, er elzti sonur hans, Hans Peter Möller (maður Guð-

---

baki á Rödgaards-lóðinni gömlu, að það hafi upphaflega verið bygt úr viðum Reykjavíkur-kirkjunnar gömlu, getur ekki náð neinni átt. Fram að 1818 var ekkert hús annað á þeirri lóð en sjálft józka húsið, sem Rödgaard lét byggja; og það vörugeymsluhús, sem Möller tjáist bygt hafa 1818, stóð ekki fyrir sunnan aðalhúsið, heldur að því er virðist fyrir vestan það í beinni línu með fram götunni. Hús það, sem Gröndal talar um, hefir líklega ekki verið reist fyr en löngu seinna. Sennilega hafa þeir Andresen & Schmidt látið rífa gamla húsið út að götunni og bygt af nýju hús það, er þar stendur enn að stofninum til, og þá um leið flutt vörugeymsluhúsið suður fyrir aðalhúsið, eða bygt það á ný upp úr eldri húsunum.

nýjar), hafði látið gera þar 1833, en Möller eignaðist við lát hans 1834 (seinna hús Péturs biskups). En þessi verzlun Möllers gekk illa. Bæði þessi hús voru 1836 tekin og seld á uppboði til skuldalúkningar (við Wejl & Gerson, sem Möller hafði veðsett húsin árið áður). Keypti þá Kristján L. Möller, sonur hans, íbúðarhúsið, en Hannes St. Johnsen sölubúðina og setti þar verzlun á fót. Síðustu ár æfi sinnar var Möller veitingasali í Gl. klúbbnum og þar dó hann 1841. Kona Möllers, Christjane Elisabet Hoffman, var og dönsk. Er mikill ættleggur frá þeim runninn, bæði hér á landi og erlendis. Dóttir þeirra, Marie Nicoline, átti Ólaf Hannesson Finsen sýslumann, síðar yfirdómara († 1836), og voru synir þeirra hinir góðkunnu Finsens-bræður: dr. Vilhjálmur hæstaréttardómari, Hannes stiftamtmaður í Rípum (faðir Níels R. Finsens, ljóslæknisins heimsfræga † 1904), Jón stiftslæknir í Nýjakaupangi á Falstri og Óli Pétur póstmeistari. Synir þeirra Möllers-hjóna dvöldust allir hér í bæ: Hans Peter kaupmaður (sem átti Guðnýju Gísladóttur frá Óseyri), Jóhann Georg lyfsali (hann átti danska konu, Frederikke, er síðar átti Randrup lyfsala), Kristján Lúðvig kaupmaður, seinna veitingasali (kona hans var Sigríður, dóttir Magnúsar beykis Norðfjörð í Sjóbúð, og börn þeirra, meðal annara, þeir bræður Jóhann kaupmaður á Blönduósi og Óli kaupmaður á Hjalteyri, og frú Anna, sem átti fyr Jósef faktor Blöndal, en seinna Valgarð Claessen landsféhirði) og Ole Peter, er eignaðist józku húsin að Þorsteini Jónssyni látnum og verzlaði þar til æfiloka (ókvæntur alla tíð) Þá eignaðist Martin Smith konsúll húsin og breytti þeim í veitinga- og gistihús (»Hotel Alexandra«). Nú á þau Eyjólfur Eiríksson húsgagnasmiður.

Þá komum vér að **Flensborgara-húsunum**, næst fyrir vestan józka húsið. Þar stóð ein af aðalverzlunum Reykjavíkur á árunum 1793—1857. Árið 1793 hafði *Hans Thielsen* skipherra frá Flensborg fengið sér og félögum útmælda verzlunarlóð á vesturhelmingi Rödgaards-lóðarinnar, er upphaflega var um 80 álnir á

lengd frá austri til vesturs og því óþarflega stór einum manni. Voru þegar sama ár reist þar verzlunarhús og verzlun hafin; en jafnframt setti Thielsen, eða þeir félagar, verzlanir á fót í Hafnarfirði og Keflavík. Verzlun þessi dafnaði fljótt og vel. Árið 1813 eru hús verzlunarinnar hér í bæ þrjú timburhús í röð fram að Hafnarstræti og fjós úr torfi að húsabaki. Vestast var íbúðarhús, með sölubúð í austurenda, þar fyrir austan eldiviðarhús og fyrir austan það aftur vörugeymsluhús. Seinna virðast tvö hin síðarnefndu hús hafa horfið úr sögu og nýtt hús hafa verið bygt í stað þeirra, því að um 1830 eru húsin að eins tvö fram að götunni, en seinna voru þessi tvö hús sameinuð undir einu þaki, og var það býsna mikið hús. Löngu síðar, er Móritz Biering var orðinn eigandi verzlunarinnar, lét hann setja heljarmikinn kvist (sjö gluggafög) norðan megin á hús þetta. Félagið, sem þessa verzlun átti, nefndist »Det flensborgske Interessentskab« og eru aðalmenn þess taldir *H. Thielsen* og *Boy Petersen Holst*. Fyrsti verzlunarstjóri þeirra hér, sem vér kunnum að nefna, hét *Hans Christjan Brynning*, kvæntur íslenzkri konu, Ólöfu Vernharðsdóttur. Árið sem hér ræðir um (1801) er *Adser Christjan Knudsen* verzlunarstjóri í Flensborgarahúsunum, og er þá að eins ókvæntur Jóhönnu Margréti, dóttur Diðriks kaupm. Hölters í Stykkishólmi, systur Mörtu Maríu, amtmannsfrúar á Hvítárvöllum Stephensen, og Katrínar Önnu, síðari konu Westy Petræusar kaupmanns. Stóð brúðkaup þeirra hér í dómkirkjunni þá um haustið og var mikið um dýrðir. Svaramenn brúðhjónanna ekki færri en fjórir: Ólafur stiftamtmaður, Magnús (síðar) konferenzráð, Stefán amtmaður á Hvítárvöllum og Westy Petræus. Þótti mönnum, sem ekki er tiltökumál, glæsilega af stað farið. Undirtylla hjá Adser Knudsen var þá bróðir hans, litið eitt yngri, *Lars Michael Knudsen*, er síðar verður nánar getið í þessu riti, svo mjög sem hann kemur við sögu bæjarins næsta mannsaldurinn. Þeir bræður voru ættaðir frá Jótlandi, líklega frá Rípum, að minsta kosti er

þess getið um yngri bróðurinn í sálnaregistri prestakallsins 1827, að hann sé fæddur þar. Árið 1805 keypti Adser Knudsen, eins og síðar verður getið, randersku húsin og setti þar sjálfstæða verzlun á fót (í einhverju sambandi þó við Peschier & Co. í Khöfn). Þá gerðist *Christjan Conrad Strube* faktor Flensborgaraverzlunar og eftir hann *Andreas Daniel Mohr* (1811—1820), er átti Valgerði Sigurðardóttur frá Grund í Eyjafirði Gunnarssonar, systur Símonar á Dynjanda, föður Sigurðar skipstjóra (sonur Mohrs og Valgerðar var Carl Ludvig Mohr, er varð prestur í Værslev á Sjálandi † 1872). Að líkindum hefir verzlunin átt erfitt á ófriðarárunum og eigendurnir viljað losna við hana. Því 1813 lætur Thielsen halda uppboð á húsunum. Kaupir þau þá R. Frydensberg land- og bæjarfógeti, en selur þau aftur seljendum í sömu vikunni, og mun það merkja það, að kaupin hafa gengið til baka. En tveim árum síðar (1815) verður Jóhannes Holst í Flensborg eigandi verzlunarinnar, og eftir hann aftur verzlunarhúsið Jensen & Schmidt í Flensborg. Eftir Mohr tók við forstöðu verzlunarinnar hér *Thomas Henrich Thomsen* og hafði hana allmörg ár á hendi. Hann átti Margréti Inger, dóttur Einars snikkara Hannessonar á Eyrarbakka, og voru dætur þeirra þær systur María og Kristjana Thomsen, er lifðu hér í bæ (í Thomsenssystra-húsi í Grjótagötu) á unglingakenslu fram á vora daga. En Flensborgar-Thomsen var síðast veitingasali í Gl. klúbbnum og dó þar nál. 1845. Tók við forstöðu verzlunarinnar af honum *Moritz Wilhelm Biering*, sonur H. P. V. Bierings faktors, er síðar verður nefndur. Móritz Biering hafði alist upp við þessa verzlun frá æsku og orðið seinna faktor verzlunardeildarinnar í Keflavík. En 1850 eignaðist hann Flensborgaraverzlunina hér í bæ. Var hann annálaður öðlingur og öllum harmdauði, er hann fórst undir Svörtuloftum haustið 1857, ásamt konu sinni og tveim uppkomnum börnum, á leið til útlanda. Í Nýjum félagsritum (1858) hefir Páll Melsteð skýrt frá þeim atburði og minnist hann Bierings með svofeldum orð-

um: »Að Biering hefir þó þótt einna mestur mannskaðinn, því að hann var álitinn eitthvert hið mesta kaupmannsefni á Íslandi af innlendum kaupmönnum«. Segir hann enn fremur, að kona Bierings hafi mjög ýtt undir mann sinn að leggja af stað, en hann látið að tilmælum hennar, nauðugur þó, segjandi: »Þú skalt þá ráða því«. En Ísland hafi Biering kvatt þessum orðum, er hann var á skip kominn og leit aftur til lands: »Guð gefi Íslandi góðar nætur!« Orðin lýsa manninum og innræti hans. Hann var tvíkvæntur og báðar konurnar dætur James Robbs kaupm. og Valgerðar konu hans Ólafsdóttur. Hét sú fyrri Jane, en hin síðari Ingibjörg. Af börnum hans, sem upp komust, má nefna bræðurna Hinrik faktor og Pétur verzlunarmann og systurnar Hendrikku Andreu, fyrri konu Óla Finsens póstmeistara, og Vilhelminu, er átti séra Stein í Árnesi Steinsen og enn er á lífi hér í bæ.

Eftir lát Bierings keyptu þeir C. Fr. Siemsen og P. C. Knudtzon kaupmenn Flensborgarahúsin og gáfu síðan bænum aðalhúsið fyrir barnaskóla. Þar var svo barnaskólinn haldinn (árin 1860—83) unz gamla húsið var rifið og nýtt barnaskólahús reist úr steini, það sem nú er pósthúsið og landsímastöðin. En fyrir barnaskólanum í Bierings-húsunum gömlu var alla tíð cand. theol. *Helgi E. Helgesen,* sonur Einars trésmiðs Helgasonar (er síðar verður nefndur). Nýtízku-fyrirkomulag var ekki á gamla barnaskólanum, enda heilbrigðisfræðin skamt á veg komin þá og menn ekki eins kröfuharðir í því tilliti og síðar. Í stað þess sem í útlöndum er tízka, að hafa gosbrunna fyrir framan hús sín, var hér í miðju »portinu« stóreflis-hlandforarvilpa, illa yfirbygð, sem ódauninn lagði úr í allar áttir!

Rétt fyrir vestan Flensborgarahúsin hafði *Georg Andreas Kyhn* látið smiða verzlunarhús og rekið þar (og í Keflavík) verzlun árin 1793—98. Áttu þeir þær verzlanir í sameiningu, Kyhn og *Ólafur Gíslason Waage* (dóttursonur Guðna sýslum. Sigurðssonar í Kirkjuvogi).

Ólafur dó þrítugur á Akureyri 1797[1]). Þetta Kyhns-hús var rifið og viðurinn fluttur burtu héðan til annara þeirra staða, þar sem Kyhn rak verzlun, annaðhvort norður eða austur. En verzlunarlóðina seldi hann einhverju verzlunarhúsi í Sönderborg á Als, sem mun hafa ætlað að byrja hér verzlun, þótt ekkert yrði úr því. Kyhnshús mun hafa staðið þar sem nú er Ingólfshvoll. Kyhns-verzlun hér stýrði fyrstu árin tvö *Þorkell* stúdent *Magnússon* (prests Þórhallasonar í Villingaholti), bróðir séra Þórhalla á Breiðabólsstað í Fljótshlið og Ara verzlunarmanns, þess sem fallbyssan grandaði hér í bænum 1803[2]). Þorkell hafði áður verið barnafræðari (katechet) í Grænlandi, en gerzt síðar verzlunarmaður. Seinna sneri hann sér aftur að barnafræðarastarfinu og er fyrstur þeirra manna, sem kunnugt er um, að hafi gert sér það starf að atvinnu hér í bæ. Hann dó nær sextugur í Grænabæ árið 1807.

Þá komum vér að annari höfuðverzlun Reykjavíkur á þessu skeiði. Það er hin svonefnda **Nordborgarverzlun.** Hurfu síðustu leifar hennar með bruna Edinborgarhússins gamla í eldsvoðanum mikla 1915. Það er upphaf þeirrar verzlunar hér í bæ, að árið 1790 fékk skipherra *Jörgen Mindelberg* frá Nordborg á Als útmælda verzlunarlóð fyrir hönd húsbónda síns, *Jess Thomsens*, kaupmanns í Nordborg. En verzlunarhús voru þó ekki reist fyr en 1792. Var aðalverzlunarhúsið þar sem seinna var faktorabústaður Knudtzons-verzlunar um fjölda ára, sölubúð í öðrum enda þess og íbúð faktors í hinum[3]). En fyrir austan það, þar sem seinna

---

1) *Ólafur Gíslason Waage* var kvæntur Sigríði Oddsdóttur úr Eyjafirði. Sonur þeirra var *Georg Holger Waage* dr. theol., forstjóri Sóreyjarskóla, en hans börn aftur þau: *Ólafur Waage* lic. theol., prófastur í Herlufmagle á Sjálandi, og *Frederikke Catharine*, kona Edvards Holms, sagnfræðings og próf. við Khafnar-háskóla.

2) Sbr. Ísl. Árb. XI, 128.

3) Það er algerlega rangt, sem segir í Reykjavíkurlýsingu Gröndals í Eimreiðinni VI, að þetta hús hafi upphaflega verið

var sölubúð verzlunarinnar, var vörugeymsluhús. Forstöðu verzlunarinnar hafði í fyrstu nokkur ár *Christian Thomsen,* en af honum tók við *Westy Petræus,* er þar byrjaði sinn auðsæla verzlunarferil sem faktor (1795—97). Eftir hann kom *Peter Ludvig Svane* tvö ár, en þá tók við forstöðunni *Clavs Mohr* (1799—1805). Þessi Clavs Mohr faktor kvæntist 1803 *Margréti Andreu Hölter,* dóttur Lars beykis Hölters í Stykkishólmi, bróður Diðriks kaupmanns, og Guðrúnar Þorbergsdóttur, systur síra Hjalta, afa Bergs Thorbergs landshöfðingja. Hafði hún verið til húsa hjá Petræusi, er átti, sem fyr segir, frændkonu hennar, en þau hjón að líkindum gerzt hvatamenn að því, að þau ættust, Mohr faktor og hin unga stúlka. Aldursmunurinn var 22 ár, enda fór hjúskapurinn illa. Maddama Mohr stökk burt frá bónda sínum áður en hálfnað var fyrsta hjúskaparárið og strengdi þess heit, að setja aldrei framar fót sinn inn fyrir hans dyr. Vakti þetta því meira hneyksli í hinum litla kaupstað sem sjálfur biskupinn, hr. Geir, hafði verið sóttur sunnan frá Lambastöðum, til að lesa yfir brúðhjónunum (minna mátti ekki gagn gera), og var hinni ungu konu mjög legið á hálsi fyrir. Eins og vikið var að, eru líkur til þess, að Margréti Andreu hafi verið ýtt út í hjúskap þennan nauðugri, er hún hafði lagt hug á annan mann, Lars Michael Knudsen, bróður Adsers, og þau hvort á annað, en hin unga stúlka ekki staðist fortölur húsbænda sinna, er þótti þessi ráðahagur giftuvænlegri, að eiga faktorinn, þótt tekinn væri að eldast, en að eiga »assistent«, sem ekkert átti. Clavs Mohr var seinna í Keflavík við verzlun Jacobæusar þar, og þar syðra mun hann hafa dáið. Eftir Mohr gerðist *Jess Thomsen yngri,* sonur verzlunareigandans, forstöðumaður Nordborgar-verzlunarinnar, og stýrði henni unz hann sjálfur eignaðist hana og fluttist búferlum til Danmerkur. Setti hann þá *Hans Peter Vilhelm*

---

eitt af húsum kongs-verzlunarinnar gömlu (sbr. bls. 47 í sérprentun ritgerðarinnar).

*Biering* yfir verzlun sína hér, og stýrði hann henni frá 1811 til 1821. Biering var aldanskur maður, eins og nafnið bendir til, hafði ungur gerzt verzlunarmaður við randersku verzlunina, fyrst hér í bæ hjá Böye, en seinna í Hafnarfirði, en fluzt hingað aftur, er verzlun sú skifti um eigendur eða hætti 1805. Sama ár sem hann tók við forstöðu Nordborgar-verzlunar, kvæntist hann Önnu Katrínu Larsdóttur Hölter, systur Margrétar Andreu. Synir þeirra voru áður nefndur Móritz Wilhelm og Peter Stefan. Hinn síðar nefndi fór ungur til Danmerkur, varð kapteinn í landher Dana og síðar ofursti að nafnbót; var hann um tíma umsjónarmaður á Frederiksberg-höll í Khöfn († 1907). Þau hjón, H. P. V. Biering og kona hans, fóstruðu Jón Guðmundsson, hinn nafnkunna ritstjóra Þjóðólfs og stjórnmálamann, er síðar varð, frá því er hann var 6 ára, og fórst við hann ágætlega. Eftir 1821 lét Biering af forstöðu verzlunarinnar. Var gamli Biering eftir það »assistent«, fyrst við Jacobæusar-verzlun nokkur ár, en síðar við Sivertsens-verzlun. Bjó hann þá í Grænabæ, sem síðar verður getið, unz hann fluttist til Keflavíkur nálægt 1837. En við Nordborgarverzluninni tók Peter Rist faktor og stýrði henni nokkur ár, og eftir hann Einar stúdent Jónsson 1827—36. Voru þá fyrir allmörgum árum orðin eigandaskifti að Nordborgar-verzlununum og *P. C. Knudtzon*, tengdasonur Jess Thomsens, ásamt tveim mágum sínum, orðnir eigendur. Um eitt skeið var Lars M. Knudsen meðeigandi verzlunarinnar, og seinna Wibroe nokkur, en frá 1844 var P. C. Knudtzon einn eigandi hennar. Í nálægt 50 ár var verzlun P. C. Knudtzons ein af mestu verzlunum þessa lands, enda var hann dugnaðarmaður mikill, en afarráðríkur maður og yfirgangssamur. Erlendis var hann í miklu áliti; sat t. a. m. á fulltrúaþinginu í Hróarskeldu sem fulltrúi Kaupmannahafnar (1835—40) og tvö ár í borgarráðinu. En hér á landi kom hann sér fremur illa, vegna ráðríkis síns, og þótti enda viðsjármaður um viðskifti. Árið 1842 varð hann gjaldþrota í bili, en rétti brátt við aftur og andaðist auðugur maður

(1864). Eftir lát hans ráku synir hans tveir verzlunina hvor eftir annan; hinn síðari var cand. jur. & polit. *Sören Christian Knudtzon,* kapteinn í landher Dana og kammerjunker, síðast einn af bankastjórum Þjóðbankans danska, sennilega mentaðasti og mikilhæfasti útlendingurinn, sem nokkuru sinni hefir verzlun rekið á Íslandi. Hann seldi verzlunarfélaginu Copland & Berry verzlunarhúsin, og var þar rekin hin svonefnda Edinborgar-verzlun, sem nú er eign Ásgeirs konsúls Sigurðssonar.

Næst fyrir vestan Nordborgarhúsin stóð á morgni 19. aldar svokallað **Svendsenshús.** Það hús hafði verið smíðað 1790 fyrir reikning *Jens Jörgensens Ahrentzens* skipherra frá Kaupmannahöfn, er þar byrjaði verzlun, sem Gunnlaugur nokkur Sveinsson veitti forstöðu, en stóð að eins nokkur ár. Þá eignaðist Gunnlaugur húsið, bjó þar nokkur ár við lítilsháttar verzlun fyrst, en síðan sem veitingasali, ásamt konu sinni Halldóru Þorgrímsdóttur. En skömmu eftir aldamótin er Kristófer Faber faktor við Sunchenbergs-verzlun (er síðar verður nánar getið) orðinn eigandi hússins; þar býr þá *Peter Malmqvist,* sænskur beykir, er kemur allmikið við sögu Jörgensens hér 1809. Gerði Jörgensen hann að »kommandant« á virki því, er hann lét reisa á Arnarhólskletti, og kallaði »Phelpsvirki«. Seinna var hann í þjónustu Savignacs og Johns Parkers, konsúlsins enska, sem hér dvaldist þessi ár og reyndist landsmönnum verst. Fór Malmqvist með þeim utan 1812 og kom ekki aftur. Kona hans var dönsk; var hún yfirsetukona bæjarins um þessar mundir, og þótti engin skrafskjóða hér fá jafnast við hana. Eftir að Faber hafði látið af faktorsstöðu við Sunchenbergs-verzlun, bjó hann og verzlaði nokkur ár í Svendsenshúsi, en seldi síðan (1816) *James Robb* frá Liverpool (upphaflega fulltrúa verzlunarfélagsins Horne & Stackhause) og var húsið í Robbs-ættinni síðan í 60 ár. James Robb átti íslenzka konu, Valgerði Ólafsdóttur úr Hafnarfirði. Auk dætranna tveggja, sem eins og fyr segir báðar áttu Móritz Biering, áttu þau fjóra

sonu: Carl Ole (er var stúdent frá Bessastöðum), James söðlasmið, Jón gullsmið og verzlunarmann og Hans. Voru þeir allir drykkjumenn miklir. *Carl Robb* verzlaði lengi í Robbshúsi, og eftir hann *Hans Robb* bróðir hans. Hans fór um síðir á höfuðið og fluttist þá til Ameríku. Þar lifir nú að minsta kosti einn af sonum hans, Georg Robb, kvæntur Maríu Torfadóttur prentara Þorgrímssonar. Eftir Hans Robb var þar í húsunum nokkur ár Þorfinnur Jónatansson stúdent og kaupmaður, og eftir hann Þorl. O. Johnson kaupmaður. Síðast eignaðist Gunnar Gunnarsson þetta hús, lét rífa það og byggja þrílyft hús á lóðinni. Það brann 1915.

Rétt fyrir vestan síðastnefnt hús stóð á þeim tíma, sem hér ræðir um, lítið hús, sem í sálnaregistrum frá þessum árum er kallað **Brekkmannshús**, og býr þar þá *Páll Björnsson Brekkmann* borgari. Hafði Páll fengið sér útmælda lóð þarna árið 1789, 60 álna langa meðfram reipslagarabrautinni og 40 álna breiða, eins og fyr segir. Það hús, sem hér er um að ræða, stóð austast á lóðinni, og mun Páll hafa reist það árið 1796 eða þar um[1]). En sjö árum áður hafði Páll bygt annað hús vestast á lóðinni, og munum vér koma að því síðar. Páll Brekkmann var ættaður vestan úr Dalasýslu. Var Björn faðir hans kallaður »kópahaus« eða »koparhaus«, og veit ég ekki hvort réttara er. Páll hafði áður verið búsettur erlendis og numið timburmannsiðn, en, þegar verzlun landsins var gefin laus, gerzt »fríhöndlari« hér í bæ í félagi við annan mann, *Einar* borgara *Þórólfsson*, sem skjótt hverfur aftur úr sögunni. Var Páll þá kominn yfir sextugt (var fæddur 1727). Hafði hann átt konu danska, Vibeke Riise, en þau skilið nokkurn eftir að hann tók að verzla í Reykjavík, hvernig sem á því hefir staðið. Sennilega hefir hún ekki viljað flytjast

1) Í eiginhandar-uppdrætti Reykjavíkur frá 1801, þeirra Ohlsens og Aanums mælingarmanna, hér á landsbókasafninu (safni Jóns Sigurðssonar), er tekið fram um hús þetta, að það sé reist árið 1796.

búferlum út hingað. Varð Páll því að búa hér með bústýru. Hún hét Jarþrúður Hjörleifsdóttir, og mun hafa verið ekkja. Árið 1798 áttust þau Páll (sem þá var orðinn 71 árs) og Jarþrúður þessi. En sá hjúskapur flutti Páli litla gleði, því að konan var mikill gallagripur, og dætur hennar af fyrra hjónabandi þaðan af verri. Önnur þeirra var Þórunn Vigfúsdóttir. Hana átti Grímur nokkur Ólafsson borgari hér í bænum, hinn versti maður. Þessi Grímur gerði 1803 tilraun til að brenna Pál gamla, stjúpa konu sinnar, inni, en tókst það ekki. Varð mikill málarekstur út af þessu. Játaði Grímur á sig brotið, en í ofanálag svo margar vammir og skammir aðrar (þjófnað, fósturmorð, sifjaspell o. fl.), að margir hugðu hann beint ljúga á sjálfan sig. Landsyfirrétturinn dæmdi hann í lífstiðarþrælkun, en hæstiréttur gerði honum líflát. Var hann fluttur utan, en konungur náðaði hann og breytti líflátsdómnum í tugthús æfilangt[1]). Verzlun sína mun Páll ekki hafa haft í húsi þessu þegar hér er komið sögu, heldur í Stýrimannshúsinu svonefnda, er síðar verður getið, á horninu á Hafnarstræti og Aðalstræti. Eftir 1804 er Björn Benediktsson Fjeldsteð borgari talinn eigandi hússins (en verzlun sína hafði hann í Aðalstræti í félagi við Tofte kaupmann, að því er virðist); en þá býr þar *Tómas Klog* landlæknir, er dvaldist hér í bæ nokkur ár, áður en hann fluttist að Nesi. Klog var innborinn Íslendingur, kaupmannsson frá Vestmannaeyjum; varð hann 1804 eftirmaður Jóns landlæknis Sveinssonar, fluttist að Nesi 1807, en fékk lausn frá embætti 1815. Fór hann þá utan og gerðist nokkuru síðar stiftslæknir á Falstri og andaðist þar 1824 (56 ára). Eftir dauða Björns Fjeldsteðs var húsið selt á uppboði *Símoni Hansen* (frá Bátsöndum), er áður hafði verið faktor við Sivertsens-verzlun, en gerðist nú (um 1816) sjálfstæður kaupmaður. Rak hann verzlun sína þar í húsinu til dauðadags, en íbúð hafði hann alla tíð í húsi, er hann hafði látið reisa sér á Smiðs-

1) Íslands Árbækur XI, bls. 118, 128.

bæjar-lóð á Austurvelli, rétt austur af kirkjunni. Eftir dauða Símonar eignaðist tengdasonur hans, Hannes St. Johnsen kaupmaður, Brekkmannshúsið og hafði þar lengi verzlun sína, en seinna notaði hann það til vörugeymslu.

Beint suður af þessu Brekkmanns- eða Fjeldsteðshúsi, innan takmarka lóðarinnar, sem Páli Brekkmann hafði í upphafi verið útmæld, stóð allreisulegur torfbær um þessar mundir og fram á miðja 19. öld. Nefndist torfbær þessi »**Grænibærinn**«. Ekki veit ég með vissu, hver reisti þann bæ í fyrstu, en þar sem hann stóð á Brekkmannslóð, tel ég líklegast, að Brekkmann hafi sjálfur látið reisa hann og ef til vill búið í honum nokkurn tíma. Eftir 1805 er Andreas Mitchell orðinn eigandi Grænabæjar og býr þar sjálfur nokkur ár, en þeir Páll Brekkmann og Mitchell þessi áttu allmikil viðskifti saman á þeim árum, svo að sterkar líkur eru til þess, að Mitchell hafi eignast bæinn eftir Pál, eins og hann eignaðist Stýrimannshúsið eftir hann, sem síðar verður getið. Eftir burtför Mitchells bjó Jón verzlunarmaður Jónsson í Grænabæ. Þar fæddist sonur hans og Þorkötlu Jónsdóttur, *Egill* bókbindari *Jónsson*, sem um fjölda ára var aðalbókbindari og bóksali bæjarins. Eins og áður segir, fluttist H. P. V. Biering í Grænabæ, er hann lét af forstöðu Norðborgarverzlunar og bjó þar unz hann fluttist með syni sínum Móritz til Keflavíkur nál. 1837. Þar syðra andaðist hann 1838. En þá fluttist mágur hans, *Diðrik Hölter* skóari (er átti Elínu dóttur Egils Sandholts) í bæinn og bjó þar nokkur ár, en eigandi hans var þá orðinn Móritz Biering. Hann seldi bæinn James söðlara Robb, mági sínum, er loks lét rífa hann nál. 1848 og reisa timburhús á bæjarstæðinu, það er síðar átti Símon beykir Guðmundsson og eftir hann Jónas skólakennari Guðmundsson, síðar prestur á Staðarhrauni. Ólafur gullsmiður Sveinsson († 1915) átti það hús síðast, en lét rífa það, er hann bygði hús sitt við Austurstræti, út við götuna.

Þá erum vér komnir að randersku húsunum svo-

nefndu á horninu á Hafnarstræti og Veltusundi, þau er seinna átti Hannes St. Johnsen kaupmaður og við hann voru kend um fjölda ára. Hús þessi stóðu vestast á Brekkmannslóðinni. Voru húsin tvö, íbúðarhús faktorsins með sölubúð í öðrum enda og vörugeymsluhús lítið eitt austar. Lá íbúðarhúsið út að Veltusundi, sem nú er, frá norðri til suðurs. Þetta hús höfðu þeir Páll Brekkmann og Einar Þórólfsson látið reisa árið 1789, er þeir byrjuðu verzlun sína hér. Einar þessi (sonur Þórólfs í Engey) hvarf héðan brátt aftur, en Páll Brekkmann verzlaði þar þangað til 1794, er hann seldi rentukammerinu húsið (fyrir 800 rdl.) fyrir embættisbústað handa *Finne* landfógeta. En húsið reyndist ekki betur en svo, að Finne varð feginn að flytja úr því um miðjan vetur upp í tugthúsið. Ritar hann rentukammerinu hvert bréfið á fætur öðru um hörmulega æfi sína í þessu húsi. Auk þess sem húsið sé alls óboðlegt meiri háttar konungsins embættismanni, svo lítið sem það sé, þá sé ekki líft í því fyrir kulda og slaga, og ofan á alt annað bætist, að það liggi svo nærri sjó, að í stórum straumi gangi sjórinn upp að húsinu og inn í það. Glæsileg er lýsingin ekki, en auðsjáanlega hefir landfógeti ekki gert minna úr annmörkum hússins en ástæða var til. Skorar hann á stjórnina, að láta flytja húsið á annan stað í kaupstaðnum og endurbæta það eða að festa kaup á öðru húsi, sem hann tilnefnir, húsi »sal. Angels Enke ved Hovedgaden«[1], þ. e. Lóskurðarstofunni gömlu í Aðalstræti. Eftir mikil skrif fram og aftur um málið, varð niðurstaðan sú, að rentukammerið festi kaup á þessu húsi »sal. Angels Enke«, er upp frá því var landfógetabústaður til 1828, en hitt húsið, sem keypt hafði verið af Brekkmann, seldi rentukammerið (fyrir 600 rdl.) dönsku verzlunarfélagi frá Randers (agent Rasmus Hansen, Hans Chr. Hansen og stadthauptmann Rasmus Welling), sem í það mund var að byrja verzlun hér

1) Bréf landfógeta til rentukammersins um málið er til á þjóðskjalasafni voru (A. 128. og pk. 143).

og í Hafnarfirði. Voru kaupin fullgerð 19. sept. 1798, en sennilega hafa þeir byrjað verzlun sína hér nokkuru áður, sé það rétt, sem þeir herma Ohlsen og Aanum á Reykjavíkur-uppdrætti sínum, að vörugeymsluhús þeirra Randersmanna þar á lóðinni hafi verið bygt 1796. Fyrir verzlun þeirra hér í bænum var *Johan Erland Böye* og aðstoðarmaður hans hér fyrstu árin margnefndur H. P. V. Biering, er nokkuru síðar varð faktor þeirra Randersmanna í Hafnarfirði. Við þessa verzlun var og um hríð Sigurður stúd. Guðlaugsson (bls. 28), líklega eftir að hann lét af forstöðu Sivertsens-verzlunar[1]). En þessi randerska verzlun þeirra blessaðist ekki vel. Böye stóð fremur illa í stöðu sinni sem verzlunarstjóri, hefir sem fleiri í slíkri stöðu vafalaust lifað mikið yfir efni fram. Því að 1805 er hann orðinn svo stórskuldugur húsbændum sínum, að alt er af honum tekið og selt á uppboði. En sjálfir voru þeir þá orðnir svo þreyttir á að verzla hér, að þeir láta selja á uppboði allar vöruleifar, og eins öll verzlunarhúsin, bæði hér í bæ og í Hafnarfirði. Verzlunarhúsin keypti *Adser Knudsen* og byrjaði þar verzlun þetta sama ár í einhverju félagi við Peschir & Co. í Kaupm.höfn. En sú verzlun varð skammæ, enda áraði afarilla fyrir kaupmenn hér þessi og hin næstu ár vegna ófriðarins, er þá geisaði á meginlandinu. Árið 1807 flytur Adser Knudsen af landi burt, að því er virðist sem eignalaus maður, og mun eftir það hafa sezt að í Rípum, þar sem hann var upprunninn. Þó er ekki lokið viðskiftum hans við Ísland með burtför hans héðan. T. d. fær hann 1808 af koll-

1) Sbr. Sýslumannaæfir III, bls. 233. Segir þar, að Sigurður hafi verið »við höndlun í Reykjavík *hjá Boga* um hríð«, en þar er vafalaust átt við *Böye,* faktor Randersmanna. Sigurður var sonur Guðlaugs prófasts í Vatnsfirði Sveinssonar († 1807); hafði hann gengið í Skálholtsskóla (verið vikið þaðan um hríð vegna galdrakvers, sem fanst í vörzlum hans) og útskrifast 1785. Hann var síðan 8 ár í Khöfn við laganám, en lauk aldrei embættisprófi; síðan var hann tvö ár barnakennari í Arendal í Noregi, en kom út hingað 1797. 1806—1819 var hann settur sýslumaður í Snæfellsnessýslu († í Vigur 1840).

ektusjóðnum 15000 rdl. lán til þess að ferma skip til Íslands[1]); þó komst það skip aldrei út hingað, því að það laskaðist á leiðinni, varð að hleypa inn til Noregs og þar var farmurinn seldur[2]). Enn fremur er hin næstu ár talað um Finnboga í Grjóta Björnsson svo sem verandi í þjónustu Adsers Knudsens, og skip Knudsens, »Haabet«, kemur hingað á hverju sumri alt til 1815, hlaðið »vörum frá Rípum«, en útgerðarmenn þess eru taldir þeir Adser Knudsen og Fr. Kolvig. Hinn síðarnefndi hafði verið hér í bæ nokkuru eftir aldamótin og var þá, ásamt Jóhanni Árnasyni (biskups Þórarinssonar), skrifari jarðavirðingarnefndarinnar. En næsta ár kaupir Petræusar-verzlun skipið og heyrist nafn Adsers Knudsens ekki upp frá því nefnt í sambandi við Ísland. Um niðja hans er mér það eitt kunnugt (af frásögn Magnúsar landshöfðingja Stephensens, sem er systursonarsonur konu Adsers Knudsens), að einn af sonum hans varð kapteinn í sjóliði Dana. Kom hann út hingað um 1840 og brá sér þá austur að Vatnsdal til að heimsækja Magnús sýslum. Stephensen, frænda sinn. — Eins og áður er tekið fram í sambandi við józka húsið, eru miklar líkur til að Bjarni riddari hafi eftir þetta orðið eigandi randersku húsanna, — þó naumast strax eftir burtför Adsers Knudsens; því húsin virðast enn hafa verið óseld næsta árið eftir. Í jan. 1809 leigir James Savignac eitt af húsunum (vafalaust vörugeymsluhúsið) til þess að reka þar verzlun þeirra Englendinganna, sem hann setti *Andreas Mitchell*[3]) fyrir, og

1) Sbr. Lovsamling for Island VII.

2) Sbr. Jörundarsögu dr. Jóns Þorkelssonar, bls. 15.

3) Eftir að þetta er skrifað, hefir mér flogið í hug sú tilgáta, að þessi *Andreas Mitchell* kaupmaður kunni ef til vill að vera sami maðurinn, sem sagt er frá í Bricka: Dansk biografisk Lexikon, XI. b., bls. 340—41, og nefnist þar »*Andrew Mitchel* smiðvélafræðingur« (Mekaniker), ættaður frá Skotlandi. Segir þar um þennan Andrew Mitchel, að sjóherstjórnarráðið danska hafi fengið hann til að setjast að í Danmörku, til þess aðallega að kenna mönnum að nota eimvélar til akkeris-smíða. Hafi hann komið upp fyrstu smíðaeimvélinni á Hólminum í

seinna um veturinn hefir Trampe, er þá var erlendis, eignast húsin[1]). Þó flytur Trampe ekki verzlun sína þangað, heldur er svo að sjá, sem húsið hafi eftir sem áður verið leigt ensku kaupmönnunum. En eftir burtför Trampe héðan hefir Bjarni riddari að líkindum eignast húsin; því að hann selur þau öll árið 1816 þeim Westy Petræusi og Lars Michael Knudsen, sem þá höfðu fyrir nokkuru myndað verzlunar-félagsskap með sér.

Frá 1808 hafði *Lars M. Knudsen* búið í faktors-íbúð randersku verzlunarinnar gömlu. Og þar býr hann til dauðadags (1828). Hann var þá (1808) orðinn faktor Petræusar hér, því að árinu áður hafði Petræus flutt af landi burt með fjölskyldu sína, og er hér eftir það að eins á sumrin. En ári síðar eigast þau Lars Knudsen og *maddama Mohr*. Hafði þeim fæðst afkvæmi 1808 og því urðu þau að fá stjórnarvalda-leyfi til að eigast. Það leyfi veitti — Jörgensen! En eins og fleiri samskonar ráðstafanir hans, fékk það að standa eftir að

---

Khöfn 1790, fengið að launum fyrir það 10 þús. dali og í ofanálag fasta stöðu æfilangt sem tilsjónarmaður vélasmiðjunnar gegn 130 dala mánaðarlaunum. En þegar frá leið, hafi Mitchel þessi ekki reynzt sá hæfileikamaður, sem haldið var í fyrstu, og eimvélin, sem hann hafði komið upp, reynzt allmikill gallagripur. Hafi hann þá verið keyptur frá tilsjónarmannsstöðunni 1802 gegn útborgun árslauna fyrir fjögur ár. Eftir það hafi hann horfið frá Danmörku og að líkindum farið til Englands aftur. — Sé nú tilgáta mín rétt, þá hefir hann ekki farið til Englands, heldur til Íslands. Kemur það m. a. heim við tímann, er hann hverfur frá Danmörku, að hins er fyrst getið í sálnaregistrum Rvíkur-prestakalls eftir 1803 (hér dvelur hann lengst af til 1811 eða 12 og verzlar). Þegar Englendingar taka að leita hingað á ófriðarárunum (kringum 1808) hefir Andreas Mitchell þegar orðið þeirra önnur hönd; t. d. gerist hann verzlunarstjóri Savignacs, er hann kemur til Rvíkur í jan. 1809 með »Clarence«. Og þegar »Flora«, briggskipið, er Phelps & Co. átti, fór héðan í sept. s. á. til Austfjarða hlaðið »nauðsynjavörum, er rænt hafði verið úr opinberum og einstakra manna vörubúðum í Reykjavík«, þá fór sem kaupstjóri með því Mitchel hinn enski, sem »kunnur er í Kaupmannahöfn og á Íslandi«. (Sbr. Jörundarsögu dr. J. Þ., bls. 28, 114).

1) Sbr. Jörundarsögu dr. J. Þ., bls. 28.

hann var fallinn úr tigninni, og stóð brúðkaup þeirra í október um haustið 1809. Af hjúskap þeirra er það skemst að segja, að hann blessaðist í alla staði vel. Maddama Knudsen reyndist í þeim hjúskap sínum ágætasta húsmóðir og bezta móðir sinna mörgu barna. Er mikill og merkur ættbálkur þaðan runninn. Þarf ekki annað en minna á það, að þeir þrír mætis-menn, Pétur Guðjohnsen organisti, Þórður Guðmundsen kammerráð og sýslumaður og Þórður Sveinbjörnsson konferenzráð og háyfirdómari, áttu sína systurina hver. Af sonum þeirra má nefna þá Diðrik Knudsen snikkara og Lúðvig Árna Knudsen bókhaldara, er báðir dvöldust hér í bæ allan aldur sinn, og Knud Peter Knudsen, er nam skólalærdóm erlendis og varð prestur í Blegind-Hörning prestakalli á Jótlandi († 1884). Lars Knudsen varð 1814 meðeigandi Petræusar-verzlunar að $^1/_3$, en gekk úr því sambandi 1821. Seinna gekk hann í verzlunarfélagsskap við þá P. C. Knudtzon og Th. Thomsen, en spann lítt silki á því fremur en aðrir, sem við Knudtzon bundu félagsskap. Eftir dauða Lars Knudsens († 1828) eignaðist Knudtzon íbúðarhús hans. Þar bjó nokkuru síðar *Daniel Bernhöft* bakari († 1886) fyrstu búskaparár sín hér; hann hafði áður verið í Vestmannaeyjum, en kom hingað á vegum Knudtzons, er setti hér á fót bökunarhús fyrir austan læk og Bernhöft yfir það. Seinna eignaðist Bernhöft bökunarhúsið, er síðan hefir verið í ætt hans og enn er kent við hann. En ekkja Knudsens fluttist með börnum sínum upp í Landakot, sem hún átti, og bjó þar unz Helgi G. Thordersen dómkirkjuprestur (síðar biskup) keypti þá eign. Þá fluttist maddama Knudsen í Skraddarahúsið, sem Clement Lint Thóroddsen (föðurbróðir Jóns sýslumanns og skálds) hafði reist í Austurstræti, en seinna var lengi kent við Guðmund Lambertsen (þar er nú »Ísafold«). Hún dó 1849. Um 1846 eignaðist *Hannes Steingrímsson* (biskups) *Johnsen* randersku húsin og bjó þar og verzlaði til dauðadags. Hannes hafði numið skólalærdóm í heimahúsum og útskrifast 1830. Dvaldist hann

síðan nokkur ár í Khöfn við nám, en varð sökum vanheilsu að hverfa frá námi. Fór hann þá aftur heim og tók nokkuru síðar að verzla (fyrst í húsi O. P. Chr. Möllers við Austurvöll, því er seinna var kent við Guðnýju Möller, en síðar í húsi tengdaföður síns í Hafnarstræti; sjá bls. 47). Kona hans var Sigríður Kristín, dóttir Símonar Hansens kaupm. og Kristínar Stefánsdóttur frá Káranesi í Kjós (systur Guðbrandar smiðs). Var hús H. St. Johnsens um margra ára skeið eitt þeirra húsa hér í bæ, þar sem flestir komu, svo vel metnir voru húsráðendurnir og gestrisni þeirra og höfðinglyndi viðbrugðið.

Öll hús Hafnarstrætis, sem nú hafa verið talin, hafa staðið sunnan megin götunnar, nema Ísaachsensbúðin ein. En hér komum vér að lágu húsi og ljótu norðan megin hennar. Það er **Fálkahúsið**, sem áður var, en var nú fyrir skömmu orðið sölubúð *Westy Petræusar*, hins mikla höfuðpaurs Reykjavíkur-verzlunarinnar framan af 19. öldinni. En fyrir sunnan götuna, andspænis Fálkahúsinu, voru vörugeymsluhús þeirrar verzlunar. Hafði Petræus tekið Fálkahúsið á leigu af stjórninni, en eignaðist það ekki fyr en 1820. En íbúð sína hafði Petræus vestur í Aðalstræti í undirforstjóra- og bókhaldara-íbúð innréttinganna, er áður var, en hana hafði Petræus keypt. Westy Petræus var, eins og fyr segir, kvæntur Katrínu Önnu Diðriksdóttur kaupmanns Hölters í Stykkishólmi. Var hún síðari kona hans. Börn þeirra fluttust öll til Danmerkur með foreldrum sínum og ílentust þar. En laundóttir Petræusar með Ragnheiði (dóttur Elínar Þórðardóttur í Hlíðarhúsum), er síðar átti Stiesen verzlunarmann í Keflavík, var Soffía Petrea, kona Magnúsar í Minnivogum Hallgrímssonar (prests Jónssonar í Görðum á Akranesi)[1]. Svo mikill kaupmaður sem Petræus var, þá var hann ekki að sama skapi vellátinn af almenningi, þótti viðsjáll í viðskiftum, er hann gat því við komið. Meðan Jörgensen var við völd hér sumarið 1809, virðist Petræus hafa

1) Sbr. Sýslumannaæfir IV, bls. 128.

reynt að bera kápuna sem mest á báðum öxlum, enda gerði Jörgensen honum ekki eins þungar búsifjar og sumum hinum dönsku kaupmönnunum hér í bæ. Lars M. Knudsen var faktor (og um hríð meðeigandi) verzlunarinnar frá 1807—21. Stóð verzlunin þá með svo miklum blóma, að eignir hennar voru haustið 1814 metnar á 80315 rdl. Þegar Knudsen gekk úr sambandi sínu við Petræus, tók við forstöðu verzlunarinnar *Pétur Jónsson Petersen*, sá er eignaðist verzlunina að Petræusi látnum (1829) og rak hana með miklum dugnaði um hálfan mannsaldur eftir það. Hann var af norðlenzku bergi brotinn, hafði ungur gerst vinnumaður Stefáns amtmanns á Hvítárvöllum, en amtmaður komið honum í þjónustu Petræusar svila síns. Landar í Kaupmannahöfn kölluðu Petersen »Káetu-Pétur«, og veit ég ekki, hvernig staðið hefir á því uppnefni. Petersen lét nál. 1824 byggja »*Veltuna*«, er síðar nefndist svo, sem faktorsbústað Petræusar-verzlunar, og nefndist hún »Petræusar-hús« á þeim árum. Þar bjó Petersen sjálfur sem faktor; var bústýra hans þá nokkur ár *maddama Ottesen*, er síðar verður nefnd. Áttu þau barn saman, en það dó ungt. Eftir að Petersen var orðinn eigandi verzlunarinnar, settist hann að í Kaupmannahöfn, en lét faktora stýra verzluninni. Einn þeirra var *Jón* stúdent *Markússon* (prests Sigurðssonar á Mosfelli í Mosfellssveit), sá er seinna lét reisa »Liverpool«, er svo var nefnd síðar (þar sem nú er verzlun og íbúð Th. Thorsteinssons kaupmanns), og verzlaði þar, en druknaði á póstskipinu 1857. Eftir Jón varð *N. Chr. Havsteen* (sonur Due Havsteens á Hofsós) faktor, en að Petersen látnum eignaðist Havsteen verzlunina og rak hana í fjölda ára. Hann lét loks rífa Fálkahúsið 1868 og gera nýtt hús í staðinn, lítið eitt norðar (Havsteensbúð). Það hús stækkaði J. P. T. Bryde löngu seinna og breytti á ýmsa vegu. En nú eiga þeir Ó. Johnson og L. Kaaber konsúlar hús þessi.

Rétt fyrir vestan Fálkahúsið, en nær sjónum, var svonefnt **Bergmanns-pakkhús** með framhlið að Aðal-

stræti. Það átti Þorkell G. Bergmann kaupmaður, er síðar verður getið. Hafði hann látið reisa það 1796, þó naumast til að verzla þar, heldur til vörugeymslu, því að verzlun sína virðist hann altaf hafa haft í Bergmannsbúð (»Fabriqve-hus Nr. 9«) í Aðalstræti (sjá síðar). Hús þetta eignaðist Lars M. Knudsen 1812 og byrjaði þar smáverzlun fyrir eigin reikning jafnframt því sem hann stýrði Petræusar-verzlun. En er hann tveim árum síðar batt verzlunar-bandalag við Petræus, rann hús þetta inn í Petræusar-eignina sem eitt af vörugeymsluhúsum hennar.

Vér erum þá komnir yfir í elztu götu og aðalgötu bæjarins, sem í gömlum skrifum og skjölum er ýmist kölluð »Hovedgaden« eða »Adelgaden« eða »Klubgaden« (því að alt var hér á dönsku í þann tíð). En það er *Aðalstræti*, sem vér nú nefnum svo.

Nyrzt í þessari götu, fyrir vesturenda Hafnarstrætis, blasa við oss elztu verzlunarhús höfuðstaðarins, **Sunchenbergs-verzlunarhúsin**, þar sem nú er verzlunin H. P. Duus. Þangað hafði kongsverzlunin verið flutt úr Hólminum (þ. e. Effersey) árin 1779 og 1780. Fyrir verzluninni var þá *Johan Christjan Sunchenberg* og var hann jafnframt yfirmaður innréttinganna, »en gudfrygtig Mand«, skrifar sóknarpresturinn (séra Guðmundur Þorgrímsson á Lambastöðum) í sálnaregistri prestakallsins eitt árið. Hægri hönd Sunchenbergs var *Runólfur Klemensson* frá Kerlingardal Hallgrímssonar, tengdasonur Sigurðar í Götuhúsum Erlendssonar, forfaðir Lækjarkotsættarinnar, er svo mætti nefna (sjá síðar). Þegar kongsverzlanirnar voru seldar, keypti Sunchenberg bæði Reykjavíkur- og Eyrarbakkaverzlunina, og rak þær fyrir eigin reikning frá ársbyrjun 1788. En með því stjórnin þurfti verzlunarfróðan ráðunaut við hlið sér við afhendingu verzlananna, sem hún hafði rekið hér undanfarið, kjöri hún Sunchenberg til þess starfa. Settist hann því að í Kaupmannahöfn og dvaldist þar til dauðadags (1805 eða 1806), en setti faktora fyrir verzlanir sínar,

Johan Höyer og síðan Runólf Klemensson hér í bæ, en Níels Lambertsen á Eyrarbakka. Verzlunarhúsin í Hólminum voru upphaflega fimm; voru fjögur þeirra flutt í land um sama leyti (1779—80), en eitt nokkuru seinna, að minsta kosti eru húsin talin fimm í skrá Skúla landfógeta yfir hús í Reykjavík frá 9. nóv. 1791. Meðan forstaða innréttinganna og kongsverzlunarinnar var í höndum eins og sama manns, bjó hann, eins og fyr segir, í aðalhúsi innréttinganna (Fabriqve-hus Nr. 1 eða Bergmannsstofu, er síðar nefndist svo). En eftir að þær sýslanir voru aðgreindar, lét Sunchenberg reisa faktors-íbúð fyrir sunnan krambúð sína, hinu megin við Götuhúsastíg (sem þá nefndist svo, en nú heitir Fischerssund). Þar hafði áður verið moldarkofi, er tilheyrði innréttingunum (Fabriqve-hus Nr. 16).

Þegar hér er komið sögunni (1801) bjó í faktorsíbúðinni *Kristófer Faber* faktor. Hann var ættaður frá Slagelse, hafði áður verið undirtylla við kongsverzlunina á Eyrarbakka, en gerst faktor Sunchenbergs, líklega þá er Runólfur Klemensson hætti. Var Faber allmikill maður hér í bæ þá um aldamótin, og bar sig ríkmannlega, en vafalaust um efni fram. Því að þegar dánarbú Sunchenbergs var gert upp, kom það í ljós, að Faber var orðinn allskuldugur verzluninni og reikningsfærsla hans í miður góðu lagi. Var honum því vikið frá ráðsmenskunni 1806. En 1808 setti hann upp einhverja verzlun í Svendsenshúsi, eins og fyr segir, en varð að ganga frá öllu slippur og snauður 1816. Var hann svo nokkur ár við verzlun í Keflavík, en flyzt aftur til Reykjavíkur og hefir þá eins árs tíma einhverja smáverzlun í Fjeldsteðshúsi (í Aðalstræti). Eftir það »lifir hann á náðarbrauði kaupmanna og faktora«, — eins og séra Gunnl. Oddsen kemst að orði í kirkjubók prestakallsins, er hann bókfærir andlát hans, — atvinnulaus öreigi til dauðadags (1827). Hver rekið hefir verzlun í Sunchenbergs-húsunum eftir dauða eigandans, hefir mér ekki lánast að grafa upp. Ef til vill hefir ekkja Sunchenbergs eða erfingjar haldið verzluninni á-

fram. Er yfir höfuð mjög hljótt um þessi verzlunarhús næstu 20 árin. Þó mun Einar stúdent Jónsson hafa rekið þar einhverja verzlun frá því er hann lét af forstöðu Jacobæus-verzlunarinnar þangað til húsin voru seld á uppboði 1827. Var það gert eftir kröfu Bjarna riddara, og bendir það óneitanlega í þá átt, að hann hafi þá verið orðinn eigandi húsanna, enda er að minsta kosti faktors-íbúðin í manntali 1819 kölluð »Sivertsenshús«; þá býr þar O. P. Chr. Möller kaupmaður. Annars búa hinir og þessir í faktors-íbúðinni á þessu ára skeiði, t. d. Hans Wöllner Koefoed sýslumaður, tengdasonur Bjarna riddara, Gunnlaugur faktor Halldórsson, Halldór Thorgrímsen sýslumaður (»valdsmaður«), Clement Lint Thóroddsen skraddari o. fl., og bendir það ekki til, að verzlun hafi verið rekin í »krambúðinni« á þeim árum. Á uppboðinu 1827 keypti *F. Westy Wellejus* verzlunar- og vörugeymsluhúsin og setti þar verzlun á fót. Wellejus hafði áður verið bókhaldari við Petræusar-verzlun. Fluttist hann nú til Khafnar og dvaldist hér einasta á sumrin, en faktorar stýrðu verzluninni. Fyrstu árin var áðurnefndur *Peter Duus* fyrir verzluninni, sá er seinna rak um fjölda ára verzlun í Keflavík, valinkunnur sæmdarmaður. Átti hann Ástu, dóttur Tómasar söðlasmiðs Bech og Guðrúnar Davíðsdóttur frá Hlíðarhúsum (sjá síðar), og voru börn þeirra H. P. Duus, kaupmaður í Keflavík, sem verzlunin í þessum húsum nú er kend við, og Anna Guðrún, er átti Daniel (Arason) Johnsen kaupmann. Seinna varð *Einar Jónasson* (frá Gili) fyrir verzlun Wellejusar, eða hafði hana á leigu, og eftir dauða hans rak Einar stúdent, sem fyr segir, verzlun þar, að nokkuru leyti í félagi við Wellejus. Yfir höfuð gekk Wellejusar-verzlun fremur illa og sum árin hafði hann sjálfur enga verzlun þar í húsunum, en leigði þau öðrum. Þannig rak *Edvard Siemsen* þar verzlun eitt eða tvö ár (hann kom hingað í fyrstu sem stýrimaður á skipi bróður síns, C. Fr. Siemsens, en settist hér að og kvæntist Sigríði, dóttur Þorsteins lögregluþjóns Bjarnasonar í Brunnhúsi

við Suðurgötu) og *Jón* stúdent *Markússon* tvö ár, áður en hann fluttist í Liverpool, sem þá var í smíðum. Loks seldi Wellejus eignina stórkaupmanni M. C. Bech í Khöfn, en hann fyrst *Hermanni Fischer* og seinna *Robert P. Tærgesen* (1853). Hinn síðarnefndi reif gömlu Sunchenbergs-»krambúðina«, og lét reisa hið tvílyfta hús, sem enn stendur þar og H. P. Duus-verzlun á nú.

En faktors-íbúðina fyrir sunnan Götuhúsa-stiginn keypti á uppboðinu (1827) *Einar* snikkari *Helgason* (bróðir Arna stiftsprófasts í Görðum, en faðir Helga E. Helgesens síðar barnaskólastjóra). Bjó Einar þar í húsinu þangað til 1841, er hann seldi það verzlunarfélaginu *G. W. & E. Lorentzen* í Altona í makaskiftum fyrir hús á Brúnsbæjar-lóðinni í Tjarnargötu. Settu þeir upp verzlun þar í húsinu, en *Sveinbjörn Jacobsen* veitti henni forstöðu. 1847 seldu þeir aftur Sveinbirni, er verzlaði þar fyrir eigin reikning til 1857, er hann varð gjaldþrota. Sveinbjörn var ættaður úr Keflavík, hafði ungur lært bókband og komist til Hamborgar. Sneri hann sér síðan að verzlun. Hann átti Therese Lind, sem var laundóttir R. P. Tærgesen, þótt aldrei bæri hún nafn hans. Sveinbjörn fluttist síðar til Seyðisfjarðar, mun hafa fengist þar við verzlun og dáið þar. Faðir Sveinbj. Jacobsens var danskur, en móðir hans var Ásta Ásbjarnardóttir, systir Ólafs, föður Sveinbjarnar kaupm. í Keflavík (föður frú Kristjönu Duus og Ólafs A. Ólafsson kaupm.), Ásbjarnar í Njarðvík og Arinbjarnar í Tjarnarkoti. En bróðir Ásbjarnar, föður Ástu, var Egill í Njarðvík, faðir dr. Sveinbjarnar Egilssonar rektors. Eftir Sveinbjörn Jacobsen eignaðist *Waldemar Fischer* (er átti Arndísi, dóttur Teits Finnbogasonar smiðs og dýralæknis) húsið og setti þar upp verzlun, en hann hafði áður verið faktor P. C. Knudtzons. Þar var Óli Finsen, síðar póstmeistari, faktor Fischers í nokkur ár. Seinna keypti Fischer verzlunarhús Tærgesens og flutti verzlun sína þangað, en breytti faktors-íbúðinni gömlu í vörugeymsluhús.

Andspænis síðasttöldu húsi, hinu megin við göt-

una, stóðu á morgni 19. aldar tvö hús, áföst þó, en fremur óásjáleg. Nefndist nyrðra húsið **Stýrimannshúsið** eða *Norska húsið*. Er það líklega fyrsta verzlunarhúsið, sem var reist hér í bæ eftir að verzlunin var gefin laus. Það reisti 1788 norskur skipherra, *Hans Chr. Fisker* frá Björgvin, sem þar hafði fengið útmælingu til handa Kristofer Kahr stórkaupmanni í Björgvin, er tók að verzla þar. Fyrir þeirri verzlun var *Hans Dedichen* stýrimaður og bróðir hans, Fredrik, honum til aðstoðar. Því var húsið kallað »Stýrimannshús«. En sú verzlun hefir naumast staðið nema 7—8 ár. Er svo að sjá sem Páll Brekkmann hafi eignast húsið, er hinir hættu (hann verzlaði þar áreiðanlega nokkur ár), því um 1804 selur Páll Andreasi Mitchell húsið, en hann aftur skömmu síðar *Grími* borgara *Jónssyni Laxdal* (bróður Jóns J. Laxdals borgara, er áður hefir nefndur verið). Grímur borgari var langafi Jóns Laxdals kaupmanns og tónskálds. Seinna verzlaði í Stýrimannshúsinu *Guðmundur* borgari *Bjarnason* (frá Langárfossi á Mýrum), faðir þeirra Guðmundar í Vigfúsarkoti og Þórðar hafnsögumanns (föður þeirra alkunnu »Borgarabæjar-bræðra«, er síðar verða nefndir). En Guðmundur borgari bjó í Borgarabæ svonefndum (áður Marteinsbæ), er stóð syðst í Glasgowar-lóðinni, fyrir neðan Vigfúsarkot (þó lítið eitt sunnar). — Syðra húsið nefndist **Jóns borgarahús**. Átti það *Jón* borgari *Gíslason*, er rak þar smáverzlun fjölda ára, aðallega þó brennivínsverzlun, en þótti enginn merkismaður í nokkurri grein († 1832). Nyrðra húsið eignaðist síðar *Kristján* kaupm. *Jakobsson* og hafði þar smáverzlun, en eftir hans daga keypti *Eggert* stúdent *Magnússon Waage* bæði húsin og rak þar verzlun sem kaupmaður fram yfir 1870. Þá eignaðist »Norske samlaget« húsin og lét fulltrúi þess, Mattías Johannesen kaupstjóri, rífa þau bæði og reisa tvílyft hús á lóðinni.

Beint suður af þessum húsum, þar sem nú er Hótel Ísland, stóð í þann tíð hið tvílyfta **vörugeymsluhús Sunchenbergs-verzlunar**, sem áður er nefnt, þá

nýselt *Magnúsi Stephensen* háyfirdómara á Leirá. Er það tilgáta mín, að þau húsakaup háyfirdómarans hafi ef till vill staðið í einhverju sambandi við stofnun landsyfirréttarins og hafi háyfirdómarinn fest kaup á því til þess að selja það stjórninni fyrir yfirréttarhús. Byggi ég þetta á því, að tveim árum áður höfðu bréf farið á milli Ólafs stiftamtmanns og rentukammersins um smiði á alþingishúsi í Reykjavík, ef alþingi (eins og stiftamtmaður leggur til) verði alflutt þangað frá Þingvöllum. Því að 1798 hafði alþingi verið haldið í síðasta sinni á Þingvöllum í lögréttuhúsinu gamla, en það þá orðið svo hrörlegt, að þar var ekki verandi lengur. 20. júlí þá um sumarið lýsir Magnús Stephensen, þá lögmaður, yfir því, »að sökum alþingisónæðis og heilsuspillandi dragsúgs í gegnum gluggabrotið og opið lögréttuhús sé hann við réttarhald í þessum vindhjalli nú orðinn lasinn og veikburða«, svo að hann treystist ekki til að vera þar lengur og kveðst mundu kveða upp dóma í málunum heima hjá sér á Leirá innan sex vikna. Og þeir embættismenn (alls átta), sem þar voru, og lögréttumenn vottuðu, að húsið væri »óheilnæmara og verra hverjum vindhjalli og heilsa og líf þeirra í háska, sem þar neyðast til inni að sitja«[1]). En í bréfi rentukammersins (dags. 1. júlí 1799)[2]) er beinlínis bent á »Kjöbmand Sunchenbergs store Hus paa Reykevig« (sem varla getur annað hús verið en það, sem hér er um að ræða) sem einkarhentugt alþingishús, þar sem það sé svo stórt, að jafnframt mætti nota það sem ráðhús(!). Eins og kunnugt er, var alþingi haldið í Reykjavík bæði næstu árin (1799 og 1800) í latínuskólanum á Hólavelli. Síðara árið (dánarár alþingis hins forna) var *Benedikt Gröndal* eldri, sem lögmaður varð eftir Magnús Ólafsson látinn (14. jan. 1800), í lögmannssæti, en *Stefán Stephensen* sat þar þá í lögmannssæti fyrir Magnús bróður sinn, er þá var erlendis. En er

1) Sbr. Safn til sögu Íslands II, bls. 162.

2) Sbr. bréf rentukammersins á landsskjalasafninu (Þk. A. 128).

alþingi stóð sem hæst þetta sumar, kom út tilskipunin (11. júlí 1800), sem tók af alþingi og setti landsyfirréttinn í staðinn. Hafði alþingi þá um margra ára skeið ekki verið orðið neitt annað en dómstóll í almennum málum og sú fornhelgi, sem það hafði haft í meðvitund þjóðarinnar, fyrir löngu að engu orðin. En hið mikla vörugeymsluhús var ekki keypt fyrir yfirréttarhús, heldur var yfirréttinum í bili komið fyrir í skólanum á Hólavelli þangað til stjórnin leigði og síðan keypti af Trampe greifa hús það, er Jón J. Laxdal borgari hafði gera látið í útnorðurhorni Austurvallar (gamla yfirréttarhúsið). Hvað orðið hefir af vörugeymsluhúsinu eða hve lengi það hefir staðið, hefir ekki tekist að grafa upp. Vafalaust hefir það verið rifið einhvern tíma fyrir 1820. Því að skömmu eftir 1820 rís nýtt hús þar á lóðinni. Bygði það Einar stúd. og borgari Jónsson, er til þessa hafði lengst af búið í Mýrarhúsum, og nefndist því hús þetta framan af *Einarshús.* Þegar Einar lét af forstöðu Knudtzons-verzlunar 1835 (áður hafði hann stýrt Jacobæusar-verzlun), verzlaði hann eitt eða tvö ár í Sunchenbergs-búðinni gömlu, sem fyr segir, en síðan lét hann gera búðar-holu í suðurenda þessa íbúðarhúss síns og rak þar smáverzlun til æfiloka. Eftir lát Einars átti Jafet gullsmiður sonur hans hús þetta nokkur ár, en seldi síðan R. P. Tærgesen kaupmanni, er bjó þar alllengi. En hann seldi húsið aftur Niels Jörgensen greifaþjóni, sem setti þar upp veitingasölu, er ekkja hans rak eftir hans dag og seinni maður hennar, Joh. Halberg, unz hann lét rífa gömlu húsin öll og byggja hið mikla Hótel Ísland á lóðinni.

Skamt fyrir sunnan þetta »Einarshús« var lítið vörugeymsluhús, sem Einar hafði látið smíða. Í því húsi byrjaði þýzka verzlunarfélagið G. W. & E. Lorentzen í Altona verzlun sína hér í bæ skömmu fyrir 1840, en Sveinbjörn Jacobsen veitti, sem fyr segir, þeirri verzlun forstöðu. En nokkuru síðar flutti hann verzlunina yfir götuna, í hús Einars snikkara Helgasonar (faktorabústað Sunchenbergs-verzlunar, sem áður var).

Seinna byrjuðu þeir *Henderson & Anderson* (er síðar reistu þá miklu »Glasgow«) verzlun í þessu húsi. Var faktor þeirra fyrst *Mattias* kaupm. *Matthiesen* (faðir Bjarna hringjara í Melshúsum), en seinna Jónas Hendrik (Einarsson) Jónassen († 1872). Nál. 1870 verzlaði þar *Jóhann Heilmann*, en að eins skamma stund. Jóhann hafði áður verið við verzlun W. Fischers, og þótti þá einn af efnilegustu yngri verzlunarmönnum hér í bæ, en lagðist seinna í óreglu og varð öreigi. Síðustu árin, sem hús þetta stóð uppi, bjó þar löngum Coghill hrossakaupmaður, og nefndist húsið á þeim árum venjulega »*Coghills-hús*«.

Spölkorn fyrir austan nýnefnt vörugeymsluhús sjáum vér í útnorðurhorni Austurvallar spónnýtt hús, naumast fullgert enn, eign Jóns J. Laxdals borgara. Er það fyrsta húsið, sem rís af grunni í Austurstræti, er síðar nefndist svo (næsta húsið í götunni var reist ári síðar (1802), hús Ísleifs yfirdómara Einarssonar, þ. e. prestaskólahúsið, sem varð löngu seinna). Í húsi þessu var framan af veitingasala, og nefndist húsið því lengi »*Klúbbhúsið*«, en síðar um fjölda ára yfirréttarhúsið eða »gamla« yfirréttarhúsið. Hafði Jón Laxdal sjálfur veitingasöluna og smáverzlun að auki, en, eins og fyr segir, drakk of mikið sjálfur, til þess að sá atvinnurekstur gæti blessast. Hann varð þá líka að selja eða afhenda randersku verzluninni (eða J. E. Böye faktor) húseignina að þrem árum liðnum. Hin næstu ár var Jens Severin Tofte (áður faktor) veitingasali í þessu húsi Laxdals, en varð 1806 gjaldþrota, svo alt var af honum tekið. Lét Adser Knudsen fyrir hönd Randersmanna selja húseign þessa á uppboði veturinn 1807, og keypti þá Trampe greifi og stiftamtmaður húsið (fyrir 1006 rdl.). Stiftamtmaður setti þá *sjálfur* verzlun á fót í öðrum enda hússins. Vörurnar keypti hann af Adser Knudsen, er þá fluttist héðan, en hafði seinna skip í förum (»Orion«). En H. P. V. Biering stýrði verzluninni fyrir Trampe. Þessa »greifaverzlun« gerði Jörgensen upptæka sumarið 1809, svo sem aðra »danska

eign«. (Sömu skil gerði Jörgensen bæði Nordborgar- og Flensborgara-verzlununum). Mun greifaverzlunin hafa staðið til 1811, en þá var Trampe farinn héðan og orðinn stiftamtmaður í Þrándheimi. Trampe er ekki eini stiftamtmaðurinn, sem rekið hefir verzlun hér sem aukaatvinnu. Castenskjold, eftirmaður hans, á, eftir því sem Espólín segir, að hafa gert slíkt hið sama, og meira að segja sjálfur veitt verzluninni forstöðu. Hafi því stundum borið til orða við faktora og stiftamtmaður spilt með því embættisveg sínum við þá[1]). Hinn hluta hússins leigði Trampe stiftamtmaður stjórninni fyrir *yfirréttarhús*. Áður hafði yfirrétturinn verið haldinn í skólahúsinu á Hólavelli í ofnlausu herbergi, þar sem kuldinn var svo mikill á vetrum, að blekið fraus í byttunum og dómararnir nötruðu af kulda meðan á réttarhaldinu stóð. En einmitt þetta sama ár hafði skólinn verið rifinn, og var yfirrétturinn því húsviltur. Seinna, er Trampe fluttist héðan alfarinn, lét hann stjórnina kaupa húsið af sér. Var yfirrétturinn haldinn í þessu húsi öll árin 1807—19, eða unz hann fluttist austur í hús Ísleifs Einarssonar, þar sem stiftamtmenn höfðu búið frá 1805 til 1819. En yfirréttarhúsið var ekki notað til þessa eins. Eftir því sem Henderson, hinum enska fræðimanni, segist frá í ferðabók sinni (en hann dvaldi hér í bænum veturinn 1814—15), þá var yfirréttarhúsið stundum á vetrum notað til þess að halda þar dansleika, og enda sjónleika, og bekkir handa áhorfendum þá venjulega lánaðir úr — dómkirkjunni[2]).

1) Sbr. Ísl. Árb. XII, bls. 68.

2) Hinn enski fræðimaður *Ebenezer Henderson* († 1858) ferðaðist hér um land 1814 og 15. Hafði brezka og erlenda biblíufélagið sent hann út hingað til þess að kynna sér trúarlíf Íslendinga og vinna að útbreiðslu biblíunnar meðal landsmanna. Varð hann hér aðal-hvatamaður þess, að sett var á stofn hið íslenzka biblíufélag (1816). Lítt geðjaðist Henderson að bæjarlífinu í Reykjavík, þennan vetur, sem hann dvaldist hér. »Reykjavík er — segir hann — eflaust versti staðurinn á Íslandi, er menn geta dvalið í að vetrarlagi. Félagsbragurinn er hinn auðvirðilegasti, sem hugsast getur. Þar er samkomustaður ýmissa

Þegar Moltke stiftamtmaður fékk tugthúsinu breytt í embættisbústað handa sér, þá var það tilætlun stjórnarinnar, að yfirrétturinn fengi þar líka inni. En er til kom, taldi Moltke öll tormerki á því, húsið væri ekki svo stórt, að stiftamtmanni ekki veitti af því öllu og óskiftu. Fyrir því keypti stjórnin þá hús Ísleifs handa yfirréttinum, sem síðar hafði þar bækistöðu sína á sétta tug ára. En gamla yfirréttarhúsið keypti *Guðmundur* borgari *Sveinbjörnsson* (seinna bóndi á Eyði á Seltjarnarnesi), bróðir Þórðar háyfirdómara, og rak þar smáverzlun nokkur ár, en seldi húsið síðan *Guðmundi* faktor *Péturssyni* (frá Gaftastöðum í Flóa), er átti Ragnheiði systur Helga biskups, (börn þeirra voru þau Pétur rokkasmiður í Njarðvík syðra og Steinunn Theódóra, kona séra Jakobs Guðmundssonar á Sauðafelli). Guðmundur mun í fyrstu hafa verið við Petræusar-verzlun, og verið um hríð faktor þar, eftir að Pétur J. Petersen hafði eignast verzlunina, en verzlaði seinna fyrir eigin reikning. Þótti Guðmundur sómamaður í hverri grein. Um 1837 lét hann af verzlunarstörfum hér í bæ og fluttist suður í Njarðvíkur. Keypti þá *Ditlev Thom-*

---

útlendinga; eru flestir þeirra alveg ómentaðir og dvelja á Íslandi að eins í gróðaskyni. Þar er ekki að eins hörmuleg auðn fyrir trúaða menn, heldur einnig alger vöntun á hverri uppsprettu andlegrar nautnar. Hinir útlendu íbúar sitja vanalega allan daginn auðum höndum með tóbakspípuna í munninum, en á kveldin spila þeir og drekka púns. Þar eru haldnir 2 eða 3 dansleikar á hverjum vetri, og stundum leika helztu íbúarnir sjónleik; í þessum tilgangi leggja þeir undir sig yfirréttarhúsið og flytja hiklaust bekkina út úr dómkirkjunni, til þess að hafa eitthvað til þess að sitja á. Það kom eitt sinn fyrir, að einn leikarinn, sem leikið hafði langt fram á laugardagsnótt, sté í stólinn næsta morgun, til þess að boða almenningi trúna. Áhrifin af þessum bæjarbrag á hina innfæddu Íslendinga í Reykjavík og nágrenninu eru auðsjáanleg. Alt of margir hafa drukkið í sig þenna anda, og hin góða háttsemi Íslendinga spillist auðsjáanlega af vondu eftirdæmi útlendinga þeirra, sem heimsækja þá«. (E. Henderson: Iceland; or the journal of a residence in that island during the years 1814 and 1815. I. b. (aftast). Sbr. Þorvaldur Thoroddsen: Landfræðissaga Íslands III, bls. 218—219).

*sen* eldri (er til þessa hafði verið í þjónustu Flensborgara-verzlunarinnar og síðast faktor hennar í Keflavík), faðir H. Th. A. Thomsens kaupmanns, gamla yfirréttarhúsið, og setti þar á fót verzlun þá í vesturenda hússins, er hann seinna — sem fyr segir (bls. 29) — flutti austur í Hafnarstræti, í Sivertsens-pakkhúsið. Ditlev Thomsen (ættaður frá Bov í Slésvík) var með fremstu mönnum verzlunarstéttarinnar hér á sinni tíð, atorkumaður mikill og vel látinn af þeim, er áttu við hann að skifta. Þótti því að vonum mikið og lítt bætanlegt skarð höggvið í hóp Reykjavíkur-kaupmannastéttarinnar, er þeir fóru báðir í sjóinn undir Svörtuloftum á sömu nóttu, Móritz Biering á jagt sinni, en Ditlev Thomsen á póstskipinu »Sölöven«, haustið 1857. Jón yfirdómari Johnsen (frá Ármóti) eignaðist gamla yfirréttarhúsið, er D. Thomsen fluttist þaðan austur í bæinn, en seldi það aftur 1845 *Birni Gunnlaugssyni* skólakennara. Hann bjó þar til dauðadags (1876) og eftir hann *Mattías Jochumsson* skáld, þá ritstjóri Þjóðólfs, unz hann 1881 fluttist að Odda. En árið 1887 rifu þeir Rafn skóari Sigurðsson (snikkara Jónssonar á Norðurbergi í Þingholtum) og Magnús úrsmiður Benjamínsson húsið til grunna og bygðu hús það hið tvílyfta, er nú stendur þar við Veltusund milli Vallarstrætis og Austurstrætis.

Fyrir sunnan vörugeymsluhús Sunchenbergs (eða Stephensens) við Aðalstræti, þar sem nú er hús kaupm. B. H. Bjarnasonar, stóð enn á morgni 19. aldar fjósið mikla, er áður hafði tilheyrt innréttingunum. Nefndist það nú **Bergmannsfjós**, seinna »Petræusarfjós« og loks »biskupsfjós«, eftir eigendunum, og var íbúð í fjósinu uppi á loftinu í vesturendanum. Fjós þetta var selt á uppboði eftir Geir biskup 1826, og keypti það þá Einar stúdent og borgari Jónsson, er þá hafði nokkurum árum áður eignast lóðina þar næst fyrir norðan, og látið reisa þar íbúðar- og geymsluhús, eins og fyr segir. Stóð fjósið þarna, með stafninn fram að götunni, alt fram til 1846, er það loks var rifið eftir beinni skipun bæjarstjórnarinnar, sem þótti að vonum lítil prýði að þess-

um ljóta moldarkumbalda við eina höfuðgötu bæjarins. Milli fjóssins og húsa Einars borgara lá götustígur úr Aðalstræti og yfir á Austurvöll. Nefndist hann seinna »Kæmnergade« (bæjargjaldkera-gata); hefir nafn það líklega verið svo til komið, að bæjargjaldkerinn hefir búið í gamla yfirréttarhúsinu (hvort sem hann nú hefir verið Guðm. Pétursson eða Ditlev Thomsen). Nú heitir gatan Vallarstræti.

Beint suður af fjósinu blasir við allmikið hús með miklu risi. Það er **Bergmannsstofa**, áður íbúðarhús kaupmannsins í Hólminum og forstjóra innréttinganna. Þegar tekið var að selja hús innréttinganna eftir 1790, hafði *Runólfur Klemensson* keypt hús þetta. Hann hafði þá á hendi stjórn innréttinganna og var jafnframt fyrir Sunchenbergs-verzluninni. En stjórn innréttinganna fór Runólfi ekki sem bezt úr hendi, svo að sú staða var tekin af honum og seld í hendur Þorkeli Guðmundssyni Bergmann, sem þá hafði fyrir nokkuru sezt að hér í bæ og byrjað verzlun í sambandi við danskan verzlunarmann Sigvardt Holm og skipherra Jóhann Hansen Tofte. Þorkell hafði eignast verksmiðjuhús þetta að hálfu, skömmu eftir að Runólfur hafði gerst eigandi þess. En nú keypti hann líka hinn helminginn af Runólfi, og var húsið upp frá því nefnt »Bergmannsstofa«.

*Þorkell Bergmann* var Húnvetningur að ætt, sonur Guðmundar á Árbakka Magnússonar, en bróðir Ólafs á Vindhæli, föður Björns Ólsens á Þingeyrum og þeirra bræðra. *Björn Ólsen* getur þessa frænda síns í stuttri æfisögu sinni, sem til er í tveim handritum á Landsbókasafni[1]). Segir hann Þorkel hafa verið með hærri og gildari mönnum, sem og kemur heim við lýsingu Espólíns, er telur hann verið hafa »gildmannlegan mann«, og bætir við, að hann hafi verið bólugrafinn og rómdigur, eins og þeir frændur allir[2]). Enn getur B. Ólsen þess, að Þorkell hafi verið vel gáfaður og skáldmæltur; Hallgrímur djákni, sem þá var á Sveinsstöðum,

1) Safn Jóns Sigurðssonar nr. 304 í 4to.
2) Íslands Árbækur XII, bls. 9.

»telji hann meðal landsins skálda í sinni fræðibók«. Árið 1773 fór Þorkell til Khafnar, ásamt fleiri Íslendingum, er »greindir álitust og vanir við hákarlaveiðar á lagvaði«, og boðaðir höfðu verið út, til þess að fara til Grænlands og dveljast þar þriggja ára tíma upp á konunglegan reikning og kostnað, til þess að kenna Grænlendingum hákarlaveiðar. Eftir afturkomu sína frá Grænlandi var Þorkell fenginn til að ferðast hér um land með náttúrufræðingnum góðkunna, *Nikolaj Mohr* (sem var Færeyingur að ætt). Átti Mohr aðallega að leita að postulínsjörð *(kaolin)*, en jafnframt að athuga hvað eina, sem verða mætti landsmönnum til verklegra nota[1]). Haustið 1781 var þeirri ferð lokið. Settist Þorkell þá að í Kaupmannahöfn. Komst hann þá í þjónustu postulínsverksmiðjunnar, sem að nokkuru leyti hafði kostað Íslandsferð þeirra Mohrs, og þá líklega fyrir meðmæli Mohrs, er sjálfur varð »kontrollör« verksmiðjunnar árið 1787. Björn Ólsen segir í áðurnefndri æfisögu, að Þorkell hafi orðið »*direktör*« verksmiðjunnar. En vafalaust er það á misskilningi bygt. Til að veita jafnmikilli verksmiðju forstöðu, brast Þorkel eðlilega alla nauðsynlega mentun. Hitt er öllu sennilegra, að Þorkell hafi verið Íslendingur sá, sem prófessor Þorvaldur segir í Landfræðissögu sinni, að verið hafi *dyravörður* við verksmiðjuna, og hafi verið sendur út til Íslands, til að sækja meira af postulínsleirnum í Mókollsdal[2]). En það var um sama leyti og verzlun landsins var gefin laus. Skömmu síðar mun Þorkell hafa tekið að verzla hér í félagi við þá Sigvardt Hólm og Jóhann Hansen Tofte skipherra, og komu þeir þá út með vörur á tveim skipum, líklega sem lausakaupmenn fyrstu árin. Í skrá Skúla landfógeta (dagsettri 22. og 23. maí 1792) yfir byggingar og útmældar lóðir í Reykjavík, er Þorkels að vísu ekki getið, en þar sem þar er talað um »captain Toftes Hus«, er vafalaust átt við

1) Bricka: Dansk Biografisk Lexikon XI. b., bls. 344—45. Sbr. Þorv. Thoroddsen: Landfræðissaga Íslands III, bls. 76—83.

2) Landfræðissaga III, bls. 82 (neðanmáls).

hús það (vörugeymsluhús innréttinganna, Fabriqve-hus nr. 9), sem Runólfur Klemensson tilkynnir Meldal amtmanni (12. sept. 1791) að afhent hafi verið »Skipper Johan Hansen Tofte og með Interessenter« 26. maí s. á.. Má því gera ráð fyrir, að þeir Þorkell Bergmann og félagar hans hafi byrjað verzlun sína í þessu geymsluhúsi. Og þar verzlar hann enn 1801, því að á Reykjavíkur-uppdrætti Ohlsens og Aanums er hús þetta kallað »Toftes og Bergmanns Kramboder«. Að þar er talað um »Kramboder« (í fleirtölu) bendir til þess, að félagsverzlun þeirra hafi þá verið hætt. En eins og fyr segir, átti Bergmann að auki geymsluhús skamt fyrir vestan Fálkahúsið. Líklega hefir hann ekki sezt hér að að fullu og öllu, fyr en hann varð forstjóri innréttinganna og einn eigandi Bergmannsstofu. Kona Þorkels virðist hafa verið dönsk að ætt. Henni þótti því miður of góður sopinn, svo að hjónaband þeirra varð lítt ánægjulegt. En í Khöfn hafði Þorkell komist í kynni við konu nokkura íslenzka, Sigríði Þorsteinsdóttur (frá Klausturhólum) og tekið fram hjá með henni oftar en einu sinni. Lifði að eins eitt þeirra barna, *Sigríður* (eða *Sire),* er síðar varð hverju mannsbarni hér í bæ kunn sem »*maddama Ottesen*«. Þær mæðgur fluttust hingað til bæjarins um aldamótin 1800, og varð koma þeirra ekki til þess að bæta samkomulag þeirra hjóna, Þorkels og konu hans. Þegar Þorkell var orðinn ekkjumaður, gerðist Sigríður Þorsteinsdóttir bústýra hans, og arfleiddi hann þá dóttur þeirra að öllu eftir sinn dag. Sigríður Þorkelsdóttir giftist, að eins $14^1/_2$ árs, *Láritz* verzlunarmanni *Ottesen* (syni Odds notaríuss í landsyfirréttinum forna og klausturhaldara Stefánssonar, en móðurbróður Oddgeirs Stephensens stjórnardeildarforstjóra í Khöfn). Var sonur þeirra Pétur Ottesen á Ytra-Hólmi á Akranesi, faðir Oddgeirs kaupmanns Ottesens. Eftir dauða Þorkels (í ág. 1815), tóku þau Láritz og Sigríður við eigum hans, sem voru ekki litlar, eftir því sem hér gerist; en þær fuku allar á fám árum úr höndum þeirra út í buskann. Láritz sýktist nokkuru

síðar og fluttist til Péturs sýslumanns bróður síns á Svignaskarði, og dvaldist þar karlægur aumingi til æfiloka, en maddama Ottesen fluttist til Keflavíkur og var þar nokkur ár á vegum Óla Sandholt, en tók sér síðan vist hér í bænum; um eitt skeið var hún bústýra hjá Pétri J. Petersen faktor, sem fyr segir, en eftir það veitingasali í Gamla klúbbnum. En Bergmannstofan gekk eftir þetta frá einum eiganda til annars, unz *Regner Christopher Ulstrup* landfógeti, er var »danskur júristi«, fékk stjórnina til að kaupa hana fyrir landfógetabústað handa sér. Þar var *Jónas Hallgrímsson* skáld skrifari hjá Ulstrup í nokkur ár áður en hann sigldi. Seinna bjó þar Morten Tvede sýslumaður. En loks var stiftsprentverkið flutt þangað úr Viðey og stóð þar til dauða Einars prentara Þórðarsonar. Hefði Bergmannsstofan kunnað frá mörgu að segja, ef mátt hefði mæla, svo margir sem þar hafa búið nafnkunnra manna um lengri og skemmri tíma, auk þeirra, er þegar hafa nefndir verið. Þar bjuggu þeir dómkirkjuprestarnir Brynjólfur Sivertsen og Gunnlaugur Oddsen fyrstu ár sín sem prestar hér, áður en þeir fluttust að Seli hinn fyrnefndi og að Lambastöðum hinn síðarnefndi. Þangað fluttist Bjarni Thórarensen skáld, þá yfirdómari, úr Brúnsbæ við Tjarnargötu. Þar bjó Ólafur Hannesson Finsen fyrstu sýslumannsár sín hér í bæ, og þar bjó tengdafaðir hans, Ole P. Chr. Möller, í mörg ár. Þar bjó líka Edvard Siemsen nokkur ár og þar byrjaði Carl Franz Siemsen verzlun sína hér í bæ (Guðm. Thorgrímsen var þá um tíma faktor hans þar). Þar bjó seinna Helgi prentari Helgason, er áður hafði verið í Viðey, og Pétur Guðjóhnsen organisti. Og fleira mætti telja nafnkunnra manna. Síðustu ár æfi sinnar komst Bergmannsstofa í mestu niðurlægingu. Var þar þá um hríð ölsöluhús (Tuborg), síðan fyrsta baðhús bæjarins fyrir almenning, lélegt mjög, og vörugeymsla. Var stofunni orðin þörf á hvíldinni, er hún loks var rifin (1902) og hús það reist á lóðinni, sem nú er þar (Braunsverzlun).

Hinu megin við götuna, andspænis áðurnefndu Bergmannsfjósi, voru **sölubúðir Bergmanns og Toftes** í einu og sama húsi tvískiftu. Þar stóð upphaflega geymsluhús, sem innréttingarnar áttu (Fabr.hus Nr. 9), en þeir »Tofte og félagar« höfðu keypt 1791, endurbygt og stækkað. Í fyrstu munu þeir Tofte og Þorkell Bergmann hafa rekið þar félagsverzlun. En þegar hér er komið sögu, hafa þeir slitið þeim félagsskap, hafa nú hvor sína verzlunina þar í húsinu og er Jens Sev. Tofte fyrir Toftesverzlun. Nokkuru síðar virðist Björn Benediktsson Fjeldsteð reka verzlunina í félagi við Tofte og hann eignaðist hana að öllu, er Tofte andaðist (1804). Þótti Fjeldsteð lítt samvizkusamur kaupmaður; var eitt sinn jafnvel kærður og sektaður fyrir að nota ranga vog. Hann fluttist seinna til Álaborgar og dó þar. Síðar verzlaði þar Jón Ásmundsson borgari; var hann braskari mikill og gekk illa verzlun hans. 1820 hætti hann kaupmensku og gerðist spítalahaldari vestur á Hallbjarnareyri við Kolgrafarfjörð. Þá (eða nokkuru síðar) eignaðist *Einar Hákonarson,* hattasmiður og borgari, húsin. Hann var sonur Hákonar ríka Oddssonar í Hákonarbæ og Kristínar, systur Ísleifs háyfirdómara. Nefndist húsið upp frá því *Hákonsenshús.* Einar var að ýmsu leyti dugnaðarmaður, en fremur drykkfeldur og gekk því stirt atvinnureksturinn. Í fátæklegu súðarherbergi þar uppi á loftinu andaðist (úr mislingum) Sigurður skáld Breiðfjörð, eftir mæðusamt og gæfusnautt líf (1846), og í stofunni niðri undir (í norðurenda hússins) bjó Jónas skáld Hallgrímsson, er hann dvaldist síðast hér í bæ. Valgarður Ólafsson Breiðfjörð, trésmiður og kaupmaður, tengdasonur Einars hattara, stækkaði Hákonsenshús löngu síðar og gjörbreytti því öllu, svo að úr því varð loks eitt af stórhýsum bæjarins.

Næst fyrir sunnan síðastnefnt hús í Aðalstræti stóð í þá daga sama húsið, sem enn stendur þar í götunni og nú er sölubúð Helga kaupmanns Zoëga. Þá nefndist það **Petræusarhús** og var íbúðarhús hins mikla kaupmanns, en áður hafði það verið íbúðarhús undir-

forstjóra innréttinganna og bókhaldara (venjulega kallað »Kontor- og Magazinhus« eða Fabriqve-hus Nr. 2). Petræus seldi (að nafninu) *Geir* biskupi *Vidalín* hús þetta, er hann fluttist til bæjarins frá Lambastöðum vorið 1807 og bjó biskup þar síðan til dauðadags. Var húsið upp frá því er biskup flutti í það, nefnt *Biskupsstofan* og hélzt það nafn langt fram eftir öldinni. Þar í norðurstofu hússins niðri, sem biskup hafði skrifstofu sína, gerðust þau tíðindi sumarið 1810, að Savignac, kaupmaðurinn enski, skoraði Gísla faktor Símonarson á hólm, dró upp úr vasa sínum skammbyssur tvær og fékk Gísla aðra. Sannaðist síðar, að sú skammbyssan var tóm, en Englendingsins hlaðin! Spentu þeir nú bóga á byssum sínum, en þá gekk biskup á milli og tókst honum að fá þá til þess að hætta við einvígið og sættast[1]). Er þetta eitt dæmi (af mörgum) þess, hve mikla frekju og ofstopa Englendingar sýndu af sér hér í bæ á þeim ófriðarárum. Afsal fékk biskup ekki fyrir húsinu fyr en 1822 og seldi hann það þá sama ár stjórninni fyrir embættisbústað handa biskupi. En Geir biskup dó árið eftir (1823), og Steingrímur biskup settist að í Laugarnesi. Gat því biskupsekkjan, Sigríður Halldórsdóttir (prófasts í Hítardal Finnssonar, er áður var gift séra Guðm. Þorgrímssyni á Lambastöðum) búið áfram í húsinu til dauðadags (1846). Hjá þeim biskupshjónum bjó *Sigurður* sýslumaður *Pétursson* og dó þar 1827. Löngu seinna átti *Jens* yfirkennari *Sigurðsson* húsið og bjó þar, unz hann varð rektor. Bjó þar þá eftir hann lengi maddama Kristjana Jónassen (systir Geirs kaupm. Zoëga), ekkja Jónasar Hendriks Jónassens faktors (sonar Einars Jónassonar frá Gili, sjá bls. 73). Mun þetta hús elzt allra húsa í Reykjavík nú annað en stjórnarráðshúsið.

Áfast Petræusar-húsi að sunnanverðu eða því sem næst, var **Klæðavefnaðarstofan** gamla. Var hún þá orðin býsna fornfáleg og úr sér gengin, þótt enn væri þar eitthvað lítilsháttar verið að fást við klæðavefnað. Vig-

---

1) Sbr. Íslands Árbækur XII, bls. 46.

fús halti Pétursson vefari, sá er seinna bjó í Vigfúsarkoti, og það var kent við, er þar að minsta kosti í húsinu með einhverju verkafólki, enda höfðu þeir Petræus og Svane, er þeir keyptu þessi síðustu hús innréttinganna, skuldbundið sig til þess að halda vefnaðinum áfram og fengið til þess 3000 dala styrk af opinberu fé. En á næstu árum legst vefnaðariðnin niður með öllu. Meðal annars var rottumergðin orðin svo mikil í þessu gamla húsi, að alt var nagað sundur, bæði gólf og veggir og efnið, sem vinna skyldi úr. Petræus lét því rífa húsið til grunna árið 1810. Um sama leyti lét hann og rífa Þófaramylnuna gömlu inn við Elliðaár. Viðinn úr báðum þessum húsum notaði hann í vörugeymsluhús, er hann lét byggja í Hafnarstræti, við hliðina á Stýrimannshúsinu. Eftir það stóð ekkert hús á vefnaðarstofu-grunninum gamla fyr en eftir 1890, er Mattías kaupmaður Jóhannesen reisti hús það, sem nú stendur þar og er eign frú Ágústu Snorradóttur Svendsen.

En á bak við vefnaðarstofuna, dálítið vestar, stóð **Skálinn.** Þar hafði áður, á tímum innréttinganna, verið íbúð spunakvenna (Logement for Spindersker) — eins og áður er sagt. En nú var þessi allstóri moldarkumbaldi fyrir nokkuru orðinn einkaeign. Gunnlaugur Sveinsson, er áður var í Svendsens-húsi, hafði keypt Skálann nokkuru fyrir aldamótin, og skift honum í tvær íbúðir, Suðurskála og Norðurskála. Í Suðurskála bjó um þessar mundir áðurnefndur Grímur borgari Ólafsson, sá er átti stjúpdóttur Páls Brekkmanns og tilraunina gerði til að brenna Brekkmann inni árið 1803. En skömmu síðar eignaðist Grímur borgari Laxdal Skálann, hresti húsakynnin við og gerði alt vistlegra þar í bænum en verið hafði áður. Árið 1811 leigði *Benedikt* yfirdómari *Gröndal* Skálann af Grími gegn 30 dala leigu um árið og fluttist þangað, en keypti eignina ári síðar, er Grímur var dáinn. Var Skálinn upp frá því nefndur »*Gröndalsbœr*«. Áður hafði Gröndal búið fram á Seltjarnarnesi, fyrst á Bakka, en seinna í Nesi. En í Skálanum

bjó hann það sem eftir var æfinnar († 1825) og eftir hann ekkja hans, frú *Þuríður* († 1839) *Ólafsdóttir* frá Frostastöðum Jónssonar, unz hún 1830 seldi bæinn Kristjáni Jakobssyni (faktor og seinna kaupmanni). Árið 1823 hafði Gröndal látið rífa Skálann og byggja upp aftur sem timburhús, en nafnið »Gröndalsbær« fluttist yfir á húsið. *Kristján Jakobsson* var ættaður úr Eyjafirði (sonur Jakobs bónda í Kaupangi Þorvaldssonar). Hann átti Þuríði, dóttur Henriks N. Melbyes beykis, og voru dætur þeirra þær Jakobsens-systur, er lengi bjuggu hér í bænum, en fluttust síðan til Kaupmannahafnar. Var ýmislegt merkra manna til húsa þar um daga Kristjáns, t. d. séra *Sveinbjörn Hallgrímsson;* því varð Skálinn fæðingarstaður »*Þjóðólfs*« gamla, sem séra Sveinbjörn stofnaði þar 1848. Eftir dauða Kristjáns († 1851) fluttist frú Helga Benediktsdóttir, ekkja dr. Sveinbjarnar Egilssonar, í húsið, en nokkurum árum síðar eignaðist frú Elín, ekkja Jóns landlæknis Thorsteinsen, það og bjó þar til dauðadags (1887). Nú stendur þar hús Stefáns Eiríkssonar.

Suður af Vefnaðarstofunni gömlu stóð **Spunastofan** fyrir sunnan Grjóta-stiginn og sneri gafli fram að Aðalstræti. Hún var nú orðin ærið fornfálegt hús, sundurgrafið af rottum og óvistlegt næsta. Þó var íbúð í stofunni. Bjó þar lengst af fyrsta áratug 19. aldar Runólfur Klemensson, áður verzlunar- og verksmiðjustjóri. En Petræus átti húsið og lét loks rífa það til grunna 1816. Ekki bygði hann þar aftur og féll því lóðin til bæjarins. En 1824 bygði *Einar* verzlunarmaður *Jónasson* sér íbúðarhús á lóðinni og stendur það hús fram á þennan dag. Einar var frá Gili í Svartárdal; var kona hans Margrét Höskuldsdóttir frá Bústöðum Péturssonar. Einar var lengst af við verzlun Wellejusar og stýrði henni sem faktor síðustu ár sín († 1835). Synir þeirra Einars og Margrétar voru þeir Jónas Hendrik faktor, sem átti Kristjönu, systur Geirs Zoëga kaupmanns, og Pétur, sem bjó á Felli í Biskupstungum og enn er á lífi, nú í Reykjavík. En dætur þeirra voru þær Katrín

Elísabet, seinni kona Lúdvigs A. Knudsens bókhaldara, og Ingibjörg, kona Vigfúsar Guðnasonar fyrrum dyravarðar. Seinna átti Margrét Höskuldsdóttir *Torfa* söðlasmið *Steinsson* (frá Króktúni Guðmundssonar), en þeirra sonur var séra Steinn í Árnesi († 1883). Bjuggu þau í húsi því er Einar, fyrri maður Margrétar, hafði bygt, og því nefndist um alt miðbik 19. aldar »Steinsenshús«.

Næsta húsið fyrir sunnan Spunastofuna var **Landfógetahúsið**, þ. e. *Lóskurðarstofan* gamla (»den gamle Overskærerstue«), sem nú var fyrir nokkuru orðin embættisbústaður landfógeta. Þegar Lóskurðarstofan var seld á uppboði í ágúst 1791, keypti hana ekkja Rasmusar Angels búðarþjóns, mad. Ane Margr. Angel, dönsk kona, er, áður en hún átti Angel, hafði verið vinnukona hjá Sunchenberg. Setti hún þar upp veitingasölu. En 1796 fær *Páll Michael Finne* landfógeti stjórnina, eins og fyr segir (bls. 48), til að kaupa húsið fyrir landfógetabústað í stað eldra Brekkmannshússins, er áður hafði verið keypt í því skyni, sem fyr er vikið að. Finne dó hér í Reykjavík vorið 1804. Hafði hann árið áður hlotið bæjarfógeta-embætti í Túnsbergi í Noregi og var að heita mátti búinn til brottfarar héðan til síns nýja embættis, er hann lézt. Finne hafði verið spakur maður og gæflyndur og óharðdrægur í reikningum, segir Espólín. Eftir hann varð *Rasmus Frydensberg* landfógeti (1806—13) og bjó þar í húsinu. Hann hafði áður verið sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslu (frá 1803) og jafnframt bæjarfógeti í Reykjavík, fyrsti maðurinn, sem í það embætti hefir verið skipaður. Sýslumannsembættið losnaði hann við, er hann varð »virkilegur« landfógeti 1806 (áður hafði hann verið settur í embættið jafnframt hinum embættum sínum). En eftir það var hann, hvorttveggja í senn, land- og bæjarfógeti (það fyrirkomulag hélzt þangað til 1874, er embættin voru aðskilin). Um leið og Frydensberg varð bæjarfógeti, hlaut Reykjavík sína fyrstu lögregluþjóna; skyldu þeir vera tveir jafnan. Hétu fyrstu lögregluþjónarnir *Ole Björn* og *Kragh*, báðir danskir. Hjá honum var þá

nokkur ár skrifari og fullmektugur *Finnur Magnússon* (síðar prófessor og etatsráð í Khöfn), er 1821 varð tengdasonur Frydensbergs. En *Sigurður Thorgrímsen* (sonur séra Björns í Saurbæ Þorgrímssonar, bróður séra Guðmundar á Lambastöðum), er varð eftirmaður Frydensbergs (1813), bjó þar eftir hann, unz hann var leystur frá embætti 1828 († 1831). Þegar R. C. Ulstrup tók við land- og bæjarfógeta-embættinu eftir Sigurð landfógeta og settist að í Bergmannsstofu, sem fyr segir, þá var rentukammerið í vandræðum með hitt húsið. Varð það úr að lokum, að stjórnin, fyrir tilmæli Kriegers stiftamtmanns, gaf Reykjavíkur- og Seltjarnarnesshreppum húsið fyrir »fátækrahús«. Hefir tilgangurinn að líkindum verið sá, að gera húsið að hæli fyrir efnalaus gamalmenni. En úr því varð þó ekki. Reykvíkingar voru í það mund að koma upp sínum fyrsta barnaskóla og var nú landfógetahúsið gamla gert að skólahúsi bæjarins. Þar voru þeir skólastjórar hvor eftir annan: *Ólafur Einarsson Hjaltesteð* (síðar prestur að Saurbæ á Hvalfjarðarströnd † 1848), hinn mætasti maður, sonur Einars faktors við Kyhns-verzlun á Akureyri († 1802) Ásmundssonar Hjaltesteds, og Guðrúnar Runólfsdóttur frá Sandgerði, er síðar átti Björn Ólsen umboðsmann á Þingeyrum, og *Pétur Guðjóhnsen*, dómkirkjorganistinn þjóðkunni. Hinn fyrnefndi hélt skólann 1831—40, en hinn síðarnefndi 1840—49. En 1849 lagðist skólinn niður við það, að Thorchillii-sjóður hætti að styrkja hann, en þá treystust Reykvíkingar ekki til að halda skólanum áfram! Hafði þó Pétur Guðjóhnsen reynzt ágætur kennari. Nokkurum árum síðar eignaðist *Jón Guðmundsson* ritstjóri húsið og bjó þar til dauðadags með sinni ágætu konu, *Hólmfríði Þorvaldsdóttur* (Böðvarssonar). Nú er þar klæðskerabúð H. Andersens. Hefir hið gamla hús mjög verið stækkað á síðari tímum, en að stofninum til er það vafalaust annað elzta timburhús þessa bæjar.

Þá komum vér að fimta innréttinga-húsinu vestan megin Aðalstrætis, Ullarstofunni gömlu, sem svo var

nefnd, líklega því húsinu, þar sem ullin var »sorteruð«, táin og kembd. Hún var 17 álna langt torfhús, er sneri austurgafli fram að Aðalstræti, en suðurhlið að Túngötu, sem nú heitir svo. Ullarstofuna hafði keypt 1794 — fyrir 60 dali — *Tómas* söðlasmiður *Bech* og bjó hann þar til dauðadags (1814). Tómas var sonur Björns sýslumanns Tómassonar í Norðursýslu, en bróðir Þórðar kancelliráðs í Garði í Aðaldal. En kona hans var Guðrún Davíðsdóttir í Hliðarhúsum Guðmundssonar, systir Bjargar, konu Helga Ó. Bergmanns. Eitt af börnum þeirra Tómasar og Guðrúnar var, sem fyr segir, Ásta, sem átti Peter Duus kaupmann í Keflavík. Eftir Tómas söðlasmið eignaðist *Pétur Hansen* beykir Ullarstofuna og bjó þar til dauðadags. Hann var einn þeirra Bátsanda-bræðra, kvæntur Valborgu Elísabetu Einarsdóttur snikkara Hannessonar frá Eyrarbakka, en dætur þeirra voru þær Anna María, síðari kona R. P. Tærgesens kaupmanns, og Hendríetta, kona Elísar Iversens faktors í Hafnarfirði. Um 1830 eignaðist *Davíð* verzlunarmaður *Helgason* (Bergmanns) Ullarstofuna, lét rífa hana og byggja þar á lóðinni lítið timburhús (»Davíðshús«), er síðar átti í fjölda ára Magnús snikkari Árnason, faðir séra Ólafs í Arnarbæli og þeirra systkina. Nú standa Uppsalir þar sem áður stóð Ullarstofan.

Andspænis þeim þremur síðasttöldu húsum stóð í þá daga og fram til 1838 *kirkjugarður* Reykjavíkursóknar eins og verið hafði áður bærinn fékk kaupstaðarréttindi. Kirkjan, sem þar hafði staðið um aldaraðir, var nú horfin, en austur á vellinum þar fyrir austan blasti við **dómkirkjan** nýja og stæðilega, er þar hafði verið reist úr steini á árunum 1787—92. Kirkja þessi var úr höggnum grásteini (35 ál. á lengd, 20 ál. á breidd og vegghæð undir þakskegg tæpar 8 ál.). Þakið var úr timbri, svo og báðir stafnar fyrir ofan vegghæð og turninn upp af framstafni kirkjunnar. Forkirkja var engin og kórstúka ekki heldur, en út úr suðurhlið lá skrúðhús lítið, líkhús að hálfu. Naumast hefir verið vandað svo til byggingarinnar sem æskilegt

hefði verið, því að kvartanir eru farnar að verða hljóðbærar um, að varla sé messândi þar fyrir leka og slaga, er sé svo mikill, að alt fúni, sem fúnað geti. Árið 1815 fór fram skoðunargerð á dómkirkjunni. Er þar svofeld lýsing á ásigkomulagi kirkjunnar: »Utan og innan er dómkirkjuhússins form og ásigkomulag yfir höfuð hið sama sem við skoðun þann 4. ágúst 1814 skrásett er, nema hvað allir fúagallar hafa síðan að líkindum mögulega ágerzt. Þannig hefir efri hanabjálkinn, næst klukknaportinu í aðalbyggingunni, af fúa hrokkið úr grópunum, dottið svo ofan um loftið, sem þar undir hefir verið götótt og grautfúið, niður á kirkjugólf, og virðist okkur ekki ólíklegt, að hið sama gæti hent með fleiri af þeim yfirhanabjálkabitum, einkum þegar hvast er og byggingin hristist. Bitar og loft undir populitúrinu (sic!) er orðið svo gegnfúið og götótt, að nauðiglega má norðan meginn upp og á ganga hættulaust, en sunnan meginn er ófært. . . . Fimm sperrubjálkar eru brostnir af fúa norðan meginn . . . svo ekki veit nær inn dettur þakið og er þá byggingin algerlega í veði ef hvast verður. . . . Finnum við húsið ekki alleina öldungis óþétt, heldur hvorki drop- né fokhelt í minstu úrkomu og þess vegna fyrst ósæmilegt með öllu til guðsþjónustugjörðar sem engu síður hættulegt fyrir líf og limi fólks nema kannske þegar svo blítt er áveðurs, að messugjörð mætti halda undir berum himni, og þó því miður í kirkjunni, sem ei er ugglaust að bjálkar, borð og kalkspekning detti þar ofan yfir fólk og olli meiðsla, já lífs og lima tjóns kannske ef illa fer, jafnvel í bezta veðri, en úti er ei þessa að óttast«[1]). Undir þessa lýsingu hafa sett nöfn sín aðaltrésmiðir bæjarins, sem þá voru: Jón Borgström og Grímur Árnason í Þingholti. Þó dróst það, að nýtt þak væri sett á kirkjuna, þangað til 1816. En þegar bærinn tók að vaxa, reyndist kirkjan brátt of lítil. Var þá til bragðs tekið 1846, að byggja aðra hæð ofan á kirkjuna, kórstúku

1) Sbr. skjalasafn bæjarfógeta 1814—16 á Þjóðskjalasafninu.

aftur úr henni og forkirkju fram úr, eftir tillögu dansks húsgerðarmeistara, *Lauritz Albert Winstrups* († 1889), sem stjórnin sendi út hingað í því skyni vorið 1846. Var því verki lokið 1847. Hefir kirkjan í þeirri endurbættu mynd sinni síðan verið dómkirkja landsins, en er nú fyrir löngu orðin alt of lítil fyrir þann söfnuð, sem þangað á kirkjusókn.

Fyrir austan kirkjuna stóð í þann tíð torfbær einn lítill og laglegur og annar lítið eitt sunnar og nær læknum. Var fyrnefndur bær kallaður Smiðsbærinn (Smedens Hus), því þar bjó eini útlærði járnsmiður kaupstaðarins, *Bjarni Guðmundsson Lundberg*, er hafði reist bæinn árið 1800. Bjarni þessi hafði lært iðn sína erlendis og var kvæntur danskri konu, er hét Anna Hansine Neumann. En þau hafa að líkindum fluzt héðan nál. 1807, því að þá selur Bjarni smiður bæinn Friðriki greifa Trampe stiftamtmanni, en hann aftur, eða umboðsmaður hans hér, selur 1811 *James Savignac*, hinum enska kaupmanni, sem hingað hafði komið með skipinu »Clarence« 1809 og orðið hér eftir. Fyrst er Savignac kom út hingað var hann til húsa hjá Malmqvist beyki í Brúnsbæ, en fluttist þaðan í »hús sýslumanns við greifahúsið«, segir Espólín (þ. e. í landfógetahúsið, er síðar varð í Austurstræti). En þaðan fluttist hann í Smiðsbæinn og dvaldist þar unz hann fór héðan alfarinn utan (1812). En eftir burtför hans keypti maddama Sigríður Hansen, eða Hans Símon sonur hennar fyrir hennar hönd, bæinn og bjó þar. Maddama Hansen var ekkja Hendriks Hansens kaupmanns á Bátsöndum († 1802), en dóttir Sigurðar í Götuhúsum Erlendssonar og Hlaðgerðar, og synir hennar þeir *Hans Símon* verzlunarmaður, er átti Maríu Einarsdóttur snikkara Hannessonar frá Eyrarbakka (þau skildu og María giftist síðar Ara verzlunarmanni Jónssyni í Hafnarfirði; sonur þeirra var Daníel kaupmaður Johnsen), *Símon* kaupmaður, sem lengi verzlaði í Brekkmannshúsi og átti, sem fyr er getið, Kristínu Stefánsdóttur frá Káranesi í Kjós, systur Guðbrands smiðs Stefánssonar (»Stephensen«),

*Pétur* beykir (sem áður er nefndur) og *Friðrik* verzlunarmaður (faðir Péturs lyfsala á Akureyri). Símon Hansen eignaðist bæinn eftir móður sína (1815), lét rífa hann nál. 1820 og reisa hús það, er enn stendur bak við hús Kristjáns háyfirdómara Jónssonar, sem nú er eigandi þess. En Símon Hansen bjó þar til dauðadags (1847). Nokkur ár hafði Hannes St. Johnsen, er, eins og fyr segir, átti Sigríði Kristínu, dóttur Símonar, búið þar í sambýli við tengdaforeldra sína, áður en hann fluttist í hús það, er hann lét smíða handa sér við Austurvöll, rétt fyrir sunnan Skraddarahúsið, og seinna átti Páll Melsteð (og stóð þar sem nú er gamli kvennaskólinn). En »Hansens-hús« keypti Sigurður Melsteð prestaskólakennari á uppboði eftir Símon Hansen og bjó þar tvö fyrstu hjúskaparár sín. Alllöngu síðar eignaðist Teitur Finnbogason (Björnssonar í Finnbogabæ) smiður og dýralæknir húsið og bjó þar til dauðadags. En Teitur hafði áður búið í litlu húsi (bygðu 1833) skamt fyrir sunnan Suðurbæ (við Suðurgötu, sem nú er). Það »Teitshús« eignaðist Björn Pétursson Hjaltesteð járnsmiður og bjó í allan sinn búskap, en stækkaði það mjög og breytti því.

Fyrir sunnan Smiðsbæinn hafði Einar nokkur Valdason, tómthúsmaður frá Arnarhóli, reist sér lítinn kotbæ árið 1799, er hann nefndi **Kirkjuból.** Bjó hann þar með Hlaðgerði Einarsdóttur ekkju, móður Þorkötlu Jónsdóttur, móður Egils bókbindara Jónssonar. Árið 1810 eignaðist Runólfur Klemensson, fyrrum faktor og verksmiðjustjóri, bæinn og fluttist þangað. Var þá mjög gengið af Runólfi, sem um eitt skeið hafði verið í tölu heldri manna kaupstaðarins, en gerzt óreglumaður; hafði hann þó haft atvinnu hjá hinum og þessum kaupmönnum bæjarins lengst af, svo vellátinn sem hann var. En árið eftir að hann fluttist að Kirkjubóli, fanst hann morgun einn örendur í Tjörninni skamt fyrir sunnan kirkjuna. Er þess getið í kirkjubókinni, í sambandi við dauða hans, að hann hafi þó kveldið áður en slysið vildi til verið »að eins mjög lítið drukkinn«. Eftir dauða Run-

ólfs bjó ekkja hans, maddama Sigríður (Sigurðardóttir frá Götuhúsum, yngri systir Sigríðar konu Hendriks Hansens) mörg ár þar í bænum með sonum sínum (Erlendi, föður Sigríðar, konu Sakaríasar á Bergi Einarssonar, föður Erlendar vegabótastjóra, og Þorkeli, föður frú Sigríðar, konu séra Þorkels á Reynivöllum Bjarnasonar). Var bærinn þá venjulega kallaður *Lækjarkot* (kemur það nafn fyrst fyrir í sálnaregistri 1814 hjá Árna Helgasyni, þá dómkirkjupresti) eins og hann nefndist alt af síðan. Bjuggu þar eftir maddömu Sigríði um fjölda ára fyrst Þorkell sonur hennar og síðan Jón sonur hans trésmiður. En eftir það eignaðist *Ólafur* dannebrogsmaður og bæjarfulltrúi *Ólafsson* (er áður var í Viðey og síðan á Eiði í Mosfellssveit) Lækjarkotið og bjó þar þangað til Þorsteinn járnsmiður Tómasson, tengdasonur hans, lét rífa það til grunna og byggja smiðju þar sem kotið hafði staðið. Var Ólafur í Lækjarkoti um fjölda ára einn af þektustu borgurum bæjarins og velmetinn af öllum. Sumarið 1874 (Jón Þorkelsson snikkari mun þá enn hafa búið í kotinu) barði Kristján IX Danakonungur að dyrum í Lækjarkoti og vissi húsmóðir ekki af fyr en jöfur var kominn inn í eldhúsið. Beiddist hann þess að mega sjá bæinn og var honum það veitt. En er konungur kom að stiganum upp á loftið, áræddi hann ekki að fara þar upp. Mundi sá góði konungur hafa komið í lélegri híbýli um sína daga?

Vér hverfum þá aftur vestur í Aðalstræti. Fyrir suðurenda þeirrar götu, þar sem áður var Litunarhús innréttinganna, er nú (1801) komið laglegt timburhús, eign *Henrichs Scheels*, áður tugthússráðsmanns, nú bakara og veitingasala, og nefndist húsið því Scheelshús. Hafði hann keypt Litunarhúsið þá er tekið var að selja hús innréttinganna (1791), látið rífa gamla torfbæinn og gera timburhús þetta, er varð nafnfrægt í sögu bæjarins svo sem »*Gamli klúbburinn*«. Seinna jók Scheel álmu við austurenda hússins fram með Tjarnargötu. Standa hús þessi að nokkuru leyti enn þá á bak við

Herkastalann (»Nýja klúbbinn«, sem eitt sinn var)[1]). Scheel veitingmaður var alla tíð velmetinn borgari hér í bæ og andaðist hér tæplega áttræður 1827. Ole P. Chr. Möller kaupmaður keypti Gl. klúbbinn á uppboði eftir hann, þó að líkindum fyrir hönd félags eins í bænum, er nefndist »Reykjavíkur klúbbur« (stofnað 1811), er í voru allir helztu kaupmenn bæjarins og embættismenn. Hafði félag þetta haft bækistöðu sína í Scheelshúsi áður og þaðan mun »klúbbs«-nafnið hafa fluzt yfir á húsið. Að minsta kosti ræður félag þetta upp frá þessu, hverjir skuli hafa á hendi veitingasölu þar í húsinu. Eftir dauða Scheels ræður félagið til að standa fyrir veitingasölunni Guðnýju Gísladóttur (frá Óseyri), er nokkuru síðar átti Hans Möller kaupmann. Af henni tók við klúbbnum *maddama Ottesen* og stóð hún fyrir veitingasölunni 5—6 ár. Þar komst hún í kynni við *Arthur Dillon,* lávarðinn enska, er átti með henni dótturina Henriettu (er seinna varð kona Levinsens kaupmanns) og gaf þeim mæðgum að skilnaði hús það nyrzt í Suðurgötu (nr. 2), er hann hafði látið smíða handa þeim og því var lengi kallað *Dillonshús* (líka »maddömu Ottesens hús«). Maddama Ottesen var í mörgu tilliti einkennileg kona; sérstaklega þótti hún mjög skrítin í máli, þar sem hún venjulega talaði tvær tungur (dönsku og íslenzku) í senn, á þá leið, að fyrst mælti hún hverja setning á dönsku, en útlagði síðan á hræðilega íslenzku. Eftir maddömu Ottesen voru ýmsir veitingasalar í Gl. klúbbnum, t. d. Peter Maach verzlunarmaður, er átti Þóru Einarsdóttur snikkara Hannessonar (er síðar átti Þorfinn kaupm. Jónatansson), Ole P. Chr. Möller, Thómas H. Thomsen, áður faktor í Flensborg (faðir þeirra »Thomsens-systra«) og Ágúst Thomsen, bróðir Ditlevs kaupmanns eldra. Ágúst Thomsen fluttist úr Klúbbnum í Ahrentz-hús, er seinna átti háyfir-

---

1) Eftir að þetta er ritað, hafa öll þessi hús verið rifin til grunna (apríl 1916) og er nú tekið að reisa þar stórhýsi úr steinsteypu, sem á að vera hvorttveggja í senn, höfuðstöð Hjálpræðishersins og sjómannahæli.

dómari Jón Pétursson, og hafði þar veitingasölu nokkur ár. Hann græddi út tún það fyrir sunnan og neðan Skálholtskot, sem mjög lengi nefndist »Thomsens-tún«.

Um miðja 19. öld tóku helztu kaupmenn bæjarins (M. W. Biering, P. C. Knudtzon, C. Fr. Siemsen o. fl.) sig til og bygðu nýtt samkomu- og veitingahús fyrir norðan Gl. klúbbinn, sem þótti orðinn óhæfilegur samkomustaður fyrir bæjarbúa, og var það líka með sanni. Það hús þótti mikið á sínum tíma og veglegt. Var rekstur þess falinn R. P. Hall verzlunarmanni. En reksturinn borgaði sig illa. Þar kom þá og um síðir, að eigendurnir gáfu bænum alla eignina fyrir sjúkrahús. Var þar í nærfelt 20 ár eina sjúkrahús bæjarins (og lélegt þó), þangað til sjúkrahúsið í Þingholtsstræti var reist árið 1884. En jafnframt því að vera sjúkrahús bæjarins, var »nýi« klúbburinn lengi samkomuhús áfram; sérstaklega voru þar oft haldnir sjónleikar. Eftir 1884 var hús þetta aftur veitingahús um tíma, þangað til Hjálpræðisherinn keypti eignina alla um 1897, og hefir þar síðan verið aðalbækistaða Hersins hér á landi. En að húsabaki standa enn ærið fornfálegar leifar Gl. klúbbsins; kynnu þær, ef mættu mæla, frá mörgu að segja, sem nú er gleymt, frá uppvaxtarárum höfuðstaðarins.

Fyrir austan Scheelshús, þar sem **Smiðjan** stóð á dögum innréttinganna, bjó *Jóhannes Zoëga,* áður »tugtmeistari« í Múrnum, sem fyr segir, afi Geirs kaupmanns og þeirra systkina. Hann hafði keypt Smiðjuna og fluzt þangað úr tugthúsinu. Var hann eitthvað við verzlun riðinn. Árið 1790 er hann talinn meðal þeirra, sem verzli í Reykjavík og hafi fengið borgarabréf; og nál. 1810 er hann talinn faktor Andreasar Mitchells. En venjulega er hann kallaður bakari, enda hefir hann að minsta kosti um tíma rekið bakaraiðn. Faðir hans var héraðsfógeti í Höjer í Danmörku (ættin að líkindum upphaflega itölsk aðalsætt), en sonurinn hafði komið til Íslands nál. 1785 í þjónustu kongsverzlunarinnar í Vestmannaeyjum, en þaðan fluttist hann hingað. Kona

hans var, eins og fyr segir, Ástríður Jónsdóttir, ættuð úr Landeyjum († 1834). Eftir dauða gamla Zoëga (1821) bjó ekkja hans nokkur ár í Smiðjunni, en síðan elzti sonur þeirra, *Jóhannes* glerskeri *Zoëga*, er átti Ingigerði Ingimundardóttur (Bjarnasonar í Ráðagerði, en seinna á Bakka á Seltjarnarnesi), systur þeirra Guðrúnar, konu Jens Egilssonar Sandholts, og Helgu, konu Magnúsar beykis Norðfjörðs í Sjóbúð. Af börnum Jóhannesar Zoëga og Ingigerðar eru nú að eins tvö á lífi: *Geir* kaupmaður, hér í bænum, og frú *Magdalena Helgesen* (ekkja Helga E. Helgesen skólastjóra) í Khöfn. Eru þau bæði fædd í Smiðjunni, því foreldrar þeirra bjuggu þar allan sinn búskap. Smiðjan fékk að standa fram á miðja 19. öld, allreisulegur torfbær, og norður af honum fjós, lítt ásjálegur moldarkofi, er stóð út í miðja götuna (Kirkjustræti sem nú er). Smiðju-nafnið var þá löngu fallið í gleymsku, og nefndist bærinn »Zoëgers-bær« (eða »Zuggers-bær«). Um 1845 tók bæjarstjórn eða byggingarnefnd rögg á sig og bannaði Jóh. Zoëga að endurreisa bæinn í sinni gömlu mynd sem torfbæ. Leiddi það til þess, að Jóhannes lét árið 1847 rífa öll moldarhúsin og gera timburhús á lóðinni, þar sem þau höfðu staðið. Það hús var löngu seinna kallað *Þerneyjar-hús*, eftir eigandanum sem þá var, Sigurði Arasyni frá Þerney (áður í Gesthúsum á Álptanesi). Nú er þar Ásbyrgi — hið þrílyfta hús, sem Gunnar Einarsson kaupmaður lét reisa nálægt síðustu aldamótum.

Næst fyrir sunnan Gamla klúbbinn var **Brúnsbær.** Var hann upphaflega íbúð beykis innréttinganna og vinnustofa (og nefnist þá í gömlum skýrslum »Bödkerværelserne«). Seinna virðist bærinn hafa verið notaður til matvælageymslu, að minsta kosti jafnframt (á það bendir nafnið »Viktualie-hús«, sem stundum er notað um býli þetta). En 1791 keypti bæinn maddama Kristine Brún, ekkja áður nefnds »tugtmeistara« Brúns (bls. 17), og bjó hún þar til æfiloka. Árin 1808—09 bjó í Brúnsbæ margnefndur Peter Malmqvist beykir, sem kunnastur er af

Jörundar-sögu, svo sem einn af aðalstuðningsmönnum Jörgensens, enda höfðu þeir James Savignac og Jörgensen verið til húsa hjá Malmqvist í Brúnsbæ, er þeir komu hingað fyrst um veturinn áður en »stjórnarbyltingin« fræga varð. Séra Brynjólfur dómkirkjuprestur hefir þá þegar haft sýnilega illan beyg af Jörgensen, því að í vitnisburðardálki sálnaregistursins það ár skirrist dómkirkjuprestur ekki við að gefa Jörgensen vitnisburðinn »hrakmenni«; hafði prestur þó sízt hugboð um það þá, sem fram átti að koma sumarið eftir, er »hrakmennið« tekur að sér alla æðstu stjórn landsins og kemur hér öllu á ringulreið. En af þessu má ráða, að framkoma Jörgensens hafi þá þegar boðið af sér illan þokka. Tveim árum síðar er *Bjarni V. Thórarensen* »assessor« talinn búandi (»logerende«) í Brúnsbæ, og býr þar meira að segja tvö ár (1813—14). Mætti ef til vill ráða af því, að húsakynnin hafi ekki verið tiltakanlega afleit þar í bænum, þótt stór væru þau ekki, enda voru kröfurnar í þeim efnum ólíkt minni í þá daga en nú. Þar bjó og fyrstu ár sín hér í bæ James Robb, með bústýru sinni og barnsmóður Valgerði Ólafsdóttur úr Hafnarfirði, sem hann átti síðar. Um 1820 eignaðist Guðmundur Pétursson (frá Galtastöðum) Brúnsbæinn, og bjó þar unz hann flutti í Gl. yfirréttarhúsið. Þá seldi hann bæinn hálfan Hannesi Erlendssyni skóara, bróður séra Runólfs á Brjánslæk. Í tvíbýli við Hannes skóara bjó þar nokkur ár Snæbjörn stúdent Björnsson, er varð prestur að Ofanleiti († 1827), og átti Ingibjörgu Jakobsdóttur, systur Kristjáns kaupmanns, en börn þeirra Snæbjarnar og Ingibjargar voru þau Jón sýslumaður Snæbjarnarson og Sigríður, kona séra Þorvaldar Böðvarssonar í Saurbæ. Hvenær Brúnsbær hefir verið rifinn, hefir mér ekki tekist að grafa upp. Að líkindum hefir það verið gert nál. 1830. Að vísu er *Stefán Gunnlaugsson*, þá sýslumaður í Gullbringu- og Kjósarsýslu (seinna land- og bæjarfógeti), talinn búandi í »Brúnsbæ« (1834—37), en sennilega hefir torfbærinn þá verið úr sögunni og timburhús það verið komið í staðinn, sem síðan hefir

staðið á Brúnsbæjarlóðinni, en bæjar-nafninu verið haldið fyrst í stað. En 1841 eignast *Einar* snikkari *Helgason*, sem fyr er getið, eign þessa í makaskiftum fyrir faktorsíbúð Sunchenbergs-verzlunarinnar, sem hann átti áður, og þá verður »Brúnsbæjar«-nafnið að þoka fyrir nafninu »Helgesens-hús«. Bjó Einar þar til dauðadags (1844) og ekkja hans, mad. Margrét († 1856) Jónsdóttir bónda í Njarðvík Snorrasonar, eftir hann. Maddama Helgesen var orðlögð fríðleikskona og dugnaðar. Því segir Gröndal yngri í grafskrift eftir hana:

»Hér hvílir kvenna mætast men
Margrét Jónsdóttir Helgesen,
dýrð henni drottinn greiði«.

Sonur þeirra Einars og Margrétar var, sem fyr segir, Helgi E. Helgesen barnaskólastj., en dóttir Guðný, sem átti séra Svein Skúlason í Kirkjubæ í Hróarstungu (þeirra sonur er Helgi bankastjóri á Ísafirði). Seinna flutti *Gísli* skólakennari *Magnússon* í húsið með þeim hjónum Fr. J. Zeuthen, fyr konungsþjóni, og Wilhelmine, er síðar átti Gísla. En eftir Gísla látinn (1878) eignaðist Stgr. Thorsteinsson húsið og bjó þar allmörg ár.

Fyrir sunnan Brúnsbæ stóð **Teitsbær.** Þar hafði *Teitur* vefari *Sveinsson* fengið útmælt bæjarstæði nál. 1797. Teitur var merkismaður á sinni tíð, síðustu ár innréttinganna verkstjóri (»Fabriksmester«) við klæðavefnaðinn og um fjölda ára meðhjálpari við dómkirkjuna († 1811). Hann átti Guðríði Gunnarsdóttur, og voru dætur þeirra Arndís, kona Finnboga assistents Björnssonar í Finnbogabæ, sem síðar verður getið, og Þórunn, kona Magnúsar Ó. Bergmanns faktors. Voru þeir Teitur dýralæknir Finnbogason og Teitur Bergmann í Litlabæ á Akranesi báðir heitnir eftir afa sínum, Teiti Sveinssyni. Eftir 1820 bjó í Teitsbæ Hannes Gissurarson trésmiður, er kallaði sig Ólsen (druknaði í sjóróðri 1830, ásamt Grími Árnasyni í Þingholti og mörgum öðrum). Hann átti Magdalenu Jóhannesdóttur eldra Zoëga, föðursystur Geirs kaupmanns. En sonur þeirra var Jóhannes Ólsen útgerðarmaður í »Hjallhúsinu«, stjúpi

og fóstri Guðmundur kaupm. Ólsens. Sonur Hannesar trésmiðs af fyrra hjónabandi var Jóhann Ólsen trésmiður, er átti Pálínu Ólafsdóttur, dóttur Vatnsenda-Rósu. Um 1850 eignaðist Oddur Guðjónsson trésmiður Teitsbæ. Reif hann bæinn og gerði timburhús það, er enn stendur þar á lóðinni. Oddur var vænn maður og vel látinn. Hann átti Ingibjörgu Jakobsdóttur (umboðsmanns á Breiðumýri Péturssonar, systur séra Sigurgeirs á Grund). Hún var yfirsetukona, lærð erlendis og prýðilega að sér, en því miður drykkfeld. Seinna varð hús þetta húsa kunnast hér í bæ. Bjó þar þá *Pétur Guðjohnsen* organisti, bróðir Odds, hinn ágæti brautryðjandi sönglistarinnar á landi hér, er átti *Guðrúnu* dóttur Lars M. Knudsens, svo sem fyr er getið, hina mestu atorku- og sæmdarkonu. Pétur organisti dó þar í húsinu 1877.

Lítið eitt sunnar og vestar en síðastnefndur bær stóð **Suðurbærinn** (eða réttara Suðurbæirnir, því að býlin voru tvö). Þar hafði á dögum innréttinganna verið bústaður lóskerans (»Overskærer-vaaning« eða Fabriqve-hus Nr. 23). Stóðu þeir langt fram á næstliðna öld (og þóttu næsta lítil bæjarprýði) þar sem nú heitir Vonarstræti, milli Tjarnargötu og Suðurgötu, sem nú er, þó nær Tjarnargötu. Í öðrum bænum bjó lengi Ólafur Jónsson tómthúsmaður, sá er síðastur mun hafa verið dæmdur í gapastokk hér í bæ (á dögum Frydensbergs). En í hinum bjó lengi Kristján hringjari Brynjólfsson, sómamaður á sinni tíð. Seinast bjó þar í öðrum hvorum bænum bæjarins síðasti böðull, Guðmundur Hannesson (kallaður »Fjósarauður«) ásamt konu sinni, Margréti Guðmundsdóttur (sem kölluð var »Manga með augað«). Suðurbæirnir voru rifnir nokkuru eftir 1860.

Enn eru ónefndir tveir bæir, er stóðu hinu megin við götuna, suður af Smiðjunni. Var annar þeirra upphaflega íbúð reipslagara (»Rebslager-vaaningen«, Fabriqve-hus Nr. 21), en hitt íbúð vefarasveina (Fabriqve-hus Nr. 22). Hið fyrnefnda býli eignaðist 1791 Markus Nicolai Holm timburmaður, og nefndist það eftir honum **Hólmsbær.** Ætlaði Hólm að byggja sér timburhús á

lóðinni, en hætti við og fór utan; er svo að sjá sem Þorkell Bergmann hafi eignast bæinn við burtför Hólms. Bjó Runólfur Klemensson þar í bænum 1797—1801. En eftir það hverfur bærinn alveg úr tölu bygðra býla, og geri ég ráð fyrir, að hann hafi verið rifinn og ekki reist þar aftur neitt hús, fyr en löngu seinna, er Haraldur Möller bygði þar hús það, sem nú stendur þar (Tjarnargata nr. 3). Hitt býlið, vefarasveina-íbúðina, keypti *Sigurður* timburmaður *Magnússon* (frá Skálabrekku Ólafssonar) og var það kallað **Timburmannsbærinn.** Sigurður andaðist 1801 og fær þann vitnisburð látinn í kirkjubók dómkirkjuprestakallsins, að hann hafi verið »hinn bezti erfiðismaður í sinni prófession«. Sigurður var tvíkvæntur. Fyrri kona hans var Margrét Sigurðardóttir frá Einholtum Þorvarðssonar og var dóttir þeirra Ingibjörg Kristín, er fyr átti Jón vaktara Guðmundsson og varð í því hjónabandi langamma Mortens Hansens skólastjóra, en seinna Jón Davíðsson í Hlíðarhúsum, er síðar verður getið. Seinni kona Sigurðar var Guðríður Þórðardóttir og var dóttir þeirra Ingibjörg, sem átti, eins og fyr segir, Gunnlaug stúdent og faktor Halldórsson. Mun Gunnlaugur hafa búið í Timburmannsbænum síðast og átt hann; því að hann selur *John Parker* konsúl bæinn haustið 1813 (fyrir 150 rdl.). En Parker mun hafa látið rífa bæinn og reisa timburhús á lóðinni. Var hús það lengi kallað »Enska húsið« eða »Konsúls-húsið«. Enda búa þar hin næstu ár faktorar ensku verzlunarinnar hér í bæ (t. d. Edm. Hodgson 1815). 1817 er húsið svo sem tilheyrandi Teterington & Allanson í Liverpool veðsett Óla Sandholt fyrir 342 rdl. skuld, sem þeir séu komnir í við hann, og hefir húsið líklega orðið eign hans upp úr því. Eftir það býr þar nokkur ár Halldór Thorgrimsen »valdsmaður« og eftir hann Pétur beykir Jónsson, sá er draugurinn ofsótti[1]) og Sig. Breiðfjörð kvað um í ljóðabréfinu til séra H. Arnórssonar (í Ljóðasmámunum I):

1) Þessi Pétur beykir bjó *ekki* í Brúnsbæ, eins og Gröndal gefur í skyn í riti sínu.

»Um miðjan vetur monsjör Pétur beykir
illa lét, því áralið
ætlaði' að éta manngreyið«.

En 1831 seldi Óli Sandholt enska húsið Nicolai H. Petersen verzlunarmanni úr Keflavík (ættuðum frá Sönderborg á Als), föður Adolfs Nicolai Petersens bókhaldara í Hafnarfirði (fyrra manns frú Maríu Ólafsdóttur [er síðar átti Björn Guðmundsson kaupmann], en börn þeirra voru séra Ólafur prófastur á Svalbarði Petersen og þau systkini). Eftir Nicolai Petersen eignaðist húsið og bjó í því Jóhann gullsmiður Pétursson, sá er fyrstur varð dyravörður í latínuskólanum (1845). Þá fluttist þangað Þórður skóari Thordersen (er átti Henriettu Magnúsdóttur Norðfjörðs í Sjóbúð), er seinna var á Melnum, lélegur skóari fremur, en mikill drykkjumaður. Löngu seinna eignaðist *R. P. Tærgesen* kaupmaður hús þetta, lét rífa það og byggja nýtt hús á staðnum. Bjó hann þar síðustu ár æfi sinnar og eftir hans dag ekkja hans. Þá keypti Edvard Siemsen húsið og bjó þar til æfiloka, en ekkja hans seldi Geir T. Zoëga rektor, sem þar byrjaði búskap og enn á húsið.

Á sjálfri kaupstaðarlóðinni, eins og hún var um það skeið, sem hér ræðir um, er þá ekki ótalið annað en torfbæir nokkurir, flestir þá nýbygðir á svæðinu fyrir vestan og ofan Aðalstræti.

Er þar fyrst að nefna **Sandholtsbærinn** norðanvert við Grjótastiginn, næst fyrir ofan Skálann. Þar bjó þá *Egill Helgason* frá Sandhólum á Tjörnesi, sá er fyrstur tekur sér ættarnafnið *Sandholt* og verður ættfaðir hinnar nafnkunnu Sandholtsættar. Hann mun hafa komið hingað til bæjarins um það leyti er bærinn fær kaupstaðarréttindi. Hafði hann áður dvalist nokkur ár í Grænlandi. Hefir hann að líkindum verið einn þeirra Íslendinga, sem Danastjórn sendi þangað, til að kenna Grænlendingum hákarlaveiðar á lagvaði, og þá verið Þorkeli Bergmann samferða þangað vestur. Hingað kominn mun Egill hafa verið eitthvað við innrétting-

arnar riðinn, en seinna snúið sér að verzlun. Í landfóegabréfi frá 30. mai 1797 er hann kallaður kaupmaður, er hafi »en liden indenlandsk Handel«, sem mun merkja, að hann hafi ekki haft skip í förum, en verzlað sjálfur við hina meiri háttar kaupmenn hér í bænum. Egill dó í Rvík 1812. Þá kvað Benedikt Gröndal eldri:

»Gröndal undir gröf sig bjó,
gugnuðu tær og fingur,
árið, sem hann Egill dó,
annar Mývetningur«[1]).

Hefir Egill að líkindum verið ættaður úr Mývatnssveit. Hann átti konu grænlenzka, er *Aneka* hét (sennilega af Eskimóakyni í aðra ætt, en danska í hina). Höfðu menn hér í bæ hálfgerðan ímugust á Aneku Sandholt, hugðu hana lítt kristna vegna grænlenzks ætternis hennar og stóð mönnum hálfgerður stuggur af henni. En alt var það ástæðulaust. Þegar henni rann í skap við einhvern, hætti henni til að sletta grænlenzku, sem þeir, er ekki skildu, hugðu vera mögnuð særingarorð, töluð af heiðinglegri kyngi († 1825). Þrjú af börnum þeirra ólust upp hér í bæ, synir tveir, Óli og Jens, og dóttir þeirra, Elín. *Óli Sandholt* fékst við verzlun; hann var, eins og fyr segir, tengdasonur Árna Reynistaðarmágs (bls. 30). Voru börn hans þeir miklu vestfirzku kaupmenn Árni og Bjarni Sandholt, og systurnar Ása, kona Hans A. Clausens etazráðs, Sigríður, kona Péturs faktors á Ísafirði Guðmundsens (frá Búðum), og Ingibjörg, kona Sigfúsar Schulesens sýslumanns. Óli Sandholt var önnur hönd hinna ensku kaupmanna hér, fyrst Savignacs, síðan Johns Parkers konsúls, og þótti hann ekki altaf koma sem bezt fram. 1816 er hann faktor hinnar ensku verzlunar hér (eigendur hennar voru þá þeir Teterington & Allanson í Liverpool). Frá 1818 eða þar um er hann faktor í Keflavík. Um 1830 flyzt hann vestur að Búðum og þar deyr hann 1835. *Jens*

1) Kvæði Gröndals bls. 204 (hér tekið eftir Jörundarsögu dr. J. Þ. bls. 11).

*Sandholt* var tómthúsmaður hér í bæ og stundaði sjó. Bjó hann í Sandholtsbænum til æfiloka († 1837, 41 árs). Hann var kvæntur Guðrúnu Ingimundardóttur frá Bakka, móðursystur Geirs Zoëga kaupmanns, og voru dætur þeirra Sigríður, er átti Ásgeir kaupm. Ásgeirsson eldra á Ísafirði, og Jóhanna, kona Þórðar skóara í Grjóta og síðar Geirs skóara, bróður Torfa í Hákonarbæ. *Elín Sandholt* hafði átt launbarn með Otta Guðmundssyni sýslumanni (það var Guðrún Ottadóttir, er átti Jón prentara Vigfússon, og síðar Jón Jónsson prentara í Stafni í Þingholtum); seinna giftist Elín Diðrik Hölter skóara, bróður þeirra systra maddömu Knudsen og maddömu Biering. Dóttir þeirra var Aneka, kona Diðriks Knudsens snikkara (og þeirra dóttir aftur Elín Sigríður († 1868), fyrsta kona séra Matth. Jochumssonar). En launsonur Hölters skóara með Margréti Ólafsdóttur, systur maddömu Valgerðar Robb, var Vilhelm Hölter »skáld«. Sandholtsbær datt úr sögunni nál. 1850, er ekkja Flensborgar-Thomsens eignaðist hann og lét rífa, til þess að byggja þar »Thomsenssystra-húsið« litla, er stóð þar til skamms tíma.

Í hjalli, sem áður hafði tilheyrt Sandholtsbæ, bjó um miðbik aldarinnar alllengi *Pétur* hattari *Ólafsson.* Hann var hagyrðingur og lét oft fjúka í kviðlingum. Hann orti Hattamakara-vísuna og var stefnt fyrir. Vísan hljóðaði svo:

»Hattamakarinn hefur hundruð sjö af mó.
Engum aumum gefur, er hann ríkur þó.
Orð fær slæmt af öllum lýð.
Engin vill því eiga hann yngisstúlkan fríð«.

En þegar kom á sáttafund, brást Pétur ókunnuglega við og kvað vísuna hljóða svona:

»Hattamakarinn hefur hundruð sjö af mó.
Öllum aumum gefur, er hann snauður þó.
Orð fær gott af öllum lýð.
Einhver vill því eiga hann yngisstúlkan fríð«.

Var þá stefnusök látin niður falla og ekki lengra haldið.

Annars smíðaði Pétur á elliárum kofort, sem hann málaði öllum regnbogans litum[1]).

Fyrir ofan Sandholtsbæ stóð **Finnbogabærinn.** Þann bæ bygði *Finnbogi* assistent *Björnsson* nál. 1797, og bjó þar alla tíð síðan, ásamt konu sinni Arndísi Teitsdóttur (vefara Sveinssonar). Þar fæddust þeir allir, hinir nafnkunnu synir þeirra, Finnbogabæjar-bræður: *Teitur* dýralæknir, er átti Guðrúnu dóttur Guðbrandar smiðs Stefánssonar (þeirra sonur var Guðbrandur faktor Finnbogason); *Ásgeir* bókbindari, er átti Sigríði Þorvaldsdóttur (Böðvarssonar) að fyrri konu, og með henni séra Þorvald í Steinnesi og Kristínu konu Lár. sýslum. Blöndals; *Kristófer* í Fjalli (faðir Péturs á Stóruborg) og séra *Jakob*, síðast í Steinnesi († 1873), er átti fyrst Sigríði Egilsdóttur frá Kiðjabergi (þeirra sonur séra Jón í Glæsibæ, er átti Helgu Magnúsdóttur beykis Norðfjörðs í Sjóbúð), og síðan Þuríði Þorvaldsdóttur (Böðvarssonar), (þeirra sonur séra Þorvaldur í Sauðlauksdal, kvæntur Magdalenu Jónasdóttur á Hallbjarnareyri Jónssonar); en *Guðrún* var systir þeirra, sú er átti séra Guðmund Vigfússon á Melstað. Finnbogi Björnsson var við verzlun lengst af, meðal annars við verzlun Adsers Knudsens, eins og fyr segir (bls. 50). Finnbogabærinn stóð langt fram á 19. öld, þangað til Jón Ólafsson prentari, sem kendur var við Finnbogabæ (átti Kristínu Jónsdóttur kaupmanns á Kúvíkum Salómonsen), lét rífa bæinn og byggja timburhús það, er enn stendur þar.

Í raun réttri var Finnbogabærinn einn af Grjótaþorpsbæjunum, þó hann sé talinn sér. **Grjótinn** var upphaflega ein af Reykjavíkur-hjáleigunum. Svo er hann talinn í Jarðabók Á. M. frá 1703. Þá er þar einn ábúandi, Jón Þorvaldsson, með dálítið búhokur (1 kú,

---

1) Í ferðabók P. Gaimards er ágæt mynd af íslenzkum sjómanni í íslenzkum sjófatnaði eins og hann tíðkaðist hér þá og tíðkast enn á opnum róðrarbátum (skinnstakk og brók). Undir myndinni er nafnið »*Pétur Ólafsson*«, og þykir mér því líklegt, að myndin sé einmitt af Pétri hattara, sem um það skeið var vinnumaður í Götuhúsum.

1 kálf, 1 hross og 1 fola) og er landskuld af kotinu talin 40 ál., er borgist með 2 vættum fiskjar í kaupstað. Grjótatún virðist hafa legið norður af hverfinu. En þegar tekið var að byggja dómkirkjuna, var grjótið rifið upp úr Grjótatúni. Við það skemdist það alveg eða ónýttist sem tún, en var breytt í kálgarða. Um miðbik 18. aldar er þar komin allmikil torfbæja-hvyrfing, sem ef til vill stendur í einhverju sambandi við stofnun innréttinganna. Í sálnaregistri Reykjavíkursóknar frá 1769 eru fjórar fjölskyldur taldar búandi í Grjóta (þar á meðal er Sighvatur Sighvatsson (kvæntur Vigdísi Símonardóttur) langafi þeirra Sighvatar bankastjóra og Einars skálds Benediktssonar); en þar er þá líka talinn Litli Grjóti; hefir það býli sennilega síðar horfið inn í Grjóta-hvyrfinguna. Býlin eru þá líka talin fimm, þegar hér er komið sögunni. Búa þar mestmegins tómthúsmenn, er lifa á sjómensku. Þegar kemur fram á 19. öldina, eru Grjótabæirnir enn fimm að tölu: Syðst var *Helgabær* (þar sem nú er hús Þórðar læknis Thoroddsen); þann bæ bygði Helgi Eyjólfsson frá Bústöðum (kvæntur Önnu Guðmundsdóttur) nál. 1830. Þar bjó löngu seinna nokkur ár hinn nafnkunni fræðimaður Jón Jónsson Borgfirðingur lögregluþjónn, kvæntur Önnu Guðrúnu Eiríksdóttur, (meðal barna þeirra eru þeir dr. Finnur prófessor í Khöfn og Klemens landritari). Lítið eitt austar var *Reykdals-* (eða Richdals-) *bær*. Þar bjó um og eftir aldamót 1800 Hans Wiingard Richdal, norskur skóari, er áður hafði verið þénari Vibe amtmanns á Bessastöðum og komið með honum út hingað. Laundóttir Richdals með Hallfríði Jónsdóttur (frá Dagverðarnesi í Skorradal Runólfssonar) var Kristjana, er átti séra Einar Sæmundsson, síðast prófast í Stafholti (börn þeirra voru þeir bræður Sigurður kaupmaður, er átti Kristínu Torfadóttur Steinsen, Hans Wingaard trésmiður og Metta, er átti séra Markús Gíslason á Stafafelli († 1890)). Í Reykdalsbæ bjuggu seinna hvor fram af öðrum, þeir Þórður skóari og Geir skóari (bróðir Torfa í Hákonarbæ). Norðar í Grjótaþorpinu var aust-

ast *Höll,* þar sem seinna bjó Ásmundur Eiríksson og Rósa kona hans Jónsdóttir frá Ártúnum. Þau höfðu áður búið á Seli. Ásmundur var ættaður úr Húnaþingi, sonur Björns hnakkasmiðs Eiríkssonar (prests á Hofi Jónssonar). Synir þeirra Ásmundar og Rósu voru þeir bræður Pétur prentari, Eiríkur, er átti Halldóru Árnadóttur ríka í Brautarholti (þeirra sonur er Árni kaupmaður og leikari) og Jón, afgreiðslumaður Sameinaða eimskipafélagsins (kvæntur Ingibjörgu Kaprasíusdóttur). Fyrir vestan Hólinn var *Ásmundarbær,* þar sem bjó Ásmundur Sigurðsson bróðir Einars í Melkoti, föður Magnúsar, en löngu seinna Þorkell Þórðarson, einn þeirra Borgarabæjarbræðra. Og vestast í þorpinu við Göthúsatún var *Vaktarabærinn.* Þar bjó í fjölda ára Guðmundur vaktari, sonur Gissurar í Hólakoti. Seinna var þar búandi Ingiríður Ólafsdóttir, ekkja Þorleifs lyfsalasveins Sigurðssonar (hattara Þorleifssonar), og þar ólst upp sonur þeirra Bertel E. Ó. Þorleifsson cand. phil. og skáld.

Fyrir norðan Grjótaþorpið var **Hákonarbær.** Þann bæ bygði *Hákon* ríki *Oddsson* frá Vatnsleysu, skömmu fyrir aldamótin (1799). Hann átti Kristínu Einarsdóttur (skólameistara í Skálholti, síðar lögsagnara í Vestmannaeyjum Jónssonar), systur Ísleifs háyfirdómara á Brekku. Þeirra sonur var Einar hattari og kaupmaður Hákonarson, sem áður hefir verið nefndur (bls. 70). Eftir lát Hákonar seldi ekkja hans 1816 Jóni lóðs Jóhannessyni bæinn. Sá Jón var uppeldissonur Geirs biskups Vídalíns, og átti Halldóru Sigurðardóttur sútara Þórðarsonar, en synir Jóns voru þeir Geir skóari og Torfi, sem alla sína tíð bjó í Hákonarbænum, formaður mikill og aflasæll, kvæntur Guðríði Helgadóttur frá Þaravöllum á Akranesi. Jón sonur Torfa reif bæinn um síðustu aldamót, og bygði timburhús skamt þar fyrir austan, sem bærinn stóð áður.

Norður af Hákonarbæ komum vér að öðru nýreistu býli, er þá nefnist **Hjallakot.** Það hafði reist Gunnlaugur Narfason tómthúsmaður. Seinna bjó þar Ari

Magnússon, er átti Bergþóru dóttur Einars í Þingholti. Var bærinn síðan nefndur eftir honum *Arabær* og hélst það nafn löngu eftir að Ari var fluttur þaðan í Skálholtskot, eins og fyr er getið. Í Arabæ bjó í fjölda ára Runólfur Jónsson, faðir Jóhanns, föður Magnúsar Einars Jóhannssonar, læknis á Hofsós. Nú er þar, sem Arabærinn stóð, hús Jóns afgreiðslumanns Ásmundssonar (frá Grjóta).

Fyrir neðan Hjallakot, austan við götuna, þar sem nú er Vinaminni, stóð á þessum árum fjós eitt mikið; átti það Kristófer Faber. Í **Fabersfjósi** var íbúð í vesturenda og bjó þar þá Þórður nokkur Jónsson beykir, er kallaði sig Snæfeld. Nokkuru síðar bygði Þóroddur Sigmundarson bæ, þar sem fjósið hafði staðið, og nefndist hann *Þóroddsbær*. En seinna var hann kallaður *Brekka* eða *Brekkubær*. Þar bjuggu í fjölda ára þau Einar hattari Sæmundsson (prests á Útskálum Einarssonar) og kona hans Guðrún Ólafsdóttir (Loftssonar og Elínar Þórðardóttur úr Hliðarhúsum Sighvatssonar), foreldrar þeirra Brekkubæjar-systra: Sigríðar, konu Eiríks Magnússonar M. A. í Cambridge, Maríu (í Vinaminni), konu Einars verzlunarm. Einarssonar í Rvík, og Soffíu, konu Sigurðar próf. Gunnarssonar í Stykkishólmi.

Þar fyrir norðan var **Marteinsbær**. Þann bæ reisti rétt fyrir aldamótin Marteinn nokkur Högnason og nefndist bærinn í upphafi eftir honum. En seinna seldi Marteinn bæinn Guðmundi borgara Bjarnasyni (frá Langárfossi) og nefndist hann upp frá því *Borgarabær*. Eftir Guðmund borgara, sem áður er getið (sjá bls. 59), bjó Þórður sonur hans þar í bænum fjölda ára. Synir Þórðar voru þeir alkunnu »Borgarabæjar-bræður«, er alla æfi dvöldust hér í bæ: *Guðmundur* á Hól bæjarfulltrúi (faðir frú Sigþrúðar, konu Björns Kristjánssonar bankastjóra), *Jón* í Hliðarhúsum (faðir Þórðar í Ráðagerði), *Pétur* í Oddgeirsbæ (faðir Gunnlaugs fyrv. bæjarfulltrúa), *Þorkell* í Grjóta og *Sigurður* í Steinhúsinu, er einn lifir nú þeirra bræðra, háaldraður maður. Dóttir

Þórðar var *Björg*, kona Jóhannesar Zoëga í Nýjabæ (bróður Geirs kaupmanns). Þórður Guðmundsson var einatt kallaður »borgari«, þótt aldrei fengist við verzlun; var hann hér hafnsögumaður í mörg ár og mikils metinn í hvívetna. Á efri árum sótti á hann þunglyndi mikið og lauk æfi hans með sviplegum hætti. Hann fanst örendur í flæðarmálinu skamt frá Jörundarvirkinu. Síðast mun hafa búið í Borgarabænum sonur Þórðar, Þorkell, er seinna bjó í Grjóta.

Skamt frá Borgarabænum, lítið eitt norðar, stóð annar bær nýreistur, þegar hér er komið sögunni. Nefndist bær þessi **Þorfinnsbær** eftir eigandanum, er hafði látið gera bæinn. Hann hét *Þorfinnur Þorbjarnarson* lögréttumaður á Seli († 1802), sonur Þorbjarnar ríka Bjarnasonar, sem um miðbik 18. aldar bjó rausnarbúi í Skildinganesi. Þorfinnur var merkismaður í öllu tilliti, með fremstu mönnum sóknarinnar af alþýðustétt. Seinna nefndist bær þessi fjölda ára *Melbyesbœr*, því að eftir dauða Þorfinns hafði Henrik Nielsen Melbye beykir keypt bæinn og bjó hann þar til æfiloka og ekkja hans, Sigríður Árnadóttir, eftir hans dag. Dóttir þeirra var Þuríður, kona Kristjáns kaupmanns Jakobssonar, sem fyr er getið. Síðan eignaðist Diðrik skóari Hölter Melbyesbæinn, sem þá auðvitað nefndist upp frá því *Höltersbœr*. En seinast allra bjó í Höltersbæ Diðrik trésmiður Knudsen, tengdasonur Hölters skóara.

Báðir þessir bæir duttu úr sögunni þegar þeir Henderson & Anderson bygðu hið mikla stórhýsi sitt »*Glasgow*« á grunni þeirra beggja nokkuru eftir 1860.

En milli þessara bæja, lítið eitt vestar, var á morgni 19. aldar þriðji bærinn, er þá nefndist **Helgakot**, eftir Helga nokkurum Þorkelssyni, er þann bæ hafði reist. Seinna bjó þar Vigfús halti Pétursson vefari, sem áður hefir verið nefndur, og nefndist bærinn upp frá því *Vigfúsarkot*, alt þangað til hann var rifinn skömmu eftir síðustu aldamót. Þar bjó lengi Guðmundur, son Guðmundar borgara Bjarnasonar, er átti Vigdísi dóttur

Vigfúsar. En síðast bjó þar nærfelt 50 ár Þórður útvegsbóndi Torfason, — stúdents Árnasonar frá Mófellsstöðum — († 1903), er átti Ragnheiði Jónsdóttur (Björnssonar sekretera á Esjubergi) Stephensens. Af sex sonum þeirra (Vigfúsarkots-bræðrum) lifa nú að eins tveir, Þorgrímur læknir í Keflavík (kvæntur Jóhönnu Andreu, dóttur Ludvigs A. Knudsens bókhaldara og Önnu Steindórsdóttur Waage, fyrri konu hans) og Jón fiskimatsmaður í Reykjavík.

Loks komum vér svo að nyrzta bænum í röðinni sunnan frá Grjóta og norður að sjó. Sá bær var reistur 1798 af Árna nokkurum Þorsteinssyni og nefndist **Sjóbúð**. Þar bjó seinna árum saman austfirzkur maður, *Magnús* beykir *Jónsson*, er kallaði sig *Norðfjörð*. Hann átti Helgu Ingimundardóttur frá Bakka, móðursystur Geirs Zoëga, og börn þeirra voru systurnar Sigríður, kona Kristjáns Möllers veitingasala, Henrietta, kona Þórðar skóara, og Helga, kona séra Jóns Jakobssonar í Glæsibæ, og bræðurnir Ólafur Norðfjörð faktor í Keflavík og Jón Norðfjörð verzlunarmaður hér í bænum. Ekkja Magnúsar, maddama Helga Norðfjörð, bygði sér hús fyrir ofan Vigfúsarkot úr hjalli, sem þar stóð. Var það *Hjallhúsið*, sem svo var nefnt, þar sem bjó síðar útvegsbóndi *Jóhannes Ólsen* (bls. 85), er átti Ragnheiði Ingimundardóttur frá Brennu í Þingholtum. En í Sjóbúðarbænum bjó síðast *Kristján* kaupmaður *Þorsteinsson* (lögregluþjóns Bjarnasonar í Brunnhúsi), sem átti Guðrúnu Sveinsdóttur, systurdóttur Jóns landlæknis Thorsteinsen (systur Jakobs Sveinssonar snikkara). Þegar Kristján var dáinn, lét ekkja hans rífa Sjóbúðarbæinn gamla og gera timburhús á lóðinni. Átti hún nokkuru síðar *Geir* kaupmann *Zoëga*, sem þá fluttist í Sjóbúð, og hefir nú á 6. tug ára gert þar garðinn frægan.

Vér höfum þá farið um alla kaupstaðarlóðina eins og hún kemur fyrir sjónir á fyrsta ári 19. aldar. Því að kaupstaðarmörkin voru enn ekki komin svo langt vestur á bóginn, að Reykjavíkur-hjáleigurnar gömlu

teldust með kaupstaðnum. En þar sem þetta alt telst nú til kaupstaðarins, þá þykir ekki viðeigandi að ganga þegjandi fram hjá því.

Hér verður að sjálfsögðu minstra breytinga vart frá því er saga kaupstaðarins hefst. Býlunum hefir lítið sem ekkert fjölgað. Suður með Tjörninni standa hjáleigurnar Melkot, Melshús og Hólakot og Hólavallarskólinn mitt á milli þeirra tveggja síðarnefndu. Að eins hefir lítið tómthúskot bæzt við milli Melkots og Melshúsa, er nefnist Nýibær, (venjulega kallað Lénharðskot). Skal nú sögð í stuttu máli saga þessara býla, að því leyti sem hún er kunn.

Syðst og næst Tjörninni er **Melkot.** Hvenær þar er fyrst bygt, veit ég ekki, en ekki er það svo gamalt býli, að Jarðabók Á. M. telji það meðal hjáleigna frá Reykjavík. Og hafi þar nokkurn tíma verið grasbýli, þá hefir grasnytin verið tekin undan því fyrir 1769. Það ár búa þar tveir tómthússmenn, Guðmundar tveir, Jónsson og Einarsson, og vitum vér ekki meira um þá en nöfnin. Árið sem Reykjavík fær kaupstaðarréttindi, býr í Melkoti danskur maður, »Christjan Möller Snedker«, sem kynni að geta verið einn af dómkirkju-smiðunum, þótt skjalfest verði það ekki. Tíu árum seinna býr þar Þorleifur Árnason Hitdal og heldur hann kotið í nokkur ár; en það ár, sem hér ræðir um, býr þar Teitur Gíslason og vitum vér engin deili á þessum mönnum. En frá 1825 til vorra daga hefir sama ættin búið þar, fyrst Sigríður Magnúsdóttir (ekkja Sigurðar Ásmundssonar í Skálholtskoti), þá Einar sonur hennar og loks Magnús sonur hans, sem enn býr þar háaldraður maður. Lítið eitt vestar og norðar stóð nýbýlið **Nýibær** eða *Lénharðskot,* rétt fyrir sunnan líkhúsið í kirkjugarðinum, sem nú er. Var Lénharður þessi Jónsson, gamall vinnumaður Sunchenbergs og síðar kembari við innréttingarnar. En er Lénharður féll frá, hvarf kot þetta úr sögunni nálægt 1812.

Í **Melshúsi** er 1769 talinn búandi mr. Jón Magnússon snikkari. Má ráða af titlinum »mr.« (þ. e. monsjör),

að Jón sá hefir verið einn af heldri mönnum sóknarinnar. Um 1780 býr þar annar »mr.« Það er Jón Sveinsson, hreppstjóri Reykjavíkur- og Seltjarnarness-hrepps, enda er kona hans, Sigríður Guðmundsdóttir, kölluð »maddama«. Annars er mér alls ókunnugt um þessi heiðurshjón. Þegar Hólavallarskóli var settur á stofn, breyttist Melshús í tómthús, því að þá var grasnytin tekin frá því og lögð til skólans. Á fyrstu 14 kaupstaðarárum Reykjavíkur býr í Melshúsi danskur skóari, Johan Hendrik Höyer, og eftir hann látinn ekkja hans með syni sínum. Fyrst eftir aldamótin tekur býlum að fjölga þar suður frá, og þá fyrst kemur upp fleirtölumyndin (Melshúsin). Verða þau brátt 4 eða jafnvel 5. Í einu þeirra, og naumast því reisulegasta (kotinu þar sem síðast bjó Pétur prentari Ásmundsson) fæddist *Jón Guðmundsson*, hinn alkunni stjórnmálamaður og ritstjóri, 10. des. 1807. Bjuggu þar þá foreldrar hans, Guðmundur Bernharðsson og Ingunn Guðmundsdóttir, þá gift fyrir tæpu ári; var 40 ára aldursmunur þeirra hjóna, enda stóð hjúskapur þeirra ekki nema nokkur ár. Fluttist þá Guðmundur austur á sveit sína í Árnessýslu († 1812), en Ingunn tók saman við annan mann, Guðmund Grímsson í Hólakoti, og átti með honum son, Ólaf Rósenkranz, er varð bóndi uppi í Skilmannahreppi og faðir Ólafs Rósenkranz leikfimiskennara. En Guðm. Bernharðsson hafði áður verið kvæntur Guðrúnu Erlendsdóttur og átt með henni son, er Arnþór hét. Hann varð stúdent, en druknaði 19 vetra í Vestmannaeyjum. Nú eru Melshúsin með öllu horfin inn í kirkjugarðinn. Síðasti Melshúsabærinn var rifinn 1908; var það bær Bjarna hringjara Mattíassonar, enda var hann þeirra allra vandaðastur.

Í **Hólakoti** bjó, er fyrst fara sögur af búendum þar (1769), Þorkell Þórðarson í sambýli við Teit Sveinsson vefara, sem áður er nefndur. Þangað til Hólavallarskóli er reistur, virðist Hólakot hafa verið allmyndarlegt grasbýli með talsverðum túnum, en setur ofan, líkt og Melshús, er grasnytin er tekin undan því

og lögð að hálfu til skólans, en að hálfu hafði hún áður verið lögð til innréttinganna. Nefndist sá hluti túnsins eftir það *Ullarstofutún*. Varð snemma margbýli í Hólakoti, þótt naumast hafi bæirnir nokkuru sinni verið fleiri en tveir. Í byrjun aldarinnar bjó þar Jón garðyrkjumaður Grímsson (sýslumanns Grímssonar frá Litlu-Giljá), faðir þeirra bræðra Jóns og Gríms Laxdals, sem þegar hafa verið nefndir. Sá Jón var bróðir séra Jóns í Görðum á Akranesi, föður Gríms amtmanns og Ingibjargar konu Þorgríms gullsmiðs Thomsens á Bessastöðum (en þeirra sonur var dr. Grímur Thomsen skáldið). Enn var sonur Jóns garðyrkjumanns Þorvaldur á Gauksmýri (Beina-Þorvaldur), sá er grunaður var um skipherramorðið í Laxárósi á Skagaströnd[1]). Espólín segir um Jón garðyrkjumann, að hann hafi verið »ei mjög þokkaður«[2]). Á fyrri hluta aldarinnar var í Hólakoti árum saman Gissur vaktari Magnússon (Illugasonar frá Hólshúsi í Effersey[3])), sómakarl, sem um fjölda ára gætti með skyldurækni góðrar reglu á götum bæjarins á næturþeli. Bar hann alla tíð vaktarastaf (»morgunstjörnu«) sem embættistákn og söng vaktaravers við hver stundamót nætur.

Árið 1803 var efst á Hólavelli, á háhólnum fyrir vestan og ofan Hólakotsbæina, reist **»stjörnuskoðunarhús«** (observatorium). Það lét reisa norsk-danskur liðsforingi, Hans Jörgen Wetlesen, er var hér að landmælingum á þeim árum ásamt þeim Ohlsen og Frisak liðsforingjum. En tugthússlimir unnu aðallega að hússbyggingunni. Stóð það þar þangað til 1817. Þá keypti Einar stúdent og borgari Jónsson húsið og lét rífa það. En árið 1830 var reist *vindmylna* þar sem stjörnuskoðunarhúsið hafði staðið. Mun P. C. Knudtzon kaupmaður hafa látið gera mylnu þessa, en um eitt skeið

---

1) Sbr. Íslands Árbækur XI, bls. 117 og XII, bls. 100.

2) Sbr. Íslands Árbækur XI, bls. 33.

3) Í Effersey voru 1792 þessi 4 býli: Effersey, Steinhóll, Hólshús og Eyrarhús.

átti Daníel Bernhöft bakari (sem í fyrstu var hér á vegum Knudtzons) mylnuna. Síðast átti hana Jóhannes malari Pálsson í Hólakoti (norðurbænum), sómamaður í mörgu tilliti og lagvirkur (gerði t. d. við klukkur bæjarmanna, því þá var fátt um úrsmiði í bænum). Mylna þessi mun hafa horfið nálægt 1880.

Á háhólnum milli Melshúsa og Hólakots stóð um þetta skeið **Hólavallarskólinn** eða *Reykjavíkurskóli hinn eldri.* Tveim árum áður en Reykjavík fékk kaupstaðarréttindi, hafði með konunglegri tilskipun (29. apríl 1785) verið boðið að flytja latínuskólann úr Skálholti suður til Reykjavíkur. Var skólahús allmikið reist á Hólavelli miðjavega milli Hólakots og Melshúsa og grasnytjar beggja þeirra hjáleigna lagðar að mestu til skólans, svo sem áður er vikið að. Vegna mikilla harðinda, sem gengu yfir land (móðuharðindanna) byrjaði ekki skólahald á Hólavelli fyr en haustið 1786. Lítið frægðarorð ávann sú mentastofnun sér þau 18 ár, sem hún stóð í Reykjavík. Skólameistarinn, sem lengst af var talinn að veita henni forstöðu, var *Gísli Thorlacius,* sonur Þórðar klausturhaldara í Teigi Brynjólfssonar Thorlacius, en bróðir Skúla Thorlacius skólameistara við Frúarskóla í Kaupmannahöfn († 1815). Gísli var óreglumaður meiri en góðu hófi gegndi og lítt fær um að veita slíkri uppeldis- og mentastofnun forstöðu sökum drykkjuskapar síns, enda varð 1796 að skipa honum aðstoðarmann í embættinu, fyrst *Jakob Árnason* stúdent, er frá 1801 varð prestur í Gaulverjabæ, og síðan *Guttorm Pálsson* (er síðar varð prófastur á Hallormsstað) og höfðu þeir lengst af allan veg og vanda af skólanum. Af öðrum kennurum við skólann mætti nefna þá *Arnór Jónsson* (er seinna varð prófastur í Vatnsfirði [† 1853], höfundur kveldsálmsins fræga »Til hafs sól hraðar sér«) og *Brynjólf Sivertsen* (seinna dómkirkjuprest). Upphaflega var til þess ætlast, að skólameistari og undirkennari kæmu sér upp íbúðarhúsum í kaupstaðnum og því voru veittir hvorum þeirra 350 dalir í því skyni (svo og heimilað að velja sér ein-

hverja kongsjörð nærlendis til ábúðar og afnota). En fyrir það fé gátu þeir ekki komið sér upp íbúðarhúsum og varð því að taka sitt herbergið handa hvorum þeirra í skólahúsinu; en herbergin voru alls fimm í húsinu niðri. Uppi á loftinu var, auk herbergis fyrir þjónustufólk, svefnherbergi handa skólasveinum og skyldu þeir sofa 30 í — 8 rúmum! Yfir höfuð var aðbúnaður allur hinn versti. Húsið sjálft mjög óvandað að öllum frágangi. Herbergin svo dimm vegna fárra og smárra glugga, að vandræði voru að. En verstur var þó kuldinn. Ofnar voru að vísu í sumum herbergjunum, en svo illa frá þeim gengið, að reykjarmökkurinn stóð fram úr þeim, hvenær sem eldur var kveyktur, í stað þess að fara upp um reykháfinn, svo að menn einatt »af tvennu illu völdu þann kostinn heldur, að skjálfa í kuldanum en að kafna í reykjarsvælunni«. Yfirleitt var skólavistin á Hólavelli hin versta og gerði hún ekki að eins skólasveina, þá er ekki voru því áhugasamari, alveg frábitna bóknáminu, heldur fór hún beinlínis með heilsu margra þeirra, svo að þeir biðu verunnar þar aldrei bætur. Í upphafi var ætlast til, að skólasveinar hefðu borðhald í sjálfu skólahúsinu og fékk Levetzow stiftamtmaður skraddara nokkurn til að gegna brytastörfum. En tveir mánuðir voru vart liðnir, er brytinn varð að gefa alt frá sér — vegna matvælaskorts. Urðu þá skólasveinar sjálfir að vera sér úti um fæði í kotunum kringum bæinn, en borðhaldið í skólanum lagðist alveg niður. Um aldamótin 1800 var Hólavallarskólinn orðinn hið mesta áhyggjuefni öllum góðum mönnum og fæstir vildu senda þangað sonu sína til læringar. Bæði þótti ekki lengur líft í skólahúsinu, svo úr sér gengið sem það var orðið, og svo þótti bæjarlífið hafa alt annað en heppileg áhrif á skólasveina. Á tvennu þótti þó mest ríða, var annað það, að losna við hinn óhæfa skólameistara, en hitt, að finna einhvern hentugri stað til skólahaldsins. Úr hvorutveggja rættist á næstu árum. Skólameistari var látinn segja af sér 1804 og um leið áformaður flutningur skólans til Bessastaða,

í hús það, er Bessastaða-amtmenn höfðu búið í og var opinber eign. Veturinn 1804—05 var enginn skóli haldinn á Hólavelli (og yfir höfuð hvergi í landinu, því að Hólaskóli nyrðra hafði verið lagður niður 1801). En haustið 1805 var skólinn settur á Bessastöðum og tók þá við skólameistarastörfum þar *Steingrímur Jónsson* lektor (síðar biskup). Af Gísla Thorlaciusi er það að segja, að hann fór til séra Jakobs í Gaulverjabæ og þaðan (1805) til Kaupmannahafnar (þar dó hann nokkuru síðar).

Eins og getið er hér að framan (bls. 60), var alþingi hið forna háð þar í skólahúsinu á Hólavelli síðustu alþingis-árin bæði (1799 og 1800), með því að ólíft þótti lengur í lögréttuhúsinu á Þingvöllum, og þá var líka landsyfirrétturinn nýi haldinn á Hólavelli framan af, unz skólahúsið var rifið, þótt ekki þætti vistarveran þar sérlega vegleg, svo sem áður er vikið að.

Þótt Hólavallarskóli gæti sér lítt frægðarorð í skólasögu lands vors, komu þaðan ýmsir stúdentar, er seinna fengu á sig ágætisorð sem lærdóms- og atkvæðamenn. Auk áðurnefndra undirkennara og aðstoðarkennara við skólann, sem allir voru útskrifaðir þaðan, mætti nefna aðra eins menn og Steingrím Jónsson (síðar biskup), Bjarna Þorsteinsson (síðar amtmann) og Árna Helgason (síðar stiftsprófast). Hinn síðastnefndi var árin 1795—99 í Hólavallarskóla, og átti þar verstu æfi, sökum efnaskorts. Var það einatt venja Árna, er aðrir skólasveinar leituðu til matstaða sinna til snæðings, að hann skauzt suður í Skildinganesshóla og lét fyrirberast þar, meðan hinir mötuðust!

Árið 1807 var skólahúsið á Hólavelli rifið til grunna og viðurinn úr því, sem ófúinn var, fluttur til Bessastaða og notaður þar til húsagerðar. En á hæðinni, þar sem skólinn hafði staðið, eða lítið eitt sunnar, reis seinna lítill torfbær, er nefndist »*Skólabærinn*«, og er enn við lýði. Þar byrjaði búskap hér í bæ Alexíus Árnason lögregluþjónn, og þar bjó síðar Valdi Valdason tómthússmaður, faðir Jóns Valdasonar, er ól þar í bænum allan aldur sinn. En á sjálfum skólahússgrunn-

inum, eða því sem næst, stendur nú hús dr. Jóns Þorkelssonar þjóðskjalavarðar.

Fyrir vestan og norðan Hólavöllinn tók við svonefndur *Landakotsvöllur* með þremur býlum, Landakotinu sjálfu og tveim tómthússbýlum vestast og syðst á vellinum.

**Landakotið** var ein af beztu hjáleigum Reykjavíkur, en hafði verið lagt til innréttinganna ásamt Götuhúsum og ½ Hólavelli. Allan seinni hluta 18. aldar bjó þar Jón Magnússon lóðs, um eitt skeið annálaður sjógarpur. Þegar hér er komið sögunni, var Jón enn í Landakoti, en kominn á áttræðisaldur og hafði þá fyrir löngu slept hafnsögunni í yngri manna hendur. Skömmu eftir aldamótin eignaðist Petræus kaupmaður Landakotið; í skrá yfir eignir Petræusar-verzlunarinnar eftir að þeir höfðu bundist verzlunarfélagsskap, Petræus og Lars M. Knudsen 1814, er það talið verzluninni tilheyrandi, ásamt Götuhúsum og ½ Hólavelli. En þegar þeir slitu verzlunarfélagsskapnum, Petræus og Knudsen (1821), hélt Knudsen hjáleigunum, og fluttist þá í Landakot, eins og fyr segir, ekkja hans, er P. C. Knudtzon hafði keypt Randerska húsið af henni 1830. Á þessu tímaskeiði öllu var Landakot litið annað en tómthússbýli, því að Knudsen hafði sjálfur haft grasnytina öll þessi ár. Árið 1837 seldi maddama Knudsen Landakotseignina dómkirkjuprestinum *Helga G. Thordersen.* Lét hann skömmu síðar byggja þar vænt og mikið timburhús, rétt fyrir austan gamla Landakotsbæinn, sem hann lét standa. Í gamla bænum bjó, eftir að séra Helgi flutti í húsið, nokkur ár frú Guðrún, ekkja dr. Gísla Brynjólfssonar prests á Hólmum († 1827), dóttir Stefáns amtmanns Þórarinssonar, með einkasyni sínum Gísla, skáldi og kennara við Khafnarháskóla, er seinna varð († 1888). Þegar séra Helgi varð biskup, keypti eftirmaður hans, séra *Ásmundur Jónsson,* Landakotseignina af honum og bjó þar sína prestskapartíð hér. Bjó þar hjá séra Ásmundi Jón lektor Jónsson, faðir hans, er áður hafði verið skólameistari á Bessastöðum um fjölda ára. En þegar

séra Ásmundur fluttist að Odda, sökum mótblásturs, sem hann mjög ómaklega varð fyrir hér í bæ, aðallega fyrir undirróður einstakra manna, þá vildi eftirmaður hans í embættinu, séra Ólafur Pálsson, ekki kaupa eignina; en það varð til þess að kaþólska trúboðið nokkuru síðar náði kaupum á henni, fyrir milligöngu Randrups lyfsala, og hefir eignin síðan verið í höndum þess, sem kunnugt er.

Um kotin vestast í Landakotsvelli er fátt að segja. Þau hétu **Litla Landakot** eða *Landakots-kot* annað, en **Fjárhúskot** hitt. Hverfa þau bæði úr sögunni, þegar kemur fram á öldina síðustu.

Hér um bil beint norður af Landakoti, þó öllu heldur í Hlíðarhúsavelli en í Landakotsvelli, stóð um það bil, er Reykjavík fær kaupstaðarréttindi, býli eitt, er nefndist *Jaðar*. Á uppdrætti Lievogs (1787) er býli þetta kallað öðru nafni: **Skakkakot** eða *Skakk*, og festist það nafn við býlið síðar. Þar bjó framan af öldinni Sölmundur Jónsson, er átti Sigríði, dóttur Sighvatar í Grjóta og Gunnhildar eldri Hjaltalín. Seinna bjó þar lengi Teitur Teitsson, faðir Helga hafnsögumanns. Skakkakot var rifið einhvern tíma nál. 1870. Þar sem kotið stóð, er nú hús Tofte bankastjóra, sem ekkja Guðbrandar heit. Finnbogasonar faktors lét gera þar nokkuru fyrir síðustu aldamót. Lítið eitt vestar í Hlíðarhúsavelli var áður kot eitt, er *Halakot* (bls. 12) nefndist, en mun hafa lagst niður í lok 18. aldar. Árið 1801 og síðar er það ekki talið meðal bygðra býla.

Nokkuru austar en Skakkakot, hér um bil í beinni línu norður af Landakotskirkjunni, sem nú er, stóð hjáleigan **Götuhús** (venjulega nefnd og jafnvel skrifuð *Göthús*), sem um margar aldir fylgdi Reykjavík, en hafði síðar, eins og Landakotið og Hólavöllur hálfur, verið lögð innréttingunum til afnota. Þar gerði garðinn frægan allan seinni hluta 18. aldar *Sigurður Erlendsson* (lögréttumanns í Hrólfsskála Brandssonar lögsagnara í Bygggarði, og síðar í Reykjavík, Bjarnhéðinssonar) og kona hans Hlaðgerður Guðmundsdóttir (frá Eyjum í

Kjós). Erlendur lögréttumaður átti, sem fyr segir, Sesselju Tómasdóttur á Arnarhóli Bergsteinssonar, og með henni, auk Sigurðar, dóttur eina, Oddnýju, sem átti Odd Hjaltalín lögréttumann og lögsagnara á Rauðará, sem fyr er nefndur (bls. 13). Af börnum Sigurðar hafa þegar nefndar verið þær Sigríður eldri, er átti Runólf Klemensson faktor og verksmiðjustjóra, og Sigríður yngri, er átti Henrich Hansen, danskan að ætt, sem upphaflega hafði verið »assistent« við kongsverzlunina í Hólminum, en seinna kaupmaður á Bátsöndum. Þriðja dóttir Sigurðar, Vigdís, átti Grím Ásgrímssson, er og bjó í Götuhúsum árum saman; synir þeirra voru þeir séra Jón á Húsafelli (┼ 1809) og séra Sigurður á Helgastöðum (┼ 1852). Sigurður í Götuhúsum var með merkustu mönnum í Reykjavíkurhrepp á sinni tíð, atorkumaður mikill og efnaður vel. Hann mun hafa dáið nokkuru fyrir fyrri aldamótin (1796 eða þar um), en Hlaðgerður dó 1803. Af öðrum búendum í Götuhúsum höfum vér þegar nefnt Einar Jónsson, er seinna bjó í Þingholti fjölda ára, föður Bergþóru, konu Ara í Skálholtskoti Magnússonar. Þegar kemur fram á 19. öldina, hnignar Götuhúsum í mörgu tilliti. Petræusar-verzlun hafði eignast þau nokkuru eftir aldamótin 1800, eins og Landakotið, og hefir vafalaust séð sér hag í, að tómthússbýlum fjölgaði þar, heldur en hitt. Allan fyrri hluta 19. aldar bjó þar Jörgen nokkur Pálsson, er dó háaldraður og blindur nokkuru eftir 1850. Eftir 1860 eignaðist Geir kaupmaður Zoëga Götuhúsin. Lét hann rífa öll kotbýlin og slétta yfir, svo hvergi sá stein yfir steini, svo og umgirða alt túnið, sem síðan hefir borið nafnið »Geirstún«[1].

Fyrir norðan Götuhúsin, en vestar þó, rétt norður við sjó, var jörðin **Hlíðarhús** með hjáleigunni Ána-

---

1) Eftir að þetta er skrifað, er tekið að gera allstórt steinhús tvílyft á Götuhúsatúni, lítið eitt austar og sunnar á túninu en Götuhúsin gömlu voru fyr á tíð. Það hús lætur gera Geir verkfræðingur Zoëga (sonur Geirs rektors).

naustum, og enn vestar, við Eiðsvík utanverða, Sel, með hjáleigunni Bráðræði. Stóðu jarðir þessar á morgni 19. aldarinnar með sömu ummerkjum og þá er dagur Reykjavíkur rann upp fjórtán árum áður. Eina breytingin sú, að búendur þar voru nú ekki allir hinir sömu og þá höfðu verið.

Frá Sjóbúð lá vestur með sjónum næsta ógreiðfær vegur og illa ruddur vestur að Hlíðarhúsum, en milli Hlíðarhúsa og Ánanausta var votlendi allmikið vestur með sjónum. Fyrir sunnan Hlíðarhúsin lágu allmikil tún, er náðu alveg upp að Götuhúsatúni og Landakotsvelli. Árið 1703 er Elín Hákonardóttir á Látrum við Mjóafjörð (ekkja Guðbrands prófasts Jónssonar í Vatnsfirði † 1690) talin eigandi Hlíðarhúsa, Ánanausta og Engeyjar. Þá búa þar Stefán Jónsson og Árni Hildibrandsson á sinni hálflendunni hvor; hefir annar 5 kýr, en hinn 3. Sýnir það, að Hlíðarhús hafa verið heilmikil jörð. Segir í Jarðabók Á. M., að Hlíðarhús sé að sögn partur úr Víkurlandi, og sjöttungur jarðarinnar, en lögbýli síðan er Reykjavík varð kongseign (þ. e. í byrjun 17. aldar). Um miðbik 18. aldar er Ólafur nokkur Ólafsson eigandi Hlíðarhúsa og Ánanausta, og gefur hann bæði býlin Helgafells-prestakalli sem sálugjöf[1]). Voru þau síðan eign þess prestakalls fram yfir miðja 19. öld, er Reykjavíkurkaupstaður eignaðist þau. Þar sem síðar nefnist í *Sauðagerði*, voru upphaflega beitarhús þeirra Hlíðarhúsabænda.

Á fyrri hluta 18. aldar bjuggu í Hlíðarhúsum tveir gildir bændur, þeir *Sighvatur Þórðarson* (ættaður frá Laugarvatni í Biskupstungum) og *Guðmundur Davíðsson* (Erlendssonar prests á Tjörn á Vatnsnesi Illugasonar), og búa niðjar þeirra beggja eftir þá í Hlíðarhúsum í hálfa aðra öld, eða þangað til Hlíðarhúsin hverfa að mestu úr sögunni síðast á 19. öld. Eru margir þeirra Hlíðarhúsamanna svo merkir menn og kynsælir,

---

1) Sbr. Finni Johannæi: Historia ecclesiastica Islandiæ, III, bls. 510.

að Reykvíkingum er sízt óskylt að geyma í heiðri minningu þeirra. Í elzta sálnaregistri prestakallsins (frá 1769) er Sighvatur Þórðarson ekki talinn; hefir hann þá að líkindum verið dáinn. En í stað hans er þá kominn sonur hans, Þórður, sem ól allan aldur sinn í Hlíðarhúsum († 1811). Guðmundur Davíðsson er þar á móti enn á lífi, en orðinn aldraður († 1784). Hann var í aðra ætt kominn af Birni sýslumanni Guðnasyni í Ögri, og systir Guðmundar, Vigdís, varð amma Þórðar háyfirdómara Sveinbjörnssonar. Fyrri kona Guðmundar var Björg frá Arnarhóli Jónsdóttir (systir Gissurar lögréttumanns) og sonur þeirra Davíð lóðs, er átti Ástu Sighvatsdóttur, systur Þórðar. En um það skeið er kominn að Hlíðarhúsum þriðji búandinn: *Níels Hjaltalín* lögréttumaður, sonur Jóns sýslumanns, en bróðir Odds lögréttumanns á Rauðará, merkur maður á sinni tíð. Eitt barna hans var Eiríkur Hjaltalín, stúdent frá Helsingjaeyrarskóla í Danmörku 1787; hann tók danskt lagapróf og varð tollembættismaður erlendis († í Flensborg 1815). En sonur Eiríks var Níels Melsted Hjaltalín etazráð, bókavörður og ritari (Expeditions-sekretær) á einkaskrifstofu konungs († 1872[1]). *Þórður Sighvatsson* átti Ingiríði Ólafsdóttur (prests í Stóradal Jónssonar Thorlacíusar). Synir þeirra voru þeir Ólafur kaupmaður og riddari á Bíldudal, er kallaði sig »Thorlacius« eftir móðurföður sínum, sem hann var heitinn eftir, og séra Einar, prestur í Otrardal, er einnig kallaði sig Thorlacius. Ólafur kaupm. Thorlacius átti Guðrúnu dóttur Odds á Rauðará Hjaltalíns, og er hin mikla vestfirzka Thorlacíusar-ætt frá þeim runnin. Dóttir Þórðar var Elín, er átti Bjarna fyr spítalahaldara í Kallaðarnesi Hannesson. Bjuggu þau í Hlíðarhúsum nokkur ár, en Bjarni var henni næsta ótrúr eiginmaður, svo að Elín heimtaði skilnað og fékk hann nál. 1820. Laundóttir Elínar með Ólafi Loftssyni læknisfræðinema var Guðrún, kona Einars hattara í Brekkubæ Sæmundssonar. *Davíð Guð-*

1) Sbr. Sýslumannaæfir IV, bls. 846.

*mundsson* var lengi lóðs, sjógarpur mikill og aflasæll. Hann varð háaldraður maður og blindur lengi, gekk þó fylgdarlaust hinn ógreiðfæra veg úr Hlíðarhúsum austur í Gróf, sem var aðallendingarstaður róðrarskipa, hvenær sem róið var, til þess að fá að þukla á fiskinum, sem kastað var á land úr róðrarskipum, er þar lentu. En það var hans mesta ánægja í ellinni. Hugðist karl geta með þukli sínu komist fyrir um, hvar á miðunum fiskur sá væri dreginn, sem borinn var á land! Af börnum hans og Ástu Sighvatsdóttur hafa þegar verið nefndar í ritgerð þessari þær dæturnar Guðrún, kona Tómasar söðlasmiðs Bech, og Björg, kona Helga Ó. Bergmanns faktors. En sonur Davíðs og Ástu var *Jón* í Hlíðarhúsum *Davíðsson*, aflamaður mikill og dugnaðarmaður. Jón Davíðsson átti, sem fyr segir, Ingibjörgu Kristínu Sigurðardóttur, timburmanns Magnússonar, er áður hafði átt Jón vaktara Guðmundsson (bls. 87). Dóttir þeirra var Kristín, er giftist Ólafi Arnórssyni í Hlíðarhúsum (Snorrasonar ríka í Engey); voru börn þeirra Jón útvegsbóndi Ólafsson í Hlíðarhúsum og Ingibjörg, er átti Jón son Guðmundar »bónda« Jónssonar í Hlíðarhúsum. Guðmundur »bóndi« hafði í fyrstu búið í Grjóta. Hann átti Halldóru Björnsdóttur sýslumanns Tómassonar, hálfsystur Þórðar kancelliráðs í Garði og Tómasar söðlasmiðs Bech, en alsystur Steinunnar, móður Karls Andersens skálds í Khöfn. Börn þeirra Guðmundar »bónda« og Halldóru voru nýnefndur Jón Guðmundsson (faðir Ólafs fiskimatsmanns og Ísafoldar, konu Gunnars kaupmanns Gunnarssonar) og Sesselía Halldóra, er átti Ólaf Guðlaugsson (norðlenzkan mann) í Hlíðarhúsum (þeirra sonur er séra Þórður prófastur Ólafsson á Söndum í Dýrafirði). Hvar í Hlíðarhúsum þessir nafnkunnustu Hlíðarhúsa-menn hafa búið, má nú teljast frágangssök að fá grafið upp. Hið eina, sem nokkurn veginn vissa er fyrir, er það, að Guðmundur Jónsson bjó í Vesturbænum svo kallaða, þar sem Ólafur Guðlaugsson tengdasonur hans bjó síðar. Annars voru Hlíðarhúsabæirnir, þegar kemur fram á

19. öld, alls 7 að tölu. Vestast í bæjaröðinni var *Vesturbærinn*, og á bak við hann að norðanverðu *Norðurbærinn* (þar bjó að líkindum Ólafur Arnórsson, og eftir hans dag þeir Jón sonur hans og Jón Guðmundsson, dótturmaður hans). Þá var *Sundið*, þá *Skálinn*, þá *Miðbærinn* (þar sem bjó Bjarni Kristjánsson og Þorbjörg, foreldrar Sighvatar bankastjóra), þá *Jóns-bær* (Þórðarsonar frá Borgarabæ, föður Þórðar í Ráðagerði og þeirra systkina), þar sem nú er hús Ámunda fiskimatsmanns Ámundasonar, og loks *Austurbærinn*, fyrir norðan Jónsbæ. Nú eru Hlíðarhús að mestu leyti horfin. Af torfbæjunum gömlu er að eins einn eftir, Vesturbærinn, þar sem síðast bjó Torfi Þórðarson fiskimatsmaður (frá Vigfúsarkoti) og nú ekkja hans, Sigríður Pétursdóttir frá Ánanaustum Gíslasonar.

Spölkorn vestar en Hlíðarhús voru **Ánanaust**; voru þau hjáleiga frá Hlíðarhúsum, en á milli þeirra og Hlíðarhúsa var ekkert býli á því tímaskeiði, sem hér ræðir um. Lá býli þetta niður við sjó, skamt þar frá, sem nú eru fiskverkunarhús Alliance-fiskifélagsins. Eins og fyr er getið, eignaðist Helgafellsprestakall býli þetta, ásamt Hlíðarhúsum, sem sálugjöf eigandans, Ólafs Ólafssonar, og átti það fram yfir miðja 19. öld (bls. 106). Á síðustu áratugum 18. aldar bjuggu þar í tvíbýli feðgar tveir, Jóhannes Jóhannesson og Torfi sonur hans, og býr hinn síðarnefndi þar um alllangt skeið framan af 19. öld. Er það tilgáta mín, að Jóhannes þessi hafi verið faðir Jóns lóðs Jóhannessonar í Hákonarbæ, föður Torfa. Á fyrri hluta 19. aldar bjó í Ánanaustum Gísli Ólafsson, er áður hafði verið vinnumaður hjá séra Árna Helgasyni í Breiðholti, vel metinn bóndi, faðir þeirra bræðra Péturs og Guðmundar, er síðar bjuggu í Ánanaustum, og Kristjáns í Görðunum. *Pétur Gíslason* var lengi bæjarfulltrúi hér í bæ, skýrleiks- og atorkumaður. Átti hann fyrst Vigdísi Ásmundsdóttur frá Stekkjarkoti á Kjalarnesi, en síðar Valgerði Ólafsdóttur, systur Ólafs dannebrogsmanns í Lækjarkoti. Af sonum Péturs lifir nú einn, Gísli Ólafur Pétursson héraðslæknir á Eyrarbakka. Tveir

dóu uppkomnir: Sigurður cand. polyt. og Ólafur fátækrafulltrúi. Pétur Gíslason lét síðar reisa handa sér steinhús allstórt fjær sjónum við Vesturgötu, er nú nefnist svo, og bjó þar upp frá því, unz hann á gamals aldri fluttist héðan til Gísla læknis sonar síns, og hefur hann dvalist hjá honum síðan.

Þá eru að eins ónefnd tvö býli þar vestur frá, prestsetrið sem þá var, Sel, og hjáleigan þaðan, Bráðræði.

Sel var upphaflega allmikil jörð og góð, eftir því sem hér gerðist, svo vel sem hún lá við bæði fyrir land- og sjávarbúskap. Var hún kirkjujörð frá Reykjavík, en seld undan kirkjunni skömmu eftir miðja 19. öld (í tíð séra Ólafs Pálssonar dómkirkjuprests). Í Jarðabók Á. M. er Sel talið 4 kúa jörð og ábúandi þá talinn Ólafur Benediktsson. Á síðari hluta 18. aldar bjó þar góðu búi í fjölda ára Þorfinnur lögréttumaður Þorbjarnarson (ríka frá Skildinganesi), en brá búi árið 1800 eða þar um og bygði sér bæ inni í Reykjavík, þann er þegar er nefndur, næst fyrir sunnan Sjóbúð, og seinna nefndist eftir eigendunum Melbyesbær og því næst Höltersbær. En Selsjörðina tók þá til íbúðar dómkirkjupresturinn, séra *Brynjólfur Sivertsen* (sonur Sigurðar landþingisskrifara Sigurðssonar á Hlíðarenda í Fljótshlíð), er þá var fyrir skemstu orðinn prestur í Reykjavík. Hann átti Steinunni Helgadóttur (frá Ökrum Guðmundssonar), ekkju Guðmundar Þórðarsonar faktors, áður tugthússráðsmanns (sjá bls. 17), og varð því stjúpfaðir Helga biskups og þeirra systkina. Formaður hans í embættinu, Geir biskup, hafði búið á Lambastöðum, eins og þeir prestarnir á undan honum séra Guðmundur Þorgrímsson og séra Árni Þórarinsson (er biskup varð á Hólum). Hafði séra Brynjólfi leikið hugur á að fá Lambastaði til ábúðar, en Geir biskup verið ófús að standa upp, »því þótt Lambastaðir væru ekki neitt höfuðból, væri þar gott undir búhokur og Seltirningar siðugri menn en þeir í Vík«. Fyrir því tók hann kirkjujörðina Sel til ábúðar (eftirmaður hans,

séra Árni Helgason, bjó þar á móti lengst af í Breiðholti) og bjó þar unz hann 1814 fluttist að Holti undir Eyjafjöllum, en þaðan aftur að Útskálum 1826 († 1837). Synir séra Brynjólfs voru séra Sigurður Br. Sivertsen, er varð eftirmaður hans á Útskálum 1837—86, og séra Einar Br. Sivertsen í Gufudal, faðir séra Páls, er síðast var prestur á Stað í Aðalvík. Eftir að séra Brynjólfur hafði fluzt frá Seli, bjuggu þar ýmsir merkir menn af alþýðustétt. Mætti þar nefna Nikulás Erlendsson (seinna í Nýjabæ í Skuggahverfi, er eftir honum nefndist *Nikulásarkot),* föður Hafliða, móðurföður séra Bjarna dómkirkjuprests Jónssonar, Ásmund Eiríksson, er síðar var í Grjóta, og Ólaf Steingrímsson (frá Eiði Ólafssonar), er þar bjó lengi rausnarbúi og var formaður mikill og aflasæll.

**Bráðræði** byggist ekki fyr en um miðbik 18. aldar; var það lítið kot og lélegt, er lítið kemur við sögu fyr en *Þorsteinn Bjarnason* (frá Flekkudal í Kjós) settist þar að. Hann átti Ragnheiði Ólafsdóttur, er um fjölda ára var ljósmóðir hér í bæ, fyrirmannleg fríðleikskona og vel látin af öllum. Þau Þorsteinn höfðu áður búið á Seli nokkur ár. Þorsteinn var trésmiður góður og bjó góðu búi í Bráðræði, unz hann gerðist lögregluþjónn hér í bænum (ásamt Hendriksen). Þá bygði hann Brunnhús við Suðurgötu og bjó þar til æfiloka. Þorsteinn var orðlagður sæmdarmaður á sinni tíð, en þótti fremur atkvæðasmár í löggæzlunni. Sonur þeirra Þorsteins og Ragnheiðar var Kristján kaupmaður í Sjóbúð, sem fyr er nefndur, en dætur þeirra voru auk Sigríðar, er átti Edvard Siemsen kaupmann, Elín, er átti fyrst Jóhann († 1844) Bjarnason (þeirra son var Jóhann, er nam siglingafræði erlendis), en síðan Tómas á Eyvindarstöðum (eitt barna þeirra er Þorsteinn járnsmiður), og Guðrún fyrri kona séra Páls í Þingmúla Pálssonar. En kunnast varð Bráðræði eftir að *Magnús Jónsson* frá Ármóti (sonur Jóns umboðsmaður Johnsens, en bróðir þeirra Þorsteins kancelliráðs á Kiðjabergi og Jóns yfirdómara, seinna bæjarfógeta í Álaborg), hafði fluzt þangað; reif hann kotið og lét gera þar

timburhús. Magnús átti Guðrúnu, systur Jóns landlæknis Hjaltalíns, og bjuggu þau rausnarbúi í Bráðræði til dauðadags, en jafnframt hafði Magnús lengi verzlun í Liverpools-húsunum við Grófina.

Hér hefir þá verið sögð saga Reykjavíkur-kaupstaðar eins og hann blasti við sólu á morgni hinnar 19. aldar, 14 vetra gamall, sögð fæðingarsaga hans eða fyrsta þroskasaga, en jafnframt leitast við að tengja fortíð við nútíð til skilningsauka. Auðvitað verður þetta þó aldrei nema lítið brot úr sögu bæjarins, enda tilgangurinn aðallega sá, að bregða birtu yfir hinn unga kaupstað, eins og hann horfði við forfeðrum vorum um það skeið, er bæjar-sjálfsmeðvitundin má heita nokkurn veginn vöknuð.

Hjá því getur naumast farið, að oss, sem nú lifum, komi bærinn ærið smávaxinn fyrir sjónir á þeim árum, sem hér ræðir um. En þar hefir þó vissulega ræzt hið gamla orðtak, að »mjór er mikils vísir«. Að vísu getur bær vor, eins og vér þekkjum hann nú, sízt kallast »mikill« bær, þegar litið er til höfuðstaða annara landa. En eins víst tel ég hitt, að sá hefði þótt lítt spámannlegur að vaxtarlagi, sem árið 1801 hefði dirfst að segja það fyrir, að Reykjavík ætti fyrir höndum á næstu 115 árum að verða sá myndarlegi og sviphreini bær, sem allir sannir Reykvíkingar kannast við að hann sé nú orðinn, þrátt fyrir ýmislegt, sem hótfyndnar sálir kunna að hafa út á hann að setja og honum til foráttu að finna.

---

# Fylgiskjal.

**Útmæling undir „hinn nýja kaupstað í Reykjavík“.**
Dags. 12. febrúar 1787.
(Frumrit á Þjóðskjalasafni A. 26,1).

Anno 1787 Den 12te Febr. var kongel. Majts herrets Dommer i Guldbringe Syssel W. Thorarensen tillige med 2de tiltagne Mænd neml. Gudmund Jonsen og Peter Baurðersen til stede paa handelsstædet Reikewiig, beliggende paa Gaarden Reikeviigs Grund, i bemte Guldbringe Syssel, for efter hr. Kammer herre og Stiftamtmand Lewetzows Ordre af 3ie Januarii Sijdstl. ved en Iudecial forretning at udsee og opmaale De fornödeneragtende Bygge og hauge pladser for Den nye Kiöbstæd Reikewiig hvilken Forretning S. T. hr. Stiftamtmanden tillige biewaanede.

Efter at Man i forhaanden hafde overveyet stædets beskaffenhed og henseet til at Byens beqwemmelighed fordrer, at Den maae have rummelig Strandbred, saavel til Landings Stæder, som til plads for Soeboder og Klipfiske Virkning, blev fölgende sammen stödende og beleyligste Strækninger af Jorden Reikewiig og Arnerhoel tillige med Den Derhos Liggende og med Reikewiig til Ebbetiid Landfaste Öe Effersö bestemt og opmaalt til Bygge- og Haugepladser for Reikewiigs Kiobstæd saaledes som fölger:

1) Af Jorden Reikewiigs Grund:

a) Frá Soen ved den nordlige side tæt ved handels huusene Langs med hjaleyens eller huusmandspladsens Griotaaes grund mod sydvest til hjalegans Holakots grund 140 Favne.

b) Der fra omtrent i Sydöst tvers over til Reikewiigs Læk eller Bæk i paralell Linie med Soen 158 Favne.

c) Videre frá Dette Stæd ved hvis side ligger Indsoen Reikewiig Tiorn kaldet nordöstlig i en Lige Linie Langsmed Reikewiigs Bek ned til Soen 198 Favne. Strækningen herfra Langs med stranden i Vest til Griotaae Grund hvor man begyndte er 240 Favne. Altsaa udgiör Denne heele fyrkandtede strækning Der bestaar af jævn haard og goed Græsmark beqvem baade til Byggnings og hauge pladser í alt 30462 qv F: hvorfra gaar til Domkirkens Bygning og Kirkegaarden som kommer til at staae paa bem^te^ plads 388⁸/₉ quadr. Favne.

Inden Denne opmaalte Circumference Staar ogsaa De nu værende handels-, Vaanings- og pakhuuse tillige med Falkehuuset og Fabriqve huusene. De övrige Stæder af Jorden Reikewiig Ligge afsides fra Soen og ikke saa bequemme som fölgende.

2) Hele Jorden Arnerhoel, Der saa vel i henseende til Landstrækningen som fornemmelig strandbreddens og Den smukke beliggenheds skyld blev udseet til Kiobstæd grund nml. til Bygge- og haugepladser. Fra Reikewiigs bek til strandbreedden, hvor man sidst endte Langs med Vejen nordöst eller östlig opad til Róinet 120 Favne til Soen imod nordvest 120 Favne og Derfra langsmed soen til Reikewiigs Bek hvor man begyndte 210 Favne hvilket Stykke indbefatter Arnerhoels og Arnerhoelskots hiemmemark formerer en Triangel og er qvadr. Favne 12600. Det övrige lille stykke af Denne Jórd hvor Tuugthuuset staar meldes om siden.

3) Heele Effersöe Der som meldt med lavt Vand er Landfast med Reikewiig og hvor handels huusene tilforn have staaet. Fornemmelig for det goede Klipfiske Værkestæd, og formedelst Den gode Leylighed til Lossepladser her er Ganske nær ved skibene, samt i hensigt til om man med Tiden agtede at befæste Kiöbstæden og beskytte Havnen med en Skanse, Da her saaledes paa höjden af Denne Öe var ustredigen Det beste og skiönneste Stæd til den, og da her ellers er god grund for Vaaningshuuse hvor om de sammestæds nu staaende huuse Vidne er Det at man har anseet Det baade fornöden og nyttigt at

tage Denne Öe med. Den(s) störrelse er omtrent 260 Favne Lang og 50 Favne breed, udgiör i qvadrat Favne 13000.

I alt: 56062 qv. F.

Desforuden bliver indenfor Reikewiigsbyes Grænser Pladserne Melshúses og Holakots grund som forhen ved Iudicial Forretning af 11te Aug. 1785 er henlagt til Skoele Stiftelsen Byskopen og Lærerne, saa og Det af Jorden Arnerhoel overblevne lille stykke Tuhn som Tugthuset staae paa, og som ved samme Stiftelse bruges og fremdeles behöves, Deels til haugeplads og Deels til andet brug, men alt saaleedes at Disse Stæder blíve udenfor De Bygge og haugepladser som til Byens Indvaanere herved ere bestemte, og alleene til Det brug som de ere, eller ved höyere Bestemmelse herefter maatte blive henlagte til. Af Jorden Reikeviig ere endnu De under samme liggende hialeger Landekot, Griota, Göthuus, Studlekot og Skalholtskot til bage, De 3 förste Vesten og De 2 siidste östen for Byens Grænser, hvilke man nu ikke ansaa fornöden til Kiöbstaden at udlægge, Da Det Dertil allerede udlagte sines for Det förste tilstrækkelig nok. Og Dersom Det nogensinde skulde imod nærværende Tids udsigt skee at Reikewiigs bye behövede meere Grund, Da kand Disse huusmands pladser eller hialeger som hans Mayt selv til hörende altiid faaes til naar aller höyst samme saa behagede. Det er imidlertid Byen til Fordel, at have Disse husmandspladser i Nærværelsen af sig, hvor Borgerne kan faae Kiöbt Melk som De iblandt andre Thing Dagligen Vel behöve. Men Der imod sines Det rimeligt og fornödent, at Den Stoere Udmark som Reikewiigs Jord eger, eller har Del i, og har brugt til höeslæt, Græsgang og Torvskiær, bliver for saa vidt Den herved af bemeldte Jord til Kiöbstad udlagte Strækning angaaer, henlagt til Kiöbstæden saaledes, at Borgerne sammestæds nyde i bemte Udmarke samme Rettigheder, som Beboerne af Jorden Reikewiigs Grund, samt Fabriqven og Skoelen hidtil have nydt og nyder. Dog er Dette noget, som ikke hörer til nærværende ForRetning at bestemmes, siden her alleine er at handle om Bygge- og haugepladser, og bliver Der-

for alleene anmærket, til nærmere Bestemmelse paa Vedkommende höyere Stæder.

Da alt foran förte Reikewiigs Kiöbstæd udseete Grund er hans May[t] tilhörende, og aller höystsamme har aller naadigst skænket saadan Grund til Kiöbstæden for intet, saa bliver her ingen Betaling til Private at paaskiönne for nogen Grunds Borttagelse. — — — — — — — — — — — — — — — — — — — — —[1]). Ut supra.

V. Thorarensen
Petur Bárðarson G. Jónsson.

---

1) Niðurlagi bréfsins er slept.

# Skrá
yfir mannanöfn.

---

# Skrá

yfir byggingar, býli og túnvelli.




REYKJAVÍK um 1801.

# FJÖLMÓÐUR

## ÆVIDRÁPA

## JÓNS LÆRÐA GUÐMUNDSSONAR

MEÐ INNGANGI OG ATHUGASEMDUM

EFTIR

**PÁL EGGERT ÓLASON**

[SAFN TIL SÖGU ÍSLANDS OG ÍSL. BÓKMENTA V NR. 3]



REYKJAVÍK
PRENTSMIÐJAN GUTENBERG
1916

## Inngangur.

Sunnan Mundíufjalla leiddi viðreisn fornbókmennta og lista, viðreisnaröldin eða menntaöldin mikla (renaissance), til frjálslyndis í trúarefnum og skoðanafrelsis yfirleitt. Öll önnur varð norðan Mundíufjalla afleiðing siðskiptanna, er þeir hrundu af stað Lúther og samherjar hans. Siðskiptin girtu fyrir trúfrelsi, og skoðanir manna urðu yfirleitt í hvívetna rígbundnar við fyrirmæli kirkjunnar. Breytingar þær, er Lúther kom af stað með baráttu sinni, þótt upphaflega væru í rauninni trúfræðilegs eðlis, leiddu enn fremur til valdboða um lífernisreglur, er konungar settu og allir urðu að hlíta, því að Lúther og hans menn drógu yfirráð kirkjunnar úr höndum páfans og fulltrúa hans, byskupanna, og fengu þau þjóðhöfðingjunum, konungum. Þessar reglur settu konungar með löngum lagabálkum. Hér með oss Íslendingum felast þær í kirkjuskipunum (ordínanzíum) þeim, er heita má, að hver konungur gefi út eftir siðskiptin og fram um 1700, og í Stóradómi, er svo hefir verið kallaður (samþykktur á alþingi 1564, staðfestur af konungi 1565). Virðast konungarnir hafa verið í fáu svo kappsamir sem þessu, að gefa út fyrirmæli um kirkjumál.

Hver, sem vill kynna sér kirkjuskipanir þessar, hlýtur að ganga úr skugga um það, að fyrirmæli þeirra miðuðu að því að lama alla sjálfstæða hugsun og viðfangsefni og hamla öllu andlegu frelsi. Fyrirmælum þessum var og fylgt fram svo fastlega, að telja má, að af þeim leiði um hríð andlegan dauða þjóða hér um Norðurlönd

og yfirleitt hvervetna þar sem á germanskar tungur var mælt, annarstaðar en í Hollandi, er oftast var griðastaður þeim mönnum, er ekki vildu sveigja hugsanir sínar eftir vilja kirkjunnar. En þeir menn allir, er nokkuð hvörfluðu frá kenningum kirkjunnar eða fóru sinna ferða um skoðanir, urðu fyrir ofsóknum, ef þeir létu skoðanir sínar uppi. Telja má, að þetta ástand héldist hér á Íslandi lengi fram eftir 18. öld, svo að vart dirfðist nokkur maður að gera nokkuð uppskátt um hugsanir sínar, þær er ætla mætti, að riði í bág við kirkjuna; vera má og, að fáir hafi fundið innri hvöt til þess.

Yfirleitt ber ekki á trúarskoðunum manna hér á landi á þessum öldum, á 17. og fram eftir 18. öld. Í þeim efnum varast menn að láta uppi aðrar skoðanir en þær, sem lög kirkjunnar mæltu fyrir um, enda voru mönnum ofsóknir vísar ella. Ekki mátti við því búast, að óbreyttir alþýðumenn hefðu hug eða hugsun til þess að birta skoðanir sínar, ef í bág riðu við kirkjuna. Það mun mega teljast einsdæmi á þessum öldum, að bóndi nokkur, er Gísli hét og bjó á Rauðalæk í Holtum, þverneitaði með öllu að fara til altaris, svo sem lög kirkjunnar sögðu fyrir um, og lýsti slíkt einberan hégóma og þar með ýmis önnur fyrirmæli kirkjunnar. Það kom fyrir ekki, þótt Jón byskup Vídalín héti honum öllum þeim ógnum, er kirkjan heimilaði; Gísli sat við sinn keip. (Um þetta stapp er getið á nokkurum stöðum í bréfabók Jóns byskups Vídalíns hinni dönsku, sem nú er í Árnasafni (Steph. 65), en eftirrit í Landsbókasafni, Lbs. 1650, 4to.). Og lærðir menn kunnu betur en svo að sjá hagsmunum sínum borgið, að þeir gerðu berar skoðanir sínar um trúmál, ef í bága færu við fyrirmæli kirkjunnar. Síra Jón Guðmundsson í Hítardal, hinn lærðasti maður, sem talinn var hneigjast að Kalvínstrú og þess vegna með fram hlaut ekki byskupsdóm í Skálholti eftir Gísla byskup Jónsson (1589), gerði sér ekkert far um það að breiða út skoðanir sínar. Brynjólfur byskup Sveinsson, einn hinn víðskyggnasti og frjálslyndasti maður á þessum öldum, hneigðist tvímælalaust til kaþólskrar trúar, og sýndi hann

það bæði í líferni[1]) sínu og skáldskap[2]), en í engu reyndi hann til þess að bæta fyrirmæli kirkjunnar né auka trúfrelsi. Kunnugt er og, hversu fór fyrir Guðmundi Andréssyni, er síðar varð kunnur málfræðingur og fornfræðingur. Hann var svo djarfur að rita ritgerð til andmæla ýmsu í Stóradómi og sumum fyrirmælum kirkjunnar; ritið heitir *Discursus oppositivus* og er víða til í handriti. Hann var fyrir þetta tiltæki fluttur burt af landinu, og má telja, að hending ein byrgi lífi hans. Dómur síra Jóns Halldórssonar í Hítardal um Guðmund er allathyglisverður; hann kallar hann »ólempið brotahöfuð« (sjá Biskupasögur J. H. II. bindi, bls. 97); það er eins og auðfundið, að síra Jóni þykja það undarleg og nær óskiljanleg heilabrot, að nokkur skuli taka upp á því að rita gegn fyrirmælum, er í gildi voru. Þessi orð eru gott dæmi um sjóndeildarhring beztu og merkustu manna þessarar aldar.

Í bókmenntunum eru dauðamörkin engu síður auðsæ. Það þarf ekki að draga fram dæmi til þess að sýna, að menn, sem við önnur kjör mundu hafa orðið stórvirkir andans menn, hverfa á þessum öldum að hinum vesallegustu viðfangsefnum. Oss sárnar nú á tímum að sjá það, hve mikið af andagift helztu skáldanna lendir í aumasta tóbakssöngli eða klámvísnasora eða skopvísnagutli, flestu svo lélegu, að óskemmdu fegurðarnæmi hlýtur að hrylla við. Andagiftar og verulegra tilþrifa skáldskaparins á þessum öldum kennir helzt í sálmakveðskap og andlegum yrkisefnum; þar felst allt það, er mætast er í huga manna á þessum tímum. Kirkjan tók og í þjónustu sína alla andagift, eða flestir andans menn hurfu í þá þjónustu ósjálfrátt, en sjálfstæð vísindi og rannsóknir, eins og náttúruvísindi, var allt andstætt trúnni og talið rugla menn frá réttum vegi.

---

1) Hann fastaði hvern föstudag á árinu og að auki hvern miðvikudag um langaföstu, sbr. *Biskupasögur Jóns prófasts Halldórssonar í Hítardal*, I. bindi, Rv. 1903—1910, bls. 281—282.

2) Hann orkti bæði Maríukvæði og Krosskvæði á latínu, og er þau að finna í handritasafni Landsbókasafnsins í eiginhandarriti, JS. 318, 4to.

Eins og drepið hefir verið á, settu konungar og reglur um lífernisháttu manna, í stað þess að kirkjan eða páfinn og fulltrúar hans höfðu sett þær áður. Þær reglur voru allharðar og margt var þá talið vítavert, sem engan hneykslar nú. En öllum eða nálega öllum refsingunum máttu menn þó leysa sig undan með fégjaldi, sem rann í sjóð konungs, en í kaþólskum sið rann slíkt til byskupsstólanna. Má af þessu nokkuð skilja, hvern veg til var komið fylgi sumra konunga við hinn nýja sið og kapp það, er þeir beittu í samningu nýrra kirkjuskipana. En með þessu lagi komu refsingarnar lítt niður á höfðingjum eða auðmönnum, er jafnan gátu leyst sig undan þeim. Ekki verður heldur séð, að líferni manna breytist til batnaðar hér á landi við siðskiptin, að minnsta kosti ekki fyrst í stað. Lauslæti, sem mjög er tekið hart á í Stóradómi og kirkjuskipununum, virðist lítt þverra. Jafnvel sjálfum siðskiptaforsprökkunum hélzt uppi átölulaust líferni, sem var stórvítavert samkvæmt lögum kirkjunnar; svo var um Daða Guðmundsson í Snóksdal. Það er jafnvel ekki trútt um, að svo virðist sem ýmsir menn hafi snúizt til fylgis með hinum nýja sið beinlínis í trausti þess, að þá mundi vægara tekið á brestum þeirra, eða í þeirri trú, að þar með væri rýmt burtu aðhaldi því, er kaþólsk kirkja hafði lagt á þá; auðvitað var hér bæði að ræða um hatur á hinum gamla sið og misskilning á kjarna hins nýja. Jafnvel oddvitar kirkjunnar, byskuparnir, voru ekki eftir siðskiptin fremur en áður algerlega lausir við suma þá mannlega breyskleika, er þeim var skylt að átelja; Guðbrandur byskup Þorláksson, Oddur byskup Einarsson og Gísli byskup Oddsson áttu launbörn, sem þeim voru eignuð og þeir gengust við. Ávextir siðskiptanna að þessu leyti voru því ekki miklir, að minnsta kosti ekki framan af, þótt nokkuð kunni að hafa breytzt í þessu efni síðar, einkum á byskupsárum Brynjólfs Sveinssonar, sem bæði var hinn siðvandasti maður í sjálfs sín líferni og ríkt gekk eftir því, að fyrirmælum kirkjunnar væri hlýtt að þessu leyti; einkum vandaði hann mjög um við klerka sína.

Ærið margt taldi kirkjan jafnan til spillingar trúnni og lagði bann fyrir; eitt af því var galdur eða meðferð manna á því, sem til galdra var talið, en það var eigi fátt, og hafði oft í sér fólginn vísi til sjálfstæðra rannsókna, einkum til náttúruvísinda. Í kaþólskum sið hafði litið verið gert til þess hér á landi að refsa mönnum, þótt með kukl færu eða forneskju, sem kallað var, og engi dæmi þekki eg til þess hér á landi, að menn hafi fyrir siðskiptin á 16. öld hreppt refsing fyrir galdur, nema ef telja skyldi frásögn Grettis sögu um það, að Þorbirni öngli var stefnt fyrir að hafa orðið Gretti að bana með galdri og fjölkynngi, og voru þá samtímis allir forneskjumenn gerðir útlægir. Þar á móti er eitt dæmi þess í sögu Grænlands fyrrum, að manni hafi verið hegnt fyrir galdra; þess getur í Lögmannsannál við árið 1407 (sjá Islandske Annaler, útg. Dr. Gustav Storm, Chria 1888, bls. 288)[1]), en í því dæmi er og um galdur að ræða, er beint var framinn í því skyni að gera öðrum mein. Þó var galdur bannaður bæði í lögbókunum, kristinrétti og ýmsum byskupaboðum. En þeim boðum hefir ekki verið fylgt stranglega, og verður raunar ekki heldur séð, að til þess hafi borið nokkur nauðsyn, enda hafði jafnvel kirkjan sjálf tekið ýmis ráð í þjónustu sína, er náskyld mega teljast töfrum eða galdri, og hafði ýmsar varnir gegn illum öndum og ásóknum þeirra. Hér á landi voru galdrar mest fólgnir í notkun rúna á ýmsa vegu (ristingum), og var það afar fornt. En smám saman ruddu sér hér til rúms útlendar galdrakreddur og hjátrú og blönduðust saman við það, sem áður var til í landinu af sama tægi. Einkum eru rit þeirra Albertus Magnus, hins nafnkunna allsherjarfræðimanns miðaldanna, og Agrippu mjög notuð í hjátrúarbókum þeirra tíma, einnig hér á landi, er dregur fram á 15. og 16. öld, og þó enn meir síðar. Munu Íslendingar þeir, sem nám stunduðu við þjóðverska háskóla á þessum öldum, hafa kynnzt ritum þeirra og haft út hingað með sér; en hér sem annarstaðar náði mestri

1) Próf. Björn M. Ólsen hefir bent mér á staðinn.

útbreiðslu það úr ritum þeirra, sem fáránlegast var og mest var hindurvitnum blandið.

Ekki verður annað séð, en að eftir siðskiptin fari hjátrúin jafnt og þétt í vöxt hér á landi og að galdrareglur breiðist þá mjög út meðal almennings, og því meir sem harðari hegningar voru lagðar á þá, er með galdra fóru, og kemur svo smám saman, að snemma á 17. öld, og lengi fram eftir þeirri öld, hefir hjátrú og galdratrú læst sig svo inn í meðvitund manna, ekki sízt lærðra manna, að hverjum þeim, sem les rit þeirrar aldar, hlýtur að blöskra. En útlend var hjátrúaralda þessi og gekk þá um nálæg lönd, þótt jafnframt vektust hér þá upp eða mögnuðust þeir galdratilburðir, sem innlendir voru eða af fornri rót mega teljast runnir. Á 17. öld virðist hjátrúin vera í sem mestu almætti sínu hér á landi, svo að menn gátu ekki vakað, ekki sofið, ekki etið, ekki drukkið, ekki staðið, ekki setið né gengið svo, að óhultir væru fyrir ásóknum illra anda eða gerningum óvina sinna. Þess vegna má menn nú kynja það, að þessir menn skyldu ekki beinlínis taka það ráð að fara sér, heldur en að eiga ævilanga baráttu við ásóknir og gerninga. Og það var ekki að eins alþýðustéttin, sem með þessu marki var brennd; fjarri fer því; lærðu mennirnir voru engu síðri að þessu leyti, heldur jafnvel enn þrungnari af hjatrú lengi vel, og til þeirra var að leita um upptök hjátrúarinnar. Lærðir menn á þessari öld trúðu fastlega á galdra og fengust jafnvel við kukl margir; er víða getið um ýmsa menn þeirrar stéttar, er kenndir voru við galdra og fjölkynngi, og það þótt prestar væru, eins og til dæmis síra Oddur Oddsson hinn gamli á Reynivöllum, er annars var einn hinna fróðustu manna um sína daga í náttúruvísindum og lækningum. Gott dæmi galdratrúarinnar er síra Jón Magnússon á Eyri í Skutulsfirði, sbr. Píslarsögu hans, er Sigfús Blöndal hefir gefið út fyrir Fræðafélagið (Kh. 1914). Prestarnir trúðu því, að hafa mætti áhrif á hagi manna og örlög með aðstoð djöfulsins og illra anda, er þeir einkum eignuðu galdrana, en til illra anda töldu þeir öll heiðin goð, og það er athyglisvert, að klerkar syn-

juðu ekki fyrir það, að guðir heiðinna manna hefðu verið eða væru til, heldur töldu þeir þá illa anda. Meira að segja eftir miðja 18. öld sjáum vér jafnmætan mann sem síra Jón Steingrímsson á Prestsbakka í ævisögu sinni tala í fullri alvöru um Óðin sem illan anda, er til sé enn og valdur sé að ásóknum, er hann þykist verða fyrir. Svipað kemur fram í bréfi Jóns byskups Árnasonar til síra Einars Hálfdanarsonar á Kirkjubæjarklaustri, dags. 23. nóv. 1741. Þar er kveðið svo að orði: » . . . Hvað er þessi fornaldar literatura og skáldskapur annað heldur en andskotans sæði, hverju hann hefir spúið í sitt einkaverkfæri, Óðin kong, og hans selskap, til að villa með soddan hætti Norðurálfuna?« (Bréfabók Jóns byskups Árnasonar í Þjóðskjalasafni, 1740—43, bls. 770)[1]). Jafnvel Brynjólfur byskup Sveinsson, sem verið hefir frásneiddastur hleypidómum sinna samtímismanna, virðist ekki vera algerlega laus við þá trú, að gera megi mönnum mein með galdri með aðstoð djöfulsins. Hann kemst svo að orði í sendibrèfi til Sigurðar lögmanns Jónssonar í Einarsnesi, dags. 29. jan. 1670, út af veikindum Jóns yngra, sonar hans, er talin voru sprottin af völdum síra Lopts Jósepssonar, kirkjuprests í Skálholti: »Eg á það ei við andskotann að virða, að eg þurfi hans flokk að fylla eða yfir hans lærisveina fjöður að draga« (sjá bréfabækur Brynjólfs byskups Sveinssonar, XII. bindi, frumrit í AM. 279, fol., eftirrit í Lbs. 1088, 4to., bls. 301). En þó má tilfæra orð Brynjólfs byskups fyrir því, að þótt hefir honum galdratrú og hjátrú vera ofar í fólkinu en góðu hófi gegndi. Hann kemst svo að orði í sendibréfi einu til síra Jóns Pálssonar i Vogsósum, dags. 10. jan. 1656: »Eg held ekki neitt ráð betra í svoddan efnum en í herrans nafni að stíga yfir allar þess konar hindranir, hvort sem þær rísa af manna ráðum og samtökum, eður göldrum og gerningum, og forsmá í guðs ótta hvort tveggja. *Djöfullinn hefir hér í landi mesta makt, af því menn óttast hann of mjög.* En svo mikið sem gengur í hans ótta af manns-

1) Jón dózent Jónsson hefir bent mér á þetta bréf.

ins bjarta og þeli, svo mikið dregst frá guðs ótta í réttri trú, og þar fyrir líður drottinn og leyfir, að óvinurinn hefir svo mikið æði í kristilegri kirkju, að björtun mannanna eru volg og halda ekki einlægt við guð almáttugan, heldur falla fram hjá guði, hverjum einum óttinn ber, svo vel sem elskan og trúin, og óttast jafnframt guði andskotann; það er ein orsök með öðrum í þessu landi, er eg held, að gefi djöflinum rúm til sinna strákaverka. En þá hann er forsmáður, með því hann er drambsamur andi og líður það ógjarna, þá mun dofna hans áræði, komi þar til alvarlegur guðsótti, bænin og ástundan kristilegs lífernis í guðhræðslu, sparneytni og hófsemi« (sjá bréfabækur Brynjólfs byskups, II. bindi, frumrit í AM. 269, fol., eftirrit í Lbs. 1078, 4to., bls. 762—763). Það er auðsætt, að þessum orðum byskups er einkum beint að galdri, þótt allar freistingar manna yfirleitt séu djöflinum eignaðar og við þeim varað.

Þá komst galdratrúin í algleyming, er menn fundu það vænlegast til varnar gegn galdramönnum að brenna þá á báli, en galdrabrennur hófust hér á öndverðri 17. öld (1625). Fengu þá þeir menn, sem minna máttar voru, lítt komið vörnum fyrir sig, ef sakaðir voru um galdur. Raunar var þessi siður, galdrabrennurnar, tekinn upp hér á landi að dæmi nálægra útlendra þjóða, og miklu síðar hófust hér galdrabrennur en annarstaðar. Vorum vér Íslendingar að þessu leyti eftirbátar annarra þjóða, en ekki kom það til af því, að menn væru hér yfirleitt mannúðlegri eða hjátrúarminni en annarstaðar, heldur barst sjálft þetta þjóðráð við göldrunum, galdrabrennurnar, síðar hingað en í önnur lönd; svo var og er því farið um flesta strauma og stefnur, sem ganga um löndin, að þeirra kennir oftast seint hér á landi, af mjög skiljanlegum ástæðum. Þó er það satt, að ekki kvað jafnmjög að galdrabrennum hér sem víða annarstaðar að tiltölu, og fyrr mun þeim hafa linnt hér en sumstaðar annarstaðar, en ekki mæltist það vel fyrir af mörgum, og illan bifur höfðu menn lengi fram eftir á þeim, er andæfðu göldrum og galdabrennum. Árni prófessor Magnússon verður einna

fyrstur hérlendra manna til þess að telja galdur markleysu eina og hindurvitni, og lét hann þá skoðun uppi hvenær sem hann fekk tækifæri til þess. Af þessu leiddi það, að menn töldu hann almennt guðlausan með öllu. (Þetta er tekið eftir ævisögu Árna Magnússonar, er samið hefir á latínu Jón Skálholtsrektor Þorkelsson [Thorkillius] og finna má í frumriti í Ny kgl. Saml. 2061 b, 4to., og Kallske Saml. 631, 4to., en í eftirriti í Lbs. 1071, 4to., sjá þar bls. 61—62).

Hvað lá nú fyrir mönnum sem fæddust upp við slíkan aldarhátt? Gáfaðir og fróðleiksfúsir unglingar gátu ekki satt fræðalöngun sína á öðru en þeim ritum, er þá voru mest lesin, en þau voru guðsorðabækur, meira og minna kreddum blandaðar, helgisögur, er raunar þóttu óhæfar eftir siðskiptin, en þó var ekki útrýmt að öllu og enn héldust með alþýðu, náttúrufræðarit, ef svo mætti kalla, og stjarnspekirit, full öfga og hjátrúarrugls, er flest var tínt úr útlendum ritum. Þekkingu manna á fornritum og fornbókmenntum vorum var þá svo komið yfirleitt, og raunar mestmegnis af völdum siðskiptanna, að Jón lærði segir svo í Bragasögu (Ny kgl. Saml. 1885 b, 4to., eftirrit í Lbs. 1438, 4to., bls. 14), að »fornyrði fyrri manna verða og þykja nú ungdóminum svo þung nálega sem oss ólærðum gríska og latína, og bagar og aflagar hver eftir annan í skrifelsinu, svo [að] ei verður skilið eður heimfært«. — En af fólki því, er unglingarnir ólust upp með, námu þeir fátt annað í andlegum efnum en hégiljusagnir og þvætting um drauga og aðrar öfgar, eða hugsunarlaust guðsorðaþulur, bænir og sálma. Eru sálmarnir í lútherskum sið fyrst eftir siðskiptin hér á landi og raunar fram eftir nokkuð eitthvert það aumasta andleysishnoð, sem unnt er að finna. Menn þurfa ekki annað, til þess að ganga úr skugga um það, en að líta í sálmabók Marteins byskups Einarssonar og þó einkum Gísla byskups Jónssonar. Þetta breyttist þó til batnaðar, er Guðbrandur byskup Þorláksson tók að gefa út sálma, og enn betur síðar, og mundi jafnvel mega finna þeim orðum stað, að hið nýtilegasta í bókmenntum vorum á 17.

og fram eftir 18. öld séu sálmar og guðsorðarit, þótt ekki verði það rakið hér nánara.

Því var ekki við að búast, að við slíkt uppeldi eða menningarástand þjóðarinnar dafnaði dómgreind hinnar uppvaxandi kynslóðar né trúgirni þyrri; þvert á móti. Þess vegna er skylt, þegar metin eru verk manna á sviði andans og slíkt hið sama líf manna, að hafa jafnan hugstætt, hver verið hafi jafnt hin ytri sem hin innri skilyrði fyrir þroska þeirra. Þeir reynast jafnan fáir, sem geta hafizt upp úr aldarfarinu og valdið byltingum í sögunni. Jón lærði var í engu slíkur maður; hann er barn aldar sinnar, og í honum virðast saman komin þau einkenni, er ríkast bera vott um aldarfar á Íslandi á 17. öld. Hann má vera oss ímynd Íslendinga á þeirri öld.

---

Jón lærði, sem svo er nú jafnan nefndur, var fæddur í Ófeigsfirði á Hornströndum árið 1574, að því er hann segir sjálfur í riti sínu, því er hann nefnir »*Tíðsfordríf*«. Faðir hans var Guðmundur Hákonarson, er þar bjó, en móðir Ingveldur Einarsdóttir. Til göfugra manna má rekja kyn Jóns, er aftur dregur. Guðmundur, faðir Jóns, hefir líklega verið fræðimaður nokkur og átt handrit; meðal handrita hans nefnir Jón í *Tíðsfordrífi* »reisubók« Bjarnar Jórsalafara, og færir til úr henni atburði úr Grænlandsför hans. En sú bók þekkist nú ekki á vorum dögum. Jón ólst upp í fyrstu hjá föðurföður sínum, Hákoni Þormóðssyni, Salómonssonar. Segist Jón hafa verið 23 ára, er Hákon andaðist, vel áttræður (Tíðsfordríf). Eftir því hefir Hákon verið fæddur nálægt 1515, og hefir hann því verið fulltíða maður, er siðskiptin urðu. Mjög er sennilegt, að þeir menn, er kaþólskir voru og nokkuð voru til aldurs komnir, er siðskiptin urðu, hafi verið seinir til þess að hafna með öllu átrúnaði sínum. Í afskekktum sveitum hefir og verið torvelt að hafa hemil á slíku. Munu Hornstrendingar því síðar hafa orðið til fulls vandir á hinn nýja sið en meginbyggðir landins eða þær sveitir, er næst lágu byskupsstólunum, og seinna hafa hinar prentuðu

guðsorðabækur orðið til þess að breiðast út um útkjálkasveitir en önnur héruð. Má þess vegna að líkindum ætla, að Jón hafi hjá Hákoni föðurföður sínum tekið í sig kaþólsk fræði að nokkuru leyti, þótt bönnuð væru, sem kennir í ritum hans og síðar segir. Raunar kemst Jón svo að orði í *Tíðsfordrífi*, er hann getur um rit, sem hann sá í ungdæmi sínu, að enginn hafi verið til þess að leiðbeina sér, en »allmargir að banna og forbjóða pápiskar bækur að hafa eða í þeim nokkuð að hugleiða, þar þó margt í flaut«.

Jón hefir snemma verið námfús og athugall. Hann lærði lestur á handrit eitt, er komið var frá byskupsstólnum í Skálholti, segir hann í *Tíðsfordrífi*. Slík var þá meðferð handrita þeirra, er byskupsstólunum fylgdu, að þau tvístruðust víðs vegar, og mátti telja happ, ef þau voru ekki brennd, líkt og fór um handrit klaustursins á Helgafelli, er Jón segir svo um í einu rita[1]) sinna: »En áður en Helgafells bækur voru brenndar ásamt því öðru gömlu kirkjurusli á tveimur stórum eða þremur eldum, fyrr en sá sami prestur[2]) fórst í vatninu, þá mátti, einkum hver latínu skildi, mann þar margt fáheyrt og fróðlegt finna og fræði gömul sjá. Sá gamli síra Christian[3]) danski, sem þar var lengi, þótti óbernskur, en nú er allt í aleyðing komið, og einna mest og helzt það, sem nokkuð hnígur að því, sem þykir gamalkennt«. Slík Vandalameðferð á fornum ritum og munum ofbýður oss nú á tímum, en gæta verður þess, að þeir, sem þessi hermdarverk unnu, þóttust með því vinna guði þekk verk, er þeir eyddu ritum, sem þeir hugðu hafa að geyma kaþólsk fræði og mega spilla trú landsfólksins.

1) Braga saga, Ny kgl. Saml. 1885, b, 4to., eftirrit í Lbs. 1438, 4to., sjá bls. 29—30.

2) Þ. e. síra Sigurður Jónsson (d. 9. júlí 1624), sbr. Jón Þorkelsson: Om digtningen på Island i det 15. og 16. århundrede, Kh. 1888, bls. 13.

3) Þ. e. síra Kristján Villadsson, er andaðist 1600 (eftir Prestatali síra Sveins Níelssonar). Síra Kristján var náttúrufróður og læknir og hefir samið lækningarit, sem finna má í handritum í Landsbókasafninu.

Jón hefir í ungdæmi sínu og síðar lesið það, sem hann hefir yfir komizt af bókum, en ólíklegt er, að bókakostur hafi verið mikill á Hornströndum í þá daga. Það er auðséð af ritum Jóns, að hann hefir kunnað dönsku og þýzku, eða skilið þau mál á bók, en dulið er oss nú, hvernig hann hefir numið þessar tungur, eða hvort hann hefir numið þær tilsagnarlaust. En fróðleiksþorstinn, næmið og minnið, hefir verið dæmafátt, og sigra þessir eiginleikar flestar þrautir. Aftur á móti segir Jón í *Tíðsfordrifi*, að hann skilji ekki latínu; en þó fer Jón stundum með latínu í ritum sínum, raunar líklega oftast eftir útlendum ritum, sem hann hefir haft undir höndum. Líklegt mun og vera, að Jón hafi numið kaþólskar bænir í ungdæmi sínu, og að til þess sé að rekja það, er hann lætur Martein, hinn spánverska skipstjóra, gera bæn til guðs og fer um það latínskum orðum (Ævidrápan, 138. og 142. erindi).

Jón hefir snemma orðið athugall á það, er fyrir augun bar, og hefir það leitt til þess, að hann tók að rita um náttúru landsins; eru rit hans um þessi efni að vísu mjög kreddublandin og allsundurleit, en allt um það telja náttúrufræðingar margt á þeim að græða. Þess ber og að gæta í því sambandi, að náttúruvísindi stóðu þá á mjög lágu stigi hvarvetna, og þá einnig hér á landi. Höfðu Íslendingar mjög lítið sinnt náttúruvísindum, og sízt gefið gaum að náttúru fósturjarðar sinnar, áður en Jón kom til sögunnar, og má hann því vel teljast fyrsti náttúrufræðingur Íslands eða Plinius Islandicus,[1]) eins og Þormóður Torfason kallar hann. Það er til marks um náttúruþekking þeirrar tíðar manna, að engan greinarmun gerir Jón á því, sem nú er nefnt lífrænt og ólífrænt; hann talar um steina, sem kvikni af steinum o. s. frv. Að öðru leyti vísast til Landfræðissögu Íslands eftir Þorvald Thoroddsen um gildi náttúrufræðarita Jóns; þar er í II. bindi rækilega gerð grein fyrir því.

---

1) Þ. e. hinn íslenzki Plinius; Plinius var náttúrufræðingur rómverskur, sem uppi var á 1. öld eftir Kristsburð.

Lækningar og sjúkdómaþekking stóð þá enn á mjög lágu stigi um öll lönd. Þessum fræðum hafði litt þokað áfram frá því á dögum Hippokratesar og Galenusar. Fátt annað hafði við aukizt í þeim fræðum en það, er fáránlegast var og mönnum nú mundu þykja hlægileg ráð eða jafnvel hryllileg. Lækningabækur þeirra tíma eru fullar af kynjalækningum, og athyglis er það vert, að svo er að sjá sem menn hafi á þessum tímum haft mesta trú á þeim lækningum, sem sorakenndastar eru og nú mundu vekja viðbjóð allra; mannasaurindi og þvag í ýmsum meðferðum er eitt óbrigðulasta lækningaráðið. Allar þess konar lækningar náðu mikilli útbreiðslu meðal alþýðu í öðrum löndum, og yfirleitt ruddi sér hér mest til rúms allt það, er öfgakenndast var úr útlendum lækningabókum. Síra Guðmundur Einarsson á Staðastað getur þess í riti sínu »*Hugrás*« (er síðar mun að vikið), og gerir þó skop að raunar, að ráðlagt sé í einni lækningabók við köldusótt að taka mjöl, væta það í hlandi og gefa síðan kökuna svöngum hundi í þrjár reisur (þ. e. þrívegis). Þetta er að eins tekið sem dæmi um læknisráðin, en þessu lík voru þau mörg og þó miklu verri og kynlegri sum.

Jón mun snemma hafa tekið að gefa sig við lækningum. Jón Halldórsson, sem byskup var í Skálholti 1322—1339, var talinn hinn bezti læknir og fróður um urtir og grös; hann ritaði og um þessi efni. Jón lærði komst í bæklinga hans og ritaði upp eftir honum lækningabók Hippokratesar. Þar að auki skrifaði Jón lærði bækling um lækningar eða tíndi saman úr útlendum lækningabókum sinna daga, er hann komst yfir. En báðar þessar bækur, bæði Hippokratesarbókin og lækningakver Jóns sjálfs, komust í hendur Árna lögmanns Oddssonar, og hefir það líklega orðið, þegar Jón átti í málaferlunum síðar meir; en ekki fekk Jón þær bækur aftur af lögmanni, þótt hann stagaðist um það þrásinnis, að því er hann segir sjálfur í *Tíðsfordrifi*.

Þess ber að geta, að lækningar og meðferð lyfja voru talin til galdurs eða af sömu rótum runnið, og má til-

færa byskupsbréf, sem leggja bann við þessu. Það er því ekki að kynja, þótt svo færi bráðlega, að þetta lækningabrall Jóns, lestur hans í fornbókum og náttúruathuganir yrðu til þess, að hann varð af alþýðu manna talinn fjölkunnugur, enda trúði hann því sjálfur, að galdur gæti átt sér stað og þykist jafnan sæta hinum römmustu gerningum af fjandmönnum sínum, Ara Magnússyni í Ögri, Ormi á Knerri og Ólafi Péturssyni, umboðsmanni á Bessastöðum. Hann hefir verið fulltrúaður á það, eins og allir samtímismenn hans, að hafa mætti áhrif á viðburði og hag manna með notkun galdurs, og hefir reynt að gera það sjálfur og þótzt geta; en eiga má Jón það, að ekki virðist hann hafa reynt að nota galdurinn til annars en góðs, þ. e. til þess að afstýra illu, eftir því sem unnt er að rekja af kreddum þeim og hindurvitnum, sem hann var ákærður fyrir síðar meir. Einkum hefir hann notað kreddur og galdra til lækninga, til þess að koma fyrir draugum, verjast ásóknum og þess báttar.

Hákon, föðurfaðir Jóns, hefir andazt árið 1597, og hefir Jón þá flutzt til Guðmundar föður síns, ef hann hefir ekki flutzt til hans fyrr, og verið hjá honum til dauða hans. Telur Jón svo i Ævidrápunni, að dauða föður síns hafi borið að af völdum Bárðar þess, er hann lýsir þar, og virðist Jón nánast ætla, að Bárður þessi hafi naumast verið mennskur maður; að öðru leyti er mjög óljós frásögn Jóns um Bárð þenna; svo er að sjá sem Jón telji hann aðkominn í sveitina og eiga heima á Finnbogastöðum í Trékyllisvík. Þykist Jón og sjálfur verða fyrir ásóknum af Bárði þessum og gerningum af hans völdum, og það jafnvel eftir dauða Bárðar.

Jón mun hafa kvænzt árið 1601, og er kona hans nefnd Sigríður Þorleifsdóttir í *Tíðsfordrifi* (sjá t. d. handrit í Landsbókasafninu, Í. B. 35, fol., og JS. 81, 4to., og sömuleiðis í Byskupasögum síra Jóns Halldórssonar, sjá II. bindi bls. 86), en Þorvaldur Thoroddsen nefnir hana Þuríði í Landfræðissögu sinni (sjá II. bindi bls. 77); mun hann hafa tekið þetta í athugaleysi upp eftir þætti Gísla Konráðssonar um Jón lærða. Raunar skiptir þetta

litlu. Sigríður hefir verið hjátrúarfull og var talin fjölkunnug sem maður hennar. Annars kann eg fátt af henni að segja. Þó virðist hún hafa verið fylgisöm manni sínum, er hún entist til þess að fylgjast með honum í hrakningum hans nálega um land allt, og bendir það á tryggð hennar og stöðuglyndi, því að ekki mun æví þeirra hafa verið góð á stundum. Jón maður hennar gerir þessa grein fyrir ætterni hennar í *Tíðsfordrífi:* Langafi hennar var Ásmundur Klemensson (Clemusson), er veginn var á Skarði á Skarðsströnd í tíð Þorleifs Björnssonar; var hans son síra Klemens (Clemus), er prestur var á Skarði, þegar faðir hans var veginn, faðir Þorleifs, föður Sigríðar.

Þau Jón og Sigríður bjuggu fyrst nokkur ár á Stóra-Fjarðarhorni í Kollafirði. En síðan fluttust þau í Ólafseyjar á Breiðafirði undan Skarðsströnd; þær liggja undir höfuðbólið Skarð. Á Skarði hafa löngum búið höfðingjar. Það er til marks um veglega húsaskipan á Skarði, að Jón segir í *Tíðsfordrífi,* að verið hafi þar fyrrum »múrhús« (þ. e. líklega steinhús stoðbundið), en af var það um hans daga. Jón hefir oftlega dvalizt löngum tímum á Skarði, líklega við smíðar, og segist (í Tíðsfordrífi) hafa verið þar sex ár, en þetta mun eiga að skiljast svo, að hann hafi verið í landareign Skarðs þenna tíma. Í þetta mund mun hafa búið á Skarði Daði Bjarnason, Oddssonar. Jón segir, að þar hafi verið mikið af skjölum, bréfum og dómum, og má nærri geta, að Jón hafi ekki setið sig úr færi að kynna sér þetta, svo sem endrarnær, því að hvar sem hann kom, var hann allrýninn í forn skjöl og bækur, ef fyrir honum urðu.

Ekki var Jón laus við ásóknir, meðan hann átti heima í Ólafseyjum; í Ævidrápunni segir, að þar sé haugur Geirmundar heljarskinns, landnámsmanns, og segist Jón hafa orðið fyrir þungum búsifjum af völdum hans.

Um þessar mundir (1611—1612) var draugagangur mikill á Snæfjallaströnd vestur, einkum á prestssetrinu Stað; var margs við leitað til þess að koma fyrir draugnum. Þorleifur Þórðarson (Galdra-Leifi) átti þá heima þar í grennd, er talinn búa á Garðsstöðum nálægt Ögri. Hann

var fenginn til þess að koma fyrir draugnum; en er það dugði ekki, var og Jón lærði fenginn til þess að kveða niður drauginn með Þorleifi. Orkti Jón þá kvæðið *Fjandafælu*, en þetta er upphaf að: »Jesú dauða, dreyra og pín«; enn fremur orkti hann þá Snjáfjallavísur hinar síðari, sem prentaðar eru í *Huld*. Í Þjóðsögum Jóns Árnasonar geta menn lesið nánara um draug þenna og viðureign Jóns við hann.

Um þetta bil fluttist Jón aftur á Strendur og mun þá hafa setzt að í Trékyllisvík eða átt þar heima, en verið þó stundum langvistum í Steingrímsfirði. Líklegast er, að hann hafi dvalizt víða um þessar slóðir og verið fenginn til smíða, því að hann var smiður ágætur, og enn var honum það til lista lagið, að hann kunni að mála, enda var hann og kallaður málari í lifanda lífi, og svo nefnir síra Guðmundur Einarsson á Staðastað hann í ritgerð sinni, Hugrás, sem hann samdi móti Fjandafælu Jóns. Jón var einnig tannsmiður kallaður, en það mun vera dregið af því, að hann hefir þótt snillingur í því að skera muni út úr tönnum, rostungstönnum. Það er til marks um hagleik Jóns, að á Hjaltastað í Útmannasveit var lengi, að minnstá kosti fram á 18. öld, altaristafla, sem Jón hafði skorið út og prýðilega þótti gerð (sjá Þorvaldur Thoroddsen: Landfræðissaga, II. bindi, bls. 78, sbr. ferðabók Ólafs Olaviusar, bls. 629).

Árin 1614 og 1615 voru Spánverjar hér við land vestra og stunduðu hvalveiðar. Urðu af því róstur og bardagar með Spánverjum og Vestfirðingum undir forustu Ara Magnússonar í Ögri, er þá hafði sýslu þar. Lyktaði svo, að Spánverjar voru allir drepnir vægðarlaust og án dóms og laga, eftir það að þeir höfðu brotið skip sín og gátu ekki komizt burt af landinu. Virðist svo sem níðingsverk hafi hér verið unnið á þeim, er þeir voru hér nauðstaddir og bjargarlausir, og til vorkunnar mátti það virða þeim, þótt þeir rændu nokkurri björg sér til lífs, er landsmenn vildu ekki liðsinna þeim. Sumir þeirra voru og jafnvel vegnir í griðum. Jón lærði hefir komizt í kynni við Spánverja þessa og lagt þeim heldur liðsinni.

Sýnir það kjark Jóns og drengskap, að hann þorði að beita sér í þessu máli gegn Ara Magnússyni í Ögri, sem verið hefir manna ráðríkastur. Á þetta hefir Ólafur Davíðsson réttilega bent í ritgerð sinni um víg Spánverja á Vestfjörðum 1615, sem prentuð er í 16. árgangi Tímarits Bókmenntafélagsins árið 1895 (sjá bls. 92—93). Jón lærði hefir lýst þessari viðureign við Spánverja bæði í Ævidrápunni og sömuleiðis í sérstakri ritgerð, er nefnist *Sönn frásaga af Spanskra skipbrotum hér við land anno 1615* og prentuð er í Fjallkonunni árið 1892. Um afskipti Jóns af Spánverjum og um allt þetta mál vísast til þessara rita, sem nú voru nefnd.

En af þessum tiltektum Jóns gerðist Ari í Ögri svo óvinveittur honum, að hann treystist ekki lengur til þess að vera vestra né þar sem Ari fengi náð til hans. Segir síra Guðmundur Einarsson á Staðastað svo frá (í Hugrás), að vitnisburður um Jón hafi komið sér fyrir augu, undirskrifaður af 16 mönnum (fyrir tilstilli Ara í Ögri), svo látandi, »að sagður Jón Guðmundsson málari sé slægur maður og óhollur, og hafi þaðan úr sveitum [þ. e. af Ströndum] runnið fyrir óskil, lygar, óráðvendni og sakbitna samvizku, af því að farið hefði með buldur oftlega og mas, rugl og vondar ræður, og aukið svo sundurþykki og tvídrægni manna á meðal«. Kvartar Jón yfir því í Ævidrápunni, að fjandmenn sínir hafi rægt sig við Ara og hann trúað þeim; má því vera, að skjal þetta sé að einhverju leyti frá þessum mönnum runnið; víst er um það, að hvergi hefi eg annarstaðar séð Jóni brugðið um óráðvendni. En þar sem Jóni er hér brugðið um slægð og óhollustu, þá mun þar með átt við liðsinni hans við Spánverja, og slíkt hið sama þar sem talað er um, að hann hafi með vondum ræðum aukið sundurþykki og tvídrægni manna á meðal. En þar sem honum er brugðið um »buldur og mas«, þá má vera, að þar sé átt við fjölkynngi hans, þótt mér þyki líklegra, að orðin eigi að tákna þverúð hans í því að fara að fyrirmælum Ara í Ögri um liðveizlu við Spánverja, og hafi hann haft þær orðræður við aðra.

Eftir að Jón fór af Ströndum, settist hann að undir Jökli, í skjóli Steindórs, sýslumanns á Arnarstapa, Gíslasonar, lögmanns, Þórðarsonar. En ekki átti hann þar sjö dagana sæla; þykist hann mjög eiga þar í vök að verjast fyrir ásóknum og sendingum að vestan, líklega frá Ara í Ögri. Þá varð hann og fyrir galdraundrum af völdum manns þess, er hann nefnir Orm (Galdra-Orm og Orm hinn illa í Ævidrápunni) og talinn er vera sami maður sem Ormur á Knerri, er kunnur er úr sögu Axlar-Bjarnar. Þá bjó Jón á koti því í Rifi, er hann nefnir Uppsanda.

Jón fekkst mjög við lækningar þar á Snæfellsnesi, jafnframt gaf hann mönnum ýmis ráð, er þá voru metin sem galdur, enda voru og flest hindurvitni einber. En ekki verður þó séð, að Jón hafi nokkurn tíma notað kunnustu sína til þess að gera öðrum mönnum mein. Svo er og talið, að hann hafi þá haldið eins konar skóla í þessum fræðum þar vestra og selt mönnum kver með varnarráðum og lækningum, er hann hafði sjálfur samið eða saman tínt. Var um þessar mundir fjölmennt mjög um Snæfellsnes, útræði mikið og veiðistöður margar, og fjölsótt þangað á vertíðum til útróðra úr mörgum sýslum. Hefir Jón því haft af þessu nokkurar tekjur, því að marga mun hafa girnt að fræðast um þessi efni. Óvíst er, hvort þetta kver Jóns muni nú vera til, en brot af því munu þó finnast í handriti í eftirritum. Kver þetta hefir verið með svo hljóðanda nafni: »Bót eður viðsjá við illu aðkasti«. Það hefir haft að geyma ráð við 1) eldsgangi, 2) blóðrás, 3) vopnum, 4) líkamsgirndum, 5) vitfirringu, 6) álfagangi, 7) röngum dómi, 8) fjandafreistni, 9) hlífð á móti óvinum og annarra hatri, 10) að stilla reiði, 11) óvini hrædda að gera, 12) jóðsjúkra kvenna frelsi, 13) vers fyrir falli, 14) að hlífa skipskaða, 15) vers að hlífa eldsvoða, 16) við stuldi, 17) við vatnsskaða, 18) við afbendi manna og kvikenda, 19) við ofsjónum, 20) við æði, 21) sigurvers í stríði, 22) að deyfa vopnabit, 23) Christs fingra nöfn, 24) að burtstefna refum, 25) bót við elds, vatns og vopna skaða, ef trúin fylgir, 26) sigursigning á morgna, 27) við sjávarstormi, 28) við sjódraugagangi,

29) ristingar við gulusótt, útsótt, matleiða, hósta, kláða og höfuðverk, 30) blóðstemmur aðskiljanlegar og annað fleira (sjá Alþingisbók 1637). Eins og sjá má, er flest þetta mjög meinlaust og allt ætlað til verndar mönnum, en ekki til tjóns. Nú á tímum þykir þetta fáránlegt og marklaust, en á þessum tímum var þekking manna ekki lengra komin, og upp úr hindurvitnum og hégiljum risu náttúruvísindi og læknisfræði, svo að allt þetta fálm má nú telja vísi til þeirra vísinda.

En við þetta allt saman hlaut svo að fara, að orð tæki að ganga af Jóni um fjölkynngi, enda var svo komið um þessar mundir eða nálægt 1620, að yfirvöld landsins tóku fast að gera gangskör að því að leita uppi þá menn, er galdramenn voru kallaðir.

Þá var prófastur í Þórsnessþingi síra Guðmundur Einarsson á Staðastað, er áður hefir verið nefndur. Hann var maður mjög vel lærður að þeirrar tíðar hætti. Hann var náskyldur Guðbrandi byskupi Þorlákssyni og hafði lengi verið á Hólum og hjálpað byskupi við útgáfu guðsorðabóka og þýtt sumar þeirra, t. d. Spegil þess synduga eftir Savonarola, er út kom á Hólum 1598. Þegar svo var komið, að mjög var tekið að kveða að lækningum Jóns eða kukli á Snæfellsnesi, hófst síra Guðmundur handa og ritaði ritgerð gegn Jóni eða ritum hans; rit þetta nefndi hann »Hugrás«, og hefir þess áður verið getið; það má finna í handriti t. d. í handritasafni Jóns Sigurðssonar í Landsbókasafni (JS. 606, 4to.). Reynir síra Guðmundur þar að sýna fram á, að kreddur Jóns séu gagnstæðar guðsorði og sumar markleysa ein. Þó má ráða það af orðum síra Guðmundar, að kenningar Jóns hafi fallið í góða jörð, því að hann segir um »Fjandafælu« Jóns, að hún hafi haft »fljótan framgang eins og eldur í einiberjatré«. Síra Guðmundur efar það ekki, að galdur eða sú kunnusta að geta haft áhrif á viðburði geti átt sér stað, en til þess að koma slíku fram telur hann menn að eins geta notið fulltingis djöfulsins, en allt það telur hann fjandsamlegt guði og guðsorði, er menn gera til þess að girða fyrir það, sem fram á að koma. Þetta rit síra Guð-

mundar er allmerkt og sýnir, að hann hefir staðið framar ýmsum samtímismanna sinna í lærðri stétt að þekkingu og dómgreind á ýmsum sviðum, þótt ekki komi honum til hugar, fremur en nokkurum manni í þá daga, að hafa þau andmæli í frammi, að galdur sé í eðli sínu markleysa.

En við þetta brá svo við um hagi Jóns lærða, að honum gat ekki lengur verið vel vært á Snæfellsnesi, og hrökklaðist hann þaðan, líklega árið 1627, á Akranes, og var nú um hríð á vegum Árna lögréttumanns á Ytra-Hólmi Gíslasonar, bróður Steindórs, er áður hafði skotið skjólshúsi yfir hann.

Áður en Jón lærði fór af Snæfellsnesi, hefir hann komizt í kynni við Guðbrand byskup Þorláksson (Ævidrápan, 192. erindi); en ekki er unnt að sjá af ritum Jóns, að hann hafi fram að þessum tíma dvalizt nokkuð á Hólum, eins og sumir rithöfundar geta um, og ekki verður heldur séð, hvernig þeim kynnum hefir verið háttað; en víst er það, að byskup tók Guðmund, son Jóns, til læringar í Hólaskóla, og varð hann síðar prestur.

Mun Jón nú hafa hafzt við í Ytra-Hólmi eða þar í grennd árið 1627 (sbr. Ævidrápuna, 205. erindi) og eftir það, þangað til Guðmundur, sonur hans, tók prestsvígslu og gerðist prestur á Hvalsnesi á Miðnesi, en það hefir verið ári síðar eða svo. Jón mun þá hafa flutzt til hans þangað. Umboðsmaðurinn á Bessastöðum, Ólafur Pétursson, maður harðdrægur og ágjarn, lenti í málaferlum við síra Guðmund út af festarmeyju síra Guðmundar, er verið hafði þjónustustúlka hjá Ólafi (sbr. Ævidrápuna, 213.—216. erindi); urðu þær lyktir á, að síra Guðmundur var dæmdur frá prestskap 13. maí 1630. Eftir það hefir síra Guðmundur, að því er virðist, verið um tíma eða jafnvel alllengi skrifari hjá Gísla byskupi Oddssyni eða á vegum hans; í bréfabókum Gísla byskups má finna vitnisburð byskups um síra Guðmund, og er hann mjög góður í hans garð; annar vitnisburður er þar og frá sóknarbörnum síra Guðmundar, Hvalsnessóknarmönnum, slíkt hið sama mjög lofsamlegur (sjá bréfabækur Gísla byskups,

Lbs. 1645, 4to., bls. 398—399, og Lbs. 1647, 4to., bls. 796—797, en þau handrit eru eftirrit af frumbókunum í AM. 244, 4to., og 246, 4to.). En eigi fekk þó síra Guðmundur prestskap aftur, meðan Gísli byskup lifði, þótt byskup væri honum fylgjandi, því að Bessastaðafógetar munu hafa andmælt honum. Það var eigi fyrr en 24 árum seinna, að Brynjólfur byskup Sveinsson fekk komið því til vegar, að síra Guðmundur fekk aftur prestakall, Hjaltastað í Útmannasveit (árið 1654); þó hafði síra Guðmundur raunar verið aðstoðarprestur á sama stað 9 eða 10 ár, eftir því sem Steingrímur byskup segir í ættartölum sínum (II. b., bls. 788, handritasafn Landsbókasafnsins, Lbs. 184, 4to.).

Þessa málastapps síra Guðmundar er hér þess vegna getið, að það varð einnig óhappadrjúgt Jóni, föður hans; kom svo fyrir honum út af afskiptum hans af málinu, að hann var kærður af Ólafi Péturssyni fyrir galdra og kukl; kom sú kæra ekki til alþingis, heldur nefndi Ólafur ásamt prófastinum, síra Ormi Egilssyni á Kálfatjörn, nálæga presta og sýslumenn í dóm á Bessastöðum, og var Jón þar dæmdur útlægur fyrir meðferð galdrakvers þess, er hann hafði samið og áður er rakið efni í. Hefir sú málsmeðferð tæplega verið að öllu lögleg og Ólafur sjálfsagt öllu ráðið í dóminum; er því von, þótt Jón kvarti yfir því í Ævidrápunni, að hann hafi ekki fengið að njóta fullra laga, með því að mál hans var ekki sett til úrskurðar lögréttu. Útlegðardómurinn yfir Jóni er kveðinn upp á Bessastöðum 1. ágúst 1631 (og er að finna i handriti í alþingisbók 1637 við num. 2). Var nú komið í óefni fyrir Jóni, og sá hann nú ekki annað ráð vænna en fara um landið huldu höfði; hefir ævi hans þá verið hin versta, er fáir treystust nú til þess að skjóta yfir hann skjólshúsi, með því að hann var kominn í fjandskap við Bessastaðavaldið. Jón rekur þessar nauðir í Ævidrápu sinni, í 216. erindi og næstu erindum um hríð þar á eftir. Hefir hann farið vestur um land og haldið síðan norður eftir. Líklega hefir hann þá dvalizt sumstaðar nokkuð lengi og þá haft ofan af fyrir sér með smíðum. Snuðrað hefir Jón þá

og í fornbókum, og líklega hefir hann í þessari för komið að Laufási og haft þar nokkura dvöl, en þar var þá prestur Magnús Ólafsson, fræðimaður mikill og þar með málfræðingur og fornfræðingur hinn mesti á þeirri tíð; var hann aðalstoð og styrkur Óla prófessors Worms í rúnum og fornbókmenntum vorum, sem Worm gaf sig mjög við. Þykir mér líklegt, að Jón lærði hafi einmitt fengið hjá síra Magnúsi einhver bréf eða meðmæli til Óla Worms, þau er síðar hafi komið honum að góðu haldi, er hann fór utan. En í Laufási segist Jón í *Tíðsfordrifi* hafa séð ýmsar gamlar bækur, og er svo að sjá sem sumar þeirra hafi verið gamlar galdrabækur eða stjarnspeki- eða náttúrufræðarit frá tímum hins nafnkunna galdramanns, síra Þorkels Guðbjartssonar, er prestur var í Laufási lengi á 15. öld og vafalaust mun frá runnið ýmislegt af hinum útlendu hindurvitnum, er breiddust um landið síðar. En ekki mátti Jón vera langvistum á hverjum stað, því að Bessastaðamenn lýstu eftir honum, en eigi linnti ofsóknum þeirra á hann eftir að eða þótt Ólafur Pétursson væri farinn af landi burt, því að á alþingi árið 1635 lýsir Jens Söffrensson, umboðsmaður höfuðsmannsins Pros Mundts, eftir Jóni og býður öllum sýslumönnum að handtaka hann og láta flytja til Bessastaða (sjá alþingisbók 1635, num. 7). Um þetta bil er Jón kominn austur í Múlasýslur og hefst þar við í skjóli Bjarna sýslumanns á Bustarfelli Oddssonar og síra Ólafs Einarssonar í Kirkjubæ, er reyndust honum vel (sbr. Ævidrápuna, 252. erindi). Þeir hafa líklega hjálpað honum til þess að fara utan, en hann mun hafa komizt utan með kaupfari síðla árs 1635 og um líkt leyti síra Guðmundur, sonur hans, í því skyni að fá uppreisn máls síns við Ólaf Pétursson. Dvelst Jón nú í Kaupmannahöfn um hríð og lýsir svo vist sinni þar sem enn hafi hann orðið fyrir ofsóknum fjandmanna sinna þar bæði með gerningum og enn fremur með því, að honum hafi verið varpað í dyblizu og setið þar um hríð, en ekki verður séð, fyrir hverjar sakir haft hefir verið á honum varðhald né hver heimild hefir verið til þess. Í Kaupmanna-

höfn komst Jón lærði í kynni við Óla Worm, að því er síra Jón Halldórsson í Hítardal segir í Byskupasögum sínum (II. bindi, bls. 86—88), er mun hafa hagnýtt sér lærdóm Jóns í Eddu og öðrum fornum fræðum. Hefir það sjálfsagt verið Worm að þakka ásamt öðrum fyrirmönnum, er Jón kynntist, að hann fekk því til vegar komið, að Kristján konungur hinn 4. gaf út bréf (dags. 14. maí 1637) þess efnis, að mál Jóns skyldi tekið upp aftur af nýju og rannsakað. Kom Jón hingað til lands með þetta kongsbréf sama ár og mun þá hafa verið tekinn í gæzlu á Bessastaði, sem hann kallar Kvalastaði í *Tíðsfordrífi*, og virðist þá hafa verið illa haldinn. Samkvæmt kongsbréfinu var mál Jóns tekið fyrir af nýju í lögréttu þetta sama sumar og dómur uppkveðinn um það 30. júní; er þar staðfestur hinn fyrri, svo að Jón er gerður útlægur af öllum kongsins ríkjum og löndum, nema konungur vilji honum meiri vægð sýna. Var Jón því litlu bættari með þessum dómi og átti nú enn andstætt um hríð, til þess er höfuðsmaður leyfði honum að setjast að austur í Múlasýslum, en þar var þá Sigríður, kona hans, og mun hún hafa fylgzt með honum jafnan, nema í utanför hans, og orðið eftir þar eystra, er hann fór utan. Þangað austur kemur og (líklega 1644 eða 1645) síra Guðmundur, sonur hans. En til fulls virðist lokið ofsóknum á Jón, þegar Brynjólfur byskup Sveinsson er setztur í byskupsstól í Skálholti (1639). Hefir Brynjólfur byskup haldið verndarhendi sinni yfir Jóni og gefið honum gjafir (sbr. Ævidrápuna, 321. erindi). Hefir Brynjólfur byskup kunnað að meta fróðleik Jóns og látið hann njóta þess, enda tileinkar Jón og sendir honum flest rit sín, er hann ritar eftir þetta.

Eftir að Jón var austur kominn aftur, virðist hann hafa átt heima í Gagnstaðahjáleigu í Útmannasveit, og þaðan er dagsett Tíðsfordríf (1644). Sumir segja og, að hann hafi búið í Dalakoti þar. Átti hann nú heima þar eystra, það sem eftir var ævinnar. Hann mun hafa haldið uppteknum hætti um lækningar og verndarráð handa mönnum þar eystra. Yfirleitt mun Jón hafa lifað í næði,

það sem eftir var ævinnar, enda ritaði hann allt það, sem til er af ritgerðum hans, á þessum tíma ævinnar. Þó segja sumir (síra Jón Halldórsson í Hítardal í Byskupasögum sínum, II. bindi, hls. 88, Grunnavíkur-Jón og eftir honum Þorvaldur Thoroddsen í Landfræðissögu sinni, II. h., hls. 78), að Jón hafi hlotið refsing fyrir það að hafa átt son fram hjá konu sinni, og þá orðinn háaldraður; segja þeir, að þessi sonur hans hafi verið kallaður Jón litli-lærði. En Jón Skálholtsrektor Þorkelsson (Thorkillius) segir, að þessi Jón litli-lærði hafi verið sonarsonur Jóns lærða, og þá sonur síra Guðmundar, og sé hann enn á lífi um sína daga (sjá Reflexiones . . . de persona, vita, familia et scripto Jóns málara . . . Lbs. 1070, 4to., eftirrit eftir Ny kgl. Saml. 1275, fol.). Af börnum Jóns munu ekki önnur hafa komizt á legg en síra Guðmundur á Hjaltastað. Voru synir hans síra Þorleifur á Hallormsstað og Guðmundur, er komst til allmikils vegs í Danmörku (sjá þátt af honum í Eimreiðinni árið 1911).

Jón lærði andaðist austur í Fljótsdalshéraði í hárri elli árið 1658 (sbr. athugasemd við Byskupasögur síra Jóns Halldórssonar, II. bindi, hls. 88, ívitnun í annál í Lbs. 157, 4to., sem vafalaust er góð heimild að þessu leyti og betri en aðrar, er greina annað dauðaár hans).

---

Æviferill Jóns lærða er raunasaga manns, sem í upphafi hefir verið prýðilega vel gefinn, en ill öld hefir spillt. Ókostir hans eru ókostir aldarinnar. Afskapleg hjátrú, dæmafá trúgirni og dómgreindarlítil meðferð efnis einkennir rit hans og samtímismanna hans allflestra. En samt hefir Jón haft ýmsa hæfileika, sem oftast einkenna vísindamenn, einkum náttúrufræðinga; athyglisgáfu hefir hann haft mikla. Minnið hefir verið ágætt og fróðleikslöngunin mjög rík, enda varð hann og maður fjölfróður, en hjátrú og hindurvitni, sem fylgdu aldarfarinu og hann saug í sig, hafa í honum magnast enn framar við andstreymi það og ofsóknir, er hann varð að þola, og er þó raunar undraverður kjarkur hans, að hann skyldi ekki

gefast upp að öllu. Hann hefir verið listamaður til handanna, bæði í útskurði og málaralist. Hann má og teljast skáld gott, að þeirrar tíðar hætti, og er sumt í Ævidrápunni og öðrum kveðskap hans prýðilega orkt, en víða nokkuð er þó kveðskapurinn skothendur. Spaklega kveður hann og að orði víða þar, einkum í »rófunni«. Göldrum og gerningum er lýst nálega í öðru hverju erindi í Ævidrápunni og enn fremur álfum og huldum dómum (sbr. t. d. 11.—12. erindi í »rófunni«). Trúarskoðanir Jóns koma og greinilega í ljós víða í Ævidrápunni, sem hefst á mjög hjartnæmu erindi. Það má af mörgu marka, að Jón er uppi á þeim tímum, er mætast hinn gamli og nýi siður, og togar hvor tveggja í bann. Allvíða kennir þar yls hans til kaþólskra kenninga og sumt þykir honum mjög afvega fært í lútherskum sið, og enn telur hann ekki að öllu farið að kenningum Lúthers (sbr. 7. erindi í »rófunni«). Einkum fellir hann sig illa við þá kenning, að menn geti öðlast sáluhjálp vegna trúarinnar einnar, þótt engir ávextir sjáist hennar (sbr. 33. erindi í »rófunni«).

Víða er Jóns lærða getið í riti, og hefir verið sneitt í þessari grein frá því að endurtaka það, sem annarstaðar er greinilega rakið, annað en það, sem nauðsynlegt var að taka með. Þar til má fyrst og fremst telja Landfræðissögu Þorvalds Thoroddsens, er ítarlega gerir grein fyrir náttúrufræðaritum Jóns, sem fyrr segir, grein eftir Ólaf Davíðsson um víg Spánverja 1615 (í Tímariti Bókmenntafélagsins 1895), sem einnig er getið um áður. Auk þess er nokkuð um Jón í kirkjusögu Finns byskups Jónssonar (Historia ecclesiastica), Sciagraphia Hálfdans Einarssonar, Árbókum Espólíns, Þjóðsögum Jóns Arnasonar (í formálanum, sem er eftir Guðbrand Vigfússon), Digtningen på Island i det 15. og 16. århundrede eftir dr. Jón Þorkelsson, landsskjalavörð, Byskupasögum síra Jóns Halldórssonar og fleiri prentuðum ritum. En um óprentuð rit má nefna það, að Gísli Konráðsson hefir samið þátt af Jóni lærða (sjá handritasafn Landsbókasafnsins, Lbs. 1131, 4to., JS. 291, 4to.), en mjög er lítið á honum að

græða og minna miklu en vant er um rit Gísla; sumt er þar og ekki með öllu rétt. Þátturinn er að mestu uppsuða úr formála Guðbrands Vigfússonar fyrir Þjóðsögunum og frásögn Jóns lærða sjálfs um víg Spánverja, ásamt útdrætti úr kirkjusögu Finns byskups, er Gísli hefir látið þýða fyrir sig. Ævidrápan hefir og fáum verið kunn þessara fræðimanna. Ólafur Davíðsson hafði aldrei séð hana, Guðbrandur Vigfússon hefir að eins þekkt brot af henni (það handrit, sem í þessari útgáfu er kallað B.), en Þorvaldur Thoroddsen einn hefir þekkt og notað handritið A (eða réttara sagt eftirrit Jóns Sigurðssonar af því í JS. 92, fol.).

Rit Jóns lærða eru talin upp í Landfræðissögu Þorvalds Thoroddsens, II. bindi, bls. 73 o. s. frv. Þeirra er og getið sumstaðar hér að framan og í athugasemdunum við Ævidrápuna, og læt eg mér nægja að vísa til þess. Mikill aragrúi er til af afskriftum rita hans, og yrði of langt að rekja það hér. Prentuð eru til kvæði hans nokkur bæði í *Huld* (sjá registur þar) og í *Íslenzkar gátur, þulur, skemmtanir og þjóðkvæði* (sjá IV. bindi). Ritgerð hans um *ættir og slekti* hefir verið gefin út af Hannesi Þorsteinssyni í Safni til sögu Íslands, III. bindi. — Þess skal að eins getið um eitt rit, *Víkingarímur* (um Spánverjavígin), sem eru í AM. 145, 8vo., og eignaðar hafa verið Jóni lærða, að þær geta engan veginn verið eftir hann. Rímurnar eru »Ordtar af Jone: G: S«., eftir því sem segir í fyrirsögn þeirra. Dr. Kålund lætur ekkert sagt um það, hver höfundurinn sé, en Jón Sigurðsson eignar þær fortakslaust Jóni lærða bæði í eftirriti, sem hann hefir tekið af þeim (í JS. 92, 4to.) og í Rímnatali sínu (JS. 314, 8vo.). Nú er það að vísu svo, að »G. S.« táknar venjulega Guðmundsson, en bæði er það, að höfundur rímnanna talar um föður sinn svo sem hann hafi verið á lífi árið 1615 og verið illa leikinn af Spánverjum, og enn fremur lýsa rímurnar ókunnugleika hans um Hornstrandir. Þetta hvort tveggja girðir því fyrir það, að Jón lærði hafi samið rímurnar. Vera má, að höfundur þeirra sé Jón Guðmundsson í Rauðseyjum, sem var mikið rímnaskáld;

mætti rannsaka það með samanburði við aðrar rímur, sem til eru eftir hann, en það verkefni heyrir eigi hér til. Það væri og, ef til vill, vert að gefa nánara gaum að rímum þessum, vegna þess að Ólafur Davíðsson hefir ekki notað þá heimild í ritgerð sinni um Spánverjavígin, sem fyrr er nefnd.

Ævidrápa Jóns lærða, sem einnig er kölluð Fjölmóður, er orkt árið 1649, að því er segir í handriti því, sem hér er merkt *A*. Hefir Jón þá verið 75 ára að aldri; handrit af þessu kvæði sínu mun hann hafa sent Brynjólfi byskupi Sveinssyni, er hann getur lofsamlega í 320.—321. erindi Ævidrápunnar. Því miður er eiginhandarrit Jóns að þessu kvæði nú ekki til, svo að menn viti. Kvæðið er því hér gefið út eftir eftirritum, og eru þau tvö, sem menn vita af.

1. Handrit í handritasafni Landsbókasafnsins, Lbs. 89, 8vo; það mun vera ritað hér um bil 1720—1750; ekki get eg að svo stöddu sagt, með hvers hendi það er, en skólagenginn virðist sá hafa verið, sem skrifað hefir það. Í þessu handriti eru ýmisleg fleiri rit með öðrum höndum, og hafa ritgerðirnar upphaflega eigi verið saman, eftir því sem ráða er af greinagerð Páls stúdents Pálssonar framan við handritið. Ævidrápan er aftast í handritinu, og segir Páll stúdent þetta um hana: »Hins vegar er síðasti kaflinn, ɔ: Ævidrápa Jóns lærða, tínd saman úr lausablöðum þess, [þ. e. safnsins] og samanlesin og fylld að því leyti [sem] varð eftir öðru handriti«, þ. e. handritinu sem hér er merkt B. Þetta er aðalhandritið, sem farið hefir verið eftir, og hefir því verið fylgt víðast hvar í útgáfunni, enda virðist það yfirleitt halda ýmsu, er einkennilegt er og líklegt er, að verið hafi í frumritinu. Stafsetningu hefir þó ekki verið haldið, með því að ekki var um frumrit að ræða, en að öðru leyti hefir þó verið haldið rithætti, þar sem ritað virðist eftir framburði, þótt nú sé annar ritháttur talinn réttari. — Þetta handrit er hér kallað *A*.

2. Handrit í handritasafni Landsbókasafnsins, JS. 609, 4to., sem hér er kallað *B*. Fremst í þessu handriti er ritgerð Jóns um ættir og slekti, sem Hannes Þorsteinsson

hefir gefið út í III. bindi Safns til sögu Íslands, og er sama hönd á því sem á Ævidrápunni. Sá, sem ritað hefir þetta handrit, nafngreinir sig að vísu ekki, en tvíllaust er það með hendi Jóns lögréttumanns Ólafssonar á Grímsstöðum og virðist munu vera ritað á árunum 1740—1750. Þetta, að hönd Jóns Ólafssonar er á þessu handriti, má sjá t. d. á handriti í Lbs. 818, 4to., sem er með sömu hendi, og þar (á bls. 60) nafngreinir afritarinn sig. — Handritið *B* er miklu lakara en handritið, sem hér er kallað *A*, enda nær það skemmra, að eins aftur í 244. erindi. Aftur á móti hefir verið hægt að fylla með því þau blöð, sem týnd eru úr *A*. — Handritið *B* hefir komist frá Ólafi, syni Jóns á Grímsstöðum, í eigu Þorvalds Sívertsens í Hrappsey, og þaðan til tengdasonar Þorvalds, Jóns bókavarðar Árnasonar, en hann hefir selt það Jóni Sigurðssyni með öðrum handritum.

Bæði Jón Sigurðsson og Jón Árnason hafa tekið eftirrit af þessum handritum (A og B) og er þau að finna í JS. 92, fol. Auk þess hefir Páll stúdent Pálsson tekið eftirrit af *A*, og er það að finna í Lbs. 170, 8vo. Af *B* er nýlegt eftirrit í Lbs. 575, 4to.

---

## Forspjall[1]).

1. Faðir himneskur
með frægum sigri
og þeim signaða
sannleiks anda
mig styðji, styrki,
stoði og hugsvali
og á böli öllu
bætur vinni.

2. Forspjall lítið
framan til ljóða
fyrir lesandann
eg læt hér vera,
en það relation
eða rytju-annál
mega skýrt kalla
menn, það vilja.

3. Til munu dæmi
dýrra manna
fyrri í heimi
fornu aldar;
minnilegar bækur
Moses gerði[2]);
það er siðvani
sumra manna.

4. Hér skulu engar
óbænir stórar
né heiftarkveðjur
í hróðri finnast,
þó á mótvindi
minnist lítið,
hvað víða eg hefi
verið í hættu.

5. Hefi eg í mannraunir
margar ratað,
oft langt komið
líftóru minni,
orðið fyrir grimmdum
galdramanna,
þar sem flokk þeirra
forðast vildi.

6. Sigur hefir mér
sjálfur guð gefið,
að eg enn við líf
aumur tóri;
margir svo stoltir
stokknir undan
af þeim dimmneskum
dóm sinn fengu.

7. Hafa lyga hríðir

1) Þessi fyrirsögn, (sbr. 2. erindi), stendur ekki í handritunum 2) Yfir línunni; útstr.: skrifar.

um land vort gengið,
um mig þó ekki
í minnsta lagi;
vil því með sannleik
víkja til baka,
sem fyrir öfundarróg
upp er diktað.

8. Eru og offylgis mál
altíð fegruð,
kostprís lagður
hjá lýð sveita
svo stórbrot öll[1])
straffist síður
eða þó voldugir
víki af rétti.

9. Hér skal af mörgu
minnzt á dálítið,
en stikla hjá
stærstu og verstu;
sá er, sem leitar
líka og dæmir;
hið leynda verður þó
ljóst um síðir.

10. Mun hér karli bálkur
úr kúrum rakna,
stirður[2]), stuttur,
stundar glósa;
þó þyki leiður
að lesa hjá stórum,
má hann þá[3]) liggja
meinlaus öllum.

11. Margt hefir verið
um mína ævi
lagt til lýta mér
lúnum karli,
það eg kvartaði
um kroppið músa
eða hvolpa glepsur
í hæla aftan.

12. Þola mætti eg meira
en þetta dálítið,
enginn þó á mér
örkumsl sæi,
þá mundi tungan
til í hvopti,
óskað hafa nokkrir,
að engin væri.

13. Það eftir hér[3]) fylgir
í ævidrápu
ástutt lítið[4])
af leik þeirra
kvak kvæklinga[5]),
kortvil sumra,
glettur grábletta,
gusur og þausnir[6]).

14. Nú leika hofmenn
á hjóli sínu
heims undir höfðingj-
hávu[7]) merki, [ans
en krossburðar
kvaldir[8]) aumingjar[9])

1) Hdr.: *ölle.* 2) Hér hefst *A*, en það sem í vantar, er þar útfyllt eftir *B*, með hendi Páls stúdents Pálssonar. 3) Er ekki í *B.* 4) lýti, *B.* 5) kraklinga, *B.* 6) þusur, *B.* 7) háu, *B.* 8) krankir, *B.* 9) kunning[i]arnir, *B.*

böl[1]) sitt bera
til betri vonar.

15. Kápur[2]) láta sníða
Kalvíns hópar
eftir lystingum
og losta prýði,
þykir skrautlega
skína á mörgum,
það álfríið[3]) síðan
af sér fæðir.

16. Hvað hugskotseyrun
heyra stundum
eða augun andar
út fá skoðað,
nefna má ekki
í nýrri öldu;
gert er að því gamla
gys með spotti.

17. Til forna hefi eg
fært í skildi
fugl undir merki,
fjölmóð litla,
innsigliskorn mitt
enn það vitnar,
sumir þann[4]) vesling
selning kalla.

18. Hann er hjá öllum
aktaður lítið,
mjög forlitinn[5])
hjá meiri og stærri
meinlausastur,
megðu[6]) skepna,
íhugafullur
og angurbitinn.

19. Meinar hann, að sjórinn
muni upp þorna
fyrir brimfroðu korn,
sem ber í nefið[7]),
fagnar því um flæðar,
en um[8]) fjöru sorgar,
kvíðir við mörgu
sem karlinn vesali.

20. Því skal[9]) formálinn
frammjór vera,
svo sem fjölmóðs nef
eða fleinn hans nasa[10]),
um búkinn þykkur
sem bálkur rauna,
dyrðill lítill
dregst á eftir.

## Ævidrápan sjálf[11]).

21. Það skal upphafit[12])
ævidrápu,

1) bú, *B.* 2) kápu, *B.* 3) Svo í *A* og *B*, mun líklega eiga að vera *alfríið* (af *allur* og *frí*) og tákna taumlausa lausung; Grunnavíkur-Jón þýðir orðið í orðabók sinni með *libertinismus.* 4) þá, *B.* 5) forlátinn, *B.* 6) megða: megurð; B. Halld.: macie enervatum corpus. 7) nefi, *B.* 8) Er ekki í *B.* 9) skal nú, *B.* 10) hannnasa, *A.* 11) Fyrirsögnin í *A.*: Ævidrápa Jó. G. S. anno 1649 ætatis 75. 12) upphaf, *B.*

þúsund fimm hundruð
fjórir og sjötíu[1])
var eg frumgetinn
fæddur við[2]) haustið
í Ófeigsfirði
á Hornströndum.

22. Ólst eg upp síðan
í Árness þingum,
sá eg Steingrímsfjörð
sextán vetra,
hafða eg fengið ár
fjögur og tuttugu[3]),
þegar minn faðir
fór að sofna[4]).

23. Sið um haustið,
er[5]) sótti hann kirkju,
aukið var manni
í sveit vora;
sá hafði kjagað
kringum Hornstrandir,
en af Vestfjörðum
vaflað þangað.

24. Hafði ónáttúrur[6])
undarlegar,
sitja sást aldrei
svo sem aðrir menn;
stóð hálfboginn
eða hvildi sig flatur,
en klukkna hljóð
kunni ei líða.

25. Á[7]) buddu svartri
brjósti undir
hvildi gjarna
sá heljar sinni[8]),
þar var í blóðhorn
þeygi fagurt,
þar hann það sýndi
sumum mönnum.

26. Kolblásvartur
kjaftur var innan
á þeim bófa
og út úr fýla;
því hafði fliku[9])
fyrir munngati,
þegar við vísa menn
var að ræða.

27. Hvað hann fyrir sagði
framgang hafði
um lífdaga manna
lömb eða sauði,[10])
gekk inn í jörð
og út um kletta
og svo á vatni
veikt skurmuðu[11]).

28. Þegar minn faðir
fundið hafði
þenna ókendan
þrjótinn svarta,
á sama tungli
sér sóttar kenndi,

1) Táknað með tölu í *A.* 2) um, *B.* 3) Með tölustöfum í *A.* 4) deyja, *B.* 5) þá, *B.* 6) hann náttúrur, *B.* 7) Í, *B.* 8) slinni, *B.* 9) þ. e. pjatla. 10) lamba og sauða, *B.* 11) og vatninu einsskurmuðu, *B.*

líkast aðsóknum
eður nalgskeytum[1]).

29. Hálfan annan dag
hann hvíldi í[2]) rekkju,
fekk þjónustu
og fór að sofna,
ölmusu skylda[3]) eg
afgreiða síðan,
hartnær fimm aura,
sem hann á nefndi.

30. Það skyldi eignast
sá hinn ókenndi,
sá hélt sig hrumaðan[4])
og heldur vel kristinn;
senda eg honum þetta
síðan með skilum,
þar fengið hús hafði
á Finnbogastöðum[5]).

31. En sem eg sá,
hann ógnaði stórum,
því mér virtist ei
vera einsamall,
sagðist hann vera
af berserks blóði
og háð í hljóði
hólmgöngur margar;
hefði um ævi[6])
alla sigrað,
myrkrum úr kominn,
við mig að reyna.

32. Eg bauð fyrir mig
boð til friðar,
ungur, ókænn
við anda[7]) berjast.
En hann sagðist
sendur vera
á sakleysið
sækja jafnan.

33. Bárð sig nefndi
breytinn dóli
og lézt kunnugur
um landið víðast.
Enginn þó vissi
ætt né slekti
myrkrabófa,
sem meinum olli.

34. Hleypti hann ónáðum
á mig síðan,
dimmur fylgdi þar[8])
drekinn stóri; [með
sáu menn margir
magnaðan fljúga
fram og aftur
á fyrsta vetri.

35. A misseri fimmta

1) svo í *A*, og hefir þar fyrst staðið *naglskeytum*; *B*: *nábitum*. 2) hélt við, *B*. 3) 1. pers. sing. imperf. veikra sagnorða er hér venjulega rituð með endingunni -a í *A*, en -i í *B*. 4) hruman, *B*. 5) Finnboðastöðum, *B*. 6) Hér er skipt erindum í *B*., og síðan jafnan svo til 73. erindis, að erindi byrjar í miðju erindi eftir *A*, sem virðist skipta erindum réttara. 7) aðra að, *B*. 8) Er ekki í *B*.

mey eg festi,
undur allmörg[1])
yfir þó gengi.
Of langt er það
allt[2]) að greina,
utan nauðreynslu
nefna fyrstu.

36. Fyrir þau jólin
fólinn myrkra
á reisu sinni
rauk til heljar,
í Norðrárdal
á Nástrandir,
togaður síðan
til Hvergelmis.

37. Hafði umbúning
illan magnað,
áður fjandans[3]) þegn
fór að deyja;
gerði til stefnu
góðum jarðmanni[4])
mjög nauðugum
mig að ásækja[5]).

38. Þó fóru undan
ósköp önnur,
vetur þann allan[6])
voðar[7]) brögðóttir,
að eg með vopnum
veginn yrði
fyrir utan sakir
eftir vanda.

39. Þrjú misseri
það hékk[8]) yfir
ásamt ónáðum
öðrum mörgum,
[því að[9]) stefnuvættur
stríðið langa
strax að vori
víst byrjaði.

40. Veturinn eftir
voðar á gengu,
fylgdi þar með
fellir sauða,
lagðist frá gagnsemd
lands og sjóvar,
mannfall eftir
mundi þá koma.

41. Svo liðu ár fram
eitt og níu[10]),
átta eg að[11]) mæta
angurskúrum[12]),
í[13]) Ólafseyjum
undan Skarðsströnd
jeg hafði veru
á jólum tíundu.

42. Á hafði gengið
ár tvö liðin

1) mörg að, *B.* 2) upp, *B.* 3) fjandast, *B.* 4) jardmirkra, *B.* 5) sækja, *B.* 6) annan, *B.* 7) voða, *B.* 8) gekk, *B.* 9) þar að, *B.* 10) Með tölustöfum í *A.* 11) Er ekki í *B.* 12) Angurs stundu, *B.* 13) Er ekki í *B.*

undur Geirmundar[1])
eftir vanda,
því þar heljarskinns
haugur er[2]) orpinn,
hefir glettur gert
að gömlu og nýju.

43. Hálfan mánuð
harðfengustu
feikn á dundu[3])
fram um jólin,
hlaut sig birta
sá bjó í jörðu[4])
við enda stefnu,
ellegar springa.

44. Þá tók að hægjast
hvað sem annað[5]);
var eg þá [fullvel
virtr[6]) af höfðingjum,
með gjöfum og vinskap
ginntur þaðan
undir þann krossburð,
sem kom á eftir.

45. Aftur mig flutti
í sveit mína,
margt þó brygðist,
sem mér var heitið;
svo hlaut að búa
þar eg sízt vildi,
það eftir sig leiddi
annað fleira.

46. Þá gekk hið grimma
grjótkast vestra
á Snæfjalla Stað[7]),
til [auðnar horfðist[8]);
Þorleifr[9]) skáld gott
þar var til sóktur,
en eftir það á gekk
allt úr hófi.

47. Gangárinn[10]) annar
glettur sýndi
á öðrum vetri
[og enti um síðir[11]);
kom þá fullgóður
friður á eftir;
of langt er allt slíkt
upp að telja.

48. Þá er það upphaf
enn tíðinda

1) Geirmundur heljarskinn, landnámsmaður, bjó á Geirmundarstöðum, en það er nú hjáleiga frá Skarði á Skarðsströnd, og liggja Ólafseyjar þar undir. 2) var, *B*. 3) stríddu, *A*. 4) þ. e. Jarðmaðurinn, sem áður er nefndur. 5) annar, *B*. 6) fullvel virtur, *B*. 7) Hér er átt við usla þann, er hinn svo kallaði Snæfjalladraugur gerði, sbr. Íslenzkar þjóðsögur (Jóns Árnasonar), I. bindi, bls. 260—262. Jón lærði var síðar fenginn til þess að koma þeim draugi fyrir, og orkti þá Snæfjallavísur, sem prentaðar eru í Huld (5. hefti), Rvík 1895, bls. 22 o. s. frv. 8) ánauðar mörgum, *B*. 9) Þetta er Þorleifur Þórðarson (Galdra-Leifi), sem fenginn var til þess að fást við draugsa. 10) Gangarinn, *A*, Gagarinn, *B*. 11) [vetri öðrum, *A*.

á ári þrettánda
eftir sextán[1]) hundruð
hafskip ókennt
hljóp að landi,
upp á Kallbaksvík[2])
komst úr ísum[3]).

49. Landsmenn höfðu ekki
hafskipum vanizt,
flýðu lafhræddir
í fjöll og dali,
sökktu í gryfjur
sínum eldsgögnum
og mörgu fleira
fyrir sér spilltu.

50. Slíkt undruðust
hinir[4]) ókenndu,
vissu ei, hvað
þeir[5]) horfa skyldu,
þar til hungraði
heimska þræla
og fýsti að skoða
fólkið útlenzka.

51. Héraðsprófast[6])
þeir höfðu ágætan,
létu honum segja
svoddan tíðindi,
en hann bréf sendi
báðum kapteinum,
hvert þeir með vinskap
vel meðtóku.

52. Af Viscaien[7])
voru út[8]) sendir,
hvalveiðis fólkið[9])
Hispanie[10]),
ekki þó langt frá
landamótum,
flutu þar og í bland
franskir nokkrir.

53. Fundust oftlega
á því sumri,
kölluðu sinn vin
síra[11]) Ólaf;
skullu í skenkingar,
skorti ei alvöru,
voru mjög mildir
af mat og veiðum.

54. Vísaði þeim
til veiðiskapar
á Steingrímsfjörð[12]),
þar stóð hans kirkja;

---

1) 600, A. 2) Kaldbakvík, A. 3) Hér hefst að segja frá Spánverjum og atferli þeirra á Vestfjörðum; er frásaga Jóns lærða um það prentuð í »Fjallkonunni« 1892. Ólafur Davíðsson hefir ritað ítarlega um víg Spánverja í Tímariti hins íslenzka Bókmenntafélags 1895. 4) þeir, *B*. 5) Er ekki í *B*. 6) Hér er líklega átt við síra Snæbjörn Torfason á Kirkjubóli. 7) þ. e. Biskayahérað á Spáni. 8) Er ekki í *B*. 9) fólki, *B*. 10) Hispanien, *B*. 11) Svo í *B*. þ. e. »s:«, og mundi þetta vera síra Ólafur Halldórsson á Stað í Steingrímsfirði. Í *A* stendur »Sanctus Ólaf«, þ. e Ólaf helga, en líklega mun þar rangt lesið úr böndum (Ste fyrir Sra). 12) Steingrímsfirði, *B*.

þeir seytján hvali
um sumarið veiddu,
létu lukkuför
og léku við fingur.

55. Þar komu margir
til matfanga,
en flestir til funda
og frétta nýrra,
Ari Magnússon[1])
einnig líka,
valinn höfðingi
yfir Vestfjörðum.

56. Sá góði prestur[2])
gekk á milli
og til vinsemdar
öllu stýrði,
svo að skildu
og út sigldu,
mundi það nærri
Michaelis[3]) degi.

57. Aldrei einn þeirra
á því sumri
fann eg né sá,
þó fréttir heyrði;
hvernig kunna eg þeim
þá[4]) til héraða vísa,
ellegar hafna
hér í landi?

58. Fengu í haustmyrkri
hafvillur stórar,
í sjó hröktust
allt til jóla;
þóktust þó[5]) heppnir,
er heim komu
með fragt fulla[6]);
sú ferð var prísuð.

59. En að vori
vildu Spanir
sex[7]) og tuttugu skip
senda hingað;
Englands strákar
á þá hittu
og slógu strax
slétt á flótta.

60. Rændu suma
og ráku í tvístranir[8]),
ein tíu skip
Ísland fundu,
á Steingrímsfjörð
flestir héldu,
en norður lengra
nokkrir lágu.

61. Franskir [nokkrir
þar[9]) fylgdu með líka,
við Kongs-eyjar[10])
kjöru sér veru,

1) þ. e. Ari sýslumaður í Ögri. 2) Líklega síra Ólafur Halldórsson á Stað í Steingrímsfirði. 3) Michaels, *B.* 4) Er ekki í *B.* 5) þá, *B.* 6) alla, *B.* 7) Í tölustöfum í *A.* 8) tvístran, *B.* 9) þar einir, *A.* 10) $k\overline{gs}$ eyjar, *A.* Hér mun líklega átt við bæinn Eyjar norðan til við Bjarnarfjörð, er var konungs eign; bærinn ber nafn af eyjum, sem þar eru fyrir landi, og heitir ein þeirra Kongsey.

— fengu vel-flestir[1])
veiðar góðar,
en fyrir slysni
eitt skip misstu.

62. Stóð vinskapur
stíft sem fyrri
með yfirvaldsmanni
og öllum hinum,
þar til kennimaðrinn
kallaðist héðan,
séra Ólafur vor,
til sællar vonar.

63. Sorguðu allir
svifti slíkan[2]),
minnkaði líka
mjög hvalveiði;
þá tóku strákar
að stela frá spönskum,
því enginn var nærri
að aftra kauðum.

64. Voru sakadólar
í sveit inn komnir,
þeir[3]) nefndur valds-
[maður
náðað[4]) hafði,
því hann tók sýsluna
svo nær eydda,
bæði óhollir
honum og öðrum.

65. Allmörgum héldu
inni skuldum[5]),
en sögðu, að spanskir
sig hefði ræntа;
hann því trúði
og hér af um snerist,
en þeir mögnuðust[6])
meir og framar.

66. Sjálfur meðkenndi[7])
sinn brest stundum,
að hann þeim skálkum
of mjög trúði,
hætt var við því
höfðingjum fyrri,
nú þó ekki sízt
í öld myrkviða.

67. Til franska skipsins
för sér gerði,
áttu ei Spanir[8])
af að vita;
hann þar[9]) lýsti,
að hefði fram skrifað,
svo hinum yrði
helvegur búinn.

68. Beðið hafði leyndar
bátsmenn franska,
en þeir stallbræðrum
strax kunngerðu;
og þeir hafnartoll
hefði goldið,
fengið bréf upp á
og fast um búið.

1) Velflestir fengu, *B.* 2) slikar, *A.* 3) þar, *B.* 4) náðir, B. 5) skuldu, *B.* 6) mögnuðu, *B.* 7) Síðari hluti orðsins (-kenndi) hefir fallið úr í *B.* 8) spanskir, *B.* 9) því, B.

69. Það var á millum
hans og hinna,
þeir boðið hvaltíund
eftir bréfum höfðu,
en hann þrálega
því neitaði,
vildi ei silfur
sjálfur meðtaka.

70. Lá bátsmönnum
blóð í skinni,
að skyldu án saka
svo vera slegnir,
en kapteinar
öftruðu hefndum,
ráð mundu finnast
í ríku tómi.

71. Voru út sendir
víðara nokkuð
hvalfangs bátar
frá hafskipum;
föluðu sauði
sér til rétta
fyrir fulla aura,
sem fyrr var vandi.

72. Þrælar forboð
fyrir sig báru,
sögðu friðlausa
fóla spanska,
tóku sér í hendur
tré eða ljái,
af þar tálgaðist
úfan meiri.

73. En hvar friðarfólk
fyrir þeir hittu,
sem[1]) buðu til mjólkur
eða baksturelda,
lögðu frjálslega
laun á móti;
það var falstungna
fyrsta tilefni[2]).

74. Sögðu hollustu
hálku þjónar
að aftra þeim,
er órétt gera,
svo að fljótara[3])
fengi sakir
því til fullustu,
er fram var skrifað.

75. Lágu fjögur skip
langtum[4]) norðar
í Árness þinghá,
allt hjá Ketsvogi[5]);
engelskur pilot[6])
af þeim flokki
til eggjaður
mig tók til fanga.

76. Þóktist eg illa

1) þeir sem, *B.* 2) Hér virðist eftir *B*, svo sem í vanti hálft erindi, þótt ekki saknist þess efnis vegna, og er víst að eins sprottið af ruglingi í því handriti á erindum, og skifta nú bæði handritin eins erindum hér eftir. 3) fljótari, *B.* 4) löngu, *B.* 5) Svo í hdr., er nú oftast nefnt Kersvogur. 6) þ. e. hafnsögumaður.

þá vera kominn,
þó meðlæti nóg
af mönnum hefði;
með kapteina vitund
eg komst úr skipi,
harðar þó eftir
hefndir urðu.

77. Geymdi svo guð mig
og góða vini,
að ekki skaðræði
af þeim fengum[1]);
þeystu í burtu
þrjú skip síðan,
en það stærsta
eftir dvaldi.

78. Sá vildi[2]) plundra
páfans vegna,
út þó með sér
ungt fólk taka
og kenna láta
katholisk[3]) fræði,
setja til sæmdar
í sínu landi.

79. Báðu mig ráða
búendur sveitar,
svo að afstýrðist[4])
áform þetta;
þeim voru seldir
sauðir þrjátíu;
allt friðstilltist,
og svo skildum.

80. Á þriðja vorinu[5])
það var tíðinda,
að hröktust úr hafís
hvalfangsbátar,
lágu [tveir tepptir[6])
þar til voru komnir
heimskir sjóþrælar
úr héruðum öðrum.

81. Létust vilja drepa
drengi spaka,
gera launmorð úr,
sem lymskir plaga[7]);
mundi svo frægðin
fljúga um landið
og það afreksverk
uppi vera.

82. Með hábrauki
hófu bardaga
þrjátíu landsmenn
um þrettán hina,
en þeir mannlega
móti tóku,
svo að fólar flýðu
á fjöll og dali.

83. Höfðu skúmar tveir
skemmdir fengið
og svo hrófnað
hinir af grjóti,
yfirmann báta,
Azcentius,

1) fengu, *A*. 2) vill, *B*. 3) catolizku, *B*. 4) af slægist, *B*. 5) vori, *B*. 6) tvö eftir, *B*. 7) Hér frá aftur í 90. erindi: »framan úr hafi« vantar í *A*, og er þar útfyllt eftir *B*. með hendi Páls stúdents Pálssonar.

lét alsættast,
áður en skildu.

84. Sáu fyrir Ströndum
sextán hafskip,
ætluðu margir
ófrið boða,
mundi það nærri
miðju sumri,
lögðu þrjú af þeim
þar til hafna.

85. Til Ryssa austur
rásuðu hinir
eftir vanda
að afla hvalveiða,
rauk og strax heiman
til Reykhóla
yfirmann hitta
og til ráða.

86. Á höfðu skrifast
yfirmenn ríkja[1]),
að fjögur skip mætti
í friði liggja,
ef meinlausir
mönnum væri,
en þeir til settu
einu færra.

87. Tólf hvali unga
þeir fólki færðu,
gáfu og skenktu meira
en gjald tóku,
til Matthei dags
mundu dvelja,
voru þá búnir
burt að sigla.

88. Hafði varnarskipið
valda þegna
og frægan Martinum
á Frakkaþorpi[2]),
enn Pétur gamla
pilot vísa
sagði ugganda
um skipskaða.

89. Því á betri höfn
bússu færðu;
annar var hinn prúði
Pétur Ageirus;
þriðji Stefán,
þræll hinum[3]).
Vær sveitarmenn
vorum þar staddir,
sáum upphafið
undurteikna.

90. Flutu að landi
framan úr hafi
tveir[4]) falljöklar
turnum líkir,
gengu í sundur,
þegar grunns kenndu,
[bárust þar upp að[5]),
sem bússur lágu.

91. Tók himin þykkvan
að hnykla allan,

---

1) ríka, hdr. 2) þýðing á nafninu Villa Franca. 3) Svo í hdr. 4) Hér hefst *A.* aftur. 5) báru þar upp, *B.*

sem úr miðdagsstað
mundi ógn koma.
[Sagða eg við Pétur
um sjáanda háska,
kvaðst hann og kunna
um kvöld uppleysa[1]).

92. Væri og svo Stefán,
sinn stallbróðir,
hjálparlaus eftir,
ef hinir frá færi;
skyldi sannkristinn
svo við annan
sem sjálfs[2]) fingur
á sömu hendi.

93. Komumst vær[3]) til bæja
frá búðum þeirra
nærri dagsetri,
[þó að dimmt[4]) væri;
mundu þá húsin
hentust vera,
því að kyngjur[5]) mestar
komu þá yfir.

94. Gekk [eldgangur sá[6])
með ógnarbrestum
inni í húsum
sem úti um foldir,
burt sviftu bylir
bæja húsum mörgum
og um rótuðu[7])
allt í grundir[8]).

95. Á millum skauzt
í myrkrið[9]) svarta
með skrekkingum[10])
og skjálfta jarðar.
Fólk hafði ekki
frið né rósemd,
fyrr en hár dagur var
um himin allan.

96. Höfðu skipskaðar
skeð um nóttina[11]),
allir þrennir
einn veg fengið;
af Pétri týndust
tveir menn beztu,
en af Stefáni
einn bátsmaður.

97. Fundum[12]) armingja
enn við búðir,
næsta var sorglegt
að sjá til þeirra,
marðir og meiddir,
mjög fáklæddir,

---

1) Frá [ er í *B.* svo:
Sagða eg Pétri
um sjáandi háska,
sagðist hann og kunna
upp að leysast.

2) sjálf, *B.* 3) vér, *B.* 4) [dimmt þó, *B.* 5) þ. e. kynngi, kynngiveður. 6) þá eldgangur, *B.* 7) rótaði, *B.* 8) grunn niður, *B.* 9) myrkri, *B.* 10) skreitingum, *B.* 11) nóttu, *B.* 12) fundu, *B.*

lágu um grundir,
við líf tórðu[1]).

98. Nú skal kynna
um kapitan[2]) þriðja,
áður en skaðans byl
skelldi yfir;
með dreng sínum
drallað hafði
yfir Naustvíkur-skörð[3])
og norður[4]) að presti[5]).

99. Átti hann skuldir
að honum stórar,
[bæði fyrir hvalkaup
og hitt hið leynda[6]),
vildi þó[7]) skiljast
vel við alla
og nokkra skaðabót
í skenking þiggja.

100. Tilmæli hafði
tveggja sauða,
skyldu þá í vinskap
skuldir kvittar,
en prestnefnan
eftir vanda
illyrðin ein
fyrir útlát greiddi.

101. [Báðu grannar prest[8])
að gera til nokkuð,
svo í friði mættu
finnast allir;
nautkálf litlum
naumr um síðir
hét kapteini,
og hér með sættust.

102. Yfir Skörð[9]) aftur
í náttmyrkri
léði mann og hest
til leiðsagnar;
slíkt[10]) er á móti
meinlygi þeirri
um henging prests
eða heimsókn aðra.

103. Brandur[11]) fekk í skipi
blíðar viðtektir,
þar til skaðinn yfir
skall á nóttu;
losnuðu akker öll
upp úr djúpi
og[12]) það megnisskip
í mölina[13]) setti.

104. Gekk frá stýrið,
en gat á steyttist,
þótti bætanda
sem bezt í tómi,
hefði ei æfintýr
önnur hindrað,

1) hörðu, *B.* 2) kaptein, *B.* 3) liggja milli Reykjarfjarðar og Trékyllisvíkur. 4) niður, *B.* 5) Þessi prestur mun vera síra Jón Grímsson í Árnesi í Trékyllisvík. 6) *B:* hvalkaup og svo hið leynda. 7) hann, *B.* 8) Grannar báðu prest, *B.* 9) þ. e. Naustvíkurskörð. 10) þetta, *B.* 11) Líklega fylgdarmaðurinn frá Árnesi. 12) Er ekki í *B.* 13) molana, *B.*

og auðnast vel
aftur að vitja.

105. Prestur þá Martein
fór að finna,
ef nautkálfinn
nú vildi þiggja;
hann kvað Pétur vera
hálfu nær kominn,
skyldi því heldur
honum færa.

106. Hann fekk af Pétri
hér á móti
kistil stóran
og kistu valda,
hvað það annað,
sem hafa vildi,
því mildin var hjá þeim
mjög hin sama.

107. Prestur vísaði þeim
til Vestfjarða,
því að Gunnsteins[1])
geðleg væri, [skúta
sagði og hollara
í hópa að skiptast
en leita ölmusu
um landið víðar.

108. Hans þeir meira
hlýddu ráðum,
[of vel trúðu
táli lögðu[2]),
gaf þeim vitnisburð,
hvað verið [höfðu
góðir[3]),
með eiginhendi
á latínu.

109. Út fóru síðan
á átta báta[4])
áttatíu manns
og [einir þrír[5]) drengir;
þeim flotaði[6]) síðan
fyrir Hornstrandir,
þó að ófær sjór
öllum þætti.

110. Fundu Gunnsteins bæ
garpar síðan,
svo þeir skoða mættu
skútu óbætta,
en hann ólmaðist
frá öllu hófi[7]),
var ei kostur
á viðurmæli.

111. Hann lét kvikfé allt
keyra heiman
og fornar smjörkistur
í fylgsni bera,
þrettán baulur
frá þræli sluppu

---

1) Gunnsteinn Grímsson á Dynjanda í Jökulfjörðum, en þar var skip, er þeir hugðu að fara með; sbr. Tímarit hins ísl. bmf. 1895, bls. 118—119. 2) *B:*
of frekt trúðu
tali lognu.
3) hefðu, *B.* 4) bátum, *B.* 5) tveir, *B.* 6) flaut, *B.* 7) hæfi, *A.*

og flösuðu heim
að fjósi sínu.

112. Spanir[1]) inn bundu
allar saman,
héldu vakt upp[2]) á,
að vitjað mundi;
dvöldu nætur
nokkrar þannig[3]),
bíðandi eftir
bóndans svari.

113. Hann lét út frá sér
alla spyrja,
að þeim synjaði
allra funda,
skyldu þeir til skrattans
með skútu fara,
og svo allt annað,
hvað[4]) ófrjálst hefðu.

114. Bjuggust síðan
til burtfarar,
þeir veikari
völdu sér skútu,
[en varnarskips[5])
vaskari[6]) þegnar
sjálfir höfðu
sína báta.

115. Eina geldbaulu
af öllum þrettán
höfðu til nestis,
en hinum slepptu;
þeir aumari bátar
með álagaskútu
vildu í hafsigling
hana reyna.

116. Vömluðu þannig[7])
kringum Vestfjörðu,
á Geirseyri[8])
gáfu staðar,
í kaupmanns búðum
kjöru sér veru,
þar lá danskur einn
drengur eftir.

117. Þau höfðinglega
heiðurs-mæðgin,
[Björn og Ragneiður[9]),
blessuð af drottni,
veittu ölmusu
vetur í gegnum
þeim aumlega stöddum
útlendingum.

118. Nú er að víkja
aftur [að hinum[10]),
Marteins bátar
mundu aðskiljast,
sjálfur hann inn hélt
til Sandeyrar
með hval veiddan,
hann að uppskera.

---

1) Spanskir, *B.* 2) Er ekki í *B.* 3) síðan, *B.* 4) sem, *B.* 5) varnarskipsins, *B.* 6) vaskir, *B.* 7) svo, *B.* 8) Gestseyri, *A.* 9) Hér mun átt við Björn sýslumann Magnússon hins prúða og móður hans, Ragnheiði Eggertsdóttur. 10) til hinna, *B.*

119. En aðrir tveir
eftir hinum
fóru með hægðum.
svo að fundum næði[1]);
vildu víst vita,
hvar um vetur dveldi[2]),
mættu[3]) að vori
vís ráð taka.

120. Vildu fram sigla
valda skipi,
bazla stýrið
og bæta lasnað;
voru í[4]) tveim stöðum
teknir blíðlega,
þar til Ingjaldssand
um[5]) fram komu[6]).

121. En Dýrfirðingar tveir
drógu her saman
og skelldu upp á þá
í Skaganausti[7]);
nú voru lögleidd
náttvíg Íslands,
sem aðrir síðan
eftir breyttu.

122. Einn komst undan,
ungur bengill,
í skútu bátinn
skauzt úr urðu;
[á formenn þess slags[8])
féll ólukka
og eignir þeirra
frá örfum skutlaðar[9]).

123. Strax til Ögurs
[strangir hleyptu[10])
að segja yfirmanni
sælu-fréttir,
en sá talblýðni
tignar-höfðingi
tók ráð hjá þeim,
sem rægðu helslegna[11]).

124. Vildi samsinna
sínum mönnum
og upptekt þeirra
eftir að breyta,
safnaði fólki,
til að svifta lífi,
sinnar sýslu,
Sandeyringa.

125. Hafði í Æðey
hús sér fengið
Pétur sá[12]) gamli
pilot franski[13]),
hans þénari
hraustur Lazarus,
bartskeri[14]) velvís,
með báðum sveinum.

---

1) náði, *B.* 2) dvöldu, *B.* 3) mætti, *B.* 4) Er ekki í *B.* 5) uns, *B.* 6) koma, *B.* 7) Skóganausti, *B.* Þetta örnefni er á svo nefndum Fjallaskaga í Dýrafirði, og eru þar um slóðir enn í minnum ýmis örnefni, sem dregin eru af Spánverjum, að sögn Mattíasar alþingismanns Ólafssonar. 8) á þessa formenn, *B.* 9) sluttaðar, *B.* 10) strangur hleypti, *B.* 11) falsklega, *B.* 12) Er ekki í *B.* 13) Franskra, *B.* 14) barbskeri, *A*, barskeri, *B.*

126. Eftir kvöldlestur
út af sofnaði
Pétur í pallbekk,
[áður písl[1]) tæki,
en Lazarus
lá á gólfi,
dygðugur sveinn hans
dormaði líka.

127. Heimiliskona
hélt á ljósi,
setti á pallstokk,
svo[2]) fram skundar,
skall bandkeppur
í höfuð Lazaro,
síðan Péturs
setti[3]) í enni.

128. En um andlit þvert
fyrir augu neðan
stórri skeggöxi[4])
strax var höggvið,
nærri hjarta stað,
niður í hrygg stungið[5]);
hann sofnaði veginn
svo á nóttu.

129. Haus var og klofinn
hans á sveini
og[6]) hnésbætur
höggnar allar;
þeirra félagar
þrír í húsi
hlutu [líf láta[7])
og lengi vörðust.

130. Naktir blóðkroppar[8])
næst voru dregnir
og bylt í brimólgur[9])
fyrir björg ofan;
til Sandeyrar reistu
á samri[10]) nóttu,
þar sem hinir
[á hvalskurð lágu[11]).

131. Þegar heimafólk
[höfðu út fengið[12])
sett var stríðsfólk
í sínar stöður,
hinir við eldstóru
inni sátu,
vissu ei voða
vera neinn nærri.

132. Kapitan Marteinn
kúrði í skemmu
með fylgjara sínum
og farinn[13]) að sofna,
heyrði byssuhljóð
og brauk stríðsmanna,
bjuggust til varnar
vaskir báðir.

133. Þegar sig reynt höfðu
ríkt að skjóta,
en skemmu-vörður

---

1) písl að, *B.* 2) og svo, *B.* 3) sett, *A.* 4) -exi, *B.* 5) stunded, 6) Er ekki í *B.* 7) [ líflát þar, *B.* 8) kroppar, *B.* 9) brimólgu, *B.* 10) sömu, *B.* 11) að hvalskurði voru, *B.* 12) hafði út gengið, *B.* 13) farið, *B.*

skelfdist ekki,
voru uggandi,
ef út slyppi,
að[1]) mundi fóthvatur
á flótta komast.

134. Martinus[2]) spurði
menn ófriðar,
hverjar sakir
sér yrði fundnar,
að svo skyldi fólk
sitt friðlaust vera
og meinlaust myrðast[3])
um myrknætti[4]).

135. Svaraði þrútinn
þræla klóti
þríbrasaður
og þar til fleira,
vor prestnefna[5])
var þar og[6]) komin
við fjórða mann
í flokki að standa.

136. Vel skaltu, Marteinn,
vita og reyna,
að vor yfirmann
er hér kominn;
það er þér maklegt,
þó þú reynir
ógnir vorar
Íslandsmanna.

137. Höfum vér óttast þig
allt til þessa,
þó þú breytt hafir vel
og[6]) bróðurlega,
nú er þinn úti
ævitími
og fé þitt gervallt
er[7]) fallið kongi.

138. Dixit Martinus:
Deo gratias![8])
Því[9]) vel kanntu sannvitni um bera; [leiks
vissa eg mig ekki
ófrjálst hafa
né manni nokkrum
til miska gera.

139. Hefi eg við land legið
eftir lögum vorum,
boðið upp hvaltiund,
sem bréf mitt hljóðar,
þó vil eg flestallt
til friðar vinna,
líf og góz
undir lögum eiga.

140. Svaraði prestmynd,
satt þú mælir,
minn vitnisburður
vel svo hljóðar,
[en vér hljótum[10])
vorum höfðingja
[og lagastjórnara[11])
til lífs að trúa.

1) Er ekki í *B.* 2) Marteinn, *B.* 3) myrða, *B.* 4) miðnætti, *B.* 5) þ. e. síra Jón Grímsson í Árnesi. 6) Er ekki í *A.* 7) Er ekki í *B.* 8) gratia, *B.* — Þessi latínusetning þýðir: Marteinn sagði: Guði sé þökk. 9) þig, *B.* 10) En hljótum vér, *B.* 11) lagasvörum, *B.*

141. Gerðu svo, Marteinn,
i guðs nafni,
legðu af byssu
og leita[1]) náðar,
ertu þá i [góðum
griðum[2]) velkominn
og úr rétt hefir
öllum þrætum.

142. Dixit Martinus:
[Deo sit[3]) gratia[4])!
Gjarna kvaðst þiggja
þetta vel boðið,
til sagði griðin
tignar-höfðingi,
en prestur fram málbar
á millum tveggja.

143. Byssu út rétti
brátt að presti,
fleygði sér niður
flötum [til jarðar[5]),
skreið að fótum
fyrirmanns úti
i mannhring miðjan[6]);
meinti tryggðir.

144. Grímur að nafni,
grimmur stríðsmann[7]),
hjó með öxi
á háls Marteini,
kom i viðbeinið
völur bilu,
varð ei banasár,
sem bráður vildi.

145. Upp stökk léttfær
yfir axlir manna,
ofan eftir velli
og[8]) út i rok sjávar,
söng á latínu
[sálma og hymna[9]),
sögðu frá prestar,
það[10]) sönnuðu fleiri.

146. Bát var út hrundið
að bana kapteini,
með grjótkasti
grimmlega eltu,
í ennið[11]) rataði
einn um síðir,
svo náði ei rotaður
niður að komast.

147. Fleytt var að landi
flotum síðan,
nakinn á sandi
sviftur klæðum,
kviður var ristinn
á kvikum manni,
en hann snerist við
snart á grúfu.

148. Bundu grjót mikið
við búk opinn[12]),
fluttu á djúpsjó,

---

1) leitaðu, *B.* 2) griðum góðum, *B.* 3) sleppt i *B.* 4) gratias, *A.* 5) á jörðu, *B.* 6) miðjum, *A.* 7) stríðsmaður, *B.* 8) Um fram i *B.* 9) psalmna og rímna(!), *B.* 10) og, *B.* 11) enni, *B.* 12) ofan, *B.*

sem fært var skipi,
þegar varð logn blítt
úr landa vogi[1]);
það var útlagt
með ýmsu móti.

149. Bær var brotinn
til að bana hinum,
blóðnótt alla
í bleytufjúki,
fram á ljósan dag
lengi vörðust,
þó um síðir
sóktir urðu.

150. Þær[2]) vildu dáðir
yfir Dýrfirðinga
ísfirzkir hafa
yfirmanns þegnar,
einkenni eitthvað
upp að þenkja,
á sérhvern blóðkropp
setjast skyldi[3]).

151. Voru út dregnir
úr húsbrotum
og afklæddir
eftir vanda,
sköp af skorin
eða skelld af eyrun[4]),
augu út stungin
og[5]) annað svoddan.

152. Síðan eftir dæmum
Dýrfirðinga
í sjóvar[6]) djúp
sökktir með grjóti;
mátti þá enginn
í moldu hylja,
undir aleigu
eða húðstroku.

153. Allan þann vetur
í sjó hröktust;
þó að[7]) út fluttir
á djúp væri,
upp rak að vori
alla heila,
því að engin kind
á þeim bærði.

154. Voru trúir[8]) menn
til þess fengnir
leynt um síðir
þá að sandhylja;
er hér af miklu
minnzt á lítið[9]),
því að öll sagan
of löng þætti.

155. Þá var í Æðey
allvel drukkið
og svo góz allt
í geymslu pakkað
flutt til Ögurs
á fjórum skipum,
með fóru bræddir
bátar þeirra.

156. Ei var könnuð

1) róli, *B.* 2) þar, *B.* 3) kynni, *B.* 4) eyru, *B.* 5) eða, *B.* 6) sjávar, *B.* 7) Um fram í *B.* 8) tveir, *B.* 9) dálitið, *B.*

kistan stóra,
því eignað var kongi
sem eitt hið minnsta,
vildu ei bændur
hafa blóðræfla[1]),
þar þeir herfangi
heilu sviftust.

157. Skeði Sandeyrar slag
sannlega reiknað
föstudag liðinn[2])
fyrstan vetrar[3]),
en Dýrfirðingar
fyrir dögum átta
sína höfðu
saltað kroppa.

158. Var eg á ferð kominn
í fjúki Sandeyrar,
vildi keppa[4]) til
Kollabúða;
um sex daga
eg sat í fönnum,
votur og soltinn,
þó við líf tórði.

159. Komst eg heilbrigður
heim um síðir
til Ávíkur stærri[5])
í sveit minni;
þá [upp reis fyrst[6])
rógurinn mikli
með fölskum bréfum
og forráðs-lygi.

160. Hafði valdsmaður[7])
virt mig einatt
engu síður
en aðra þræla;
fylltust öfundar
fyrir það nokkrir,
sem við óráðvendi[8])
sér una vildu.

161. Þeim samsinnti
þræla klóti[9]),
sá föður sinn hafði
fullnóg verkað,
sviftur þjónustu,
svangur deyði,
þríbrasaður
þó var undir.

162. Bréf mín aldrei
framgang fengu,
því að þjófreyndur
þeim fargaði;
en rógs pappír
ritaður illa
oft kom í hendur
höfðingsmanni.

163. Hann var vanur
mér til að teikna,

---

1) blóðafla, *B.* 2) liðnum, *A.* 3) þ. e. 14. októberdag 1615. 4) keppast, *B.* 5) stóru, *B.* 6) reis fyrst upp, *B.* 7) þ. e. Ari sýslumaður Magnússon í Ögri. 8) óráðvendni, *B.* 9) Ekki er víst við hvern hér er átt; vera má, að þetta sé síra Jón Grímsson í Árnesi.

engu síður
en öðrum nokkrum,
en þá aldrei
einu sinni
fekk eg einn bókstaf
frá honum sendan.

164. Þá var mér blíðust
borin hans kveðja,
[sendur pappír
eða svo hvað vildi[1]),
þar til mig Tumas[2])
taka skyldi
á reisu minni
í Reykjarfirði.

165. Þá var eg slægur
að sleppa þaðan,
náði áformi
öllu leyndu;
[voru til[3]) kostir
tveir fyrir höndum,
svo eg aldrei þeim
undan kæmist.

166. Frá börnum og konu
að brölta með[4]) Tumsa
og um hávetur
af Hornströndum,
flana til[5]) Ögurs
í flokk stríðsmanna
og í Björns sýslu
blóðga[6]) spanska.

167. Ellegar eg skyldi
eins og Spanir
friðlaus vera
og fá vel bana
hjá hvolpum mínum
að[7]) húsi rofnu,
í náttmyrkri
nístur í tóptum.

168. Neitaði eg báðum
neyðarkostum,
treysta eg[8]) mér ekki
trú að smíða,
né[9]) eg syndaþvott
þar af fengi,
[þó eg baðaði mig[10])
í blóði spanskra.

169. Höfðu tveir dólgar
tekizt á hendur,
að eg afmáður
yrði að sönnu;
sjálfur því lýsti
við söfnuð kirkju
annar þeirra
opinberlega.

170. Þorða eg þó[11]) ekki
svo fljótt að flýja[12]),
þar bréf hafði aldrei
[frá bóndanum[13]) komið;
á svika og lyganna

---

1) *B:* sendi pappírið
svo hvað villti.
2) Tómas, *B.* 3) til voru, *B.* 4) frá, *B.* 5) Um fram í *A.* 6) að blóðga, *B.* 7) í, *B.* 8) Um fram í *B.* 9) Hdr.: en. 10) að baða mig, *B.* 11) þá, *B.* 12) fara, *B.* 13) til bana, *B.*

sögðum tíma
er vandfarið
á vegum ómildra,
þar sem allmargir eftir
einum stunda[1]).

171. Þar til granni minn
gekk til Ögurs,
drjúgt að skrifa
dró eg af ekki;
Tumsi hafði undan
tómhentur komið,
fengið húðstroku[2])
fyrir bréf klóta.

172. Hafði þá bóndi
bálreiður orðið,
[þeinkti kannske
það ske kynni[3]),
að eg mundi vita,
hvað var fyrir höndum;
bréf skrifaði,
blandið nokkuð,
skyldi ferðamanna
fólgið[4]) bíða.

173. Sem hann hafði mitt
bréf
merkt og lesið,
varð óðagangur
engu[5]) minni,
ritaði annað
reiði mengað,
og svo böggladi
báðum til samans.

174. Þegar að[6]) eg meðtók
þessa sending,
var tími kominn
að tölta á flótta;
í Steingrímsfjörð
eg strauk fyrir páska,
síðan yfir Bitru
og suður í Dali.

175. Rann eg út yfir
Rauðamelsheiði,
síðan Staðarsveit[7]),
Stapann[8]) og Lónið,
í Bervík dvaldist
og[9]) beið engelskra,
meinti, að mundi
mér það vinnast.

176. Þó eg dragnaði
á duggur nokkrar
og margir vildu,
að eg með[10]) færi,
svikin var af mér
sigling tíðum,
fylgdi hrakningur
hverri reisu.

177. Sögðu það nokkrir,

1) Þessar tvær síðustu línur eru taldar til næsta erindis í *B*, og stendur svo þar á erindum til 189. erindis, en þá skipta bæði handritin eins. 2) húðstrokur, *B*. 3) Um fram í *B* og líklega ekki upprunalega í kvæðinn, heldur skeytt inn í af afritara, til nánara skilningsauka. 4) fólkið, *B*. 5) ekki, *B*. 6) Er ekki í *B*. 7) Staðasveit, *B*. 8) Stapans, *B*. 9) Um fram í *B*. 10) út, *B*.

satt eg hermi,
að hönd mundi Ara
í hverjum afkima,
og seiður kynni vel
að sökkva duggum,
ef mislíka mætti
maktarmanni.

178. Aldrei þá linnti
angurs fréttum
á vori því;
í vesöld minni
lá eg í hraunum
og holum jarðar,
að fram kominn
í vanmegnan[1]).

179. Fenginn var hröngull
að hafa mig uppi
og til Staðarhóls
strauk frá Ögri,
var þar sannlega
sagt í fréttum,
að mig á duggu
drengir sáu.

180. Von siglingar
var þá öll úti,
komu[2]) strax undrin
yfir mig stóru,
með hálfum tunglum
og heilum meiri
fram á sumar
fyrir þeim jökli.

181. Sýndist mér húsum[3])
hvolft[4]) á ræfrin,
jörð undir mér
eins og bylgjur,
[fallinn sjórinn
yfir fjöll á ofan[5]);
margslags annað
eg minnst af nefni.

182. Hjá Steinþóri[6]) síðan
á Stapa eg lenti,
þau heiðurshjón
mér herlega veittu;
mér byggði búð eina
með börn og konu;
alls fjögur ár
eg þar dvaldist[7]).

183. Þá voru bölbréf
borin að vestan,
vel djúpt vaðið
af vísum höfðingja;
vil eg ei herma
honum til vanæru,
þó eg yfir kæmist
öll þau verstu.

184. Uxu þá kyngjur
úr öllu hófi,

1) Hér á eftir er eyða í *B*, líklega að ástæðulausu. 2) kom, *B*. 3) húsin, *B*. 4) hvelft, *B*. 5) *B*:
féll sjórinn yfir
fjöll ofan.
6) Steinþór eða Steindór á Arnarstapa, sonur Gísla lögmanns Þórðarsonar, hafði um tíma sýslu á Snæfellsnesi. 7) dvaldi, *B*.

þegar vindur stóð
af vesturklökkum,
[galdratindi
og gandhrókum,[1])
sem danskir kaupmenn
drjúgt[2]) af vissu.

185. Sáust ei né heyrðust
sakir ljósar,
utan útjagan[3])
frá öllum firði;
skyldi í sýslu
aftur rekast[4]),
eftir vild manna
[svo verkast[5]) mætti.

186. Var lögmanni
lagt strangt fyrir
frá Steinþóri mig
til fanga taka,
leiddur af fjórum
í flokk þeirra,
hlaut þó lausan
láta[6]) að bragði.

187. Bauðst mér frílega
fram að sigla
mál og bréf mín
svo mætti skoðast;
hvernig skyldi þá
mitt hyskið fara,
vel forsorgað[7])
og úr voða komast?

188. Kostur var annar
að koma til alþings,
héldu það þó[8]) allir
helför vera;
fór eg það glaður
í flokki Steinþórs,
en sá stóri[9])
aftur settist.

189. Þá tóku undur
öll að minnka,
því önnur ósköp
upp voru leituð,
þau sig auglýsa
einatt[10]) síðan;
hvíldir eru hægar
harma milli.

190. Æ var við svikum
að sjá jafnlega,
þjóna Satans börn
sinum meistara,
gerði bók stóra
sá bannaði[11]) Volo[12]),
fundinn mér falskur
fyrr og síðan[13]).

---

1) galdra tynde og gandhrókum, *B.* 2) drjúgum, *B.* 3) útsagan, *A.* 4) rekið, *B.* 5) ef vinnast, *B.* 6) að láta, *B.* 7) forsorga, *B.* 8) Um fram í *A.* 9) Ari í Ögri? 10) einnig, *B.* 11) bannað, *B.* 7) Í *A.* mætti og lesa orðið: 'Vdo'; en ef til vill á orðið að lesast svo, þ. e. Volo, og má þá vera, að það eigi að tákna Ólaf Pétursson, umboðsmann á Bessastöðum, sem síðar verður frá sagt; ef orðið er lesið aftur á bak, kemur út Olov, og mætti það þykja styrkja þá tilgátu, að hér sé um Ólaf Pétursson að ræða. 13) síðar, *B.*

191. Varð ranglega
rýmdur frá Stapa,
hafði Ara rógur
þó[1]) enda tekið,
fekk virðingar
valdra höfðingja[2])
víða um landið
með vingjöfum.

192. Aumkvaði mínar
eymdir og mæður
Guðbrandur byskup[3]),
góðfús herra;
tók pilt[4]) minn einn
úr hrakningum,
svo að eg Ara bréf
engum[5]) sýndi.

193. Varð eg [í Rifið[6])
vestur að leita
bjargræðis vegna,
þar brast mér loforð,
og þar sex ár
síðan dvaldi
við ölmusur
vina minna.

194. Stóð það eftir
af Stapans undrum,
að aldrei eg mátti
á sjó koma;
hafða eg þó fyrri
formann kallazt
vel nítján ár,
það vissi alþýða.

195. Mætta eg þar geystum
galdra undrum
Orms[7]) hins illa
og hans vinar;
með djöfulskap
drap saklausan
Svart á Hellu,
þó að seint gengi.

196. Deyðu öll vitni,
sem voru með Svarti
móti galdra-Ormi
í [greindum málum[8]),
utan mín kerling,
þó kvalin væri
ellefu dægur,
svo yfir var vakað.

197. Og svo prestnefnan[9])
ólmaðist líka,

---

1) þá, *B.* 2) manna, *B*, en utanmáls stendur þar *höfðingja*. 3) Guðbrandur Þorláksson, Hólabyskup, var tengdafaðir Ara í Ögri, og er af þessu að sjá sem honum hafi þótt Ari hafa farið fullhart í sakirnar, og að bréf Ara, það er hér getur, muni hafa verið honum til lítillar sæmdar. 4) það mun vera Guðmundur, sonur Jóns lærða, er prestur varð í Hvalsnesi og síðar getur. 5) ekki, *B.* 6) að Rifi, *B.* 7) Þetta mun vera Ormur á Knerri, sem nafnkunnur er af sögnum um Axlar-Björn. 8) greindu máli, *B.* 9) Hér mun átt við síra Guðmund Einarsson á Staðastað, sem ritaði á móti Fjandafælu Jóns lærða.

vildi[1]) mér einnig
ævi stytta,
af sárri öfund
fyrir sakir engar,
i leynd og ljósi[2])
með lunkubrögðum.

198. Vorum[3]) þá sættir
um síðir af bændum,
hlaut hann nauðugur
[heiftir að lægja[4]),
fekk eg tíu aura
í tryggðarmerkið[5]),
en stórsakir
ofurgaf[6]) allar.

199. Oft meðkenndi
í samsætum,
það hann sáttmála
sagðist gert hafa
við sjálfan Satan
og sál honum gefið,
ef hann léti hús mitt
með hyski sökkva.

200. Sagðist á nóttu
sjálfur hafa gengið,
þar sem sá vondi
vildi ei duga,
með heiftaranda
að húsi mínu
með börnum og konu
mig brenna[7]) inni.

201. Hefði ljóss[8])-leiftran
af lofti komið
yfir þann húspart,
sem undir lágum,
móti sínu þrái[9])
þrisvar sinnum,
þar til frá rýmdi
Rifs í búðir.

202. Vil eg ei með hendi
svo hraklegt[10]) skrifa,
sem um þess manns hag
sannlega vissum,
með braslifnaði[11])
undir Bárðarjökli,
því kalla höldar
Heiðna-Tanga.

203. Gekk sá galdi
á grið og sættir
með óvægum
Ormi vonda,
vildi mig prestsson[12])
vega líka,
útgerð[13]) var þá
öll von friðar.

---

1) og vildi, *B*. 2) ljóst, *B*. 3) voru, *B*. 4) heift að stilla, *B*. 5) tryggðamerki, *B*. 6) yfirgaf, *B*. 7) brenne, *B*. 8) ljós, *B*. 9) þra, *A*. 10) hraklega, *B*. 11) braslifnað, *B*. 12) prest-Jón, *B*. 13) Hér vantar í *A* 1 bl. (til 212. erindis incl.) og hefir Páll stúdent Pálsson skrifað það upp eftir *B*.

204. Hrekjast urðum þaðan
með þrjá drengi,
sem hálf-úrvinda,
en hús torfengin,
mættum . . .[1])
mótbærilegu,
suður á Akranes
um síðir komumst.

205. Þá höfðu Tyrkjar
tekið allvíða
fólk og fémuni,
ferlega plundrað;
Árni Gíslason[2])
á Ytra-Hólmi
veitti húsin
hyski mínu.

206. Hélt kongsgarðinn
kænn fógeti
Níels Hansson,
nefndur hinn hógværi,
hafði undirmann
ungan fengið,
ólíkan sér,
úlf[3]) myrkaldar.

207. Flotið hafði hingað
í flokki danskra,
naður[4]) þann niðangs
eg Náttúlf kalla,
því hann dagsljósið
dimmt allt gerði,
jós hann sín
sorp í augun.

208. Varð hann stjórnari
í stað Níelsar,
klæddi allmargan
kápu sinni;
þeir dimmnesku dólgar
draga þann skrúða,
það sér á mér
og mínu hyski.

209. Ólaf Pétursson
en þeir nefna,
sem hér alfrüs lög
inn pantaði,
í vild valdsmanni
fyrir verk engin
standa bæði og sektir
og sæmdir stórar.

210. Svo skulu og dómar
dæmdir ranglega,
langtum betur aktast
en lögbók svarin,
því yfir setur sér
enga reglu,
lutu þeir undir,
sem lægri eru.

1) Hér hefir fallið burt orð úr handr., mörgu, ýmsu eða eitthvert þvílíkt orð. 2) Árni lögréttumaður á Ytra-Hólmi, sonur Gísla lögmanns Þórðarsonar. 3) Úlf og Náttúlf kallar Jón lærði Ólaf Pétursson, danskan mann, er var umboðsmaður á Bessastöðnm 1627 og næstu ár. Síðar komst Ólafur í óvingan við yfirmenn sína, hvarf til Svíaríkis og andaðist þar í bágindum. 4) Hdr. *naddur*.

211. Sýndist fyrst ljúfur
sem hógværasti
síðan basiliscus[1]),
brauzt úr eggi
crocodilus,
trúir tárum
svelgdir upp verða
í samri stundu.

212. Hafði sýslumann
sér fylgjandi
til ósóma stór[r]a
og alls ranglætis,
sá Náttúlfur hafði
nöðrur fleiri,
sinn forna Tumsa
á Flangastöðum.

213. Á sömu misserum
sonur minn[2]) vígðist
til Suðurnesjanna
sókna tveggja,
fekk festarmey
að frænda ráði
og með samþykki
svikara Náttúlfs.

214. Vildi sem Priamus
prófa fyrst[3]) brúði,
lengi við leika
sér til[4]) leiðinda,
ellegar skyldi
ættfólk gilda,
bæði festarmann
og frændur nána.

215. Vildi hún trúfasta
tryggð vel halda,
heldur en óhæfu
undir[5]) játast;
þar komu hefndir
harðar eftir,
allar ofsóknir
og útsiglingar.

216. Yfirvöld[6]) dæmdu,
að ektamál héldist,
þar sem undirlagið
allt var löglegt,
voru vetur saman
þó í voða stæði,
en kátleg svik
komu að vori.

217. Féll Náttúlfur[7])
á fordæðu eldi

1) Skrýmsli, er menn héldu á þessum öldum, að til væri og hefði konungskórónu á höfði; þaðan er nafnið (basilevs á grísku); í hdr. er orðið skrifað *Bacelijus*. 2) Síra Guðmundur Jónsson var fyrst prestur í Hvalsnesi, en missti prestsskap í málum þessum við Ólaf Pétursson; fekk síðar Hjaltastað og andaðist 1685. Mál þessi risu af því, að Guðmundur hafði fest sér þjónustustúlku Ólafs, en Guðmundur kærði Ólaf fyrir það, að hann hefði viljað komast yfir stúlkuna, en er hann fekk eigi vilja sinn, hafi hann gert hana sjúka með fjölkynngi. 3) Er ekki í *B*. 4) Er ekki í *B*.; hér mun eitthvað brjálað í hdr. 5) undir að, *B*. 6) yfirmenn, *B*. 7) Náttúlfs stendur hér utanmáls í *B*.

og svo grimmaðist
úr öllu hófi;
saklausan son minn
svifti hann[1]) friði,
hlaut langt flýja
til landsenda.

218. Líftjóns-púlver
lét sér flytja,
mundi það einnig
mér vitanda;
sonar míns kona
síðar þess kenndi,
mátti ei kvendið
af sér fæða.

219. Komst eg undan
á kongsgarð vestast,
þar nytsamur
Níels stýrði,
þann tíð [í nokkru
neytur[2]) eg þótti,
áður Náttúlfur
náði ræðum.

220. Sigaði á mig
svika Náttúlfur[3])
sýslu hundi
sínum fremsta[4]),
á leiðarþingi
hér lýsa gerði
ört friðlausan
og óalandi.

221. Hver, sem mér bjarg-
eður hús veitti, [ráð
skyldi aleigu
og straff gilda,
sagðist þó engar
sakir vita,
lög[5]) mætti smíða
landsdómara[6]).

222. Aldrei eg skyldi
af þó vita,
fyrr en járn fengi
eða jafnvíst bana;
var eg í Presthúsum[7])
á vegum lögmanns,
komst yfir Hvalfjörð
til Hólms ytra.

223. Hjálparmaður
mig hætti að fæða[8])
í móti Náttúlfs
nýju forboði,
heimsókn veittu
hyski mínu,
ungum drengjum
og ektakvinnu.

224. Ræntu bjargar bú

1) Um fram í *B.* 2) nokkrum nýtur, *B.* 3) Náttur, *B.* 4) fremstu. *B.* 5) að lög, *B.* 6) eyða fyrir fyrra hluta orðsins í *A.* 7) á Kjalarnesi. Jón hefir þá verið á vegum Árna lögmanns Oddssonar, fremur en Gísla lögmanns Hákonarsonar, því að hann mun þá hafa verið andaður, er hér var komið. 8) náða, *B.*

rækarls vinir,
lá þar kerling eftir
komin að dauða,
þar til guðs gæzka
gaf til hjálpráð,
svo að kringum Hval-
fjörð
komumst[1]) um síðir.

225. Mögnuðust kvalir
í Kjaranstaða fjósi,
þar[2]) innihúsin
ekki fengust,
voru burt drifnir
báðir piltar,
skyldi systir[3]) þá
til sveitar færa[4])

226. Þá voru svik brugguð
sár og margföld
til písla og dauða
pilta minna;
allt [er það[5]) of langt
upp að telja,
fram kom seinna,
hvað fyrir var búið.

227. Geigsendingar[6])
og gandaflögur
einatt rásuðu[7])
að Ytra-Hólmi,
teikn á tungli,
tveir jarðskjálftar,
var og fleira margt
yfir fóvitans[8]) garði.

228. Hafði Náttúlfur
nýtt í ráði,
byskupsstól færa
til Bessastaða;
óskaði bana því
einatt báðum
Gísla lögmanni[9])
og þeim gamla góða[10]).

229. Þá var háski
hvers kyns búinn,
myrkaldar undur
mátti kalla;
burt sofnuðu
báðir síðan
greindir herrar
á ganda-seiðs[11]) vetri.

230. Lagða eg mál mín
til lögþingis,
því engin[12]) fundust
[efni sakar[13]);
hlökkuðu vargar[14])
yfir happa-von,
að böðullinn mundi fá
bráðir vísar.

---

1) komunst, *B;* komust, *A.* 2) þá, *B.* 3) systkin, *B.* 4) fara, *B.* 5) það er, *B.* 6) Geigsending, *B.* 7) ráfuðu, *B.* 8) fógetans, *B.* 9) þ. e. Gísli lögmaður Hákonarson. 10) því gamla goði, *A.* Mun eiga að tákna Odd byskup Einarsson; þeir Oddur byskup og Gísli lögmaður önduðust báðir 1631, og var skammt á milli. 11) gandseiðs, *B.* 12) engar, *B.* 13) efna sakir, *B.* 14) margir, *B.*

231. Hlýrar Suðurnes[1])
heiman geystust,
aðrir og fleiri
æddu að vestan,
því að fóvitinn[2])
fekk til höfðingja
mig að afmá
með mínu hyski.

232. Vantaði byskup
og[3]) lögmann líka,
voru tilsettir
vitfeðrungar[4]),
þeir hart að mér
þjökuðu síðan;
oft hefir líftóru
legið nærri.

233. Yfir þeim hrópar
hér með líka
sona minna dauði
sérdeilis tveggja,
banaráð[5]) margslags,
bönnuð þjónusta,
hjálparforboð
með heiptarbréfum.

234. Höfðu vel Náttúlfs
nöðrur bruggað,
að lénsmaður aldrei
á alþing kæmist[6]),
fyrr en heift sinni
hefði svalað
á þeim, hann vildi
undir leggja.

235. Krafði mig þrisvar
konungs fóviti[7]),
hefða egsakir nokkrar[8])
sér í[9]) móti,
skyldi upp lesa
innan lögréttu;
meinti mig[10]) einörð
mundi skorta.

236. Var[11]) til reiðu,
því vildi heyra[12])
loflitlar sakir
yfir landsdómara,
hlýddi hann allt fram
að helgu máli,
mátti ei lesning þá
lengur líða.

237. Lagði á mig hendur
í lands-griðum,
en þó lýsti
í engu sekan;
þar skyldi enginn
meir á minnast
brellur slíkar
og barna gaman.

238. Í morðingja járn

1) suður olfs, *B.* 2) fógetinn, *B.* 3) Um fram í *B.* 4) svo í báðum hdr., en í *A* stendur *NB.* við; vera má, að í frumritinu hafi staðið ver(r)feðrungar og hafi Jóni þótt synir Odds byskups, þeir Gísli byskup og Árni lögmaður, sér verri en faðir þeirra. 5) bannað ráð, *B.* 6) kæmi, *B.* 7) fógeti, *B.* 8) Er ekki í *B.* 9) á, *B.* 10) Er ekki í *B.* 11) voru, *B.* 12) hegna, *B.*

mig strax færðu[1]),
en höfðingjar
hann fríuðu;
gegnt var ei heldur
galdra máli,
Bendikts[2]) klögun
brætt[3]) yfir líka.

239. Að böðuls tópt
bændur gengu
og lýsti sérhver
illskur sínar;
[upp hugsa vildu
einn dauðdaga[4]),
sem hentugur þætti
hjónum slíkum.

240. Skyldi á kongsgarði
karl líf missa,
en á Kjósarheiði
kerling upp[5]) færast,
þar sem hrossdýrin
henni tortýndu[6]),
mætti ei vægja sjást
vondskap hennar.

241. Úrskurður enginn
á þó gerðist,
utan á kongsgarð mig
til kvala færa[7]);
vildi fóvitinn[8])
fram að eg sendist,
þar að straffast,
þó án vægðar.

242. Um Jacobsdag
junkur[9]) birtist,
[farin var von[10]) þá
framsiglingar.
Krepptur í stokki,
kvalinn í járnum,
mánuð eg svo[11]) sat
í myrkvu húsi[12]),
allt til ólukku dags
Augusti fyrsta,
þá skyldi ending
á öllu gerast.

243. Út var eg dreginn
á öskuhaug
í járnum og fjötrum,
fekk lausn enga;
fannst þó til sakar
ekki annað
en læknispunktar
löngu skrifaðir.

244. Sá, mig óalandi
áður lýst hafði,
setti útlegðar nafn

---

1) færði, *B.* 2) Benedikts, *B.* Hér mun átt við galdraáburð Benedikts Þorleifssonar í Búðardal á Magnús Sigurðsson. 3) brætt var, *B.* 4) Einn dauðdaga
átti að fanga, *B.*
5) Er ekki í *B.* 6) tortýna, *B.* 7) færðu, *B.* 8) fógetinn, *B.* 9) þ. e. junker; junkur eða jungkæri voru höfuðsmenn kallaðir hér. 10) var von farir (sic), *B.* 11) Er ekki í *B.* 12) myrkvahúsi, *B.*

á með dómi[1]),
gengu fjandmenn
í flokk saman,
þrír skrifaðir
þar komu aldrei.

245. Tók höfuðsmaður
tjáð skrifelsi
fram að flytja
fyrir þá hálærðu;
sagðist þó engar
sakir í finna,
heyrði andlegum
til umskoðunar.

246. Lýsti Ólafur sig
landsdómara,
þar junkur ekki
á alþing náði,
var eg að kvöldi
keyrður í dróma,
sá er öskuhaugsdómur
uppi í minnum.

247. Var enn að morgni
undir . . .[2]) færður
og í hellur niður
á herðar keyrður,
linnti þó að kvöldi
kvölum mestum,
fekk afskeið loks
og ending mála.

248. Á Langanes
til landsenda,
skikkað var mér
að skrölta þangað
. . . . . . . . . . .[3])

249. Bönnuðu haustfjúk
heiði Reykja,
um vonda Tjörnes
varð því snauta,
er mér Sauðhóla nótt
sú í minni,
en í Valadal
vist fagnaðar.

250. Frá Bangastöðum
á brekkur eg lagði
ókenndur vissi
af engum bæjum,
kom í kálfa mér
kyngja skeyti
hitti bæ um síð
á bragða-nóttu.

251. Síðan í hest minn
hljóp, svo deyði,
mörgum þá brögðum
mæta átti,
komst á Langanes
að liðnum jólum,
þaðan í hérað
hoppa náði.

---

1) Hér þrýtur *B*. 2) Eyða í handr. 3) Hér er eyða í hdr. Það, sem eftir er bls. og næsta bls. Líklegt er, að hér vanti inn í nokkur erindi, er segja frá ferð Jóns austur. Jón Sigurðsson ætlar, að í vanti um 20 erindi, og má vera, að svo sé (sjá Almanak Þjóðvinafélagsins 1877, bls. 60).

252. Hitti þar mæta menn
og milda fyrir,
Bjarna sýslumann[1])
og bliðan prófast,
sira Ólaf[2]) vorn,
sælan með guði;
umbuni guð þeim
allar velgerðir.

253. Aumkuðu báðir
eymdir mínar
og svo nokkrir
aðrir fleiri.
Á ölmusum þeirra
eg það ár dvaldist
um sýslumót
á sögðum tíma.

254. Þar komu báðir
bræður[3]) í sýslu,
lögmaður sjálfur
og líka byskup;
létu þeir umboðsmanns
úrskurð standa,
til þess yfirvalda
urðu skipti.

255. Þá hlaut sonur minn
að sigla utan,
velsemd og vini
víða hitti,
fekk af byskupi þar
bréf til Íslands,
þó hér að engu
aktað væri.

256. Kom naður[4]) strang-
i Náttúlfs bæli, [ur[5])
djarfur að vekja
dreyra mörgum;
fé var til gefið,
að eg fjöri týndi,
hann auglýsti,
hverir voru.

257. Þessi ólmaðist
úr öllu hófi,
voru enn bjargráð
bönnuð allvíða,
og hvergi fritt
hér á landi,
varð þá í útsker[6])
eitt að snauta.

258. Boð út vildi senda,
svo bana eg fengi,
ef við líf tórði
í litlum hólma,
reykur rógsmanna
rauk úr fylgsnum,
fáir mér þá fundust
fullvel trúir.

259. Komst í kaupskip

1) þ. e. Bjarni sýslumaður Oddsson á Bustarfelli. 2) þ. e. sira Ólafur Einarsson í Kirkjubæ í Hróarstungu. 3) þ. e. þeir bræður Árni lögmaður og Gísli byskup, synir Odds byskups Einarssonar. 4) Hdr.: maður. 5) Mun vera Jens Söffrinsson. 6) þ. e. Bjarney á Vopnafirði, sbr. *Þorv. Thoroddsen:* Landfræðissaga Íslands, II. bindi, Kh. 1898, bls. 76, neðanmals.

karl um síðir,
burt frá flokki
flærðarmanna;
flutum við þá báðir
feðgar með Dönum,
svo eg Kaupenhafn
kunni að líta.

260. Kristján fjórði
kongur þá ríkti,
kær þótti mörgum,
Karl[1]) yfir Englandi,
ung Christina[2])
arfi Svíþjóðar;
þá hafði eg vetur
þrjá og sextigi.

261. Þá var Náttúlfur
naður hinn falski,
sá stórþjófur,
strokinn úr landi;
hafði hann svikið
af sínum herrum
fjörutíu[3]) hundruð
fullra dala[4]).

262. Í sinn stað hafði
sett til nokkra,
ef feðgar kynnum
flýja þangað,
þá skyldu báðum
búnar hvílur
og viðtakan
sem vildi lukkast.

263. Hafði borgmeistari þar
bezti Juren
orðið fyrir grimmum
galdra kvölum,
út var ausið
ærnu gjaldi
til lækninga,
svo við líf tórði.

264. Fyrir Náttúlfs róg
sá norski herra[5])
varð í Íslandi
vetur að sitja,
vildi með vélum
vinna hann líka,
lært hafði kyngjur,
áður kom til Svía.

265. Bréf skrifaði heim
beztu vinum,
vildi gjald þiggja
gefins einatt,
hittist þó sízt
þar sagðist vera,
duldist í fylgsnum
dolskur[6]) flærðar[7]).

266. Voru í Kaupenhafn
komnir undan

1) þ. e. Karl I. 2) Kristín Svíadrottning, dóttir Gústafs Adólfs. 3) Með tölu í hdr. 4) Ólafur þótti hér harðdrægur mjög og fégjarn, sbr. *Espólín:* Íslands árbækur, VI. deild, Kh. 1827, bls. 65—66 og 77. 5) Líklega Pros Mundt, er hér varð höfuðsmaður eftir Holger Rosenkrantz. 6) Svo í hdr. 7) Hefir áður í hdr. verið *galdra,* en þetta orð ritað ofan í.

mótvindar mínir
mér mein að auka,
héldu ráðstefnur
rógs í leyni,
skyldi að vori
allt fram koma.

267. Um þá hálygi
og hvarkvæmlega
ekki er að ræða
né á að að minnast;
í hálfan mánuð
hlökkuðu ernir,
að krás mundi
í klóm festast.

268. Síðasta Octobris,
er eg sat að borði,
býsveinar nokkrir
burt mér sviftu
og færðu mig
til fangara stofu,
keyrður í kongslás
og kvölum hótað

269. Þá var með brögðum
bréfkorn diktað,
eignað kongi,
sem oft þar plagast;
þó vissi hann aldrei
af vondskap þræla;
missir því réttar
margur vesall.

270. Þessi var rolla
úr rógs flokki
uppi á ráðhúsi
yfir mér lesin,
fann eg, að nokkuð
fásén þótti,
vantaði róuna
og rétta leggi.

271. Þó var úrskurður
og inntak þetta,
að eg svo í lási
líðast skyldi
um vetrartímann
til vors siglingar,
þá til Íslands
aftur að færast.

272. Héldu þá allir
unnið að vera,
mundu fjandmenn slíkt
fúsir að þiggja,
sögðu mér margir
svo um búið,
að eg kirkjuleg
aldrei fengi.

273. Heim var eg færðar
í hús til slúters[1]),
átti aumlega
angurs daga.
Ó, þú Kaupenhafn,
eins og lukkan,
mistæk mörgum,
má eg það sanna.

274. Um miðsvetrarskeið
munda eg sýkjast,

1) þ. e. fangavarðar.

fekk eg þjónustu
af frómum presti,
þá skánaði
þaðan af nokkuð
og um föstutímann
framan til páska.

275. Þrengdi mér nauð til
nokkuð að voga
og supplicera[1])
fyrir sjálfan stórherra,
fyrsta Martii
framgang náði,
komst um síðir
fyrir kongs augu.

276. Upp voru leituð
á þeim tíma
brögð og flærðir
bölmóðs-vinda,
föluðu, að slúter mér
forgift[2]) gæfi,
en hann auglýsti
oft svik þeirra.

277. Orðblómgaður
einn falsari
eiturkönnu
að mér þrengdi,
ekki hálfan spón
hann gat nauðgað
með umbrotum
millum tanna.

278. Þó kenndi eg þess
í kroppi lengi
frá þeim tíma
og fram á sumar,
en með lækningu
og lukku drottins
varð eg þess alheill
að ári liðnu.

279. Í vikunni eftir
vora páska
upp á consistorium[3])
kom eg tveim sinnum,
því að hálærðum
heyrði að skoða
svoddan rógs þvætting,
þar sakír ei fundust.

280. Kynntu þeir síðan
kongi hið sanna,
skyldi úrskurður hans
eftir á koma,
nær herradagarnir[4])
hlaupnir væru
og hver sitt afskeið
hefði fengið.

281. Báðir við feðgar

1) senda bænarskjal. 2) þ. e. eitur. 3) þ. e. háskólaráð. 4) Herradagar (á dönsku Herredag) voru eins konar þing, með ályktar- og samþykktarvaldi, síðar dómstóll. Þing þessi komu saman oftast á vorum eða fyrra hluta sumars. Afnumin voru þau, er einveldi komst á í Danmörku, og kom þá hæstiréttur í þeirra stað.

bréf kongs[1]) fengum,
en hálku-flokkar
hingað skutu,
treystu sér betur
að tefja hér fyrir
og svo höfuðsmann
hræddan gera.

282. Sumir þá vildu,
að eg sigla skyldi
á svikara-skipi
og son minn líka;
báðir fortóku,
að fram gengi,
og sá skelmerí hóf
skaut sér undan.

283. Fyllti hann kongsgarð
með fréttalygi,
eigi þó sízt
um okkur feðga,
að sonur minn hefði
að sumri liðnu
strokið í England
með strákum öðrum.

284. Eg varð afgreiddur
ungum kaupmanni,
sem á Hafnarfjörð
hleypa skyldi,
innsiglað kongsbréf
bivara skyldi,
svo að prettalaust
fyrir Prosmund[2]) kæmi.

285. Við skipherrann hafði
skelmir um búið,
ef vanta honum þætti
vind hinn bezta,
flux[3]) skyldi þá mér
fyrir borð kasta,
menn og góz
þá mundi ei skaða.

286. Því að fjandmenn
fullir kyngja [mínir
meina mér vildu
móðurland hitta;
með bilu fyrst
mig brytja vildi
við vindustólpa;
eg veik mér undan.

287. Hafða eg skipmenn
hýrt velflesta,
vildi mér enginn
viljugur granda;
oft lá þó nærri,
að eg mundi verða
eftir samt skilinn
á Íslands hafi.

288. Lærðir þóttust lesa
í lófastriki,
fyrir sjö árum
sagt mér berlega,
að þá líftóra mín
léki á þræði;
svaraði tíma
svoddan atburður.

289. Vort skip hraktist

1) Kongsbréf um þá feðga er gefið út 14. maídag 1637. 2) þ. e. Pros Mundt, er þá var hér höfuðsmaður. 3) þ. e. skjótt.

af vegi réttum,
en hin önnur
áfram komust;
varð sá munurinn
meiri en lítill,
ekki miður
en átta dagar.

290. Þegar Reykjaness
röst var sloppin,
lá Rosmhvalsnes
rétt við síðu
með Flangastöðum
og fylgsnum dóla,
músum, meinkindum
og mörgum nöðrum.

291. Skip vort þekktu
skollar leiðir,
gerðu því glettur
til gamans öðrum,
slógu herfjötrum,
hafti í kringum,
svo aldrei komst áfram
og ei til baka.

292. Full sex dægur
svo naddaði
þótti skemtilegt
þetta að líta;
þó á Hafnarfjörð
hrökk um síðir,
var þar lítil
vinátta fyrir.

293. Öfundar-hrókur,
sá áður var getið,
meinlygi hafði
marga diktað,
vildi strax
mig stýfa láta,
ellegar í mjötuð
mér að kasta.

294. Kaupmaður strax
þá kongsgarð hitti,
bréf afhenti,
en eg beið á skipi;
þótti mér langsamt
þar að vera,
mátti því vita
voða nærri.

295. Um síðir var böðull
sendur með öðrum,
þjófa-klumman
þar kom líka,
skyldi hún hart
um háls mér læsast;
það var fagnaðar
fyrsta kveðja.

296. Greip eg til klummu
og kasta út vildi,
líkaði vel,
þó líf strax missti,
nefnandi þar með
nokkuð stærra,
með því kongsbréfið
komið var undan.

297. Leiddur var síðan
með litlu snæri
til bölkvala
Bessastaða;
margir þá höfðu

meinróg aukið,
svo var að þrengt
á alla vegu.

298. Á hrossi danskra
með herra-böðli
til alþingis
eg skyldi ríða
undan hoffólki
og hávaldssveinum;
hvað skulu agnir
hjá hveiti góðu?

299. Hafða eg laufskála
lítið hreysi,
varla sá huldi
herðar mínar,
virti mig enginn
við að ræða,
enda þorðu fæstir
það að gera.

300. Þá skyldi leika út
lambið snauða,
þó of lengi hefði
undan dregizt,
hrafnar glöddust,
hlökkuðu gammar,
úlfar að flykktust
flokkum saman.

301. Upp voru lesin
okkar feðga
kongsbréf bæði,
þó kefja vildu,
lags var leitað,
að lítt skyldi stoða;
það er vana-hlutfall
vort fátækra.

302. . em[1]) heift mesta
á mér var þó grimmust
opinberlega
fyrir alþýðu;
hitt leyndara
lá í hljóði,
hvorigu þarf þó
hæla stórum.

303. Forsvars forboð
eg fekk að heyra,
enda skyldu aðrir mig
einkis spyrja,
líka frá skipað
lögréttumönnum;
allt svo á móti
Íslands lögum.

304. Þá var höfðingjum
i hópa safnað,
klaustrahöldurum
og kennimönnum;
sex úr stigti
syðra byskups
prestar nú skyldu
puta úr máli.

---

1) Hér er rifið framan af sem svarar einum eða tveim stöfum; *em* má lesa greinilega; ef til vill hefir *s* verið fyrir framan, en engu er bættara, þótt *sem* sé lesið; má vel vera, að erindið sé eitthvað brjálað.

305. En aðrir sex
áttu að norðan
við svo bæta,
að væri fullnægja;
stórhöfðingjarnir
stika rúmlega,
manndómur væri,
að mál endaðist.

306. Úrskurð eg heyrða
allmjög skjótan,
ómakslítinn
i alla staði,
að mjötuður mjög
fyrir mals hefði[1]),
en allir sögðu,
að af það skyldi.

307. Frá þeim firrtist
fullur hugmóðar,
af því að vild hans
ekki skeði,
lásu bæn drottins
berhöfðaðir,
að saklaus ekki
sviftist lífi.

308. Þrjá menn sá eg
sitja á jörðu,
en engan heyrða eg
um mig dæma,
presta ei heldur
í hópa skipast;
þetta svo bíður
í þeirra böggum.

309. Heyrða eg á ræður
höfðingja sumra
og svo minna
öfundarmanna,
þótti ómagi
orðinn danskra,
mætti fram flytjast
fyrir kongsnasir.

310. Töldu þó í vegi
tvær hindranir,
hver upp á kosta
ómagann skyldi,
eða hefði nokkur
hug svo djarfan,
að á sínu skipi
mig sigla léti.

311. Þar stóð í gaddi
þeirra dómtylla,
svo hann aldrei komst
áfram lengra;
sagt var höfuðsmanni
svoddan efni,
eigi vildi heldur
við ómaga taka.

312. Var eg þá enn vesall

1) Þessar tvær línur kunna að vera eitthvað úr lagi færðar. Dóminn er að finna í alþingisbók 1637, og er hann kveðinn upp 30. júní það ár. Þar er staðfestur fyrri dómurinn frá 1. ágúst 1631, er gerir Jón útlægan af landinu. Þó er síðari dómurinn með þeim viðauka: »utan kongleg náð vilji meiri vægð honum sýna«.

i voða kominn,
því bjargar forboð
bleif sem fyrri,
hlífði kongsbréf,
að koll ei missti;
þó voru ei allar
þrautir liðnar.

313. Dóm fekk eg engan
að d[r]ottins vitni,
ekki heldur junkur,
er hann mér sagði,
kvíddi því næsta
fyrir kongs reiði,
ef skriflegt andsvar
skyldi eg öðlast.

314. Hvað þeir dimmnesku
duflað hafa síðan,
er mér óvitanlegt
í allan máta;
heyrt hefi eg þó lengi
hótað illu
og synodalia sé
sett fyrir dóma.

315. Klagaði eg fyrir junkur
kreppur slíkar,
kongsbréf mér ekki
kynni að nægja;
hann kvaðst ei þora
heldur en mi...[1])
móti höfðingjum
mér meira að vægja.

316. Á merinni sömu
mundi eg enn skrölta
aftur á kongsgarð
sem ölmususkepna;
falsarinn af veik
framsigling mína
á stríðskipum
og um það hældist.

317. En að skilnaði
ályktuðu
Jens[1]) og junkur,
að jeg frí skyldi
í Múlasýslu
mína reisa
og hjá kerlingu
kúra síðan.

118. Þó hafa ei dísir
dáið gervallar,
því með ýmsum
skrykkjum
oft hefir gengið,
brennt var fyrir mér
bréf uppheldis,
hingað og þangað
hraktist víða.

319. Putaði nokkur
um pilta dauða,
reka vildi trýni
í róg annarra,
því mætti mörgum
maklegt þykja,
að í belg sama
aftur strokaði.

1) Hér er snepill rifinn af horninu, sem svarar því að 2—3 stafi vantaði. 2) þ. e. Jens Söffrinsson.

320. Hafa gusubréf
geisað hingað,
svo eg engan frið
alstaðar fyndi,
þar til suðrið
úr sorta birti
með byskupi blíðum[1]),
blessi hann drottinn.

321. Aldrei hefir fundizt
í öfundarflokki,
heldur hugsvalað oft
og hýrt með ölmusu
karl og kerlingu;
krossburð undir
vantar þolgæði
þraut vel bera.

322. Þessi skal búkur
á bálki rauna,
dyrðilinn vantar
eða dregna róu,
svo ef vélkorn
vantar fjölmóð,
flug það hindrar
og fugla allra.

## Restans eða ró[f]an.

1. Nú liggur mér við
að lesa upp nokkuð
um aldarfar
eða eitthvað lítið;
oft kemur halinn við
hitt og annað,
fylgir það hverju,
sem fast við hangir.

2. Hvar skal á taka
hégóma mínum,
því að djúplærðir[2])
dæma harðlega;
oft þó sjálfir
ekki vita;
skjótast má skýrum,
skeður það stundum.

3. Svo hefir skaparinn
skikkað gáfum,
það hlýtur einn,
sem annan vantar;
nær sannleiksandinn
sjálfur fræðir
kallast gjöf náðar,
en nauðgun ekki.

4. En þeim heimlegum
í háskólum
nauðgað er einatt
til náms og bókar;
oft gengur misjafnt
um mennt og fræði,
verða sundurþykkjur
sumra á millum.

5. Vaxa því þrætur
víða í löndum,

---

1) Hér er átt við Brynjólf Sveinsson, er byskup varð í Skálholti 1639, eftir Gísla byskup Oddsson. Hann hélt hlífiskildi yfir Jóni lærða, svo að Jón varð ekki fyrir ofsóknum síðan. 2) Hdr.: djúprærðir.

sitt þykir hverjum
svo má fara,
skammta sér sjálfir
skilning annan,
kalla þó gullöld
grand einingar.

6. Mér þykir annað
myrköld sýnist,
fært gæti eg heim það,
ef fengi til leyfi,
nú er þar langt frá,
að lýti megi skoðast,
síðan sannsýnin
sökk til grunna.

7. Þeirra þó sjálfra
þýzki Martinus
áminnir einatt
um sannsýni,
en því síður
hún aktast núna,
látast þó vera
hans lærisveinar.

8. Sumir vilja gægjast
í gaupnir drottins,
hvað hann hefir skapað
í huldu og leyni,
yfir og undir
og allt um kringum,
i sínum braukstólum
seint það finna.

9. Fátt eitt sá eg
af feðrum skrifað
í æsku minni;
það er nú glatað;
margt held eg með þeim
meira en börnum,
allt hvað trú rétta
ekki skaðar.

10. Allar íviðjur
og umgirðingar
halda því í sér,
sem hlýða eðli,
vagnar sækja reisu
á voru jarðríki,
léttfærir andar
um loptið fljúga.

11. Skepnum mun gefinn
skilnings andi,
ei sízt álfum
og svo nornum,
mjög svo mannenglum
mynda tveggja,
dísna kyn[j]um
og dverga slekti.

12. Völvum tvíkyns
og vísum loðálfum,
loptlegum sumum,
og líka jarðar,
svo er og Vana kyn
í vorum löndum,
með heimsku og vizku
hrært til samans.

13. Hvað skal oss börnum
að bulla í ofmegnu,
mjólk hentar betur
af mæðra brjóstum,
heilagrar kirkju
heilnæm kenning,

en hún er rupluð,
rænt og plundruð.

14. Hún er réttlítil,
og rýrist þó altíð,
griðalaus staður,
svo sem geit stekkjar,
eða sem brunnhús
að bleyta í eitthvað
þeim til þarfa,
þá menn vilja.

15. Hafa heiðursmenn
hálfu traustara
virt vé sín og grið
valið réttdæmi;
sanngirni elskað,
sómann prísað,
oft í nauðum
einnig hjálpað.

16. Nú þykja siðir
sæmilegastir
einum sérhverjum
í ýmsum löndum
eftir hugarboði
hins eða sjálfs sín,
því að ginnhelgin
gengur um sættir.

17. Fjórir útskæklar
af forn[r]i veröldu,
ólíkir allir
að art og þjóðum,
liggur Satans ey
suðri nærri,
en þeir Garamantes
gapa við vestri.

18. Við austrið Tartarar
ávallt byggja,
en Nova Zembla
í norður hallast,
steinklimpur stóri
þar stár fyrir utan
þrjátíu[1]) mílur um
þeirra frönsku. [kring

19. Þaðan koma straumar
og stórar hafrastir
um kring snúast
eins og spennill,
líka sem þræturnar
um þýzka veldið[2]),
þeim undan klumpi,
þar er uppsprettan.

20. Krukkað er einatt
í koll rómverskum,
þeirra hefir enginn
þó hér komið;
hvað batar bullið
beint að höggva,
eða í fjarska
fólk að dæma?

21. Chinar hafa öðlast
kænskar íþróttir,
ríkdóm mestan
og mikil vísindi;

1) Með tölum í hdr. Þessi erindi (17.—19.) sýna landfræðahugmyndir Jóns. 2) Hér mun átt við þrjátigi-ára-styrjöldina.

skyldi önnur þjóð
af öfund springa,
þó svo skaparinn
skikkaði gáfum?

22. Anzi eg orði
til ósiða,
víst er svarið,
þó vanti höggin,
þegi þú og þegi þú,
þrællinn aumi,
vér höfum valdið,
vel skal fara.

23. Margt, hvað gott fannst
í gömlum siðum,
það er úr lagi fært
langt frá hófi,
má kattar driti
klína á gullið,
hvítt alsyrta
með hrími og kolum.

24. Skil eg Babýlon
borg tapaða,
en Jerúsalem
íbúð heilagra,
andleg þýðing
andlegu hlýðir,
sitt hvort er það
sjór eða jörðin.

25. Þeir mig upp á spélni
spámann kalla,
við hafa svo breytt
sem verið hefði,
vitna það mínir
veslir dagar;
ekki er frægð mikil
að fella bjúgan.

26. Ei var sem unnið
Ermland mikla
að megðu-titlingi
múg að safna,
hafa fyrir ómak
og höfuðkostnað,
sem ekki er máltíðar-
korn
fyrir einn af mörgum.

27. Fjörutíu árum
fyrir fæðing mína
töldust á lopti
teikn margbreytin,
ragnarökkursins
reykur og svæla
gaus á eftir,
sem guð betri.

28. Veileifs[1]) nesti
varð uppkveikja
allra elda,
sem enn nú brenna;
þykir fráfallið
formætt vera,
stríð og óeiningar
stórar frægðir.

29. Þykjast hafa siktað
saur úr korni,
aldrei hafi svo vel

1) Svo í hdr.

áður gert verið,
standa þó í kverkum
kvistir þyrna,
af því verða sumir
ólæknandi.

30. Fold fáguðu
feður til akra,
áður sáð var í
sæði góðu,
bezt til bjuggu,
fyrir byl[j]um umgirtu,
svo að gru[n]d ekki
góðu spillti.

31. Akursins kjarni,
ilmandi sætleiki
upp var sniðinn
með öllum rótum,
en í staðinn
ausið leiri,
borin á aska
með bleytu og sauri.

32. Aukist hafa öfgar[1])
yfir hundrað ár,
síðan kærleiks glóðir
kæfðar voru,
grund forkalin
af grimmd veðráttu
með iðjuleysi
og [öðru] slíku.

33. Sett var orðhelgi
í stað verka,
gerðu það vorir
góðu þýzkir,
mætti það duga,
að munnur pulaði,
þó að ávextir
aldrei sæjust.

34. Því má nú hoppa
heims á skeiðum,
næmir svo gera
nýbreytingar
hvað skal oss kongur,
Kristur má duga,
eða byskups nafn
burt og af þáð?

35. Eitt mun til friðar
í öldu vorri,
þar afskiljum lifnað
eigi má finna,
hlýtur ei apast
eftir öðrum
mjög tilþrengdur
móti samvizku.

36. Úlfur kann líða
enn sinn maka,
og svo hraf[n]inn,
hundur og tóan,
einnig sauðurinn,
svínið og geitin,
sérhvert slekti
svo framvegis.

37. Tvö af ríkin
tvíflast aldrei,
þau enn nú halda

1) Hdr.: afgur.

eining sinni,
það er Ítalia
og svo Spanir,
hrærast í millum
hálfblendingar.

38. Eru katholiskir
kærleiksfullir,
gefur einn líf út
ljúft fyrir annan,
þarfastir þjóða[1])
þær að kristna,
þeir alvalds hópa
auka stórum.

39. Hafa þeir Americam
allvíða kristnað,
og svo Austindien
allt að Chinum,
en bölheimskir
þeim blóta gjarna,
svo sem að gerðu
glópar vorir.

40. Fimm eru stórþing
farin hér undan,
þörf mundi gerast
á því enu sjötta,
dylst það í duldu,
meðan dimmt er þann-
þegar það er úti, [ig,
þá er langt komið.

41. Heyrt höfum vér lengi
hrinur og læti
til manna, fugla
og megnisdýra,
kapp í þrætum,
kíf og marglyndi;
öll heims skepna
undrum kvíðir.

42. Þessi er ávöxtur
akra víða,
það er auðfundið,
að eitthvað vantar,
gys og gjálífi
og glymur aldar
fipar fyrir mörgu
þar fornt er lastað.

43. Gikkir hoppandi
góna í mána,
viljandi frá honum
vísdóm taka,
vilja síðan stritast
við stórlærða,
en lausingjum fylgir þó
lítil vizka.

44. Heims í hágildi
hreysti-sveinar
annað hugsa
en aflóg gömul,
ellin og æskan
ólíkt virða,
sitt þykir hverri,
satt er að tarna.

45. Þeir trúlyndu
tappa hrein valin[2])
lífs vötn og legi

1) þjóðum(?). 2) hreinvalen*n*, hdr.

til lækninga,
spilla má víni
og virt góðri,
svo í skírt hunang
skvetta keytu.

46. Oft heyra vísir
heimsku sumra,
villist þó ekki
vizka þeirra,
veltast báðir
vesall og mikill,
sérhver sjálfur
undir sínum böggum.

47. Reiflings gaman
er raup stórmikið,
en feðra heilræðin
þau fjúka um eyra,
ávöxtur eika
æ ber vitni,
sú þekkingin
sízt má bregðast.

48. Ágirnd, okrið
með eiginvildinni,
skellt á skálum
skin og ljósi,
heims réttarbót
hvarkvæm víða,
reglur aðreyrðar,
reip þau halda.

49. Asianinskur[1])
einn höfðingi
Jólnir, fyrri
en Julius Cæsar,
mildastur manna
maður íþrótta,
skrifast ártal hans
upphaf jóla.

50. Uppsala-byskup
Ólafur mikli[2]),
sá höfuðgull Svía
heita mátti,
væri ei bókum hans
bylt sem fleira,
þar mætti fróðleikinn
finna og skoða.

51. Grimm hefir remman
í rótum fundizt
með dönskum og Svídrjúgan tíma, [um
þó sagt hafi formenn
sigurland verða
og altíð aukast,
meðan aldir vara.

52. Mun á hjólvindu
hrillu valtri,
hvað um vort auma
Ísland líður,
Engla, Svía

---

1) Hdr.: *Asiæ nijnskur*, dregið af latínsku orði: Asianus.
2) Hér mun átt við Olaus Magnus (f. 1490, d. 1558). Hann varð erkibyskup í Uppsölum að nafnbót, en sat þar aldrei. Hann var fræðimaður mikill og hefir ritað Norðurlandasögu (Historia de gentibus septentrionalibus). Sbr. *Þorv. Thoroddsen:* Landfræðissaga Íslands, I. bindi, einkannlega bls. 135—144.

eður griplanda,
nær það dregst
úr danskra höndum.

53. Drekka nú dýrir
í dimmu aldar
við undirlýðsins
olíufeiti,
sé það sjóvargagn
eða sérhvað annað,
skinnið af skollum,
skrápur eða húðir.

54. Þykir fátækum
fagnaðar yndi,
ef við öskuglóð
una sér mætti,
látinn angurlaus,
liðinn í meinleysi,
svo að æfintýrum
engum gegndi.

55. Öfundar-kæla
anda mótvinda
úti byrgir
eitt og margt hvað,
hlýt eg þeim inni
að halda fjöðrum
með bátkorn lítið
og brotnar árar.

56. Nú er hrerið karls
í hreysi komið
frá hofmóðs sveinum
og herrafólki,
guð má senda þeim
til gamans annað
og að spila við þá
sem spektir g[r]eina.

57. Hafa börn setið
við blys og elda
nokkuð drjúgara
yfir nótt miðja
og ná má eitthvað
enn um grímu,
móti dagsvonum
dimmir gjarna.

58. Hafa leikbræður
landsmenn mínir
kreist og kramið
karl vesalan,
mátti mig þó nýta
til margra gagnsemda,
meðan ættjörð vor
uppi tolldi.

59. Get eg eftir minn dag
aldar komandi
krutur megi heyrast,
þó karl sé liðinn,
nýtt úr nýju
ñærfellt sprettur,
meistarann vantar
margt að þekkja.

60. Lausandar skjótir
skýjum á milli,
eitt þó varist,
annað hæfir,
kingast og valtra
vísir í nokkru,

gluggur einn byrgður
kann gra[n|da ljósi.

61. Með bylgjuhríðum
og brauktíðindum
fálmað er og þreifað
og fundið eitthvað
sem hálfsjáandi
hitt og þetta,
griplandi nokkuð,
en úr greipum sleppa.

62. Þar til að býsnar
bata undan,
eftir skellskúrir
skín sem klárast,
dagurinn lýsir
þar dimmt var áður,
veg villu skuggar
víkja hljóta.

63. Myrknætti hljóta
menn að líða,
eins og aldarfar
eftir hlutfalli,
þreyja í hljóði
þunga harma,
það er guðs gáfa
sá getur um borið.

64. Marghöfða dýrið
meinsöld, veröld,
öfundar, harma,
angurs, hryggða,
böls, brigðmæla,
banaráðs, svika,
friðleysis, fjötra,
fárs, lífskvala.

65. Sáð hafa akra
sumir þannig,
nú er það eftir
upp að skera;
sá kemur dagur,
þó seinka þyki,
að hver tekur gjöld
fyrir gerðir sínar.

66. Nú skal fugl litli
fjaðrir hylja,
leysa ei fleiri
úr litlum stapa,
ekki heldur spila
við spottgjarna,
hvað skal þjóðum það,
sem þekkist enginn.

67. Mótvinda mína
mun eg svo kveðja,
þeir minnst hafa óskað
minna góðbæna,
hvar skaparinn hefir
þeim skikkað verur,
bifalast þangað,
beint sem hæfir.

68. Margt er til minnis
hjá mönnum upp
teiknað,
hver vill það hneyksla,
sem helgir leyfa;
sönn virðast dæmi
diktum meiri,
haft til skoðunar
hitt umliðna.

69. Hver vill sér eigna

ógreint nokkuð,
utan eigið mark
allglöggt þekki?
Sízt sig stoltir
sauri ausi
eða forsjálir
i flór grípi.

70. Þykist eg því fullviss,
að fyrirmenn engir
forvitnist undir
fjaðrir stuttar,
né dóm geri
um dyrðil titlings,
þó hann lafi þar
sem löngu er vaxinn.

71. Þykja æfintýr
alþýðu gaman,
en historium[1])
höfðingjar safna;
þess verður getið,
sem gerzt hefir
og mönnum er ekki
úr minni fallið.

72. Mun mótgangsfólk
móðgast ekki
né ragna fast
rauna-karli,
þeir með huga góðum
hlýða þessu,
verði þeim að hægri
harmar þeirra.

1) hdr.: hirdstiorum(!)

# Mannanöfn.

# Staðanöfn.

# LÍTIL ATHUGASEMD

VIÐ RITGJÖRÐ MEISTARA BOGA TH. MELSTEDS

»FERÐIR, SIGLINGAR OG SAMGÖNGUR« (SAFN IV)

EFTIR

**JÓN** PRÓFAST **JÓNSSON**

AÐ STAFAFELLI

[SAFN TIL SÖGU ÍSLANDS OG ÍSL. BÓKMENTA V NR. 4]



REYKJAVÍK

PRENTSMIÐJAN GUTENBERG

1917

Það er að eins eitt atriði í þessari fróðlegu ritgjörð sem eg vil hér gjöra að umtalsefni. Höfundur heldur því enn[1]) fram, sem mér þykir mjög sennilega til getið, að á landnámsöld Íslands hafi verið uppi tveir jarlar af Háleygja-ætt með sama nafni og föðurnafni, hvortveggja nefndur Hákon Grjótgarðsson, og hafi hinn yngri þeirra verið sonarsonur hins eldra, en sögusögn síðari manna slengt þeim saman, og gjört að einum og sama manni[2]). En þar sem hann bætir þeirri tilgátu við, að Sigurðr Hlaðajarl, faðir Hákonar jarls ríka, hafi verið sonur Hákonar Grjótgarðssonar yngra, get eg eigi verið honum samdóma lengur[3]). Háleygjatal Eyvindar skáldaspillis er ort um Hákon jarl ríka, son Sigurðar jarls, og virðist mér óhugsanlegt, að afa hans og langafa hefði verið slept úr kvæðinu eða langfeðgatalinu, enda var Eyvindr svo gamall maður[4]), að hann hefir vel mátt muna Hákon Grjótgarðsson yngra, hafi sá Hákon lifað til 920—30, og má nærri geta, að Eyvindr hefði eigi ruglað honum saman við afa hans, en erfitt að gjöra sér grein fyrir því, að einmitt þau erindi hefði týnst úr Háleygjatali, er komu til þeirra feðga Grjótgarðs yngra og Hákonar yngra Grjótgarðssonar, hefðu þau staðið þar nokkurn tíma, þar sem þeir höfðu verið uppi á dögum Haralds hárfagra, og hins vegar hafa svo margir fyrri ættliðir geymst af langfeðgatalinu, þar á meðal nokkrir samnefndir (2 Hávarar, 2 Haraldar, 2 Herlaugar), enda líklegast, að kvæðið hafi verið til í heilu líki á dögum Snorra Sturlu-

1) Sbr. Íslendinga saga: I. 206. Tilgátan upphaflega Finns prófessors Jónssonar.

2) Þetta er líka haft fyrir satt í nýjustu Noregssögu (A. Bugge: Norges Historie I.₂ 131).

3) Þetta hefi eg tekið fram í Ark. XXIII. 275. n. 4, en B. Th. M. ekki tekið það til greina.

4) Fæddur nálægt 910 (með því að hann getur um elli sína nálægt 965, F. J. Skjalded I. B. 64).

sonar, þar sem hann tilgreinir nokkur erindi úr því[1]. Hann getur þó um fall Grjótgarðs Hákonarsonar Hlaðajarls í síðari orustunni við Sólskel, án þess að minnast á Háleygjatal, enda veit hann ekki betur, en að Sigurðr Hlaðajarl hafi verið sonur Hákonar Grjótgarðssonar gamla, tengdaföður Haralds hárfagra[2]). Það sýnist ekki heldur neitt því til fyrirstöðu, að Hákon jarl gamli hafi getað átt Sigurð jarl í elli sinni (um 890—900), og mátti Sigurðr vel vera töluvert yngri en börn Ásu, systur hans, eða sonur hálfbróður hans (ɔ: Hákon Grjótgarðsson yngri)[3]). En líklegt má telja, að Grjótgarðr sá, er Snorri telur bróður Sigurðar jarls, *en miklu yngra*[4]), hafi verið sonur Hákonar jarls Grjótgarðssonar yngra, sem eigi hefir verið nefndur í Háleygjatali, og gat því fremur týnst eða runnið saman við annan í munnlegu arfsögninni[5]).

Með þessum hætti má koma öllu vel heim, er til ættar Hlaðajarla kemur, þótt eigi sé haldið fram þeirri tilgátu um faðerni Sigurðar jarls, sem kemur í bága við beztu heimildir, að faðir hans hafi verið sonarsonur Hákonar jarls Grjótgarðssonar gamla, er féll í Stafanessvogi.

---

1) Sbr. G. Storm um Ynglingatal í Ark. XV. 111—12. Þar er því haldið fram, að Eyvindr hafi endurtekið nokkra ættliði, til þess að liðirnir yrði jafnmargir og í Ynglingatali, en þótt það sé hæpin ályktun, þá virðist hitt enn óliklegra, að hann hefði slept nánustu forfeðrum Hákonar ríka til þess að Háleygjatal yrði ekki lengra en Ynglingatal.

2) Sbr. Hkr. (Ungers útg.) Har. hárf. 9., 11., 13. og 40. k., sbr. Ldn. V. 9. (um Atla jarl og Hástein).

3) Sigurður jarl átti dótturdóttur Haralds hárfagra, er að vísu gat verið yngri en hann.

4) Hkr. Har. gráf. 4. k. — Í Hkr. Har. hárf. 40. k. stendur: »Þeir vóru mjök jafnaldrar synir Haralds ok Sigurðr«, og er þar átt við sonu Ásu, sem Snorri (Hkr. H. hárf. 18. k.) telur fædda fyrir Hafrsfjarðarorustu (872), enda virðist Snorri (s. st. 13. k.) láta Hákon jarl falla nálægt 870, en eigi hafa gætt þess, að Grjótgarður sá, er sveik Sigurð jarl, gat með engu móti verið (al)bróðir hans, en þó »yngri miklu«, hefði Sigurðr sjálfur verið fæddur skömmu fyrir fall föður þeirra.

5) Sbr. Tím. Bmf. X. 130 nm.

# BÆJANÖFN OG EYÐIBÝLA
Á
# SKÓGARSTRÖND

EFTIR

**LÁRUS HALLDÓRSSON**

(SAFN TIL SÖGU ÍSLANDS OG ÍSL. BÓKMENTA V NR. 5)



REYKJAVÍK
PRENTSMIÐJAN GUTENBERG
1917

Til skamms tíma hefir lítið verið ritað um bæjanöfn og örnefni á Íslandi og hljóta þó allir að sjá, hversu stórkostlega mikilsvert það er sögu lands vors, tungu vorri og ýmsu öðru, að um þetta efni sé ritað og það rannsakað vísindalega. Merkasta ritgerð um þetta efni, sem ég minnist að hafa séð, er ritgerð prófessors Finns Jónssonar, sem út kom árið 1911 í Safni til sögu Íslands og íslenskra bókmennta og heitir: »Bæjanöfn á Íslandi«. Er hún eins og vænta má af jafn ágætum vísindamanni og dr. Finnur er ágæt, og er hann þar fyrsti brautryðjandi í þessum vísindum. Getur því ekki annað verið en margt sé óskýrt í þessum efnum, því að til þess nægir ekki málfræðisþekking eingöngu, heldur og þekking á sögunni, munnmælum og þjóðsögum og síðast en ekki síst kunnugleiki og þekking á landslagi og legu staða, sem nöfnin eru bundin við.

Prófessor Finnur stingur upp á því, »að einn maður eða tveir í hverri sveit tækju sig til og söfnuðu þess konar nöfnum og sendu þau t. d. Landsbókasafninu í Reykjavík«. Þetta væri óskaráð, en forgöngumann vantar, og væri ekki úr vegi, að Bókmenntafélagið tæki að sér að koma rekspöl á þetta mál og annast um að kveðja menn til þessa starfa. — Væri nauðsynlegt að félagið tæki mál þetta til umræðu og athugunar á fundum sínum.

Í þessari stuttu ritgerð hef ég hugsað mér að reyna til að leggja minn skerf til slíkrar söfnunar og þeirra skýringa, sem mér er unnt að gera. Skulu fyrst tekin nöfn byggðra bóla, eða bæjanöfnin á Skógarströnd því að hér hefir mér verið hægast að veita mér nauðsynlegar upplýsingar vegna þess að þar sem menn dvelja

og fara mest um, er auðveldast að kynna sér landslag og munnmæli um bæjanöfn og örnefni yfirleitt. Tel ég þá nöfn bæjanna, sem nú eru byggðir í þessari sveit, og leitast við að skýra þau. Verður það því fyrsti þáttur. Í öðrum þætti mun ég telja nöfn þeirra jarða, hjáleigna og kota, sem nú eru óbyggð og leitast við að skýra heiti þeirra eftir því sem föng eru á og ég hef getað útvegað mér upplýsingar um.

## I.

Byggðarlag það, sem nú er kallað Skógarströnd eða Skógarstrandarhreppur, liggur sunnanvert við Hvammsfjörð og Breiðafjörð, svo sem strandlengja frá Gunnarsstaðaá eða Gljúfurá og að Álftafirði, sem skerst til suðurs úr Breiðafirði fyrir austan Stykkishólm. Teljast með hreppi þessum nokkrar eyjar, 6 sem nú eru byggðar á Breiðafirði og taldar verða síðast i kafla þessum. Að góðum og gömlum sið verður hér byrjað á og fram haldið röð bæjanna eftir boðleið hreppsins og er þá austasti eða innsti bærinn

### 1. *Hólmlátur.*

Bær þessi stendur alllangt frá sjó, i halla sem liggur móti vestri. Háar borgir eru fyrir austan bæinn. Í landi jarðarinnar fram með ströndinni eru nokkur sker og einn grasi vaxinn hólmi eða ey, sem nær því fjarar út i. Er hólmi þessi i daglegu tali ávalt kallaður Hólminn og er þar ofurlítið æðarvarp. Landmegin við Hólmann er pollur, sem aldrei fjarar alveg, eins og lón. Þar mun látrið vera sem bærinn er kenndur við. Hefir þar verið selalögn i fyrri daga, eða látur, því að svo hafa selalagnir verið kallaðar að fornu fari. Selveiði er nú engin þarna, því að selur er nú þvi nær lagztur frá suðurströnd Hvamms- og Breiðafjarðar, þar sem áður var víða mikil selveiði. Nafnið Hólmlátur er því dregið af Hólmanum og lögninni eða látrinu, sem þar er fyrir ofan.

*2. Árnahús.*

Þessi jörð er í daglegu tali kölluð Árnhús og er það auðvitað latmæli, en þó ekki nema eðlileg breyting. Ekki hef ég getað komizt eftir, hvers vegna bærinn ber nafn þetta, en vitanlega er hann kenndur við mannsnafnið Árna, sem annaðhvort hefir byggt þar fyrstur eða byggt upp úr stekk eða beitarhúsum, eins og stundum átti sér stað. Ekki þykir mér ósennilegt, að þarna niður við sjóinn, fyrir neðan stóran beitarflóa, hafi forðum verið beitarhús frá höfuðbólinu og landnámsjörðinni Hólmlátri, því að eftir legu sýnist það vel geta staðizt, þar sem ekkert vatnsfall er á milli bæjanna, en einn óslitinn, stór og viðáttumikill flói.

*3. Emmuberg.*

Bærinn stendur norðan undir barði, og fyrir ofan það barð eru atlíðandi hjallar upp undir klettabelti, sem eru kölluð Bergin. Þetta klettabelti hygg ég, að sé berg það, sem bærinn er kenndur við. Sögn er um það, að fyrst hafi þarna búið kona eða ekkja, sem Emma hét. Neðan til í túnjaðrinum, til útnorðurs, stendur stór steinn einstakur, sem enn í dag er kallaður Emmusteinn, undir honum er sagt að Emma húsfreyja sé heygð. Hvergi hef ég heyrt hennar getið í ritum og líkast er til, að minning hennar lifi eingöngu í bæjarnafninu og munnmælasögunni, sem fylgir steininum.

*4. Laxárdalur.*

Grunnur og flár dalur liggur frá norðri til suðurs innarlega á Skógarströnd, og rennur eftir honum í norður til sjóar á, er Laxá heitir, nokkuð mikil á, og er laxveiði í ós hennar. Fyrir mynni dalsins er hæð, sem lykur honum neðan frá að sjá. Uppi á hæð þessari stendur bær, sem Laxárdalur heitir. Þegar þangað er komið, opnast dalurinn, en annarsstaðar að sést ekki inn í dalinn. Þetta bæjarnafn mun því ekki þurfa frek-

ari skýringa, nema réttara mundi vera að segja »að Laxárdal« en »í Laxárdal«.

### 5. *Borgir.*

Þetta bæjarnafn er sömuleiðis einfalt og óbrotið. Bærinn stendur austnorðanvert í lágri fjallshæð, sem er þeim megin alþakin köstum og borgum, er hafa ýmislega lögun. Flestar eru borgir þessar með standklettum úr stuðlabergi, og eru sumstaðar drangar klofnir frá, sem standa upprèttir. Eru þessar borgir bæði í og í kringum túnið. Sumir kalla bæ þenna í nefnifalli Borgar, og er það sjálfsagt jafnrétt.

### 6. *Innra-Leiti.*

Bær þessi stendur hátt, eiginlega uppi á ávölu fjalli bungumynduðu, með ótal hæðum og kastanöbbum. Fyrir norðan túnið er hryggmynduð hæð, og þegar að innan er komið, sést bærinn fyrst, þegar komið er á þessa hæð, sem er kölluð Leitið. Á milli þessa bæjar og þess næsta fyrir utan, sem er Bíldhóll, er annað leiti, sem gerir það að verkum, að ekki sést á milli þeirra bæja, en ekki er þó sú hæð kölluð leiti.

### 7. *Bíldhóll.*

Sunnan til í túninu á Bíldhóli er hóll aflangur og bungumyndaður, úr föstu bergi, og er hóllinn alltaf kallaður kastali, en um annan hól er ekki að tala, sem bærinn gæti verið kenndur við, því að bærinn stendur mitt í viðlendu flóalandi, eins og í breiðum og fláum dal, en þessi kastali eða hóll er einstakur upp úr flóanum; allt túnið er fremur lágt, nema í kringum kastalann. Sagt er, að bærinn sé kenndur við konu, sem þar á að hafa byggt fyrst bæ og búið, og heitið Bílda. Ætti bærinn því að heita Bíld*u*hóll. En það, að *u* er sleppt í framburði á undan *h*, er ekki nema eðlileg breyting. Leiði eða dys Bíldu kerlingar er sýnt enn í dag útsunnan undir kastalanum á Bíldhóli, og er það sjáanlega fornmannsleiði. Annars er afarmikil þjóðtrú

bundin við þennan kastala, og skal eigi farið frekar út í það hér. Auðvitað gæti bærinn líka verið kenndur við bildótta kind.

### 8. *Vörðufell.*

Þegar kemur út fyrir Svínafossá, breytist landslag að nokkru og verður ströndin þá alsett mörgum lágum og smáum fellum. Eitt af þessum smáfellum er það, sem bærinn að Vörðufelli stendur undir. Stendur hann austan undir fellinu, og er fornleg varða uppi á brúninni á fellinu, og sést hún frá bænum. Sjálfsagt er langt síðan, að varða þessi hefir verið hlaðin, því að annars hefði bærinn eða fellið ekki verið kennt við hana. Að líkindum mun vörðu þessari ávalt hafa verið haldið við. Nú á tímum litur hún út sem hálf varða eða vörðubrot.

### 9. *Keisbakki.*

Prófessor Finnur Jónsson ritar þetta bæjarnafn Keiksbakki, en sá ritháttur og framburður er vafalaust rangur. Áður hét bær þessi að eins Bakki. Keiks- heldur F. J. að sé ef til vill viðurnefni, og er það rétt, en þá á það að vera Keis. Í Fornbréfasafni VI. b., nr. 383, er landamerkjabréf fyrir jörðinni og er þar getið þess, að Oddur Þórðarson lögmaður hafi selt Kolbeini keis jörðina Bakka á Skógarströnd. Þetta sama bréf er prentað í Tímariti Jóns Péturssonar. Er bréf þetta fært til ársins 1482 í Fornbréfasafni, og hefir því Kolbeinn keis lifað fyrir þann tíma. Viðurnefni Kolbeins er auðskilið (keis = stór magi, ístruvömb). Kolbeinn þessi hefir vafalaust búið lengi á Bakka; hefir hann, að sögn, látið jarða sig þar skammt vestur frá túni í mýri, sem sagt er að áður hafi verið þakin skógi, en er nú alveg skóglaus. Þar er leiði hans, og er það hátt og hressilegt, enda er það kvöð á ábúanda að hressa það við á hverju ári, svo fyrir mælt af Kolbeini, annars verður eitthvað að. Samkvæmt þessu verður því rétt að rita Keisbakki, en ekki Keiksbakki.

### *10. Valshamar.*

Valshamarsbær stendur sunnan undir felli einu nokkuð háu og stóru um sig. Austanvert í fellinu er klettahamar, sem að nokkru leyti sést frá bænum, og ber hann nafnið Valshamar, en er í daglegu tali að eins nefndur Hamarinn (Sbr. Sturlungu II. 60. kap.). Hamarinn er vafalaust kendur við val = fálka, sem hefir setið þar eða orpið. Gæti, ef til vill, líka verið mannsnafn.

### *11. Breiðabólstaður.*

Þessi bær á töluvert marga nafna á Íslandi og skýring heitisins virðist vera augljós, svo að út í það verður ekki farið frekar. Þar sem bær þessi stendur er breitt bil á milli tveggja fjalla, Kláffells og Háskerðings, og er umhverfi bæjarins eins og víður hálfhringur, svo að lokað er fyrir útsýni, nema til vesturs. Svæði þetta eða grunna dalhvapp er vítt ummáls, og mun það vera »hið breiða ból«, sem staðurinn dregur nafn af.

### *12. Drangar.*

Í útnorður frá Breiðabólstað, skammt neðar, við sjóinn standa Drangar. Fyrir austan og ofan bæinn eru 3—4 smáfell, sem í daglegu tali eru kölluð Drangarnir. Eiginlega eru það hæðir eða fell, en alls ekki drangar eftir vanalegri merking þess orðs. En klettar eru háir að austanverðu í fellum þessum, og hefir auðsjáanlega mikið klofnað og hrunið niður af þeim og margir stórir klettastöplar liggja þar niðurfallnir. Get ég, að þeir stöplar muni áður hafa staðið uppréttir, og þá voru þeir sannkallaðir drangar. Þeir hafa staðið meðan nafnið festist við bæinn, en síðan lagzt til sinnar hinnstu hvíldar.

### *13. Háls.*

Milli Háskerðings og Straumsfjalls er háls einn lægri en nefnd fjöll, og heitir hann Setbergsháls. Yfir hann liggur alfaravegurinn um Skógarströnd. Norðan undir

hálsi þessum stendur bærinn Háls, og er það býli sjáanlega kennt við hálsinn, og þarfnast því eigi frekari skýringa.

### *14. Straumur.*

Margir hafa hugsað, að bær þessi bæri nafn af á eða læk með miklum straumi, en svo er þó eigi. Þar er ekki nokkur á eða lækur nærri. Bærinn stendur nokkuð nærri sjó. Ey ein liggur undir jörðina, sem kölluð er Straumsey; liggur hún fyrir landi jarðarinnar, en á milli hennar og lands er sund eitt fremur mjótt, og er í því vatnsmikill og harður straumur um sjávarföll, er sá straumur almennt nefndur Kolkistungur. Einstöku menn hefi ég heyrt nefna hann Kollköstung. Í Laxdælu 18. kap. er hann nefndur Kolkistustraumur og talinn í meira lagi, enda er það rétt. Dýpi er mikið í strauminum, en þó er þar sker, sem kemur upp úr um fjöru, og á því skeri fórst Þorsteinn surtur[1]). Bærinn að Straumi getur ekki verið kenndur við annað en Kolkistustraum eða Kolkistung.

### *15. Ós.*

Sá bær stendur rétt við sjóinn, þar sem Setbergsá og Langadalsá sameinaðar falla í hann. Við þann árós er bærinn auðvitað kenndur. Einkennilegt virðist það í meira lagi, að þegar ofannefndar ár eru komnar saman, eru þær eða ós þeirra kallaðar Ósá. Það nafn er auðvitað myndað seinna, og þá er ósinn eða áin kennd við bæinn.

### *16. Setberg.*

Þau eru nokkuð mörg Setbergin á Íslandi. Fyrir austan þenna bæ er hæð ein sporöskjumynduð, og hallar frá eystri til vestari enda. Eru lág klettabelti allt í kringum þessa hæð, en að ofan er hún að mestu flöt, nema hvað henni hallar. Þessi hæð er

1) Sbr. Laxdælu 18. kap.

kölluð Bergið og Bergsdalur er nefndur þar fyrir ofan. Þetta er skiljanlega það, sem fornmenn hafa nefnt setberg, og réttasta skýringin mun það vera, að það sé dregið af sæti eða set; slíkar hæðir hafa haft svipaða lögun og sæti eða bekkur, og við þessa einkennilegu hæð er bærinn vitanlega kenndur.

### *17. Litli-Langadalur.*

Á Útströnd eru tveir dalir, sem báðir liggja til suðurs í fjallgarðinn. Heitir hvortveggi Langadalur, en eru aðgreindir með lýsingarorðunum »litli« og »stóri«. Báðir munu vera hér um bil jafnlangir; þeir liggja sinn hvoru megin við Grásteinsfjall. Munur þeirra er að eins sá, að Litli-Langadalur sýnist vera grynnri og fláir meira út að ofan en hinn, sem hefir klettabelti og brattar hlíðar umhverfis sig. En klettabelti sést varla í Litla-Langadal. Í fornöld voru þeir nefndir »inn minni og inn meiri Langadalur«. Í Litla-Langadal standa bæirnir Setberg og Litli-Langadalur.

### *18. Klungurbrekka.*

Austanverðu við mynnið á hinum meira dalnum, við öxlina á Grásteinsfjalli, stendur bærinn Klungurbrekka. Eins og nú er kunnugt, mun nafnið dregið af þyrnirósinni, er vex í hlíðinni fyrir ofan bæinn. Hefir hún á landnámstíð eða í fyrri daga verið kölluð klungur, en ekki þyrnir. Er hlíðin líka eða brekkan sérstaklega einkennileg vegna jurtar þessarar. Margir ókunnugir hafa haldið, að klungur væri dregið af miklu grjóti eða urð, sem í hlíðinni væri, en það er eigi; hlíðin er þarna grösug og lítið grýtt. Kjartan prestur Helgason í Hruna mun fyrstur hafa bent á, að þetta forneskjunafn myndi eiga við þyrnirósina. Enda er mjög sennilegt, að svo sé, og bærinn hafi svo fengið nafn sitt af þessari sjaldgæfu þyrnibrekku.

### *19. Haukabrekka.*

Þessi bær stendur undir hlíðinni á Grásteinsfjalli

austan megin í Stóra-Langadal, sama megin og Klungurbrekka. Sumir nefna og hafa ritað Haugabrekka, en hvort réttara sé, get ég ekki vel sagt um. Að vísu eru í hliðinni og um það svæði, sem bærinn stendur á, haugar eða hólar, — gömul skriðuniðurhlaup, — en alveg eins getur brekkan verið kennd við hauka = fálka, sem eiga heima í hliðinni og klettunum þar fyrir ofan. Ég fellst því öllu heldur á þá skoðun, að bærinn heiti Haukabrekka, en Haugabrekka hygg ég að sé öllu fremur latmæli.

*20. Klettakot.*

Klettakot er vestan megin í Stóra-Langadal, og er þar fremsti bær með óskiftu landi við jörðina Stóra-Langadal og sjáanlega út úr bygging þaðan, hjáleiga byggð upp úr stekk eða beitarhúsum, enda mun mikill hluti kotanna á Íslandi þannig til kominn. Kastali er nefnt hátt klettakast fyrir ofan bæinn, og eru klettarnir nokkuð háir og einkennilega fagrir, enda eru þeir taldir bústaður álfa. Við þessa kletta er kotið auðvitað kennt.

*21. Stóri-Langadalur.*

Það er landnámsjörðin og höfuðbólið í dalnum, stendur vestan megin á sléttum grundum nálægt gili, sem hefir myndað grundirnar. Það hefir fyrst verið eini bærinn í dalnum, og þá verið nefnt í Langadal[1]). Seinna þegar hinn dalurinn byggðist líka, hefir þessi bær verið nefndur Stóri-Langadalur til aðgreiningar frá hinum litla, af því, sem áður er talið, og enn fremur sökum þess, að hér var aðalbólið og landnámsjörðin.

*22. Ytra-Leiti.*

Bær þessi stendur að vestanverðu í Stóra-Langadal, og sést ekki bærinn, þegar komið er að framan eða utan fyr en þegar komið er rétt að honum, svo að leiti

---

1) Í Landnámu II. 13. k. er hann nefndur »hinn ytri«; hefir Litli-Langadalur þá að líkindum verið nefndur »hinn innri«.

hylur bæinn á báða þá vegu. Aðallega ber þó sá holthryggurinn leitisnafnið, sem er að vestanverðu við bæinn. Við það leiti er bærinn kenndur, en Ytra-Leiti hefir hann verið nefndur til aðgreiningar frá hinu Leitinu, sem er þó langt frá á Innströnd, en aðgreiningarinnar þurfti þó, sérstaklega af því að bæirnir eru báðir í sama hreppnum.

*23. Narfeyri.*

Jörð þessi hefir ekki allt af borið sitt núverandi heiti. Þegar Geirröður nam þar land, var hún kölluð Eyri. Eftir hans daga færði Þorgeir kengur sonur hans neðan frá sjónum »ór eyrinni upp undir fjallið«, segir Landnáma[1]). Þó hefir bærinn stundum síðar verið kallaður Geirröðareyri. Í máldaga kirkjunnar frá dögum Gyrðs biskups Ívarssonar er jörðin kölluð Eyri í Álftafirði. Nokkuð löngu seinna bjó þar Narfi Þorvaldsson. Sögn er um það, að hann hafi enn fært bæinn úr stað, en þó hefir það varla verið öðruvis en svo, að hann hefir byggt hann upp. Vísu hef ég heyrt um það, að Narfi hafi flutt bæinn frá sjónum til fjallsins, og er hún svona:

Þar sem Narfi Þorvalds arfi kenndur
frá grunnsæ und fjallið snar
færði bæinn Geirröðar.

En það að Narfi Þorvaldsson hafi fært bæinn frá sjónum, mun vera alveg rangt, þvert ofan í vitnisburð Landnámu, enda er ekki bent á nema eitt fornt bæjarstæði á Narfeyri, þ. e. Geirröðar niðri á eyrinni. Hugsað gæti ég þó, að Narfi hafi fært bæinn til á hinu núverandi túni. Þykir mér líklegt, að bærinn hafi áður staðið vestur undan kirkju, vegna hinna miklu molda sem þar eru, en það sé verk Narfa að flytja hann þangað sem nú er hann fyrir austnorðan kirkju. Eitt er þó víst og það er, að minningin um Narfa Þorvaldsson

1) Landn. II. 13. kap.

hefir verið svo rík og sterk, að jörðin hefir dregið nafn sitt af honum, sem haldizt hefir svo allt til þessa dags.

*24. Geitareyjar.*

Eyjar þessar hafa verið byggðar til skamms tíma; lögðust í eyði 1911. Líkindi eru til, að bæði þessar eyjar og aðrar eyjar, sem nú eru byggðar í Skógarstrandarhreppi, hafi byggzt töluvert seinna en jarðir á landi. Hafa þær fyrst verið notaðar af landbændum til slægna og beitar, og því bera Geitareyjar nafnið, að þar hafa geitur verið látnar ganga, en stutt til lands þaðan, hvort heldur er til Narfeyrar, Óss eða Straums. Eyjar þessar hafa um langan aldur tilheyrt bændakirkjueigninni Narfeyri.

*25. Gvendareyjar.*

Skammt frá Geitareyjum liggja Gvendareyjar. Sundið á milli þeirra er straumurinn Geiteyingur. Þegar Þorsteinn surtur drukknaði í Kolkistustraumi og skipverjar hans, þá komst einn maður af, er Guðmundur hét, og barst hann á land með viðum að eyjum þeim, er síðan heita Guðmundareyjar (Laxdæla 18. kap.). Þessi eru tildrögin til nafnsins á eyjum þessum, sem nú eru ávalt nefndar Gvendareyjar í ræðu og riti.

*26. Öxney.*

Eins og áður er getið, mun þessi ey eins og fleiri upphaflega hafa verið notuð til beitar, og þá til nautabeitar eins og nafnið bendir á. Öxn eða yxn voru naut eða öllu heldur geldur nautpeningur nefndur í fornöld. Á þetta sama bendir nafnið Kálfhólmi, sem er á hólma einum fast við Öxney í sundinu Þröskuldum milli Brokeyjar og Öxneyjar. Ekki er annars getið í Landnámu II. 14. kap. en að ey þessi hafi haft nafn, þegar Eiríkur rauði nam Brokey og Öxney. Fyrsta veturinn sem Eiríkur var í eyjunum, bjó hann að Tröðum í Suðurey, sem er áföst við Brokey, en síðan fór Eiríkur í Öxney og bjó á Eiríksstöðum. Þetta bæjarstæði Eiríks

rauða er á allt öðrum stað en bærinn stendur nú, því að nú er bærinn og túnið útsunnanvert á eynni við sundið Bænhússtraum, en Eiríksstaðir fornu eru inn á miðri ey, á hæð einni sunnanvert við botninn á Eiríksvogi. Eru þeir nú á dögum ávalt kallaðir Eiríksbær. Er þar bæjarrúst og túnblettur í kring mjög lítill, og vottar fyrir rammgervum garði umhverfis, líkast að það hafi að eins verið virki í kringum bæinn, en ekki túngarður. Er venjan sú nú orðið, að bæir í eyjum hafa ekki annað heiti en nafnið á sjálfri eynni, sem bærinn stendur á.

### 27. *Rifgirðingar.*

Nafnið á ey þessari bendir á, eins og líka er, að hún er girt rifjum og skerjum á báða bóga eða svo að segja allt í kring. Hún liggur örskammt frá austnorðurenda Öxneyjar, djúpt sund á milli, Geysandasund. Eyjan sjálf er lítil, og stendur bærinn vestanvert á eynni á sjávarbakkanum.

Byggð hefir verið til skamms tíma í Kjóaeyjum, sem eru í landi Rifgirðinga, en í hvorri eynni byggð er upphaflegri, hef ég eigi getað fengið upplýsingar um.

### 28. *Brokey.*

Brokey er stærst ey á sunnanverðum Breiðafirði. Suðurey er áföst við hana; þar eru Traðir, þar sem Eiríkur rauði bjó fyrst, en það nafn á rústunum er nú gleymt, því að sel hefir verið byggt þar ofan á síðar. Byggð hefir komið seint í Brokey; líkindi til, að hún hafi lengi verið höfð fyrir afréttarland eyjamanna. Á það benda ýms örnefni á eynni, t. a. m. Sellönd o. fl. Ey þessi er með holtum og stórum flóum og sundum alvöxnum broki (Carex curta), og af því grasi hefir hún fengið nafnið eins og Eskigrasey af eskigrasinu. Tilgáta próf. F. J. að hún muni hafa verið nefnd Brúkey, af þarabrúki, er því vafalaust röng. Brokið er sú grastegund, sem mest ber á í eynni. Undir Brokey liggur nú Eskigrasey sem útey; hún var áður bæjareyin

og hefir fyrst byggzt. Í Sturlungu I. (Sturlusögu 25. k.) er þess getið, að byggð hefir verið í Eskigrasey á 12. öld. Hvenær hún hefir lagzt í eyði, en byggð verið hafin í Brokey, er óvíst, en fyrir nokkuð löngu mun það þó hafa verið, því að æði fornlegar eru bæjarrústirnar í Eskigrasey.

### *29. Gjarðey.*

Ekki er langt síðan að byggður var bær í Gjarðey. Gjarðey með undirliggjandi eyjum var lengi eign Snóksdalskirkju. Eru eyjar þessar nefndar í bréfi í Fornbr.s. Ísl. IX., bls. 212, sem er dagsett 21. maí 1524, og þar taldar tilheyra Snóksdalskirkju, og hefir svo verið til skamms tíma. Ein af þessum eyjum heitir Stafey, því að þar rak hornstafina úr kirkjuvið Þorkels Eyjólfssonar, er hann drukknaði á Hvammsfirði 1026 (Sbr. Laxd. 76. kap.). Hefir bærinn áður staðið í Stafey, en um eða eftir miðja 19. öld var breytt um og bær reistur í Gjarðey. Hafði þá Stafey verið í eyði um hríð áður. Gjarðeyjarnar eru tvær, ytri og innri Gjarðey, og stendur bærinn í hinni ytri eynni. Fjarar á milli eyjanna, en fyrir sunnan þær er ey, sem Gjörð heitir, og er í laginu eins og hálfhringur. Hefir mér verið sagt, að af henni dragi Gjarðey nafn, en alveg eins gæti verið að í eyjum þessum hafi fundist rekin gjörð, og hafi það svo gefið tilefni til nafnsins, eins og stafirnir gáfu tilefni til nafnsins á Stafey. Miklar rústir eru í Stafey, sem benda á, að bær hafi staðið þar lengi.

### *30. Ólafsey.*

Ólafsey liggur næst landi af byggðum eyjum við Skógarströnd. Ekki hef ég getað fengið upplýsingar um, við hvaða Ólaf ey þessi er kennd, en sumir segja, að sá hafi heitið Ólafur, er þar byggði fyrst bæ, og er það ekki ósennilegt, en enginn veit, hvenær það muni hafa verið. Gömul dys eða leiði er þar í túninu, en enginn veit með vissu, hver þar muni liggja.

II.

Þá er þessu næst að telja eyðibýli þau, sem vitanlegt er um, að hafi einhvern tíma verið byggð á Skógarströnd. Leikur mikil óvissa á því um sum þeirra, hvort þau muni nokkurn tíma hafa byggð verið, og enn aftur geta sumstaðar verið rústir af býlum, sem nú eru gleymd nöfnin á, vegna þess að ofan í rústirnar hafa ýmist verið byggð sel eða stekkir. Verður sama aðferð höfð og um byggðu býlin, að byrjað verður innst eða austast á ströndinni, og svo haldið út eftir henni og eyjarnar taldar síðast.

*1. Stangarkot.*

Þetta kot er í landi Hólmláturs, milli Hólmláturs og Gunnarsstaða, við mýri, er Stangarflói heitir. Ber lítið á rústum, því að þær munu vera svo æfagamlar. Sagt er, að kotið sé kennt við konu eina, sem þar hafi byggt, og hét eða hafði viðurnefnið Stöng.

*2. Maríugerði.*

Rústir þær, sem bera þetta nafn, eru í Árnhúsalandi og standa við sjó innarlega í Árnhúsatanga. Er þar slétt og fallegt túnstæði með garði í kring og vottar fyrir bæjarrústum. Ókunnugt er um, hvenær þar hefir verið byggð, eða við hvaða Maríu gerðið er kennt.

*3. Stekkjarhólar.*

Svo eru nefndir hólar nokkrir skammt fyrir vestan túnið á Bildhóli. Hefir nákunnugur maður, Sigfús sál. Jónasson bóndi á Hólmlátri, sagt mér, að þar væru greinilegar bæjarrústir, en vitanlega eru þar gamlar og nýjar stekkjarrústir líka. Ekki gat hann þó eða aðrir gefið mér neinar upplýsingar um, hvenær þar hefði verið byggð. Getur verið að bærinn hafi haft eitthvert heiti, sem nú er gleymt, en þegar stekkur var byggður þar síðar, hafi hólarnir tekið nafn af honum.

*4. Sámsstaðir.*

Í landi Breiðabólstaðar eru Sámsstaðir; eru þar nú beitarhús frá Breiðabólstað og hefir svo verið frá því, er núlifandi menn fyrst muna. Vel má greina þar bæjarrústirnar frá öðrum rústum og ennfremur vottar fyrir kálgarði, sem þó getur verið mikið yngri en rústirnar. Mannsnafnið Sámur er svo fornlegt, að vel gæti ég trúað, að sá er svo hét og býlið er kennt við, hafi verið þræll eða förunautur Steins mjöksiglanda Vígbjóðssonar, er fyrstur nam land á Breiðabólstað, og hafi hann svo byggt þessum þræli sínum bæ í heimalandinu.

*5. Ásmundarstaðir.*

Svo er nefnd bátalendingin að Hálsi, og þar rétt hjá, í Hálslandi, eru rústir, sem bera einnig nafnið Ásmundarstaðir. Hefir einhvern tíma verið þar bær, en túnstæði er þar litið, og því hygg ég, að þar hafi ekki verið aðalbólið, heldur hafi Ásmundarstaðir verið kot frá Hálsi. Alveg er ókunnugt um þann Ásmund, sem þar hefir búið, og eins hvenær þar hefir verið byggt eða byggð lagzt niður.

*6. Helganes.*

Fyrir framan byggðu bólin í Stóra-Langadal eru rústir af tveimur bæjum, sem nú hafa um langa hríð verið í eyði. Þessi eyðibýli eru Helganes og Neðranes. Helganes er framar (þ. e. nær dalbotni) og stendur í nesi við Langadalsá. Kennt mun það vera við einhvern Helga, en eigi er víst, hvenær hann hefir uppi verið eða hvenær byggð hófst eða lagðist niður í Helganesi.

*7. Neðranes.*

Þetta kot hefir staðið neðar en Helganes í nesi við Langadalsá. Það hafði í daglegu tali ávalt verið nefnt *Víti.* Sagt hefir mér verið, að þar hafi verið byggð á dögum séra Jóns Hjaltalíns, sem var prestur á Breiða-

bólstað (1811—1834), og hef ég heyrt vísu eftir hann um kotið, sem er á þessa leið:

Færðina rýra fékk ég ei,
firtur gesta kransi.
Varð ég að skíra í Víti mey,
— von er að flesta stansi.

En ekki veit eg, hvenær byggð lagðist niður í Víti.

*8. Gilsbakki.*

Í hinu núverandi Narfeyrarlandi eru þrjú býli fyrir utan heimabólið, og það eru Gilsbakki eða Kofi, Erlendskot og Borgardalur. Er Gilsbakki hið eina af þessum þremur býlum, sem nú er byggt. Byggt var þar fyrst um miðja 19. öld, og var bærinn í daglegu tali kallaður Kofi. En opinbera nafnið er Gilsbakki, því að bærinn stendur á bakka gils þess, er Ullargil eða Illagil heitir. Bær þessi hafði lengi verið í eyði 1911, þá er þar var aftur reistur bær, húsmennsku grasbýli frá Narfeyri, sem lagðist aftur í eyði vorið 1914, en bærinn stendur enn.

*9. Erlendskot.*

Milli Narfeyrar og Gilsbakka eru rústirnar af Erlendskoti. Eru þær rústir mjög fornlegar. Hefir þar verið hjáleiga frá Narfeyri. Engar upplýsingar hef ég getað fengið um, við hvern þetta kot er kennt eða hvenær það hefir verið byggt.

*10. Borgardalur.*

Eyðibýli þetta er miklu nafnkunnara vegna frásagnanna um Geirríði og gestrisni hennar, sem frá er sagt í Landn. II. 13. kap. Þar er sagt, að Geirröður á Eyri gaf Geirríði systur sinni bústað í Borgardal. Dalur þessi er í Narfeyrarhlíð fram með Álftafirði. Hlíðin er brött ofan að sjónum og dalurinn er stórt hvapp inn í hlíðina. Bratt er á allar hliðar upp í hvamm þenna eða dal; í honum miðjum er afarhár hóll, og uppi á toppi hans klettar. Það er borgin, sem

dalurinn er kendur við. Álfaravegur er skammt neðar, en alls ekki um sjálfan dalinn eða þar um, sem bæjar- eða skálarúst Geirríðar er. Þegar fjara er í Álftafjörð, sem flestir ferðamenn sæta nú á tímum, þá er vegurinn hvergi nærri Borgardal, því að þá er riðið með sjónum fyrir neðan hlíðina, en ekki uppi í henni fram hjá Borgardal. Ekki hefir heyrzt, að aðrir en Geirríður hafi búið í Borgardal.

### *11. Grímsey.*

Þar var búið í fornöld og eru þar greinilegar bæjarrústir. Nú liggur ey þessi undir Gvendareyjar, en langt er hún frá þeim. Liggur hún fyrir landnorðan Rifgirðinga-úteyjar, og er stutt þaðan til Kjóeyja. Ekki er kunnugt, við hvaða Grím eyin er kennd. Sagt er, að allt fólkið úr Grímsey, Kjóeyjum og Galtarey hafi drukknað af skipi á leið frá Narfeyrarkirkju. Er sagt, að báturinn hafi siglt á sker, er Skútunaggar heita, skammt frá Öxney, og hafi svo ekki verið búið framar í Grímsey og Galtarey, en í Kjóeyjum hafði kerling ein, er Halla hét, ætlað að vaða sjóarsund til næstu eyjar og grennslast um kirkjufólkið, en hún fórst í sundinu, enda hafði straumurinn í sundinu verið orðinn of harður. Er sá straumur síðan nefndur Höllubrjótur. Enginn veit, hvenær þessir atburðir hafa gerzt.

### *12. Eiríksstaðir.*

Um Eiríksstaði í Öxney er ekki fleira við að bæta, og vísast til þess, er um þá er sagt undir 26., Öxney, í I. kafla þessarar greinar.

### *13. Galtarey.*

Í ey þessari hefir verið býli til forna. Þar eru skýrar bæjarrústir. Liggur nú ey þessi undir Öxney. Nafnið ber hún sennilega af gelti, sem þar hefir gengið í eynni; líka getur hún borið nafnið af viðurnefni manns. Eins og áður er getið, á byggð þar að hafa lagzt niður um leið og í Grímsey, og af sömu orsökum og þar er getið.

### *14. Kjóeyjar.*

Í Kjóeyjum var byggð í fyrri daga og öðru hvoru þangað til 1890, þá er byggð lagðist þar algerlega niður. Kjóeyjar liggja við svo nefnda Röst, skipaleiðina inn á Hvammsfjörð. Eyjarnar bera nafn af fuglsheitinu kjói (Lestris parasitica), því að stundum hefir verið mikið af þeim fugli í eyjunum.

### *15. Eskigrasey.*

Ey þessi ber auðvitað nafn af eskigrasi (Eqvisetum hyemale), sem sjálfsagt hefir þar verið mikið af, og einkennt eyna, þegar hún fékk nafnið. En nú hefir þessi grastegund ekki fundizt í eynni. Dr. Helgi Jónsson kom í eyna 1898, og gat þá hvergi fundið eskigras. Ekki gat ég heldur fundið það þar 1913. Hvers vegna byggð lagðist niður í ey þessari og var færð í Brokey, er ekki hægt að vita.

### *16. Norðurey.*

Norðanmegin við Brokey liggur ey þessi; aðskilur þær örmjótt sund, sem þornar að mestu um fjörur. Hefir Vigfús bóndi Hjaltalín, sem nú býr í Brokey, brúað þetta sund. Sagt er, að Guðm. Þorleifsson ríki, sem bjó í Brokey snemma á 18. öld, hafi hlaðið grjótbrú yfir sundið til þess að reka kýr eftir inn á Norðurey. Í Norðurey eru leifar af tveimur húsmennskubýlum, sem þó bera ekki neitt sérstakt heiti; eru þau bæði byggð á 19. öld; hafa svo fallið í eyði. Í öðru bjó lengi Hákon skáld Hákonarson, en í hinu Vigfús, sonur séra Jóns Hjaltalíns.

### *17. Traðir í Suðurey.*

Þetta bæjarstæði Eiríks rauða stendur hátt, utan í brekku mót útsuðri í Suðurey. Nafnið Traðir er nú aldrei haft um þessar rústir, heldur eru þær kenndar við sel, sem hefir verið byggt ofan á bæjarrústir Eiríks. Hvers vegna Eiríkur hefir nefnt bæ sinn Traðir, er óvíst. Sáð hefir hann varla haft þar, því að fyrst var

Eiríkur ekki nema einn vetur í Suðurey, og svo er landslagi þar svo varið, að slíkt mundi naumlega hafa verið hægt, vegna þess, að eyin er öll eða meströll tómar blágrýtisklappir. Hún er öll há og nær því eins og dálítið fjall. En þar sem blágrýtishryggirnir ganga jafnhliða, eins og þar er sumstaðar, gæti verið, að það hefði gefið tilefni til nafnsins í sömu merking og tröð, þ. e. heimreið heim að bæ = gata. Suðurey er áföst við Brokey með rifjum, sem þó fellur yfir um miklar flæðar.

*18. Stafey.*

Um Stafey er áður ritað undir 29., Gjarðey, í I. kafla þessarar greinar, og vísast því til þess.

---

Ekki hef ég getað fengið upplýsingar um fleiri eyðibýli í Skógarstrandarhreppi, en vel getur verið, að þau séu fleiri fyrir því. Ég veit til, að sumstaðar eru rústir, sem hafa ekkert nafn, en þær geta líka verið stekkjarústir, þó að þar séu ekki heldur kallaðir stekkir. En í þessari grein hefir mér ekki þótt hlýða að fara frekar út í þetta efni, þar sem ekkert nafn var á. Að rannsaka allt þesskonar heyrir auðvitað undir fornfræðina. Verð ég því að láta þetta nægja að sinni. Nauðsynlegt væri, að sem fyrst væri ger gangskör að því, að skrifa upp og safna öllum örnefnum í landi hverrar jarðar áður en þau gleymast frekar en orðið er, því að ótal mörg dæmi veit ég til þess, að örnefni gleymast á stuttum tíma. Sjá allir, hversu feikilega mikils virði það er tungu vorri, að örnefnin glatist ekki, og get ég ekki skilizt svo við þetta mál, að ég endurtaki ekki uppástungu mína, sem ég gerði í upphafi þessarar greinar, að skora á Bókmenntafélagið að taka málið að sér, enda lægi því það næst, samkvæmt tilgangi þess og stefnu.

# DÓMKIRKJAN Á HÓLUM Í HJALTADAL

## LÝSING ÍSLENZKRA MIÐALDAKIRKNA

EPTIR

**GUÐBRAND JÓNSSON**

[SAFN TIL SÖGU ÍSLANDS OG ÍSL. BÓKMENTA V. NR. 6]



REYKJAVÍK
PRENTSMIÐJAN GUTENBERG
MCMXIX—MCMXXIX

*Tveir fyrstu kaflar rits þessa eru sæmdir verðlaunum af Gjöf Jóns Sigurðssonar.*

*Minningu*

*foreldranna minna sálugu,*

*Karólínu Jónsdóttur*

*og*

*Jóns Þorkelssonar,*

*er þetta rit helgað.*




I

1 Dómkirkjan. 2 Skólahúsið nýja. 3 Skólahúsið gamla. 4 Leikfimishús (talan hefur af vangá fallið úr í myndamótinu, en það er eini skástrykaði flötunum, sem ekki er tala i). 5 Gamli bærinn (»Nýi bærinn«). 6 Hesthús. 7 Hesthús og hlaða með skemmu. 8 Geymsluhús. 9 Fjós. 10 Salerni. 11 Kal- og jurtagarður. 12 Bæjarrúst (»gamli bærinn«). 13 Auðunarstofa. 14 Latínuskólarúst. 15 Traðarhóll (rúst af bústað kirkjuprests). 16 Latínuskóli Jóns bps helga. 17 Prentarahúsrúst. 18 Prentsmiðjurúst. 19 Virki Jóns bps VI (»Slotið«). 20 Gamall sáðgarður (Laukagarður?). 21 Smiðjurúst. 22 Hesthússrúst. 23 Skemmurúst. 24 Fjósrúst. 25 Fjósrúst. 26 Fjóshlöðurústir. 27 Rúst af hestarétt. 28 Fjárhúsrúst. 29 »Prestsæti« (Altarisrústir). 30 Kvíarúst. 31 Geymsluhúsrúst. 32 Vatnsmylnurúst. 33 Fiskasteinn latínuskólans. 34 »Gvendarbrunnar«. 35 Sandpollur?

II


A
H
E
G
B
F
D
C
A Sönghús, kór
B Framkirkja
C Stöpull
D Kapella
E Önnustúka
F Maríustúka
G Krosstúka
H Skruðhús
a Háaltari
b Skrín Jóns bps
c Formessualtari
d Bps og kanokasæti
e Leiði Laurentiusar bps
f Leiði Jóns Craxton?
g Leiði Jóns bps Arasonar
og sona hans
h Útöltöru
Mensura

III










merkir að kirkja sömu stærðar sé nefnd í ritgjörðinni



VII






## Skýringar:

1 Hauskúpa biskups Jóns (II)
2 Handleggur biskups
3 Fótur biskups
4 Höfuð annars sona hans (III)
5 Kol og bein sem með því fundust
6 Höfuð hins sonarins (I)
7 Önnur bein úr honum
8 Tveir járnbútar (úr kistu?)
9 Hlaðinn garður
10 Hella
11 Hella
12 Hlaðinn garður
13 Steinlímshrúga
14 Forkirkja dómkirkjunnar
15 Tré og járnnaglar

VIII






## Skýringar:

1 Hauskúpa bps Jóns (II)
2 Handleggur biskups
3 Fótur biskups
4 Höfuð annars sona hans (III)
5 Kol og bein sem með því fundust
6 Höfuð hins sonarins (II)
7 Önnur bein úr honum
8 Tveir járnbútar (úr kistu?)
9 Hlaðinn garður
10 Hella
11 Hella
12 Hlaðinn garður
13 Steinlímshrúga
14 Tré og járnnaglar









Skýringar:

A Norðausturhorn dómkirkjunnar með skurðinum
a Skurðurinn
b Grunnur undan Péturskirkja
c Grunnur undan Guðbrandskirkju
d Dómkirkjuhornið
B Hinir fornu kirkjugrunnar þverskornir
I Péturskirkja
II Guðbrandskirkja
C Sama séð norður eptir skurðinum
α Guðbrandskirkja
β Péturskirkja

XI










Skýringar:

A Hleðslan c í B í stærri mælikvarða
α Kirkjugaflinn
β Hleðslusteinar

B Gröfin tekin til rannsókna við austurgafl Hóladómkirkju
a Leiði

b Gröfin
c Hleðsla fundin í gröfinni
d Austurendi kirkjunnar




Vígiskirkjugarður í *Vatnsfirði*

I og II Girðingin þverskorin í sárið
III Uppdráttur garðsins
A Kirkja (rúst)
B Grafreitur
C Girðing

NB Tölur innan girðingar merkja innanverða, tölur utan girðingar utanverða hæð hennar.

XIII Vígiskirkjugarður




Hofstaðir 1902
(Eptir D. Bruun)

Gásir 1359
(Eptir D. Bruun)

XIV




Skýringar:

A Kirkjan
B Veggir kirkju
C Sacrarium í veggnum
D Kirkjugarður
E Kirkjugarðsveggur
F Kirkjudyr
G Sáluhlið
× Fótpunktar mælingar
Reconstrutionir



XV Þverskurður af kirkju þeirri, sem lýst er í Homilíubókinni

a Veggir
b Syllustokkar (undirstokkar)
c Stoðir
d Skot
e Staflægja
f Veggþili
g Gólfþili
h Setupallar
i Þvertré
j Dvergar
k Ásar
l Ræfur
m Mæniás
n Vagl
o Þekja
p Hornsteinar



XVI Grunnflötur kirkjunnar, sem lýst er í Homilíubókinni

a Veggir
b Skot
c Kór
d Brjóstþili innra
e Kórdyr
f Brjóstþili ytra
g Dyr
h Gluggar
i Hornstafir
j Stoðir
k Veggþili

I



Gunnsteinsstaða kirkja utan

2



Gunnsteinsstaðakirkja innan
(norðausturhorn. Sacrarium er svarti bletturinn í gaflvegginn)

3



Gurnsteinstaðakirkja innan
(suðausturhorn)

4



Veggur undan skrúðhúsi á Hólum

5



Grettisvarða í Vatnsfirði

6



Kirkjugarður í Vatnsfirði

# Heimildarrit.

Fyrir framan heiti hvers rits stendur nafn það skáletrað, sem notað er, þegar vitnað er í það. Handrit eru nefnd safnanúmerum, þegar vitnað er í þau. Sé ekki annars getið, er vitnað í ritin fullu heiti.

## A. Handrit.

Lbs. 290 Fol. Þorláksannáll. Eptir Þorlák stúdent Markússon á Sjávarborg (1690—1736).

Biskupasögur Jóns Halldórssonar. Handrit í eigu Dr. Jóns Þorkelssonar þjóðskjalavarðar.

Add. British Museum 11, 245 4to. Brot úr máldagasafni Odds biskups.

J.Sig. 143 4to. Máldagabók Odds biskups.

Dómabók Þjóðskjalasafnsins skrifuð c. 1600.

Máldagabók Þjóðskjalasafnsins skrifuð 1601. (Vitnað í hana með fullu nafni).

Lbs. 108 4to. Afskript síra Jóns í Hítardal af fyrirfarandi hdr. (Máldagabók Þjóðskjalasafnsins) o. fl.

Bréfabók Guðbrands biskups í Þjóðskjalasafninu. (Vitnað í hana með fullu nafni).

AM. 422 4to.

Lbs. 63 4to.

M.Steph. 62 4to. (Í Árnasafni).

Lbs. 66 4to.

AM. 262 4to.

AM. 243 4to.

J.Sig. 58 Fol. Afskript í Landsbókasafninu af Jarðabók Árna Magnússonar, XII. bindi. Húnavatnssýsla. (Í tilvitnunum nefnd: *Jarðabók*).

AM. 264 Fol.

Ny kgl. Saml. 328 8vo.

## B. Önnur rit.

*Á. Í. F. F.* Árbók hins íslenzka Fornleifafélags 1882—1916. Rvík. 1882—1916.

*A. O.* Aarböger for nordisk Oldkyndighed.

*Agenda.* Agenda Maguntinum. Mainz 1513.
*Architeklen.* Bruun, D.: »De sidste Græstörvkirker i Island« i i Architekten Meddelelser fra akademisk Architektforening. V. Bind. Kbh. 1902. Bls. 453—463.
*A pilgrimage.* Collingwood, W. og Jón Stefánsson: A pilgrimage to the sagasteads of Iceland. Ulverstone 1893.
*Aarsb.* Aarsberetning for Foreningen til norske Fortidsminders Bevaring.
*A. B.* Annálar Björns á Skarðsá I—II. Hrappsey 1774—1775.
*A. Esp.* Jón Espólín: Íslands árbækur 1—12. Kbh. 1821—1854.
*Arts.* Brown, Baldwin: The Arts in early England I—IV. London 1903—1915.
*Bock.* Bock, Fr.: Geschichte der liturgischen Gewänder des Mittelalters I—III. Bonn 1859—1871.
*Búalög.* Búalög 1.—2. hefti. Sögufélag gaf út. Rvík 1915—1916.
*Biskupasögur Jóns Halldórssonar.* Biskupasögur Jóns Halldórssonar. Sögufélag gaf út. I—II. Rvík 1902—1915.
*B. S.* Biskupasögur. I—II. Kbh. 1858—1878.
*Bruun Kulturliv.* Bruun, D.: Nordboernes Kulturliv I. Fortidsminder og Nutidshjem paa Island. Kbh. 1897.
*Bruun Affolkede Bygder.* Bruun, D.: Gennem affolkede Bygder paa Islands indre Højland. Kbh. 1898.
*Digtningen.* Jón Þorkelsson: Om Digtningen paa Island i det 15. og 16. Aarhundrede. Kbh. 1888.
*D. I.* Diplomatarium Islandicum I—XI. Kbh. & Rvík 1857—1918.
*Eyrbyggjas.* Eyrbyggjasaga. Herausgegeben von Guðbrandur Vigfússon. Leipzig 1864.
*Eimreiðin.* Eimreiðin. Ársfjórðungsrit.
*Einföld meining.* Jón Gíslason: Einföld meining til frekari eptirþanka um haganlegustu kyrknabyggingar á Íslandi einkum í fjalldala regnaplássum. Kbh. 1837.
Fjallkonan XXII. árg. 1905. (Vitnað í hana með fullu heiti).
*Ferguson.* Ferguson, James: A history of Architecture in all countries. I—II. (Ancient and medieval Architecture). London 1893.
*Fritzner.* Orðabók Fritzners.
*Fett.* Fett, Harry: Norges Kirker i Middelalderen. Kria 1909.
*Fornm.* Fornmannasögur.
*Grettla.* Grettis saga. Kbh. 1853.
*Grg. I.* Grágás ved Finsen. Kbh. 1852.
*Grg. II.* Grágás Staðarhólsbók. Kbh. 1879.
*Grg. III.* Grágás Skálholtsbók. Kbh. 1883.
*Gaimard* Gaimard, Paul: Voyage en Islande et au Groenlande exécuté pendant les anneés 1835 et 1836 etc. Paris 1838—1852, með Atlas historique Paris 1842.

*Henderson.* Henderson, Ebenezer: Iceland or the Journal of a Recidence in that Island during the years 1814—15. I—II. Edinburgh 1818.

*Hildebrand.* Hildebrand: Den kyrkliga Konsten under Sveriges Medeltid. Stockholm 1875.

*Hist. eccl.* Finni Johannæi Historia ecclesiastica Islandiæ I—IV. Havniæ 1772—1778.

*Hóm. I.* Hómilíubók. Isländska Homilier efter en handskrift från tolfte Århundredet. Ved Theodor Wisén. Lund 1872.

*Hóm. II.* Gammel norsk Homiliebog. Udgiven ved C. Unger. Kria 1864.

Howell: Icelandic pictures. London 1893. (Vitnað í ritið með fullu nafni).

*I. A.* Islandske Annaler indtil 1578 ved Gustav Storm. Kria 1888.

*Jónsbók ÓH.* Jónsbók ved Ólafur Halldórsson. Kbh. 1904.

*Kaufmann.* Kaufmann, C. M.: Handbuch der christlichen Archäologie. Zweite Ausgabe. Paberborn 1913.

*Kugler.* Kugler: Geschichte der Baukunst I—III. Stuttgart 1856—1859.

*Krefling.* Krefting, O.: Om Trondhjems Domkirke. Trondhjem 1899.

*Kaalund.* Kaalund, P. E. K.: Historisk-topographisk Beskrivelse af Island I—II. Kbh. 1877—1882.

*Kjalnesingas.* Íslendingasögur II. Kbh. 1847.

*Købke.* Købke, P.: De danske Kirkebygninger. Kbh. 1908.

*Leifar.* Þorvaldur Bjarnarson: Leifar fornra kristinna fræða íslenzkra. Kbh. 1878.

*Landnáma.* Íslendingasögur I. Kbh. 1843.

*Laxd.* Laxdœla saga ved Kr. Kaalund. Kbh. 1889—1891.

*Mackenzie.* Mackenzie, Sir George: Travels in the Island of Iceland during the summer of the year MDCCCX. Edinburgh 1811.

*Martyrologium.* Martyrologium Romanum. Mechelu (Malines) 1903.

*Migne.* Migne, J. P.: Patrologia latina. Aðeins vitnað í 55. bindi. Paris 1846.

*Missale.* Missale Romanum. Tours 1906.

*Morðbréfabæklingar.* Morðbréfabæklingar Guðbrands biskups 2. útg. Rvík 1902—1906.

*NGL V.* Norges gamle Love V. B. Kria 1895. (Kristinréttur Árna biskups).

*Nicolaysen.* Nicolaysen, N.: Mindesmærker af Middelalderens Kunst i Norge I—V. Kria 1854—1855.

*Otte.* Otte, H.: Handbuch der kirchlichen Kunstarkäologie des deutschen Mittelalters I—II. 5. Aufl. Leipzig 1883—1885.

*Omrids.* Dietrichson, L.: Omrids af den kirkelige Kunstarkæologi. Kria 1902.

*Obituaria.* Jón Þorkelsson: Obituaria Islandica. Kbh. 1893—1896.
*Pétur.* Pétur Pétursson: Historia ecclesiastica Islandiæ ab anno 1740 ad annum 1840. Havniæ 1841.
*Postolasögur.* Postolasögur udgivne af C. Unger. Kria 1874.
*Privatb.* Valtýr Guðmundsson: Privatboligen paa Island i Sagatiden. Kbh. 1889.
*Rationale.* Duranti, Guliellmus: Rationale divinorum officiorum. Nürnberg 1494.
*Rituale.* Rituale Romanum. Paris 1857.
*Rugmann.* Jón Rugmann: Greiner or þeim gömlu logum. Uppsala 1667.
*Safn.* Safn til sögu Íslands.
*Schirmer.* Schirmer, Herm. M.: Femti daterde norske Bygninger fra Middelalderen. Kria 1887.
*Siletzky.* Ritualer for den orthodox-katholske Kirkes Sakramenter. Oversat fra Russisk af C. Siletzky. Kbh. 1900.
*Skirnir.* Skirnir, tímarit hins íslenzka Bókmentafélags.
*Stokes.* Stokes, Margaret: Early christian art in Ireland. Dublin 1911.
*Sturl.* Sturlunga saga ved Kr. Kaalund I—II. Kbh. 1906—1911.
*Sunnanfari.* Sunnanfari, mánaðarblað með myndum.
*Taranger.* Taranger, A.: Den angelsaksiske Kirkes Indflydelse paa den norske. Kria 1890.
*Wallem.* Wallem, Fredrik B.: De islandske Kirkers Udstyr i Middelalderen. Sérprent úr »Foreningen til norske Fortidsminders Bevarings Aarsberetning« 1909 og 1910. Kria 1910.
*Þjóðmenjasafn.* Matthías Þórðarson: Þjóðmenjasafn Íslands. Leiðarvísir. Rvík 1914.
*ÆJÞ.* Æfisaga Jóns Þorkelssonar skólameistara í Skálholti I—II. Rvík 1910.

Auk þessa er vitnað í nokkur einstök skjöl í Þjóðskjalasafninu í Reykjavík.

———

I.

## Saga dómkirkjunnar.

Það eru til allmiklar frásögur um það, hvað á daga dómkirkjunnar hefur drifið síðan hún var reist fyrst. Stormur og eldur hafa hvað eptir annað orðið henni að grandi, og eptir siðaskiptin hafa svo ónærgætnar hendur um hana leikið, að nú eru með öllu horfnar flestar minjar um auð og dýrð fyrri tíða. En ekki verður því neitað, að það kemur allókunnuglega fyrir, að hinir auðugu og glæsilegu íslenzku biskupar til forna skuli engar eða sáralitlar tilraunir hafa gjört til að vernda dómkirkjur sínar fyrir ofsa höfuðskepnanna með því, að byggja þær úr steini í stað timburs. Þetta er þeim mun kynlegra, sem óhætt mun að fullyrða, að varla hafi nokkurn tíma fengist rapttækur viður úr skógum Íslands. Ísland er grjótland, og hefði þeim mun fremur átt að mega gjöra því á fæturna, að biskupar landsins myndu ekki vilja standa stéttarbræðrum sínum annars staðar í Niðaróss erkibiskupsdæmi að baki[1]), sem einmitt um þessar mundir keptust við að reisa veglegar steinkirkjur. En því var ekki

1) *Schirmer* segir bls. 7, 9, 10, 14, 16 og 17, að dómkirkjan í Björgvin sé bygð úr steini um 1080 (varð dómkirkja 1170, þegar biskupsstóll í Selju var lagður niður), í Görðum á Grænlandi um 1126, í Hamri 1152, í Kirkjuvogi (Kirkwall) í Orkneyjum eptir 1137, í Niðarósi (Þrándheimi) hefst byggingin 1075, í Osló er dómkirkjan bygð úr steini 1048, í Selju um 996 og í Stafangri á árunum 1111—1128. Í Kirkjubæ á Færeyjum er bæði hin fagra dómkirkjurúst og steinkirkja sú, er þar er enn notuð, bygð á dögum Erlends biskups (1269—1308), sbr. *Aarsb.* 1905, bls. 199. Dómkirkjurnar á Hólum og í Skálholti eru því hinar einu í öllu erkibiskupsdæminu, sem verið hafa úr tré.

að heilsa, og fyrir þá sök sér nú ekki stein yfir steini af hinni fornu, fögru dómkirkju á Hólum. Frásagnirnar um hörmungar þær, sem yfir húsið hafa gengið, eru einar eptir. Frásagnirnar, sem flestar eru allsnubbóttar, eru dreifðar um ýmsar sögur og annála. Útgrepti gjörði höf. á Hólum sumarið 1918 til að athuga, hvort jörðin hefði ekki geymt betur það, sem henni var trúað fyrir, heldur en mennirnir. Það var að vísu fyrirsjáanlegt, að lítill eða enginn árangur yrði af þeim, þar sem grafreiturinn, er kirkjan stóð í, er notaður enn í dag, en engu að síður var sjálfsagt að gjöra tilraunina, ef eitthvað skyldi finnast. Á árangurinn af þessari rannsókn er nákvæmlega minst í síðasta kafla þessa rits. Þótt hann væri lítill að vöxtunum, er hann ekki með öllu ómerkilegur.

Fyrstu kirkju á Hólum bygði Oxi Hjaltason um 1050[1]). Hann var bóndi á Hólum og sonur Hjalta Þórðarsonar þess, er bjó á Hofi í Hjaltadal 1028[2]). »Þat hyggja menn, at sú kirkja hafi mest gjörr verit á öllu Íslandi, er Oxi lét gera, ok lagði til þeirrar kirkju mikil auðræði og lét hana búa innan vel og vandliga ok þekja blýi alla. En sú kirkja brann upp með öllu skrúði sínu ok leyndum dómi guðs«[3]), en hvenær það gjörðist, er ekki kunnugt. Svo virðist sem Oxi hafi ekki sjálfur endurreist kirkjuna, því að þegar hinn blessaði Jón biskup, hinn fyrsti með því nafni, Ögmundarson á Hólum, lét reisa kirkju sína, lét hann »ofan brjóta kirkju þá, sem áður var. Sú kirkja hafði gjör

---

1) Jóns biskups saga hin elzta *B. S.* I, 163 (með neðanmgr.), sbr. Jóns sögu ýngri *B. S.* I, 235.

2) *Grella*, 161.

3) *B. S.* I, 163, sbr. 235. Þar sem Jóns saga elzta hermir, að kirkjan hafi bæði verið undir tréþaki og þakin með blýi, virðist svo sem um misskilning geti verið að ræða, enda sleppir Jóns saga ýngri tréþakinu úr frásögn sinni. Hinsvegar væri líka hugsanlegt, að skilja bæri staðinn svo, að ræfrið hafi verið úr tré, en lagt blýi að utan. Mun að þessu vikið í síðasta kafla þessa rits.

verit næst þeirri kirkju, er Oxi Hjaltason hafði gera látið«[1]).

Árið 1056 var settur á stofn biskupsstóll á Íslandi, og sat biskupinn í Skálholti í Sunnlendingafjórðungi. Kringum 1100 fóru óskir úr Norðlendingafjórðungi, um að fá sérstakan biskupsstól settan á stofn þar, að gjöra vart við sig. Báru Norðlingar það fyrir sig, að Skálholtsbiskupi veittist erfitt sakir fjarlægðar að veita þeim þá biskupsþjónustu, sem þyrfti, og eins það, að síður yrði landið biskupslaust, ef biskupar væru hér tveir. Varð það úr að 1106 var settur biskupsstóll norðanlands, og til biskups kjörinn Jón prestur Ögmundarson. Í fyrstu reyndist erfitt að fá til jörð, er hæfileg þætti til biskupssetürs, en um síðir urðu menn á það sáttir, að Hólar í Hjaltadal væru bezt til fallnir. Þar bjó þá prestur sá, er Illugi hét[2]), »hann einn varð til þess búinn af virðuligum mönnum í Norðlendingafjórðungi at rísa upp af föðurleifð sinni fyrir guðs sakir«[3]).

Er Jón biskup I. hafði skamma stund setið á Hólum, væntanlega eptir því eitthvað á árunum 1107—1110, lét hann brjóta ofan kirkju þá, er fyrir var á staðnum, og reisti í staðinn stóra og prýðilega dómkirkju[4]). Fyrir kirkjusmíðinu var maður, er Þóroddur

1) *B. S.* I, 163, sbr. 235.

2) Í Jóns sögu ýngri *B. S.* I, 232 er hann nefndur Hilarius, og er það íslenzka nafnið latínusnúið.

3) *B. S.* I, 159, sbr. 232.

4) *B. S.* I, 163, sbr. 235. Hjá *Schirmer*, bls. 16, er sagt, að bygging kirkjunnar hafi verið hafin eptir 1106 og lokið fyrir 23. April 1121, sem er dánardagur Jóns biskups. Það virðist fullmikið í borið að gjöra ráð fyrir því, að verkið hafi dreifst á svona mörg ár, sérstaklega þar sem báðar sögur Jóns biskups segja það berum orðum, að kirkjan hafi verið bygð, er hann hafði »skamma stund« á stóli setið. Með því virðist varla geta verið átt við miklu lengri tíma heldur en 3—4 ár, sérstaklega ef tekið er tillit til þess, hve tiltölulega stutt Jón biskup sat á stóli — ekki nema 15 ár. Getur því varla komið til mála annað en að tilgáta sú, sem gjörð er hér ofanmáls, sé sanni nær en tilgáta Schirmers.

hét Gamlason[1]), og er það vafalaust maður sá, er kunnastur hefur orðið með nafninu Þóroddur rúnameistari. Hversu lengi sú kirkja hefur staðið, verður ekki með vissu séð, enda er ókunnugt um, hvaða ár Jörundur Hólabiskup (1266—1313) bygði kirkju sína, er leysti kirkju Jóns biskups af hólmi. Það er hvergi í sögum Jóns biskups beinlínis að því vikið, hve lengi kirkja hans hafi staðið, heldur verður að ráða það af ýmsu öðru, sem þar er tekið fram. Í Jóns sögu hinni elztu er sagt um kirkjuna: »sú, er stendr þar enn í dag«[2]), en í ýngri sögunni stendur: »sú er til skammrar stundar hefir staðið«[3]). Hve lengi kirkjan hefir staðið, virðist þess vegna verða að fara eptir því, hvenær hin yngri saga er skrifuð. Aldurshámarkið verður að miða við aldur eldri sögunnar, en aldurslágmarkið við aldur yngri sögunnar.

Þó að það að jafnaði sé ekki á verksviði þessa rits að rannsaka aldur heimilda þeirra, sem notaðar eru, verður það þó óhjákvæmilegt um þetta atriði.

Skipting sagna Jóns biskups í elztu og ýngri sögu er gjörð af hinum ágæta útgefanda þeirra[4]). Við nánari athugun virðist þó svo, sem að sú skipting sé tæplega nægilega rökstudd. Útgefandinn telur, að hin svo nefnda eldri saga (texti A.) sé samin í byrjun 13. aldar, og er það í alla staði sennilegt, meðfram af því að hún segir, að kirkja Jóns biskups standi þá enn. Um hina svo nefndu ýngri sögu (texta B.) er því haldið fram, að hún sé þýðing Jóns sögu á latínu, sem, eptir því, sem ýngri sögunni og sögu Arngríms ábóta

---

1) Svo Jóns saga ýngri *B. S.* I, 235 og handritið AM. 392, 4to., sbr. *B. S.* I, 163 (neðanm.), en elzta sagan nefnir hann að eins Þórodd.

2) *B. S.* I, 163.

3) *B. S.* I, 235.

4) Prófessor Guðbrandur Vigfússon í Öxnafurðu. Skoðanir hans um aldur sagnanna og afstöðu innbyrðis eru settar fram í formálanum fyrir Biskupasögum *B. S.* I, xxxiv—xlii, og verður ekki vitnað þangað frekar en þetta.

segist frá[1]), var samin af Gunnlaugi munki Leifssyni, að undirlagi Guðmundar biskups Arasonar. Latnesku söguna vill útgefandi Jóns sagnanna láta vera samda á árunum 1203—1208, en þýðinguna (ýngri söguna) ekki fyrri enn eptir 1250, eða jafnvel ekki fyrri enn á 14. öld. Handritið AM. 392 4to (texti C.) ætti þá að vera sérmeðferð (redaktion) á þýðingunni á hinni latnesku sögu Gunnlaugs munks. En þessu er í raun og veru á alt annan veg varið. Hin svo nefnda elzta saga er, eins og útgefandinn heldur fram, sjálfstæð saga, frumsamin á íslenzku, en hin svo nefnda ýngri saga er aptur á móti ekki þýðing á sögu Gunnlaugs munks, heldur sérmeðferð (redaktion) á hinni elztu sögu, þar sem skeytt er inn nýjum frásögum og jarteinum úr hinni latnesku sögu Gunnlaugs munks, sem ekki eru fyrir í hinni svo nefndu elztu sögu, og getur hún ekki verið eldri enn frá 1295—c. 1300. Loks er nokkur ástæða til að halda, að hin latneska saga Gunnlaugs munks hafi ekki verið sjálfstætt verk, heldur blátt áfram þýðing á elztu sögunni með viðaukum eptir Gunnlaug. Ef svo er, verður ýngri sagan vitanlega sama sem saga Gunnlaugs, án þess þó að vera þýðing á henni. Ekki eru til neinar frásagnir af því, að dómkirkjan á Hólum hafi verið endurbygð fyrri enn á dögum Jörundar biskups. Þegar Jóns saga ýngri kemst svo að orði, eins og áður er getið, að kirkja biskups Jóns hafi staðið »til skammrar stundar«, þá geta það ekki verið orð Gunnlaugs munks, sem dó 1219[2]), nema gjört sé ráð fyrir, að kirkja Jóns biskups hafi verið undir lok liðin og búið að byggja nýja um 1200. Það má þó teljast óhugsandi með öllu, að þess væri ekki getið í annálum, eða annarsstaðar, ef ný dómkirkja hefði verið

---

1) *B. S.* I, 235, 257, II, 31.

2) Guðmundar saga elzta *B. S.* I, 510, einnig Annales regii, Skálholts annáll og Gottskalks annáll, allir prentaðir í *Í. A.*, enn Lögmannsannáll og Flateyjarannáll (prentaðir *ibid.)* telja það hafa verið 1218, og Oddaverjaannáll jafnvel 1215 *(ibid.)*.

bygð. Verður því að álíta, að ýngri sagan sé rituð eptir að Jörundur biskup bygði kirkju sína, eða eptir 1294, og að þessi orð séu meðferðarbreyting. Samanburður á frásögum þeim, sem sameiginlegar eru með hinni elztu og ýngri sögu, sýnir, að þær, að undanskildum nauðaómerkilegum orðamun, eru svo að segja orði til orðs eins. Þetta væri vitanlega óhugsandi, ef um þýðingu væri að ræða, jafnvel þótt af svo að segja samhljóða frásögu af sama viðburði væri. Auk þess verður ekki annað sagt en að maður verði ekki var við latínubragð það að málinu á ýngri sögunni, sem útgefandinn gjörir svo mikið úr. Að ýngri sagan hefur tímatal Hungurvöku, þarf í þessu sambandi ekkert að þýða, það þarf ekki að vera annað enn meðferðarbreyting (redaktionsbreyting). Að eldri söguna vantar og ýngri sagan hefur ýms orð og frásagnir eptir Gunnlaugi munk, þarf í hæsta lagi ekki að merkja annað en að þessir staðir séu teknir upp úr hinni latnesku sögu hans[1]). Þó að það vitaskuld, eins og útgefandinn tekur fram, komi optsinnis fyrir í fornum íslenzkum þýðingum, að þýðandinn, þegar sérstaklega stendur á, taki það fram, að ein og önnur orðatiltæki séu ekki eptir hann, heldur höfundinn, hefur það, eins og hér stendur á, enga þýðingu, þó að, þegar orð eru tekin upp eptir Gunnlaugi, sé bætt við: »segir Gunnlaugur munkur« eða »segir bróðir Gunnlaugur«. Þegar samanburðurinn á eldri og yngri sögunni er búinn að sýna, að ýngri sagan sé ekki þýðing, er ekki hægt að skoða þessar athugasemdir öðruvísi enn sem nokkurskonar gæsalappir utan um það, sem tekið er eptir Gunnlaugi, — eins og nokkurskonar heimildartilvísun. Greinileg dæmi um samræmið milli elztu og ýngri sögunnar má benda á, t. d. 1.

1) Á þeim stöðum, sem með vissu er hægt að eigna Gunnlaugi munk, t. d. Prologus, sem tekinn er eptir Gunnlaugi, er greinilegt latínubragð að málinu, t. d. »vorr aldur«, sbr. »ætas nostra« o. fl., og bendir það óneitanlega í þá átt, sem að ofan greinir.

kapítula elztu sögunnar borinn saman við 2. kapítula ýngri sögunnar, eða 5. kapítula elztu sögunnar frá orðunum »Eptir þat fóru þeir út hígat« o. s. frv., borinn saman við 17. kapítula í ýngri sögunni. Hinum lærða útgefanda virðist hafa litizt vel á þessa skoðun, ef marka má orð hans og ummæli um Jóns sögu biskups[1]), þó að hann hafi ekki fyllilega getað fallizt á hana. Honum hefur verið ljóst, að hugsanlegt væri, að latneska sagan væri ekki annað enn þýðing á elztu sögunni með viðbótum eptir Gunnlaug munk, þó að hann hafi ekki viljað gjöra þá skoðun að sinni. Enda verður ekki hægt að færa sönnur á þetta, nema því að eins að finnist ábyggileg frásögn um að svo sé, eða þá að sjálf latneska sagan finnist, sem varla þarf að gjöra ráð fyrir. En meðferð ýngri sögunnar bendir óneitanlega í þessa átt.

Það verður því að ætla, að kirkja sú, er Jón biskup I. reisti, hafi staðið þartil Jörundur biskup bygði dómkirkju sína. Óbreytt hefur hún þó ekki staðið. Um 1200 hefur verið gjört stórmikið að henni. Svo segir Jóns saga elzta: »hefir hún þó (þ. e. kirkja Jóns) verit bæði þakit, og margir lutir aðrir at gjörfir síðan«[2]). En ýngri sagan nefnir margar »atgerðir«, er henni hafa verið veittar[3]).

Hvernig kirkja Jóns biskups leið undir lok, er ekki kunnugt; það eina, sem kunnugt er um þann atburð, er, að Jörundur biskup bygði sína kirkju. En mjög væri það ósennilegt, að hann hefði farið að reisa nýja kirkju, ef gamla hefði staðið eða átt að standa. Þar sem íslenzkir annálar, sem annars eru ótæpir á það, að segja frá kirkjubrunum, kirkjufoki og öðrum slíkum atburðum, geta ekki þess, að kirkjan á þessum tíma hafi orðið fyrir neinu slíku tjóni, er eðlilegast að ætla, að Jörundur biskup hafi látið rífa kirkjuna vegna þess, að hún hafi ekki lengur verið á vetur setjandi. Að hún hafi þurft að-

1) Sjá formálann fyrir *B. S.*
2) *B. S.* I, 163.
3) *B. S.* I, 235.

gjörðar með jafnsnemma og áðan gat eg um, bendir óneitanlega í þá áttina.

Þrjár eru frumheimildirnar um kirkjubygginga Jörundar biskups, í Laurentiusarsögu[1]), í Lögmannsannál[2]) og í Flateyjarannál[3]). Frásagnirnar eru svo að segja orði til orðs eins, og furðar mann sízt á því um Lögmannsannál og söguna, sem að öllum líkindum eru eptir sama manninn, síra Einar Hafliðason[4]). Með láti Jörundar biskups er þess getið, að hann hafi látið »uppsmiða kirkjuna á Hólum ok prýða hana með klukkum ok skrúði, ok auðgaði staðinn at löndum ok eignum, gulli ok brendu silfri, svá at sýnast mun meðan Ísland er bygt«. Í kirkjusögu Finns Jónssonar[5]), í Árbókum Espólíns[6]) og í Biskupasögum síra Jóns Halldórssonar[7]) er minst á kirkjubygginguna, og er í hinum tveim síðarnefndu ritum tiltekið mál á dómkirkjunni, sem síðar mun verða vikið að. Jón Halldórsson segir enn fremur um þessa kirkju: »sú kirkja hrapaði ofan í grunn af sterkum stormi á Jónsmessu baptistæ[8]) á dögum Péturs biskups Nikulássonar anno 1394, hér um hundrað ára gömul«[9]). Finnur Jónsson hefur að sjálfsögðu notað Biskupasögur föður síns, er hann samdi kirkjusögu sína, en máli því á dómkirkjunni, sem þar getur um, hefir hann slept úr henni, en aldursins getur hann aptur á móti, og verður það varla á annan veg skilið, enn að Finnur hafi annaðhvort

1) *B. S.* I, 825, sbr. 886—887.

2) *I. A.* 265.

3) *I. A.* 392.

4) Sjá *B. S.* I, lxxxvii—lxxxix.

5) *Hist. eccl.* II, 154. Þar segir um Jörund biskup: »Templum cathedrale sumtuose magnificeque Holis exstruxit«.

6) *A. Esp.* I, 33.

7) Æfir hinna kaþólsku biskupa eptir hann eru eingöngu til í handriti, og hefi ég notað eintak, sem er í eigu föður míns, Dr. Jóns Þorkelssonar þjóðskjalavarðar.

8) Rángt, á að vera Jónsmessu postula.

9) Í frásögninni af Jörundi biskupi í Biskupasögum Jóns Halldórssonar.

ekki þekt heimild föður sins fyrir málinu eða þókt hún að einhverju leyti varhugaverð, og því slept því, en heimildina fyrir aldrinum hafi hann þekt og þókt hún nýtandi og því getið hans[1]. Espólín getur einnig málsins, og hefur það að sjálfsögðu eptir Jóni Halldórssyni; aldrinum sleppir hann aptur á móti, en það skiptir litlu, því að Árbækurnar eru fremur ónákvæmt rit. Þó að heimild sira Jóns fyrir aldri kirkjunnar þekkist ekki nú, er þó engin ástæða til að rengja, að hann sé réttur; eptir öllum málavöxtum er hann einmitt einkar sennilegur, og er sira Jón einn í sjálfu sér nægilega góð heimild, enda að jafnaði mikið sennilegra, að höfundi láist að geta um ábyggilega hluti, enn að hann fari að segja frá ákveðnum atriðum heimildarlaust. Eptir þessum bókum hefir því kirkja Jóns biskups verið rifin og kirkja Jörundar verið bygð kringum árið 1294.

Kirkja Jörundar stóð til 1394, þá fauk hún 27. december »með svo undarligum atburð, að hvert tré brotnaði. Varð þar öngvu undan bjargat nema líkneskjum og helgum dómum. Varð þar undir einn piltur og dó«[2]. Lögmannsannáll lætur þetta gjörast 1393[3], en eptir honum verður þó ekki farið um þetta atriði, af því að bæði er Gottskálksannáll yfirhöfuð áreiðanlegri, og eins er það staðreynd, að Lögmannsannáll árfærir viðburði optsinnis einu ári of snemma[4].

Að Jörundi biskupi látnum 1313 settist norskur maður, Auðun rauði Þorbergsson kanunkur frá Niðar-

1) *Hist. eccl.* III, 426—427 (neðanm.).

2) Gottskalksannáll *I. A.* 398. Þegar Pétur biskup yfirgaf stól sinn í síðasta sinni 1396 var enn til kirkjubrotsviðurinn, og er hann talinn í máldaganum, sem þá var gjörður. Sjá *D. I.* III, 614.

3) *I. A.* 285.

4) Sjá *I. A.* formálann xxi—xxiv og *D. I.* II, 851. Um ártal þessa viðburðar fer Finnur Jónsson í kirkjusögu sinni — *Hist. eccl.* II, 217 — eptir Gottskalksannál, en um piltinn, sem undir kirkjunni varð, er hún hrapaði, fer hann eptir Lögmannsannál, og telur, að hann hafi verið djákni.

ósi, á stól á Hólum[1]), og fór þar með biskuplegt vald til dauðadags 1322[2]). Það, sem kunnugt er um hann, bæði frá viðureign hans og kórsbræðra í Niðarósi við Jörund erkibiskup, og eins alt framferði hans hér á landi, bendir til þess, að hann hafi verið samtíðarmönnum sínum fremri að flestu, og fyrirrennurum sínum og eptirkomendum Hólabiskupum framsýnni og framtaksamari um staðarforráð. Þá er hann 1314 kom til stólsins, hafði hann út með sér timburstokka, flutti þá heim til Hóla og bygði úr þeim stofu mikla — Auðunarstofu[3]) —. Hann hafði og með sér steinsmiði og lét gjöra steinofn í stofuna og ýmsar bætur úr steini á kirkju Jörundar biskups[4]), sem síðar mun verða á vikið. Varla virðist ofnsmiðið eða kirkjubæturnar geta hafa gefið nægilegt tilefni til að hann flutti út hingað með sér steinsmiðina. Eðlilegast er að ætla, að hann hafi haft eitthvað meira í huga, og verður þá einna næst fyrir að ætla, að hann hafi haft í hyggju að byggja steinkirkju á Hólum, enda er ýmislegt sem bendir ákveðið í þá átt. Á árunum 1702—1712 kom Árni Magn-

1) *B. S.* I, 827 og *I. A.*

2) *B. S.* I, 837 og *I. A.*

3) *B. S.* I, 828, 888. Á báðum stöðunum eru nefndir timburstokkar, og hefur húsið því verið stokkhús (blokkhús), sbr. *Æ. J. P.* I, 204. Biskupsstofan forna í Kirkjubæ í Færeyjum, sem enn er að mestu leyti við líði, er einnig stokkhús (sjá *Aarsb.* 1906, 65). Auðunarstofa var rifin 1826, 512 ára gömul, og timburstokkarnir úr henni seldir á uppboði (sbr. *A. I. F. F.* 1913, bls. 65). Hafa þeir eptir því að dæma þá verið í svo góðu standi, að vel hefði húsið mátt standa enn í dag, ef vit og vilji hefði verið til. 1759—1763 meðan verið var að smíða kirkju þá, sem nú er á Hólum, var stofan notuð sem kirkja (sjá *Æ. J. P.* I, 204). Stofan sést á mynd af Hólum í ferðabók Hendersons (eptir bls. 110)? og má sá uppdráttur gefa nokkra hugmynd um útlit hennar, þó að bæði sé hann lítill og illa gjörður (»forteiknaður«); segir höf., að stofan hafi verið tvílypt (*Henderson*, bls. 111). Það virðist hún þó fyrst vera orðin eptir 1763 (sjá *Æ. J. P.* l. c. og bls. 21 hér að aptan), því að þá mun hún hafa verið með opnum þakstól (beru ræfri), nema efra loptið hafi þá verið haft fyrir kirkju.

4) *B. S.* I, 830, 890.

ússon, sem þá var hér á landi við jarðabókarstörfin, á biskupssetrið Hóla og gjörði síðar, á árunum 1720—1725, lauslegt uppkast að lýsingu á kirkjunni eins og hún var, þegar hann sá hana, og er sú lýsing geymd í Konungsbókhlöðunni í Kaupmannahöfn[1]) og prentuð í Fornbréfasafninu[2]). Í lýsingu þessari, sem hér mun opt verða vitnað í, kemst hann meðal annars svo að orði: »Mógrjótið, sem múrinn umkring Hólakirkju er af, er tekið úr Rauðuskriðu, sem er í Hólabyıðu fyrir framan staðinn. Menn segja Auðunn rauði hafi látið hann byggja, og ætlað að gjöra múrkirkju, en ei enzt til«[3]), og bætir síðan við: »Það er auðséð á vindaugunum, að það hefir átt múrhús að verða, því þar eru innmúraðar járnstengur, item vindeltröppur, minnir mig«[4]). Í Oddaverjaannál segir um Auðun biskup, að »hann lét byggja múrinn að Hólakirkju«[5]). Árni hefur þarna sjálfur séð múr kringum dómkirkjuna, sem bar þess greinilegar menjar, að honum var ekki upprunalega ætlað að vera girðing, heldur hluti í húsi með gluggum og vindustigum alveg upp við kirkjuna, og virðist ekki annað líklegra enn að það hús hafi átt að verá kirkja. Enda hefur þá manna á meðal verið álitið að svo væri, og kirkjan verið eignuð Auðuni biskupi. Þegar Oddaverjaannáll var ritaður kringum 1600[6]), hefur sama álit manna verið ríkjandi um uppruna kirkjumúrsins sem getið var um áðan. Þegar þess er líka gætt, hve ósennilegt er, að málum væri blandað um jafnfásénan grip og dómkirkja úr steini myndi hafa verið á Íslandi, virðist ógjörningur að hugsa annað enn að

1) *Ny kgl. Sml.* 328, 8vo.

2) *D. I.* III, 606—611.

3) *D. I.* III, 609. Örnefnið Rauðaskriða þekkist nú ekki í Hjaltadal, en ekki virðist um að villast, að það sé skriðan í Byrðunni suður og austur af bænum.

4) *D. I.* III, 610 (neðanm.).

5) *I. A.* 489.

6) Gustav Storm álítur, í formálanum fyrir *I. A.* xxxviii—xlvi, annálinn vera hérumbil frá þessum tíma.

Auðun biskup hafi byrjað að smíða steinkirkju á Hólum[1]). Að honum entist ekki aldur til að ljúka við hana er auðskiljanlegt, því að hann var maður hniginn á efra aldur, er hann kom til stólsins, og hafði hann ekki biskupsdóm nema í 8 ár. Með dauða hans er framkvæmdin á steinkirkjubyggingunni úr sögunni, og timburkirkjunum var engin hætta búin fyrsta kastið.

Þegar kirkja Jörundar biskups fauk 1394, var danskur maður, Pétur Nikulásson, biskup á Hólum, og bygði hann kirkjuna upp aptur[2]). Þar sem kirkjan fauk 27. december 1394, en Pétur biskup fór alfarinn af landi burt í maí 1396[3]), hlýtur kirkjan að vera bygð sumarið 1395. Og það er þetta hús — síðasta vígi kaþólskrar trúar og menningar á Íslandi — sem riti þessu er ætlað að lýsa, eptir því sem hinar fáu heimildir frekast leyfa.

Kirkja þessi stóð í 231 ár, og lángt fram yfir siðaskiptin. Það er vitanlega einsætt, að hún muni ekki

1) Í stuttri frásögu af Gottskalk biskup Kenikssyni (*B. S.* II, 231) segir: »hann lét smíða upp miðkirkjuna alla og allan múr í kringum kirkjuna«. Frásögnina, sem er eptir hdr. síra Eyjólfs Jónssonar (d. 1745), ber vafalaust að skilja svo, að Gottskalk biskup hafi látið dypta að kirkjunni, því ekki er annað kunnugt enn að kirkja Péturs biskups hafi staðið alla leið fram yfir siðaskipti. Sennilegt er og, að biskup hafi verið orðinn úrkula vonar um, að nokkurn tíma yrði lokið við steinkirkjuna, og því breytt því, sem komið var af henni, í kirkjumúr, þann múr, sem Árni Magnússon sá.

2) *Hist. eccl.* II, 217: »Templum autem collapsum Petrus reædificari curavit«.

3) Að biskup hafi þá farið alfarinn af landi burt er sagt með berum orðum í Hólamáldaganum 1396: »er virðuligr herra, herra Pétur með guðs og postulligs sætis náð biskup á Hólum bjóst til skips«, enda finst hans ekki getið hér á landi eptir það. Yfir þetta skjal virðist Hannesi skjalaverði Þorsteinssyni hafa skotizt, þegar hann samdi biskupatal það, sem prentað er í *Biskupasögum Jóns Halldórssonar* II, 385—392. Því að þar segir í neðanmálsgrein við Pétur biskup bls. 389: »Pétur biskup er erlendis (í Helsingjaborg) 1401, og hefur ekki verið hér á landi eptir það, og virðist farinn af landi burt nokkru fyrir 1400«.

hafa getað staðið allan þennan tíma án þess að við hana væri gjört, enda eru heimildir fyrir því, að Gottskalk I. Keniksson Hólabiskup hafi látið smíða upp miðkirkjuna[1]), og að Ólafur biskup Rögnvaldsson hafi »bygt sína kirkju svo at hún er at öllu betur standandi nú (þ. e. 1481) enn þá er hann tók með«[2]). Þó að annara viðgjörða á henni sé að vísu ekki getið, verður vegna aldurs hennar fastlega að gjöra ráð fyrir því, að dyptað hafi verið að henni miklu optar. 1549 lét Jón VI. Arason Hólabiskup víggirða Hólastað; lét hann gjöra vegg og gröf og kallaði Hóla »slot«[3]). Ætlaði biskup þaðan að verjast konungsvaldinu og hindra siðaskiptin, þó það tækist alt öðruvísi. Biskup lét færa stykki og byssur á vígið, en ekki getur það hafa verið neitt ægilegur kastali, ef marka má af vopnum þeim, sem biskup, að því er Sigurðarregistur hermir, lagði til staðarins; voru það: »2 fallbyssur, er keyptar voru fyrir 16 hundruð í kaupstað, þar með 2 áttungar púðurs og 8 járnlóð, þar til 8 hakabyssur fyrir 8 hundruð, og hálfhaka 7 fyrir 4 hundruð«[4]). Einnig lét biskup byggja gaung á lopti af múrnum á kirkjuna, og hefur það vafalaust verið gjört í þeim tilgangi, að virkismenn gætu, ef í harðbakka slægi fyrir þeim, flúið á náðir kirkjunnar og forðað svo lífi sínu[5]).

---

1) *B. S.* II, 231.

2) *D. I.* VI, 390.

3) *A. B.* 1, 154 undir árinu 1549, sbr. *B. S.* II, 444, sem þó ekki tilfærir ártalið. Enn sér marka fyrir virkinu framan í barði norðan við kirkjuna, sjá töflu I.

4) *D. I.* XI, 854.

5) Kirkjugriðin eru bezta og sennilega einasta skýringin á, hvernig á því stóð, að kirkjur á Íslandi á miðöldunum voru óskiljanlega margar, borið saman við mannfjöldann, eins og hann líklega hefir verið þá. Það voru óróatímar, og gat vel verið tilvinnandi að byggja hjá sér kirkju, svo að menn hefðu griðin við höndina, hvað sem í skærist. Skoðanir manna á kirkjugriðum breyttust mjög eptir siðaskiptin, og voru þau úr lögum numin með konungsbréfi 2. Júní 1587, sjá t. d. *B. S.* II, 695.

2

Kirkja Péturs biskups stóð þartil á ofanverðum dögum Guðbrands biskups Þorlákssonar[1]); þá tók hana af í norðanroki 16. Nóvember 1624[2]). Fimm árum áður hafði kirkjan orðið fyrir áfalli og skekkzt á grunninum[3]). Guðbrandur var, þegar þetta gjörðist, karlægt gamalmenni, og lenti það því á officialis hans, síra Arngrími Jónssyni lærða, og dóttursyni hans og eptirmanni, Þorláki Skúlasyni, að koma kirkjunni upp aptur. 1625 var viðað til kirkjunnar[4]), og smíðinu lokið áður en Guðbrandur dó, sem var 20. Júlí 1627, og verður eptir því að ætla, að hún hafi verið smíðuð árið 1626.

---

1) Frásaga sú, sem Oddur Einarsson Skálholtsbiskup (1589—1630) — maður Helgu Jónsdóttur, sonardóttur síra Björns Jónssonar Arasonar — lét semja um biskup Jón Arason (sjá *B. S.* II, 325—338) upp úr frásögn þeirri, sem Magnús sonur síra Björns hafði ritað, hermir frá því, að Jón biskup hafi tvisvar á prestsárum sínum, í tíð Gottskalks II. Nikulássonar Hólabiskups, farið utan í erindum biskups, og að hann »í fyrra sinni kom út með viði til Hólakirkju, og kom það skip í Kolbeinsós, og var öll kirkjan gjörð af tré«. Væri þetta rétt, hefði ný dómkirkja hlotið að vera bygð á Hólum á dögum Gottskalks biskups. En þetta kemur ekki heim við frásögu Magnúsar Björnssonar, sjálfa heimildina fyrir frásögu Odds, því að hún segir svo frá þessu *(B. S.* II, 317), að »í fyrra sinni kom hann út með kirkjuvið, hver sett var við Kolbeinsós«. Það verður því að ætla, að frásögn Odds biskups blandi af einhverjum ástæðum málum (misskript?), svo að hausavíxl sé höfð á kirkju við Kolbeinsós og kirkju heima á Hólum, því að ekkert er það, sem veikir frásögu Magnúsar, en alt legst hinsvegar á móti rangherminu í frásögu Odds biskups.

2) *A. B.* II, 118, *Lbs. 290 Fol.* bls. 296, *Hist. eccl.* III, 426—427, *A. Esp.* VI, 25. Öllum ber þessum stöðum saman um það, að kirkja sú, er fauk á dögum Guðbrands, sé sama kirkjan, sem Pétur biskup Nikulásson hafi bygt, og þar með er gjörsamlega girt fyrir, að Gottskalk biskup II. hafi bygt upp dómkirkju á Hólum. Í gamalli dómabók í Þjóðskjalasafninu, skrifaðri um 1600 og síðar, fol. 116, er sagt, að kirkjan, sem fauk á dögum Guðbrands biskups, hafi verið 220 ára, er hún fauk. Þetta er vitanlega rangt, eins og hér að ofan sést.

3) *A. Esp.* l. c.

4) *Hist. Eccl.* l. c.

Til er í safni Árna Magnússonar bæði fróðleg og skemtileg frásögn eptir Odd biskup af því þegar dómkirkjan fauk, og er hún sett hér fyrir þá sök, að hún gefur glögga hugmynd um slysið:

»Tijdende um Hölakirkiu j Hialtadal.

Suo er nordan ad skrifad, ad hun sie af fallen med aullu og flest aller vider j henne skemder og fordiarfader. enn allar kluckor voru obrotnar og kalejkanner[1]) og suo brijk sem var yfer häaltare sem biskup Jon Arason hafde läted þangad. Jtem þad sem vndarlegast er adt ejtt mariu lijkneske af leire fandst j vidabunkanum nidur vid golfed obrakad med aullu. þad hafde alltijd staded vpp yfer jnnanverdum kordyrunum. Enn stora krossmarked vpp yfer framanverdum kordyrunum . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

· . . . . . . . . . . . . vmm Hölakirkiu.

Er suo skrifad ad hun hafe falled nidur j grunn j Ejnum vindbyl anno 1624 þann 16 Novembris og hun hafe falled sudur ä vid j gardenn. Enn ecke fiell hun ä nejtt hws vtan lijted ä Efra kjallarann.

Aller kalejkar nädust hejler og obrotner og allur messuskrwdj og allt þad sem fiemætt var nädist utan predikunarstöllinn brotnadj j smäparta og kiertahialmurinn sem hieck fyrer framan kordyrnar. Fialvidenn sem nädist liet Rädsmadurinn Þorkell Gamlason bera saman og hlada j bwnka ä bak vid mürenn[2]). Ejrnenn nädust allar kistur hejlar sem j kirkiunni stodu vtan ij litlar brotnudu. En nu sidan þad fiell til hefur vered messad og Embættad j störu stofunne ä Hölum[3]). Og

1) Svo hdr.

2) Hér er auðvitað átt við múr þann, sem bygður var upp úr leifunum af steinkirkju Auðunar biskups, en ekki sýnist hann hafa náð um kirkju nema í hæsta lagi á þrjá vegu, því að getið mundi þess sjálfsagt, ef hún hefði, er hún féll, rutt um múrnum, sem óhjákvæmilegt væri, ef hann hefði verið nokkur fyrir sunnan hana þangað, sem hún féll, úr því að hún braut bæjarhús, sem vitanlega hafa verið utangarðs.

3) Þ. e. Auðunarstofa.

þar er giortt altare og þiliud af tuo instu stafgolfen fyrer kornum Enn troppur giordar vpp vr kornum og presturenn stendur vpp vid bitan þegar hann predikar. Kluckurnar vrdu vndnar vpp j þad litla hlid sem horfer ad nya hwsenu[1]) og þeim er hringt til messunnar. En saungur hefur alldrej vered hafdur sijdan. Skrifad epter þui brefe sem Gunnar Biörnsson hefur skrifad faudur sijnum Birne Magnussine ä Hofe ä Hofda strond

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

. . . . . . . . Jtem wmm nidvrfall kirkiunnar ä Hölum j Ejnum Ryck j storme 16. Novembris. Þetta skede ä dejge j suartta nijdfiwke þä skolalydur ætlade til saungs Etc. Og er þetta miog hryggelegt fyrer stijckted og Ministerium adt þeir hafa huorke sinn biskup[2]) nie domkirkiuna. Enn þad (er) vndarlegast ad allar kluckur sem þar hiengu vppe j stauple voru obrotnar og altaresbrijken sem hieck ä lopte nädest lijka obroten. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . . Embætted vard ad flytja ofan j storu stofu þa skaden skede þui þar var ecke annad hws suo stortt. En bordstofa var giord vr stora Elldaskalanum gegnt sueijnaskemmunne.

Jtem hafde þar ädur orded sumstadar vart vid jardskialta. Enn huort hann mune hafa fylgdt þeim storme þä kirkian fiell þad vita menn ecke. Og ecke hefde þad vered vrtoku stormur þuj menn voru vijda vte þann dag ad haskalausu«[3]).

Þetta er ritað með hendi skrifara Odds biskups, og er, eins og menn sjá, ekki samfeld frásaga af slysinu, heldur orðrómurinn eins og hann hefir gengið manna á milli, og hefir höfundurinn skrifað hann upp jafnóðum og hann hefir borizt honum til eyrna. Annars virðist svo sem slysið manna á meðal hafi að einhverju leyti verið kent kæruleysi þeirra, sem áttu að sjá um viðhald kirkjunnar. Sést það á frásögninni,

1) Sjá sáluhliðið á gamla kirkjugarðinum á töflu I.
2) Biskup hafði fengið heilablóðfall og lá máttvana í kör.
3) AM. 422 4to.

sem hér er tilfærð, að ekki hefir mönnum þótt stormurinn, sem kirkjan féll í, svo mikill, að kirkjan hefði ekki mátt afbera hann, ef alt hefði verið sem skyldi. Að umsjónarmenn kirkjunnar hafi orðið varir við þennan orðróm og þótt hann þess verður að kæfa hann niður, má ráða af því, að þeir, árið eptir að kirkjan fauk, eru að útvega sér vottorð um, að þeir hafi haldið kirkjunni við eins vel og vera bar. En ekki sýna þau vottorð annað en að aðhlynning sú, sem kirkjan fékk árið, sem hún fauk, hafi ekki verið lakari enn sú, sem hún hafði fengið árlega áður, og er í því heldur lítil afbötun[1]). Ekki þykir vottorðum þessum stormurinn hafa verið slíkur, að kirkjan hafi þurft að falla af honum einum, og benda á, að dreifa mætti til jarðskjálftakippum, sem fundizt höfðu um það leyti, sem kirkjan fauk. En eins og sjá má af frásögninni hér að framan, er höfundur hennar ekki neitt ákaflega trúaður á jarðskjálftann, sem hann líka hefir heyrt getið um, og telur vafasamt, að hann hafi verið samfara storminum. En hvað sem annars kann að hafa verið spjallað manna á meðal um handvömm og hirðuleysi, er hitt víst, að hið opinbera lét ekki málið til sín taka.

Kirkja sú, sem bygð var á dögum Guðbrands biskups, stóð fram til ársins 1759, þá lét Gísli biskup Magnússon taka hana ofan[2]). Þar sem hvorki þessi kirkja, né heldur sú, er þar stendur nú, munu verða gerðar frekar að umtalsefni, skal hér sett lýsing á henni eptir samtíðarmann, síra Þorstein Pétursson á Staðarbakka. Hann segir: »Eg vil byrja á Hóladómkirkju hinni fornu, sem nú alt hingað á vora daga

1) Vottorðin, sem til eru, eru tvö, Bisk. Hól. Chart. Fasc. IV, 22 og 23 í Þjóðskjalasafninu og eru þau tekin upp í síðasta kafla rits þessa.

2) *Æ. J. P.* I, 199. Neðanmáls er þar miðað við að kirkjan sé bygð 1627 og árið, sem hún var rifin, því talið 1760 (1627+133). En búið er að sýna fram á, að kirkjan var bygð 1626, og var hún því rifin 1759.

hefir staðið frá herra Guðbrands tíð, 133 ár, og kunni enn lengur að standa. Hún var gjörð af bindingsverki (sem danskir kalla), 49 álna löng, 15 álna breið og 18 til 20 álna há. Hún stendur hátt með litlum turni. Yfir altari er stór tafla með vængjum, úthöggvin innan með ýmislegum mannamyndum af alabastur, víða enn forgylt[1]). Þar er og prédikunarstóllinn gamli með ypparlegu bíldhöggvaraverki, sumstaðar gyltu[2]). Hún er öll af timbri tvísúðuð«[3]).

Eins og af þessum orðum sést, hafa í þá daga verið skiptar skoðanir um það, hvort nauðsyn bæri til að rífa kirkju Guðbrands biskups, og virðist svo sem það hafi verið fyrir ofurkapp eitt hjá Gísla biskupi, sem ekki var neitt tiltakanlega merkilegur maður, að úr því varð. Er ekki auðvelt að skilja, hvað honum hefir gengið til að vilja hana feiga fyrir ár fram. En ekki verður jafnmætur maður og síra Þorsteinn rengdur rakalaust, er hann segir, að kirkjan hafi mátt lengur standa. Byrjað var að byggja nýju kirkjuna 1759, sama ár sem gamla kirkjan var rifin.

Ekki verður annað sagt, enn að kirkjan sjálf, eins og hún er, sé hæfilegur minnisvarði um það, hvernig kirkjan er til orðin. Þá átti Ísland við mestu svívirðu og eymd að búa, sem á daga þess hefir drifið. Ein-

---

1) Altaristafla þessi er nú geymd í Þjóðmenjasafninu nr. 4634 (sjá *Þjóðmenjas.* bls. 6). Taflan er af Nottingham-Derby-Stafford gerðinni.

2) Stól þennan hefir Guðbrandur biskup, sem var formætur bíldhöggvari sjálfur, skorið. Hann er nú geymdur í svo nefndu Vídalínssafni í Þjóðmenjasafninu.

3) Úr »Lagagriplu« síra Þorsteins í Landsbókasafninu J.Sig. 82 4to., en hér tekið eptir *Æ. J. P.* I, 198—199. Það er merkilegt, að síra Þorsteinn skuli ekki geta um hina miklu, steindu, gotnesku trétöflu, sem enn er í kirkjunni og Jón biskup Arason lagði henni til. Síra Þorsteinn bætir því við Hólakirkjulýsinguna, að dómkirkjan í Skálholti sé nokkru minni, með tveim stúkum og öll úr tré, en að trékirkja sú á Bessastöðum, er var á undan steinkirkjunni, sem nú er, hafi verið 26 álna löng og 12 álna breið.

veldið danska var einvaldara á dögum Friðriks V. (1746—1766) enn nokkurn tíma fyr. Danir nefna það einveldið upplýsta, enn varla mun nokkur heilvita maður láta sér detta í hug, að nefna það því nafni, eins og það hagaði sér á Íslandi. Þegar konungur var orðinn sannfærður um, að nauðsynlegt væri að efna til nýrrar kirkju, lét hann stofna til opinberra samskota í Danmörku til þess að afla fjárins, sem með þurfti til verksins[1]). En ekki var látið hér við lenda, heldur lagði hin konunglega betliför leið sína um önnur ríki álfunnar — England —, og lagður var tveggja marka skattur á hverja kirkju í konungsríkjunum þrem, Danmörku, Noregi og Íslandi, til þess að hlífa pyngju konungs við kostnaði af kirkjubyggingunni eins og frekast var unt[2]). Með þessu móti reyttust saman 50,000 ríkisdalir, sem þó, þegar á átti að herða, var ekki öllum varið til kirkjubyggingarinnar á Hólum. En silkihúfan upp af öllu saman var þó, að norðlenzkum bændum var þrúgað til að vinna skylduvinnu endurgjaldslaust við kirkjubygginguna, »eins og það skeður við almúgann í vorum ríkjum«, undir eptirliti dansks múrsveins[3]).

Kirkjusmiðinni var lokið 1763. Er kirkjan gjörð úr sama rauða steini úr Hólabyrðu sem steinkirkja Auðunar biskups átti að vera, að því er Árni Magnússon hermir í lýsingu þeirri á Hólakirkju, sem áður hefir verið minzt á. Auk laupsins er stöpull við vesturenda kirkjunnar jafnhár mæni[4]), en skrúðhús við austurgafl. Sérstakt kórhýsi er ekki á kirkjunni. Hjá síra Þorsteini

1) Í Lagagriplu *Æ. J. P.* I, 200—201.

2) *Pétur*, bls 495.

3) *Æ. J. P.* I, 202.

4) Síra Þorsteinn segir í Lagagriplu, að stöpullinn hafi aldrei orðið hærri, af því að peningar þeir af kirkjubyggingarfénu, sem til þess voru ætlaðir, hafi að boði konungs verið notaðir til viðreisnar bæjarins Björgynjar í Noregi, sem brann árið 1757 (sjá *Æ. J. P.* I, 204), og er þetta í góðu samræmi við annað, sem kom fram við Ísland í þá daga.

Péturssyni er ágætislýsing á henni[1]). Segir hann kirkjuna að meðtöldum turninum, sem sé 9 álna langur, vera 42 álnir á lengd, og ætti laupurinn eptir því að vera 33 álnir, en kirkjuna telur hann 12 álna breiða og stöpulinn 7 álna breiðan og kirkjuna 12 álna háa í mæni[2]). Kirkjan er með flötu lopti og öll hvítkölkuð. Hún er gjörsamlega tilbreytingarlaus, ferstrendur, ílangur stokkur, og svo listar- og menningarsnauð sem hugsast getur, og miðað við það, sem henni var ætlað að vera — dómkirkja — til skammar. Að eins eitt er vel um hana — að hún er bygð úr steini. Hefðu byggingar fyrri tíma á Íslandi verið úr því efni, ætti landið nú mikinn menningarauð þar sem þær væru. En elztu byggingar, sem nú eru á Íslandi, er lítil torfkirkja norður í Langadal, frá því rétt fyrir siðaskiptin, og skáli úr torfi frá 17. öld austur á Rangárvöllum[3]). Þegar er kirkjubyggingunni á Hólum var lokið, hefir farið að brydda á óánægju með hana. Út úr lýsingum síra Þorsteins Péturssonar, sem getið var um áðan, bæði á kirkju Guðbrands biskups og kirkjunni nýju, skín illa dulin gremja yfir byggingu og fyrirkomulagi nýju kirkjunnar. Í fyrstu hefir að vísu lítilmótleiki hinnar nýju kirkju ef til vill verið hulinn af leifum forns skrauts, sem var eptir í fórum kirkjunnar, altaristöflum, krossmörkum, kaleikum og kirkjufatnaði, útskorinni milligerð milli kórs og kirkju og myndum af

---

1) Í Lagagriplu *Æ. J. P.* I, 204—206.

2) Í alþýðlegri ritgjörð um kirkjuna eptir síra Björn Jónsson í Miklabæ í »*Skírni*« 1906 er kirkjumálið á annan veg. Kirkjulengdin með stöplinum talin 41 alin, en breiddin 15 álnir, og stöpullinn 8 álna langur og 10 álna breiður. Við nákvæma mælingu, sem höf. gjörði á kirkjunni í sumar, reyndist hún öll með stöpli 43 álna löng og 14½ álnar breið, en turninn 8 álna langur og 9¼ breiður. Skekkjan á hinum fyrri málum mun stafa af því, að þau eru annaðhvort gjörð með vað eða slöku bandi, en mælingin 1918 var gjörð með strengdu málbandi.

3) Um kirkjuna á Gunnsteinsstöðum í Langadal sjá næsta kafla hér á eptir. Um skálann á Keldum sjá *A. I. I. F.* 1900, 7—8 og »*Sunnanfara*« 1912, 51, 61, 95 (mynd).

ýmsum Hólabiskupum eptir siðaskiptin[1]), en 1885 var gjört við kirkjuna, sem kallað var, milligerðin milli kórsins og kirkjunnar og útskornir bekkir voru teknir ofan og seldir á uppboði, skrúðhúsið rifið[2]) og biskupamyndirnar og flest annað, sem kirkjan átti fémætt, var flutt suður á Þjóðmenjasafnið, svo að nú stendur kirkjan í sinni eðlilegu nekt sem hæfilegur minnisvarði yfir menningaráhrif hins upplýsta einveldis á Íslandi[3]).

---

Kirknatal á Hólum er þá svona:

A. Fyrir siðaskiptin.

1. Kirkja Oxa Hjaltasonar frá *hérumbil 1050—fyrir 1106.*
2. Kirkja bygð af ókendum manni frá *eptir 1050—hérumbil 1107.*
3. Kirkja hins blessaða Jóns biskups Ögmundarsonar frá *hérumbil 1107—hérumbil 1294,* með viðgjörð hérumbil 1200.
4. Kirkja Jörundar biskups frá *hérumbil 1294—1394,* með umbótum eptir Auðun biskup á tímabilinu 1314—1320[4]).

---

1) Mynd innan úr kirkjunni frá því á öldinni, sem leið, er í »Atlas historique«, sem fylgir *Gaimard.*

2) Þegar höf. gróf eptir grunni kirkju Péturs biskups Nikulássonar norður á Hólum sumarið 1918 fundust við austurgafl kirkjunnar leifar af grunninum undan því. Sjá töflu XI. og mynd 4.

3) Í kirkjunni eru nú af fornum gripum altaristaflan gotneska, er Jón biskup VI. lagði til kirkjunnar og getið hefir verið áður, skírnarfontur úr steini frá 17. öld, tveir stórir róðukrossar, kertistikur og ljósahjálmar úr kopar, silfurkaleikur gyltur og ef til vill steinaltari það, er Auðun Þorbergsson lét gjöra í kirkjuna. Mun að því verða vikið síðar.

4) Þótt Auðun biskup tæki biskupsdóm 1313, kom hann fyrst hingað til lands árið eptir og fór utan 1320 og lézt í þeirri ferð 1322 (sjá *I. A.).* Kirkjubætur hans og byggingarstarfsemi á Hólum hlýtur því að hafa gjörzt einhvern tíma á þessu tímabili.

5. Kirkja Péturs biskups frá *1395—1624*, með viðgjörðum á dögum biskupanna Gottskalks I. og Ólafs og viðaukum á dögum Jóns VI.

B. Eptir siðaskiptin.

6. Kirkja Guðbrands biskups frá *1626—1759*.
7. Kirkja Friðriks konungs V. frá *1763—* . Sú kirkja stendur enn í dag með þeim breytingum, sem gjörðar voru á henni 1885.

C. Ófullgjörð kirkja.

8. Hin mikla steinkirkja Auðunar biskups, sem byrjað var að vinna að á árunum 1314—1320. Við hana var aldrei lokið, en Gottskalk biskup I. breytti því, sem komið var af henni í hans tíð, í múr kringum kirkju þá, sem þá var á Hólum.

---

Um verndar- og nafndýrling eða dýrlinga dómkirkjunnar á Hólum er alt í óvissu og reyk, því heimildirnar eru örfáar og ógreinilegar. Eins er að vísu um verndardýrlinga allra annara íslenzkra kirkna að mestu, þó að heimildir séu þar nokkrar, en tvisvar hefir verið gjörð tilraun til að búa til yfirlit yfir helgun þeirra. Fyrst af Dr. Jóni Þorkelssyni[1]), en síðar af norskum fræðimanni, Wallem að nafni[2]). Hvorugt þessara yfirlita er neitt í áttina til að vera fullnægjandi, og þó síður yfirlit Wallems, sem hefir þó haft öll gögnin prentuð fyrir sér í Fornbréfasafninu, sem hinn hafði þá ekki. Dr. J. Þ. var þá (1888) að byrja að vinna að útgáfu Fornbréfasafnsins, og hefir einmitt sjálfur síðan lagt öll gögnin upp í hendurnar á Wallem og öðrum. Svo er frá yfirliti Wallems gengið, að ekki verður séð, hvernig hann hefir unnið úr þeim gögnum, en hitt er ljósara, að það er, hvernig sem það hefir verið gjört, fremur

1) *Digtningen*, bls. 27—91 passim.

2) *Wallem*, bls. 15—16. Í þessu sambandi má geta þess, að neðanmálsgreinin á bls. 16 í riti hans er svo ógreinilega orðuð, að hún er óskiljanleg.

handahófs- og flýtisverk, og er jafnvel stundum ekki laust við, að manni verði að efa, að hann hafi haft þá þekkingu til að bera í íslenzkri, og jafnvel líka í latneskri tungu, sem bráðnauðsynleg er þeim, sem verkið ætlar að vinna. Þar sem slíkt yfirlit er þarft til skilningsauka, ef rannsaka á, hverir að líkindum hafi verið verndar- og nafndýrlingar dómkirkjunnar á Hólum, en auk þess fróðlegt að fleiru en einu leyti, er hér sett skrá yfir þær íslenzku kirkjur á miðöldunum, sem nú þekkist nafn og verndardýrlingur eða verndardýrlingar að.

Kunnir eru verndardýrlingar 442 kirkna á öllu landinu, og af þeim þekkist nafndýrlingur (sá dýrlingur, er kirkjan er heitin eptir) að 384 kirkjum. Á þrem kirkjum þekkist nafndýrlingurinn að vísu, en er svo óljóst nefndur, að ekki er með vissu hægt að ákveða, hver af mörgum samnefndum dýrlingum er sá, sem við er átt í það og það skiptið. Skráin yfir kirkjurnar er í stafrofsröð, og þar sem um nafndýrling er að ræða, er nafn hans auðkent með því að prenta það með skáletri. Eins er neðanmáls ekki vitnað í aðra staði en þá, sem beinlínis sanna eitthvað um dýrlinga kirknanna, þó að þeir ef til vill séu nefndir víðar. Ekki er heldur vitnað til tveggja staða eða fleiri sama til sönnunar, þótt til séu.

Á á Rangárvöllum: *María*[1]).
Akrar á Mýrum: *María,* Pétur postuli, Clemens páfi[2]).
Álptamýri í Arnarfirði: *María,* Jón skírari[3]).
Álptanes á Mýrum: *María*[4]).
Álptartunga á Mýrum: *María*[5]).
Alviðra í Dýrafirði: María, Ólafur, Benedikt af Nurcia[6]).

1) *D. I.* III, 266.
2) *D. I.* I, 595, III, 86.
3) *D. I.* I, 369, IV, 12.
4) *D. I.* III, 87.
5) *D. I.* III, 85.
6) *D. I.* II, 786.

Apavatn í Grímsnesi: *María*[1]).

Árbær í Holtum: María, Jón skírari[2]).

Arnarbæli á Fellsströnd: María[3]), Jakob postuli eldri, Cecilia mær[4]).

Arnarbæli í Ölfusi: *Nikulás*[5]).

Árskógur á Árskógarströnd: *Jón skírari*[6]).

Ás í Fellum: *María*[7]).

Ás í Hálsasveit: María, Andrés postuli, Blasíus biskup, Allir heilagir[8]).

Ás í Holtum: *María*, Ólafur[9]).

Ás í Kelduhverfi: *Thómas erkibiskup*[10]).

Ás í Vatnsdal: *Gervasius & Protasius*[11]).

Ásar eystri í Skaptártungu: *María*, Pétur postuli[12]).

Ásgeirsá í Víðidal: *Pétur postuli*[13]).

Ásólfsskáli: *Ólafur*[14]).

Auðbrekka í Hörgárdal: *Páll postuli*[15]).

Auðkúla: *Jón skírari*[16]).

Bakki í Öxnadal: *Jón postuli*[17]).

Barð í Fljótum: *Krossinn helgi*, Ólafur[18]).

---

1) *D. I.* IV, 91.

2) *D. I.* II, 697.

3) Þótt svo virðist í fljótu bragði, er hún ekki nafndýrlingurinn.

4) *D. I.* VIII, 249, 261.

5) *D. I.* IV, 97.

6) *D. I.* III, 515.

7) *D. I.* IV, 213.

8) *D. I.* I, 593.

9) *D. I.* IV, 61, VI, 322.

10) *D. I.* III, 585.

11) *D. I.* IV, 512. Annar dýrlingurinn rangnefndur Prostacius í máldaganum.

12) *D. I.* II, 784, III, 402.

13) *D. I.* III, 549.

14) *D. I.* II, 682.

15) *D. I.* III, 521.

16) *D. I.* II, 474.

17) *D. I.* III, 517.

18) *D. I.* V. 253.

Bergstaðir í Svartárdal: Ólafur, Thómas erkibiskup[1]).
Berufjörður: *Ólafur*[2]).
Berunes: *María*[3]).
Bessastaðir á Álptanesi: María, Nikulás[4]).
Bessastaðir í Fljótsdal: *Þorlákur*[5]).
Bíldsfell í Grafningi: María, Pétur postuli, *Nikulás*[6]).
Bjarnanes í Hornafirði: *María*[7]).
Bjarnarhöfn í Helgafellssveit: *Nikulás*[8]).
Blöndudalshólar: *Jón skírari*[9]).
Bólstaðarhlíð: *Mikael erkiengill*[10]).
Borg undir Eyjafjöllum: *María*[11]).
Borg á Mýrum: *Mikael erkiengill*[12]).
Brautarholt: *Nikulás*[13]).
Breiðá í Öræfum: *María*[14]).
Breiðabólsstaður í Fellshverfi: *Blasíus biskup*[15]).
Breiðabólsstaður í Fljótshlíð: *María*[16]).
Breiðabólsstaður í Vesturhópi: *Ólafur*[17]).
Breiðabólsstaður í Ölfusi: María, Ólafur[18]).
Brekka í Saurbæ: *María*[19]).

1) *D. I.* III, 544. Ólafs máldagi Rögnvaldssonar *(D. I.* V, 358) segir kirkjuna helgaða Ólafi og Þorláki, en það er eptir atvikum rangt.

2) *D. I.* IV, 202.

3) *D. I.* IV, 230.

4) *D. I.* III, 69, IV, 107, sbr. líkneski talin í báðum máldögum.

5) *D. I.* VII, 446.

6) *D. I.* I, 409, IV, 93.

7) *D. I.* III, 241.

8) *D. I.* II, 257.

9) *D. I.* III, 543.

10) *D. I.* III, 545.

11) *D. I.* II, 678.

12) *D. I.* III, 88.

13) *D. I.* IV, 113.

14) *D. I.* II, 772.

15) *D. I.* IX, 188.

16) *D. I.* II, 687.

17) *D. I.* V, 85—86.

18) *D. I.* IV, 98.

19) *D. I.* III, 194, IX, 644.

Brjánslækur: María, *Gregóríus páfi*[1]).
Brú hin efri í Grímsnesi: *Nikulás*[2]).
Bræðratunga: *Andrés postuli*[3]).
Búðardalur: *Mikael erkiengill*[4]).
Búland í Skaptártungu: *Ólafur*[5]).
Búrfell í Grímsnesi: María, Blasíus, Þorlákur[6]).
Bustarfell: *Pétur postuli*[7]).
Býjasker í Garði: *Ólafur*[8]).
Bægisá: *Jón skírari*[9]).
Bær í Borgarfirði: María, Pétur postuli, *Ólafur*, Marteinn biskup, Agnes mær, Mauritius & socii[10]).

Dalur undir Eyjafjöllum: *Pétur postuli*[11]).
Deildartunga: *María Magdalena*[12]).
Desjarmýri: *María*[13]).
Djúpadalur í Eyjafirði: *Pétur postuli*[14]).
Draflastaðir: *Pétur postuli*[15]).
Dvergasteinn: *María*[16]).
Dyrhól(m)ar: *Mikael erkiengill*[17]).
Döguröarnes: *Magnús eyjajarl*[18]).

---

1) *D. I.* IX, 195.
2) *D. I.* IV. 91.
3) *D. I.* II, 668.
4) *D. I.* II, 650.
5) *D. I.* II, 783.
6) *D. I.* II, 63.
7) *D. I.* IV, 217.
8) *D. I.* IV, 105.
9) *D. I.* III, 518.
10) *D. I.* III, 123, V, 401.
11) *D. I.* II, 682.
12) *D. I.* VII, 62.
13) *D. I.* IV, 222.
14) *D. I.* III, 525.
15) *D. I.* III, 571.
16) *D. I.* IV, 224.
17) *D. I.* II, 742.
18) *D. I.* VII, 75.

Egilsstaðir í Flóa: *Nikulás*[1]).

Eiðar á Útmannasveit (í Eiðaþinghá): María, Nikulás[2]).

Einarsstaðir í Reykjadal: *Pétur postuli*[3]).

Einiholt í Hornafirði: *María*[4]).

Engey með Sundum: *Krossinn helgi*, Dionysios, Thómas erkibiskup, Ólafur, Þorlákur, Katrín, Sunnefa[5]).

Ey í Landeyjum: *Pétur postuli*[6]).

Eydalir: *Stephán frumvottur*[7]).

Eyjar í Kjós: *María*[8]).

Eyjardalsá í Bárðardal: *Jón postuli*[9]).

Eyjólfsstaðir á Völlum: *Þorlákur*, Katrín[10]).

Eyrar (Einarshöfn): *Katrín*[11]).

Eyri í Álptafirði (Narfeyri): *Marteinn*[12]).

Eyri í Arnarfirði (Rafnseyri): *María*, Pétur postuli[13]).

Eyri í Bitru: María, Jón postuli, Ólafur, Þorlákur, Margrét mær[14]).

---

1) *D. I.* IV, 59.

2) *D. I.* IV, 220, VII, 21. Nefnd jöfnum höndum eptir báðum dýrlingum.

3) *D. I.* II, 437.

4) *D. I.* I, 406.

5) *D. I.* III, 338.

6) *D. I.* I, 257.

7) *D. I.* III, 241.

8) *D. I.* I, 266.

9) *D. I.* III, 558.

10) *D. I.* II, 396.

11) *B. S.* I, 725—726 sbr. *Safn* I, 80.

12) *D. I.* III, 104.

13) *D. I.* III, 198, IV, 145. Í *D. I.* VII, 81 er þessi kirkja talin Péturskirkja, en þetta mun þó réttara.

14) *D. I.* II, 409. Á þessum stað er heldur skriplað á skötu hjá Wallem. Bls. 16 segir hann, að tvær kirkjur á Íslandi séu helgaðar hinum blessaða Sixtusi páfa, en ekki finnast gögn fyrir því, nema um eina, kirkjuna á Kolfreyjustað, og hefir þó verið gjörð mikil leit eptir annari, en hún ekki fundizt. Á sömu bls. telur hann, að ein kirkja hafi verið helguð hinum blessaða Agapitusi, og er sama um hana að segja, að hún finst ekki, og hefir þó verið vandlega leitað. Aptur á móti

Eyri í Seyðisfirði: *Pétur postuli*[1]).
Eyri í Skutilsfirði: *María*[2]).
Eyvindará: *Thómas erkibiskup*[3]).
Eyvindarhólar: *María*[4]).
Eyvindarmúli í Fljótshlíð: *Jón postuli*[5]).

Fagranes: *Mattheus postuli*[6]).
Fagridalur: *María*[7]).
Fell í Kollafirði: María, Jón postuli, *Ólafur,* María Magdalena[8]).
Fell í Sléttuhlíð: *Pétur postuli*[9]).
Fellsmúli á Landi: *Jón*[10]).

---

er svo til orða tekið í vígslumáldaga Eyrarkirkju í Bitru, sem hér er vitnað í, að hún sé vígð »á píslardegi heilagra guðs píningarvotta Sixti, Felicissimi ok Agapiti, það er fjórum nóttum fyrir Laurentiusmessu«, og verður ekki annað séð en að þessi staður, svo auðskilinn sem hann er, hafi orðið til þess að villa Wallem; hefir hann skilið felicissimus sem lýsingarorð og tekið það saman við Sixtus, og látið Sixtus felicissimus þýða hinn blessaða Sixtum, en íslenzku orðin um, að kirkjan hafi verið vígð á degi þessara dýrlinga, hefir hann blátt áfram misskilið og haldið kirkjuna vera helgaða þessum dýrlingum. Öðruvísi getur varla staðið á niðurstöðu Wallems. Hann getur varla borið það fyrir sig, að dagsetning vígslunnar er einkennileg, hún kend við messu þessara dýrlinga, sem er festum simplex, en ekki við transfiguratio domini, sem ber upp á sama dag og er summum festum (sjá *Martyrologium* bls. 143, sbr. *Missale* bls. xx).

1) *D. I.* II, 616.
2) *D. I.* II, 260.
3) *D. I.* VII, 27.
4) *D. I.* III, 258.
5) *D. I.* II, 686.
6) *D. I.* II, 468.
7) *D. I.* VII, 72.
8) *D. I.* II, 258, IV, 128.
9) *D. I.* III, 561.
10) *D. I.* III, 266. Ekki sést, við hvaða Jón er átt. Wallem segist, neðanmáls á bls. 16, telja þrjár hálfættfærðar Jónskirkjur helgaðar Jóni Hólabiskupi »forsögsvis«. Ekki sést, með hvaða heimild hann gerir þá tilraun, enda virðist hún nokkuð ástæðulaus, þegar þess er gætt, að um tvær af þessum kirkjum (Reykjavík og Flatey á Breiðafirði) er víst, að þær eru helgaðar Jóni postula, þótt honum reyndar hafi hlaupizt yfir tilvitnanirnar

Fíflholt eystra í Landeyjum: *María*[1]).
Fíflholt ytra í Landeyjum: *Stephán frumvottur*[2]).
Fitjar í Skorradal: *Nikulás*[3]).
Flagbjarnarholt: *Þorlákur*[4]).
Flatatunga: *Pétur postuli*[5]).
Flatey á Breiðafirði: *Jón postuli*[6]).
Fróðá á Snæfellsnesi: *María*[7]).

Galtardalstunga: *Ólafur*[8]).
Garðar á Akranesi: Laurentius, Sebastianus[9]).
Garðar á Álptanesi: *Pétur postuli*[10]).
Garður í Fnjóskadal:[11]) *Þorlákur*[12]).
Garður í Kelduhverfi: Maria, Jón og Thómas postular[13]).
Garpsdalur: *María*, Pétur postuli, Þorlákur[14]).
Gaulverjabær: *María*, Þorlákur[15]).

(tilvitnanir hans — ónefndar af honum — *D. I.* II, 118, III, 194—5, 339—40). Tilraunin er þeim mun heimildarlausari sem engin kirkja helguð Jóni biskupi þekkist, nema ef til vill Hóladómkirkja.

1) *D. I.* III, 404.
2) — -- IV, 80.
3) — -- III, 124.
4) — -- IV, 66.
5) — -- V, 292.
6) — -- IV, 152.
7) — -- III, 108.
8) — -- VII, 75.
9) — -- I, 417.
10) *D. I.* IV, 107.
11) „Í Fornbréfasafnsregistri er þessum stað blandað saman við Garð í Kelduhverfi, af því að ekki fara sögur af öðrum kirkjustað með því nafni. En dýrlingaskráin og áhaldaskráin (líkneskjatalið) í hinum tilvitnuðu máldögum sýna ljóslega, að um tvær kirkjur með sama nafni er að ræða, og kemur hin nýja kirkja fyrir í þeirri röð, að helzt mundi hugur manns hvarfla að Garði í Fnjóskadal.
12) *D. I.* IV, 467, V, 275.
13) — -- II, 427, III, 585, VII, 4.
14) — -- II, 118, 576.
15) — -- II, 671, III, 113.

Gegnishólar: *María*[1]).
Geithellur: *Mikael erkiengill*[2]).
Geldingaholt: *Pétur postuli*[3]).
Gilsbakki: *Nikulás*[4]).
Glaumbær: Anna, *Jón skírari*[5]).
Glæsibær: *Nikulás*[6]).
Gnúpar í Ölfusi: *Þorlákur*[7]).
Gnúpufell: María, *Mikael*, Ólafur[8]).
Gnúpur í Dýrafirði: *Jón skírari*[9]).
Gnúpur í Gnúpverjahreppi: *Ólafur*[10]).
Gnúpur í Miðfirði: *Thómas erkibiskup*[11]).
Goðdalir: *Nikulás*[12]).
Grenjaðarstaðir: María, *Marteinn*, Nikulás[13]).
Grímsey: *Ólafur*[14]).
Grímstungur: *Nikulás*[15]).
Grund í Eyjafirði: *Laurentius*, Ólafur[16]).
Grýtubakki: *Þorlákur*[17]).
Gröf í Hrunamannahreppi: *Pétur postuli*[18]).
Gufudalur: María, *Krossinn helgi*[19]).
Gufunes: *María*[20]).

---

1) *D. I.* IV, 58.
2) — -- VII, 35.
3) — -- II, 467.
4) — -- IV, 121.
5) — -- III, 174, X, 99.
6) — -- II, 454.
7) — -- IV, 95.
8) — -- II, 450, III, 527.
9) — -- III, 197.
10) *D. I.* II, 662.
11) — -- III, 537.
12) — -- II, 464.
13) — -- II, 431, IX, 322.
14) — -- II, 441.
15) — -- II, 476.
16) — -- II, 452, IV, 378.
17) — -- III, 570.
18) — -- IV, 44.
19) — -- IV, 153, IX, 196.
20) — -- I, 268.

Guðrúnarstaðir í Vatnsdal: María, Allir heilagir, *Þorlákur*[1]).

Gunnarsholt á Rangárvöllum: *Pétur postuli*[2]).

Gunnsteinsstaðir í Langadal: *Ólafur*[3]).

Haffjarðarey: *Nikulás*[4]).

Hafrafellstunga: María, *Jón postuli*[5]).

Hagi á Barðaströnd: María, *Míkael erkiengill*[6], Jón skírari, *Nikulás*[7]).

Hagi í Holtum: *Pétur postuli*[8]).

Hallormsstaður: *Pétur postuli*[9]).

Háls í Fnjóskadal: *Pétur postuli*[10]).

Háls í Hamarsfirði: *Andrés postuli*[11]).

Hamrar í Biskupstungum: *Þorlákur*[12]).

Hamrar í Holtum: *Thómas erkibiskup*[13]).

Haukadalur: *María*, Andrés postuli, Marteinn, Barbara mær[14]).

Helgafell (klausturkirkjan): *María*, Jón postuli[15]).

Helgastaðir í Reykjadal: María, Nikulás[16]).

Heynes á Akranesi: *María*, Mikael, Pétur postuli[17]).

---

1) *D. I.* IX, 599.
2) — -- II, 692.
3) — -- II, 485.
4) — -- III, 82.
5) — -- III, 589, 651.
6) Um 1268 er Míkael nafndýrlingur kirkjunnar, en um og eptir 1363 er Nikulás kominn í staðinn.
7) *D. I.* II, 259, III, 193.
8) — -- IV, 63.
9) — -- IV, 207.
10) *D. I.* II, 439.
11) — -- IV, 230, XI, 582.
12) — -- VII, 46.
13) — -- IV, 60.
14) — -- II, 667.
15) — -- II, 115.
16) — -- IV, 376, VII, 57. Ekki verður séð, hvort þeirra er nafndýrlingur, því að kirkjan er ýmist nefnd Maríukirkja eða Nikolaikirkja.
17) *D. I.* III, 249, VII, 57.

Hítardalur: *Allir heilagir*[1]).
Hítarnes: *María*[2]).
Hjalli í Ölfusi: *Ólafur*[3]).
Hjálmholt í Flóa: *Jón*[4]).
Hjaltastaður: *María*[5]).
Hjarðardalur: *Allir heilagir*[6]).
Hjarðarholt í Dölum: *Jón skírari*[7]).
Hjörsey á Mýrum: María, Páll postuli, Þorlákur, Allir heilagir[8]).
Hlíð í Biskupstungum: *María*[9]).
Hlíðarendi í Fljótshlíð: *Þorlákur*[10]).
Hnappavellir í Öræfum: *María*[11]).
Hof í Álptafirði: *María*[12]).
Hof í Gnúpverjahreppi: *María,* Pétur postuli, Þorlákur[13]).
Hof á Höfðaströnd: *Pétur postuli*[14]).
Hof á Kjalarnesi: *Andrés postuli*[15]).
Hof á Rangárvöllum: *Þorlákur*[16]).
Hof í Skagafjarðardölum: *Marteinn*[17]).
Hof á Skagaströnd: *Ólafur*[18]).
Hof í Vopnafirði: *Allir heilagir*[19]).

1) *D. I.* III, 84.
2) — -- I, 275.
3) — -- IV, 97.
4) — -- IV, 51. Ekki verður séð, við hvaða Jón er átt.
5) — -- III, 239.
6) — -- II, 260.
7) — -- III, 101.
8) — -- III, 86.
9) — -- IV, 38.
10) *D. I.* IV, 69.
11) — -- II, 773.
12) — -- II, 768.
13) — -- I, 302.
14) — -- II, 460.
15) — -- IV, 114.
16) — -- IV, 84.
17) — -- II, 463.
18) — -- II, 469.
19) — -- IV, 215.

Hof í Öræfum: *Clemens páfi*[1].
Hoffell í Hornafirði: *María*[2].
Hofstaðir í Miklaholtshreppi: *Nikulás*[3].
Hofstaðir í Skagafirði: *María*[4].
Hofteigur í Jökulsdal: *María*[5].
Hólar í Eyjafirði: *Jón skírari*[6].
Hólar undir Eyjafjöllum: *María*[7].
Hólar í Gnúpasveit: *Þorlákur*[8].
Hólar í Vesturhópi (Vesturhópshólar): *Jón skírari*[9].
Hóll í Bolungarvík: *María*[10].
Hólmar í Reyðarfirði: *María*[11].
Hólmur við Elliðaár: *Jón postuli*[12].
Hólmur á Rosmhvalanesi: María, Þorlákur[13].
Holt undir Eyjafjöllum: *Allir heilagir*[14].
Holt í Fljótum: Jón skírari, Pétur postuli[15].
Holt í Saurbæ: *Magnús Eyjajarl*, María, Allir heilagir[16].
Holt á Síðu: *Nikulás*[17].
Holt í Önundarfirði: *Laurentius*[18].
Holtastaðir: *Nikulás*[19].

---

1) *D. I.* II, 774.
2) — -- II, 769.
3) — -- VII, 65.
4) — -- IX, 98 (Hofstaða-María).
5) — -- IV, 213.
6) — -- III, 525.
7) — -- II, 677.
8) — -- V, 277.
9) — -- II, 480.
10) *D. I.* II, 616.
11) — -- IV, 226.
12) — -- IV, 112.
13) — -- IV, 105.
14) — -- II, 680.
15) — -- V, 254.
16) — -- V, 493, IX, 194.
17) — -- IV, 237.
18) — -- III, 324.
19) — -- II, 471.

Hrafnagil: *Pétur postuli*[1]).
Hraun í Dýrafirði: *Þorlákur*[2]).
Hraunsmúli í Skaptafellsþingi: *María*[3]).
Hraungerði: *Pétur postuli*[4]).
Hrísar í Helgafellssveit: María, Pétur og Páll, Þorlákur, Katrín[5]).
Hróarsholt í Flóa: *Ólafur*[6]).
Hruni: *María*, Thómas erkibiskup, Þorlákur, Katrín[7]).
Húsafell: María, Cecilía[8]).
Hvalsnes: María, Krossinn helgi, Ólafur, Katrín, Allir heilagir[9]).
Hvammur í Kjós: *Lúkas guðspjallamaður,* María, Heilög þrenning[10]).
Hvammur í Hvammssveit: María, Jón skírari, Pétur og Jón postular, Ólafur, Þorlákur, María Magdalena, Allir heilagir[11]).
Hvammur á Landi: *Thómas*[12]).
Hvammur í Laxárdal: *Ólafur*[13]).
Hvammur í Miðfirði: *Thómas erkibiskup*[14]).
Hvammur í Norðurárdal: *María,* Þorlákur[15]).
Hvammur í Vatnsdal: *María*[16]).

---

1) *D. I.* II, 453.
2) — -- III, 330.
3) — -- IV, 237.
4) — -- IV, 52.
5) — -- II, 672.
6) — -- IV, 95.
7) — -- II, 664.
8) — -- VII, 737.
9) — -- III, 256.
10) *D. I.* IV. 118, VII, 610.
11) — -- III, 8. Nafndýrlingur þessarar kirkju er annaðhvort María, Jón skírari eða Pétur postuli (sjá *D. I.* VII, 69).
12) *D. I.* IV, 64. Ekki nánar tilgreint, sennilega Thómas erkibiskup.
13) *D. I.* II, 468.
14) — -- II, 481.
15) — -- I, 420, II, 833, VII, 154.
16) — -- II, 476.

Hvanneyri í Andakíl: I. *María,* Thómas erkibiskup, Marteinn[1]). II. *María,* Pétur og Páll[2]).
Hvoll neðri í Hvolhreppi: María, Ólafur[3]).
Hvoll í Saurbæ: *María,* Jón skírari, Nikulás, Þorlákur[4]).
Húsavík á Tjörnesi: *Magnús Eyjajarl*[5]).
Hæll í Flókadal: *Allir heilagir*[6]).
Hæringsstaðir í Flóa: *Þorlákur*[7]).
Höfðabrekka: *Ólafur*[8]).
Höfði á Höfðaströnd: Ambrosíus, *Nikulás*[9]).
Höfn í Melasveit: María, *Ólafur*[10]).
Höskuldsstaðir: María, Pétur, Páll[11]).

Illugastaðir í Fnjóskadal: *Nikulás*[12]).
Ingjaldshóll: María, Cosmas og Damianus, Allir heilagir[13]).
Ingunnarstaðir í Kjós: *Agatha*[14]).
Innrihólmur á Akranesi: María, *Jón postuli,* Jakob eldri, Thómas erkibiskup, Vincentius djákni, Sebastíanus, Allir heilagir[15]).
Innrivík í Hrútafirði: *Nikulás*[16]).

---

1) *D. I.* I, 589. Þessir hafa verið verndardýrlingar kirkjunnar fyrir og um 1257, en hinir eptir þann tíma.
2) *D. I.* VIII, 157.
3) — -- IV, 83.
4) — -- II, 259, III, 79.
5) — -- V, 273.
6) — -- VII, 62.
7) — -- IV, 58.
8) — -- II, 741.
9) — -- II, 446, IV, 467.
10) *D. I.* VII, 60, VIII, 326.
11) — -- II, 470, III, 599.
12) — -- V, 301.
13) — -- II, 410.
14) — -- I, 265.
15) — -- I, 413.
16) — -- VII, 86.

Jörfi í Haukadal: María, Krossinn helgi[1]).

Kalastaðir á Hvalfjarðarströnd: *Pétur postuli*[2]).
Kálfafell í Fellshverfi: *Ólafur*[3]).
Kálfafell í Fljótshverfi: *Nikulás*[4]).
Kálfanes: María, Jón skírari, Pétur postuli, Ólafur[5]).
Kálfatjörn á Vatnsleysuströnd: *Pétur postuli*[6]).
Kálfholt í Holtum: *Ólafur*[7]).
Kallaðarnes í Bjarnarfirði: María, Þorlákur, Míkael[8]).
Kallaðarnes í Flóa: *Krossinn helgi*[9]).
Kalmanstunga: *María*[10])
Keldudalsholt: *Nikulás*[11]).
Keldur á Rangárvöllum: *Páll postuli*[12]).
Ketilsstaðir á Völlum: *Andrés postuli*[13]).
Kirkjuból í Langadal: María, *Laurentius*[14]).
Kirkjuból á Rosmhvalanesi: *Pétur postuli*[15]).
Kirkjuból í Skutilsfirði: *María,* Jón postuli[16]).
Kirkjuból í Steingrímsfirði: *Ólafur*[17]).
Kirkjuból í Valþjófsdal: María, Þorlákur[18]).
Kirkjubæjarklausturskirkja: *María*[19]).

---

1) *D. I.* IX, 193.
2) — -- VII, 55.
3) — -- II, 771.
4) — -- II, 778.
5) — -- IV, 129.
6) — -- III, 340.
7) — -- III, 267.
8) — -- II, 407.
9) — -- IV, 54.
10) *D. I.* III, 224.
11) — -- I, 251.
12) — -- II, 692.
13) — -- VII, 26.
14) — -- II, 615, VII, 433.
15) — -- III, 342.
16) — -- II, 699.
17) — -- VII, 84.
18) — -- V, 579.
19) — -- I, 392.

Kirkjubær í Eyjum: María, Nikulás[1]).
Kirkjubær á Rangárvöllum: *María*[2]).
Kirkjubær í Tungu: *María*[3]).
Kirkjulækur í Fljótshlíð: *Þorlákur*[4]).
Kirkjuvogur í Höfnum: *María*[5]).
Klofi á Landi: *Þorlákur*[6]).
Klyppstaður: *María*[7]).
Knappstaðir í Stíflu: *Pétur postuli*[8]).
Knararhöfn í Hvammsveit: *Þorlákur*[9]).
Knörr í Breiðuvík: *María*[10]).
Kolbeinsstaðir: María, Pétur postuli, Magnús, *Nikulás*, Dominicus, Katrín, Allir heilagir[11]).
Kolfreyjustaður: *Sixtus páfi* (Xystus)[12]).
Kolsholt í Flóa: *María*[13]).
Kroppur í Reykholtsdal: *Þorlákur*, Katrín[14]).
Kross í Landeyjum: María, Jón postuli, *Ólafur*[15]).
Krossavík: *María*[16]).
Krossholt í Kolbeinsstaðahreppi: *Pétur postuli*, Ólafur, María, Þorlákur[17]).

1) *D. I.* VII, 42. Klemenskirkja sú, er nefnd er í *D. I.* II, 66, hefir af sumum (*Á. Í. F. F.* 1913, bls. 35—41) verið talin sama kirkja og sú, er þeir Gizur og Hjalti bygðu á Hörgaeyri. Það er þó varla nógu rökstutt.
2) *D. I.* IV, 84.
3) — -- IV, 219.
4) — -- IV, 83.
5) — -- IV, 103.
6) — -- II, 695.
7) — -- III, 239.
8) — -- III, 561.
9) — -- V, 595.
10) *D. I.* II, 115, XI, 29—30.
11) — -- I, 275, IV, 180.
12) — -- IV, 227.
13) — -- IV, 59.
14) — -- IV, 121, V, 400. Í síðari tilvitnuninni nefnir útgef. Fornbréfasafnsins hana ranglega Maríukirkju.
15) *D. I.* II, 684, IV, 88.
16) — -- IV, 216.
17) — -- II, 113, IV, 198.

Krýsuvík: *María*[1]).
Kvennabrekka: María, *Jón postuli*[2]).
Kvíabekkur: *Ólafur*[3]).
Kvíguvogar: *María*, Þorlákur[4]).

Lambastaðir á Mýrum: María, Míkael[5]).
Langholt efra í Hreppum: *María*[6]).
Langholt neðra í Hreppum: *Þorlákur*[7]).
Laugaland í Hörgárdal: *Jón skírari*[8]).
Laugaból í Ísafirði: *Blasíus*[9]).
Laugardalur í Tálknafirði: María, Nikulás[10]).
Laugardælir í Flóa: María, Agatha[11]).
Laugarnes: María, Pétur, Nikulás, Urbanus, Margrét[12]).
Laugarvatn í Laugardal: *Blasíus*[13]).
Laufás: *Pétur postuli*[14]).
Leirá í Leirársveit: *Pétur postuli*[15]).
Leirubakki á Landi: *Pétur postuli*[16]).
Ljósavatn: *Nikulás*[17]).
Ljótarstaðir: *María*[18]).

1) *D. I.* III, 3.
2) — -- III, 305, IV, 163. Í máldaga frá 1355 (*D. I.* III, 100) er hún eingöngu nefnd »Maríukirkja á Kvennabrekku« og hefir bersýnilega fallið úr »og hins sæla Jóns postula« eða eitthvað þvílíkt.
3) *D. I.* V, 256.
4) — -- IV, 105.
5) — -- V, 406.
6) — -- I, 408.
7) — -- V, 100.
8) — -- III, 521.
9) — -- VII, 83.
10) *D. I.* IV, 149.
11) — -- IV, 53.
12) — -- IV, 112.
13) — -- III, 343.
14) — -- II, 447.
15) — -- IV, 194.
16) — -- II, 695.
17) — -- III, 559.
18) — -- I, 256.

Lómagnúpur: *Nikulás*[1]).
Lunansholt á Landi: *Ólafur*[2]).
Lundarbrekka: Nikulás, Allir heilagir[3]).
Lundur í Lundarreykjadal: María, *Laurentius*[4]).
Lögmannshlíð: *Ólafur*[5]).

Máfahlíð: Ólafur, Allir heilagir[6]).
Márstaðir í Vatnsdal: *Kristur*[7]).
Meðalfell í Kjós: María, Krossinn helgi, Jón postuli, Ólafur, María Magdalena[8]).
Melanes á Rauðasandi: María, Allir heilagir, *Magnús Eyjajarl*[9]).
Melar í Hrútafirði: *Ólafur*[10]).
Melar í Melasveit: *María*, Pétur og Andrés postular, Stephán, Ólafur, Laurentius, Marteinn, Nikulás, Þorlákur, Agatha, Lucia, 11,000 meyjar, Allir heilagir[11]).
Melur í Miðfirði: *Stephán*[12]).
Miðarnarbæli undir Eyjafjöllum: *María*[13]).
Miðbæli undir Eyjafjöllum: *María*[14]).
Miðdalur í Laugardal: *María*[15]).
Miðfell í Hrunamannahreppi: *Jón postuli*[16]).
Miðhlíð á Barðaströnd: *Ólafur*[17]).

---

1) *D. I.* II, 777.
2) — -- IV, 66.
3) — -- III, 559.
4) — -- III, 248, VII, 61.
5) — -- II, 453.
6) — -- III, 110.
7) — -- II, 475. Kirkjan á Márstöðum er enn nefnd Kristskirkja í prófastsskýrslu frá 1727.
8) *D. I.* IV, 115.
9) — -- VIII, 519.
10) *D. I.* VII, 86.
11) — -- I, 418, IV, 192.
12) — -- II, 482.
13) — -- I, 252. } Mun ein og sama kirkja.
14) — -- II, 678. }
15) — -- IV, 38.
16) — -- IV, 45.
17) — -- IV, 151.

Miklaholt: *Jón skírari*[1]).
Miklabær í Blönduhlíð: *Ólafur*[2]).
Miklabær í Óslandshlíð: *Pétur postuli*[3]).
Miklagarður í Eyjafirði: *Postular allir*[4]).
Mjóafjörður: *María*[5]).
Mosfell í Grímsnesi: María, Jón postuli, Ólafur[6]).
Múli í Aðaldal: *María*, Nikulás[7]).
Múli á Skálmarnesi: *Laurentius*[8]).
Munkaþverárklausturskirkja: *María*[9]).
Mýdalur í Kjós: *María*[10]).
Mýnes í Eiðaþinghá: *Nikulás*[11]).
Myrká: *Nikulás*[12]).
Mælifell: *Nikulás*[13]).
Möðrudalur á Fjalli: María, Pétur, Allir heilagir[14]).
Möðruvallaklausturskirkja: *Augustinus*[15]).
Möðruvellir í Eyjafirði: *Marteinn*[16]).
Mörk undir Eyjafjöllum: *Pétur postuli*[17]).

---

1) *D. I.* III, 81.
2) — -- III, 564.
3) — -- V, 250.
4) — -- II, 452.
5) — -- IV, 225.
6) — -- IV, 89.
7) — -- II, 434, IV, 468.
8) *D. I.* III, 195.
9) — -- VII, 364.
10) *D. I.* II, 64. Þessi máldagi er í Fornbréfasafnsregistri rangt ættfærður, kallaður máldagi Mýdals í Mosfellssveit, en er Mýdals í Kjós, sem sjá má af samanburði máldagans við máldagann 1397 *(D. I.* IV, 115), því að þeir eru að efni til eins.
11) *D.* I. I, 249.
12) — -- III, 526.
13) — -- II, 465.
14) — -- IV, 214, VII, 19, 198. Ekki verður séð, hver nafndýrlingurinn er, því að kirkjan er nefnd sínu sinni eptir hverjum verndardýrlinganna.
15) *D. I.* IX, 316.
16) — -- II, 449.
17) — -- II, 684.

Nes í Aðaldal: *Cecilia*[1]).

Nes í Grunnavík: María, Guðmundur biskup, Allir heilagir[2])

Nes í Selvogi: María, Magnús, Þorlákur, Katrín[3]).

Njarðvík eystra: *María*[4]).

Njarðvík syðra: *María,* Pétur og Páll, Laurentius, Ólafur, Þorlákur[5]).

Norðtunga í Þverárhlið: *Katrín*[6]).

Næfurholt á Rangárvöllum: *Pétur postuli*[7]).

Oddgeirshólar: *María*[8]).

Oddi: *Nikulás*[9]).

Ofanleiti: *Andrés*[10]).

Ólafsvellir: *Andrés*[11]).

Otrardalur: María, *Barlam* (Bartolómeus) *postuli,* Thómas erkibiskup, Þorlákur, Cecilia[12]).

Prestbakki í Hrútafirði: María, Jón postuli[13]).

Presthólar: *Þorlákur*[14]).

Ragnheiðarstaðir: *María*[15]).

Rauðalækur: *María*[16]).

---

1) *D. I.* II, 435.
2) — -- VII, 133.
3) — -- IV, 99.
4) — -- IV, 222.
5) — -- II, 65, IV, 103. Þorlákur virðist hafa bæzt í hópinn á árunum 1269—1397.
6) *D. I.* IV, 126.
7) — -- II, 694.
8) — -- I, 410.
9) — -- II, 86.
10) *D. I.* VII, 41.
11) — -- III, 115.
12) — -- II, 576.
13) — -- I, 277, IV, 122, VII, 85. Ekki verður séð, hvert þeirra er nafndýrlingur, því að hvert er nefnt til í sitt skipti.
14) *D. I.* III, 552.
15) — -- I, 410.
16) — -- I, 244—249.

Rauðimelur: *María*[1].
Refstaðir í Vopnafirði: *Laurentius*, Ólafur, Cecilia[2]).
Reykhólar: *Barlam postuli*[3]).
Reykholt í Reykholtsdal: *Pétur postuli*[4]).
Reykir syðri í Mosfellssveit: *Þorlákur*[5]).
Reykir á Skeiðum: *María*[6]).
Reykir í Tungusveit: *Mikael*[7]).
Reykir í Ölfusi: *Laurentius*[8]).
Reykjadalur í Hrunamannahreppi: *María*[9]).
Reykjahlíð: *Laurentius*[10]).
Reykjavík (Vík): *Jón postuli*[11]).
Reynir: *María*[12]).
Reynivellir í Kjós: *María*[13]).
Ríp: *Andrés postuli*[14]).

Sámsstaðir í Hvítársíðu: *Barlam postuli*[15]).
Sandar í Dýrafirði: *Nikulás*[16]).
Sandfell í Öræfum: María, Andrés, *Anna*[17]).
Sandvík í Flóa: *Pétur postuli*[18])
Sauðafell í Dölum: *Egidíus*[19]).

---

1) *D. I.* II, 113.
2) — -- III, 235, VII, 17.
3) — -- IV, 153.
4) — -- I, 466.
5) — -- III, 343.
6) — -- IV, 51.
7) — -- III, 175.
8) — -- IV, 96.
9) — -- II, 666.
10) *D. I.* III, 584.
11) — -- IV, 109, VII, 754.
12) — -- II, 741.
13) — -- IV, 116, VI, 178, IX, 188.
14) — -- II, 467.
15) — -- V, 404.
16) — -- II, 832.
17) — -- VII, 37, IX, 188.
18) — -- IV, 54.
19) — -- III, 99.

Sauðanes: *Ólafur*[1]).
Sauðlaussdalur: María, Allir heilagir, *Þorlákur*[2]).
Saurbær á Hvalfjarðarströnd: *Jón skírari*[3]).
Saurbær á Kjalarnesi: *Pétur postuli*[4]).
Saurbær í Eyjafirði: Nikulás, *Cecilía*[5]).
Saurbær (Bær) á Rauðasandi: *María*, Jón postuli[6]).
Saxahvoll undir Jökli: *María*[7]).
Selárdalur: *María*, Pétur postuli[8]).
Seljar í Helgafellssveit: *Magnús Eyjajarl*[9]).
Seltjarnarnes (Nes): *Nikulás*[10]).
Setberg í Eyrarsveit: *Krossinn helgi*[11]).
Seyðisfjörður eystra: *Ólafur*[12]).
Síðumúli í Hvítársíðu: María, Þorlákur[13]).
Silfrastaðir: Jón skírari, Krossinn helgi[14]).
Sjávarborg: *Andrés postuli*[15]).
Skál á Síðu: *Nikulás*[16]).
Skálholtsdómkirkja: *Pétur postuli*[17]).
Skálholt (Stöpulkirkjan): *Þorlákur*[18]).
Skálmholt í Flóa: *María*[19]).

---

1) *D. I.* III, 554.
2) — -- VIII, 569.
3) — -- IV, 197.
4) — -- III, 341.
5) — -- II, 451, V, 310.
6) — -- IV, 149, V, 4—5.
7) — -- II, 115.
8) — -- III, 775, IV, 148.
9) — -- VII, 66.
10) *D. I.* IV, 107.
11) — -- II, 257.
12) — -- IV, 225.
13) — -- IV, 125, V, 674. Kirkjan er á víxl nefnd eptir báðum verndardýrlingum.
14) *D. I.* III, 519.
15) — -- III, 172.
16) — -- II, 782.
17) *B. S.* I, 67, sbr. 82.
18) — -- I, 132, sbr. 747. Þessi kirkja var uppi í stöpli dómkirkjunnar.
19) *D. I.* IV, 52.

Skáney í Reykholtsdal: *María*[1]).
Skarð eystra á Landi: *Nikulás*[2]).
Skarð ytra á Landi: *Mikael erkiengill*[3]).
Skarð á Skarðsströnd: I. *María*, Jón postuli, Ólafur[4]).
II. *María*, Pétur, María Magdalena, Allir heilagir[5]).
Skinnastaðir: *Pétur og Páll*[6]).
Skógar undir Eyjafjöllum: *Nikulás*[7]).
Skorrastaður í Norðfirði: *Laurentius*[8]).
Skriðuklausturskirkja: María, *Hold og blóð lausnarans*[9]).
Skúmstaðir: *Ólafur*[10]).
Skútustaðir: *Ólafur*[11]).
Snjallshöfði á Landi: *Ólafur*[12]).
Snóksdalur: *Stephán*[13]).
Snæfjöll á Snæfjallaströnd: María, Pétur postuli[14]).
Snæfuglastaðir í Grímsnesi: *María*[15]).
Sólheimar í Mýrdal: *María*[16]).
Sóttartunga í Holtum: *Marteinn*[17]).
Spákonufell: María, Þorlákur, Jón postuli[18]), Krossinn helgi, Ólafur[19]).

---

1) *D. I.* IV, 121.
2) — -- II, 693.
3) — -- II, 695.
4) Fyrir og um 1274. *D. I.* II, 117.
5) Eptir og um 1401. *D. I.* III, 655.
6) *D. I.* III, 586.
7) — -- II, 675.
8) — -- VII, 28.
9) — -- VII, 233, VIII, 403.
10) *D. I.* II, 690.
11) — -- III, 557.
12) — -- II, 697.
13) — -- II, 257.
14) — -- IV, 137.
15) — -- III, 113.
16) — -- I, 251.
17) — -- IV, 62.
18) Einhver þessara þriggja virðist vera nafndýrlingurinn. *D. I.* III, 172.
19) *D. I.* II, 469, III, 551.

Staðarbakki: *Jón skírari*[1]).
Staðarfell á Fellsströnd: *Pétur postuli*[2]).
Staðarhóll í Saurbæ: *Pétur postuli*[3]).
Staðarhraun: *María*[4]).
Staðarstaður (Staður á Ölduhrygg): *María*[5]).
Staður í Aðalvík: *María,* Pétur postuli[6]).
Staður í Grindavík: María, Jón postuli, Stephán, Ólafur, Blasius, Þorlákur, Katrín[7]).
Staður í Grunnavík: *María,* Mikael, Jón skírari, Ólafur, Þorlákur, María Magdalena[8]).
Staður í Hrútafirði: *María*[9]).
Staður í Kinn: María, *Nikulás*[10]).
Staður á Reykjanesi: *Ólafur*[11]).
Staður í Steingrímsfirði: Allir heilagir, María[12]).
Staður í Súgandafirði: *María*[13]).
Stafafell í Lóni: *María*[14]).
Stafholt: *Nikulás*[15]).
Steinar undir Eyjafjöllum: *Mikael*[16]).
Steinsholt í Gnúpverjahreppi: *María*[17]).
Stokkseyri: *María*[18]).
Stórhóll (Espihóll): María, Jón postuli[19]).

1) *D. I.* II, 482.
2) — -- II, 636.
3) — -- III, 79.
4) — -- I, 278.
5) — -- II, 114.
6) — -- II, 260, IV, 137.
7) — -- IV, 101.
8) — -- IV, 138.
9) — -- II, 483.
10) *D. I.* II, 436, IV, 468.
11) — -- III, 196.
12) — -- II, 261, X, 461.
13) — -- II, 575.
14) — -- II, 768.
15) — -- III, 88.
16) — -- II, 679.
17) — -- II, 396.
18) — -- IV, 55.
19) — -- V, 279.

Stórinúpur: *Ólafur*[1]).
Stórólfshvoll: María, Ólafur[2]).
Stóruvellir á Landi: *Ólafur*[3]).
Streiti: *Germanus*[4]).
Strönd í Selvogi (Strandarkirkja): María, Thómas erkibiskup[5]).
Stöð í Stöðvarfirði: *María*[6]).
Svalbarð á Svalbarðsströnd: *Jón postuli*[7]).
Svalbarð í Þistilfirði: *Pétur postuli*[8]).
Svarfhóll í Miðdölum: *Ólafur*[9]).
Svínadalur í Skaptártungu: *Nikulás*[10]).
Svínavatn: *Pétur postuli*[11]).
Sæból: *María*[12]).
Sælingsdalstunga: *María*, Jón skírari[13]).

Teigur í Fljótshlíð: María, Andrés postuli[14]).
Tjaldanes: María, Pétur, Ólafur, *Þorlákur*[15]).
Tjörn í Svarfaðardal: María, Mikael, *Jón skírari*, Andrés[16]).
Tjörn á Vatnsnesi: *María*[17]).
Torfastaðir í Biskupstungum: *María*[18]).

---

1) *D. I.* IV, 47.
2) — -- II, 689.
3) — -- II, 696.
4) — -- I, 249.
5) — -- IV, 100.
6) — -- IV, 228.
7) — -- III, 569.
8) — -- III, 588.
9) — -- V, 595.
10) *D. I.* II, 784.
11) — -- II, 474.
12) — -- III, 228.
13) — -- II, 633, III, 103.
14) — -- II, 686, VI, 330, X, 596. Kirkjan nefnd jöfnum höndum eptir báðum dýrlingum.
15) *D. I.* I, 465, VII, 71.
16) — -- II, 457, III, 513.
17) — -- II, 480.
18) — -- II, 669.

Torfastaðir í Ölfusi: María, Þorlákur[1]).
Tröllatunga: *María*, Jón postuli, Þorlákur, Margrét[2]).

Úlfljótsvatn: María, *Pétur postuli*[3]).
Undenfell: *Nikulás*[4]).
Upsir í Svarfaðardal: *Barlam postuli*[5]).
Urðir í Svarfaðardal: María, *Andrés postuli*[6]).
Úthlíð í Biskupstungum: *María*[7]).

Vaðnes í Grímsnesi: *María*[8]).
Vallanes: *Jón skírari*, Nikulás[9]).
Valþjófsstaður: *María*[10]).
Varmá í Mosfellssveit: *Pétur postuli*[11]).
Varmalækur í Andakíl: *Thómas erkibiskup*[12]).
Vatnsfjörður: *María*, Ólafur[13]).
Vatnshorn í Haukadal: María, Andrés, Pétur, Ólafur, Þorlákur[14]).
Vatnsleysa á Vatnsleysuströnd: *Allir heilagir*[15]).
Vellir í Svarfaðardal: *Ólafur*[16]).
Vetleifsholt: *Þorlákur*[17]).
Viðborð: María, Þorlákur[18]).

1) *D. I.* IV, 92—93.
2) — -- II, 119, 408.
3) — -- IV, 93, VII, 47.
4) — -- III, 540.
5) — -- II, 457.
6) — -- II, 456, IV, 464.
7) — -- II, 670.
8) — -- IV, 95.
9) — -- II, 83, III, 237.
10) *D. I.* IV, 209.
11) — -- IV, 112.
12) — -- IV, 120.
13) — -- VIII, 286.
14) — -- III, 100.
15) — -- II, 65.
16) — -- II, 455.
17) — -- IV, 61.
18) — -- II, 82, IX, 188. Kirkjan nefnd á víxl eptir báðum dýrlingum.

Viðeyjarklausturskirkja: *María*, Jón skírari, Pétur, Páll, Augustinus[1]).

Víðidalstunga: *Jón skírari*[2]).

Víðimýri: María, *Pétur postuli*[3]).

Víðivellir: María, Pétur og Jón postular[4]).

Villingaholt í Flóa: María, *Pétur*, Ólafur, Þorlákur, Hieronymus[5]).

Vomúlastaðir (Ámúlastaðir): *Pétur*[6]).

Vörðufell á Skeiðum: María, Pétur, Ólafur, Marteinn, Gallus[7]).

Ytrihólmur á Akranesi: *Ólafur*[8]).

Þerney með Sundum: María, Þorlákur[9]), Jakob postuli, Nikulás, María Magdalena, Agnes[10]).

Þingmúli: *Ólafur*[11]).

Þingvöllur: *Ólafur*[12]).

Þorgautsstaðir í Hvítársíðu: *María*[13]).

Þorleiksstaðir í Skagafirði: *Andrés postuli*[14]).

Þorvarðsstaðir í Rangárþingi: *María*[15]).

Þrándarholt í Gnúpverjahreppi: *Þorlákur*[16]).

Þverá í Laxárdal í Þingeyjarsýslu: *Pétur postuli*[17]).

---

1) *D. I.* I, 483, 507.
2) — -- III, 538.
3) — -- II, 466, V, 329.
4) — -- III, 534.
5) — -- II, 62, IV, 59.
6) — -- II, 685.
7) — -- I, 405.
8) — -- VII, 57.
9) Annaðhvort þeirra er nafndýrlingurinn. Sbr. *D. I.* IV. 113.
10) *D. I.* I, 411, II, 64.
11) — -- IV, 203.
12) — -- IV, 93.
13) — -- V, 405.
14) — -- IV, 454.
15) — -- IV, 78.
16) — -- IV, 49.
17) — -- III, 556.

Þvottá: *Pétur postuli*[1]).
Þykkviskógur í Dölum: *María*, Magnús Eyjajarl[2]).
Þönglabakki: Pétur, Andrés, *Ólafur*, Magnús, Nikulás[3]).

Ærlækur í Öxarfirði: Laurentius, Nikulás[4]).

Ögur: *María*, Pétur[5]).
Ölfusvatn í Grafningi: *Ólafur*[6]).
Öndverðareyri: *María*[7]).
Öndverðarnes í Grímsnesi: *Stephán*[8]).
Öxnhóll í Hörgárdal: *Jakob postuli*[9]).

Eins og skráin sýnir, er það allfjölskrúðugur dýrlingahópur, sem landsmenn hafa kosið til að vernda guðshús sín, en ekki verður því neitað, að ýmislegt sýnir skráin manni, sem bæði er eptirtektarvert og jafnvel óeðlilegt. Má þar fyrst til nefna, að einn erlendur dýrlingur, Ólafur konungur helgi, sem, þó hann að vísu væri í miklum metum í Noregi, ekki er neitt sérstaklega hátt settur í hinum mikla dýrlingaskara kirkjunnar, skuli vera hinum innlendu dýrlingum langt um fremri um tölu helgaðra kirkna. Þó að þetta verði nú að vísu nokkuð eðlilegra, þegar tekið er tillit til sambands þess, er var milli Íslands og Norvegs um þær mundir, þá virðist það samt engan veginn geta réttlætt það, að Ólafi séu helgaðar 72 kirkjur á móts við hinn blessaða Jón biskup, sem engin kirkja er helguð. Þó að skrá þessi sé ekki tæmandi öðruvísi en svo, að alt,

1) *D. I.* IV, 231.
2) — -- IV, 164, VII, 76.
3) — -- II, 443.
4) — -- VII, 739.
5) — -- III, 325, VII, 793.
6) — -- IV, 94.
7) — -- III, 107.
8) — -- IV, 94.
9) — -- V, 292.

sem nú er kunnugt um helgun kirknanna á miðöldunum, kemur þar til skila, er vitanlega fjöldi kirkna, sem ekkert er hægt að vita um, hverjum helgaðar eru. En enda þótt svo sé, er samt ekki ástæða til að halda annað en að þessar hér um bil hálft fimta hundrað kirkjur gefi í öllu verulegu ábyggilega mynd af helgun kirknanna, og að hlutföllin milli kirknafjölda dýrlinganna í engu verulegu myndi raskast, þó helgun allra kirkna, sem til hafa verið á landinu fyrir siðaskiptin, kæmi fram. Fremur ólíklegt virðist það líka, að svo óheppilega skyldi hafa tekizt til, að einmitt þær kirkjur, sem helgaðar væru hinum blessaða Jóni biskupi, hefðu týnzt úr; hitt sýnist miklu fremur eðlilegt, að þær hafi verið fáar eða engar.

Eptirfarandi tafla gefur glögt og nauðsynlegt yfirlit yfir hlutföllin milli dýrlinganna, og þá um leið nokkra hugmynd um, hvaða dýrlingar hafi verið hugþekkastir landslýð. Tölurnar í svigum eru tölur Wallems.

| Nafn dýrlingsins | Nafn-dýrl. | Verndar-dýrl. | Alls |
|---|---|---|---|
| María guðs móðir . . . . | 92 | 108 | 200 (183) |
| Pétur postuli . . . . . . | 46 | 27 | 73 (78) |
| Ólafur konungur. . . . . | 30 | 42 | 72 (65) |
| Þorlákur biskup . . . . . | 31 | 25 | 56 (49) |
| Nikulás biskup . . . . . | 15 | 38 | 53 (53) |
| Jón postuli. . . . . . . | 11 | 17 | 28 (27) |
| Jón skírari . . . . . . . | 17 | 10 | 27 (29) |
| Allir heilagir . . . . . . | 6 | 18 | 24 (19) |
| Andrés postuli . . . . . | 10 | 8 | 18 (14) |
| Míkael höfuðengill . . . . | 10 | 5 | 15 (17) |
| Thómas erkibiskup. . . . | 7 | 6 | 13 (12) |
| Laurentius píslarvottur . . | 9 | 4 | 13 (13) |
| Krossinn helgi . . . . . | 5 | 5 | 10 (9) |
| Marteinn biskup . . . . . | 5 | 5 | 10 (10) |
| Katrín mær og píslarvottur | » | 11 | 11 (11) |
| Magnús Eyjajarl . . . . . | 5 | 4 | 9 (7) |

| Nafn dýrlingsins | Nafn-dýrl. | Verndar-dýrl. | Alls |
|---|---|---|---|
| Cecilia mær . . . . . . | 2 | 4 | 6 (4) |
| Blasius biskup . . . . . | 3 | 3 | 6 (5) |
| Páll postuli . . . . . . | 2 | 3 | 5 (8) |
| Stephán frumvottur . . . | 5 | 2 | 7 (7) |
| María Magdalena . . . . | 1 | 6 | 7 (7) |
| Barlam postuli . . . . . | 4 | » | 4 (3) |
| Jakob postuli eldri . . . . | 1 | 3 | 4 (3) |
| Margrét mær . . . . . . | » | 3 | 3 (2) |
| Agatha mær . . . . . . | 1 | 2 | 3 (3) |
| Anna móðir Maríu . . . . | 1 | 1 | 2 (1) |
| Augustinus kirkjufaðir . . | 1 | 1 | 2 (0) |
| Clemens páfi . . . . . . | 1 | 1 | 2 (2) |
| Pétur og Páll postular . . | 4 | » | 4 (0) |
| Sebastianus píslarvottur . . | » | 2 | 2 (2) |
| Agnes mær. . . . . . . | » | 2 | 2 (2) |
| Ambrosius biskup . . . . | » | 1 | 1 (1) |
| Barbara mær . . . . . . | » | 1 | 1 (2) |
| Benedikt ábóti (frá Nurcia) | » | 1 | 1 (2) |
| Cosmas og Damianus píslarv. | » | 1 | 1 (1) |
| Dominicus píslarv. (Africanus) | » | 1 | 1 (1) |
| Egidius ábóti . . . . . . | 1 | » | 1 (1) |
| Dionysius píslarvottur. . . | » | 1 | 1 (2) |
| Gallus ábóti . . . . . . | » | 1 | 1 (1) |
| Germanus píslarvottur . . | 1 | » | 1 (1) |
| Gervasius & Protasius píslarv. | 1 | » | 1 (0) |
| Gregorius páfi . . . . . | 1 | » | 1 (1) |
| Guðmundur biskup . . . | » | 1 | 1 (0) |
| Hieronymus kirkjufaðir . . | » | 1 | 1 (1) |
| Hold og blóð lausnarans . | 1 | » | 1 (0) |
| Kristur . . . . . . . . | 1 | » | 1 (0) |
| Lúkas guðspjallamaður . . | 1 | » | 1 (1) |
| Mauritius & socii . . . . | » | 1 | 1 (1) |
| Mattheus postuli. . . . . | 1 | » | 1 (1) |
| Ellefu þúsund meyjar. . . | » | 1 | 1 (1) |
| Lucia mær. . . . . . . | » | 1 | 1 (1) |

| Nafn dýrlingsins | Nafn-dýrl. | Verndar-dýrl. | Alls |
|---|---|---|---|
| Postular allir . . . . . . | 1 | » | 1 (1) |
| Sixtus (Xystus) páfi . . . | 1 | » | 1 (2) |
| Sunnefa . . . . . . . . | » | 1 | 1 (1) |
| Thómas postuli . . . . . | » | 1 | 1 (1) |
| Heilög þrenning . . . . . | » | 1 | 1 (0) |
| Urbanus páfi . . . . . . | » | 1 | 1 (1) |
| Vincentius djákni . . . . | » | 1 | 1 (1) |

Auk þessara nefnir Wallem Jón biskup helga og hinn blessaða Agapítus, hinn síðari með 1 kirkju og hinn fyrri með 3, en það er rangt eptir þeim gögnum, sem fyrir honum lágu.

Schirmer tekur það upp eptir P. Munch, að dómkirkjan á Hólum hafi verið Kristskirkja[1]), en það er algjörlega rangt og er ekkert, sem bendir í þá átt. En nokkur ástæða virðist vera til að ætla, að kirkjan hafi haft dýrlingaskipti í hvert skipti, sem hún var endurbygð, alt fram til þess að Jörundur biskup bygði sína kirkju[2]). Í lýsingu þeirri á Hóladómkirkju eptir Árna Magnússon, sem áður hefir verið minst á[3]); kemst hann svo að orði: »Dómkirkjan á Hólum er helguð

1) *Schirmer* bls. 16. Bls. 15 í sama riti er sagt, að dómkirkjan í Skálholti hafi verið Kristskirkja, en það er, eins og kirknaskráin hér að framan sýnir, rangt; hún var Péturskirkja. Sennilega hefir höf. álitið, að íslenzku dómkirkjurnar hafi verið Kristskirkjur af því, að allar norsku dómkirkjurnar, að undantekinni Hallvarðsdómkirkjunni í Osló, eru Kristskirkjur, og eins af því, að margar enskar dómkirkjur á elztu tímum engilsaxnesku kirkjunnar voru Kristskirkjur, og voru jafnvel nefndar svo, þó að þær væru öðrum helgaðar, eins og t. d. dómkirkjan í Kantaraborg, sem er þrenningarkirkja (sjá *Taranger* bls. 219—220).

2) Þetta var algengt í öðrum löndum, t. d. voru tvær fyrstu dómkirkjurnar í Hróarskeldu þrenningarkirkjur, en sú, sem stendur þar nú, er helguð Luciusi páfa *(Köbke* bls. 62). Þess sér líka dæmi í kirknaskránni hér að framan.

3) *D. I.* III, 606—611.

með guði vorri Stæ Mariæ og Ste Johanni Baptistæ« og hann bætir við: »Ego id perperam dictum puto. Hún er óefað helguð Johanni Ogmundi Episcopo Holensi. Vide campanas«. Um klukkurnar segir hann á sama stað: »In maxima campanarum Holensium in Islandia: »Ista campana pertinet sancti Johanni episcopo Holensi in Islandia, facta in Hamborch anno Domini MCCCCCXXVI. In dem namen Ihesu Cristi ghoet Hinrick Kock mi«. Hæc campana rupta est et nunc ulterius non pulsatur. In tertiæ magnitudinis campana Holensi: »Ista campana pertinet sancti Johanni episcopo Holensi in Islandia, facta in Hamborch anno Domini MCCCCCXXV. Hinrick Kock me fecit««[1]). Að því er viðvíkur hinum þremur fyrstu kirkjum á Hólum, er varla hægt að segja meira, enn að þær hafi ekki getað verið helgaðar hinum blessaða Jóni biskupi Ögmundarsyni. Þó verður að benda á það, að staður í Guðmundar sögu biskups gæti gefið tilefni til að ætla, að dómkirkjan á dögum hans — það er kirkja sú, sem Jón biskup bygði — hafi verið helguð Maríu mey; þar segir: »María var helgaður staðurinn«[2]). Það kann nú að vera nokkuð djarft að draga þá ályktun af því, að staðurinn allur er helgaður Maríu mey, að kirkjan sér sé það líka, en hins vegar væri það í sjálfu sér alt annað en ósennilegt, að dómkirkjan hafi verið helguð þessum höfuðdýrlingi. Með skírskotun til þess, sem sagt verður um helgun kirkju þeirrar, er Jörundur biskup bygði, verður að telja það ábyggilegt, að kirkjan hafi þá haft dýrlingaskipti. Þó að það þyki í sjálfu sér ef til vill ósennilegt, að höfuðdýrlingurinn María hafi orðið að víkja fyrir öðrum dýrlingi, verður samt ekki annað sagt, ef tekið er tillit til þess, hve mætur sá dýrlingur er, sem í staðinn kom, og til ummælanna í Guðmundar sögu, en að líkurnar séu all-

1) Þessar klukkur eru ekki til lengur. Hafa þær væntanlega verið bræddar upp og steyptar úr þeim nýjar klukkur.

2) *B. S.* I, 493.

miklar fyrir því, að fyrsta dómkirkjan á Hólum hafi verið helguð Maríu mey. Dómkirkjan hefir án alls efa haft dýrlingaskipti kringum 1294, þegar Jörundur biskup endurbygði hana[1]) og hún þá verið helguð Jóni postula. Í Postulasögum segir um Jörund biskup: »Johannis hátíð í jólum var vígsludagur biskupsins, ok því sæmdi hann hátíðina með söng ok skrúða forkunnar vænum«[2]). Mætur biskups á þessum helga manni voru svo miklar, að saga postulans tekur til þess, og réttlæta þær fyllilega þá skoðun, að biskup hafi kosið hann verndardýrling hinnar nýju kirkju í stað þess, sem áður var. Þau hausavíxl, sem manna minni eru búin að hafa á þessu, þegar Árni Magnússon semur lýsingu sína á kirkjunni, svo að Jón postuli er orðinn að Jóni skírara, eru ofboð skiljanleg og alls ekki dæmalaus[3]). Hvað viðvíkur því, að kirkjan, að því er Árni Magnússon segir, líka hafi verið helguð guði og Maríu mey, þá er það í fullu samræmi við sið kirkjunnar lengst framan úr öldum og enn í dag, að allar

---

1) Ef eitthvað væri kunnugt um ölturu, klukkur og helga dóma hinna þriggja fyrstu Hólakirkna, hefði ef til vill mátt ráða eitthvað um helgun þeirra af því, en alt og sumt, sem kunnugt er því viðvíkjandi, er að kirkjan átti helgan dóm Marteins biskups á dögum Jóns biskups Ögmundarsonar *(B. S.* I, 169, 197, 242), og að Laurentius biskup lét smíða Laurentiusskrín *(B. S.* I, 872, sbr. 874 og 912), en af því verður vitanlega ekkert ályktað. Auk þessa átti kirkjan helga dóma Jóns biskups.

2) *Postolasögur* bls. 509. Á hinum tilvitnaða stað sést, að rangt er að Jörundur hafi orðið biskup 1267, eins og hingað til hefir verið álitið, meðal annars í biskupatali Hannesar Þorsteinssonar, sem minst hefir verið á. Ber annálum saman um að hann hafi komið út vígður árið 1267; hafi hann verið vígður á jólum það ár, hlýtur það eptir voru tímatali að vera á jólum 1266, því að í þá daga var ársbyrjun optast talin frá byrjun kirkjuársins, 1. sunnudegi í aðventu, eða frá jólum. Lögmannsannáll telur hann vígðan 1266, eins og rétt er.

3) Sjá hér að framan um kirkjubyggingu Péturs, að Lögmannsannáll lætur Jörundarkirkju fjúka á Jónsmessu skírara, en Gottskálksannáll, sem er áreiðanlegri, segir hana fokna á Jónsmessu postula, sem rétt er.

kirkjur undantekningarlaust fyrst og fremst eru helgaðar guði, og er þess víða getið í íslenzkum máldögum að svo hafi verið, en ekki hefir þótt taka því, að geta þess í skránni hér að framan, af því að það er sameiginlegt með öllum. Hvað Maríu snertir, er ekkert því til fyrirstöðu, að kirkjan hafi líka verið helguð henni, því nógsamleg dæmi gefur kirknaskráin þess, að kirkjur séu helgaðar fleirum en einum dýrlingi, og sýnir hún það líka, að María valdist einmitt öðrum dýrlingum fremur til þess að kirkjur voru helgaðar henni, þar sem 200 af 442 kirkjum á skránni eru í hennar varðveizlu. Ekki er heldur með öllu líklegt, að biskup hafi kosið að víkja vorri frú með öllu burt úr árnaðarmannaskara kirkjunnar, þó að hann hafi kosið henni nafn eptir öðrum helgum manni. Og leiðir það af sjálfu sér, að ekki gátu kirkjur dregið nafn af fleirum en einum helgum manni, nema þeir væru samstæðir dýrlingar, eins og t. d. Cosmas og Damianus eða Gervasius og Protasius. En þess ber að gæta, að optast nær voru íslenzkar miðaldakirkjur ekki nefndar eptir nafndýrlingi sínum, heldur kendar við staðinn þar sem þær voru; ef svo hefði verið, hefði verið auðveldara að hafa upp á verndardýrlingum Hóladómkirkju. Það virðist nú að öllum líkindum sannast, að kirkja sú, er Jörundur biskup bygði, hafi verið helguð Maríu mey og Jóni postula og hafi hann verið nafndýrlingur kirkjunnar.

Um kirkju þá, er Pétur biskup bygði 1395, er það víst og fullsannað með klukkuáritunum þeim, sem Árni Magnússon tilfærir, að hún hafi verið helguð hinum blessaða Jóni biskupi Ögmundarsyni. Það væri að vísu hugsanlegt, að klukkurnar væru sérstaklega vígðar Jóni í klukkuskírninni, eins og altítt var[1]) og er enn í kirkjunni. En ekki er það neitt aftaka sennilegt, að tvær af klukkum kirkjunnar, lagðar henni til á sama tíma

1) Sbr. Sancte Olafs klukka á Völlum í Svarfaðardal 1525. *D. I.* IX, 333.

af sama manni, væri helgaðar sama dýrlingi[1]), og þó svo væri, mundi það nánast styrkja þá skoðun, að sá dýrlingur, sem væri haft svo mikið við, væri einmitt sjálfur nafndýrlingur kirkjunnar. En »sanctus Johannes episcopus Holensis« þýðir í þessu sambandi vafalaust ekki »hinn blessaði Jón Hólabiskup«, heldur »kirkja hins blessaða Jóns biskups á Hólum«. Ef þetta væri ekki rétt þýðing, mundi tæplega vera bætt við »in Islandia«, sem annars kæmi hálf hjákátlega fyrir. Þetta kemur líka ágætlega heim við latneska miðaldamálvenju[2]), og sömuleiðis við íslenzka miðaldamálvenju[3]). Einnig ber að gæta þess, hversu eðlilegt það er, að kirkjan sé helguð hinum blessaða Jóni biskupi öðrum dýrlingum fremur. Hann var fyrsti biskup biskupsdæmisins. Dómkirkjan átti helgan dóm hans mestallan, í þremur skrínum, einu stóru yfir altarinu og tveimur minni. Hann var eini dýrlingurinn úr biskupsdæminu, og eins og segir í hinni gömlu stuðluðu antiphónu við Magnificat[4]) úr tíðasöng hans:

morbos curat et pellit vitia
sanctum per hunc Christi clementia,

og þá væntanlega frekar í Hólabiskupsdæmi en annarsstaðar. Líka væri það ógnar skiljanlegt, og er sjálfsagt

---

1) Að vísu átti dómkirkjan 1525 12 klukkur nýtilegar. *D. I.* IX, 296.

2) Sjá hinar alþektu tilvísanir í *Missale* de tempore partinum um, hvar páfinn syngi messuna. »Statio ad S. Stephanum in Cælio monte«, þ. e. messan sungin í Stephánskirkju á mons Cælius, »Statio ad S. Tryphonem«, þ. e. messan sungin í Tryphónskirkju, eða dagsetningu páfabréfanna: »Datum apud S. Petrum«, eða »apud S. Johannem in Laterano«, þ. e. ritað hjá Péturskirkjunni, hjá Jónskirkju í Laterani.

3) »Eg hefi gefit guði ok jungfrú Marie ok klaustrinu á Skriðu« (*D. I.* VII, 312); á Skriðu var kirkja helguð Maríu og holdi og blóði lausnarans (sjá kirknaskrána), þ. e. þá: »eg hefi gefið kirkjunni og klaustrinu á Skriðu«. Eða »Pétur postuli á töðuna« (*Sturl.* II, 251), þ. e. í Reykholti, en sú kirkja er helguð Pétri.

4) *Obituaria* I, 78.

svo, að almenningur hefir álitið það einsætt, að sá Jón, sem kirkjan væri helguð, væri ekki Jón postuli, heldur Jón biskup, sem vitanlega stóð mönnum miklu nær, — jafn sjálfsagt eins og Árna Magnússyni finst það í lýsingu sinni á dómkirkjunni. Þegar kirkjan var vígð 1395 hefir sennilega þegjandi og hljóðalaust verið skipt um Jóna, og biskupinn, sem löngu hefir verið búinn að sigra í meðvitund fólksins, verið settur í stað postulans. Að kirkjan hefir áfram verið helguð Maríu mey, leiðir nokkurn veginn af sjálfu sér.

Eptir siðaskiptin lagðist sú venja niður, að kirkjur hefðu nafn- og verndardýrlinga hér á landi. Var það eðlileg afleiðing af afstöðu hins nýja siðar til áköllunar helgra manna. Ekki er heldur kunnugt, að kirkja Guðbrands biskups hafi verið neinum helguð. Um kirkjuna, sem lokið var við 1763, er samt nokkuð öðru máli að gegna; hún er sem sé helguð — Friðriki konungi V., og er það skráð með gullnu letri á marmaratöflu yfir dyrunum, að María móðir guðs hafi orðið að víkja fyrir honum[1]). Er þetta einkar glögt sýnishorn af hinu ógeðfelda daðri þeirrar tíðar við konungana.

---

Eptirfarandi tafla sýnir, hverjum dómkirkjan hefir verið helguð frá öndverðu, að svo miklu leyti, sem það er kunnugt.

A. Fyrir siðaskiptin.

1. Kirkja Oxa Hjaltasonar } *Nafn- og verndardýrlingar ókunnir.*
2. Önnur kirkjan á Hólum }
3. Kirkja Jóns biskups var helguð *Maríu mey?*

---

1) Á marmaratöflunni yfir kirkjudyrunum stendur: »Deo ter o(ptimo) m(aximo) protegente, clementissimo et augustissimo rege Fredericho quinto promovente, collegio, cui generalis ecclesiarum per utrumque regnum demandata est clementissime cura, procurante, sacra ædes hæc est exstructa, lignea quondam, nunc lapidea, virgini matri *nunc post deum patriæ patri dedicata.* A(nno) R(estauratæ) S(alutis) MDCCLXII (sic). *Æ. J. P.* I, 206.

4. Kirkja Jörundar biskups var helguð *Maríu mey og Jóni postula,* og var Jón nafndýrlingur.
5. Kirkja Péturs biskups var helguð *Maríu mey og hinum blessaða Jóni biskupi,* og var hann nafndýrlingur.

B. Eptir siðaskiptin.

6. Kirkja Guðbrands biskups var engum helguð.
7. Kirkja Friðriks konungs V. er helguð *Friðriki konungi V.*

C. Ófullgjörð kirkja.

8. Hin ófullgjörða steinkirkja Auðunar biskups var eðlilega engum helguð.

---

II.

## Íslenzkar kirkjur alment á miðöldunum.

Hugmynd sú, sem menn munu gjöra sér um íslenzka sveitakirkju í kaþólskum sið eptir lýsingunni á kirkju Oxa Hjaltasonar á Hólum í sögu Jóns biskups helga[1]), reynist við nánari rannsókn langtum fegurri en kirkjurnar í raun og veru voru. Því að kirkjurnar voru bygðar úr efni, sem var bæði ósélegt fyrir augað og haldlítið. Þess er fjöldi dæma, að kirkjunum væri illa haldið við og þær að falli komnar, og að þær væru hafðar til gjörsamlega veraldlegra nota. Hið illa ásigkomulag kirknanna var reyndar ekki að furða. Þegar siðaskiptin hófust með Luther, var um allan kristinn heim kominn óhemjandi ofsavöxtur í hin veraldlegu yfirráð rómversku kirkjunnar til niðurdreps borgaralegu og kirkjulegu lífi[2]), og ekki hvað sízt hér á landi. Kröfur þær, sem kirkjan gjörði til kristins lýðs voru orðnar mætti hans og vilja gjörsamlega ofvaxnar, og meðal margs annars ills, sem af því leiddi, var vanhirzla og vanhirðing kirknanna, sem voru orðnar of margar, og það svo að fram úr öllu hófi keyrði.

---

1) Sjá kaflann um sögu dómkirkjunnar.

2) Þó að kirkjuþingið í Trient að vísu væri tekið til starfa, og hefði starfað nokkra stund (1545—1550) áður en Ísland hvarf úr tölu kaþólskra landa, gætti hinna heillavænlegu áhrifa þess aldrei hér, enda hefðu þau, eins og á stóð, ekki getað bjargað landinu undan siðaskiptaöldunni, sem þvingað var inn yfir landið í pólitískum tilgangi því til stórtjóns, hvaðan sem á er litið, þó að ef til vill megi segja, að betur hafi úr ræzt en á horfðist, og er hér ekki sveigt að trúarbragðalegu hliðinni.

Ekki er hægt að efa það, að tala kirkna og kennimanna hafi verið orðin gífurlega óhófleg, er siðaskiptin hófust. Að því er prófessor Birni M. Ólsen telst til i ritgjörð »Um skattbændatal 1311«[1]), voru ibúar landsins það ár hérumbil 72,428 að tölu. Reiknar hann út fólksfjöldann eptir skattbændatali þessu[2]) á þann veg, að hann gjörir ráð fyrir, að fyrir hvern skattbónda hafi verið 19 menn, sem ekki voru skattskyldir, og hefir hann fengið ibúatöluna með því að margfalda skattbændatöluna með 19. Verður ekki annað sagt, en að talan, sem út komi, sé sennileg, þó að alveg sé ósannað að aðferðin sé rétt. Eigi á sama hátt að finna ibúatöluna i Hólabiskupsdæmi þetta ár, verður að margfalda tölu skattbænda þar með 19. Tala skattbænda var 1150 (9.120 + 70), og ætti ibúatalan i biskupsdæminu eptir því að vera 21,850. Þó að ibúatalan vitaskuld ár frá ári hafi aukizt, eru miklar likur til þess, að hún um alla 15. öld hafi aldrei getað farið fram úr þessu; miklu fremur væri liklegt, að hún hefði verið minni stundum. Liggur það i því, að þrisvar á öldinni geysuðu farsóttir um landið og gjöreyddu sumum bygðum[3]). Á árunum 1401—1403 gekk svarti dauði um land alt, 1431—1432 gekk bólan og 1494—1495 geysaði veiki sú, sem kölluð er enski svitinn, um landið. Það er því óhætt að fullyrða, að ibúatala biskupsdæmisins hafi alla 15. öld verið einhversstaðar i námunda við 21,850. Samkvæmt skrá um sóknarkirkjur i tið Jóns Hólabiskups IV. frá 1429[4]), þar sem tilfærð er prestatala i hverri sókn, hefir tala stiptisklerka (presta og djákna) á því ári verið 183 eða 8,4 pro mille. Til samanburðar mætti ef til vill nota skrá Gizurar Skál-

---

1) *Safn* IV, 294—384.

2) *D. I.* II, 373—375, IV, 9—10.

3) Meðan á svarta dauða stóð 1401—1403 tvieyddi staðinn i Skálholti af fólki, og klaustrið i Þykkvabæ einu sinni. Helmingur systra og bræðra i Þykkvabæ og Kirkjubæ dóu, og i Kirkjubæ voru 1403 jörðuð 675 lik (*I. A.* 286—287).

4) *D. I.* IV, 379—382.

holtsbiskups Einarssonar um klerka í því biskupsdæmi 1542[1]). Hann telur 150 presta óklausturvígða, 19 munka í samtals 4 klaustrum og 7 nunnur í 1 klaustri. Ef gjört er ráð fyrir því, að íbúatalan hafi verið orðin jafnstór það ár eins og hún var 1311, og að tilgátur Björns Ólsens um það séu réttar, ætti íbúatala Skálholtsbiskupsdæmis þá að hafa verið 50,578, og handa þeim mannfjölda ætlaðir 169 prestar eða 3,3 pro mille. Sé hæfilegt tillit tekið til þess, hversu víðáttumikið það biskupsdæmi er, samanborið við íbúafjöldann, virðist klerkatalan vera nokkurn veginn hæfileg. En úr því að klerkatalan í Skálholtsbiskupsdæmi reynist hæfileg, er óskiljanlegur ofvöxturinn í henni í Hólabiskupsdæmi, því að væri of margt klerka í öðru biskupsdæminu, ætti maður að mega búast við hinu sama í hinu. Það hlýtur því að vera svo, að skrá Gizurar biskups eigi að eins við nokkurn hluta klerkastéttarinnar í biskupsdæminu. Og við nánari rannsókn reynist líka svo, að hún á að eins við þá presta og klausturvígðu menn, sem ekki vildu aðhyllast hinn nýja sið, því munkar eru taldir eptir klaustrum með nefndum nöfnum, og er Sigvarður ábóti Halldórsson í Þykkvabæ, síðar biskupsefni í Skálholti, talinn með, þó að hann ásamt 6 öðrum klerkum á prestastefnunni í Miðdal 28. júní 1542 hefði neitað að taka við kirkjuskipun Kristjáns III.[2]), en Alexíus ábóti Pálsson í Viðey, sem sama dag á sömu prestastefnu ásamt 27 öðrum klerkum hafði tekið við Ordinatiunni[3]), er ekki talinn, hvorki í klaustri sínu Viðey né annarsstaðar. Þegar svo hér við bætist, að þegar Páll biskup Jónsson í Skálholti (1195—1211), eptir því, sem Páls biskups saga hermir, lét telja kirkjur og klerka í Skálholtsbiskupsdæmi, reyndust kirkjurnar vera 220, en klerkarnir 290[4]),

1) *D. I.* XI, 186—187.
2) — -- XI, 137—138.
3) — -- XI, 135—137.
4) *B. S.* I, 136.

verður manni alveg óskiljanlegt, að 169 klerkar, að meðtöldum munkum, hafi getað nægt biskupsdæminu 1542, því frekar munu líkurnar til, að talan hafi aukizt heldur en minkað. Ef marka má reikninga Björns Ólsens, ættu á dögum Páls biskups að hafa verið 72,480—77,520 íbúar á Íslandi. Að Skálholtsbiskupsdæmi skuli hafa getað komizt undan ofsavexti í klerkafjöldanum, úr því að Hólabiskupsdæmi gat ekki sloppið, er blátt áfram óhugsandi. Skilningur sá á klerkatali Gizurar biskups, sem stungið hefir verið upp á, er af framangreindum ástæðum hinn eini hugsanlegi. Samkvæmt skrá Ólafs biskups Rögnvaldssonar, borinni saman við skrá Jóns Hólabiskups IV., sem áður gat eg um[1]), voru á dögum Ólafs biskups alls og alls í biskupsdæminu 257 kirkjur, eða miðað við íbúatöluna 11,8 pro mille. Að tala kirkna og klerka muni hafa verið hin sama alla öldina, sést nokkurn veginn greinilega á samanburði á skránum frá 1429 og 1461[2]). Að eins hafi verið

1) Skrá Ólafs biskups Rögnvaldssonar um kirkjur í Hólabiskupsdæmi er prentuð í *D. I.* V, 352—361.

2) Þegar Páll biskup lét telja kirkjurnar í Skálholtsbiskupsdæmi, taldi hann sóknarkirkjur einar, en ekki hálfkirkjur eða bænhús. Tala kirknanna í Hólabiskupsdæmi, sem hér er sett 257, er lægsta tala, því að mestu vantar upplýsingar um tölu hálfkirkna þeirra og bænhúsa, sem sóknarkirkjunum fylgdu að því er til margra kemur. Kirknatal Jóns biskups IV. nær til allra sóknarkirkna, sem þá voru í biskupsdæminu, alls 109. Kirknatal Ólafs biskups nær til 30 sóknarkirkna með undirliggjandi hálfkirkjum og bænhúsum, sem eru 121 að tölu. Lenda því að meðaltali hérumbil 4 annexíur á hverri sóknarkirkju. Ef ganga mætti að því vísu, að svo hefði verið í öllu biskupsdæminu, hefðu þar alls átt að vera um 436 kirkjur. Þess eru reyndar dæmi, að annexíurnar hafi verið langtum — stundum helmingi — fleiri, t. d. lágu 1327 8 annexíur undir Skarðskirkju á Skarðsströnd. En réttast hefir þótt, að halda sér að þeirri tölu, sem sannanleg er, þó að hún sé ábyggilega lægri heldur en tala kirknanna í raun réttri var, og það þeim mun fremur sem hún var óhóflega há, og þegar þess er gætt, að kirkjur á öllu landinu eru nú 270, er þykir alveg nægilegt, enda hafa samgöngur ekki batnað það síðan, að svo mikilli fækkun geti valdið, nema þær hefðu verið of margar áður.

um hálfkirkjur og bænhús er sjálfsagt. Ekki þarf að efa, að biskupsdæmið hafi verið ofsett kirkjum og kennimönnum, en þess ber þó að geta um prestastéttina, að hún var miklu fjölmennari en hér er gefið í skyn, því að skrárnar telja ekki klaustraklerka, og ekki heldur þá klerka, sem voru embættislausir og hálfgjörðir flökkuklerkar, og voru þeir ekki fáir. Það gefur að skilja, að tæpum 22,000 mönnum hafi veitt erfitt að halda uppi öllum þessum klerkafjölda, og halda við öllum þessum kirkjuhúsum svo sæmilegt væri. Þetta hefir ekki eingöngu bitnað á söfnuðunum alment, heldur hefir það miklu fremur bitnað á klerkunum, sér í lagi lágklerkunum[1]). Á alt ástand og fyrirkomulag kirknanna hefir það vitanlega líka haft geysimikil áhrif. Kirkjurnar voru, eins og síðar mun verða vikið að, bygðar úr svo duglitlu efni, að þær þurftu stöðugs viðhalds og margfaldra viðgerða við. En þetta viðhald fengu kirkjurnar ekki, og sést það einkar glögt á því auma ástandi, sem kirkjurnar að jafnaði reynast vera í eptir orðum máldaganna. Getur þetta ekki komið til af öðru en því, að þjóðin, þrátt fyrir ágæt þvingunarmeðul kirkjunnar, var ekki fær um að rísa undir byrðinni af öllu þessu og veita klerkunum hæfilegt uppheldi og kirkjunni hæfilegt viðhald. Ekki verður skotaskuld úr að skilja það, að kirkjurnar upp og ofan voru feikilitlar, ef menn athuga, að hver kirkja í hæsta lagi að meðaltali hefir verið ætluð 100 manns til afnota.

En sé litið á hina mörgu máldaga, sem prentaðir eru í Diplomatarium islandicum, sem eru frá fjölda kirkna með mjög misjöfnum efnahag, og mjög misjafnlega stórum, verður myndin af kirkjunum nokkuð önnur. Í þessum máldögum eru taldir lausafjármunir kirknanna, kaleikar og kirkjuföt og ýmiskonar áhöld, sem notuð voru í kirkjunum. En þar verður hvergi

---

1) Aðstaða kennimanna varð töluvert erfiðari fyrir þá sök, að það var farið að tíðkazt, að biskupar veittu leikmönnum beneficia. Sjást allmörg dæmi þess í *D. I.*

skorts eða vanhirzlu vart. Jafnvel minstu kirkjur eru optast nær nægilega birgar af nothæfum og góðum gripum, og hinar stærri og stærstu kirkjur þola fyllilega í þessu efni samanburð við tiltölulega jafnstórar kirkjur í öðrum löndum. Og þeir kirkjugripir frá miðöldunum, sem enn eru notaðir hér á landi, eða geymdir eru í þjóðmenjasöfnunum í Reykjavík og Kaupmannahöfn, bera þess ljósan vottinn, að menn hafa hvorki verið ósmekkvísir eða sínkir í þá daga.

Þessar myndir virðast ekki vera neitt vel samrýmanlegar. Á öðru leytinu hrörnaðar og illa viðhaldnar kirkjur, á hinu ríkmannlegir og vel haldnir kirkjugripir. Og þó eru þær í bezta samræmi, því að kirkjugripirnir þurfa lítils viðhalds, og málmgripirnir eru sérstaklega haldgóðir — geta enzt öldum saman. En kirkjuhúsin, sem alt af verða fyrir áhrifum veðurs og vinds, máttu ekki án þess viðhalds vera, sem þeim var ekki látið í té.

---

Um *legu kirkna* verður að taka það fram, þó að það sé nokkuð alkunnur sannleikur, að þær sneru í austur og vestur. Vitanlega munu kirkjurnar í fyrri daga varla hafa verið settar eptir kompás, eins og nú er farið að tíðkast, að minsta kosti erlendis, heldur hafa þær verið settar eptir eyktamörkum. Fer það þá eptir því, hve rétt eyktamörkin eru, hvernig kirkjurnar standa af sér við áttirnar. Mjög er það misjafnt, hversu rétt eyktamörkin eru; víðast skeikar einhverju, en sumstaðar svo miklu, að kirkjurnar snúa hvergi nærri því í austur og vestur. Kirkjur þær, sem graptarkirkjur voru, lágu, eins og enn tíðkast, í kirkjugarðinum, en kringum þær kirkjur, sem ekki voru graptarkirkjur, var enginn kirkjugarður í venjulegum skilningi þess orðs, það er að segja enginn grafreitur. Í þessu sambandi ber að geta þess, að staður einn í Jóns sögu biskups bendir til þess, að mörkun kirkjugrundvallar hafi verið helgiathöfn. Skömmu eptir að hinn helgi Jón biskup hafði tekið biskupsdóm, — eptir því eitthvað um 1110 —

gjörði harðindi mikil, og á vorþingi á Þingeyrum — þar sem síðar var klaustrið reist — var því að áeggjan Jóns biskups heitið að byggja þar bæ og kirkju, og »eptir þetta lagði hinn helgi Jón biskup af sér skikkju sína ok markaði sjálfr grundvöll undir kirkjuna«[1]). Um samskonar athöfn er getið í Laxdælu; þar segir: »Þorkell Eyjólfsson markaði grundvöll til kirkju«[2]), en hér er sá munurinn, að athöfnin er framin af leikmanni. Þar sem steinkirkjur að öllum líkindum hafa ekki þekzt á Íslandi, getur varla hafa verið um það að ræða, að sú helgiathöfn, sem nefnd er lagning hyrningarsteins (impositio lapidis primarii) hafi farið fram hér, en ekki væri óhugsandi, að mörkun kirkjugrundvallar hafi verið athöfn, sem vegna staðhátta hafi átt betur við hér, og því verið látin koma í stað hinnar[3]).

Þó að kirkjur væru ekki graptarkirkjur, lágu þær engu að síður optast nær á afgirtu svæði, nokkurskonar kirkjugarði, sem ekki var grafreitur, og virðast þessir

---

1) *B. S.* I, 171, sbr. 244.

2) *Laxd.* bls. 255.

3) Það vantar hér því miður tæki til að rannsaka, hvort slíkt muni hafa verið siður annarsstaðar, — hvort á undan impositio lapidis primarii eða samfara henni hafi verið afmörkun kirkjugrunns sem helgiathöfn. Þó að nú sé sú athöfn ekki til, bendir sitthvað þó í þá átt, að fyrrum hafi hún verið. Impositio lapidis primarii er biskupsverk, en ég hefi ekki haft Pontificale romanum með höndum, meðan ég var að taka saman þetta rit, og man ekki upp á hár, hvernig verkið er framið. Þó er prestum, sem þar til hafa sérstakt umboð, heimilt að gjöra það, og er því til sérstakur »Ritus benedicendi et imponendi primarium lapidem pro ecclesia ædificanda, servandus a sacerdote facultatem habente ab episcopo« *(Rituale* bls. 349—358). Í honum segir svo: »Psalm. Miserere mei, Deus, dicitur totus cum Gloria Patri. Quo dicto, Sacerdos spargit aquam benedictam per omnia fundamenta si sunt aperta: si vero non sunt aperta, circuit aspergendo fundamenta Ecclesiæ designata« *(Rituale* bls. 356). Síðarnefnda fyrirkomulagið að vígja grunninn ótekinn, virðist vera allgreinilegar leifar (rudimentum) þess siðar að marka og vígja grundvöll kirkju með helgiathöfn, áður en farið er að byggja hana.

*graptarlausu kirkjugarðar* hafa verið alveg eins til að sjá eins og hinir venjulegu graptarkirkjugarðar. Svo segir í Sturlungu eptir fall Odds Þórarinssonar í Geldingaholtsbardaga 14. janúar 1255, að »menn Odds fluttu líkama hans upp til Seylu, ok grafinn þar síðan undir kirkjugarðinum, en þó var engi gröptur at þeiri kirkju, ok svá langt inn undir kirkjugarðinn«[1]), og virðist enginn vafi á, að hér hafi verið afgirt svæði á sama hátt og kirkjugarðar eru venjulega, nema það, að ekki mátti grafa í honum. Var Oddur grafinn í honum undir innanverðum veggnum og látinn ná langt út undir hann, sem mun hafa komið til af því, að garðurinn hefir hvergi verið það víður, að hægt væri að koma niður líki milli hans og kirkjunnar. Að almenningsvitundin hefir ekki gjört verulegan mun á hinum venjulegu kirkjugörðum og hinum graptarlausu girtu svæðum[2]) kringum graptarlausar kirkjur, sést á því, að staðurinn í Sturlungu nefnir þetta svæði kringum kirkjuna á Seylu kirkjugarð, eins og grafreitirnir voru nefndir. Að hér sé ekki um einstakt dæmi að ræða, heldur að graptarlausar kirkjur alment hafi verið girtar á sama hátt, sést bezt á hinum forna kirkjugarði á Gásum, sem er óbreyttur frá því í kaþólskum sið. Hann, og kirkjurúst þá er í honum er, hafa þeir prófessor Finnur Jónsson og Daniel liðsforingi Bruun rannsakað fyrir nokkrum árum. Kirkjurústin liggur á hérumbil alveg kringlóttum bletti, sem er girtur. Í austur og vestur er bletturinn lengstur, 80 fet (dönsk), en frá norðri til suðurs nokkru styttri[3]). Svæðið milli kirkjurústarinnar og garðsins er svo lítið, að ekki er að hugsa til að þar hafi verið lík

1) *Sturl.* II, 239.

2) Í þessu sambandi ber að geta þess, að skyldugt var að hlaða garð kringum graptarkirkju, og leggur Magnús III. Skálholtsbiskup 1489 18 álna sekt við að vanrækja það *(D. I.* VI, 663—669).

3) Ritgjörð Finns Jónssonar: Hinn forni kaupstaður at Gásum, í *Á. Í. F. F.* 1908.

grafin[1]), enda er þess hvergi getið, að kirkjan hafi verið graptarkirkja; hennar er yfirleitt ekki getið nema á einum stað, í Skálholtsannál[2]). Benda má á, að ekki er með öllu óhugsandi, að »hlaðit fyrir kirkju«, sem Hungurvaka nefnir[3]), hafi verið slíkur graptarlaus kirkjugarður, þó að það sé engan veginn víst. En það verður að telja fullsannað, að allar kirkjur hafi legið í girtum garði, hvort sem það voru graptarkirkjur eða ekki. Eptir er að vita, hvernig á því stendur, að kirkjur lágu á girtu svæði, hvort sem að þeim var gröptur eða ekki. Í nokkrum handritum af Kristinrétti Árna biskups stendur: »Nú á höfuðkirkja hver 40 skrefa hvern veg frá sér Guði til virðingar, sér til þyrmsla ok öllum til friðar, en hver kapella hvern veg frá sér 30 skrefa; skal innan þess víðernis hver sá friðheilagur vera sem í sjálfri kirkjunni«[4]). Ekki væri með öllu óeðlilegt að manni dytti í hug, að hér kæmi ástæðan, og að kirkjugarðurinn, sem girðingin kringum graptarlausar kirkjur markaði af, væri það bil, sem þyrmslin samkvæmt þessum stað í kristinréttinum ná út fyrir veggi kirkjunnar, og væri það gjört svo að ekki skyldu menn villast á því, hvar kirkjugriðin byrjuðu og hættu. Þetta kemur einkar sennilega fyrir sjónir, en er þó ekki svo varið; sýnir mæling á kirkjugarðinum á Gásum það glögglega[5]), því að málin frá kirkjuveggjunum út í girðinguna um garðinn koma engan veginn heim við það, sem í kristinrétti hermir um víðáttu kirkjugriðanna. Ástæðunnar verður því að leita annarsstaðar, og

1) Ekki er þetta nema líkleg tilgáta prófessors Finns, og er alveg óskiljanlegt, úr því hann var þarna að grafa, að hann skuli hafa sparað við sig þær fáu skóflustungur, sem hann þurfti að gjöra til að sannfæra sig um þetta. Yfir höfuð sýnast rannsóknirnar þarna hafa verið heldur flausturslega gjörðar.

2) *I. A.* bls. 225.

3) *B. S.* I, 66.

4) *N. G. L.* V, bls. 25 neðanmáls.

5) Sjá töflu XII.

finst hún með því að rannsaka lögun kirkjugarðanna og girðinganna kringum þá.

Nú á dögum eru kirkjugarðar venjulegast ferstrendir (rectangula eða kvaðröt), eða að minsta kosti takmarkaðir af beinum línum. En líka er til önnur lögun á kirkjugörðum, hringlögunin; sést hún á nokkrum niðurlögðum kirkjugörðum og á nokkrum kirkjugörðum, sem enn eru notaðir. En lögun þessi er óðum að hverfa, og bendir það til þess, að hér sé um forna lögun að ræða. Sá, er þetta ritar, veit af hringkirkjugörðum á eptirfarandi stöðum:

Bólstaðarhlíð[1]),
Draflastöðum[2]),
Gásum[3]),
Gunnsteinsstöðum[4]),
Hálsi í Fnjóskadal[5]),
Hofi í Öræfum[6]),
Hofstöðum við Mývatn[7]),
Hofstöðum í Skagafirði[8]),
Hrafnagili[9]),
Núpufelli[10]),
Saurbæ í Eyjafirði[11]),
Selárdal (að nokkru leyti)[12]),
Úlfljótsvatni (að nokkru leyti)[13]),

1) Pálmi yfirkennari Pálsson sagði mér.
2) Sigurður skólastjóri Sigurðsson á Hólum sagði mér.
3) Sjá hér að framan og töflu XIII.
4) Sjá töflu XIV, sbr. dagblöðin í Reykjavík frá því í ágúst 1918.
5) Sögn Sigurðar Sigurðssonar skólastjóra á Hólum.
6) *Architekten* bls. 459.
7) *Bruuns Kulturliv* bls. 169.
8) *Architekten* bls. 456, sjá og töflu XIII.
9) Sögn Pálma yfirkennara Pálssonar.
10) Sögn Jóhannesar skólakennara Sigfússonar.
11) *Architekten* bls. 459.
12) Sögn Ólafs prófessors Lárussonar.
13) Sögn sama.

Vatnsfirði[1]),
Víðimýri[2]),
Þóroddsstað í Kinn[3]).

Af þessum kirkjugörðum eru enn notaðir: Háls í Fnjóskadal, Hofstaðir í Skagafirði, Saurbær í Eyjafirði, Selárdalur, Úlfljótsvatn, Vatnsfjörður, Víðimýri og Þóroddsstaður í Kinn. Hringmyndaðir eru enn með öllu: Háls í Fnjóskadal, Saurbær í Eyjafirði, Vatnsfjörður og Þóroddsstaður í Kinn. Selárdals og Úlfljótsvatnsgarður hafa að nokkru mist lögun sína, er þeir hafa verið stækkaðir, svo að nú er ein hliðin á þeim bein lína, en Hofstaðagarður í Skagafirði og Víðimýrar eru nú ferstrendir, og sést enn marka fyrir gamla garðinum á Hofstöðum, en hvergi á Víðimýri. Fyrir hinum kirkjugörðunum, sem nú eru niðurlagðir, þótt sumir séu á stöðum, þar sem enn er kirkja, markar öllum greinilega. Enn ber að geta þess, að kirkjugarðurinn á Munkaþverá hefir til skamms tíma verið kringlóttur, en er nú ferstrendur og kvað enn marka fyrir gamla garðinum[4]). Eins var gamli kirkjugarðurinn á Hólum í Hjaltadal hringmyndaður (sporöskjulagaður), en nýi kirkjugarðurinn er ferstrendur[5]). Bendir þetta alt til þess, að kringlóttir kirkjugarðar séu horfinn siður horfins tíma[6]).

Ekki þarf að efa það, að það er ekki handahóf, sem hefir ráðið því, hver lögun var valin kirkjugörðunum, ferstrend eða kringlótt, heldur hafa til þess legið einhverjar orsakir, sem þá hafa verið góðar og gildar. Sú ástæða, er í fljótu bragði virðist mæla greinilegast með kringlóttum görðum er, að hringur er styzta lína, sem dregin verður um ákveðinn flöt. Ættu þeir

1) Sjá síðar í þessum kafla ritgjörðarinnar. Sbr. töflu XII.
2) Sögn Pálma yfirkennara Pálssonar. Sbr. *Kaalund* II, 65.
3) Sögn Sigurðar skólastjóra Sigurðssonar á Hólum.
4) Sögn Jónasar læknis Jónassonar Rafnar.
5) Sbr. töflu I.
6) Getið skal þess hér, að á mynd af Saurbæjarkirkju á Hvalfjarðarströnd í Ferðabók *Mackenzies* bls. 141 virðist kirkjugarðsgirðingin vera kringlótt.

eptir þeim bókum að vera kostnaðarminstir, því að minst efni og verk ætti að þurfa til þeirra að ganga. En móti þeim og með ferstrendu görðunum mælir hins vegar það, að ekki verður hægt að nota til fulls kringlótta kirkjugarðinn, því að meðfram girðingunni hljóta altaf að ganga af geirar, sem vegna sveigjunnar verður ekki hægt að grafa í, en það á sér vitanlega ekki stað í ferstrendum eða hyrndum görðum. Eins er það, að vanda þarf betur verkið, ef hlaða á kringlóttan garð en hyrndan, eigi hann að vera vel stæður, og veldur því sveigjan; til hyrnda garðsins má frekar kasta höndum. En altaf verður vel hlaðinn kringlóttur garður traustari en tiltölulega jafnvel hlaðinn hyrndur garður. Það sýnist því ekki vera ólíklegt, að það, sem græðist að lengdinni til á því að hafa garð utan um jafnstórt svæði frekar kringlóttan en hyrndan, muni aptur fara í súginn á því að byggja þarf kringlótta garðinn traustari og leggja í hann tiltölulega meira verk. En gjöra má ráð fyrir því, að engu máli hafi í fyrri daga skipt um geirana, sem úr hljóta að ganga í kringlóttum garði, því að jörð og lóðir hafa fráleitt verið það verðmætar þá, að menn hafi látið sér það á nokkru standa. Ekki er það heldur sennilegt, að menn hafi látið sig það neinu skipta, að kringlótti garðurinn er traustari, því að yfirleitt var það svo í fyrri daga, að öll byggingarstörf voru traustara af hendi leyst heldur en nú tíðkast[1]), sem leiðir beinlínis af því, að menn þurfa nú með þeim auknu störfum, sem hin aukna menning leggur mönnum á herðar, að hafa ólíkt meiri hraðan á borði en í fyrri daga. Gæðamunurinn skiptir þess vegna heldur engu máli. Hugsanlegt væri og, að hringlögun kirkjugarðanna hefði symbólska merkingu — hringurinn táknar eilífðina. En fráleitt er heldur orsökin sú, því að vafalaust myndi þess sjá stað í kirkjudagshomiliunum gömlu, ef svo væri[2]), því að

---

1) *Bruuns Kulturliv* bls. 85, sbr. mynd 55 í þeirri bók.

2) *Hom.* I, 98—103, *Hom.* II, 131—136, *Leifar* bls. 162—165.

þar er lýst symbólskri merkingu í svo að segja hverri spítu og hverjum steini í kirkjunum. Verður því að leita orsakarinnar enn annarsstaðar.

Það er ekki nema einn kirkjugarður frá því fyrir siðaskiptin, sem er til í því ástandi, sem hann þá var, svo sannanlegt sé. Það er kirkjugarður sá á Gásum, sem minst hefir verið á. Kirkjugarðurinn er kringlóttur og hefir hann aldrei verið ætlaður til graptar. Fyrst svo er, hlýtur girðingunni að hafa verið ætlað eitthvert annað hlutverk en það, að greina helgan hvíldarreit framliðinna frá óheilagri jörð utan garðsins, og vernda hann fyrir utanaðkomandi átroðningi. Girðingunni hlýtur hreint og beint að hafa verið ætlað að vinna eitthvert veraldlegt og kirkjunni lítt eða ekkert viðkomandi gagn. Þegar tekið er hæfilegt tillit til þeirra þyrmsla, sem kirkjunum fylgdu, og þeirrar notkunar kirknanna, sem af þeim leiddu, notkunar kirknanna sem vígi, er eðlilegt að manni detti í hug, að kirkjugarðarnir, að minsta kosti þar sem miklar líkur voru á að neyta þyrfti þyrmslanna, væru bygðir með það fyrir augum, að nota þyrfti þá sem vígi[1]). Þegar einnig er tekið hæfilegt tillit til þess, að hringlag kirkjugarða er alment um öll lönd[2]), og eins það, að á Þýzkalandi voru miðaldakirkjugarðar bæði kringlóttir og eins útbúnir og notaðir sem virki, og það svo greinilega, að þess sér mjög víða merki enn í dag[3]), — má sérstaklega tilnefna kirkjugarðinn í Hartmannsweiler í Elsass, þar sem enn í dag sér leifar síkisins, sem kirkjugarðurinn var girtur með[4]), — virðist sú skoðun styrkjast nokkuð. Sama gildir og á Frakklandi[5]), og jafnvel finnast menjar slíkra víggirðinga frá elztu kristnu tímum suður í

---

1) Um þyrmslur kirkna og hvernig almenningur notfærði sér þær, sjá síðar í þessum kafla.

2) T. t. á Englandi, sjá *Arts in early England* I, fyrstu myndina.

3) *Otte* I, 18—19, ásamt myndinni.

4) *Otte* l. c.

5) *Ferguson* II, 57, 93.

Afríku, t. d. hjá kirkju þeirri (rúst), sem bygð var yfir gröf hins blessaða Menas í hinni svonefndu Menasborg[1]). Enn er það, að flest virki, sem kunnug eru hér á landi, eru kringlótt[2]), og virðist það óneitanlega leiða líkur að því, að að minsta kosti kirkjugarðurinn á Gásum sé kringlóttur af því, að honum hefir verið ætlað að vera virki, og að jafnvel ástæðan fyrir kringlóttu kirkjugörðunum sé þar með fundin. Auðskilið er það, að hentugra lag hefir ekki verið hægt að kjósa en hringlögun, þótt ekki væri af annari ástæðu en þeirri, að tiltölulega færri mönnum þarf að skipa til varnar á hringmyndaðan garð en hyrndan, enda er svo enn í dag, að vígi, jafnt stór sem smá, eru að einhverju leyti hringmynduð. En það liggur í augum uppi, að á þeirri tíð, sem hér ræðir um, hefir það komið sér miklu betur, að þurfa að skipa færri mönnum fram til varnar, en þó að fé eða vinna sparaðist. Að því er snertir þá hringmynduðu kirkjugarða, er lágu að kirkjum, er graptarkirkjur voru, virðist einnig svo sem hringlögunin stafi einmitt af því, að þeim, engu síður en hinum, hafi verið ætlað að vera virki, þó að það í sjálfu sér hafi verið nóg ætlunarverk fyrir þá að vernda grafreitinn, en hefði það eitt verið tilgangurinn, þarf ekki að efa, að þeir hefðu verið ferstrendir. Til þess að ganga úr skugga um þetta, voru snemma á sumrinu 1918 gjörðar rannsóknir á kirkjugarðinum í Vatnsfirði, og var hann valinn til þess, öðrum kringlóttum kirkjugörðum fremur, fyrir þá sök, að á þessum stað hafði fyrir siðaskiptin verið flestum stöðum á Íslandi róstusamara, og líkurnar þá til þess, að þar, frekar en víðast annarsstaðar, hefði verið kirkjugarðsvígi. Hér er sett yfirlit yfir þessa

---

1) *Kaufmann* bls. 196 (uppdrátturinn).

2) T. d. virkin á Hafsteinsstöðum, í Vík, Virkisbúð á Þingvöllum og virkið á Virkishól á Flugumýri, sjá *Bruuns Kulturliv* bls. 180—186, sbr. *Á. Í. F. F.* 1888—1892, sem lýsir Virkishól alt öðruvísi en teikningar Bruuns (l. c.). Lýsing sú á virki á Hólum í Hjaltadal, sem *Bruuns Kulturliv* bls. 185 vísar til í *Á. Í. F. F.* 1888—1892, finst hvorki þar eða annarsstaðar í því safni.

rannsókn, vegna þess, að hún sannar fyllilega þá skoðun, sem hér hefir verið sett fram, að hinir kringlóttu kirkjugarðar hafi verið vígi og einmitt verið kringlóttir af þeirri ástæðu, og eins af því, að hún sýnir ágæta mynd af þessum vígiskirkjugörðum og öllu fyrirkomulagi þeirra.

Kirkjugarðurinn í Vatnsfirði liggur í hérumbil láréttu sléttu túni, og veit austurhliðin inn í Vatnsfjarðarbotn. Fyrir norðan garðinn liggur eitt af gömlu bæjarhúsunum, og er það nú haft fyrir skemmu. Að öðru leyti sér ofanjarðar ekki stein yfir steini af hinum gömlu bæjarhúsum, sem legið hafa samsíða húsinu, sem eptir stendur, en þar hefir bærinn í Vatnsfirði staðið frá ómunatíð[1]). Útnorður af kirkjugarðinum stendur íbúðarhús úr timbri, sem bygt er fyrir fáum árum, og suður til útsuðurs af honum mjög óálitleg, nýbygð, lítil steinkirkja. Þessi hús liggja öll í 20—35 skrefa fjarlægð frá kirkjugarðinum. Kirkjugarðurinn var nákvæmlega mældur og gjörður af honum uppdráttur[2]). Stærst er þvermál hans frá útsuðri til landnorðurs, 150 fet, en minst frá landsuðri til útnorðurs, 140 fet. Hann er því með aðkenning af sporöskjulagi. Girðingin er hlaðin úr klömburhnausum, og er strengur milli klömburhnausalaganna. Er hún að öllu vel haldin, nema að vestanverðu. Þar er hún sigin nokkuð saman og farið að hrynja úr henni. Í allri girðingunni er auðvelt að greina neðst gamalt garðlag, sem hlaðið hefir verið ofan á, er hún hefir verið gjörð upp. Að sunnanverðu eru greinileg tvö eldri garðlög undir garðinum, sem nú er, og nokkuð ógreinilegra hið þriðja. Það er því ástæðulaust að efast um, að lögun garðsins sé upprunaleg. Í landnorðurhorni garðsins er rústin af kirkju þeirri, er tekin var ofan, er steinkirkjan litla

---

1) Á þetta gamla bæjarhús mun verða minst síðar í þessum kafla.

2) Tafla XII, mynd III.

var bygð[1]. Kirkja sú var bygð um miðja 19. öld og reyndist rústin vera 31 × 22 fet. Ekki snýr rústin nákvæmlega í austur og vestur, heldur frá austri-landsuðri til vesturs-útnorðurs. Flestar snúa grafirnar í sömu átt. Jarðveginum í kirkjugarðinum hallar eigi alllítið til vesturs. Stafar hallinn af því, að borin hefir verið mold ofan á jafnsléttuna í austanverðum garðinum. Afleiðingin er sú, að suðaustur-, austur-, norðaustur- og norðurhliðar girðingarinnar eru töluvert hærri að utan en innan, og sé betur að gáð, virðist einmitt þetta vera tilgangurinn með ofaníburðinum. Þeir partar girðingarinnar, sem svona hafa verið hækkaðir, vita annaðhvort alveg eða að nokkru leyti til sjávar, og liggur sjávargatan úr flæðarmáli upp að bænum. Sjávargatan mun hafa legið þarna frá elztu tíð, því ótal gamlir troðningar liggja samsíða, en hvergi sjást merki annarar götu, en við þeim mætti búast, hefði hún verið nokkur. Hæð girðingarinnar er á þessum stöðum 4—6³/₄ fet að utanverðu[2]) og mest þeim megin, sem að sjávargötunni veit. Þetta eitt fyrir sig virðist ótvírætt benda til þess, að kirkjugarðurinn sé vígi, sem aðallega hefir verið ætlað til varnar gegn landgönguliði fjandsamlegu og gegn árásum sjávarmegin. Hin mikla utanhæð girðingarinnar er bersýnilega ætluð til þess að gjöra óvinum erfitt fyrir að komast í vígið, og hin litla innanhæð hennar á sömu stöðum, 2—2¹/₂ fet, á tveim einstökum stöðum 4 fet, ætluð til þess að virkisbúum veiti hægt að berja á þeim, sem á kunna að sækja, án þess að sækjendur geti gjört sömu skil. Maður, sem í kirkjugarðinum stendur, getur hæglega komið lagi á mann, sem fyrir utan stendur, án þess að sá geti komið lagi upp fyrir sig á garðbúa. Í þessu sambandi skiptir það engu máli, þó að girðingin á einstökum stað að vestanverðu sé 2¹/₂ fet á hæð að utan, en 4 fet að innan, því að jarð-

1) Tafla XII, mynd III.
2) Tafla XII, mynd II.

vegurinn utan garðsins hefir með liðandi árum smáhækkað af völdum bæjarlækjar, sem hjá honum rann[1]), og hefir hann í vorleysingum borið aur og leðju upp undir garðinn. Þetta sést mjög greinilega á því, að örskömm brekka liggur af jafnsléttu upp að því, sem utangarðs sýnast vera garðsrætur, enda liggur grafreiturinn þar og túnið fyrir utan í sama fleti. Á þessum stað í girðingunni sjást hin eldri garðlög vitanlega að eins á innanverðri girðingunni. Skoðun sú, að kirkjugarður þessi hafi verið virki, styrkist enn betur af eptirfarandi atriðum. Þegar verið var að rannsaka kirkjugarðinn, þótti einkennilegt, að á skekli þeim, sem liggur milli kirkjurústarinnar og norðanverðrar girðingarinnar, sá að eins spánnýjar grafir og að ógrafið var í mestu af honum. Fengust þær upplýsingar um þetta, að fyrst hefði verið farið að setja niður lík á þessum stað í garðinum fyrir örfáum árum, og að í hvert skipti kæmi niður á múraðan vegg neðst í gröfunum. Ýmsir menn, sem höfðu verið við að taka gröf barna fyrir örfáum mánuðum, sögðu veggina tvo, og væri bilið milli þeirra svo stórt, að maður gæti hæglega gengið á milli þeirra, og lægju þeir í áttina frá kirkjurústinni að bæjarstæðinu gamla. Þessir menn héldu, að múrarnir væru leifar af fornum neðanjarðargöngum af bænum á kirkjuna, og þóttust þeir hafa heyrt munnmæli um, að slík göng hefðu verið til, löngu áður en þeir sáu neðanjarðarmúrana. Munnmæli þessi eiga vafalaust rétt að mæla, að til hafi verið göng neðanjarðar milli bæjar og kirkju, og hafa grafararnir komið niður á þau þarna. Má af þessu ráða, að bráðsynlegt hefir þótt að eiga greiðan og óhindraðan aðgang að kirkjunni til að njóta þar griða[2]) og að kirkju-

1) Búið er fyrir nokkru að veita læk þessum í annan farveg, einmitt vegna skemda þeirra, sem hann gjörði á kirkjugarðinum.

2) Ekki hefir þetta samband við kirkjuna altaf þótt nógu tryggilegt, sjá *D. I.* VII, 534. Eptir þeim stað að dæma hefir verið búið í kirkjunni, svo að óvinum skyldi ekki takast, ef þá bæri snögglega að, að varna Vatnsfjarðarmönnum kirkju.

garðinum til að verjast þaðan. Það vakti athygli við rannsóknina, að rústin af gömlu kirkjunni, sem í garðinum er, skyldi liggja svo að segja alveg út við kirkjugarðsvegginn bæjarmegin, en ekki í miðjum garðinum eins og að jafnaði tíðkast, en þarna mun hún stöðugt hafa legið, og einmitt þarna til þess að göngin af bæjunnm væru eins stutt og mögulegt var; styður þetta því einnig frásöguna um göngin. Ekki hefir verið hægt að rannsaka þau vegna hinna nýju leiða, sem í þeim og kringum þau eru[1]).

Örskömmu fyrir vestan Vatnsfjarðarstað liggur lágur háls, Vatnsfjarðarháls. Hann er stöllóttur og liggur norður eptir miðju Vatnsfjarðarnesi. Efsti hjallinn er kallaður Grettishjalli. Á hjallanum stendur varða, sem kölluð er Grettisvarða, og er hún hlaðin upp úr grjóti svo stóru, að ekki mun menskum mönnum fært að hefja upp hnullungana, nema margir séu. Grjótið í vörðunni er klofið, en lítt tilhöggvið. Dregur varðan nafn sitt af því, að munnmælasagan segir, að þegar Grettir sterki Ásmundarson dvaldi í Vatnsfirði hjá Þorbjörgu digru, hafi hann falið sig í vörðunni[2]). Varðan er, eða réttara sagt hefir verið, hol innan, en nú er hún til hálfs fylt af mold, sem fokið hefir í hana, en meðan það var ekki, hefir maður, bæði hár og digur, getað falizt í henni. Frá vörðunni er ágætis sýni ofan yfir fjörðinn og staðinn. Ekki eru munnmælin um Gretti og vörðuna sennileg, og síður fyrir það, að tæplega er til það hérað í landinu, að ekki eigi það til örnefni, er kend séu við Gretti. Miklu er það sennilegra, að varðan sé kagaðarvarða frá Vatnsfirði, og að spæjari hafi leynzt í henni. Nokkru sunnar á hjallanum eru sýndar tvær vörður, sem nefndar eru Bræðra-

1) Fyrri kirkjur í Vatnsfirði hafa vafalaust snúið rétt í austur og vestur. Sanna það 17 bersýnilega mjög forn leiði, sem liggja rétt í austur og vestur, en hin yngri leiði snúa eins og kirkjurústin.

2) Sbr. *Grettlu* bls. 117—122 (kap. 52) og *Kaalund* I, 597—598. Varðan sést á mynd 5.

vörður, og fylgir sú sögn, að þar hafi verið teknir af og urðaðir tveir bræður á 17. öld. Dysjar þeirra eru líka sýndar og steinn, sem mælt er, að hafi verið settur þar til minja, og hafi á honum verið áletrun, og þykist presturinn í Vatnsfirði hafa getað lesið eitthvað af henni. Þegar að var gáð, reyndist það, að á steininum hefir aldrei verið nein áletrun, og að jökulrákir eptir honum höfðu orðið til þess að glepja fyrir mönnum um þetta atriði. Vörður þessar eru að því er virðist allungar, því ekki eru skófir nema á framhlið steinanna og eru þeir mjög litlir. Dysjarnar eru sín með hverju móti. Nyrðri dysin er lítill haugur úr smáu grjóti og steinflísum, en sú syðri, sem er grasi vaxin í miðju, er afarstórgrýtt utan með í jöðrunum. Er það af útliti dysjanna bersýnilegt, að þær eru ekki frá sama tíma. Steinarnir í nyrðri dysinni eru sömu tegundar og steinarnir í vörðunum tveimur, en grjótið í syðri dysinni er alveg af sömu gerð og grjótið í Grettisvörðu. Af því að munnmælin, sem búið er að nefna, segja, að dysjarnar séu frá sama tíma, en það kemur ekki heim við útlit þeirra, þótti ekki ósennilegt, að hér kæmi tvær af þeim fjölda mörgu dysjum hér á landi, sem fengið hafa það heiti vegna þess að þær voru sem dysjar í laginu, þó að þær væru ekki dysjar, og síðan myndast heil munnmæli utan um alt saman. Til þess að ganga úr skugga um þetta var nyrðri dysin rofin. Reyndist steinhrúgan þá liggja á hellu, sem líka sér fyrir utan hana, og hafði aldrei neinn verið dysjaður undir henni. Ekkert fanst í henni, nema mjög fúið bein úr kindarfæti og lá það mjög ofarlega í henni. Þetta var þá engin dys, heldur var það að öllum líkindum hrunin varða af sömu gerð og Bræðravörður. Var þar með öll ástæða horfin til að álíta, að syðri »dysin« væri frekar dys en sú hin nyrðri, og hlaut manni vitanlega að detta í hug, að þessi »dys« væri fallin varða eins og hin, og verður sú skoðun að fullri vissu, þegar þess er gætt, að steinarnir í henni eru af sömu gerð og jafn risavaxnir og í Grettisvörðu. Hefir

þarna að öllum líkindum staðið samskonar varða og Grettisvarða og þá vafalaust í sama tilgangi, enda er þaðan fyrirtaksgott sýni ofan yfir fjörðinn og fjarðarbotninn, og þó annað en frá Grettisvörðu. Hefir varða þessi áreiðanlega verið hol innan eins og hin, því að grasigróni bletturinn á henni miðri er ógrýttur alla leið niður í klöpp; hefir efri partur hennar hrunið út til hliðanna, en neðri parturinn staðið, af því að fokmoldin hefir stutt hann. Styrkir þetta alt þá skoðun, að báðar vörðurnar, þessi og Grettisvarða, hafi verið kagaðarvörður frá Vatnsfirði, og hafi spæjari verið í þeim falinn. Styrkist það enn betur af því, að ekki sér milli varðanna, og að sín er útsjónin frá hvorri vörðu, þó að örlítill geiri af útsjóninni sé sami frá báðum, og eins það, að Vatnsfjarðarkirkjugarð sér úr báðum vörðum. Ekki virðist nú neinn efi á, að kirkjugarðurinn í Vatnsfirði hafi verið miðdepill — aðalvígi — í heilu varnakerfi, sem göngin af bænum á kirkjuna og kagaðarvörðurnar voru liðir í. Ekki verður unt að ákveða aldur kirkjugarðsvígisins í Vatnsfirði; hin blóðuga saga Vatnsfjarðarstaðar setur mönnum í sjálfsvald að velja hverja sem menn kjósa af öldunum frá því kristni var lögtekin hér og þar til siðaskiptin voru um garð gengin.

Eptir þetta verður ekki hægt að neita því, að hinum kringlóttu kirkjugörðum var ætlað það hlutverk að vera vígi, auk þess sem þeir áttu að greina grafreit kristinna manna frá vanhelgri jörð, og að einmitt þetta aukastarf hafi ráðið löguninni. Hefir þessi vanbrúkun kirknanna og kirkjugarðanna sjálfsagt átt mikinn hlut að því, að kirkjurnar voru ekki eins vel haldnar og með þurfti. En þetta sýnir líka, að það hafa engu síður — nema fremur hafi verið — verið veraldlegar nytjar, sem menn hafi ætlað sér af kirkjunum í þá daga, og hversu lög kirkjunnar, þrátt fyrir hið mikla vald hennar í raun og veru, hafa mátt sín lítils.

---

*Notkun kirknanna* hefir, eins og gefur að skilja, valdið miklu um, hve kirkjurnar yfirleitt voru illa til reika. Kirkjurnar voru ekki notaðar einvörðungu til tíðasöngs og kirkjulegra athafna, heldur einnig hafðar til mjög margskonar algjörlega veraldlegra nota. Þess hefir áður verið getið, að notkun kirkjugarðanna til annars en greptrana hafi einnig getað haft mikil áhrif til verri vegar í þessu efni.

Fyrst og fremst ber að minnast á þau margvíslegu veraldlegu afnot, sem kirkjan sjálf ætlaðist til að höfð væru af kirkjunum og flest leiddu af kirkjuþyrmslunum, sem kirkjan gætti með ýtrustu árvekni[1]). Þyrmslin og griðin náðu ekki einungis til manna þeirra, sem á kirkju komust, heldur einnig til allra hluta, hvers eðlis sem þeir voru, er í kirkju voru geymdir. Herskáum höfðingjum hefir vafalaust fundizt það tryggilegt á óeirðatímum að vera í námunda við kirkju, sem þeir gætu leitað á, ef svo bæri undir, að þeir biði skarðan hlut fyrir óvinum og forðað á þann veg fjörvi sínu. Væri af þessari ástæðu eðlilegt, ef höfðingjar í fyrri daga hefðu sótzt eptir að hafa kirkju á bæ sínum, svo að þeir, ef svo mætti segja, hefðu griðin í handraða, og er ekki ólíklegt, að þetta með öðru sé ástæðan til þess, að tala kirkna og bænhúsa á landi voru var svona gífurleg. Sturlunga gefur gleggsta mynd allra íslenzkra sagna af hinni margvíslegu veraldlegu notkun íslenzkra kirkna.

Varla er til greinilegra dæmi þess, að kirkja hafi verið notuð í veraldlegar þarfir, en það, að hún hafi verið höfð til íbúðar. Svo segir í Sturlungu, að Dufgus Þorleifsson hafi búið í kirkjunni í Stafholti[2]). Svarthöfði sonur hans ríður í Stafholt og klappar þar

---

1) Að því er snertir kirkjuþyrmsl og kirkjugrið vísast til réttarbótar Eiríks konungs Magnússonar frá 1294 og réttarbótar Hákonar konungs Magnússonar frá 1314, báðar í *Jónsbók Ó. H.*, og til kristinréttar Árna biskups *N. G. L. V.* bls 24—27.

2) *Sturl.* II, 26.

að kirkjudyrum; faðir hans gengur til dyra og fagnar komu hans. Dufgus hafði áður búið í Hjarðarholti og verið í fremstu röð bænda í Dölum[1]). En honum lenti í skærum við Gizur jarl og rændi Gizur bú hans á Strönd í Selvogi[2]). Hefir honum um síðir þótt það hentast lífi sínu að setjast að í kirkjunni í Stafholti, og þar með var kirkjan orðin íbúðarhús. Annað dæmi hins sama er til frá miklu síðari tíma — byrjun 16. aldar. Meðan á erfðastappi því stóð, sem þeir frændurnir Björn Guðnason í Ögri og Björn Þorleifsson áttu í, létu þeir bræður Björn og Þorsteinn Þorleifssynir um skeið búa í kirkjunni í Vatnsfirði, eptir því, sem Birni Guðnasyni segist frá í bréfi til Stephåns biskups[3]). Kemst hann svo að orði í bréfinu: »Skal svo finnast með skæli, ef til þarf að taka, að þeir og þeirra fólk hafi meiri hneyking og forsmæelse gjört heilagri kirkju enn ec, hvað ek þakka guði fyrir, þó svo sé, þar þeir létu sína kvinnu og barn og annað þeirra fólk liggja þar í kirkjunni fyrir utan alla þörf eður nauðsyn, gjörandi þar allar sínar nauðsynjar eptir mannlegu eðli og búksins viðurþurft«. Að kirkjan, eins og þarna stóð á, var notuð til íbúðar, getur ekki hafa komið til af öðru en að ráðlegt hefir þótt að tryggja þeim, sem í kirkjunni bjuggu, aðgang að kirkjugriðum eins og frekast var unt, því að ekki er líklegt, að Vatnsfjörður, sem í þá daga var einn af stærstu stöðum landsins, hafi verið svo illa húsaður, að fólk þetta hafi af þeirri ástæðu þurft að leita á náðir kirkjunnar eða þurft að gjöra hana að íbúðarhúsi eða náðhúsi. Þess eru mörg dæmi, að kirkjur vegna þyrmslanna og griðanna hafi verið teknar til íbúðar, en of langt er það hér að telja, enda upplýsa þau þetta ekkert frekar[4]). Eitt dæmi skal þó

1) *Sturl.* I, 382.

2) *Sturl.* I, 511.

3) *D. I.* VII, 532—536.

4) T. d. má nefna *Sturl.* II, 209, *B. S.* I, 726, 747, sbr. *B. S.* I, 132.

sérstaklega nefnt, af því að það sýnir alveg sérstaka notkun kirkju til íbúðar, — kirkja sú, er við er átt, er sem sé notuð sem spítali. Það er dómkirkjan í Skálholti. Segir frá því í Hungurvöku, að Ísleifur biskup tæki sótt þá, er dró hann til bana á Alþingi. »Síðan var biskup fluttur heim í Skálholt, ok var gjört rúm hans í kirkju«[1]), og andaðist biskup þar. Hver ástæðan hefir verið til þessarar fátíðu notkunar kirkjunnar, verður ekki séð, og er ekki heldur hægt að leiða neinar líklegar getur að því.

Algengast var það, að menn neyttu ekki kirkjugriðanna um lengri tíma, sjaldan degi lengur, og flúðu menn í kirkjuna þegar í nauðirnar rak, og höfðust þar við þar til grið voru gefin, óvinurinn var farinn eða hættan horfin með einhverju móti. Á kirkjuna flúðu særðir úr bardögum[2]), konur og börn[3]) og aðrir, sem ekki þóttu orrustuhæfir[4]), og loks allir, sem forðast vildu pataldur og ásókn[5]), eða forða þurftu lífi sínu undan sigrandi óvinum[6]). Þegar svo stóð á, urðu opt þrengsli við og í kirkjunum, og það svo að sumir skriðu á þekjuna til að hafa þar kirkjugrið heldur en ekki[7]). Auðskilið er því, að fyrsta verk óvina, er að sóttu, væri að hlaupa fyrir kirkjudyr, svo að ekki væri þangað griða að leita[8]). Glæpamenn, er sekir voru orðnir um ákveðna glæpi, áttu heimtingu á kirkjugriðum[9]). Hefir því stundum verið misjafn sauður í mörgu fé, sem á kirkjurnar flúði, og vitanlega hafa slíkir menn stundum þurft að dvelja á þeim langvistum. Varla

1) *B. S.* I, 63.
2) T. d. *Sturl.* II, 76.
3) T. d. *Sturl.* II, 58.
4) T. d. *Sturl.* II, 138.
5) T. d. *Sturl.* II, 24, 130, 154, 210, 213. *B. S.* I, 766.
6) T. d. *Sturl.* I, 236, 287, 297, 338, 530.
7) *Sturl* I, 531.
8) T. d. *Sturl.* II, 38, 159.
9) *Jónsbók Ó. H.* bls. 294, § 7, sbr. réttarbót Hákonar konungs 1314, § 9. *D. I.* II, 392.

hefir það heldur altaf farið friðsamlega, er glæpamenn, sem kirkja fékk ekki haldið, voru úr þeim teknir[1]).

Griðin náðu, eins og getið hefir verið, ekki að eins til manna, sem á kirkjur komust, heldur líka til alls lausafjár, hverju nafni sem nefndist, er í kirkju var geymt. Úr því svo var, var altítt að bera lausafé á kirkju til að forða því undan óvinum. Enda sýnist svo sem menn hafi verið ótæpir á að flytja þangað jafnvel þá gripi, sem síst væri við að búast á kirkju: búsgögn, rá og reiða af skipum og ótal aðra jafn ókirkjulega muni[2]).

Með þessu móti var kirkjuhúsið orðið nokkurskonar vígi, og var því ekki nema eðlilegt að sama gengi yfir það eins og yfir þau, að minsta kosti stöku sinnum. Það sat því ekki við það, að erfiðara væri að halda kirkjunum hæfilega við vegna óþrifa og annars usla, sem stafaði af því að búið var í þeim, og mannagangur mikill um þær og þær notaðar sem skemmur og geymdir í þeim misjafnlega þrifalegir hlutir, sem ef til vill varð ekki komið í þær, nema skemt væri gólf eða veggir, heldur gat þar líka orðið trafali af því að þær yrðu fyrir hernaðaryfirgangi, og að jafnvel væri um þær setið, ef svo vildi verkast, að hægt væri að stökkva þeim, er í kirkjunni sátu, úr henni undan sulti[3]). Umsátur var að vísu að því leyti góðs viti, að hún bar þess vott, að umsátursmenn virtu[4]) kirkjugriðin, sem heilög kirkja gætti eins og sjáaldurs auga síns[5]), svo víðtækra, að þau náðu 40 skref út frá vegg-

---

1) Sjá t. d. *I. A.* bls. 411.

2) T. d. *Sturl.* I, 49, 482, II, 76, 207, 216, 257. *B. S.* I, 707.

3) T. d. *Sturl.* I, 288, 531, II, 59. *B. S.* I, 766.

4) Að það beri að skilja umsátur um kirkju svo sem virðingu fyrir kirkjugriðum og þyrmslum má ráða af því, að dæmi eru þess, að menn umsetnir á kirkju hafa fengið grið hjá umsátursmönnum til þess óhultir að ganga erinda sinna, svo að ekki saurgaðist kirkjan. *Sturl.* I, 531.

5) Þó að kirkjan alment hafi lagt mikla áherzlu á kirkjugrið og kirkjuþyrmsl, eru þess þó dæmi, að sumir kennimenn

um kirkna og 30 skref út frá veggjum bænhúsa[1]), og svo ströng, að bannað var að bera vopn á sér í kirkju[2]). Ekki er þó þar með sagt, að slík umsátur hafi ekki bitnað á kirkjuhúsinu sjálfu. Svo segir í vitnisburði um bardaga á Reykhólum 8. janúar 1483, að þegar hinir sigruðu voru flúnir á kirkju, hafi verið skotið »úr virkinu 2 lóðbyssum í kirkjuna í gegnum hurðina, svo að hún brotnaði«, og »einni pílu í kirkjuhurðina«[3]).

En sjálfsagt hafa þess verið mörg dæmi, að ekki hafi verið haldin kirkjugrið, því að hefðu þau verið mjög rík í meðvitund manna, hefði Þórður kakali varla þurft að taka það fram við menn sína, að þeir skyldu »eira konum ok kirkjum«[4]). Og þó að þau ef til vill alment hafi verið haldin, hafa þó, þegar flokkadrættir voru landinu, verið svo miklir menn í flestum flokkum, að mótflokknum hafi þótt svo mikill slægur í þeim, að þeir hafi heldur kosið að rjúfa á þeim kirkjugrið en að láta þá komast undan[5]), og fengu þeir ekki kirkjugrið, og eru þess mörg dæmi[6]). Þegar svo bar undir, var kirkjan rannsökuð[7]), mennirnir dregnir út og drepnir, og var kirkjan stundum brotin

---

hafi haft allléttúðugar skoðanir í þeim efnum. Samkvæmt vitnisburði Ljóts prests Helgasonar frá 1. júní 1450 skipaði Jón biskup Gerreksson einum hinna dönsku sveina sinna að gjöra nafngreindum manni »einhverja ólukku«. Þetta var 1431 og var biskup á visitatiuferð á Vestfjörðum. Þegar biskup frétti, að maðurinn væri kominn á kirkju, skipaði hann að taka hann þaðan, því að »þótt kirkjan væri saurgut í kveld«, skyldi hann »gjöra hana hreina að morgni«. *D. I.* V, 51.

1) *N. G. L. V.* bls. 25 neðanmáls, sbr. *Sturl.* II, 218. Í verndarbréfi Jóns IV. Hólabiskups til handa brezkum sjómönnum, er flúið höfðu á náðir dómkirkjunnar, frá 3. október 1431 eru kirkjugrið talin meira að segja að ná um allan kirkjugarðinn. *D. I.* IV, 477—479.

2) *Grg.* I b, 216, II, 58—59, III, 42—43, 161—162, 322—323, 375.

3) *D. I.* VI, 469.

4) *Sturl.* II, 40.

5) *Sturl.* II, 79.

6) T. d. *Sturl.* I, 287, II, 19, 76. *I. A.* bls. 208, 285.

7) T. d. *Sturl.* II, 19, 58, 79.

upp með valdi og barist í henni og hjá henni[1]). Hafa slíkir bardagar ekki ósjaldan komið kirkjuhúsinu á kaldan klaka[2]). Að menn annars — og það meira að segja prestar — voru óhræddir við, ef svo bar undir, að gjöra spell á kirkju, finnast dæmi upp á frá miklu síðari og friðsamari tímum en Sturlungaöldinni — lokum 15. aldar —[3]). Þess eru enda dæmi, að klerkum, þrátt fyrir kirkju- og kennimannaþyrmsl, hafi ekki altênd verið óhætt á kirkjunum[4]). En þó að kirkjurnar væri mannlausar, var þeim engan veginn óhætt, því að lausafjármunir óvinanna gátu verið þar, og var þá ekki skirrst við að færa þá þaðan með valdi[5]) til þess annaðhvort að spilla þeim eða hafa þá á burt.

Auk hinnar veraldlegu notkunar kirknanna, sem af kirkjuþyrmslum og kirkjugriðum leiddu, ber að geta þess, að einstöku kirkjuhús hafa getað orðið fyrir óhagræði, er leitt gat af atvikum, sem kirkjan að vísu varla hefir ætlazt til, þó að hún hafi liðið þau. Þess eru dæmi, að bygð hafi verið einbúaskýli alveg utan í kirkjunum, og einbúarnir hafzt þar við, t. d. í Holti á Kólkumýrum. Þar sást, að því er Þorvalds þáttur víðförla hermir, þegar hann var ritaður, rúst af einsetumannsskýli undir kirkjuveggnum, og undir kirkjugarðinum túnbleðillinn, þar sem einsetumaðurinn hafði heyjað handa kú sinni[6]). Þó að nú að vísu sé ekki hægt beinlínis að sanna það, eru þó allar líkur á, að slíkt lítið heimili alveg utan í kirkjuveggnum hafi ekki verið viðhaldi hennar til neinna þrifa, nema síður væri. Annað dæmi slíks einsetumannsskýlis er á sjálfu

1) *Sturl.* I, 288, II, 19.

2) T. d. *Sturl.* II, 215. *D. I.* VIII, 835.

3) *D. I.* V, 813.

4) Jón biskup Gerreksson var tekinn úr kirkju 1433. *Safn* I, 35. Jón biskup Arason var tekinn úr kirkju í Snóksdal 1550. *B. S.* II, 334. Prestar voru stundum vegnir á kirkjum. *I. A.* bls. 207, sbr. 220, 349, 398.

5) *Sturl.* II, 80. *D. I.* V, 813, VIII, 664—667 og viðar.

6) *B. S.* I, 46.

biskupssetrinu á Hólum, og var því þannig varið, að varla getur hjá því farið, að kirkjunni hafi orðið mein að. Eptir því sem sögu Jóns biskups segist frá, lét hann gjöra Hildi einsetukonu skýli, áfast sönghúsi fyrir sunnan kórinn[1]).

Að þau veraldlegu not kirknanna, sem af kirkjuþyrmslum og kirkjugriðum leiddu, hafi verið viðhaldi kirknanna til stórbaga, hefir verið sýnt fram á. En vafalaust er sá skaði, sem þær hafa hlotið af veraldlegum notum án, eða jafnvel móti, vilja kirkjustjórnarinnar enn meiri. Notum þeim verður greinilegast skipt í þrjá flokka: I.) Kirkjan notuð sem *veraldlegt samkomuhús*, II.) Kirkjan notuð sem *skemma og pakkhús* og III.) Kirkjan notuð sem *íbúðarhús.*

Fyrir siðaskiptin hefir kirkjan sjálfsagt, eins og enn er í dag, verið samkomustaður sóknarmanna upp til sveita, og guðsþjónustan verið einkar vel þegið yfirvarp fyrir menn til að koma saman og hittast. Hefir vafalaust borið meira á þessu í kaþólskum sið heldur en eptir siðaskiptin, vegna þess, hve messudagar voru þá miklu fleiri. Vegna erfiðra samgangna í þá daga hefir þetta án efa verið bráðnauðsynlegt, þvi að menn þurftu þá, alveg eins og nú, að hafa spurnir af því, sem bar við bæði utanlands og innan. Að fólk í þá daga hafi skoðað kirkjuna sem nokkurskonar miðstöð alls fréttaburðar, og að þangað ætti að láta alt berast, sem almenningur girntist að heyra, sést einkar vel á einum stað í Sturlungu. Steinunn húsfreyja á Kirkjubæ lézt 1252, og »voru þá þegar sögð tiðindin til kirkjunnar, ok þótti þat öllum mönnum mikil tíðindi«[2]). Virðist svo sem mikið kapp hafi verið lagt á að tíðindin kæmust hið allra bráðasta á markaðinn við kirkjuna, svo að þau bærust fljótt manna á meðal. Þetta getur nú að vísu alls engin áhrif hafa haft á ásigkomulag og viðhald kirknanna, en ekki verður sama sagt um ýmisleg

1) *B. S.* I, 204, 255, sbr. 194.
2) *Sturl.* II, 123.

svipuð veraldleg not, sem af kirkjunum voru höfð. Þess eru til að mynda dæmi, að kirkjurnar voru hafðar til að gjöra mönnum heimsóknir og til að taka á móti heimsóknum í[1]. Alsiða var og að nota skrúðhús[2], stöpul (forkirkju)[3] og stúkur[4] sem einskonar skrifstofu, þar sem gjörðir voru allskonar samningar gjörsamlega veraldlegs efnis[5], og stundum var meira að segja kirkjan sjálf[6] og enda kirkjugarðurinn[7] hafður til hins sama. Stefnur voru líka birtar, stundum í kirkjugarðinum[8], en stundum á kirkjunum sjálfum[9], og sýnir frásagan í Laurentiusarsögu um að stefnuvottar judicum delegatorum í Möðruvallamálum hafi neglt stefnuna, sem þeir áttu að birta, upp á dómkirkjuhurðina á Hólum, þegar búið var með valdi að stjaka þeim út úr kirkjunni, hafandi til þess járnnagla[10]. Það er deginum ljósara, að þessi notkun

1) T. d. *Sturl.* II, 166—167, 169. *B. S.* I, 170, sbr. 243, 754. Í sambandi við þetta má geta þess, að þó að þjóðsagan um dansinn í Hruna gefi tilefni til að halda, að dansað hafi verið á kirkjum, þykir hún tæplega nægileg sönnun þess, enda miklu eðlilegra að hugsa sér, að dans á kirkjustöðum á vökunóttum (vikivakar) hafi í meðförum þjóðsögunnar orðið að dansi í kirkjunum.

2) T. d. *D. I.* V, 260, 700 (dómur), VI, 158, VII, 117, VIII, 141, IX, 556.

3) T. d. *D. I.* VII, 197, VIII, 209, 721.

4) *B. S.* I, 755.

5) Þessi veraldlega notkun kirknanna virðist alveg hafa farið fram hjá *Wallem.* Bls. 97 segir hann: »Det synes fremgaa af et udtryk i VII, 197 (þ. e. D. I.)« o. s. frv. Ef hann hefði tekið eptir því, hve mörg samskonar »udtryk« eru bæði í Fornbréfasafninu, ýmsum íslenzkum sögum og fornum íslenzkum lögum, sem verður að gjöra ráð fyrir að hann hafi kynt sér vandlega, myndi hann hafa komist öðruvísi að orði. Ber þetta vott um ónóga aðgætni af hans hendi.

6) T. d. *D. I.* V, 470.

7) T. d. *D. I.* IV, 516—517, VIII, 276.

8) T. d. *D. I.* IV, 308, V, 238, VI, 136.

9) *D. I.* V, 711.

10) *B. S.* I, 860.

kirkjunnar hefir getað orðið viðhaldi hennar skeinuhætt. Ættleiðingar fóru einnig fram á kirkjugörðum (fyrir kirkjudyrum)[1], og þótt undarlegt megi virðast, sýnist svo, sem hjónavígslur hafi einnig farið fram í kirkjugarðinum[2]). Að stjórnarvöldin íslenzku á miðöldunum hafi álitið að kirkjan væri, eða ætti að vera, nokkurskonar miðdepill borgaralegs lífs, kemur glögglega í ljós í því, að þegar stikumálið íslenzka[3]) var lögtekið á Alþingi einhvern tíma á árunum 1195—1201, var ákveðið, að við hverja graptarkirkju skyldi marka stikulengd »þá er rétt sé at hafa til álnamáls ok megi menn þar til ganga, ef á skilr um álnar«, og að 10 stikur skuli vera 20 sinnum kvarði sá »er merkdur er á kirkju vegg á Þingvelli«[4]). Einnig var lögskipað, að lýsa skyldi ýmsum opinberum auglýsingum, t. d. um

1) T. d. *D. I.* IV, 583, VI, 296, IX, 74, sbr. III, 660.

2) *D. I.* II, 758. En eins vel gæti þetta þó að eins átt við Norveg, því staðurinn er úr skipan Páls erkibiskups hinni þriðju. Það er ekki einsdæmi, að hjúskapur hafi verið bundinn utan kirkju. T. d. var svo í hinu forna erkibiskupsdæmi Mainz skömmu fyrir siðskiptin, sjá *Agenda* fol. xlj dorso. Vafalaust hefir svo verið víðar, þó hér vanti að mestu gögn til rannsóknar um það. T. d. hefst trúlofunarathöfnin í grísk-kaþólsku kirkjunni utan kirkju, sjá *Siletzky* bls. 78. Af því að ýmislegt var sameiginlegt með hinum fornu hjónavígsluathöfnum rómversku kirkjunnar og hinum grísk-kaþólsku eins og þær eru nú á dögum (krýning — velatio, sjá *Siletzky* bls. 88 nn og *Migne* LV. dálk 130 neðanmáls) má ætla að utankirkju-hjónavígslur hafi alment tíðkazt framan af í rómversku kirkjunni. Hefir það vafalaust átt að tákna þá kenningu kirkjunnar, að sakramenti hjúskaparins er framið af hjónaefnunum einum, en ekki prestinum, sem að eins er vottur að athöfninni og aðstoðarmaður (assistens passivus).

3) Um stiku sjá: B. M. Ólsen: Um hina fornu íslenzku alin í *Á. Í. F. F.* 1910, bls. 1—27.

4) *D. I.* I, 309, 310. Um álnarsteininn á Þingvöllum, sem enn var þar 1872—1874, þegar Kaalund fór um, sjá *Kaalund* I, 145—146.

óskilahross[1]), óskilafé[2]), óskilaalifugla[3]) og um vogrek[4]) að kirkjum.

Staður einn í kirkjuskipun Jóns III. Sigurðssonar Skálholtsbiskups frá 26. júlí 1345 ber þess greinilega vott, að kirkjur hafi verið hafðar fyrir skemmur, án þess að með því væri verið að hagnýta kirkjugriðin fyrir gripi þá, sem geymdir voru á kirkjunni og í þeim tilgangi einum að nýta húsrými það, sem ónotað var þar. Segir þar svo: »Item lofaði hann at hreinar kistur sé í kirkjum ok annat þat, sem hreint er ok eigi er vándr þefr af, svá þó at eigi verði órúm at«[5]). Þarna hefir kirkjustjórnin bersýnilega orðið að slaka til um þetta atriði. Eða kannske að biskuparnir hafi einhvern hagnað af þessu ákvæði haft, að minsta kosti hefir dómkirkjunni á Hólum ekki tekizt að sleppa hjá því að vera gjörð að pakkhúsi, því að í Laurentiusar sögu segir, að fyrir daga Auðunar Hólabiskups hafi á kór dómkirkjunnar verið geymdar »kistur og annar harki«[6]), og dæmi eru þess annarsstaðar að, að geymd væru vopn (skildir) á dómkirkjunni[7]). Ekki hefir nú samt alt, sem geymt var í kirkjunum, verið í alveg bókstaflegu samræmi við skipan Jóns biskups, ef marka skal bréf Björns Guðnasonar í Ögri til Stepháns biskups, þar segir: »Er svo húsum varið í Vatnsfirði, að betur voru til fallin að hengja upp í slátur rotið og fúið en kirkjuskotið þar«[8]). Annars er fjöldi dæma um þessa og þvílíka notkun kirkjuhúsanna[9]). Beztu dæmin eru þó frá því á árunum rétt eptir siðaskiptin og sýna þau, að siðbótarmönnum, að minsta kosti að þessu leyti,

---

1) *Jónsbók Ó. H.* Llb. kap. 38.
2) *Ibid.* kap. 50—51. *Grg.* I, 157, II, 481.
3) *Jónsbók Ó. H.* Llb. kap. 57.
4) *Ibid.* kap. 60.
5) *D. I.* II, 793 (Texti A § 35) sbr. 802 (Texti C § 68).
6) *B. S.* I, 830.
7) *Ibid.* 499.
8) *D. I.* VII, 533.
9) T. d. *D. I.* VI, 472, VII, 162, VIII, 834.

hefir ekki tekizt að bæta neitt, en versnað gat þetta athæfi tæplega, ef ráða má af dæmum þeim, sem áður voru nefnd. Árið 1552 voru geymdar tvær kistur í Bessastaðakirkju og var í þeim lítil krambúð. Í annari kistunni, sem var úr eik, var geymt: strigi, klæði, sólaðir skór, mannspungar, hnífar, hattabönd, belti, mundlaugar, drengjahúfur og konuhúfur[1]). Í hinni var geymt: lérept, vesterslérept, stór strigi, varningsklæði, brúnt klæði og stórgerður sængurdúkur[2]). Árið eptir, 1553, voru þessir hlutir geymdir í sömu kirkju, og sést ekki, að um þá hafi verið búið í neinum hirzlum, heldur munu þeir blátt áfram hafa verið á floti um kirkjuna: katlar stórir og smáir, ristir, tréföt, steikarateinar, slátrunaraxir, 1 sinnepskvörn, brandajárn, föt, trédiskar, pundari úr járni, annar úr tré, tvær litlar ölskálar og eitt deigtrog[3]), skinnklippingar, húðir, línur, færi, klukkur, hrífur, innholt (þ. e. bjálkar), kjöt, ilskór, járnrekur og stórar og smáar árar[4]). Þetta alt eru með vægum orðum sagt pakkhúsvörur. En átakanlegri er lýsing sú á brúkun kirkna, sem finst í dómi þeirra Guðbrands biskups Þorlákssonar og Jóns sýslumanns Björnssonar gengnum á Flugumýri föstudaginn í níundu viku sumars (6. júní) 1595 um »hvad riettast og radligast mundi vera vmm þær halfkirkjur j Skagafirdi, sem ecki sumar være affallnar, enn sumar: þó þær være vppi. þa være þær þo jmisliga misbrukadar til annarz enn gudzþionustu. þui dæmi fyndist ad j sumum være geymder reidingar og adrer otilheiriligier hluter. i summum hafder sauder og fienadur annar«[5]). Lengra verður sennilega naumast komizt í þá átt að hafa kirkjurnar til veraldlegra nota. Að siðaskiptunum verði ekki kent um þetta dæmalausa ástand, sýnir bezt hin einbeitta

1) *AM. 264 Fol.* IV. blað 21a.
2) *Ibid.* IV, blað 22a.
3) *Ibid.* V, blað 1a.
4) *AM. 264. Fol.* V, blað 1b—2a.
5) *Bréfabók Guðbrands biskups* í Þjóðskjalasafninu bls. 72.

framkoma biskups. Það var ekki nema að nafninu til, að siðaskiptin komust á, að minsta kosti í Hólabiskupsdæmi, 1550. Í raun og veru komust þau ekki til fullnustu á fyrri en einmitt á dögum Guðbrands biskups, og er af þeirri ástæðu óhætt að gjöra ráð fyrir því, að sú mynd, sem dómur biskups bregður upp, eigi engu síður við árin fyrir siðaskiptin en árin eptir þau.

Að eins eitt dæmi verður nefnt þess, að búið hafi verið á kirkjum án þess að tilgangurinn hafi verið með því að leita kirkjugriða, en það er þeim mun þýðingarmeira sem það er á sjálfri dómkirkjunni á Hólum. Í Guðmundar sögu biskups segir frá því, að á áttunda biskupsári Jörundar biskups (1274) hafi Þorsteinn heitið prestur á Hólum, og var hann kallaður faraprestur; hann gætti kirkjuskrúðans (var sacristanus) og »hvíldi í kirkju«[1]). Úr því að dómkirkjan var notuð á þennan hátt, eru mjög litlar líkur til þess, að ekki hafi farið eins um aðrar kirkjur, enda eru dæmin til[2]).

Sé litið til kirkjugarðanna, verður hið sama fyrir manni þar og í kirkjunum, en þyrmslum kirkjugarða og griðum þar er að því leyti öðruvísi varið en kirkjugriðum, að nokkur vafi leikur á, hversu langt þau ná, eins og þegar hefir verið getið um; af því leiðir aptur, að erfitt er að segja, hvað eru griðrof þar og hvað ekki, enda var ráðizt á menn þar[3]) og þeir gripnir[4]) og drepnir[5]) eða skammfærðir[6]). Það er búið að sýna fram á, að sumir kirkjugarðar hafa verið bygðir sem vígi, og er það vitanlega undirbúningur undir afarókirkjulega notkun. En þó að sú notkun gæti með engu móti verið í anda eða eptir lögum kirkjunnar, getur ekki hjá því farið, að kirkjustjórnin hafi liðið þetta, þótt hún hafi ekki lofað það, enda eru þess víða

1) *B. S.* I, 609.
2) T. d. *Sturl.* II, 243.
3) T. d. *Sturl.* II, 215.
4) T. d. *Sturl.* II, 218.
5) T. d. *B. S.* I, 551 sbr. *Sturl.* I, 416.
6) T. d. *D. I.* IX, 481.

dæmi, að prestar, og jafnvel biskupar, hafi horft á slíka notkun garðanna og samþykt hana með afskiptaleysi. Fjöldi dæma er af orrustum á kirkjugörðum[1]). Fóru þær venjulegast svo fram, að aðrir aðiljar — venjulegast þeir, er veikari voru fyrir — settust að í garðinum, bæði til þess að nota girðinguna sér til varnar og eins til þess að eiga greiðan aðgang að kirkjunni, ef á griðum þyrfti að halda. Gerðu þeir, er í garðinum sátu, optast ekki framar að en að verjast, en hinir, sem fyrir utan voru, urðu að sækja á. Stundum bar það við, að girðingin kringum kirkjugarðinn þætti ekki nægilega trygg vörn, og reyndu þá garðbúar að bæta úr því með því að hlaða varnarkesti (barricade)[2]), og eru þess jafnvel dæmi, að menn til styrktar veikri girðingu hafi hlaðið varnarferhyrning (carré) og látið kirkjuna vera fjórðu hliðina[3]), og þess eru dæmi, að slík notkun garðs hafi leitt til þess að settar hafi verið herbúðir í kirkju og kirkjustöpli[4]). Það leiðir af sjálfu sér, að slíkar orrustur hafi verið kirkjuhúsunum skaðræði, og sýna skjöl þau, sem til eru, um pataldur nokkurn í Víðidalstungu 1483 (svonefndur Víðidalstunguslagur) það mjög vel. Spanst orrustan út úr ryskingum í brúðkaupi, og var fyrst barizt utangarðs, en svo fór, að þeir, er miður höfðu, hörfuðu í garðinn[5]) og vörðust sækjendum þaðan. Einn sækjenda hafði klifrast upp á þekju bæjarins[6]) og varpaði þaðan grjóti á þá, sem í garðinum voru[7]). Lauk sennunni í garðinum, og segja sumir vitnisburðir, að þeir, er miður höfðu, væru þá að leita kirkjugriða. Sama ár og þetta gjörðist fór síra Sigurður Þorláksson, officialis Hólabiskupsdæmis, ásamt tveim öðrum klerkum á vettvang til þess að athuga

1) T. d. *Sturl.* I, 224., 336—337, 555—556. II, 18.
2) *Sturl.* I, 224.
3) *Sturl.* I, 344.
4) *Sturl.* I, 560.
5) *D. I.* VI, 551, 553.
6) *D. I.* VI, 553, 563.
7) *D. I.* VI, 551, 553, 563.

kirkjuna og kirkjugarðinn, og fundu þeir »12 eða 13« ákomur á kirkjuþilinu og kirkjuhurðinni, og lýsti kirkjupresturinn síra Þorlákur því fyrir honum, að þær væru af völdum grjótkastsins[1]). Guðbrandur biskup virðist álíta, að »áverki (sá), sem kirkjuhurðin og kirkjuþilið hafði á sér borið«, eins og hann kemst að orði, hafi verið högg og stungur af lagvopnum, sem á þilið og hurðina hafi komið[2]). Þetta hefði svo sem vel getað átt sér stað, en svo er þetta greinilegt í vitnisburði síra Sigurðar Þorlákssonar, að ekki er hægt að gjöra sér annað í hugarlund en að biskupinn hafi annaðhvort ekki þekt vitnisburð þennan, eða hitt, að hann hafi haft einhver enn betri gögn í höndum, sem styrkti þessa skoðun hans, enda skiptir þetta mjög litlu, þegar öllu er á botninn hvolft.

Þegar kirkjurnar hafa verið notaðar svona gjörsamlega út í yztu æsar til algjörðra veraldarþarfa, umfram það, sem þær voru notaðar á venjulegan hátt í þarfir kirkjunnar til guðsþjónustuhalds, tíðasöngs og annara helgiathafna, og þegar þess er hæfilega gætt, úr hve haldlitlu efni þær voru gjörðar, getur maður ekki búist við öðru en að þær væru jafnaðarlega hrörlegar, og maður hlýtur að játa, að með þessari notkun kirknanna var viðhaldi þeirra settur slíkur þrándur í götu, að það getur afsakað margt í þeirri grein, sem annars væri illskiljanlegt.

---

Það er augljóst að *ástand kirknanna* hlaut að fara eptir *viðhaldinu* á þeim. En þó að það sé ekki eins augljóst, er það samt svo, að viðhaldið fór algjörlega eptir *verðmætinu*, svo að þær kirkjur, sem mest höfðu kostað í öndverðu, nutu tiltölulega betra viðhalds en hinar, sem minna eða minst höfðu kostað.

Það er mjög snemma, að illa viðhaldnar kirkjur

1) *D. I.* VII, 476.

2) *Morðbréfabæklingur* bls. 71, 83.

verða á vegi manns. Á því ári, sem bein biskupanna Jóns Ögmundarsonar og Bjarnar Gilssonar voru úr jörðu tekin (1198) fylti kirkjuna í Holti í Fljótum, »er harðla var mjök fyrnð ok fölnuð«, af snjó alt inn að altari og svo að snjór jafnvel huldi það. Gólfið var laust og lúið, og undir snæblandin mold, er það var uppbrotið. Var þó það viðhaft, að snjónum var rutt út og húsið ræst[1]).

Þetta er að vísu ekki nema einstakt dæmi, og ætti því í raun og veru ekki að sanna neitt. Engu að síður mun þó sú mynd af ástandinu, er þarna kemur fram, einmitt vera hin rétta.

Kirknatal Ólafs biskups Rögnvaldssonar, sem þegar áður hefir verið vitnað í, bregður mjög skærri birtu yfir ástand kirknanna um hans daga. Í skránni eru taldar 30 sóknarkirkjur og 121 hálfkirkja og bænhús, sem undir þær lágu. Af þessari 151 kirkju eru 46 — þar af ein sóknarkirkja — taldar »niðri« eða »ekki uppi«, en 13 »lítt standandi«, »lítt uppi« eða »rotin«[2]). Það er þá rúmur þriðji partur, sem þarna er svona á sig kominn, og eru það flest litlar kirkjur[3]). Hafi ástand kirknanna verið í sama lagi um alt biskupsdæmið, ættu af þeim 257 kirkjum, sem gizkað var á að væru þar, um 85 kirkjur að vera fallnar eða lítt brúkandi[4]), og þarf víst að leita víða um heim til þess að finna ástand, er komist í námunda við að vera jafnaumt og þetta.

---

1) *B. S.* I, 197—198.

2) *D. I.* V, 352—357.

3) Að þetta hafi líka »komið fyrir á beztu bæjum« sýnir svo nefnt »viðabréf« Sveins biskups Péturssonar frá 1471, *D. I.* V, 604—605. Biður hann þar klerka og leikmenn á Ströndum og annarsstaðar á Vestfjörðum að leggja Skálholtskirkju til viði af rekum sínum sakir þess, að hún »ok hennar stöpull eru mjög lítt standandi sakir viðaleysis ok þurfa mikillar hjálpar ok endurbætingar, ef þau skuli ekki innan litils tíma fordiarfast ok í grunn niður falla«.

4) Sé miðað við hærri töluna, sem samkvæmt kirknatali Ólafs biskups (sjá framar í þessum kafla) gæti komið til greina, væri af hér um bil 436 kirkjum um 150 ónothæfar.

Nokkuð skárra er ástand kirknanna í Skálholtsbiskupsdæmi, ef miðað er við Vilkinsmáldaga[1]). Þar er máldagi 301 kirkju, og eru 57 sagðar svo til reika, að þær þurfi viðgjörðar við, og er það tæpur fimti partur. Eins er um máldaga Ólafs Rögnvaldssonar frá 1461[2]). Þeir eru fyrir 77 kirkjum; eru 16 þeirra taldar hrörlegar, og er það liðugur fimti partur. Þó að þetta að vísu sé betra ástand en kirknatalið sýnir manni, er það engu að síður mjög lélegt og á varla frekar en hitt sinn líka neinstaðar. Þykir nú ekki ólíklegt, að tölurnar samkvæmt kirknatalinu séu fullháar, og að tölurnar samkvæmt máldögunum láti nærri sanni. Er það þeim mun líklegra sem niðurstaðan í báðum biskupsdæmum er svo að segja hin sama samkvæmt þeim, og verður að alveg órannsökuðu máli að ganga að því vísu, að svo hafi verið, því illskiljanlegt væri, að kringumstæðurnar í biskupsdæmunum gætu verið í nokkru verulegu mismunandi, enda sannar rannsókn þessi, sem hér er gjörð, það beinlínis.

Í ýmsum miðaldamáldögum kirkna er ágætt efni í rannsókn á ásigkomulagi, verði og viðhaldi þeirra. Einna skeleggastir um þetta efni eru vísitatiumáldagar Jóns Hólabiskups IV. frá 1429[3]), 1431[4]) og 1432[5]). Optsinnis segja þeir manni ekki að eins til um, hvað kirkjurnar séu mikils virði eins og þær eru á sig komnar, þegar máldagarnir eru gjörðir, heldur líka, hvaða álag þurfi á þær að koma, svo að þær verði jafngóðar og þær voru í öndverðu, með öðrum orðum: hvað þær hafi hrörnað mikið og hvað viðhaldið kosti. Á grundvelli þessara máldaga og nokkurra annara gagna eru eptirfarandi töflur 1, 2 og 3 bygðar. Tafla 1 sýnir verðið á 51 kirkju eins og kostað hafði að koma þeim

---

1) *D. I.* IV. 27—240.
2) *D. I.* V, 247—352.
3) *D. I.* IV, 371—379.
4) *D. I.* IV, 464—469.
5) *D. I.* IV, 510—514.

upp, ef þær voru bygðar »eptir því, sem vani er til ærligra kirkna«[1]), sem eru »svo uppgjörðar sem þeim sómir straffanarlaust«[2]). Tafla 2 sýnir verðið á 31 kirkju af þeim, sem taldar eru í töflu 1, eins og þær voru á sig komnar, þegar máldagarnir voru gjörðir. En tafla 3 sýnir, hvað mikið á vantaði þessa 31 kirkju, að þær væri »vel standandi«[3]). Með öðrum orðum: hvað þær voru hrörnaðar mikið og hvað viðhald þeirra kostaði. Þar eð kirkjurnar og álögin í máldögunum eru metin til landaura, hafa þeir verið reiknaðir til nútíðarpeninga, og hefir það verið gjört með eptirfarandi móti. Hundraðið, sem er látið samsvara kýrverði og breytist í samræmi við það, er, þegar á að skatta jarðeignir, sem líka eru metnar til landaura samkvæmt lögum nr. 22 frá 3. nóv. 1915 § 9, látið jafngilda 150 kr. Þetta mat á jarðarhundraðinu er í sjálfu sér fráleitt, því að ef fylgja á jarðamatinu um hundraðatalið, hlýtur jarðarhundraðið að vera misdýrt, alt eptir gæðum og legu jarðanna, og ef ná ætti réttri skattahæð af dýrari jörðunum, yrði að auka hundraðatöluna. 1. janúar 1917 var kýrverðið kringum 350 kr. og 1. janúar 1918 kringum 400 kr. Óefað er hundrað of lágt reiknað á 150 kr.; hinsvegar er efalaust óhætt að gera, að kýrverðið 1. janúar 1918, 400 kr. af völdum ófriðarins, sé töluvert hærra en góðu hófi gegnir. Kýrverðið 1. janúar 1917, 350 kr., virðist vera sanni næst[4]). Það væri að vísu hægt að búa til nokkurskonar meðalhundrað með því að taka meðaltal af ofannefndum þrem upphæðum, en ekki verður séð, með hvaða rétti það væri gjört, og ekki heldur, að þetta meðalhundrað væri neitt nær sanni en hvert hinna um sig. Fyrir þá sök eru landaurarnir reiknaðir til peninga eptir öllum

1) *D. I.* V, 513.
2) *D. I.* VII, 568.
3) *D. I.* IV, 511.
4) Kýrverðið er hér tekið eptir sögusögn manna, sem eru slíku kunnugir og eptir blaðafréttum.

þessum þremur hundraðsverðum á þann veg, að í öllum þrem töflum er í dálkinum A hundrað reiknað 150 kr., í dálkinum B 350 kr., og í dálkinum C 400 kr., en tölurnar í dálkinum B eru skáletraðar af því að þær þykja sanni næstar. Verð þeirra kirkna í töflu 1, sem sameiginlegar eru með öllum töflunum, eru optast fengnar með því, að leggja saman tölurnar úr töflu 2 og 3.

Tafla 1.

| Nafn kirkju | A | B | C | Hdr. |
|---|---|---|---|---|
| | kr. | kr. | kr. | |
| 1. Bær á Rauðasandi | 1050 | *2450* | 2800 | 7[1]) |
| 2. Kaupangur | 1050 | *2450* | 2800 | 7[2]) |
| 3. Ás í Vatnsdal | 1200 | *2800* | 3200 | 8[3]) |
| 4. Snóksdalur | 1200 | *2800* | 3200 | 8[4]) |
| 5. Öxnhóll | 1230 | *2870* | 3280 | 8½ mörk[5]) |
| 6. Reykir | 1500 | *3500* | 4000 | 10[6]) |
| 7. Vík (Reykjarvík) | 1500 | *3500* | 4000 | 10[7]) |
| 8. Vellir í Svarfaðardal | 1500 | *3500* | 4000 | 10[8]) |
| 9. Upsir | 1500 | *3500* | 4000 | 10[9]) |
| 10. Gunnsteinsstaðir | 1800 | *4200* | 4800 | 12[10]) |
| 11. Hítardalur | 1800 | *4200* | 4800 | 12[11]) |
| 12. Ós í Miðfirði | 1800 | *4200* | 4800 | 12[12]) |

1) *D. I.* VII, 518—519.
2) *D. I.* V, 302.
3) *D. I.* IV, 512.
4) *D. I.* IX, 139.
5) *D. I.* V, 239.
6) *D. I.* IV, 513.
7) *D. I.* VII, 754.
8) *D. I.* IV, 373.
9) *D. I.* V. 252.
10) *D. I.* IV. 514.
11) *D. I.* V, 599 sbr. 408.
12) *D. I.* IV, 513.

| Nafn kirkju | A | B | C | Hdr. |
|---|---|---|---|---|
| | kr. | kr. | kr. | |
| 13. Torfastaðir í Miðfirði | 1800 | *4200* | 4800 | 12[1]) |
| 14. Fagranes . . . . . | 1950 | *4550* | 5200 | 13[2]) |
| 15. Stóranúpur . . . . | 1950 | *4550* | 5200 | 13[3]) |
| 16. Hólmar í Reyðarfirði | 2025 | *4725* | 5400 | 13½[4]) |
| 17. Arnarbæli . . . . . | 2250 | *5250* | 6000 | 15[5]) |
| 18. Blöndudalshólar . . | 2250 | *5250* | 6000 | 15[6]) |
| 19. Marðarnúpur . . : | 2250 | *5250* | 6000 | 15[7]) |
| 20. Spákonufell . . . . | 2250 | *5250* | 6000 | 15[8]) |
| 21. Hvammur í Miðfirði . | 2400 | *5600* | 6400 | 16[9]) |
| 22. Hjaltabakki . . . . | 2700 | *6300* | 7200 | 18[10]) |
| 23. Hólar í Vesturhópi . . | 2700 | *6300* | 7200 | 18[11]) |
| 24. Ásgeirsá . . . . . | 3000 | *7000* | 8000 | 20[12]) |
| 25. Bólstaðarhlíð . . . | 3000 | *7000* | 8000 | 20[13]) |
| 26. Holtastaðir . . . . | 3000 | *7000* | 8000 | 20[14]) |
| 27. Keldur á Rangárvöllum | 3000 | *7000* | 8000 | 20[15]) |
| 28. Reynivellir . . . . | 3000 | *7000* | 8000 | 20[16]) |
| 29. Skarð í Langadal . . | 3000 | *7000* | 8000 | 20[17]) |
| 30. Víðidalstunga . . . | 3000 | *7000* | 8000 | 20[18]) |

1) *D. I.* Ibid.
2) *D. I.* V, 331.
3) *D. I.* IV, 47.
4) *D. I.* IV, 227.
5) *D. I.* VII, 568.
6) *D. I.* IV, 511.
7) *D. I.* IV, 512.
8) *D. I.* IV, 514.
9) *D. I.* IV, 516.
10) *D. I.* IV, 514.
11) *D. I.* IV, 513 sbr. V, 344.
12) *D. I.* IV, 513.
13) *D. I.* IV, 511.
14) *D. I.* IV, 514.
15) *D. I.* IV, 86.
16) *D. I.* VI, 587.
17) *D. I.* IV, 514.
18) *D. I.* IV, 513.

| Nafn kirkju | A | B | C | Hdr. |
|---|---|---|---|---|
| | kr. | kr. | kr. | |
| 31. Undenfell . . . . . | 3000 | *7000* | 8000 | 20[1]) |
| 32. Vellir á Landi . . . | 3150 | *7350* | 8400 | 21[2]) |
| 33. Bergstaðir . . . . . | 3450 | *8050* | 9200 | 23[3]) |
| 34. Eyri í Álptafirði . . | 3600 | *8400* | 9600 | 24[4]) |
| 35. Ögur . . . . . . . | 3600 | *8400* | 9600 | 24[5]) |
| 36. Stafholt . . . . . . | 3750 | *8750* | 10000 | 25[6]) |
| 37. Svínavatn . . . . . | 3750 | *8750* | 10000 | 25[7]) |
| 38. Bær á Rauðasandi . | 4500 | *10500* | 12000 | 30[8]) |
| 39. Glaumbær . . . . . | 4500 | *10500* | 12000 | 30[9]) |
| 40. Hjarðarholt í Laxárdal | 4500 | *10500* | 12000 | 30[10]) |
| 41. Hvammur í Vatnsdal | 4500 | *10500* | 12000 | 30[11]) |
| 42. Melar í Melasveit . . | 4500 | *10500* | 12000 | 30[12]) |
| 43. Staðarbakki . . . . | 4500 | *10500* | 12000 | 30[13]) |
| 44. Teigur í Fljótshlíð. . | 4500 | *10500* | 12000 | 30[14]) |
| 45. Víðimýri . . . . . | 4500 | *10500* | 12000 | 30[15]) |
| 46. Grímstungur . . . . | 5250 | *12250* | 14000 | 35[16]) |
| 47. Hrafnagil . . . . . | 5700 | *13300* | 15200 | 38[17]) |
| 48. Höskuldsstaðir . . . | 6000 | *14000* | 16000 | 40[18]) |

1) *D. I.* IV, 512.
2) *D. I.* IV, 66.
3) *D. I.* IV, 511.
4) *D. I.* V, 513.
5) *D. I.* V, 492.
6) *D. I.* IX, 564.
7) *D. I.* IV, 511.
8) *D. I.* VIII, 127.
9) *D. I.* IV, 514.
10) *D. I.* V, 387.
11) *D. I.* IV, 513.
12) *D. I.* V, 99—100.
13) *D. I.* IV, 513.
14) *D. I.* V, 175.
15) *D. I.* IV, 511.
16) *D. I.* IV, 512.
17) *D. I.* V, 316.
18) *D. I.* IV, 514 sbr. V, 345.

| Nafn kirkju | A | B | C | Hdr. |
|---|---|---|---|---|
| | kr. | kr. | kr. | |
| 49. Breiðabólsstaður í Vesturhópi . . . . | 7500 | *17500* | 20000 | 50[1]) |
| 50. Hítardalur. . . . . | 7500 | *17500* | 20000 | 50[2]) |
| 51. Melur í Miðfirði . . | 9000 | *21000* | 24000 | 60[3]) |

Tafla 2.

| Nafn kirkju | A | B | C | Hdr. | Sbr. töflu 1 |
|---|---|---|---|---|---|
| | kr. | kr. | kr. | | nr. |
| 1. Arnarbæli. . . . | 600 | *1400* | 1600 | 4 | 17 |
| 2. Ás . . . . . . | 150 | *350* | 400 | 1 | 3 |
| 3. Ásgeirsá . . . . | 2100 | *4900* | 5600 | 14 | 24 |
| 4. Bergstaðir. . . . | 2550 | *5950* | 6800 | 17 | 33 |
| 5. Blöndudalshólar . | 900 | *2100* | 2400 | 6 | 18 |
| 6. Bólstaðarhlíð . . | 1200 | *2800* | 3200 | 8 | 25 |
| 7. Breiðabólsstaður . | 1200 | *2800* | 3200 | 8 | 49 |
| 8. Eyri. . . . . . | 1050 | *2450* | 2800 | 7 | 34 |
| 9. Glaumbær . . . | 3000 | *7000* | 8000 | 20 | 39 |
| 10. Grímstungur. . . | 3000 | *7000* | 8000 | 20 | 46 |
| 11. Gunnsteinsstaðir . | 1500 | *3500* | 4000 | 10 | 10 |
| 12. Hjaltabakki . . . | 1800 | *4200* | 4800 | 12 | 22 |
| 13. Holtastaðir . . . | 2400 | *5600* | 6400 | 16 | 26 |
| 14. Hvammur í Miðfirði | 1500 | *3500* | 4000 | 10 | 21 |
| 15. Hvammur í Vatnsd. | 3000 | *7000* | 8000 | 20 | 41 |
| 16. Höskuldsstaðir . . | 3750 | *8750* | 10000 | 25 | 48 |
| 17. Marðarnúpur . . | 1800 | *4200* | 4800 | 12 | 19 |
| 18. Melur . . . . . | 6000 | *14000* | 16000 | 40 | 51 |

1) *D. I.* IV, 514 sbr. V, 341.

2) *D. I.* VIII, 674.

3) *D. I.* IV, 513. Kirkja þessi, sem 1415 (*D. I.* III, 759) er virt á 15 hundruð, virðist eptir þessu hafa verið endurbygð, eða endurbætt þar til þessi virðing fer fram 1432.

| Nafn kirkju | A | B | C | Hdr. | Sbr. töflu 1 |
|---|---|---|---|---|---|
| | kr. | kr. | kr. | | nr. |
| 19. Ós . . . . . . | 1500 | *3500* | 4000 | 10 | 12 |
| 20. Reykir . . . . . | 900 | *2100* | 2400 | 6 | 6 |
| 21. Reynivellir . . . | 450 | *1050* | 1200 | 3 | 28 |
| 22. Skarð . . . . . | 2100 | *4900* | 5600 | 14 | 29 |
| 23. Spákonufell . . . | 1500 | *3500* | 4000 | 10 | 20 |
| 24. Staðarbakki . . . | 2250 | *5250* | 6000 | 15 | 43 |
| 25. Svínavatn . . . . | 2250 | *5250* | 6000 | 15 | 37 |
| 26. Teigur . . . . . | 3000 | *7000* | 8000 | 20 | 44 |
| 27. Torfastaðir . . . | 1500 | *3500* | 4000 | 10 | 13 |
| 28. Undenfell . . . . | 1800 | *4200* | 4800 | 12 | 31 |
| 29. Vesturhópshólar . | 1800 | *4200* | 4800 | 12 | 23 |
| 30. Víðidalstunga . . | 2100 | *4900* | 5600 | 14 | 30 |
| 31. Víðimýri . . . . | 1500 | *3500* | 4000 | 10 | 45 |

Tafla 3.

| Nafn kirkju | A | B | C | Hdr. |
|---|---|---|---|---|
| | kr. | kr. | kr. | |
| 1. Arnarbæli . . . . . . | 1650 | *3300* | 4400 | 11 |
| 2. Ás. . . . . . . . . | 1050 | *2450* | 2800 | 7 |
| 3. Ásgeirsá . . . . . . | 900 | *2100* | 2400 | 6 |
| 4. Bergstaðir . . . . . | 900 | *2100* | 2400 | 6 |
| 5. Blöndudalshólar . . | 1350 | *3150* | 3600 | 9 |
| 6. Bólstaðarhlíð . . . . | 1800 | *4200* | 4800 | 12 |
| 7. Breiðabólsstaður . . | 6300 | *14700* | 16800 | 42 |
| 8. Eyri . . . . . . . | 2550 | *5950* | 6800 | 17 |
| 9. Glaumbær . . . . . | 1500 | *3500* | 4000 | 10 |
| 10. Grímstungur . . . . | 2250 | *5250* | 6000 | 15 |
| 11. Gunnsteinsstaðir . . | 300 | *700* | 800 | 2 |
| 12. Hjaltabakki . . . . | 900 | *2100* | 2400 | 6 |
| 13. Holtastaðir . . . . | 600 | *1400* | 1600 | 4 |
| 14. Hvammur í Miðfirði . | 900 | *2100* | 2400 | 6 |
| 15. Hvammur í Vatnsdal | 1500 | *3500* | 4000 | 10 |

| Nafn kirkju | A | B | C | Hdr. |
|---|---|---|---|---|
| | kr. | kr. | kr. | |
| 16. Höskuldsstaðir . . . | 2250 | *5250* | 6000 | 15 |
| 17. Marðarnúpur . . . | 450 | *1050* | 1200 | 3 |
| 18. Melur . . . . . . | 3000 | *7000* | 8000 | 20 |
| 19. Ós . . . . . . . | 300 | *700* | 800 | 2 |
| 20. Reykir . . . . . . | 600 | *1400* | 1600 | 4 |
| 21. Reynivellir . . . . | 2550 | *5950* | 6800 | 17 |
| 22. Skarð . . . . . . | 900 | *2100* | 2400 | 6 |
| 23. Spákonufell . . . . | 750 | *1750* | 2000 | 5 |
| 24. Staðarbakki . . . . | 2250 | *5250* | 6000 | 15 |
| 25. Svínavatn . . . . . | 1500 | *3500* | 4000 | 10 |
| 26. Teigur . . . . . . | 1500 | *3500* | 4000 | 10 |
| 27. Torfastaðir . . . . | 300 | *700* | 800 | 2 |
| 28. Undenfell . . . . . | 1200 | *2800* | 3200 | 8 |
| 29. Vesturhópshólar . . | 900 | *2100* | 2400 | 6 |
| 30. Víðidalstunga . . . | 900 | *2100* | 2400 | 6 |
| 31. Víðimýri . . . . . | 3000 | *7000* | 8000 | 20 |

Eru nú þessir reikningar ábyggilegir, og er hægt að draga nokkrar líklegar ályktanir af þeim?

Eins og þegar áður hefir verið tekið fram, sýnir einn reikningurinn — væntanlega sá, er í B dálkinum stendur — því sem næst verðmæli kirknanna eins og það mundi vera á þessum árum. En eigi að gjöra hárnákvæma grein fyrir verði kirknanna í nútíðarpeningum, er ekki nóg að snúa hundraði í krónur eptir gangverði þess nú, heldur þyrfti að athuga hlutfallið milli kaupmagns hundraðsins þá og nú. Er nú hægt að fá sama fyrir hundrað eins og þá? Er verð efnis og vinnu hlutfallslega hið sama nú og þá?[1]) Tæplega,

1) Um *timburverð* í fyrri daga sjá *Búalög* (arabisku tölurnar tákna línur) I, 170—173, 245—246. IIA 223—225. III, 338—342, 426—427. IV, 196, 199—201, 275—276, 280—281. V, 185—187, 233—234. VI, 313—315, 318, 385—386, 392. VII, 489—492, 494—496, 609—612, 722, 1009—1012. IX, 35—39, 41. X, 330—332, 401. XI, 320—324.

því alkunnugt er, að efni og vinna hafa farið, og fara enn, síhækkandi, en peningaverð sílækkandi[1]). Slíkir útreikningar á hlutföllum milli verðs þá og nú gæti vafalaust verið efni í stóra og fróðlega ritgjörð, en ekki er tiltækilegt að fara frekar út í það hér en gjört hefir verið. Þó að ekki hafi verið tekið nægilegt tillit til þessa við útreikningana á verðmæti kirknanna hér að framan, er þó með því búið að skapa í öllu, er á ríður, nægilega ábyggilegt yfirlit yfir þetta atriði, að minsta kosti til bráðabirgða.

Í töflu 1 eru taldar 51 kirkja, og eru 18 þeirra úr Skálholtsbiskupsdæmi, en 33 eru úr Hólabiskupsdæmi. Gefur taflan gott yfirlit yfir stærð og verð kirkna, frá minni og minstu kirkjum upp í stærri og stærstu kirkjur. Hægt og gætilega stígur verðið með litlum stökkum, þar til komið er að kirkjunni á Hrafnagili. Þá er komið að stærri og veglegri kirkjunum, því að svo segir í sögu Laurentiusar biskups um síra Jón Koðránsson, að hann léti »uppsmíða kirkjuna at Hrafnagili með dýrum kosti«[2]). Virðing sú á Hrafnagili, er taflan sýnir, er gjörð 1461 eða rúmum 100 árum síðar en síra Jón Koðránsson bygði hana; er það vafalaust sama kirkjan og er hún metin 38 hdr. Þó að þessi kirkja hafi í þá daga þótt gjörð með dýrum kost, hefir hún þó hvorki getað verið stór eða prýðileg eptir nútíðarskilningi. Dýrasta kirkjan í töflunni er virt á 60 hundruð, og sýna

---

*Torfverð* IIA, 216—217, 240—241. IIB, 87. IIC, 110. III, 19—20. IV, 325—326. V, 254—256. VI, 426—427. *Naglaverð* IV, 286. *Tjöruverð* VII, 451, 530, 581. *Kaup byggingarmeistara* III, 211—217, VI, 169—174, VII, 254—264, 322—332. X, 170—174. XI, 424—429. *Verkamannakaup* I, 249, 299, III, 21—22, IV, 339—340. V, 258—259, 263—266, 486—491. VI, 166—168, 433—435, 444—446. VII, 248—252, 316—322, 670—673, 682—686, 700—703, 811—814, 821—825, 834—839. VIII, 22—23, 25—29, 31—32. X, 166—169, 431—432, 439—440, 448—450. XI, 368—369, 378—379, 430—432, XII, 90—92, 94—96.

1) Sem dæmi verðhlutfalla má nefna, að 2½ hundrað af þeim 10 hundruðum, sem kirkjan í Reykjavík var virt á 1505, var verð þess trjáviðar, er til kirkjunnar fór *D. I.* VII, 754.

2) *B. S.* I, 855.

hin lofsamlegu ummæli Laurentiusar sögu um kirkjuna á Hrafnagili, sem ekki var nema 38 hundraða kirkja, að hér er ein af stærstu kirkjum landsins. Með því að taka meðaltalið af kirkjuverðunum í töflu 1, ætti maður að fá verðið á íslenzkri kirkju eins og þær gjörðust upp og ofan, og verður það *7499* kr. (eptir B; eptir A 3214 kr.; eptir C 8570 kr.) eða hérumbil 22 hundruð. En svo gætilega stígur kirkjuverðið á þessari töflu, að óhætt er að gera ráð fyrir því að flest kirkjuverð, sem tíðkuðust, komi þar fyrir. Þar eð hin einstöku verð koma misjafnlega opt fyrir í töflunni, væri hugsanlegt, að hlutföllin milli þessara verða, hve opt þau komu fyrir í verulegleikanum, hafi verið önnur og að meðaltalinu að því leyti skeikaði. En bæði eru kirkjurnar í töflunni nógu margar til þess, að þetta gæti komið nokkurn veginn eins fyrir, og eins er það, að kirkjurnar eru valdar með því einu fyrir augum, að alveg ljóst og greinilegt væri um verð þeirra, svo að ekki er ástæða til að ætla annað en að handahófið hafi haldið hlutföllunum réttum. Þær 20 kirkjur, sem taldar eru í töflu 1 einni, eru ekki teknar í hinar töflurnar af því, að ekki þektist verð þeirra nema eins og það var í upphafi, þegar þær voru velstandandi.

Við einstaka liði töflunnar verður að gjöra eptirfarandi athugasemdir.

Virðingin á fyrstu kirkjunni, Bæ á Rauðasandi, er gjörð árið 1500, en 6 árum síðar er búið að rífa hana og byggja nýja kirkju, og er virðing hennar nr. 38 í töflunni. Eins er ástatt með kirkjuna í Hítardal, sem eru 2 virðingar á í töflunni (nr. 11 og nr. 50). Af því $13^1/_2$ hundraði, sem kirkjan á Hólmum í Reyðarfirði er virt á (nr. 16), sýnist $1^1/_2$ hundrað vera fengið með því að selja viðina úr gömlu kirkjunni. Kirkjan á Keldum (nr. 27), sem virt er á 20 hundruð, hefir í raun og veru kostað 20 hundruð og 1 mörk, eða *7070* kr. (B; A 3030 kr.; C 8080 kr.) í nútíðarfé, því til byggingarkostnaðarins var látin ganga ársportion kirkjunnar, 3 merkur, í 17 ár, og verða það 20 hundruð og 1 mörk.

Kirkjan í Reykjaholti er 1537 virt á 40 hundruð[1]) eða *14,000* kr. (B; A 6000 kr.; C 16,000 kr.), en hún hefir ekki verið tekin upp í töfluna af því að ekki var full ljóst, hvort virðingin á við hana eins og hún var þá á sig komin, eða hvort hún á við hana vel standandi, eða hvort hún þá ef til vill hefir verið vel standandi. Sama er að segja um ýmsar kirkjuvirðingar, sem ekki hafa verið notaðar. Nokkrar kirkjuvirðingar hafa og ekki verið notaðar af því, að kirkjurnar þar eru metnar til einnar upphæðar með ýmsum öðrum hlutum, svo að ekki verður séð nema heildarverð allra hlutanna, en ekki verð hvers einstaks. Svo er t. d. um virðingu kirkjunnar í Odda 1488[2]). Er hún fyrst metin eins og hún þá er á sig komin á 70 hundruð, en verð hennar velstandandi eru þessi 70 hundruð að viðbættu álaginu, sem er 15 hundruð, og enn að viðbættri þeirri upphæð, sem varið hafði verið til að gjöra að henni »síðan sira Gísli tók við staðnum«, en ekki er þess getið, hve sú eða þær viðgerðir hafi numið miklu. Verð hennar velstandandi er því 70+15+x hundruð. Hún hefir verið langt um dýrari heldur en dýrasta kirkjan í töflu 1, og þau 85 hundruð af verði hennar, sem þekkjast, nema í nútíðarfé ekki minna en *29,750* kr. (B; A 12,750 kr.; C 34,000 kr.), og hefir hún sjálfsagt verið ein af stærstu og prýðilegustu kirkjum landsins í þá daga.

Það skiptir afarmiklu máli í þessu efni, eptir hvaða reglum virðingarnar hafa farið fram, og er til stórs skilningsauka, þegar á að rannsaka hlutfallið milli peningaverðs, efnisverðs og verkkaups þá og nú að hafa þær. Og nú vill svo vel að reglur þessar þekkjast, bæði eru þær til prentaðar[3]) og eins eru til 3 handrit af þeim[4]). Vegna þess, hve reglur þessar eru áríðandi, eru

---

1) *D. I.* X, 338—339.

2) *D. I.* VI, 630.

3) *Rugmann* bls. 40—41.

4) Landsbókasafn 63. 4to bl. 90 (recto), er hdr. þetta skrif-

þær teknar upp hér eptir Lbs. 63 4to, en orðamunur tekinn eptir hinum tveimur handritunum:

Wirding a triekirkium og torfþocktum husum [vr kvere sira Jons Ormssonar Anno 1678 j Presthlijd[1]).

Suo hefur verid forn venia[2]) ad virda hus.

Þær kirkjur sem storar eru. so[3]) sem klaustrum hæfer. edur þo nockud minne sieu[4]). þegar stopullinn er vj. vij eda viij alua har og[5]) Bitinn [vij eda viij alna[6]) langur. og sie smijdad af nyum vidum og sie þiliad i huolf og golf og[7]) med tueimur[8]) þockum[9]) i[10]) Ræfur[11]) og veggi. allt af trie smijdad. þa skal vera alinn af þeirri kirkiu firir [halfft þridia hundrad[12]).

Enn af torfþocktum husum so sem eru[13]) storstofur[14]) edur skalar og þiliud eru i huolf[15]) og veggi[16]) og golfid. þa[17]) skal vera alinn firir j c.

enn su fiol sem alnar breid er og so þyck ad[18]) vel meigi greipa. skal vera alinn firir alinn. er þa vj

---

að um 1640. MSteph. 62. 4to bl. 191, skrifað um 1660. (Í Árna Magnússonar safni) — Landsbókasafn 66. 4to bls. 222, skrifað 1678 á Helgafelli.

1) [bætir við 66.
2) vane 66.
3) bætir við 66.
4) sie 66.
5) enn 66.
6) [einz 62.
7) bætir við 62, 66.
8) tuennum 62, 66.
9) þokum 66.
10) vmm 66.
11) riafur 66. ræfri 62.
12) [ii alin 62 (rangt); iij c 66 (einnig rangt).
13) bætir við 66.
14) storar stofur 62, 66.
15) hvolfid 66.
16) veggi 62; veggium 66, 63.
17) sleppir 66.
18) bæta við 62, 66.

alna laung fiol firir Eyrir so Breid og þick sem fyr seiger[1]).

Af því að elzta handritið er ekki eldra en frá 1640, væri ef til vill hægt að segja, að efni þess væri einnig frá tímanum eptir siðaskiptin, og að ekki væri hægt að draga ályktanir af þessum gögnum um virðingarreglur á kirkjum fyrir siðaskiptin. Er þar til því að svara, að innbyrðis afstaða handritanna hvers gagnvart öðru og gagnvart útgáfu Rugmanns, sýnir, að engin af þessum fjórum heimildum er frumheimild og þær því ekki nema eptirrit eptir eldri heimildum. Eins er það og, að þó að kirkjurnar við hin fyrri klaustur ef til vill hafi verið kallaðar klausturkirkjur eptir siðaskiptin, voru þær þó ekki nema venjulegar sóknarkirkjur, og er ekki sennilegt, að svo væri til orða tekið eptir siðaskiptin: »kirkjur, sem stórar eru svo sem klaustrum hæfir, eður þó nokkuð minni séu«, því að vitanlega sæmdi klausturkirkjum eptir siðaskiptin sama og hverri annari sóknarkirkju þá, þegar hin sérstaka aðstaða, sem slíkar kirkjur höfðu fyrir þau tímamót, var úr sögunni[2]). Verð kirknanna er ákveðið eptir

1) Hjá Rugmann er kaflinn svona: Wirding a trie Kyrkiom og torfþóktum husum. Sua hefr verid forn venia ad virda hus: Pær trekyrkior sem storar ero sem Klaustrum hæfir, edr þo nockud minni sieo þegar Stópillinn er segs, siau edr atta alna har, og bitin siau edr atta alna langr, og sie smidad af nyum vidum; þiliat i huolf og i golf, og med tueimur þaukum i ræfr og veggi, alt af trie smidat: Þat skal vera alinn af þeirri kyrkio fyri halft þridia hundrad. Enn a torf þócktum husum, sua sem storum stofum, edr skalum, er þiliad er i huolfi og veggiom, og golfi, skal vera alin fyri hundrad. Enn sie fiol alnarbreid og sua þick at vel meigi greipa i, skal vera alin fyri alin; Er þa sex alna laung fiól fyri eyrir: sua breid og þyck sem fyrr seigir.

2) Að ekki geti komið til mála að menn eptir siðaskiptin hafi nefnt til klausturkirkjurnar, er menn vildu tilfæra stórar kirkjur, sýna eptirfarandi lýsingar á tveimum stærstu klausturkirkjum landsins, eins og þær voru skömmu eptir siðaskiptin:

stærð þeirra og efninu í þeim. Í trékirkjum, sem eru á stærð við klausturkirkjur eða nokkuð minni og með 6—8 álna háum stöpli og 7 eða 8 álna löngum bitum (þ. e. 7—8 álna breiðar að innanmáli), með tvöföldum veggjum og þaki, þiljuðum innan og með trégólfi, var hver lengdaralin metin á 2½ hundrað eða 875 kr. (B; A 375 kr.; C 1000 kr.). En í torfkirkjum, sem þiljaðar voru um þak og veggi og voru með trégólfi, var hver

---

a) Add. British Museum 11, 245. 4to bl. 215a, brot úr máldagasafni frá Oddi biskupi, ritað samtíða, um 1590.

Þyckuabær.

Kirkiann a Þyckuabæarklaustri er sogd fallin hafi verid med aullu þa bondin Eirekur Jacobzson kom þar. seygist hann hana vpp ad velli hafa smidad a sinn kostnad. enn sumer seygia Halldor B(ondi) Skulason hafi vidina þar til samann dreigid. Er hun litil oc þillaus med griotveggium oc torfþaki. sau vær þar ij storar kluckur vti. j gamlann glerglugg. yfer alltari annan med aumligtt skin. ein messuklædi nockud hæf. fär bokaskrædur smär og slæmar. huorki var þar fontur nie onnur ornamenta. Predikunar hillukorn litilmotligt. var sagt ad allur skrudinn hefdi þadan hafdur verid til Bessastada. og ein klukka hafdi þar verid borin ä v hestum burt oc annad otal gripa oc gersema. Ecke var þar neinn reikningur stadinn af porcione. Higg ec þar liggi ecki fastagotz til tijundar. — b) Eptir máldagabók Odds biskups í JSig. 143. 4to bls. 374, skrifað um 1600:

Videy.

Videy er nu mesta klausturleyse. Þar er kyrckiukofe dalijtill og suo sem fallinn Anno 1600.

Þar var adur prestur vistfastur. enn nu enginn þvi þeir hafa þar litla biørg. Enn presturinn a Mosfelli embættar þar og j Gufunesi þä hann kiemst til.

— Eptir máldagabók Þjóðskjalasafnsins skrifaðri 1601 bl. 162, og afskript síra Jóns í Hítardal í Lbs. 108 4to bls. 473. — Afskript af báðum klausunum um Viðey frá 18. öld er og í Þjóðskjalasafninu:

Videy

Þar hefur adur verit mætasta klaustur a Jslande. nu eru ecke utan rofen eptir og topternar og dalijtill kirkiukofe so sem fallin. eingin ornamenta nema moldernar oc vj eda vij olmosukellingar. Enn j fyrstu voru skipadir þangad x eda xij þurfamenn. og skylldu Bessastader þar med vera frij so þangad fære alldre neinn fatækur.

lengdaralin metin á 1 hundrað eða *350* kr. (B; A 150 kr.; C 400 kr.). Sýnir hlutfallamyndin (»graphische Darstellung«) á töflu VI verð trékirkna og torfkirkna í hlutfalli við lengdina og hlutföllin milli verðs og lengdar torfkirkna og trékirkna innbyrðis[1]).

Hér skal að síðustu settur sundurliðaður reikningur yfir byggingarkostnað kirkjunnar í Hjarðarholti í Dölum frá 1604, og er hann tekinn eptir virðingu prófasts og 6 manna. Þetta er að vísu 54 árum eptir siðaskiptin og sýnir því vitanlega kostnaðinn við byggingu evangeliskrar kirkju. En þó að svo sé, sýnist það atriði lítil, helzt engin áhrif geta haft á kostnaðinn, því kostnaðarmunar gætir ekki í kirkjuhúsunum, heldur í skrúða og áhöldum, sem eptir siðaskiptin urðu bæði færri og lélegri. Og þó að verð á öllu, sem til byggingarinnar þurfti, kunni að hafa breyzt eitthvað á þessum 54 árum, þá mun tæplega vera sá munur, að ekki megi notast við þetta sem mynd af byggingarkostnaði íslenzkrar kaþólskrar kirkju, meðan ekki er til slíkur reikningur sem þessi frá því fyrir siðaskiptin:

Anno 1604 þann 3 dag huijtasunnu j Hiardarhollte virdtur kirkiunnar vidur og prestsins kostnadur fyrir vidina og kirkiunnar byggingarkostnadur.

J firstu 90 bord keypt j Kumbaravoge fyrir xj vætter og ij fiordunga. Jtem iij syllar þrettan alna huer keyptar fyrir iij saude gamla. Nu voru viij bord dreigen a heste fra Kumbaravoge og heim. suo allz vrdu xj hestar klifiader. þa rejknast fyrir abyrd og kostnad til þessa heimflutnings xx alner eptter huern hest fyrir j c og xtyu alner. Jtem syllar fluttar vr Hrutafirde rejknast sa kostnadur xx alner og voru fluttar a ij hestum. Jtem x stoplar kirkiunnar keypter j steingrimsfirde og hrutafirde. reiknudum vier verd og kostnad fyrir

1) Um verð húsa sjá og *Búalög* (serknesku tölurnar merkja línur) III, 177--179. V, 455—457. VI, 133—135. VII, 256—263 (í báðum dálkum). IX, 67—69. X, 127—129. XI, 408—411.

attatiju alner annarz hundradz. Jtem ij bialckar viij alna langer af sialfrar kirkiunnar vidreka fyrer xx alner. Summa allz fyrir vid og vida kostnad vi. c og xl alner betur. Jtem ij glergluggar fyrir xl alner. Jtem rejknazt veggiasmide a nyium molldum kirkiunnar og allur sa kostnadur fyrir v c. Þar fyrir er huer hlidueggur vj malfadmar. Þar fyrer reiknast allur kostnadur ä huerium iij fodmum j c og gaflveggurinn i c suo er veggia smidit allt v c og er nu allz summan ä þessu xij c og xl alner betur. Jtem smidit a kirkiunne sialfre og ad þekia kirkiuna reiknazt xl alner ens þridia hundradz fyrir motu og kaup smidum og hallzmonnum. Jtem þakid ad rista og hafa heim reiknazt kostnadurinn lx alner fyrer menn og hesta. Jtem ad byggia Jnnan kirkiuna fyrst gaf presturinn smidnum vj fiordunga smiörs ad þylia korinn og predikunarstolinn og ad bua korinn ad ollu med sætum og golfi og v aura matarverd fyrer ij menn Jtem ad þylia framkyrkiuna reiknadist ij smidum a halfum manude xl alner j matarverd og adrar xl alner j kaupid. Summa allz xvi c. . . . . . . . . . .[1]).

27 af 31 kirkju í töflu 2 liggja í Hólabiskupsdæmi, og sýnir taflan glögga, en ekki neitt sérlega fallega, mynd af ástandi íslenzkra miðaldakirkna. Af þessum kirkjum eru

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| 3 | virtar | á 5/6 | verðs | sins | vel | standandi |
| 2 | — | - 4/5 | — | — | — | —— |
| 2 | — | - 3/4 | — | — | — | —— |
| 2 | — | - 7/10 | — | — | — | —— |
| 7 | — | - 2/3 | — | — | — | —— |
| 2 | — | - 5/8 | — | — | — | —— |
| 3 | — | - 3/5 | — | — | — | —— |
| 2 | — | - 1/2 | — | — | — | —— |
| 1 | — | - 2/5 | — | — | — | —— |

1) AM. 262. 4to bls. 35—37. Áður prentað í *Eimreiðinni*, XXIV. árg. bls. 218.

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| 4 virtar á $^1/_3$ verðs síns vel standandi | | | | | | |
| 2 | — | - $^1/_5$ | — | — | — | — |
| 1 | — | - $^1/_8$ | — | — | — | — |

10 af þessum kirkjum — eða tæpur þriðji partur — eru virtar á helming verðs síns vel standandi og þaðan af minna, og kirkjur þær, sem bezt stæðar eru, ná ekki meira en fimm sjöttu pörtum verð síns vel standandi, og mundi slikt ástand húsa nú á dögum vera talið alveg óviðunandi, en á öllu sést, að á þeim tímum hefir þetta ekki þótt nema sjálfsagt og eðlilegt. Einna bezt sést það á því, hve hægt menn létu sér með að bæta úr því, sem á vantaði. T. d. voru þau 6 hundruð, sem 1432 vöntuðu til að kirkjan í Vesturhópshólum væri vel standandi[1]) fyrst til taks 1490[2]). Eða kirkjan á Breiðabólsstað í Vesturhópi, sem 1432 var svo illa á sig komin, að hana vantaði 42 hundruð til þess að vera vel standandi, en þá átti hún að vera 50 hundruð, og var hún fyrst bygð upp aptur meira en 20 árum seinna, því að hina nýbygðu kirkju vígði Ólafur biskup Rögnvaldsson. Og enn kirkjan á Höskuldsstöðum, sem 1432 vantar 15 hundruð af 40 til þess að vera vel stæð, fær þau fyrst í tíð Ólafs biskups 1472, eða réttum 40 árum seinna.

Tafla 3 sýnir auðvitað alveg sömu mynd séða frá viðhaldssjónarmiði. Verð viðhaldsins, sem þær þurfa að fá til þess að vera vel standandi, er fyrir

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1 af kirkjunum | | $^7/_8$ | alls byggingarverðsins | |
| 2 -- | —— | $^4/_5$ | — | ——— |
| 4 -- | —— | $^2/_3$ | — | ——— |
| 1 -- | —— | $^3/_5$ | — | ——— |
| 2 -- | —— | $^1/_2$ | — | ——— |
| 3 -- | —— | $^2/_5$ | — | ——— |
| 2 -- | —— | $^3/_8$ | — | ——— |
| 2 -- | —— | $^3/_{10}$ | — | ——— |
| 7 -- | —— | $^1/_8$ | — | ——— |

1) *D. I.* IV, 513.
2) *D. I.* V, 344.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 2 af kirkjunum | $^1/_4$ | alls byggingarverðsins | |
| 2 -- | —— | $^1/_5$ — | ——— |
| 3 -- | —— | $^1/_6$ — | ———. |

Verð viðgerðanna, sem með þarf, er á 10 af kirkjunum helmingur alls byggingarverðs þeirra og þaðan af meira og á 21 kirkju frá $^1/_6$ alt upp í $^1/_2$ alls byggingarverðsins, og er þetta þeim mun átakanlegra sem menn, eins og búið er að taka fram, létu segja sér það tvisvar áður en menn dyptuðu að kirkjunum. Og samanburður á töflu 2 og 3 gjörir myndina enn ægilegri. Viðgerð 1 kirkjunnar er metin jafnmikið og kirkjan sjálf; 2 kirknanna eru 6 sinnum dýrari en kirkjan sjálf; 1 kirkjunnar 5 sinnum dýrari; 1 kirkjunnar 3 sinnum dýrari; 1 kirkjunnar $2^1/_2$ sinni dýrari; 1 kirkju 2 sinnum dýrari; 2 kirkna $1^1/_2$ sinni dýrari. Hér þarf ekki frekari orða við, tölurnar tala sínu máli og lýsa viðhaldsleysinu, skeytingarleysinu og hrörnuninni á kirkjunum nægilega greinilega, og ef til vill fátækt og getuleysi fólksins líka.

En manni gæti nú orðið að spyrja, hvort í þá daga hefði verið til nokkur velsæmistilfinning hjá fólkinu á þessu sviði? Þessu verður þrátt fyrir alt að svara játandi. Að andinn hafi verið reiðubúinn sýna orðatiltæki þeirrar tíðar um kirkjur, að þær séu »uppgjörðar sem þeim sómir straffanarlaust« »eptir því sem vani er til ærlegra kirkna«, og fjölmargir dómar um vanhirzlu kirkna, t. d. dómur um Arnarbæli 1501[1]), dómur um Dvergastein 1526[2]) og dómur um kirkjuna á Knerri 1524[3]). En tölurnar hér á undan sýna hinsvegar, að holdið í þessu efni hefir verið veikara en góðu hófi gegnir. Að samtíðarmenn hafi fundið, að hér væri eitthvað athugavert, — að veikleika holdsins, ef svo mætti að orði komast, væri betur treystandi en því, að andinn væri reiðubúinn — skín út úr lítilli, hógværri

1) *D. I.* VII, 567—569.
2) *D. I.* IX, 370—371.
3) *D. I.* IX, 226—227.

setningu í sögu Laurentiusar biskups. Það er verið að segja frá því, að síra Jón Koðránsson hafi látið uppbyggja kirkjuna á Hrafnagili með dýrum kost, og því bætt við um kirkjuna, að hún mætti lengi »auðsýnast, ef henni væri haldið«[1]). Þó að þetta sé góðmannlega orðað, er það þó beizk ákæra.

---

Um *aldur íslenzkra kirkna* á miðöldum, eða hversu þær gátu enzt lengi, vita menn mjög lítið. En hitt er auðvitað, að það hefir verið undir efni kirkjunnar komið og veðursæld héraðsins, þar sem hún stóð. Ekki er heldur hægt með neinum rökum að skera úr því, hvorar muni hafa enzt lengur, torfkirkjur eða trékirkjur, undir sömu kringumstæðum og með svipaðri meðferð, og veldur því það, hve kirkjumáldagarnir láta sig ásigkomulag kirkjuhúsanna litlu skipta. Væntanlega má ganga að því, að þá hafi, eins og enn er, veðurlagið norðanlands verið endingu timbur- og torfhúsa hollara en á Suðurlandi, þar sem rigningar valda roti og hrörnan, en ekki styðst þó þessi skoðun við annað en ástandið í þessu efni eins og það er nú.

Ein af þeim fáu frásögum um aldur kirkju, sem til er, er í Kristnisögu. Þar segir um kirkju þá, sem Þorvarður Spakböðvarsson bygði í Ási í Hjaltadal 984[2]), að »hún stóð þá er Bótólfr biskup var at Hólum, svá at ekki var at gert utan at torfum«[3]). Bótólfur var biskup á Hólum 1238—1246. Þegar hann settist að stóli, hefir kirkjan þá verið 254 ára[4]). Sýnir staðurinn, að kirkjan var úr torfi, og er þetta feiknahár aldur á húsi úr því efni. Því miður hafa ekki verið gjörðar

---

1) *B. S.* I, 855.

2) *I. A.* 16, 48, 104, 178, 249, 315, 463. *B. S.* I, 7 sbr. 43—44.

3) *B. S.* l. c.

4) Þegar Kaalund ferðaðist um Ísland 1872—1874 sást, að því er hann segir, enn tóptin af þessari kirkju, sbr. *Kaalund* II, 83. Þessi tópt sást þó alls ekki lengur 1918, en aðrar tóptir, sem Kaalund ef til vill hefir vilzt á, þegar hann var þar.

neinar athuganir viðvíkjandi því, hversu torfhús geti enzt lengi, sé rétt með þau farið, en að því er frekast er kunnugt, munu torfhús á Norðurlandi sjaldan verða mikið eldri en 100 ára, en á Suðurlandi miklu minna[1]). Um aldur trékirkna vita menn t. d., að dómkirkja sú í Skálholti, sem bygð var eptir 1318[2]), þegar sú kirkja fauk, sem bygð hafði verið 1311[3]), stóð þar til hún á dögum Sveins „biskups spaka 1471 var orðin svo til reika, að hún mátti ekki standa, nema því að eins, að gjört væri vel við hana[4]). Þetta verða um 150 ár[5]), en kirkjan stóð lengi eptir það, af því að gjört var við hana. Um kirkju þá, er Jón Hólabiskup helgi bygði á Hólum um 1107, fór á nokkuð annan veg, því að hún hefir árið 1294 verið svo aumlega á sig komin, að Jörundur biskup hefir ekki séð sér fært að gjöra við hana og lét því rífa hana. Hún hefir þá ekki staðið nema eitthvað um 187 ár. Kirkja sú, er Pétur biskup bygði á Hólum 1395, fauk, eins og áður hefir verið sagt frá, á dögum Guðbrands biskups 1624, en hafði þá verið komin alveg að falli vegna skemda, svo að varla hefði lengi þótt tiltækilegt að láta hana standa, jafnvel þó að slysið hefði ekki hent hana. Kirkjan í Hítardal fauk 1369[6]), og 1470 er sú kirkja, er bygð var í hennar stað, svo á sig komin, að það varð að rífa hana[7]). Henni entist eptir því ekki aldur nema um 100

1) Elzta kirkja og yfir höfuð elzta hús á landinu er kirkjan á Gunnsteinsstöðum í Langadal (um hana sjá síðar í þessum kafla). Um aldur torfhúsa alment vísast til *Kaalund* I, 48, en torfkirkna sérstaklega til *Einföld undirvísun* bls. 27. Ummæli Bruuns *(Bruuns Kulturliv* bls. 83) um aldur torfhúsa ná engri átt.

2) *I. A.* 151, 204, 345, 394.

3) *I. A.* 53, 203, 342.

4) *D. I.* V, 604—605.

5) Af Lögmannsannál árið 1401 *(I. A.* 286) virðist svo sem gjört hafi verið við hana það ár og hafi það verið stórviðgjörð.

6) *I. A.* 228.

7) *D. I.* V, 599. Annars er til ágætt dæmi þess, hve fljótar kirkjur í þá daga gátu verið að hrörna, þar sem Skálholtsdómkirkja er. Hún brann 1526 *(B. S.* II, 321). Kirkja sú, er þá var

ár. Er hér með upptalið það, sem kunnugt er um aldur kirknanna, sem á lausu liggur, en ekki er líklegt, þó að leitað væri um afkima, að mikið meira myndi finnast[1]).

Töluvert er það betur kunnugt, hvernig kirkjur liðu undir lok í þá daga. Flestar féllu vitanlega eða voru teknar ofan fyrir elli sakir. Sumar urðu fyrir skriðum[2]). Sumar tók af í jökulhlaupum[3]). Dæmi þessa eru þó fá. Miklu var það algengara, að kirkjurnar fykju eða brynnu upp fyrir eldi. Hér fer á eptir skrá um kirkjur þær, sem kunnugt er að fokið hafi fyrir siðaskiptin:

Þingvellir 1118[4]).

Svínafell 1185[5]).

Holt undir Eyjafjöllum 1303[6]).

Klausturkirkjan í Þykkvabæ (að eins stöpullinn) 1313[7]).

---

reist, virðist hafa verið 10 ár í smíðum, en þó aldrei orðið fullgjör (*Safn* I, 66). Þegar Marteinn biskup Einarsson tekur við kirkjunni 1548, álíta 12 prestar, að kirkjan sé »mjög hrörnuð af vatnsgangi og fúa« og tala um »hrörnan og niðurfall« hennar, og bæta því við, að þessar skemdir hafi orðið um þau 8 ár, sem hún var undir umsjá Gizurar biskups Einarssonar (*D. I.* XI, 646—647). Og þegar þetta gjörðist, hefir kirkjan alls ekki getað verið eldri en 22 ára.

1) Í þessu sambandi má geta þess, að það er vafalaust of lítið hjá Birni prófessor Ólsen, þegar hann (í *Á. Í. F. F.* 1884—85, bls. 36) áætlar aldur trékirkna hæstan 50 ár. 100 ár væri ekki of mikið. Hann hefir vafalaust ekki gætt þess, að þær voru optast bræddar (bikaðar). Það þarf ekki að fara lengra en það, að fyrir örfáum árum stóðu mörg hús úr tré í Reykjavík, sem voru eldri en 100 ára (Innréttingarnar, Clausenshús o. fl.) og sum standa enn (Knutzonspakkhús, Doktorshús), og er þó húsum einna hættast hér um Suðurnes, en þessi hús voru öll bikuð.

2) Langahlíð 1390. *I. A.* 284, 366, 416.

3) Rauðilækur og Hof 1362. *I. A.* 226, 360.

4) *Landnáma* bls. 329. *B. S.* I, 71. Konungsannáll getur um storminn, en ekki um þennan viðburð.

5) *I. A.* 119, 476.

6) *I. A.* 200, 389, 486.

7) *I. A.* 488.

Dómkirkjan í Skálholti 1318[1]).

Breiðabólsstaður í Fljótshlíð 1326[2]). (Hana tók upp af grunninum, en braut ekki)[3]).

Holt undir Eyjafjöllum 1326[4]).

Gásir 1359[5]).

Hitardalur 1369[6]).

Dómkirkjan á Hólum 1394[7]).

Einnig skulu taldar kirkjur þær, er brunnið hafa fyrir siðaskiptin, svo að kunnugt sé:

Helgafell um 1024[8]).

Oxa kirkja Hjaltasonar á Hólum í Hjaltadal um 1050[9]).

Laufás 1167[10]).

Helgafell 1181[11]).

Laufás 1258[12]).

Dómkirkjan í Skálholti 1309[13]).

Staður á Reykjanesi 1315[14]).

Klausturkirkjan á Möðruvöllum 1317[15]).

Borg á Mýrum 1322[16]).

Haukadalur 1355[17]).

---

1) *I. A.* 151, 204, 345, 394.

2) *I. A.* 205, 346.

3) *I. A.* 396.

4) *I. A.* 205. Þó manni gæti flogið í hug, að hér væri blandað málum, og að þetta hefði gjörst í storminum 1303, er það litt hugsanlegt, af því að beggja viðburða er getið í sama annál (Skálholtsannál).

5) *I. A.* 225 sbr. *A. Í. F. F.* 1908 bls. 7.

6) *I. A.* 228.

7) Sjá fyrsta kafla ritgjörðarinnar.

8) *Eyrbyggjas.* bls. 125.

9) Sjá fyrsta kafla ritgjörðarinnar.

10) *I. A.* 117. *B. S.* I, 417.

11) *I. A.* 118, 180.

12) *I. A.* 133. *B. S.* I, 566.

13) *I. A.* 53, 74, 149, 202, 264, 341, 391.

14) *I. A.* 151, 204, 344, 393.

15) *I. A.* 266, 343, 393, sbr. *B. S.* I, 844, 901.

16) *I. A.* 152.

17) *I. A.* 214.

Valþjófsstaður 1361[1]).
Hrísey fyrir 1425[2]).
Húsavík fyrir 1425[2]).
Víðidalstunga fyrir 1428[3]).
Klausturkirkjan á Munkaþverá 1429[4]).
Upsir fyrir 1431[5]).
Kaupangur fyrir 1461[6])
Klausturkirkjan í Viðey fyrir 1497[7]).
Dómkirkjan í Skálholti 1526[8]).
Holt undir Eyjafjöllum fyrir 1530[9]).

Það er vitanlega sjálfsagt, að hér með er ekki upp talið, þó að ekki sé kunnugt um fleiri bruna, enda var ekki svo lítill umgangur með eld um kirkjurnar, að ekki hlyti að stafa af því stórhætta, enda er það beinlínis tekið fram um suma af kirkjubrununum þeim, sem hér getur, að þeir hafi komið upp af reykelsiseldi. Um kirkjur þær, sem annálar telja að brunnið hafi, sýnist svo sem þess sé eingöngu getið vegna þess, hvílíkar höfuðkirkjur þær eru, en um kirkjur þær, sem Diplomatarium Islandicum getur um bruna á, er það tilviljun ein, að þess er getið. Um kirkjubrunana er þess getandi, að tvisvar hefir verið kveikt í kirkjum af brennuvörgum, svo að vitanlegt sé (Hrísey og Húsavík), og þrisvar af gáleysi eða glannaskap (Möðruvellir, Skálholtsbruninn síðari og Holt undir Eyjafjöllum).

---

1) *I. A.* 226.
2) *D. I.* IV, 328.
3) *D. I.* IV, 352.
4) *I. A.* 295.
5) *D. I.* IV, 465.
6) *D. I.* V, 302.
7) *D. I.* VII, 340.
8) *B. S.* II, 321 sbr. 266, en þar er ártalið haft 1532, en það er rangt.
9) *D. I.* IX, 518—520.

Um *stærð kirkna* er lítið vitað, en þeim mun betur er kunnugt *efnið* í þeim.

Að því er til stærðarinnar kemur, er á litlu öðru að byggja en kirkjuvirðingunum hér að framan, bornum saman við reglurnar, sem farið var eptir við virðingar, og eru hér fyrir framan skráðar, — og fáeinir útgreptir flausturslega gjörðir. Engu að síður er úr þessum slitrum hægt að búa sér til nokkuð glögga hugmynd af stærð kirkna upp og ofan. Þar eð stærð kirknanna að nokkru leyti fer eptir efninu í þeim, skal fyrst að því vikið.

Möguleikarnir eru ekki nema þrír: kirkjur úr steini, tré eða torfi.

Það er ákaflega vafasamt, hvort nokkurn tíma hafi verið til steinkirkja á Íslandi fyrir siðaskiptin. Hið eina, sem í þá átt bendir, er niðurlagið á Kristnisögu. Þar segir frá manni nokkrum, Illuga Ingimundarsyni, »er druknaði þá er hann flutti lím til steinkirkju þeirrar, er hann ætlaði at gera á Breiðabólstað í Vesturhópi«[1]). Um Illuga þennan er haldið, að hann sé sonarsonur Illuga prests Bjarnasonar, þess er gaf Hóla til biskupsseturs, sem getið hefir verið um áður[2]). Ekki er samt líklegt, að úr byggingu þessarar kirkju hafi orðið, úr því að Illugi dó, og það virðist að minsta kosti áreiðanlega víst, að ekki sé það steinkirkja, sem í vísitatíu Jóns biskups IV. á Breiðabólsstað 1432 er virt á 8 hundruð, en vantar 42 hundruð[3]) upp á að vera vel standandi. Bæði er það ósennilegt, að kirkja úr steini hefði spilzt svo, að hún næði ekki fimta parti upprunalegs verðs, og eins er það beinlínis tekið fram í máldaga Ólafs biskups Rögnvaldssonar frá 1461, að kirkjan sé þá nývígð[4]). Væri það einkar ósennilegt, að kirkjan hefði orðið svo gjörspilt, að ekki hefði verið hægt að nýta

---

1) *B. S.* I, 32.
2) *Obituaria* bls. III sbr. *Æ. J. P.* I, 200.
3) *D. I.* IV, 518.
4) *D. I.* V, 341.

veggina, ef hún hefði verið úr steini, en hefðu þeir verið notaðir, var óþarfi að vígja kirkjuna, »því at í veggjum vígist kirkja«[1]). Hafi steinkirkjan því nokkurn tíma verið bygð, hefir hún ekki getað staðið í meira en tæp 180 ár, því að Illugi druknaði 1150[2]). Og ekki er hægt að gjöra ráð fyrir því, að kirkja geti farið jafnilla og þessi á skemmri tíma en hundrað árum, jafnvel þótt úr torfi væri, en steinkirkju verður að ætla miklu lengri tíma til þess. Hins vegar styður það nokkuð þá skoðun, að steinkirkjan kunni að hafa verið bygð, að um 1879 fanst, þegar verið var að taka gröf í suðausturhorni kirkjugarðsins á Breiðabólsstað steinhleðsla, sem að áliti þeirra, er sáu, ekki gat verið garðbrot, en ekki voru steinarnir bundnir saman með neinu steinlími[3]). En vitanlega er þetta svo lítilvægt, að ekki verður neitt upp úr því lagt; það gæti til dæmis eins vel verið, að þetta væri grunnur undan trékirkju eða eitthvað annað þvílíkt, og jafnvel væri hugsanlegt, að þetta væru leifar hlaðinnar grafarþróar, sem víða er getið um, og hefir ein slík gröf, svo nefnd gröf Guðrúnar Ósvífrsdóttur, verið opnuð á Helgafelli[4]). Það verður því ekki annað sagt en að líkindin til þess, að þessi kirkja hafi komizt upp, séu sama sem engin. Eins og þegar er búið að geta um, byrjaði Auðun biskup Þorbergsson steinkirkjubyggingu á Hólum, en hún varð aldrei fullgjör, en leifar hennar sáust langt fram yfir siðaskiptin. Ekki eru til neinar aðrar vísbendingar um steinkirkjur fyrir siðaskiptin, því að örnefni eins og t. d. örnefnið Steinkirkja í Fnjóskadal á varla við annað en einkennilega klettmyndun eða eitthvað því-

1) *NGL.* V. bls. 24.

2) *I. A.* 114.

3) Eptir sögn Kristjáns Jónssonar, fyrrum bónda í Víðidalstungu, sonar síra Jóns Kristjánssonar, er var á Breiðabólsstað; var hann, er þetta gjörðist, ungur maður hjá föður sínum og var sjálfur við að taka gröfina þar sem hleðslan fanst.

4) Hana opnuðu þeir W. Collingwood og Dr. Jón Stephánsson. Á. *Í. F. F.* 1898 bls. 39—40 sbr. *A pilgrimage.*

líkt, en er ekki endurminning þess, að þarna hafi í fyrndinni verið steinkirkja[1]).

Trékirkjur eru mjög sjaldan beinlínis nefndar; til dæmis er það hvergi sagt beinum orðum um dómkirkjurnar, að þær hafi verið úr tré, heldur verður að ráða það af ýmsu öðru, sem um þær er sagt og ekki getur átt við annað en kirkju úr timbri. Eiginlega er það ekki tekið beint fram um nema 3 kirkjur, að þær hafi verið úr timbri:

Kirkja Oxa Hjaltasonar á Hólum í Hjaltadal[2]).
Kirkja í Heydölum[3]).
Kirkja við Kolbeinsárós (Kolkuós)[4]).

Útgreptir, sem gjörðir hafa verið á tveimur fornum kirkjustöðum:

Esjubergi[5]),
Gásum[6]),

sýna, að þær kirkjur hafi verið úr tré.

Það hefir þótt of umsvifamikið hér af öðrum rökum að reyna að búa til skrá yfir trékirkjur þær, sem hægt væri að hafa upp á, en eigi að rannsaka, hverjar kirkjur af þeim, sem heimildir eru til um, voru úr tré, má af eptirfarandi rökum ráða, hverjar hafi verið úr

---

1) Til gamans má hér geta þess, að Sixtus páfi IV. skipar þeim, er drápu Jón biskup V. Gerreksson, að reisa steinkapellu áfasta við Skálholtsdómkirkju og láta þar æfinlega lesa messu fyrir sálu hans svo sem í skripta skyni (*D. I.* V, 737). Sýnir þessi fyrirskipun meðal annars, hve páfastóllinn var nauðaókunnugur öllum háttum hér, og var hann þó stöðugt að skipta sér af landi voru, því til lítils gagns, meðal annars með því per provisionem að skipa hingað á biskupsstólana, opt að vísu góða menn, en optar þó ónytjunga og jafnvel varmenni, eins og t. d. Jón Gerreksson og Marcellus Skálholtsbiskup.

2) Um þetta sjá fyrsta kafla ritgjörðarinnar.

3) *D. I.* VII, 31.

4) *B. S.* I, 326 sbr. II, 317, en á síðari staðnum er farið rangt með að sú kirkja, er um ræðir, hafi verið á Hólum í Hjaltadal.

5) *Á. Í. F. F.* 1902 bls. 33—35.

6) *Ibid.* 1908 bls. 3—8.

timbri. Að vísu eru fæst af þessum atriðum út af fyrir sig óyggjandi, en finnist fleiri en eitt af kennimerkjunum á sömu kirkju, fer að verða óhætt að treysta því, að kirkjan hafi verið úr timbri. Helztu kennimerkin eru þessi:

1.) Fari sögur af því, að kirkja hafi fokið, eru allar líkur á, að hún hafi verið úr tré. Torfhýsi er samkvæmt eðli sínu svo lágt, að það tekur lítið á sig í veðrum; eins eru veggirnir svo samgrónir jörðinni, að litlar líkur eru á, að stormur geti annað við slíkt hús gjört en í mesta lagi að fletta af því þakinu.

2.) Kirkja, sem er með stöpli, sérbygðum kór[1]), skrúðhúsi eða stúkum[2]), er tæpast hugsanlegt, að sé úr torfi. Bæði er það ósennilegt af því, að ef svo væri, mundu þessar útbyggingar, sem að sjálfsögðu hlytu að vera úr tré, verða jafndýrar eða jafnvel dýrari heldur en sjálfur kirkjulaupurinn, og fengi það varla staðizt. Hitt er og, eins og síðar verður drepið á, að ýmsir þeir erfiðleikar eru á, að torfkirkjur séu með þessum ummerkjum, að tæplega þarf að gjöra ráð fyrir því. Eins er vitanlega, ef nefnd eru einhver þau sérkenni, sem blátt áfram alls ekki geta komið fyrir nema á timburhúsum, að þá þarf ekki að efa, að sú kirkja sé af timbri gjörð.

3.) Séu gluggar kirkjunnar taldir fleiri en 4—5, bendir það eindregið til þess, að hún sé úr timbri. Eins og síðar verður vikið að, voru gluggar á torfkirkjum optast nær á göflunum og þá tveir á hvorum, þó að tekniskt séð væri ekkert því til fyrirstöðu, að þeir væru á þekju eða hliðum. Hugsanlegt er, að þrír gluggar hafi stundum verið á austurgaflinum, einn í miðið yfir altarinu.

4.) Kirkjur, sem eru mjög hátt metnar, geta tæplega verið úr torfi. Þegar þess er gætt, að í torfhúsum

---

1) Að kór einn ekkert sannar, sést á *D. I.* III, 422.

2) Þar sem nefnd eru útöltöru, mætti hafa það með öðru til stuðnings því, að þar væri trékirkja.

kemur, eins og sagt hefir verið frá, alin fyrir hundrað, hlytu kirkjur, sem mjög hátt eru virtar, ef þær væru úr torfi, að verða óhæfilega langar, lengri jafnvel heldur en torfhús geta verið svo vel fari.

5.) Séu klukkur þær, er kirkja á, mjög margar, gæti það einnig bent til þess, að þar væri kirkja úr tré. Erfitt mundi verða að hengja upp margar klukkur í eða utan á torfkirkju, því að vel þyrfti til slikrar kirkju að vera viðað, ef ekki ættu klukkurnar að steypa undan sér með þunga sínum. Eins geta ýmsar byggingarleifar, sem geymdar eru í söfnum, útskornar súlur o. s. frv., gefið ýmsar bendingar um efnið í kirkju þeirri, sem gripirnir eru úr.

6.) Loks er mikil ástæða til að ætla, að þar sem talað er um að fluttur hafi verið út kirkjuviður, muni kirkjur þær, sem hann fór í, hafa verið bygðar úr timbri. Að vísu væri hæglega hugsanlegt, að viðurinn væri eingöngu ætlaður í ræfur og þil og gafla, enda er þetta varla einhlítt, nema einhver önnur rök komi til.

Flestar voru kirkjurnar bygðar úr torfi, eins og enn hefir tíðkazt alveg fram á þennan dag. Þetta byggingarlag er þó ekki sérkennilegt fyrir Ísland, því að á fyrstu tímum kristninnar á Írlandi voru bygð bæði torfhús og torfkirkjur[1]). Aptur á móti er ókunnugt, að torfbyggingar hafi verið notaðar í Norvegi, og má meðal annars af því ráða, að Íslendingar hafi numið torfbyggingar af Keltum eins og margt annað gott[2]).

Ekki er til mikið af greinilegum upplýsingum um stærð kirkna hér á landi í fyrri daga. Stærð og mál dómkirkjunnar á Hólum er fullkunnugt, og lengd dómkirkjunnar í Skálholti líka, en annars er ekki eptir öðru að fara en einni litilli kirkju, sem stendur enn í

---

1) *Arts* I, 36. Sbr. *Stokes* bls. 2, 130.

2) Valtýr Guðmundsson segir frá því (í *Privatb.* bls. 94—95), að torfhús þekkist úr Svíþjóð. Ekki er samt líklegt, að hér á landi hafi getað orðið vart neinna áhrifa þaðan, svo lítil mök sem Íslendingar hafa og höfðu við Svía.

dag, nokkrum flausturslega gjörðum útgröptum og einstöku meira og minna vafasömum frásögnum.

Árið 1901 rannsakaði Brynjólfur heitinn Jónsson fyrir Hið íslenzka fornleifafélag rúst eina á Esjubergi, sem kölluð var »kirkjurústin«, og gróf í hana að nokkru leyti. Árangurinn af þeirri rannsókn sést í árbók félagsins[1]). Tóptin var hér um bil 4 faðma á lengd og 3 á breidd, eða sem svarar 8×6 álnir. Dyrnar voru á suðurhlið tóptarinnar, og öll var hún svo mjóslegin, að ekki getur komið til mála, að ætla annað en að hér sé grunnur undan trékirkju. Það er að vísu svo, að manni í fljótu bragði virðist hún vera óhóflega breið, borið saman við lengdina, en það þarf þó ekki að furða, því að alveg sama er að segja um kirkjuna á Gunnsteinsstöðum, sem er frá því fyrir siðaskiptin. Og þó að ekki sé getið um kirkjuna á Esjubergi nema á tveimur stöðum[2]), verður þó að ætla mannaminnum að geta hafa geymt réttan staðinn, þar sem kirkjan stóð.

Það hefir þegar áður verið minst á útgröpt þann, sem þeir prófessor Finnur Jónsson og Daniel höfuðsmaður Bruun gjörðu á Gásum. Grófu þeir einnig í kirkjutópt þar, sem var greinilega sýnileg ofanjarðar, og er gröpturinn framinn á þann hátt, að hann gat ekkert leitt í ljós annað en það, sem kirkjutóptin ógrafin sýndi[3]). Prófessor Finnur segir svo frá, að tóptin

---

1) Á. Í. F. F. 1902 bls. 33—35. Á rannsóknum Brynjólfs er vitanlega sáralítið byggjandi, og stafar það aðallega af því, að hann kunni ekki rannsóknaraðferðir og var alókunnugur erlendum bókmentum. Þegar miðað er við þetta, hefir honum þó áorkast furðanlega mikið.

2) *Landnáma* bls. 42 sbr. 44 og *Kjalnesingas.* bls. 398—99.

3) Á. Í. F. F. 1908 bls. 3—8 sbr. og myndirnar. Rannsókn þessi hefir verið svo af hendi leyst, að sama er sem ógjörð væri, og finst manni þar fátt um afsakanir. Hæglega getur það komið fyrir, að rannsókn gefi engan árangur, því að vitanlega ræður því tilviljun ein, hvað jörðin geymir í skauti sér, og væri ekkert þar til að segja, ef sæist, að allra bragða hefði verið neytt. En hér er ekki því að heilsa. Samkvæmt kortinu (töflu II), sem Árbókinni fylgir, eru á Gásum 74 tóptir og hafa þær verið kannað-

sé 40 feta löng (20 álnir) og hér um bil 17 fet (8½ alin) á breidd að innanmáli, en kórinn (byggingin austur úr kirkjunni) 12 feta (6 álna) langur og svo breiður. Ekki ber þó þessum málum saman við þau, sem finnast, ef mælt er á flatarmyndinni af kirkjunni og kirkjugarðinum[1]). Þar reynist, að kirkjan sé að utanmáli tæpar 20 álnir á lengd[2]) og 8 álnir á breidd[3]), en kórinn reyndist, að utan mælt, 6 álnir á lengd[4]), en á breidd 6½ alin[5]). Manni er vitanlega skapi næst að trúa flatarmyndinni, þó að vel mætti efa hana vegna þessa ósamræmis[6]). Hér er þá kirkja, sem að meðtöld-

---

ar með 16 tilraunagröptum, eptir mælingum á kortinu hver um ½ alin á hvern veg, og útgrepti algjörðum 2 tópta (kirkjutóptin og búðartópt). Það verður því með engu móti sagt, að þeir, er rannsökuðu, hafi gáð af sér allan efa, heldur þvert á móti. Pálmi yfirkennari Pálsson hefir og að sögn hans verið búinn að grafa upp kirkjutóptina löngu áður en Finnur og Bruun komu til skjalanna.

1) Sjá Á. *Í. F. F.* 1908, mynd VI og töflu XIII, er ritgjörð þessari fylgir.

2) Þ. e. um 40 fet; innanmálið er 18½ alin eða 37 fet.

3) Þ. e. 16 fet; innanmálið er 7 álnir eða 14 fet. Hér skeikar því annaðhvort frásögninni eða myndinni um 1½ alin (3 fet). Flatarmynd Gásakirkju sést á töflu XIIIb hér fyrir aptan.

4) Þ. e. 12 fet; innanmál 5½ alin eða 11 fet.

5) Þ. e. 13 fet; innanmálið 5½ alin eða 11 fet. Hér skeikar aptur annaðhvort myndinni eða frásögunni.

6) Ástæðan til að þetta er sagt hér er meðfram það, að hægt er að sjá það á mörgum af mælingum þeim, sem höfuðsmaður D. Bruun hefir gert á fornfræðarannsóknarferðum sínum um landið, að þær eru ekki gjörðar með mælingaverkfærum, heldur mældar með því að skrefa það, sem mælt hefir verið, eða einhverri annari handahófsmælingu. Að aðferð þessi sé óhafandi sakir óáreiðanlegleika, þarf varla að taka fram. Víða um rit Bruuns rekst maður á mál, sem eru »cirka« og »omtrent« eða svo ákveðin sem »3 á 4 Fod«, og getur það ekki komið fyrir, ef nákvæm mæling með þar til gjörðum verkfærum hefir farið fram. Sumstaðar er og mælikvarði bæði í fetum og skrefum og mundi það helzt benda á, að málin væri skrefuð. Hér mun því komin orsökin til ósamræmisins milli mynda Bruuns og orða.

um kóri er 26×8 álnir. Bruun höfuðsmaður hefir einnig við rannsóknir sinar í Vesturdalnum í Skagafirði fundið kirkjurúst á eyðibýlinu Klaustri (Hraunþúfuklaustri)[1]). Eptir málum, gjörðum á myndum Bruuns, er hún um 21×11 álnir, og grunnur sá undir stöpul eða forkirkju, sem er á henni vestanverðri, er um 5×7 álnir. Um 6 álnum frá austurgafli tóptarinnar er henni skipt yfir um þvert með garði, og er það bersýnilega kórinn, sem þar er afmarkaður[2]). Kirkja sú, er Landnáma segir, að Halldór Illugason hafi látið byggja á Hólmi á Akranesi, er þar talin 30 álnir (íslenzkar) að lengd[3]).

Þegar Cederschiöld í ritgjörð sinni um »Isländska kyrkomåldagar från fristatstiden«[4]) litur svo á[5]), sem það mál á klaustrinu í Flatey, sem Kaalund tilfærir[6]), sé mál á kirkju, þá er það í beinni mótsögn við orð Kaalunds, sem skýrt tekur það fram, að mál þetta eigi við klausturrústina. Að munnmælin, og Kaalund í fótspor þeirra, hafi farið villur vegar, en Cederschiöld í ógáti hafi hitt hið rétta, sýnist þó alveg efalaust. Mjög erfitt er að hugsa sér það klaustur, er sé svo umsvifafátt, að það geti komist af með jafnlitla byggingu og þetta er. Kaalund segir, að tóptin liggi í girðingu, sem hann nefnir »Klostergaard«, og verður manni þá fyrst fyrir að láta sér detta í hug kirkjugarð og kirkju, og styrkir það steinn sá, er liggur að sögn Kaalunds við hliðið inn í »Klostergaarden« og Kaalund nefnir »Vievandskar« (vatnssteinn), en sem við rannsókn í sumar reyndist vera kola, og er það óefað kolan úr

---

1) Um þetta eyðibýli og klaustur sjá *Kaalund* II, 69—70.

2) *Bruun: Affolkede Bygder* bls. 25 og töflu XII og XXIII, er sömu bók fylgja. Ekki er tekin ábyrgð á málunum, því rústin er sjálfsagt skrefuð, en ekki mæld, sem sést á því að uppdráttunum fylgja tveir mælikvarðar, annar er »Skridt«, hinn »Fod«.

3) *Landnáma* bls. 51 neðanmáls.

4) *A. O.* 1877 bls. 1—72.

5) *Ibid.* bls. 50.

6) *Kaalund* I, 540.

kirkjunni, sem rústin er af[1]). Kaalund hefir litið svo á sem steinflötur sá á Kirkjubæ á Síðu, sem nefndur er »kirkjugólfið«, sé verk mannlegra handa og í raun og veru gólfið úr klausturkirkjunni fornu[2]), og hefir Cederschiöld síðan tekið það eftir honum[3]). Er málið á þessari kirkju tilfært eftir »gólfinu« og talið 16×14 álnir. En þó því sé enginn gaumur gefinn, að þessi kirkja hefði því sem næst verið jafnstrendur ferhyrningur, svo ósennilegt sem það er, er þó hitt alveg nóg, að fyrir löngu og margsinnis er búið að sanna að »kirkjugólfið« er ekki mannaverk heldur náttúrufyrirbrigði, og er þar með sú kirkja úr sögunni[4]). Wallem nefnir málið á nokkrum nútíðar torfkirkjum[5]) og tekur það upp úr greinarstúf eptir D. Bruun höfuðsmann »De sidste Græstörvkirker i Island«[6]), og slær því um leið föstu, að torfkirkjur fyr og nú hafi að mestu verið eins. Þetta stendur þó hvergi í grein Bruuns, heldur segir hann, að ritgjörð Cederschiölds um íslenzka kirkjumáldaga beri það með sér, að stærð kirkna fyr og nú muni hin sama. Ekki hefir þessum höfundum samt tekist að hafa þetta rétt hvor eptir öðrum, því að hvergi mælir Cederschiöld neitt í þá átt, en minnist að eins svo á stærð kirkna, að hann segir: »at de allra flesta kyrkor hava säkerligen varit mycket små«[7]); og ekki nefnir hann, eins og þegar hefir verið tekið fram, mál nema á tveimur miðaldakirkjum (Flatey og Kirkjubæ), og er annað rangt, en hitt misskilningur eða vafasamt. Ummæli Wallems svífa því nánast í lausu lopti. Þó verður að játa það, að kirkjur á miðöldunum hér á landi hafi verið mjög litlar, og sé þess gætt, hve kirkjur þá voru óhóflega margar borið saman við tölu landsmanna, á maður nánast von á því, að kirkjur í þá daga hafi upp og

1) Eitthvað hefir Cederschiöld samt þókt bogið við ummæli sín hér að lútandi, því hann setur upphrópun á eptir þeim og það var óþarfi, því þau eru rétt þótt hann tilfæri rangt orð Kaalunds. 2) *Kaalund* II, 316 neðanmáls. 3) *A. O.* 1887 bls. 50. 4) *A. Í F. F.* 1888—1892 bls. 68 og 1894 bls. 19-20. 5) *Wallem* bls. 23. 6) *Architekten* V, bls. 453—463. 7) *A. O.* 1887 bls.

ofan verið minni heldur en nú gjörist, þar sem íbúatala landsins er bæði meiri og kirkjur þó færri. Þó að torfkirkjur ef til vill í öllu verulegu séu enn eins og þær voru til forna, hafa þó hinir breyttu kirkjusiðir eptir siðaskiptin haft ýmisleg áhrif á byggingu og fyrirkomulag kirkna, ýms einkenni hafa horfið, en ný komið í staðinn. Er Wallem telur kirkjuna á Ábæ ($17^1/_2 \times 9^1/_2$ fet) og bænhúsið á Núpstað ($11 \times 7$ fet) minstu kirkjur í heimi[1]), þá er það, þó að þessar kirkjur að vísu séu afarlitlar, óefað ofmælt. Til dæmis eru bænhúsin á eynni Skellig Michael of Kerry við Írlandsströnd mun minni — $10 \times 6$ fet ensk, og eru þau nokkuð minni enn dönsk fet[2]), eða Skrautvaldkirkja í Valdres í Noregi, sem ekki er sögð geta tekið fleiri menn en 10—12[3]). Ekki væri heldur ósennilegt að eitthvert af hinum mörgu, smáu skógarbænhúsum í Miðevrópu reyndist minna en þessar kirkjur. Frekar eru til ummæli um stærð íslenzkra kirkna til forna, sem hægt væri að láta ótalin, ef það væru ekki orð ágæts manns. Prófessor Björn M. Ólsen segir í litilli ritgjörð um kirkjuhurðina á Valþjófsstað, að húsmynd sú, sem er í efri hringnum á hurðinni, og er mjög óásjáleg, sé svipuð íslenzkum kirkjum að fornu og nýju, og að þetta, þó lítið sé, bendi til þess að hurðin sé íslenzk að uppruna[4]). En þar eð myndin er dregin með því ekki ókunna lagi, sem börn teikna hús — lárétt strik jörð, tvö lóðrétt strik veggir og tvö skástrik þak — verður að álíta það glens höfundarins að segja myndina líkjast íslenzkum kirkjum að fornu og nýju, jafnmikið glens og það hlýtur að vera þegar hann segir, að íslenzkur uppruni hurðarinnar styðjist nokkuð við það, að hesturinn, sem einnig er myndaður í efri hringnum á hurðinni, sé bersýnilega vakur. Ummæli þessi eru því gjörsamlega þýðingarlaus.

Beztar upplýsingar um stærð kirknanna er að hafa

---

1) *Wallem* bls. 23. 2) *Arts* I, 198. 3) *Fett* bls. 115. 4) *A. Í. F. F.* 1884—1885 bls. 37 neðanmáls.

upp úr virðingarreglum þeim á tré- og torfhúsum, sem áður hefir verið getið um. Samkvæmt þeim stenzt á hundrað á landsvísu og lengdaralin í torfkirkju, en 2½ hundrað og lengdaralin í trékirkju. Þekki maður því verð kirkjunnar, er auðgjört að finna lengd hennar, viti maður hvort hún hafi verið úr torfi eða timbri, og sýnir tafla VI, er ritgjörðinni fylgir, þetta alt greinilega. Spurningin er nú, hvernig eigi að þekkja torfkirkju og timburkirkju sundur á verðinu, og hvað geta torfkirkjur orðið dýrastar og timburkirkjur minst virði. Ekki verður betur séð en að takmörkin muni vera einhversstaðar nálægt 20 hundruðum. Ekkert er því til fyrirstöðu, að torfkirkja geti orðið 20 álna löng (20 hundraða virði), en af tekniskum ástæðum getur hún varla orðið breiðari en 6—7 álnir[1]), og illa er hugsanlegt að veggir torfhúss geti hækkað að sama skapi sem hægt væri að lengja það. Af þeirri ástæðu hlyti torfkirkja, sem væri 20 álna löng, eða þaðan af lengri, að verða svipuð lágkúrulegum rángala, en hefði ekki þann knarreista svip, sem kirkjur — jafnvel torfkirkjur — hafa. Það sem nú hefir verið sagt, sýnist að vísu ekki styrkja þá skoðun, að torfkirkjur hafi getað verið 20 álna langar, en það tekur af skarið, að ekki er vel hægt að hugsa sér minni trékirkju en þá, sem væri 20 hundraða virði, því hún ætti eptir virðingarreglunum að vera 8 álna löng. Mælingar, sem gjörðar hafa verið á torfhúsum, sem til veraldlegrar notkunar eru höfð, sýna einnig að þau voru opt 20 álna löng eða meira[2]). Um breidd torfkirknanna verður að vísa til þess, sem þegar hefir verið sagt þeim viðvíkjandi, en um trékirknabreidd verður að vísa til þess,

---

1) Mælingar á myndum af fornum og nýjum íslenzkum torfbyggingum, gjörðum eptir *Bruuns Kulturliv* og *Affolkede Bygder*, sýna, að breiddin fer mjög sjaldan fram úr þessu. Samskonar mælingar hefir því miður ekki verið hægt að gjöra á uppdráttum þeim, sem fylgja árbókum Fornleifafélagsins, og eru þeir fyrir þá sök harðla gagnslitlir, jafnvel þó málanna sé getið í textanum. 2) Mælingarnar eru gjörðar á uppdráttum, sem fylgja *Bruuns Kulturliv* og *Affolkede Bygder.*

sem í virðingarreglunum segir um það efni. Í virðingarreglunum segir að vísu, að þær eigi við þær kirkjur, er séu á stærð við klausturkirkjur, en það er þó tekið fram að þær megi einnig eiga við minni kirkjur, ef bitinn sé 7 eða 8 álna langur. Lengd bitanna verður að mestu leyti sama sem breidd kirkjunnar, en að trékirkjur að jafnaði hafi verið mjórri en 7 álnir virðist ekki sennilegt, þó að það kunni að hafa komið fyrir.

Að endingu skal sett hér málið á þeirri einu kirkju, sem enn er til frá því fyrir siðaskiptin — Ólafskirkju á Gunnsteinsstöðum í Langadal. Hún er að utanmáli 25 fet á lengd og 21½ fet á breidd, en að innanmáli er hún 20½ fet á lengd og 12½ fet á breidd og stafar þessi stóri mismunur af því, að veggirnir eru 4½ fet á þykt.

---

Ekki eru til neinar samfeldar frásagnir af *byggingarfyrirkomulagi og smíðahætti kirkna* (Konstruktion und Bauteknik) í fyrri daga, heldur er alt, sem um það er hægt að vita, tínt saman í brotum héðan og handan.

Um sögu einstakra kirkjubygginga, að undanteknum dómkirkjunum, vita menn ekki neitt. Einstöku nafngreindur byggingarmeistari er þó kunnur, t. d. Þóroddur Gamlason, sá er bygði fyrstu dómkirkjuna á Hólum[1]), Ámundi Árnason, sem á dögum Páls biskups bygði stöpul dómirkjunnar í Skálholti[2]), Árni höfuðsmiður og Björn hinn hagi Þorvaldsson, er bygðu Skálholtsdómkirkju á dögum Klængs biskups[3]), Sigvaldi langalíf, er bygði kirkjuna í Vatnsfirði[4]), og Óblauður Grímsson, sem árið 1540 bygði kirkjuna á Ærlæk í Axarfirði[5]). Voru þetta alt trékirkjur nema ef til vill Ærlækjarkirkja, og má af því, að byggingarmeistarar þessir eru íslenzkir, þá

1) Sjá bls. 9—10 hér á undan. 2) *B. S.* I, 132. 3) *B. S.* I, 81—82. 4) *B. S.* II, 599. 5) *D. I.* X, 591. Þetta gæti eptir orðalaginu hafa staðið á bókfelli, er lagt hefur verið í eða undir hornstein kirkjunnar, þegar hann var lagður (impositio lapidis primarii), r.sb bls. 71 hér á undan.

ráða það, að vel geti hafa verið til sérstakt íslenzkt snið á hérlendum trékirkjum, og að þær þá ekki heldur beinlínis þurft að hafa verið gjörðar eptir útlendum fyrirmyndum, aðallega norskum, eins og margir ímynda sér.

Áður en farið er út í sjálf kirkjuhúsin verður að renna augum yfir þau mannvirki, er næst þeim voru í kirkjugörðunum, og skiptingu kirkjunnar í einstaka parta eptir þátíðarmálvenju.

Eptir því, hvort kirkjur voru graptarkirkjur eða ekki, lágu að þeim leiði að austan, norðan og sunnan, en sennilega hefir fyrir framan allar, jafnt graptarkirkjur sem aðrar, verið autt svið að vestanverðu, er var kallað »hlað fyrir kirkju«[1]), »kirkjupallar þeir, sem fyrir kirkju eru«[2]) eða »kirkjustétt«[3]) og virðist svo af heitinu sem hlaðið, pallarnir eða stéttin hafi verið steinlögð. Ekki verður skilið, að þetta auða svið hafi verið til annars en þess, að ekki þyrfti að stíga á leiðin er í kirkjuna væri gengið, og það steinlagt svo að siður skyldi það traðkast upp af hinni miklu umferð.

Kirkjunni var skipt, frá austri talið, í kór eða sönghús[4]), framkirkju[5]) eða miðkirkju[6]), og er fremsti partur miðkirkjunnar kallaður bekkur[7]) eða krókbekkur. En útbygging sú, er var á sumum kirkjum að vestanverðu var, eftir því hve há hún var, nefnd forkirkja eða stöpull[8]). Út úr langhliðum margra kirkna voru kapellur[9]) eða stúkur[10]) og einstöku kirkjur voru með skrúðhúsi[10]) eða sakristíu[11]). Loks voru nokkrar

---

1) *B. S.* I, 66, 77. 2) *NGLV.* bls. 25. 3) *Sturl.* II, 213, 238. 4) Það vísast til þessara orða í registrinu við *D. I.* Orðið sönghús gæti þó í *B. S.* I, 204 gefið til efni til að orðið kór væri skilið sem »apsis«, en sönghús ætti við allann kórinn með apsis. Annars er ekkert, sem styður þenna skilning. 5) Sjá orðið í registri *D. I.* 6) *B. S.* II, 233, *D. I.* III, 685. 7) *D. I.* IX, 296. 8) Sjá orðið í registri *D. I.* 9) *D. I.* IX, 295, 305, 307. Þetta orð sýnist hafa dálítið aðra merkingu en orðið stúka, og vera nánast smákirkja samföst við aðalkirkjuna. 10) Sjá orð þetta í registri *D. I.* 11) *D. I.* IV, 480.

kirkjur með sjálfstæðu klukknahúsi lausu við kirkjuna[1]). Kórnum eða sönghúsinu var skipt í hákór[2]) og lestrakór[3]).

Þessi var notkun hinna einstöku kirkju parta. Á hákór stóð háaltarið og voru þar sagðar og sungnar messur og tíðir, og annað það embætti, er við altari er framið. Háaltari var altari það kallað, er á kórnum stóð, væru í kirkjunni önnur ölturu fleiri, svonefnd útölturu, er stóðu í stúkum eða með veggjum fram[4]), og væri svo, var kórinn nefndur hákór, en annars kór. Á sumum stærri kirkjum var lestrarkór (lectorium). Var það milligerð milli kórs og kirkju svo útbúin að gengt var upp á hana, og var þaðan prédikað og kirkjufólki lesnar tilkynningar og birtar lýsingar[5]). Í framkirkjunni hafðist fólkið við meðan á messum, tíðum og öðrum helgiathöfnum stóð, og í krókbekk voru börn skírð. Dregur hann nafn af því, að þar var rudd geil í bekkjaröðina, svo fonturinn kæmist þar fyrir. Í stöpli og forkirkju voru klukkurnar hengdar upp, og þar fóru fram ýmsar helgar athafnir svo sem fyrri partur barnsskírnar, aflausnir og annað fleira. Í skrúðhúsinu voru geymd föt og aðrir gripir kirknanna, og þar fór allur undirbúningur undir kirkjulegar athafnir fram. Í klukknahúsum voru hafðar klukkur, og voru þau að jafnaði ekki við aðrar kirkjur en þær, sem voru forkirkju- eða stöpullausar[6]).

Hin eina *timburkirkja,* sem beinlínis er sagt frá gerðinni á, er kirkja sú við Kolbeinsárós, sem Jón biskup Arason, þá prestur, sótti viðu í til Noregs. Segir, að kirkjan hafi verið bygð úr timburstokkum með sama hætti og Auðunarstofa á Hólum[7]). Þar eð hús þetta var stokkhús (blokkhús)[8]), hlýtur þá kirkjan einnig að hafa

1) *D. I.* II, 456, V, 337. 2) *D. I.* V, 308, IX, 305. 3) *B. S.* I, 823 og víðar. 4) Þetta sést greinilega á þeim sambönduin, þar sem orðið háaltari kemur fyrir í *D. I.*, enda er það í fullu samræmi við málvenju um allann heim bæði fyr og síðar. 5) *Omrids* bls. 50. 6) Dietrichson vill í *Omrids* bls. 47, láta klukknahús og stöpul þýða sama, en þar skjátlast þessum ágæta höfundi bersýnilega. 7) *B. S.* II, 317, sbr. 326—7. 8) *B. S.* I, 828, sbr. 890. Á

verið það. Nú rís spurningin, hvort heldur stokkkirkjur eða stafkirkjur hafi verið þær trékirkjur, er tíðkuðust á Íslandi. Prófessor Taranger segir[1]) um eina af elztu kirkjum hér á landi, kirkjuna (Klemenskirkjuna?) á Hörgaeyri í Vestmannaeyjum, sem bygð var árið 1000[2]) að hún hafi verið stafkirkja, og er auðséð, að hann vill með því sýna, að íslenzkar trékirkjur yfirleitt hafi verið stafkirkjur. Á öðrum staðnum þar sem getið er um byggingu þessarar kirkju[3]) er nefndur laupur hennar, og byggir Taranger á þessu orði þá skoðun, að kirkjan hafi verið stafkirkja. En þetta getur með engu móti stutt þá skoðun, því þetta orð þýðir »grind« kirkju og ekki annað, ekki frekar grind í stafkirkjum en einhverjum öðrum kirkjum[4]), og gæti því í sjálfu sér

---

því getur enginn vafi leikið, að rétt sé að draga þá ályktun af orðinu timburstokkar, sem notað er í sambandi við Auðunarstofu, að hún hafi verið stokkhús (þ. e. með stokkunum hlöðnum lárétt hvorum ofan á annan, eða lóðrétt hvorum við annan). Styrkist þetta mjög vel af því, að biskupsstofa sú hin forna í Kirkjubæ í Færeyjum, sem enn í dag stendur, og er frá svipuðum tíma, er alveg með sömu gerð (*Aarsb.* 1905 bls. 231). Þegar *Taranger* bls. 69 kemst svo að orði: » . . . stokkirker hvori der sandsynligvis ligger udtalt at de var af stavkonstruktion hvorom den bekendte Kirke i Greenstead i Essex den dag i dag er et talende vidne«, fer hann með algjörlega myrkt mál, því stokkkirkja með stafkonstruktion er contradictio in adjecto. Brown sýnir í *Arts* II 39—42 mjög greinilega fram á að kirkjan í Greenstead sé engin stafkirkja, heldur stokkkirkja með lóðréttum stokkum, og að enskar og írskar trékirkjur yfirleitt als ekki hafi stafkirkjur verið, heldur mjög skírar stokkkirkjur, og að alt það vanti á þær, er sérkenni stafkirkjurnar norsku. Sú skoðun Dietrichsons, sem *Taranger* bls. 249 fl. ræðst á, að stafkirkjurnar norsku séu af hofunum runnar, virðist því geta haft við rök að styðjast, þó svo að ekki sé talið að hofin séu afspringir enskra trékirkna. *Fett* bls. 4 virðist einmitt líka vera þessarar skoðunar, þar sem hann bendir á, að útskurðurinn á stafkirkjunum norsku sé ekki neitt greinilega af írskum uppruna.

1) *Taranger* bls. 161. 2) *B. S.* I 20, *Fornm.* II, 234. 3) *Fornm.* II, 234. 4) Þó að það ekki komi þessu máli beinlínis við, og skipti heldur litlu, skal bent á, að Taranger á nefndum stað ranglega segir, að fimm dagar hafi liðið frá því, að Gizur og Hjalti gengu

eins vel átt við steinkirkju — að svo miklu leyti, sem þar er um grind að ræða, — torfkirkju og timburkirkju. Um gerð kirkjunnar á Hörgaeyri er ekkert hægt að segja, það er ekki einu sinni víst, að það hafi verið timburkirkja — þó að það sé raunar ofur líklegt — því viðurinn, sem til hennar var fluttur þarf ekki að hafa verið ætlaður í annað en ræfur og þil.

Um gerð trékirkna sýnist það langlíklegast til árangurs, að rannsaka sambönd þeirra manna við önnur lönd, er á fyrsta skeiði kristninnar bygðu hér trékirkjur, og reyna að ráða af því úr hverju kirkjurnar voru, — miklu líklegra heldur en rannsókn á heitum ýmsra kirkjuparta. Taranger hefir með þetta fyrir augum reynt að gjöra samanburð á slíkum íslenzkum og norskum heitum, en ekki gáð þess, að íslenzk tunga hefir þegar á landnámstímum orðið sjálfstæð og frábrugðin norskunni, svo að samanburðurinn í þessu efni gat ekki borið neinn árangur, er treysta mætti. Og hann á þar sammerkt við marga norska fræðimenn, sem hafa hagað sér eins og íslenzkar bókmentir, og sitthvað fleira, væri alnorskt.

Um gerð annarrar fornrar trékirkju en Hörgaeyrarkirkjunnar veit maður tiltölulega meira. Bæði er enn til tópt af henni, og eins er allmikið kunnugt um það, hvernig hún hefir til orðið, og mjög vel eru kunnar allar ástæður þess manns, er bygði hana. Það er kirkja sú á Esjubergi, sem þegar hefir verið minst á. Hana bygði Örlygr gamli Hrappsson að líkindum eitthvað um tveimur árum eptir að hann kom til Íslands[1]) og helgaði hann hana hinum blessaða Columbanusi. En til Íslands kom hann frá Vestureyjum um 895[2]). Kirkjan er eptir þeim bókum bygð kringum 897, og þá sennilega fyrsta kirkja,

---

á land, þar til laupur kirkjunnar var reistur, en er rétt tveir. Ekki getur hann neinna heimilda fyrir frásögn sinni um þessa kirkju.

1) *Landnáma* bls. 42 ff. 2) Sjá ritgjörð Guðbrands Vigfússonar: Um tímatal í Íslendingasögum í *Safn* I, 294.

er bygð hefir verið á Íslandi eptir að kristnir menn settust hér að[1]). Er Örlygur fór úr Vestureyjum, gaf hinn »heilagi« Patrekur biskup honum vígða mold, járnklukku, og bók þá er plenarius heitir, svo sem í vegarnest[2]). Þar eð staðkirkjur voru ókunnar í þeim

1) Erfitt er í raun réttri að skera úr því, hvor muni eldri, þessi kirkja eða kirkja sú, er Ketill fíflski byggði á Kirkjubæ. Guðbrandur Vigfússon er í ritgjörð sinni um tímatal *Safn* I, 280 (sbr. *Njála* cap. 126. línu 14—15) þeirrar skoðunar, að Kirkjubæjarkirkjan sé eldri. En það virðist þó sennilegast, að þær séu nokkuð jafngamlar. Þegar landnámsmenn komu hingað fyrst, fundu þeir hér leifar kristins siðar í landinu, bækur, bagla og bjöllur (*Landnáma* bls. 24). Eptir þessu hljóta þeir að hafa haft kirkjur, er landið bygðu áður. Hafa það ef til vill verið jarðkirkjur (neðanjarðar) og hellakirkjur eins og þær, sem kunnar eru úr Selju og Þelamörk í Noregi (*Fett* bls. 3)? Eða hafa það verið ofanjarðarhús? Árið 1905 var sett fram sú skoðun, að hellar þeir hinir mörgu á Rangárvöllum, sem bersýnilega eru gjörðir af mannahöndum, en ekki af náttúrunni, myndu vera leifar írskra klaustra og kirkna í líkingu við samskonar einbúaskýli og bænhús, sem enn sér leifar af meðfram ströndum Írlands (*Fjallkonan* XXII, 1905 bls. 161, 165. Einar Benediktsson: Írabýlin). Taldir voru 6 hellar (á Ægissíðu, Geldingalæk, Hellnatúni, Árbæ, Hellum og Paradísarhellir), sem ættu að vera slíks uppruna. Skoðun þessi er aðallega bygð á því, að höfundur hennar þykist hafa lesið áletranir á hellisveggjunum er sanni þetta. Er hann þar bersýnilega alveg blindaður af þessari skoðun, sem hann þegar áður hefir verið búinn að taka sér og því fyrir hvern mun hefur viljað sanna, enda kemst hann að hinum fáránlegustu niðurstöðum. En þó reyndar margbúið sé að sanna, að hellar þessir í ómuna tíð hafa verið hafðir fyrir fjárhús og hlöður (*Á. Í. F. F.* 1900, bls. 5—7), er lögun sumra þeirra, til dæmis hellisins á Geldingalæk, ekkert því til fyrirstöðu, að þeir hefðu getað verið kirkjur (l. c.). Þess verður og að geta, að til er áreiðanlegt dæmi af helliskirkju hér á landi, þó miklu yngra sé en þetta. Er hér átt við Sóttarhelli á Þórsmörk. Var beinlínis gjört bænhús úr helli þessum einsog hann var frá náttúrunnar hendi. Á árunum 1426—1476 var sett í hann altari og þar sungin messa (Biskupsannálar Jóns Egilssonar, *Safn* I 36). Það er því engan veginn gefið, að ekki séu til leifar af kirkjum hinna írsku munka, papanna, þó enn séu þær ekki sýndar og sannaðar. Þeirri spurningu verður fyrst um sinn að vera ósvarað. 2) Það er greinilegt, að hér getur ekki verið átt við hinn blessaða Pat-

löndum, er hann kom úr, er líkast að Örlygur hafi farið að landssið þar og bygt hér stokkkirkju, en auðvitað ekki stafkirkju. Sú skoðun styðst einnig við það, að á tóptinni, sem er um 8×6 álnir um sig, sér alls ekki marka fyrir þeim tveimur kirkjuveggjum — ytri og innri með töluverðu bili á milli (Svalegang), — sem tíðkast á öllum stafkirkjum, svo og það að dyrnar eru sunnan megin á tóptinni[1]). Flestar norskar stafkirkjur eru með dyrnar á vesturgafli[2]), en það er beint sérkenni á engilsaxnesk-írsku byggingarsniði, að dyrnar séu sunnanmegin kirkju[3]). Þess verður loks að geta, til að girða fyrir hugsanlegan misskilning, að ekki getur komið til mála, að hér sé að ræða um tópt af yngri kirkju, því að kirkja á Esjubergi var algjörlega lögð niður á dögum Árna Skálholtsbiskups I.[4]), og eptir það vita

---

rek Írlandspostula, því hann dó um 464, en þetta gjörist um 890. Eins greinilegt er það þó og, að það er einmitt hann, sem vakir ranglega fyrir höfundi Landnámu. Sést það ekki einungis á því, að hann kallar hann hinn helga, heldur jafnvel enn betur á frásögninni um járnklukkuna, sem hann fékk Örlygi fóstra sínum, því þá verður manni ósjálfrátt hugsað til járnklukku hins blessaða Patreks, sem geymd er nú í dýrðlegu skríni í Armagh á Írlandi, svo sem helgur dómur *(Stokes* bls. 57). 1) *A. Í. F. F.* 1902 bls. 34. 2) *Fett* uppdráttur 5, 11 (sbr. mynd 17 bls. 11), 27, 28, mynd 32 bls. 18, mynd 48 bls. 25. Eru á öllum þessum uppdráttum og myndum sýndar stafkirkjur með dyrum á vesturgafli, en í öllu ritinu er ekki sýnd nema ein stafkirkja með dyrum á suðurhlið (uppdráttur 9). Allar kirkjur, sem uppdrættir eru af hjá *Nicolaysen*, og stafbygðar eru, eru einnig með dyrum á vesturgafli. Þess skal getið að »Svalegangs« lausi parturinn á kirkjunni á uppdrætti I nr. 2 í riti hans er frá 1699 *(Nicolaysen* bls. 5). Sjá og sbr. *Omrids* bls. 38. 3) Sjá meðal annarra *Fett* bls. 15. 4) *Kjalnesingas.* bls. 459. Að vísu er þetta ekki sagt berum orðum, heldur skín það út úr sögunni. Þó hún sé að vísu óábyggileg um margt, ætti að mega reiða sig á hana um slík og þvílík atriði. Kirkjan á Esjubergi sýnist hafa verið lögð niður, þegar kirkja var bygð á Hofi. Að vísu er Hofskirkju ekki getið fyrri en 1397 í Vilkinsmáldaga *(D. I.* IV, 114), en full ástæða er þó til að ætla, að hún hafi verið reist mun fyr, enda virðist svo á frásögninni í 2. cap. Kjalnesingas., þar sem sagt er frá því, að hofið á Hofi hafi verið rifið, að það hafi verið gjört einmitt fyrir

menn ekki til að nein kirkja hafi þar verið. Esjubergskirkjan hlýtur því að hafa verið óyggjandi stokkkirkja af Greensteadgerðinni.

Yfir höfuð að tala virðast allar líkur lúta að því, að flestar íslenzkar timburkirkjur hafi í þann tíð verið stokkkirkjur. Styrkist sú skoðun mjög við það, hve opt er getið um stöpul, forkirkju, stúkur og skrúðhús í íslenzkum skjölum. Það þarf ekki annað en að renna augunum fljótlega yfir flataruppdrátt almennrar stafkirkju til þess að sjá það, að slíkar útbyggingar eru í fylsta ósamræmi við meginreglurnar fyrir fyrirkomulagi þeirra. Sérstaklega er stöpull illa samrímanlegur stafkirkjubyggingu, enda eru stafkirkjur lang-venjulegast turnlausar, en teygja í stað þess framkirkjuna uppávið, svo að þær sýnast með hálfgotneskum brag, þó að þær vitanlega séu með alrómönsku eðli, en enda svo í ofurlítlum þakriðli (Dachreiter), sem hafður er undir klukkurnar[1]). Stöpullausar voru stafkirkjur því að jafnaði[2]), en algengt var að þeim fylgdi alveg sjálfstætt klukknahús, sem ekki var áfast við kirkjuna sjálfa[3]). Að slík klukknahús hafa verið bygð, en ekki venjulegir stöplar, liggur beinlínis í eðli stafbyggingarlagsins. Jafn-veilt og það er — stafir með þunnum þiljum fölsuðum í —

þá sök, að þar átti að reisa kirkju, sem hofið hafið staðið. Í niðurlagi sögunnar segir og, að þegar Árni biskup Þorláksson hafi verið prestur á Stað, hafi kirkjunni á Esjubergi lítill gaumur verið gefinn, og hafi þá klukkan Patreksnautur verið spilt af ryði, en plenarium hafi hann, er hann var orðinn biskup, flutt suður í Skálholt og látið bæta. Ekki er það líklegt, að biskup hefði farið að rýja kirkjuna, nema hún hafi verið lögð niður. Enn styðst þetta við það, að í sögunni er í þessu sambandi, svo sem upp úr þurru, og að manni virðist, að ástæðulausu, nefndur Nikulás Pétursson, er þá bjó á Hofi. Verður það varla skilið öðruvísi en sem bending um, að upp þaðan sé miðstöð kirkjulífsins á Kjalarnesi á Hofi, en ekki á Esjubergi.
1) *Kugler* II, 570. 2) *Fett* bls. 28, nefnir 4 stafkirkjur, sem hafi haft stöpul og eru þær allar nú undir lok liðnar. 3) *Kugler* II, 570.

myndi það aldrei geta haldið uppi hárri byggingu, nema með afarstórum grunnfleti[1]).

Þetta ber þó ekki að skilja svo, að stafkirkjur hafi ekki þekst hér á landi. Þó stokkkirkjurnar hafi verið almennastar trékirkna hér, eru margir vottar þess, að stafkirkjur hafi einnig þekst hér frá því í fyrstu kristni og alveg fram að siðaskiptum. Það virðist t. d. varla geta leikið mikill vafi á því, að kirkja sú, er Þorkell Eyjólfsson ætlaði að gjöra á Helgafelli, og ætlaði að stæla eptir hinni miklu kirkju hins blessaða Ólafs konungs í Þrándheimi[2]), hafi átt að verða stafkirkja, því stafkirkjur voru svo algengar í Noregi, þótt dæmi væru þar stokkkirkna[3]), að ætla verður, að kirkja Ólafs hafi verið stafkirkja. Kirkja sú, sem Gellir sonur Þorkels byggði á Helgafelli mjög virðulega, að því er haft er eptir Arnóri jarlaskáldi[4]), ætti og að mega ætla, að hafi verið stafkirkja. Enga ályktun virðist hægt að draga af því, að viður til kirkju hafi verið höggvinn í Noregi, því svo hefur vafalaust verið um langflestar íslenzkar trékirkjur, hvort sem stafkirkjur hafa verið eða stokkkirkjur. Það segir sig sjálft, að það skipti töluverðu máli, hvort viðurinn fluttist tilhöggvinn og tegldur, eða óunninn. Væri hið fyrra, virðist nokkur ástæða til að halda, að kirkjan hafi getað verið gjörð eptir þarlendu sniði. Víðast hvar eru frásagnirnar um þetta þó svo óljósar, að ekki verður séð, hvort viðurinn var unninn eða óunninn, þegar hann fluttist. Þó virðist það af öllum atvikum, að viðurinn í kirkju þá, er Þorkell Eyjólfsson ætlaði að reisa á Helgafelli, hafi verið alunninn og tegldur í Noregi[5]), og eins í kirkju þá, er Gizzur og Hjalti reistu á Hörgeyri í Vestmannaeyjum, annars hefði varla verið hægt að reisa laupinn á tveim dögum. En þar eð margar

1) *Fett* bls. 28 segir að undirgrindur slíkra stöpla hafi verið jafnlangar breidd kirknanna, og þeir opnir að neðan. 2) *Laxd.* bls. 272—273. 3) *Fett* bls. 15, nefnir 3 og eru þær allar með láréttum stokkum eins og Kolbeinsáróskirkjan. 4) *Laxd.* bls. 288. 5) Sbr. samtal hans við Ólaf konung á áðurnefndum stað í Laxdælu.

trékirkjur, og sumar af þeim höfuðkirkjur, hafa, eins og bent hefur verið á, verið smíðaðar hér á landi með öllu, svo sem með vissu Vatnsfjarðarkirkja, er að vísu var stafkirkja, og Skálholtsdómkirkja, sem var bygð svo að segja upp frá rótum á dögum Sveins biskups spaka, og vafalaust var stokkkirkja, er ekki eins mikið leggjandi upp úr þessu eins og í fljótu bragði kynni að virðast. Fyrir þá sök verður heldur ekkert ályktað um kirkjurnar á Valþjófsstað og á Bæ á Rauðasandi, sem Markús Gíslason, eptir því sem Hrafns sögu Sveinbjarnarsonar segist frá[1]), sótti viðinn í til Noregs, og fleiri kirkjur, sem maður ekkert annað veit um. Hvað Valþjófsstaðarkirkju viðvíkur, er til mjög skrautlega skorin hurð frá henni, sem geymd er enn í Þjóðminjasafni Dana[2]), en ekki verða neinar ályktanir af henni dregnar, aðrar en þær, að hún sé frá miklu og skrautlegu húsi, enda kemur flestum saman um, að hún sé frá annarri og yngri kirkju á Valþjófsstað en þeirri er hér getur[3]), en ekki er hún lík neinum af þeim stafkirkjuhurðum, sem kunnar eru.

Hvort megi álykta, að kirkja hér á landi sé úr tré, af því, ef nefnt er klukknahús með henni, er mjög hæpið, þó að það sé óhætt í Noregi. Torfkirkjur eru ekki síður klukknahúsþurfi en trékirkjur, nema frekar sé. Og þó svo væri, væri þar með engan veginn gefið, að trékirkjur þessar væru stafbygðar[4]). En að því er til kirkjunnar í Vatnsfirði kemur, þá eru lýsingarnar á henni, svo stuttar sem þær eru, greinilegur vottur þess,

---

1) *B. S. I*, 645. 2) Þjóðminjas. Dana Nr. 12195. 3) Sbr. áðurnefnda grein Björns Ólsens um hurðina í *A. Í. F. F.* 4) Með fimm kirkjum nefna íslenzkir máldagar klukknahús: með Hvalsnesi *(D. I.* III, 257), Munkaþverá *(D. I.* VIII, 307), Staðarbakka *(D I.* V, 337), Urðum *(D. I.* II, 456) og Vesturhópshólum *(D. I.* III, 547), og er engin þeirra sú höfuðkirkja, að ætla þurfi að hún hafi verið úr tré, nema kirkjan á Munkaþverá. Hún var vafalaust úr timbri, því að hún var með kapellum og stúkum og hafði klukkur uppi á sér, væntanlega í þakriðli, og er slíks varla að vænta af torfkirkju.

að hún hafi verið stafkirkja, sú eina kirkja hér á landi, sem er ugglaus um það efni. Svo segir í þætti af Gizuri biskupi Einarssyni, að Sigvaldi langalíf hafi smíðað kirkjuna í Vatnsfirði. Hafi hún verið með *spónþaki*, og hafi Sigvaldi skorið mynd af sjálfum sér á dyrustafinn, er var svo há, að hæstu menn náðu henni undir höku[1]). Í annan stað segir í skrá frá 1503 um eignir Vatnsfjarðarkirkju, er Björn Guðnason afhenti staðinn[2]): »Svo sýndi hann (þ. e. Björn Guðnason) oss (þ. e. gjörningsvottum) við, er hann hafði látið vinna til *útbrotsins um kórinn* öðrum megin allan sem til heyrði, og fimtán hundruð *spóns* hann hafði látið leggja á kirkjuna, og hundrað spónlaust er ekki var á lagt«. Í þriðju grein stendur svo í minnisbók Odds biskups Einarssonar[3]): »Vatnsfjörður. Svo hafa sagt gamlir menn, síra Jón Þorleifsson og fleiri, að riddari Eirík liggi fyrir kórdyronum í Vatnsfirði (hann lét gjöra kirkjuna). En hans kvinna Vilborg, sem kölluð er frú hertuginna, liggur þar í sömu kirkju fyrir framan örkina, þar sem *skáspónn liggur í gólfinu*«. Hér eru þá þrjú atriði: spónþak, útbrot um kór og skáspónn í gólfinu, sem öll benda til stafkirkju. Á öllum stafkirkjum var timburþak ýmist úr fjölum eða spæni[4]), en við hvort er átt hér, er að vísu, eins og síðar skal að vikið, allóvíst. Hins vegar er það líklegt, að trékirkjur hafi líka verið tréþaktar, jafnvel þótt stokkkirkjur væri[5]), og getur þetta með öðru verið góð vísbending. Þar sem nefnt er útbrot um kórinn, er bersýnilega átt við gang kring-

1) *B. S.* II, 599 2) *D. I.* VII 636—639. 3) *AM. 243 4to* bls. 6b—7b. Staðurinn prentaður í *Obituaria* I, 243. 4) *Fett* bls. 31. 5) Hvergi sést þess getið, að stafkirkjur hafi neinstaðar verið annað enn tréþaktar. Hins vegar sést að trékirkja sú, er Oxi Hjaltason bygði á Hólum, var blýþakin *(B. S.* I, 235 sbr. 163) og dómkirkjan í Skálholti koparþakin (B. S. II, 240). Á því, þegar af þessu, að vera óhætt að slá því föstu, að þessi hús hafi ekki verið stafkirkjur, auk þess sem annað bendir í sömu átt. Eins og síðar mun á vikið, virðast seinni Hólakirkjur líka hafa verið blýþaktar *(D. I.* III, 613).

um kórinn, eins og allar stafkirkjur hafa, og á norsku nefnist »Svalegang«. Er slíkur útbúnaður ekki til nema á stafkirkjum einum og eitt aðaleinkenni þeirra[1]), og tekur þetta því alveg af skarið. Þar sem skáspóns í gólfinu er getið, verður manni að sjálfsögðu hugsað til stafkirkjunnar. Gólfi hennar er nefnilega svo varið, að net af syllum (timburstokkum) liggur um kirkjuna þvera og endilanga, og eru feld flett borð inn á milli[2]). Það eru bersýnilega þessi borð, sem nefnd eru spónn, og eptir legunni innan kirkjunnar skáspónn. Á þessum stað sýnist með spæni átt við fjalir, og er af þeirri ástæðu, þegar talað er um spón í þakinu, nokkur vafi hvort átt sé við þak úr sköruðum fjalvið, eða þak úr smáum sköruðum trétíglum, en við þá er nú á dögum optast átt með orðinu spónn. Þess þykir hér getandi, að vorið 1918 stóð í Vatnsfirði gamalt bæjarhús úr torfi með spónþaki (sköruðum trétíglum), og er slík þekja á torfhúsi víst fádæmi. Kirkja sú er stóð í Vatnsfirði á undan steinkirkju þeirri, er þar var byggð fyrir fáum árum, var einnig með samskonar spónþaki. Þó getur það ef til vill verið varhuga vert, að setja þetta í samband við spónþakið á hinni fornu kirkju.

Eptir þessu verður að ætla, að meginið af íslenzkum trékirkjum hafi verið stokkkirkjur[3]), en að staf-

---

1) *Kugler* II, 570 sbr. 571. Í þessu sambandi mætti benda á, að oflitið virðist að jafnaði gjört úr öðrum notum af göngum þessum, en að þau verji undirgrind kirkjunnar fúa, t. d. sýnast þau engu síður hafa geta verið ætluð processium þegar illa viðraði, á sama hátt og kórgöng stærstu kirknanna. Enda virðist og Kugler varla telja hina venjulegu fúavarnarskýringu á útbyggingum þessum nægja, því hann segir (l. c.): »dessen Fuss (þ. e. gangsins) ohnehin wiederum einen Schutz gegen die Einwirkung der Nässe hätte nöthig machen sollen«, og er það smellin athugasemd. 2) *Omrids* bls. 32, *Fell* bls. 29. 3) Stokkkirkjur eru hér nefndar allar þær kirkjur, sem byggðar eru upp úr heilum timburstokkum, hvort sem þeim er hlaðið láréttum hvorum ofan á annan í vegginn, eða þeir eru hafðir samsíða upprèttir.

kirkjur, þó að þær hafi stundum komið fyrir, hafi verið all-óalgengar[1]).

Ekki er gott að segja, hvort algengara hafi verið á stokkkirkjum, að stokkarnir lægju láréttir (norska lagið), eða stæðu uppréttir í veggjunum (Greensteadlagið), en eitt dæmi hverrar tegundar hefur verið nefnt — Kolbeinsáróskirkja með láréttum stokkum og Esjubergskirkja með lóðréttum stokkum — og eru þau ekki með vissu fleiri.

Hér hefur áður verið bent á, að mynd sú í efri hringnum á kirkjuhurðinni frá Valþjófsstað, sem á að merkja kirkju, sé svo barnalega gjörð, að eins vel væri hægt að láta hana merkja hvert annað hús, og að ekki sé því heldur hægt að segja, að hún sé »lík íslenzkum kirkjubyggingum að fornu og nýju«, eins og B. M. Ólsen kemst að orði í ritgjörð sinni um hurðina. En þó er eitt á myndinni að græða. Húsið er bersýnilega timburhús, því þótt myndin sé klaufaleg, myndi vafalaust hafa verið reynt að sýna torfveggi, ef torfhús hefði átt að vera. Eptirtakanlegt er það, að gaflinn er greinilega gjörður úr stokkum, og standa þeir upp á endann. Ætti sá er hurðina skar eftir þeim bókum að hafa viljað sýna kirkju með Greensteadlaginu. Sé það rétt, sem Ólsen með áður áminstri ritgjörð sinni vill sýna, og sem honum virðist hafa tekist, að hurðin sé smíðuð hér á landi, þá er eðlilegast, að sá er hurðina skar hafi reynt að sýna einmitt mynd af íslenzkri trékirkju, eins og þær þá gjörðust og gengu, og finst Ólsen honum hafa tekist það vel, en þeim sem þetta ritar á nokkuð annan veg. Svo einfalt atriði sem að sýna legu stokkanna í kirkjunni ætti hann þó hæglega að hafa

1) Stafkirkjur eru hér nefndar allar þær trékirkjur, sem byggðar eru með trébindingsverki eða tré í binding, hvort sem fjalirnar í bindingnum eru falsaðar eða negldar. Það er að vísu rétt að nefna kirkjur, þar sem fjalirnar eru negldar í bindinginn »Reisverks«kirkjur, en hinar þar sem fjalirnar eru falsaðar í bindinginn og hvorar í aðra, stafkirkjur. Norskir fræðimenn nefna þó báðar tegundirnar einu nafni stafkirkjur, og er eins gjört hér.

getað farið rétt með, enda er sá skurður ofur óbrotinn. Og þó hann hafi ekki verið neitt átakanlega drátthagur, hefur hann verið skurðhagur og smekkvís á skrautskurð (ornamentik) með afbrigðum. Ef því, eins og líklegt er, má álykta af þessu, þá ættu stokkkirkjur með upprèttum stokkum (Greensteadlagið) að hafa verið algengastar trékirkna hér á landi fyrir siðaskiptin, að minsta kosti fram til þess tíma, sem hurðin var smíðuð, sem Ólsen vill láta hafa verið kringum 1200—1250, en sízt fyrri[1]). Kirkju þá á Valþjófsstað, sem Markús Gíslason sókti viðinn til, vill Ólsen láta vera byggða um 1180, og leiðir hann góð rök að því[2]). Aptur á móti virðist ákvörðun Ólsens á aldri hurðarinnar vera nokkuð óábyggilegri, og leggur hann að nokkru leyti sjálfur í optnefndri ritgjörð sinni til röksemdir á móti henni. Bæði er það, að bandrúnir koma fyrir á hurðinni, og eru þær, að því er Ólsen sjálfur segir, algengar á 15. og 16. öld, en óvíst nær fyrst sé farið að nota þær[3]), og eins koma fyrir á henni stungnar rúnir, sem að sögn Ólsens, sem mátti vita það, koma ekki fyrir fyrri enn í fyrsta lagi eptir miðja 12. öld[4]). Bendir þetta helzt til þess, að alt of snemma sé hurðarsmíðið sett 1200—1250, eins og Ólsen vill vera láta. Til þess að gefa kirkjunni tækifæri til að eignast nýja hurð með líkindum gjörir Ólsen því ráð fyrir[5]), að jafn vandað hús og kirkja sú á Valþjófsstað, er Markús Gíslason byggði, muni hafa getað staðið í rífleg 50 ár[6]), og eptir því hafi verið byggð þar ný kirkja á árunum 1230—1250, og hafi kirkjan þá um leið eignast hurðina. Þetta er vitanlega helber getgáta, sem við ekkert styðst, nema það eitt, að Ólsen er áður búinn að slá því föstu, að hurðin sé frá því um 1250. Því til stuðnings var þessi

1) *Á. Í. F. F.* 1884—1885, bls. 31. 2) *Ibid.* bls. 34—36 3) *Ibid.* bls. 31. 4) *Ibid.* bls. 30. 5) *Ibid.* bls. 36. 6) Eins og áður hefur verið sýnt fram á, nær alls engri átt að ætla vandaðri trékirkju skemmri aldur enn 50 ár, enda þækti mèr líkast, að kirkja sú, sem brann 1361, hafi einmitt verið sama kirkjan, sem Markús Gíslason byggði.

endurbygging þó algjörlega ónauðsynleg, því ekkert væri eðlilegra en það, að kirkjan hefði eignast hurðina eina sér, án þess að hún væri byggð upp öll um leið. Þegar Ólsen minnist á kirkjubruna þann, sem varð á Valþjófsstað 1361[1]), gjörir hann lítið úr því, að sá bruni kunni að hafa haft áhrif á aldur kirkjuhurðarinnar, en lætur sér nægja að slá því föstu, að hurðinni hljóti að hafa verið bjargað af því, að hún »geti ekki verið svo ung«[2]). Bæði er nú það, að þetta er engin röksemd, og eins hitt, að það er ekki harðla líklegt, að kirkjuhurðinni hafi verið bjargað, þó að það vitanlega sé ekki fortakandi. En svo ólíklegt er það, að nær mun að halda, að kirkjan hafi fyrst eignast hurðina eptir brunann 1361, og styrkist sú skoðun mjög mikið einmitt við öll ummæli Ólsens sjálfs um aldur rúnanna, sem á hurðinni eru, nema svo væri, sem ekki er líklegt, að þær hefðu verið grafnar á hurðina seinna. Kirkjur með upppréttum stokkum ættu eptir því að hafa verið algengastar trékirkna hér á landi fram um miðja 14. öld, og er þá skemst eptir til siðaskiptanna.

Eins og útgreptir þeir, sem getið hefur verið um, bera með sér, voru trékirkjurnar reistar á steingrunni, en hann var tryggður með torfi og mold eitthvað upp á veggi[3]), svo veður kæmist ekki upp undir þær til að spenna af grunni. Til tryggingar gegn foki voru og optlega reistar upp skástoðir við veggina[4]). Þó ekki sé nein bein heimild fyrir því, er ekki ólíklegt, að smærri kirkjur hafi verið stjóraðar niður með festum og strengj-

---

1) Sjá skrána um kirknabruna bls. 121—122 í þessu riti. 2) *A. Í. F. F.* 1884—1885 bls. 36. 3) *Bisk. Hól. Chart. Fasc.* IV, 22. Þar segir: ». . . að dipta að kirkjunni, sumir að bera að henni torf, hennar kór og stöpli neðan«, sbr. *Bisk. Hól. Chart. Fasc.* IV, 23. Þar segir: ». . . svo að torf var látið neðan við stöpul, kór og kirkju«. 4) Sjá töflu V og sömu skjöl (eru þau prentuð í III. kafla þessa rits). Segir í þeim báðum, að stoðirnar og skorður kirkjunnar hafi verið athugaðar og settar í lag þar sem með þurfti. Sbr. *Sturl.* I, 344 og víðar.

um, sem bundnir voru við jarðfastan stjóra, svo að þær siður skyldi taka upp[1]).

Hvernig viðir hússins voru bundnir saman, verður ekki séð með neinum verulegum rökum, en alt bendir í þá áttina, að frágangurinn hafi verið hinn sami og á Greensteadkirkjunni. Stokkarnir uppréttu hafa að neðan verið grópaðir í aðra stokka, sem lágu láréttir á grunninum og voru nefndir syllur eða undirstokkar[2]). Voru slíkir undirstokkar bæði undir hliðum og göflum, og undir allri kirkjunni voru þeir nefndir undirgrind[3]). Nöfn þessi voru sameiginleg með bæði torfkirkjum og og trékirkjum[4]). Þar sem undirstokkarnir mættust á hornum hússins, voru reistir sérstaklega traustir stokkar uppréttir, svonefndir hornstafir[5]). Hafa stokkarnir að sjálfsögðu að ofan verið grópaðir í syllar (yfirsyllar, syllustokka, staflægjur), þó hvergi sjáist þess getið, og er þá kominn laupur kirkjunnar[6]). Stokkarnir voru trébolir flettir sundur í miðju og sneri sárið inn, enn hornstafirnir voru heilir drumbar, þó svo, að sniðinn var úr þeim fjórðungur[7]). Ekki eru til neinar sagnir

1) Í ferðabók um Ísland eftir Howell nokkurn brezkan trúboða, »*Icelandic Pictures*«, sem prentuð er í London 1893, er á bls. 66 mynd af íslenzkri kirkju, sem er stjóruð niður með festum á hornunum. Þó að þetta dæmi sé frá seinni tímum, er það þó að vissu leyti þessu til stuðnings. 2) *Safn* I, 35. 3) *D. I.* IX, 226. Hér er vafalaust átt við torfkirkju og sýnir það að samnefnt var það, sem sameiginlegt var með báðum kirkjum. Sjá og *Arts* II, 40. 4) *D. I.* III, 168. Hér er vafalaust átt við torfhús. Beri að skilja orð Dr. Valtýs Guðmundssonar í *Privatb.* bls. 120 um undirstokka svo, sem þó ekki þarf að vera, að þeir komi aðeins fyrir í timburhúsum, er það misskilningur, sem stafar af því, að hann álítur að kirkjulýsing Hómiliubókanna eigi við trékirkjur, en ekki torfkirkjur. Það er rangt, eins og síðar munu leidd rök að. 5) *Landnáma* bls. 42. *Kjalnesingas.* bls. 398. Í *Laxd.* bls. 282 er getið hornstafanna úr kirkju Þorkels Eyjólfssonar hinni miklu. Eins og á hefur verið vikið, er full ástæða til að ætla, að hún hafi átt að vera stafkirkja, en þá hefur þetta orð verið samheiti á samsvarandi pörtum beggja kirknategunda. 6) *Fornm.* II, 234. *Safn* I, 66. 7) Sjá *Arts* II, 41. Á það, sem þar er sagt, vafalaust einnig við íslenzkar stokkkirkjur.

af því, hvernig þakið í trékirkjum hafi verið rept og ásað, en í aðalatriðunum verður að ganga út frá því, að einhverskonar raptar hafi risið upp í einhvern mæniás, svo að burst hafi orðið. En klætt hefur þakið ýmist verið tré, kopar eða blýi[1]).

Mörg eru þau atriði, sem erfitt verður um að segja, hvort heldur séu sérkenni torf- eða timburkirkju, og gæti sumt, ef því er að skipta, bent í hvortveggju áttina. Er þar fyrst að nefna forkirkju og sönghús eða kór. Það gæti að vísu komið til mála, að þessi orð merktu parta af sjálfum kirkjubúknum — framkirkjunni, svo að forkirkja væri sama og vestasti partur framkirkju, en kór sama og austasti partur hennar. Flestir staðir þar sem forkirkja er nefnd, benda þó mjög greinilega til þess, að hún hafi verið afhýsi, greint frá framkirkjunni sjálfri. Kórinn sýnist og stundum hafa verið afhýsi úr kirkjunni[2]), en þó optar, að minsta kosti á torfkirkjum, aðeins eystri hluti framkirkjunnar, austur af lestrarkórnum[3]). Þó í sjálfu sér væri hugsanlegt, að ganga mætti tryggilega frá útbyggingum úr gaflhlöðum torfkirkna, væri það illmögulegt nema þær útbyggingar væru úr tré. Að vísu mætti gjöra þær úr torfi, en ef svo væri, myndu gaflhlöðin, sem að jafnaði munu hafa verið úr tré og jafnþunn og óveruleg eins og enn tíðkast, hafa orðið svo veik, að minsta kosti að austanverðu, af því að kórinn hlaut að vera opinn inn í framkirkjuna, að húsið hefði orðið mjög ótryggilegt. Hafi austurgaflhlöð torfkirknanna hinsvegar verið úr torfi, eins og stundum tíðkaðist, virðast útbyggingar úr þeim hljóta að hafa verið gjörsamlega útilokaðar þeim megin[4]), nema úr timbri

1) Sjá það, sem áður hefur verið sagt hér um þetta atriði. 2) Sjá t. d. *Sturl.* I, 344. Dæmi timburkirkju, sem ekki var með útbyggðum kór, en með forkirkju einni útbyggðri, er kirkja sú á Hraunþúfuklaustri, er Daniel Bruun fann rústina af og getið hefur verið hér áður. 3) Dæmi er þess að torfkirkja sé með útbyggðum kór í *D. I.* III, 422. Eins er torfkirkja sú, er hómilíubækurnar lýsa, eins og minst mun verða á síðar, torfkirkja með útbyggðum kór. 4) Þetta kemur heim við *Sturl.* II,

einu, og myndi þær þá hafa orðið svo dýrar, að verðið hefði orðið óeðlilega hátt í samanburði við verð allrar kirkjunnar. Sé gengið út frá því, að torfkirkja sé 15 álna löng, er verð hennar samkvæmt virðingarreglum þeim, er áður hefur verið getið um, 15 hundruð. En þó að þessar útbyggingar aldrei verði svo stórar, sem kirkjur er klaustrum hæfi, en af þeim kostar lengdar-alinin $2^1/_2$ hundrað, er tæplega hugsanlegt að verð hverrar einstakrar geti orðið minna en $2^1/_2$ hundrað. Setji maður að það sé verðið, ætti það fyrir kór og forkirkju til samans að vera 5 hundruð, og yrði það á 15 hundraða kirkju einn þriðji alls kirkjuverðsins. Það er bersýnilega of mikið, og verður ójöfnuðurinn greinilegri eftir því sem kirkjan er minni. En fæstar munu torfkirkjurnar hafa náð 15 álna lengd. Árið 1472 voru greidd 16 hundruð fyrir forkirkju á Höskuldsstöðum[1]), og er það jafnvirði 16 álna langrar torfkirkju, og þarf þá engum blöðum um það að fletta, að það hefur verið timburkirkja. Árið 1181 átti Miklaholtskirkja 40 rapta til forkirkjugjörðar[2]), og virðist ekki sennilegt, að með þeim hafi verið efnt til forkirkju úr torfi, né fyrir torfkirkju. Ekki sýnist heldur líklegt að svo hafi verið 1318, þegar lukt eru 10 hundruð fyrir forkirkjusmíð á Grýtubakka[3]), eða þegar kirkjan á Ljósavatni er 1380 búin að safna sér 15 kúgildum, hundraðshrossi og vöruhundraði[4]), til forkirkjusmíðar, sem 1394 hefur aukist um 3 hundruð vöru[5]). En þegar Maríukirkja í Ögri

---

315. Það er bersýnilega torfgafl á kirkjunni í Bræðratungu. Því hafa Andréssynir viljað rjúfa hana þar. En vesturgaflinn með forkirkjunni, þar sem þeir töluðu við jarl, hefur að sjálfsögðu verið úr tré. 1) *D. I.* V, 345. 2) *D. I.* I, 273. 3) *D. I.* II, 445. 4) *D. I.* III, 355. 5) *D. I.* III, 559. Fjársöfnun þessi til forkirkjugjörðarinnar sýnist hafa byrjað eitthvað um 1318 (*D. I.* II, 439). Það hefur tæpast verið óalgengt að safnað hafi verið saman til forkirkjusmíðar — og þá væntanlega einnig til annarra þarfinda kirknanna. T. d. virðist svo, sem farið hafi verið að safna til forkirkjugjörðar þeirrar á Höskuldsstöðum, sem áður gat um, fyrir 1395, sbr. vígslumáldaga kirkjunnar frá því ári, sem segir: »Item forkirkjuefni það, sem síra Marteinn hafði látið stofna

1467 er virt á 24 hundruð með forkirkjunni og það tekið fram, að gjöra skuli »nýtt torf um kirkjuna og það ábrast forkirkjuna«[1]), virðist það aptur á móti liggja beinlínis í orðunum, að kirkjan sé úr torfi, en forkirkjan úr tré, eptir því sem greint er milli umbóta þeirra, er hvert um sig með þarf[2]). Kirkjan í Hjarðarholti í Laxárdal er 1463 er metin á 25 hundruð, en forkirkjan á 5 hundruð[3]), og virðist liggja í augum uppi, að hér sé trékirkja 10 álna löng með meira enn 2 álna langri forkirkju, en ekki 25 álna löng torfkirkja með 5 álna forkirkju. Því ber að vísu ekki að neita, að í fljótu bragði virðist meiga finna tvo staði, er bendi til að forkirkjur hafi verið úr torfi, en sé athugað nánar, reynist það þó ekki. Í fyrstu segir í máldaga Vallaness frá 1397[4]), að síra Oddur Teitsson hafi látið »reisa forkirkjuna utan« og sýnist það með líkindum merkja að hann hafi látið hlaða upp að henni torfinu. En það stendur svo vel á með þessa kirkju, sem er ein af höfuðkirkjum landsins, að hún er svo máldögum búin, að hægt er að sjá á fárra ára fresti hvernig henni hefur aukist auður og magn[5]), og er hún þegar árið 1367, er Oddgeir biskup vígir hana[6]), orðin svo efnuð, að harðla litlar líkur eru á að hún hafi verið torfkirkja, en hinsvegar vart hugsandi, að torfforkirkja væri á timburkirkju. Þegar svo þar að auki í máldaganum frá 1541 er getið um stúku á henni, virðast öll tvímæli tekin af um skilning á ummælunum »að reisa forkirkjuna utan«,

---

með fáum fjölum, er þar voru þá til, virt fyrir hálft fjórða hundrað« (*D. I.* III. 600). 1) *D. I.* V, 492. 2) Samskonar skilgreining og þessi er gjörð á viðgjörð á kór og framkirkju Mikaelskirkju í Bólstaðarhlíð, sem ræðir um í bréfi frá 1388 (*D. I.* III, 421—423). Þar segir að Dálkur bóndi hafi látið »hlaða torf um kirkjuna og gjöra að kórnum«. Sést þar glögglega að kirkjan er úr torfi og kórinn úr tré eins og hér er sýnt fram á að hafi verið á öllum torfkirkjum, sem svo voru útbúnar. 3) *D. I.* V, 387. 4) *D. I.* IV, 207. 5) 1270 *D. I.* II, 83, 1367 *D. I.* III, 237, 1397 *D. I.* IV, 204, 1419 *D. I.* IV, 270, 1471 *D. I.* V, 629, 1491 *D. I.* VII, 25 og 1541 *D. I.* X, 696. 6) *D. I.* III, 237.

því varla virðist ástæða til að halda, að kirkjan hafi verið bygð af nýju á árunum 1367—1541. Og enda þótt svo hefði verið, eru allar líkur á, að hún hefði verið endurreist með sömu ummerkjum og hún var fyr, eins og venja var til í þá daga. Reisa forkirkjuna utan virðist því hér að eins þýða að dypta hana utan, rétta hana utan eða eitthvað þvílíkt, og er jafnvel alls ekki ósennilegt, að reisa sé misskript í því handriti máldagans, sem Fornbréfasafnið fer eptir, fyrir rétta, og hefði það orð engum misskilningi valdið. Í annan stað segir í viðbót við máldaga Nikulásarkirkju á Mælifelli 1641: »Anno domini MCDLXXXVI reiknaðist í portionem ecclesiæ uppá 12 ár meðan síra Sigurður hélt, 9 voðir vaðmáls. Lukti hann hér í messuklæði að öllu, brún og altarisdúk, 1 saltara nýjan, tvær söngbækur de sanctis et de tempore um sumarið og lesbók frá Johannesmessu baptistæ og til Nicolai, með forkirkjunni fyrir 11 hundruð«[1]). Þegar búið er að borga öll þessi fríðindi, skyldi mega ætla, að lítið yrði eptir upp í forkirkjuna, því bækur voru þá meira verðmæti en nú á dögum. Sé reynt að gizka á sennilegt verð þessara hluta, reynist þó nóg verða eptir til forkirkjunnar, þegar búið er að gjöra fyrir þeim. Í þá daga mátti fá messuföt fyrir 2 merkur[2]) og þaðan af meira, upp í hundrað[3]) og hálft annað hundrað[4]), sem virðist vera algengasta verðið, og virðist þá kappnóg í lagt að gjöra altarisdúk með brún fyrir hundrað. Saltarar voru til á mörk[5]), 2 merkur[6]) og þaðan af meira. Virðist þá og nóg að áætla hálft hundrað fyrir honum, en söngbækur tvær og lesbókin eru hæfilega metnar til samans á tvö hundruð. Þetta yrðu alls 5 hundruð og væru þá 6 hundruð eptir fyrir forkirkjunni, en fyrir það gæti hún sjálfsagt orðið eitthvað um 3 álnir á lengd.

Það virðist af þessu ljóst, að jafnt timbur- sem

---

1) *D. I.* V, 328. 2) T. d. *D. I.* II, 439. 3) T. d. *D. I.* III, 78. 4) T. d. *D. I.* III, 110. 5) T. d. *D. I.* II, 439, 670. 6) T. d. *D. I.* II, 635.

torfkirkjur hafi getað verið með útbyggðum kór og forkirkju, og að þessi hús hafi hlotið að vera altimburbyggð, hvort sem kirkjan sjálf var úr torfi eða timbri. Þó munu þessi hús hafa verið fátíðari á torfkirkjum.

Kirkjur hafa, að því er virðist, optar verið kórlausar en forkirkju. Sem dæmi skal nefna kirkjuna í Bræðratungu, sem nefnd er í sambandi við viðureign Andréssona og Gizzurar jarls[1]). Á þeirri kirkju var forkirkja, en enginn kór, heldur torfgafl að austanverðu. Eins er um kirkjurústina á Hraunþúfuklaustri[2]). Þar mótar fyrir grundvelli forkirkju vestur af byggingunni, en að austan er engin útbygging, heldur er kórinn með vegg markaður austan af framkirkjunni. Þetta er alls ekki dæmalaust annars staðar, t. d. sést á hinni ófullgjörðu rúst dómkirkjunnar í Kirkjubæ í Færeyjum, að henni hefur verið ætlað að vera með forkirkju, en kórlaus[3]).

Um kórinn verður að ætla, að hann hafi haft það til að vera bæði hvelfdur og með apsis, þó optast væri hann með flötum gafli. Má ráða það bæði af því, sem kunnugt er um Hóladómkirkju og vikið verður að í næsta kafla, og eins af ummælum Björns á Skarðsá um klausturkirkjuna á Reynistað í annálum hans við 1640; þar segir: »Þá tók upp og brottnaði alt í sundur *það litla hvolfda trévirkishús* fyrir Reynistaðarkirkju, sem verið hafði sancta sanctorum[4]) þeirrar miklu trékirkju, sem forðum var á Reynistað og Jón Jónsson lögmaður hafði látið ofan taka þá nær fyrir 70 árum, er hann hélt Reynistaðarklaustur«[5]). Í Lagagriplu síra Þorsteins Péturssonar á Staðarbakka segir svo: »Sanctuarium[4]) hefur sumstaðar verið innar af kórnum með

1) *Sturl.* II, 315. 2) *Bruun Affolkede Bygder* bls. 25 og tafla XII, er þeirri bók fylgir. 3) *Aarsb.* 1906 bls. 204. 4) = apsis *Omrids* bls. 48. Af orðatiltækjunum »hvolfda hús« og »hvelfing« verður að gjöra ráð fyrir, að hvelfing í vorri merkingu orðsins hafi verið byggð undir rjáfrið í sumum kirkjum, og kór þeirra því verið með lokuðum þakstól, og þá sennilega kirkjurnar allar. 5) *A. B.* II, 248.

hvelfing uppi yfir altarinu, hvar presturinn hefur alleina staðið í, en nú[1]) er víðast aflagt«[2]). Kemur þessi lýsing heim við lýsinguna hjá Birni á Skarðsá, og er bersýnilega hjá báðum átt við apsis. Hvernig þessari apsis hefur að öðru leyti verið varið, verður ekki sagt með neinum rökum, og ekki séð, hvort heldur hún hafi verið lítið hús, bygt út úr kórnum og mjórri enn hann, eða hún hafi einungis lýst sér í því, að austurgafl kirkjunnar væri sveigður. En nærri virðist liggja að halda, að hið síðara hafi átt sér stað á torfkirkjum, svo hlaut gaflinn á þeim að vera mjór. Annars getur apsis varla hafa verið á elztu kirkjunum hér eða fyrstu kristnu öldina, því á kirkjum með engilsaxnesku sniði þektust þær ekki[3]). En Brown, sem er lærður maður á þessi mál, telur að engilsaxneskt snið komi ekki fyrir eptir 1066 að Vilhjálmur Bastarður kemur til Englands[4]).

Hér verður að geta þess, að orðatiltæki í máldaga Kirkjubæjarklausturs frá 1397 leiðir athyglina að kórbyggingarlagi, sem að vísu kemur fyrir í öðrum löndum, en er þó tiltölulega fátítt þar. Í máldaganum segir: »Söngbækur tvennar í hvern kór per anni circulum«[5]). Úti í löndum, sérstaklega á Þýzkalandi[6]), eru til kirkjur, sem ekki er gengið í að vestanverðu, eins og venja er til, heldur er í þeim enda kirkjunnar kór með apsis, stundum jafnstór og samstæður (congruent) við aðalkórinn austanmegin. Er þessi kór optast að innan með sama fyrirkomulagi og austurkórinn, og er hann nefndur vesturkór. Má til dæmis um kirkjur með bæði austur- og vesturkór nefna kirkjuna í Gernrode[7]), klausturkirkjuna í Laach[8]), kirkjuna í Mittelzel í Reichenau (eyjunni auðgu)[9]), dómkirkjuna í Worms[10]), Mikaelskirkjuna[11]) og Guðharðskirkjuna í Hildesheim[12]), Se-

---

1) Þ. e. síðari part 18. aldar. 2) *Æ. J. P.* I, 200. 3) *Omrids* bls. 49. 4) *Arts* II, 288. 5) *D. I.* IV, 238. 6) *Omrids* bls. 50. *Arts* II, 53 ff. *Ferguson* II, 344. 7) *Ferguson* II, 221. 8) *Ibid.* II, 235. 9) *Ibid.* II, 217. 10) *Kugler* II, 455. *Ferguson* II, 227. 11) *Kugler* II, 371, sbr. 239. *Ferguson* II, 227. 12) *Kugler* II, 393.

balduskirkjuna í Nürnberg[1]) og dómkirkjuna í Trier[2]), allar á Þýzkalandi, og er þó alt þar með langt frá talið. Á Englandi eru nú ekki lengur neinar kirkjur uppistandandi með þessum hætti, en eptir lýsingum að dæma hefur þó verið bæði vestur- og austurkór á hinni fornu engilsaxnesku dómkirkju í Kantaraborg[3]). Spurningin er nú, hvort klausturkirkjan í Kirkjubæ hafi verið með þessum ummerkjum — einn kór að austanverðu, annan að vestanverðu. Um ástæðu til þess að kirkjur séu með tveim kórum segir prófessor Dietrichson[4]) að ókunnugt sé, en hann gizkar á að það stafi af því, að kirkjan sé helguð tveimur samstæðum dýrlingum[5]). Dietrichson nefnir á þessum sama stað, að sumar kirkjur í Noregi — og annarsstaðar — séu með tvöföldum kór með tveimur apsidis, eins og t. d. Hallvarðskirkjan í Osló. En við athugun grunnflatarins undir þeirri kirkju[6]) reynast ummæli þessa ágæta höfundar að vísu alveg rétt, en þó að því leyti villandi, að þau gefa manni tilefni til að halda, að um tvo kóra sé að ræða, sem ekki er, heldur er það einn kór þrískiptur og með tveimur apsidis. Þetta lag er afaralgengt um allan heim, og er óhugsandi að þetta hafi í þá daga verið skoðað sem tveir kórar, því ekki hefur altarið verið þar nema eitt. Það getur og ekki hafa verið það fyrirkomulag í Kirkjubæ, því greinilega sést á orðalagi máldagans,

---

1) *Kugler* II, 473. *Ferguson* II, 284. Segir hinn síðarnefndi austurkórinn síðar bygðan, og furðar á því, að kirkjan skuli upprunalega hafa verið bygð öfugt, eins og hann kallar það. 2) *Kugler* II, 306, *Ferguson* II, 222—223. Á þessari kirkju er vesturkórinn þó ábyggilega síðar bygður enn austurkórinn. Geta má hér um tvær tvíkóraðar kirkjur (rústir) suður í Afríku, kirkjuna í Thelepte og uppsprettukirkjuna (baðbasilikan) í Menasborginni. *Kaufmann* bls. 178 sbr. 232. 3) *Arts* II, 261 ff. *Ferguson* II, 344. Ber þeim, eins og vikið verður að síðar, ekki saman um uppruna kóranna. 4) *Omrids* bls. 50. 5) Þ. e. dýrlingum, sem upphefðina hafa hlotið fyrir sama atvik, og hafa sama messudag, tíðir og messusöng, og eru altaf nefndir saman, t. d. Gervasius og Protasius, Cosmas og Damianus, Gorgonius og Firmus o. s. frv. 6) Prentaður hjá *Fett* pl. 19.

að hér er án alls efa átt við tvo aðskilda kóra, og er það enn berara af því, að verið er að sjá hvorum þeirra fyrir nauðsynlegum bókum. Það verður því varla hjá því komist að ætla, að Kirkjubæjarklausturskirkja hafi verið með tveimur kórum, öðrum að austanverðu, en hinum að vestanverðu. Ekki verður auðvelt að leiða sennilegar getur að því, hvernig þetta fátíða byggingarlag hafi hingað komist. Það er þó víst, að ekki er um það að tala, að kirkja þessi hafi getað verið orienteruð, til þess er kristni of ung hér í landi. Sennilegast er að einhverjir Íslendingar hafi séð þvílíkar kirkjur á ferðalögum úti í löndum, og síðan haft út með sér lagið og reist kirkju eptir því. Það mætti hér benda á, að skömmu eptir kristnitökuna lögðu allmargir íslenzkir ferðamenn leið sína um eyjuna auðgu (Reichenau) í Bódenvatni, eins og gestabók klaustursins þar ber með sér [1]). En í Mittelzell, þar sem, eins og getið var um, er kirkja með austur- og vesturkór, lá einmitt klaustur þetta [2]), og var kirkjan bygð og stóð þar áður enn kristni var lögtekin hér. Hafa því þeir íslenzku ferðamenn, sem lögðu leið sína um eyna, hlotið að sjá kirkjuna. Það er vitanlega engan veginn gefið, að þetta hafi orðið til þess að slík kirkja væri bygð hér, en mögulegt er það, og jafnvel ekki alveg ólíklegt, því svo eru þessar kirkjur fáar að ekki er sennilegt, að íslenzkir ferðamenn hafi opt rekist á þær annarsstaðar en þarna. Orðatiltæki í máldaga Þykkvabæjarklausturs frá 1523 gætu og bent til þess, að kirkjan þar hafi einnig verið með bæði austur- og vesturkór; þar segir: »Item svo mörg líkneski í kórnum« [3]), og síðar í sama máldaga: »Item lítil brík uppi á Maríukór með alabastur« [4]). Maríukór sýnist hér beinlínis vera notað í mótsetningu við kór á fyrri staðnum, og er varla líklegt eptir þátíðarmálvenju að átt sé við Maríustúku. Enda er það einmitt ekki ósennilegt, að tvær kirkjur jafn mætar og

1) *D. I.* I, 170—172. 2) *Kugler* II, 488. 3) *D. I.* IX, 190. 4) *D. I.* IX, 191.

stórar og þessar, og jafn nærri hver annari, myndu af metnaði hafa stælt hvor aðra í því, sem markvert þókti, og þá einnig í þessu. Það verður að telja víst, að Kirkjubæjarkirkja hafi verið með bæði austur- og vesturkór, og það er eptir málavöxtum lítil ástæða til að efast um, að eins hafi verið um Þykkvabæjarkirkju.

Þó að það ekki beinlínis komi þessu máli við, er ekki ófróðlegt að athuga uppruna þessa einkennilega byggingarlags, og skal það tekið fram, að sá, er þetta ritar, er Dietrichson gjörsamlega ósammála um tilgátu hans þessu máli viðvíkjandi, og var hennar getið fyrir skemstu. Svo er mál vaxið, að sé kirkja helguð tveimur samstæðum dýrlingum, hefur frá öndverðu verið siður, og er enn, að helga háaltarið báðum [1]), og hefur það ekki valdið erfiðleikum fremur enn það, að kirkjan væri nefnd eptir báðum, sem alsiða var og er. Stundum var, og er enn siður að helga háaltarið engum — nema auðvitað guði —, og nafndýrlingum hvorum sitt útaltarið, á sama hátt og venja er til að helga hinum öðrum verndurum kirkjunnar hvorum sitt útaltarið, ef ástæður leyfa. En þó að það vitanlega gæti komið fyrir, að tveim samstæðum dýrlingum væri helgað sitt altarið hvorum, og þá eins þó annað altarið væri háaltarið og hitt á vesturkór, því þess eru dæmi, er það engin skýring á fyrirbrigðinu, og er réttu skýringuna áreiðanlega annarsstaðar að finna. Eins og kunnugt er og drepið hefur verið á, lágu kirkjur optast og liggja enn í austur og vestur, og er það fyrir þá sök, að musterið í Jerúsalem sneri í þessar áttir, og var helgidómurinn í vesturendanum og dyrnar í austurendanum [2]). Var skipun kirkna á fyrstu öldum kristninnar hin sama,

1) Að ekki hafi verið ótítt í Noregi að helga sama altari fleirum enn einum, og það ósamstæðum dýrlingum, sést á því að altarið, sem var í suðurstúku þverhússins í Þrándheimsdómkirkju, hafði Eysteinn erkibiskup vígt »vorum herra Jesu Kristi og hinum blessaða Jóni baptista, Vincentio pízlarvotti og Sylvestro til dýrðar«. *Krefling* bls 13. *Fett* bls. 43. 2) *Omrids* bls. 14.

altarið og kórinn voru í vesturendanum og dyrnar að austanverðu. Það hefur frá öndverðu verið siður í kristni að presturinn snúi sér til austurs (upprennandi sólar, Jerúsalem), þegar hann biðst fyrir opinberlega, og er svo enn. Fyrir þá sök stóð presturinn, meðan kórinn enn var að vestanverðu, fyrir aptan altarið, milli kórgafls og altaris, svo að altarið var milli hans og safnaðarins, og sneri hann sér þá bæði að söfnuðinum og í austur[1]). Enn í dag eru til afarfornar kirkjur bæði í Róm og Afríku, sem eru með kórinn að vestanverðu, t. d. Laterankirkjan (Basilica Sancti Joannis in Laterano), kirkjan í Announa í Algier[2]), Péturskirkjan (Basilica Sancti Petri in Vaticano)[3]) o. fl.[4]). En eptir daga Konstantins keisara var farið að hafa róðukross á ölturunum, og skygði hann á prestinn. Var þá til þess ráðs gripið, að flytja prestinn fram fyrir altarið, og láta róðuna standa uppi á stalli, svo hana bæri yfir prestinn. Stallur þessi (retabulum) er uppruni altaristöflunnar eins og vér þekkjum hana. Af þessu leiddi að presturinn, þegar altarið nú var fyrir vestan hann, sneri sér til vesturs þegar hann baðst fyrir, þvert ofan í það, sem vera átti. Var þá það til bragðs tekið, svo að þetta leiðréttist, að hafa kórinn framvegis austan á kirkjunum, og var þar með alt komið í samt lag. Þessi breyting, sem nefnd er »orientatio« var gjörð á dögum Boni-

---

1) Víða sýna fornar myndir þetta fyrirkomulag. T. d. er á keisaradalmatíkunni í Róm, svonefndri dalmatíku Leos III, sýnd mynd af Kristi, sem stendur fyrir aptan altari og gefur lærisveinum sínum kvöldmáltíðina (*Bock* II, 202, III, Tafel VII). Ekki ber fræðimönnum saman um aldur dalmatíkunnar. Bock heldur hana frá lokum 12. aldar eða byrjum 13., en Boisserée heldur hana frá 8. öld, og sýnist þessi mynd óneitanlega benda í þá áttina. 2) *Ferguson* I, 509. 3) *Ferguson* History of modern styles I, 83. Stafar það, að því er til Péturskirkjunnar kemur, af því að Péturskirkjan gamla hefur verið bygð svo. 4) Hæglega gæti það vilt menn, að opt sjást í stórborgum kirkjur, sem ekki snúa í réttar áttir, en optast stafar það af því, að lóðarrými hefur verið svo háttað, þar sem kirkjan var bygð, að ekki hefur verið hægt að koma henni rétt fyrir.

faciusar páfa I. (418—422)[1]. Nýjar kirkjur voru upp frá því með kórinn austan megin. En hvað varð um gömlu kirkjurnar með vesturkórinn? Því sýnist meiga halda fram, ekki eingöngu sem sennilegri og hugsunarréttri skýringu, heldur líka sem fullum sannindum, að menn hafi ekki eingöngu látið sér það lynda, að nýjar kirkjur væru bygðar með kórinn austanmegin, heldur hafi hin breytta innri skipun kirknanna knúið menn til að gjöra samsvarandi breytingar á hinum gömlu kirkjum, og byggja nýjan kór við austurendann, svo kirkjan svaraði kröfum tímans. Hefur þá stundum vesturkórinn verið rifinn, en stundum verið látinn standa, og þar með verið komnar kirkjur með bæði austur- og vesturkór. Vitanlega eru til kirkjur, sem frá upphafi vega sinna eru bygðar með bæði austur- og vesturkór, sýnir það glögglega klaustur- og kirkjuuppdráttur sá frá 9. öld, sem hinn frægi franski fornfræðingur Mabillon fann í bókasafni klaustursins í St. Gallen um miðja 17. öld. Er á þeim uppdrætti sýnd kirkja með bæði austur- og vesturkór, og er uppdrátturinn uppkast eitt, sem menn ætla að aldrei hafi verið farið eptir[2]. En kirkjur þær, sem frá öndverðu eru með austur- og vesturkór, eru allar svo ungar (flestar frá 9. öld), að næst liggur að ætla, að þær séu stælingar á orienteruðum kirkjum, sem haldið hafi vesturkór eptir að austurkór var á þær settur, og að byggingarmeisturum hafi þókt þetta gjöra skemtileg svipbrigði á kirkjuhúsin, sem ekki heldur verður neitað. Þessi skoðun er auðsýnilega sennilegri heldur enn tilgáta Dietrichsons, og eins styðst hún við ýms rök, er nú skal greina. Í vesturgafli kirkjunnar í Lydd í Kent á Englandi, sem nú er með austurkór einum saman, hafa fyrir fáum árum fundist menjar eptir kórdyr, og er því álitið að þeim megin hafi fyrrum kór verið[3]). Hlýtur vesturkórinn því að hafa verið rifinn þegar austurkórinn var settur. Nefnir

1) *Omrids* bls. 14. 2) Um uppdrátt þennan sjá *Ferguson* II, 213—217. 3) *Arts* II, 245.

Brown þetta í sambandi við kirkjuna í Silchester, sem áður var með vesturkór, og hina fornu dómkirkju í Kantaraborg, sem bæði var með vestur- og austurkór, og má af orðum hans ráða, að hann setur vesturkórinn á þeirri kirkju í samband við orientatio hennar. Á öðrum stað[1]) leiðir Brown óyggjandi rök að því, að eystri kórinn á hinni fornu engilsaxnesku dómkirkju í Kantaraborg hafi verið ýngri heldur enn vesturkórinn, og sannar það fyllilega að kirkjan hefur orðið tvíkóruð af því að hún var orienteruð, enda vísar Brown um leið til þess, sem hann hefur sagt um kirkjuna í Lydd. Þó að hann þarna tæpi á því, virðist hann samt ekki hafa áræTt að staðhæfa það, að austur- og vesturkórar á sömu kirkju ættu rót sína að rekja til orientationar[2]). En því fer svo fjærri, að austraðar (orienteraðar) kirkjur þekkist hvergi nema á Englandi og Þýzkalandi, t. d. er sunnan úr Afriku ágætt dæmi, þar sem er kirkjurústin í Orleansville í Algier. Var kirkjan kend við hinn sæla Repartus biskup[3]) (Basilica de Repartus), og var hún bygð árið 252 eptir Krist[4]), Kirkjan er með austur- og vesturkór, og stendur svo vel á, að menn vita hér um bil nær austurkórinn kom til sögunnar. Repartus biskup dó 403, og var skömmu síðar tekinn í dýrlingatölu, og austurkórinn bygður um leið, og var helgur dómur hans settur upp þar á háaltarið, eins og enn er gjört. Nú eru kirkjur orienteraðar á dögum Bonifaciusar I. páfa, eða á árabilinu 413—422, og verður því ekki

1) *Arts* II, 261—262. 2) Hinum ágætu fræðimönnum Brown og Ferguson ber ekki saman um kórana á dómkirkjunni fornu í Kantaraborg; Brown segir vesturkórinn eldri og rökstyður það, en Ferguson slær því órökstutt fram, að kórarnir séu jafngamlir, og verður því að trúa Brown. En í því eru þeir samtaka að hafa ekki veitt uppruna tvíkóraðra kirkna eptirtekt, þó Brown reyndar virðist finna það hálfgjört á sér, án þess beint að setja það fram. Stafar þetta af því, að það hefur verið ríkt í þeim að fyrirbrigðið væri hreint byggingarlegs eðlis, en ekki, eins og það í raun og veru er, litúrgisks eðlis. 3) Þessi dýrlingur finst ekki í dýrlingaskrá kirkjunnar (Martyrologium). 4) *Kugler* I, 372—373. *Ferguson* I, 509—510.

betur séð, en að þetta beri upp á sama tíma, og sýnist það taka af tvímælin um það, að þessi kirkja er með bæði austur- og vesturkór einmitt af því, að hún hefur verið orienteruð. Annað dæmi tvíkóraðrar, orienteraðrar kirkju úr Afríku mætti nefna, þar sem er kirkjan í hinu forna Hermonþis á Egyptalandi[1]). Skýring sú, sem hér er gjörð um austur- og vesturkór, virðist vera bæði nægileg og ekki ósennileg, og verður ekki sagt hið sama um getgátu hins ágæta fræðimanns Dietrichsons.

Þess er víða minst, að kirkjur hér á landi hafi verið með stöpli[2]) bæði á biskupsstólunum og annarsstaðar. Hefur það verið tekið fram, að stöplar séu óhugsandi nema á trékirkjum vegna þess, að burðarmagn torfkirkna leyfi varla slíkt. Auk dómkirknanna þekkja menn aðeins eptirfarandi 8 kirkjur, sem hafa verið með stöpli:

Grenjaðarstaður[3]).
Grýtubakki[4]).
Hrafnagil[5]).
Kirkjubær á Síðu[6]).
Möðruvellir í Eyjafirði[7]).
Reynistaður[8]).
Þingeyrar[9]).
Þykkvibær í Veri[10]),

en vitanlega hljóta fleiri að hafa verið stöplarnir hér á landi, þó að ekki séu heimildir fyrir þeim.

Það er ekki að furða, þó hvergi sé beinlínis lýst gerð þessara stöpla. En þó er hægt að slá því föstu, að stöplar á þeim kirkjum, sem voru stafbygðar, væri á þeim nokkur stöpull, hafa verið með sama lagi og kirkjustöplarnir í Aardal og Rinde í Noregi[11]). Var stöpulfóturinn á þeim opinn að neðan, og í laginu sem

1) *Ferguson* I, 510. *Kaufmann* bls. 178. 2) Dietrichson heldur því fram í *Omrids* bls. 47 að stöpull og klukknáhús sé sama. Þetta er rángt, stöpull er turn áfastur kirkjunni, en klukknahús er sérstakt hús alveg fráskilið henni. 3) *D. I.* III, 581, 709, IV. 21. 4) *D. I.* III, 570. 5) *D. I.* V, 315, IX, 332. 6) *Sturl.* II, 113. 7) *D. I.* III, 517. 8) *D. I.* IV, 343. 9) *D. I.* III, 185. 10) *I. A.* bls. 488. 11) *Fett* bls. 28.

kvaðrat, og höfðu undirstokkarnir sömu lengd og kirkjan var breið. Stólparnir voru innbyrðis styrktir með ýmsum böndum, hnjám, bogum, söksum og þverslám[1]. Á stokkkirkjum verður að gjöra ráð fyrir að stöpullinn hafi verið með sömu gerð og stöplar enskra trékirkna, og verður um það að halda sér að kirkjustöplinum í Greenstead[2].

Gerðin á turni dómkirkjunnar í Skálholti virðist benda einhliða í áttina til Greensteadlagsins; það segir sem sé beinlínis, að reist hafi verið upp tvítug tré, og úr þeim smíðaður stöpullinn[3]. Svo virðist[4] sem uppi í stöplinum hafi verið sérstök kirkja (Þorlákskirkja) á efra lopti, og er henni lýst svo sem hún muni hafa verið einkar prýðileg, og ekkert til hennar sparað í neinu. Slíkir loptsklefar í kirkjuturnum koma fyrir bæði á Englandi og Þýzkalandi, en ekki er þarlendum fræðimönnum kunnugt um til hvers þeir hafi verið notaðir[5]. Það virðist því svo sem loptsherbergið í Skálholtsdómkirkjustöpli veiti skýringuna, og þeir hafi verið smákirkjur — kapellur. Eru slíkar stöpulkirkjur eða kapellur ekki með öllu óalgengar á Suðurlöndum; t. d. er uppi yfir fordyri sjálfrar Péturskirkjunnar í Róm heil kirkja, svo nefnd »Beatifictionsaula«. Einnig þekkjast dæmi þeirra úr Noregi, þar sem dómkirkjurnar í Þrándheimi og Hamri (hin síðarnefnda nú rúst) voru með slíkum kapellum[6]. Þessar tvær norsku kirkjur eru taldar mjög keimlíkar enskum kirkjum að allri gerð, og beinlínis bygðar eptir ensku sniði. Líkingin með engilsaxneskum kirkjum og Skálholtsdómkirkju um þetta atriði virðist sem annað benda á, að fyrirmyndirnar fyrir íslenzkum kirkjum sé að finna á Bretlandseyjum.

Um kapellur og stúkur á íslenzkum kirkjum er það að segja, að með þessum orðum mun ekki hafa verið átt við sama. Kapella virðist merkja útbyggingu

---

1) *Fett* ibid. sbr. myndina bls. 29. 2) *Arts* II, 40 ff. 3) *B. S.* I, 132. 4) *Ibid.* 5) *Arts* II, 173. 6) *Fett* bls. 43. *Omrids* bls. 47.

úr kirkjunni, sem aðskilin er frá henni með vegg og dyrum. Hafði hún eptir því þrjá sjálfstæða veggi og einn sameiginlegan við kirkjuna. Stúka aptur á móti virðist merkja útbyggingu úr kirkjunni, sem vissi alopin inn í hana. Hafði hún þrjá sjálfstæða veggi, en engan fjórða vegg, þann er að kirkjunni hefði átt að vita. En hins vegar leikur enginn efi á því, að stúka og kapella merkir ekki neinn stærðarmun á útbyggingum með sama sniði, eins og mætti gjöra sér í hugarlund. Ekki getur á því leikið neinn vafi, að með þessum orðum báðum er átt við allstórar útbyggingar úr kirkjunum. Er það bæði í samræmi við skilning þann, sem alment er lagður í orðin nú, enda sést það á nokkrum stöðum beinlínis að svo hefur verið. Á Hólum er kirkjan t. d. sögð 19 álna breið, en 35 álna um stúkurnar[1]). Hefur hver stúka þar eptir þessu verið 8 álna löng bygging út frá kirkjunni (8 álnir á dýpt). Það verður því ekki fallist á, að skot þau, er Fett sýnir myndir af í riti sínu[2]), séu af stúkum í hinum eiginlega skilningi orðsins, eins og hann vill vera láta[3]). Það er skot, sem að vísu eru ætluð undir ölturu, enda virðist það einmitt vera eina ástæðan, sem Fett hefur haft til að kalla þau stúkur. Þess hefur hann ekki gætt, að ölturu (útölturu) hafa hvorki fyr né síðar þurft að standa í stúkum, heldur hafa þau frá fyrstu byrjun staðið bæði í stúkum, laus, með veggjum fram, upp við súlur, eða þá í skotum (»nische«) út úr kirkjunni, alt eptir því sem verkast vildi. Fæstar kirkjur hafa þó verið svo efnum búnar, að þær væru með stúkum, og voru því síðastnefndu aðferðirnar langalgengastar. Þessi og þvílík skot eru nefnd »nische«, altaris-»nische« á erlendu máli. Þegar Fett tekur skotið út úr Tanum kirkju á Brunlanesi sem dæmi þess, »hvor udbyggningen ofte blir markeret«[4]), þá verður að segja, að hver, sem á myndina lítur, getur séð, að útbyggingin er svo lítil, að hún má

1) *D. I.* V, 358. Sbr. og næsta kafla hér á eptir. 2) *Fett* fig. 111 og 113. 3) *Ibid.* 4) *Fett* l. c.

ekki minni vera, til þess að eptir henni verði tekið. Að höfundurinn skuli blanda saman altarisskotum og stúkum er því undarlegra, sem hann nefnir stúkur og altarisskot á sömu blaðsíðu í bók sinni[1]). Þótt Hólakirkja væri dómkirkja og bygð með slíkra kirkna sniði, var hún þó með þeim minstu, og minni en mörg sveita- og kaupstaðarkirkja í öðrum löndum bæði fyr og nú. Það virðist því ekki ósennilegt, að stúkurnar á henni hafi verið með minna móti. Ekki er því heldur ósanngjarnt að ætla, að þær útbyggingar úr kirkjum, sem verið hafi nokkuð verulega minni, hafi ekki verið nefndar stúkur[2]), og verða þar með ummæli Fetts að reyk[3]). Að stúka og kapella sé í íslenzku ekki samnefni á samskonar útbyggingum úr kirkjum, virðist ennfremur augljóst af því, að um sumar kirkjur er sagt, að þær hafi bæði stúku og kapellu. T. d. hafði Hóladómkirkja auk þriggja stúkna eina svonefna biskups-

---

1) Þess skal hér getið, að Fett hefur frá ýmsum hliðum sætt allþungum dómum fyrir rit það, er hér er þráfaldlega vitnað í. Má t. d. nefna mjög harða ádrepu í ritgjörð eptir Olaf Kolsrud um »Velkenhornet« — íslenzkt drykkjarhorn, sem mikið skrif og skraf hefur orðið út úr í norskum fræðitimaritum —, sem prentuð er í »Kristiania Kunstindustrimuseums Aarsberetning« árið 1911, og er nokkuð tannhvassari en hér á landi tíðkast um slík skrif. Þó að allvíða kenni samskonar flausturs í ritinu eins og þess, sem hér hefur verið bent á, og því verði að nota það með nokkurri gætni, er ritið engu að síður í mörgum greinum hið ágætasta. 2) Í orðabók Fritzners er undir stúlka sagt, að það sé samnefni við stúka; hefur hann fyrir þessu 3 tilvitnanir, og er hin síðasta röng (Dipl. Norv. V, nr. 137), bréfið annars efnis, og orðið kemur þar ekki fyrir. Skýring Fritzners á orðinu er algjörlega röng, sýnir önnur tilvitnunin það glögglega (Jarðabók Eysteins erkib. bls. 193): »Maríualtari, er stulkan kallast«. Dregur altarið bersýnilega nafn af Maríu mey, og er því kallað stúlkan, en á ekkert skylt við orðið stúka. Hin tilvitnunin verður og eðlilegast skilin á sama veg. Hér er því um hreina og beina meinloku hjá orðabókarhöf. að ræða. 3) Því til sönnunar má alment vísa í máldagana í *D. I.* Gripafjöldi sá, sem þar er sumstaðar sagður geymdur í stúkunum, er svo mikill, að ekki getur um nein smáskot hafa verið að ræða.

kapellu[1]), og sést það beinlínis að hún var áföst við kirkjuna, en ekki sérstakt frálaust hús[2]). Á Möðruvöllum voru tvær stúkur og kapella[3]), og mundi varla svo til orða tekið, ef bæði heitin merktu eitt og sama. Virðist um þetta atriði því ekki þurfa frekar vitna við. Víst er það og, að orðið kapella hefur í íslenzku máli verið notað í merkingunni bænhús, t. d. »eign jómfrú Maríu og kapellunnar í Eyvindarmúla«[4]), og styður það óneitanlega þá skilgreining, sem hér hefur verið gjörð á stúku og kapellu. Þess eru dæmi, að á stúkum væru sérstakar dyr út undir bert lopt: »Lík Brands var fært til Staðar ok þar jarðat fyrir sunnan kirkju við sönghúsit fyrir stúkudurum«, segir í Sturlungu[5]). Annars komu stúkur ekki eingöngu fyrir á stærstu kirkjum landsins; svo var t. d. stúka á kirkjunni á Eiðum, sem þó var ekki talin nein höfuðkirkja[6]).

Sumar kirkjur höfðu skrúðhús, en ekki virðast það hafa verið nema hinar allra stærstu kirkjur, dómkirkjur og klausturkirkjur. Hvergi þekkjast með vissu skrúðhús nema á Hólum[7]), í Skálholti[8]) og á Munkaþverá[9]). En allstór sýnast þau hafa verið, því á öllum þessum stöðum voru þau notuð sem nokkurskonar samkomu- og fundarsalur, og á Hólum er það jafnvel lítil kirkja með altari[10]).

Um grunnflöt íslenzkra kirkna á miðöldum verður, að því er stafkirkjur snertir, að vísa til þess, sem segir í erlendum (norskum) fræðiritum um þá kirkjugerð og ætla, að það hafi í öllu verulegu átt við íslenzkar stafkirkjur. Um hinar trékirkjurnar verður að vísa til þeirra fræðirita, er fjalla um írskar og enskar kirkjur, og ætla að það, sem sagt er um þarlendar kirkjur frá söguöldinni (karolingisk-byzantinsk-ravenna-

---

1) *B. S.* II, 320, sbr. *D. I.* IX, 295. 2) Sambandið, sem orðið er í á þeim stað, sem vitnað var til, sýnir þetta glögglega. 3) *D. I.* IX, 305. 4) *D. I.* IX, 649. 5) *Sturl.* II, 98. 6) *D. I.* IX, 186. 7) *D. I.* III, 288 og víðar. Um það sjá næsta kafla. 8) *D. I.* V, 527 og víðar. 9) *D. I.* V, 449, 528, IX, 305. 10) *D. I.* III, 391. *B. S.* I, 874, sbr. 914.

tiskar), eigi við hér, og eins til þess, sem ritað hefur verið um kirkjuna í Greenstead (sbr. heimildaskrána). Grunnflöturinn undir kirkjunni á Esjubergi virðist vera af ákveðnum írskum uppruna. Og bæði kirkjugrunnurinn á Hraunþúfuklaustri og grunnur Hóladómkirkju, eins og verður að ætla að hann hafi verið, sýnast líka eiga rót sína að rekja til Bretlandseyja.

Hvað sniði (stíl) kirknanna viðvíkur, verða ekki dregnar ályktanir nema af þeim fáu kirkjugrunnflötum, sem menn þekkja frá íslenzkum miðöldum — önnur gögn þekkjast lítið, þó að eitthvað mætti ef til vill ráða af sniði þeirra gripa, sem kirkjurnar hafa átt og enn eru til, og af leifum útskorinna og skreyttra (oruamenteraðra) kirkjuviða. Af þessum forsendum verður ekki ráðið annað en að sniðið hafi verið *rómanskt*, með þeim af- og tilbrigðum, sem það snið hafði á Írlandi og brezku eyjunum (byzantínsk-ravennatiskt snið), og svo að það var frumrómanskt (frühromantisch), sem sést á því, hve nálægt grunnfletirnir eru því, að vera jafn breiðir og þeir eru langir, enda var þess að vænta, þar sem byzantínsk-ravennatiska sniðið er frumrómanskt. Síðrómanskt snið (spätromantik), rómanskt-gotneskt mótasnið (Übergangsstil) og frumgotneskt snið kemur þó fyrir hér á landi, svo er t. d. Hóladómkirkja með einhverju af þessum sniðum. Það er vitanlega mjög erfitt að greina snið húsanna með vissu á grunnflötum einum, sérstaklega á þeim tímum, sem ný snið eru að ryðja sér til rúms, og blandast jafnvel í sömu húsum við forna sniðið, svo að sumt af húsinu er með aðalkeim sinn af öðru sniðinu, en sumt af hinu, og ræður þá væntanlega kylfa kasti um það, með hverju sniðinu grunnflöturinn verður. Ef álykta mætti af því að gripir Þjóðminjasafnsins bera þess ljósan vott, að frumgotneskt snið hafi verið farið að ryðja sér fast til rúms á kirkjugripum og kirkjufötum fyrir siðaskiptin, ætti að mega halda, að þetta snið hefði líka verið farið að gjöra greinilega vart við sig í sjálfum kirkjubyggingunum víðar en á Hóladómkirkju. En bæði er varlega farandi eptir

slíku, og eins er það, að á kirkjuhúsunum hefur gotneska sniðsins lítið getað gætt, og er sú ástæða til þess ærin nóg að hvorttveggja byggingarefnið, sem hér var notað, timbrið og torfið, var lítt hæft fyrir það snið með þeim einföldu aðferðum, er þá voru hafðar[1]), og sízt af öllu hæft til að sýna glögt aðaleinkenni sniðsins, teygjuna og stoðakerfið (Stræbesystemet). Hús úr þessum efnum hljóta nefnilega óhjákvæmilega að verða lágkúruleg, og er það alveg ósamrímanlegt við gotneskt snið. Því verður og ekki neitað, að hugsanlegt er að renaissancesnið hafi gjört vart við sig eitthvað hér á landi fyrir siðaskiptin, og er jafnvel nokkur ástæða til að ætla það. Dietrichson gefur það í skyn á einum stað, að um sama leyti sem renaissancesnið var tíðkanlegast úti í löndum, hafi hin fagra stafkirkjugerð lagst niður í

---

1) Í ágætu litlu ritkorni um það, hvernig Íslendingar framvegis eigi að haga byggingum, eptir A. J. Raavad, danskan byggingameistara, sem heitir »Islandsk Arkitektur«, og »Dansk-islandsk Samfund« hefur prentað í Kaupmannahöfn 1918 segir bls. 3 sbr. bls. 15: »Bæði í grunnmynd og hinu ytra sniði torfkirkjunnar og hins gamla íslenzka bæjar eru fyrirmyndir gotnesks uppruna og eðlis«. Þessi orð gjörir prófessor Guðm. Hannesson í dómi um ritið í 92. árg. Skírnis (bls. 277) að sínum orðum. Báðir þessir menn eru sjálfsagt vel að sér um nútíðar byggingar»teknik« og kannske smekkvísir, en hafa varla athugað nægilega íslenzk hús og kirkjur, því þessi ummæli hafa við ekkert að styðjast, og geta ekki stafað af öðru en ónógri athugun. Íslenžk torfhús og torfkirkjur eru með rómönsku sniði, að svo miklu leyti sem sniðs gætir, og sést það greinilega á byggingunum, séu þær gaumgæfilega athugaðar; sérstaklega sverja grunnfletirnir sig í ættina. Söguleg rannsókn tekur auk þess af allan efa, en hana hefur hvorugur þessara manna gjört. Það er vitaskuld ýmislegt í útliti torfbygginga, sem, ef fljótt er á litið, villir hugann að gotnesku sniði. Það er eins og með stafkirkjurnar norsku, sem eru svo bygðar, að auðvelt er, ef þær eru flausturslega athugaðar sérstaklega að utan, að komast að þeirri niðurstöðu að þær séu gotneskar, en nánari rannsókn sýnir tafarlaust að þær séu rómanskar. Misskilningurinn hefur orðið til þess, að Raavad hefur gjört uppkast að gotneskri torfkirkju, og er hún ljómandi falleg. Sýnir það, að nýtast má við torfið til margs, ef vel er á haldið.

Noregi, og farið að tíðkast einkar óbrotnar stokkkirkjur með láréttum stokkum, og sýnist helzt svo sem hann ætli, að renaissancestefnunni sé um að kenna[1]). Stefna sú fór fyrst að breiðast út frá Ítalíu, þaðan sem hún er runnin um 1500, þó hún hafi reyndar aðeins farið að gjöra vart við sig þar í lok 14. aldar. Fellur þetta nokkuð saman við það, að Jón prestur, síðar biskup, Arason, eins og áður er um getið, sækir við til Noregs í kirkju, sem reist var við Kolbeinsárós, og marg hefur verið minst á hér. Var sú kirkja einmitt bygð með því lagi, sem Dietrichson nefnir. Ætti hún því, ef ummæli hans hafa við rök að styðjast, að geta verið undan rifjum renaissancestefnunnar runnin.

Út í listagildi íslenzkra kirkna fyrir siðaskiptin skal hér ekki farið, enda er um það eptir litlu — nánast engu — að fara. Nokkrar útskornar kirkjustoðir, ein kirkjuhurð og annað þvíumlíkt ber þess greinilegan vott, að menn í þá daga hafi ráðið fyllilega við ornamentíkina, og það jafnvel fult eins vel og menn gjöra nú. En ekkert segja þessir hlutir manni um það, hvort menn í þá daga hafi kunnað að nota fleti og línur, er hús voru bygð, svo að úr því yrði listaverk. Og vitanlega var, og er enn, hægt að skapa listaverk úr bæði torfi og timbri, þó að það sé ólíkt léttara að skapa það úr steini. Eins og sjá má síðar í þessum kafla hefur t. d. verið reynt að nota torfveggina kirkjunni til prýði (mannsandlitið í kirkjuveggnum í Hítardal). En tilgangurinn með þeirri tilraun getur ekki hafa verið annar en sá, að skýla því með ornamentík, hve veggirnir voru listarsnauðir, en ekki hitt, að nota sjálfar línurnar í húsinu og fletina til þess, að prýða það án hjálpar ornamentíkurinnar. Það verður því að telja sennilegast, að listartilþrifin í þessum byggingum hafi komið fram í ornamentík einni. Ef húsin sjálf hefðu verið listaverk, myndu fleiri af þeim, þrátt fyrir hið haldlitla efni og hina illu meðferð, hafa varðveizt fram á vora daga,

1) *Omrids* bls. 75.

eða að minsta kosti geymst um þau munnmæli eða frásagnir.

Um *torfkirkjur* er nokkuð öðru máli að gegna en timburkirkjur. Þekkingin um þær er meiri, því bæði hefur það byggingarlag haldist fram á vorn dag nokkuð óbreytt; eins er enn uppistandandi ein torfkirkja úr kaþólskum sið, og sömuleiðis er til nokkuð greinileg lýsing á þeim í hinum gömlu íslenzku hómilíubókum. Verkefnið er því bæði fjölbreyttara og betra.

Önnur hómilíubókanna, svonefnd Stokkhólmshómilíubók, er af fræðimönnum talin íslenzk og af sumum yngri[1]) en hin svonefnda norska hómilíubók, sem af sumum er talin norsk og eldri[2]). Það skal tekið fram, að ákvörðun á aldri og máleinkennum þessara tveggja bóka er gjörð af nafntoguðum fræðimönnum. Hvað viðvíkur aldurseinkennunum, er aldursmunurinn að dómi útgefendanna svo lítill, að vel getur verið að hann sé í raun réttri enginn, eða að jafnvel sú bókin, sem sumir telja yngri, sé í raun og veru elzt og þar fram eptir götunum. Slíkar ákvarðanir geta aldrei verið hárnákvæmar, og einmitt svona ónákvæmar eru þær alloptast, sérstaklega þegar litlu munar, þó að þær í öllu verulegu séu ábyggilegar. Er þetta tekið fram af því, að aldursákvörðunin gæti orðið til þess að villa menn um uppruna ritanna, svo að menn héldu, að það, sem sameiginlegt er með báðum, væri frumsamið eða frumþýtt í landi því, sem handrit það, sem eldra er haldið, er talið runnið frá. En svo þarf ekki að vera, og. er ekki að þessu sinni. Það er að vísu alveg efalaust, að Stokkhólmsbókin er á íslenzku máli, en hin svonefnda norska hómilíubók rituð með norskum rit-

1) Wisén útgefandi hennar telur hana vera frá lokum 12. aldar eða um 1200. Hefur hann það eptir Jóni Sigurðssyni, að hún sé frá því um 1150, en vill ekki fallast á þá skoðun. Sjá *Hóm. I*, ij. 2) Segir útgefandinn hana vafalaust norska og frá lokum 12. aldar. Sjá *Hóm. II*, III. Hér ber því svo lítið á milli um aldur, að manni verður að efa, hvort yfir höfuð sé hægt að segja með nokkurri vissu hvor bókin sé eldri.

hætti, en það sannar alls ekki neitt, hvað sem aldrinum líður. Nægir um það efni að vísa til hinnar ágætu ritgjörðar Jóns Þorkelssonar rektors »Um Fagrskinnu og Ólafs sögu helga«[1]) Hefur hann í upphafi þeirrar ritgjörðar gjört hina ofsafengnu áfergju norskra fræðimanna í að draga þjóð sinni íslenzkar fornbókmentir hæfileg skil, og meðal annars sýnt, hve ritháttur og ritstaður handrita í því tilliti er gjörsamlega þýðingarlaus. Í formálanum fyrir norsku hómilíubókinni ber afarmikið á viðleitni til að draga Norðmönnum hómilíurnar, og byggist sú viðleitni aðallega á einmitt samskonar rökum, sem Jón Þorkelsson í ritgjörð sinni hefur sýnt fram á að séu allajafna þýðingarlaus. En útgáfuaðferð sinni má útgefandi norsku hómilíubókarinnar svo um kenna, að nú er beinlínis af innra manni (innri criteria) ritsins hægt að sanna, að staðhæfingar hans um uppruna bókarinnar eru gjörsamlega rangar, og að hún er af Íslandi runnin þrátt fyrir allan norskan rithátt, eins og yfir höfuð blóminn og meginið af norrænum bókmentum, og skal nú sýnt hvernig þessu er varið.

Um útgáfur beggja bókanna, sem frá málfræðilegu og »palæographisku« sjónarmiði sjálfsagt eru vel af hendi leystar, verður ekki annað sagt, en að þær séu gjörðar með hinu stakasta skilningsleysi á hinu menningarsögulega gildi þeirra, enda draga útgefendurnir enga dul á, að þeir hafi einblínt á hið málfræðilega gildi þeirra, og ekki einusinni álitið það ómaksins vert, að leita uppi hin erlendu frumrit að hinum þýddu köflum, sem þó var sjálfsagt[2]). Útgáfurnar eru því ekki nema hálf verk. Hafa útgefendurnir með þessari þröngsýni sinni girt fyrir það, að fyrsta kastið komi af þeim fullkomnar útgáfur, þar sem reynt sé að nýta ritin allri fræði, er þau ná til, en ekki málfræði einni. En svona einstrengingslega eru því miður öll fornrit vor útgefin,

---

1) *Safn* I, 137—184. 2) Sjá *Hóm.* I, xvij. Leifar síra Þorvalds á Mel, sem hafa orðið að sæta ærið þungum dómum, eru að þessu leyti fullkomnari.

af því að málfræðingar einir hafa fjallað um. Af þessari ástæðu hefur útgefanda norsku hómilíubókarinnar orðið það á, að segja rangt til um hvaðan bókin sé runnin. Hefði hann athugað menningarsögulegu hliðina, hefði það ekki átt að geta komið fyrir hann.

Í íslenzku hómilíubókinni (Stokkhólmshómilíubókinni) er ræða á kirkjuvígsludag (in dedicatione ecclæsiæ)[1], kölluð »kirkjudagsmál«, og í norsku hómilíubókinni er kafli »in dedicatione templi sermo«, sem með afarlitlum mun er svo að segja orði til orðs samhljóða kaflanum í íslenzku bókinni[2]). Brot af kirkjudagsmálum þessum er einnig prentað í »Leifar fornra kristinna fræða íslenzkra«[3]). Í ræðunni er allnákvæm *lýsing á íslenzkri torfkirkju*. Þar eð torfkirkjur tíðkuðust ekki í Noregi, hlýtur hér að vera um frumsamda lýsingu á íslenzkri 12.—13. aldar torfkirkju að ræða, og ræðan í norsku hómilíubókinni hlýtur að vera íslenzk, og þar af leiðir að *öll svonefnda norska hómilíubókin hlýtur að vera íslenzk, en ekki norsk.* Þó að ræðan sé hér kölluð frumsamin íslenzk, skal þó ekki fortekið, að hún kunni að vera þýdd úr erlendu máli mutatis mutandis að því er snertir kirkjulýsinguna, svo að hún væri í samræmi við hérlent byggingarlag, og óbrotnum áheyranda skiljanleg[4]). Lýsingin gefur allljósa mynd af torfkirkju, þó að vitaskuld margt vanti, sem hefði verið byggingarfróðum manni til aukins skilnings.

Fyrst nefnir Stokkhólmshómilíubókin efni það, sem kirkjan er úr smíðað. »Kirkja es gjör úr mörgum steinum eða trjám«, segir þar[5]). Hér er bersýnilega átt við grjótið og torfið í veggjum og timbrið í innviðum torfkirkju. Enda orðar norska hómilíubókin þetta á annan veg: »kirkja er gorr ór morgum samansomnuðum lut-

---

1) *Hóm.* I, 98—103. 2) *Hóm.* II, 131—136. 3) *Leifar* bls. 162—165. 4) T. d. minnir hún allmikið á lýsinguna í Rationale Durandi (1237—1296) á symbólskri þýðingu hinna einstöku kirkjuparta. Sjá *Rationale* Fol. ij. ff. 5) *Hóm.* I, 99. línu 34—35.

um«[1]), og er breytingin bersýnilega gjörð til þess, að gjöra hómilíu þessa aðgengilega norskum mönnum, sem vitanlega hafa átt bágt með að hugsa sér torfkirkju[2]), sem þeir aldrei hafa séð og kannske aldrei heyrt getið um. Því hefur verið haldið fram hér, að algengara hafi verið, að torfkirkjur væru kórlausar og með forkirkju, en að þær væru forkirkjulausar og með kór. En nú er kirkja sú, sem lýst er í hómilíunni, einmitt með kór, og er ekki getið forkirkju í sambandi við hana. Þetta kynni fljótt á að líta virðast hnekkja þessari skoðun, því vitanlega verður að gjöra ráð fyrir, að kirkja sú, sem lýst er, sé eins og kirkjur voru upp og ofan. Hér kemur þó annað til greina, sem veldur því að kirkjunni er lýst einmitt með þessum ummerkjum, þó að ekki væri það algengasta fyrirkomulagið. Það eru hinar feikna mörgu og þýðingarmiklu symbólsku merkingar, sem í kórinn og einstaka parta hans voru lagðar, og varð þeim illa slept úr, nema því að eins að hómilían hefði mist svo að segja kjarnann allan, og orðið miklu áhrifaog bragðminni. Forkirkjunni var aptur á móti að þessu leyti sára lítill slægur í. Í hana var, af því að hún er eiginlega ekki partur sjálfrar kirkjunnar, lögð lítil symbólsk merking (venjulega látin merkja hreinsunareldinn, ef kirkja sjálf var látin merkja paradís). Það var því óhætt að sleppa henni. Hómilían hrekur því að þessu leyti ekki neitt, sem áður hefur verið sagt. En með þessu sýnir hómilían þó eitt, að ekki geti verið um það að ræða, að hér sé lýsing á norskri stafkirkju, því að af þeim, sem enn eru við lýði, er ekki nema ein forkirkjulaus[3]), og mundi því húsi varla hafa verið slept í lýsingu norskrar kirkju, þar sem það var svona algengt.

---

1) *Hóm.* II, 132, línu 8—9. 2) Að torfveggir í húsum í fyrri daga hér á landi hafi verið með sama hætti og enn er títt, sést á *D. I.* VII, 460: »veggina báða og gaflhlaðið með stein og torf traustlega hlaðið«. 3) Stafkirkjan á Rinde í Sogni. *Fett* uppdráttur 5, en hún var með stöpli, er kom í forkirkju stað.

Af timbur- og risverki torfkirkjunnar nefnir hómilían eptirfarandi viði:

»*Syllustokkar* . . . er *undirstokkar* eru«[1]).

»*Fjórir hornstafir* eru hinar *stœrstu stoðir*«[2])

»*Langviðir* í kirkju þat eru *staflægjur* ok *ásar* er saman halda bæði *röptum* ok *veggþilium*«[3]).

»*Þvertré* es skorða *staflægjur* ok halda *dvergum* es *ása* styðja«[4]).

»*Gólfþili* merkir . . .«[5]).

»Tveir *kirkjuveggir* merkja . . .«[6]).

»*Brjóstþili* es samtengir báða *veggi* . . . Á þessu *brjóstþili* eru *dyr* inn at ganga ok *gluggar* þeir es lýsa«[7]).

»Tvinn *brjóstþili* kirkjunnar . . . Á inu *iðra brjóstþili* eru mikil *dyr í sönghús* . . . Á inu *ytra brjóstþili* eru *gluggar*[8]).

»*Ræfur* yfir veggjum merkja . . . *ásar* er upphalda *ræfrviðum*«[9]).

»*Setupallar* kirkjunnar«[10]).

Hér er lýsingin komin. Veggir kirkjunnar tveir eru úr torfi[11]) og milli þeirra rís upp timburgrindin. Liggja

---

1) *Hóm. I*, 100 línu 5—6, sbr. 101 línu 25—25. *Hóm. II*, 132 línu 20—21, sbr. 134 línu 22—23. *Leifar* bls. 164, línu 1—2. 2) *Hóm. I*, 100 línu 29—30, sbr. 101 línu 26. *Hóm. II*, 133 línu 14—15, sbr. 134 línu 25—26. *Leifar* bls. 166, línu 24—25. 3) *Hóm. I*, 100 línu 33—35, sbr *Hóm. II*, 133 línu 19—21 og *Leifar* bls. 163 línu 1—3. 4) *Hóm. I*, 100 línu 37—38 sbr. *Hóm. II*, 133 línu 24 —25 og *Leifar* bls. 163, línu 6—7. Á síðarnefndum stöðum er dálitið annað orðalag, en efni sama. 5) *Hóm. I*, 100 línu 11, 101 línu 38, sbr. *Hóm. II*, 132 línu 26, 134 línu 27 og *Leifar* bls. 162 línu 4, 164 línu 6. 6) *Hóm. I*, 100 línu 15—16 sbr. 101 línu 31. *Hóm. II*, 132 línu 31, 134 línu 30 og *Leifar* bls. 162, línu 9, 164 línu 9. 7) *Hóm. I*, 100 línu 17—21 sbr. *Hóm. II*, 132 línu 34, 133 línu 4 og *Leifar* bls. 162 línu 10—15. 8) *Hóm. I*, 101 línu 14 —17 sbr. *Hóm. II*, 134 lína 7—11 og *Leifar* bls. 163 línu 22—26. 9) *Hóm. I*, 101 línu 34—36 sbr. *Hóm. II*, 134 línu 33, 135 línu 2 og *Leifar* bls. 164 línu 12—14. 10) *Hóm. I*, 100 línu 13 sbr. 101 línu 29—30. *Hóm. II*, 132 línu 28, 134 línu 29 og *Leifar* bls. 162 línu 6, 164 línu 8. 11) Að átt sé við torfveggi, en ekki timbur, er ljóst af því, að þeir eru taldir tveir, en ekki eru taldir nema tveir veggir í torfhúsi (gaflveggir eru þil). Veggir á timburhúsi

4 syllustokkar í ferhyrning, og eru þeir undirstokkar laupsins[1]). Á mótinu syllustokkanna eru uppreistar sterkustu stoðirnar í kirkjunni, hornstafirnir. Milli hornstafanna meðfram veggjunum eru með jöfnu millibili reistar hinar veikari stoðir, og hornstafa milli liggja meðfram veggjunum staflægjurnar, er halda þeim og stoðunum upprèttum. Milli stoðanna ofanverðra liggja yfir um kirkjuna þvera þvertrén[2]), svo þilin og stoðirnar hnígi ekki. Upp af stoðunum liggja raptar, er mætast í mæniásnum. Milli mæniássins og þilsins er ræfrið, og langs eptir því, einhversstaðar milli mænis og staflægju, liggur ásinn því til stuðnings, en hann bera dvergar, sem eru smástoðir, er rísa upp af þvertrjánum[3]). Þó að ekki sé vagl nefnt, verður fastlega að gjöra ráð fyrir vaglbita milli ásanna, annars myndi ræfrið fljótt ýta þeim inn af dvergunum, og þeir þá hrapa. Milli stoða eru þiljur — veggþil —, og undirstokka milli gólfið — gólfþil. Fyrir kirkjugöflum er brjóstþil, en þó undarlegt megi virðast, er bjór ekki nefndur[4]). Á innra

myndu vera taldir fjórir. Mótsetningin milli »tveir kirkjuveggir« og »brjóstþili er samtengir báða veggi« sannar það hvað ljósast, að átt sé við íslenzka torfkirkju, en ekki timburkirkju.

1) Þetta nefndist einu nafni undirgrind. *D. I.* IX, 266. 2) Það skal tekið fram, að sá er þetta ritar er ósammála skýringum Fritzners, Keysers, Nicolaysens og Valtýs Guðmundssonar (sjá *Privatb.* bls. 137—148), sem reyndar eru innbyrðis ósammála, um merkingu orðsins, að minsta kosti í sambandi við staðinn í Laurentíusar sögu *(B. S.* I, 804). Á þeim stað getur ekki verið um annan ketil en vígðs vatns eða skírnarketil að ræða, og það virðist útiloka skýringu þeirra. Annars er þetta svo utan við efni þessarar ritgjörðar, að ekki verður farið frekar út í það að sinni. 3) Þetta er greinilegt ásþak, en ekki er hægt að koma því heim við neinn af þeim fjórum flokkum, sem Valtýr Guðmundsson skiptir ásþökum í í *Privatb.* bls. 117—125. Það verður að stórfurða sig á því, að annar eins maður og Dietrichson skuli flaska á því, að segja hómilíubækurnar lýsa norskri stafkirkju *(Omrids* bls. 79). Hann hlaut að sjá, þó ekki væri annað, að þak það, sem lýst er, er ekki af norskri stafkirkju. Þær eru nefnilega með sperruþaki (sbr. *Fett* bls. 30 ásamt mynd 46 og 63), en þakið, sem lýst er hér, er ásþak. 4) Að ekki hefur verið átt

(austara) þilinu eru stórar dyr, sem liggja inn í kórinn[1]), er aptur af kirkjunni gengur. Á ytra (vestara) þilinu voru gluggar[2]) og dyr með hurðum. En innan kirkjunnar voru meðfram veggjum naglfastir setupallar.

Þarna er myndin svo skýr og greinileg, að eptir henni er hægt að gjöra uppdrátt af húsinu eins og hómilían hugsar sér það, bæði uppdrátt af húsinu þverskornu, og eins af grunnfleti kirkjunnar (sjá töflu XV og XVI).

Um hina einstöku parta hússins ber að geta eptirfarandi.

*Gólfið* virðist hafa verið fjalir, sem lagðar voru af einum undirstokknum á annan, svo að þær hafa legið ofan á undirstokknum alveg upp við, þar sem veggþilið og undirstokkur mætast[3]), og þá væntanlega yfir þvera kirkju, svo styttri fjalvið hafi mátt nota. Það virðist svo sem ekki hafa verið sjálfsagt, að kirkja væri með gólfi, ef marka má virðingargjörð Reynivallakirkju frá 1486, er segir: »átti kirkjan að vera með gólfi«[4]). Hefði

---

við þil og bjór saman, með brjóstþili sést á *D. I.* V, 34: »tvo þili, bjóra ok allar sperrur«, segir þar. Þess má geta hér, að Grágás kallar brjóstþilið vestara kirkjubrjóst *(Grg.* I, b. 216).

1) Á kirkjum, sem ekki voru með útbygðum kór, voru vitanlega tilsvarandi dyr á milligjörðinni milli kórs og kirkju. Væri útbygður kór, var milligjörðin þar, sem kór og kirkja mættust. 2) Gluggarnir sanna það eitt með öðru, að hér sé verið að lýsa íslenzkri kirkju, en ekki norskri, því á norskum stafkirkjum voru engir gluggar, en aðeins litlir ljórar (»Huller«) upp um veggi (sjá *Omrids* bls. 36). Með vissu er fyrst getið glerglugga á Íslandi um 1220 *(D. I.* I, 402) eða jafnvel um 1200 *(Sturl.* I, 324) og upp frá því þráfaldlega. En þó er gefið að gler og gluggar hafi þekst og verið notað fyr. Gæti t. d. gluggi sá, sem sagt er að Hildur einsetukona hafi opnað á sönghúsþilinu á Hólakirkju, hafa verið glergluggi *(B. S.* I, 206 sbr. 256), enda styðst það að nokkru leyti við *D. I.* III, 657. Fyrir þann tíma að gler var notað á Íslandi, voru kirkjugluggar opin göt, sennilega með hlerum. Skjáir eru aldrei nefndir á kirkjum fyrir siðaskiptin. Annars er torfkirkjustafninn með tveim glergluggum og dyrum svo alþektur kunningi, að allir Íslendingar ættu að kannast við hann. 3) *B. S.* I, 198. 4) *D. I.* VI, 587.

gólfið verið sjálfsagt, hefði varla verið svo að orði komist. Ástæða gæti verið til að ætla að gólf í kór, þar sem hann var, og kirkju hafi verið frábrugðið hvað öðru, því í einu skjali er í sömu andránni kórgólf kallað þil og kirkjugólf gólf[1]). En vitanlega þarf það ekki að vera nema hending.

*Hurðir* hafa að sjálfsögðu optast verið á járnum. En komið hafa þó fyrir draghurðir, því 1476 er nefnd drótt yfir kirkjuhurðinni í Miklabæ í Blönduhlíð[2]). Eðlilegast yrði auðvitað að hugsa sér, að hurðin venjulega hafi verið á innanverðri kirkjunni (opnast inn), en þó virðast vera þess dæmi, að hurðin hafi verið á utanverðri kirkjunni (opnast út): »skal gjöra gólf i kirkjuna ok þil ok hurð *fyrir framan*«[3]) segir í máldaga Glaumbæjarkirkju frá 1461. Ýmist hefur kirkjunum verið læst með *skrá* fyrir innanverðri hurðinni, er skaut brandi í keng á innanverðum dyrustaf, og var sú skrá nefnd *innlás*[4]), eða henni var læst að utan með *hangandi lás*, er brugðið var í lykkju, er stóð gegnum keng, og var sá lás nefndur *útlás*[5]), og munu útlásarnir opt hafa verið mellulásar[6]).

Þó að gluggar á kirkju þeirri, sem hómilíubókin lýsir, séu aðeins á vesturgafli, eru þess og dæmi að þeir væru á austurgafli og þá yfir altarinu[7]). Gluggarnir sýnast ekki hafa verið úr heilum glerflögum, eins og nú á dögum tíðkast, eða samsettir úr nokkrum stórum glerjum, heldur samsettir úr mörgum smáglerjum: »jtem látið gjöra saman glerglugg ok feingit í sum glerin«[8]), »glergluggar ij ok annar brotinn víða ok i brott ór gerið«[9]), »glergluggur sæmiligr og þó lestur«[10]). Þetta verður ekki skilið öðruvísi, enda í samræmi við gluggagjörð á fyrri dögum annarsstaðar. Voru þá glerin greypt í blý saman í glugga, og svo hefur einnig verið hér. Um lag og stærð glugganna er lítið hægt að vita.

---

1) *D. I.* V, 274. 2) *D. I.* V, 813. 3) *D. I.* V, 331. 4) *D. I.* III, 69. 5) *D. I.* III, 522. 6) *D. I.* IV, 715. 7) *D. I.* III, 565—566. 8) *D. I.* III, 422. 9) *D. I.* III, 651. 10) *D. I.* III, 565—566.

Nefndur er »glergluggur kringlóttur« á Skarði á Skarðsströnd 1327[1]); á þrem stöðum er getið um hæð glugga, og í eitt skipti er minst á breiddina. »Glergluggur stikuhár« er á Setbergi 1397[2]). Sama ár á Melakirkja í Melasveit »glerglugg hálfrar annarar álnar háfan«[3]). Sama ár játar Hallsteinn Þorsteinsson að kaupa bænhúsinu á Torfastöðum »glerglugg hálfrar annarar álnar háfann og álnar breiðann«[4]). Gluggar, sem dregnar eru á glærar litmyndir (glermálverk), tíðkuðust mjög úti í löndum á miðöldum, og nú aptur á síðustu tímum, en aldrei voru þeir í hvers manns eigu sakir dýrleika. Þó verður að gjöra ráð fyrir, að þeir hafi komið fyrir á heldri kirkjum hér. Er slíkur gluggi ekki nefndur nema á einum stað. 1354 á kirkjan í Hjörsey »glerglugg með líkneskjum«[5]). Þar eð gler á miðöldum var dýrindisvara, er eðlilegt að kirkjuhaldarar hafi reynt að hlífa kirkjugluggunum, því voru sumstaðar hlerar fyrir þeim[6]).

Kirkjur hafa að líkindum flestar verið með sætum, þó slíkt væri ekki, og sé víða enn ekki siður úti í kaþólskum löndum. Fyrst er að geta setupallanna, sem hómilían hermir frá. Líkist íslenzka kirkjuhúsið í því íbúðarhúsunum[7]) og eins norskum stafkirkjum, sem líka voru með þessum útbúnaði[8]). En auk þeirra hafa kirkjurnar optsinnis, og ef til vill altaf, verið með bekkjum. Í brúðkaupi Halls Gizurarsonar á Flugumýri 1253 voru kirkjustólar bornir inn í bæ, og settir eptir miðju gólfi[9]), og í Fornbréfasafninu eru stöku sinnum nefndir bekkir í kirkjum[10]). Það er ofboð skiljanlegt, að þeir eru ekki að jafnaði nefndir í máldögum; þeir munu hafa verið taldir með naglföstum eigum kirknanna, en slíkir hlutir eru sjaldan taldir í máldögum. Bekkjarklæði eru og nefnd. Oddaverjaannáll segir, að í Skálholtsbruna 1309 hafi farist »tjöld öll með bekkjarklæð-

---

1) *D. I.* II, 635 sbr. IV, 158. 2) *D. I.* IV, 173. 3) *D. I.* IV, 193. 4) *D. I.* IV, 217. 5) *D. I.* III, 87. 6) *D. I.* III, 657. 7) *Privatb.* bls. 181. 8) *Omrids* bls. 32—33. 9) *Sturl.* II, 190. 10) *D. I.* VI, 587, VII, 86.

um«[1]). Slíkir bekkir eru engir til íslenzkir lengur, en skínandi fallegir bekkir úr Kirkjubæjardómkirkju í Færeyjum, sem Þjóðmenjasafn Dana á[2]), gætu ef til vill gefið einhverja hugmynd um, hvernig þeir hafi verið hér á landi.

Um efni í torfkirkjuveggjum hefur áður verið getið. Venjulegast var niðurveggurinn úr steini, svo að bil milli tveggja þunnra steinveggja var moldarfylt[3]); það var nokkurskonar opus emplectum. En upp af þessum niðurvegg reis svo aðalveggurinn úr torfi og grjóti, og var torfhleðslan ýmist með strenglagi, klömburhnausalagi[4]) eða hvorutveggja[5]). Þessi lög bæði eru alþekt út um heim, og er klömburhnausalagið (opus spicatum, herringbonework) sérstaklega talið ellimerki[6]). Í sambandi við vegginn verður að geta hornsteinanna[7]), sem voru stoðarsteinar[8]), er settir voru undir samskeyti undirstokkanna við hornstafina. Milli þils og veggjar varð bil, sem nefnt var skot — kirkjuskot —, og má af öllu ráða, að dyr hafi legið úr kirkjunni í skotið eins og á íbúðarhúsunum var[9]), því opt er þess getið, að menn væru þar fólgnir þeir, er sökótt áttu, til þess að njóta þar leyndar og kirkjugriða í senn[10]). Samskonar bil var milli jarðar og gólfþils[11]). Líkur eru og fyrir því, að bilið milli jarðar og undirstokks (syllustokks) til gaflanna hafi opt ekki verið byrgt að utan, né upp í það hlaðið, heldur látið standa opið: »Móðólfur djákni, er kallaður var ganimaður, fekk komist út undir syll kirkjunnar«[12]). Þetta verður ekki skilið á annan veg en að brotið hafi verið upp kirkjugólfið, og maðurinn síðan skriðið niður með því og út um bilið

1) *Í. A.* bls. 478. 2) *Aarsb.* 1906 bls. 220—221. 3) *Bruun Kulturliv* bls. 85. 4) T. d. eru veggir hinnar fornu kirkju á Gunnsteinsstöðum hlaðnir með því lagi. 5) *Bruun Kulturliv* bls. 81—84. 6) *Arts* II, 71. *Kugler* II, 563—564 7) *Leifar* bls. 164. 8) Sjá *Privatb.* bls. 120. 9) *Privatb.* bls. 203, 223. 10) *B. S.* I, 544. *Sturl.* I, 323—324. Kirkjuskot það, sem nefnt er í Vatnsfirði 1500 (*D. I.* VII, 533) er útbrot (»Svalegang«) um stafkirkju, en ekki torfkirkjuskot. 11) *B. S.* I, 198. 12) *Sturl.* II, 114.

milli undirstokks og jarðar. Tíðast mun það vera, að veggir úr torfi hafi verið óbrotnir, og ekkert gjört til að nota þá til prýði, eða prýða þá. Þó segir sagan, að hornsteinarnir (3) í veggjunum í Hítardalskirkju hafi til skamms tíma verið til, og myndir á þeim af Hít og Bárði Snæfellsás[1]), en að nú er ekki eptir nema einn[2]).

Þó ekki sé þess getið í hómilíunni, voru sjálfsagt allar kirkjur með *vindskeiðum*. Að vísu eru kirkjuvindskeiðar ekki nefndar nema einu sinni í skjölum frá þeirri tíð, — það er í sálugjafabréfi Bjarnar Jórsalafara frá 1405. Þar ánafnar hann Grundarkirkju í Eyjafirði efni í vindskeiðar[3]). En svo virðist það sjálfsagt, að kirkjur hafi verið með þessari prýði, að óþarfi er að rökstyðja það frekar. Sama er að segja um það, að kirkjur og bænhús hafi verið með *kross á burstinni*, þó þess sé ekki getið nema einu sinni á þeim tíma. Árið 1379 er miðað við kross á bænhúsinu á Sævarlandi í Laxárdal sem landamerki[4]).

Hin miklu dyr, sem samkvæmt hómilíunni voru á brjóstþilinu innra[5]), og lágu inn í kórinn, hafa vafalaust að jafnaði ekki verið eins mikil og ætla mætti af orðunum, því opt er getið um bjór og bjórtjöld yfir kórdyrum[6]). Eptir þessu hafa dyrin, úr því að hægt var að tjalda bjórþilið fyrir ofan, ekki getað náð nema upp undir það, og því varla getað verið ýkja há. Venjulegast mun, eins og tíðkast hefur alveg fram á þennan dag, hafa verið milligerð milli kórs og kirkju — grindur, sem hafa átt að merkja, eða stundum verið lestrarkór (lectorium)[7]), en varla hefur það vegna smæðar kirknanna getað verið nema myndin ein, nema á stærstu kirkjum.

Hér á landi hafa kirkjur, eins og svo víða annars-

1) *Kaalund* I, 392. Kaalund hefur ekki séð steinana sjálfur, en tekur þetta úr »antikv. dagbogsuddrag« fyrir 1841 eptir Jónas Hallgrímsson. Sjá og *Á. Í. F. F.* 1908, bls. 31. 2) *A. Í. F. F.* I. c. 3) *D. I.* III, 702. 4) *D. I.* III, 337. 5) Austurgaflar kórlausra kirkna voru opt úr torfi, t. d. á Gunnsteinsstaðakirkju sbr. D. I. VII, 360. 6) *D. I.* V, 251, 268. 7) *B. S.* I, 823 sbr. 885.

staðar, verið pentaðar innan. Að utan var vitanlega ekki að hugsa til að penta annað en gaflana á torfkirkjum. Hvergi er þó getið, að þeir hafi verið pentaðir, en optsinnis er sagt frá því, að kirkjur hafi verið hræddar, þ. e. tjargaðar[1]). Ef ráða má af máldaga Brautarholtskirkju, sem segir: »hafði Jón (þ. e. Jón Ófeigsson) látið bræða kirkju með fjórum tjöru tunnum«[2]), virðist bráðin á kirkjurnar ekki altaf hafa verið numin við neglur sér. Auk dómkirkjunnar í Skálholti, sem Marteinn Einarsson síðar biskup pentaði innan á dögum Ögmundar biskups[3]), er getið einu sinni eða tvisvar um kirkjur alpentaðar innan[4]). Annars sýnist hafa verið algengast að penta brjóstþilið innra, »penta kór framan« eins og það var nefnt[5]). Hvernig þessari pentan var varið, verður ekki með vissu sagt, hvort það hafi verið með einum lit eða fleirum, eða hvort það hafa verið málaðar myndir. Íslenzkir máldagar sýna, að hér hefur til forna þótt mikið til þess koma, eins og reyndar annarsstaðar úti um löndin að kirkjur væru tjaldaðar. Varla er til svo aum kirkja hér, að hún eigi ekki að minsta kosti »tjaldaleppa«, »tjaldaslitur« eða »tjaldatötur« einhversstaðar í sig eða á. Hugsast gæti því, að pentaðar hefðu verið tjaldamyndir á þilin í kirkjunum hér, eins og alltítt var, og er enn erlendis að gjört sé á steinkirkjuveggi blauta (freskó)[6]), og eins og enn má sjá á þiljum litillar timburkirkju hjá Råda í biskupsdæminu Skörum í Svíþjóð[7]). Á það bendir staður einn í Kolbeinsstaðamáldaga 1397: »Herra Ketill lét penta innan kirkjuna ok lagði þat fyrir tjöld«[8]).

Þakið á torfkirkjunum mun venjulegast hafa verið úr torfi, ræfrin þakin torfum eins og enn tíðkast[9]). Þó virðist það líka hafa verið til, að þekja kirkjurnar með

1) *D. I.* IV, 181. 2) *D. I.* IV, 114. Dietrichson segir, að kirkjuveggirnir hafi verið »bedækkede med et tykt især paa Ydersiden ofte fornyet lag Tjære«. *Omrids* bls. 35. 3) *B. S.* II, 252. 4) Kolbeinsstaðir *D. I.* IV, 182 og ef til vill Oddi *D. I.* VI, 630. 5) *D. I.* IV, 48, 96, 207. 6) *Omrids* bls. 35. 7) *Hildebrand* bls. 35, 83—84. 8) *D. I.* IV, 182. 9) *B. S.* I, 607. *D. I.* IV, 49.

hellu, en ekki verður séð, hvort síðan hefur verið tyrft yfir helluna, eða hún látin vera ber[1]). Sagt er á einum stað, að kór hafi verið þakinn viði[2]), og kemur það fyllilega heim við það, sem hér hefur verið haldið fram, að kórar í torfkirkjum hljóti að hafa verið úr tré. Þak það, sem lýst er í hómilíunni, er greinilegt ásþak, en mikil ástæða er til að halda, að sperruþakið hafi verið algengara, að minsta kosti þegar fram í sótti. Ás í þaki kirkju er ekki nefndur nema einu sinni í Fornbréfasafninu[3]), en víða er getið um langbönd og sperrur[4]), sem einmitt eru einkenni á sperruþakinu[5]). Í sambandi við þetta má minnast á, að göng hafa opt verið milli kirkju og bæjarhúsa, ýmist neðanjarðar[6]) eða á lopti, svo að hægt væri að nota kirkjuna til varnar, og að greiður aðgangur væri að griðastaðnum; verður íslenzkum þjóðsögum tíðrætt um slík göng. Kirkja sú, er Þorsteinn Kuggason lét gjöra í Ljárskógum, mun vafalaust hafa verið úr torfi, en í Grettlu segir, að hann hafi bygt göng á lopti milli kirkju og bæjar[7]), og mun eins hafa verið á fleiri torfkirkjum.

Klukkum kirknanna var svo fyrirkomið, að þær voru ýmist inni á kór[8]), eða í framkirkju[9]), á vesturgafli kirkjunnar utanverðum[10]), eða í þakriðli (Dachreiter) á mæninum[11]). Sumar torfkirkjur hafa sjálfsagt haft klukkurnar í sjálfstæðu klukknahúsi[12]), en um stöpla á torfkirkjum þarf ekki að tala, því að þeir voru engir.

Á kirkju þeirri á Gunnsteinsstöðum í Langadal, er fanst sumarið 1918, er óþarfi að gjöra hér nákvæma lýsingu, því að hún er í öllu verulegu eins og kirkja sú, er hómilían lýsir. Þó er henni frábrugðið í þessum atriðum. Hún er með engum kór, en austurgaflinn er

1) *D. I.* VI, 587. 2) *D I.* III, 702. 3) *D. I.* III, 518. 4) *D. I.* III, 685, IV, 758 sbr. V, 34 og víðar. 5) Þess er getandi að kirkjan á Gunnsteinsstöðum er með sperruþaki. 6) T. d. í Vatnsfirði. 7) *Grettla* 122. 8) *D. I.* IX, 328. 9) *D. I.* IX, 307, 317. 10) Má ætla af nútíðarhætti sbr. og *D. I.* IX, 317. 11) *D. I.* IX, 307. 12) Ibid.

úr torfi og grjóti eins og veggirnir, sem eru liðugur 1½ metri (5 fet) á þykt, og mun það að nokkru leyti stafa af sigi veggjanna og hruni úr þeim, enda er mælingin gjörð þar sem jörð og veggir mætast. Þakið er ekki ásþak, heldur sperruþak. Insta stafgólfið hefur fyrrum verið kór, því greinilega sér grópar fyrir pílárum og slám í insta þvertré og stoðum, og í þeim hefur verið milligerðin milli kórs og kirkju (lectorium). Á vesturgafli eru afarlágar dyr, og sín hvorum megin við þær gluggi, sem þó ekki er meira en ¼ alin á hvorn veg. Undir hornstöfunum vestari sér greinilega hornsteinana, sem eru flatar stórar hellur. Hvergi er frá fornu fari járnnagli í húsinu, heldur er alt tréneglt. Kirkjan liggur, eins og þegar hefur verið getið, í kringlóttum kirkjugarði, sem vel markar fyrir á parti, og er hann svo þröngur, að ekki er sennilegt að þar hafi margir verið grafnir (sjá töflu XIV).

Að því er til aldurs kirkjunnar kemur, virðist hún tvímælalítið vera frá því fyrir 1550, en ómögulegt er að ákveða þetta nánar. Þó gæti kirkjan jafnvel hafa verið bygð fyrir 1432, því það ár er hún í vísitatiu Jóns biskups IV. virt á 12 hundruð[1]), og er þar í talið álagið, en kirkja sú, er nú stendur þar, getur einmitt vel hafa verið svo dýr eptir stærðinni (sjá töflu XIV sbr. töflu VI). En þessi rök liggja til aldurs kirkjunnar. Árni Magnússon segir í jarðabók sinni undir Gunnsteinsstöðum[2]), að þar sé kirkja, sem syngja megi til þegar heimamenn vilja taka sakramenti. Í prófastsskýrslum um kirkjur 1723—1724[3]) er hennar getið, en úr því ekki; sýnist því hafa verið hætt að nota hana á tímabilinu örskömmu eptir 1724. Gæti hún því varla verið bygð síðar en um 1700. Í bréfi, sem bóndinn á Holtastöðum ritaði biskupsdæminu um 1811 (bréfið ó-

1) *D. I.* IV, 514. 2) *Jarðabók* bls. 624. 3) Skýrslan er dags. 29/6 1726. Hún er geymd í skjalasafni biskups í Þjóðskjalasafninu.

dagsett)[1]), út af rekamáli einu við Gunnsteinsstaði segir hann: »þótt einhverntíma hefði Gunnsteinsstaðaskemma — fyrrum kirkja — átt tilkall til . . . . .«. Eptir þessu hefur kirkjan verið orðin skemma, eins og hún er enn í dag, um 1811. Í bréfi til biskupsdæmisins um sama mál dags. 21. sept. 1811[2]) segir sami maður: »hvort rekinn skylldi allur tilheyra Holltastaðakirkju eður hálfur Gunnsteinsstaðakirkju, og síðan jarðarinnar eigendur[3]), þar hún er fyrir mörgum öldum niðurlögð«. Bersýnilega veit maðurinn ekkert um það, hvenær kirkjan var niðurlögð, annað en að það var fyrir löngu þá, og verður það á hans máli fyrir mörgum öldum. Getur þetta einkar vel staðið heima við að hún hafi lagst niður fyrri part 18. aldarinnar, og er líklegt, að hún hafi þá þegar orðið skemma, að minsta kosti var hún orðin það, er Holtastaðabóndinn ritar bréf það 1811, sem áðan var vitnað í. Ekkert virðist og líklegra en að kirkjan, úr því hún hefur getað staðið um 200 ár með þeirri meðferð, sem skemma hlýtur, hafi áður en hún féll úr tigninni getað staðið það liðugt hálft annað hundrað ára, sem þá vantar upp á að hún sé úr kaþólskum sið, með þeirri meðferð, sem kirkjur fengu, sem alténd hefur verið eitthvað skárri en sú, sem á skemmum var, þó að hún eptir siðaskiptin ef til vill hafi ekki verið eins burðug og skyldi[4]). Eitt er það til marks um aldur kirkjunnar, að allmiklu er jarðvegurinn fyrir utan kirkjuna hærri en gólfið í henni, sem þó er með allþykkri skán, aðallega í miðjunni, svo að

---

1) Kafli sá úr bréfinu, sem hér er tekinn upp, er prentaður í *D. I.* X, 15. 2) Íslands Biskupsdæmis Journal nr. 683—11. í Þjóðskjalasafninu. 3) Svo fyrir eigendum. 4) Svo segir í Aldasöng Bjarna skálda:

Frek er nú tolla tekt,
tvöföld þar lögð við sekt,
*hús drottins hrörna og falla,*
*hrein eru stundum varla* etc.

*Digtningen* bls. 404. sbr. bls. 95 í þessu riti.

gólfið hvelfist þar töluvert upp alveg fram að dyrum, en hallar nokkuð snögt að syllustokkum.

Í kaþólskum kirkjum var forðum, og er enn skál með ræsi úr botninum, er liggur niður undir vegg kirkjunnar. Þangað er steypt vígðu vatni, er það fúlnar, þvottavatni af altarisdúkum, corpórölum og purificatoriis, og öðrum þeim helgum vökvum, sem ónýtir verða, öðrum en hinu helga sakramenti in specie vini, og ekki mega fyrir helgi sakir fara undir hunda og manna fætur[1]). Slíkar skálar voru á miðaldakirkjumáli nefndar piscinæ[2]). Hér á landi þektust þær líka[3]), og nefndust sacraria, og eru þær stundum nefndar í statútum biskupanna[4]). Það var þó víða að kirkjur voru ekki svo efnum búnar, að þær gætu átt sacrarium, og urðu þær því að koma ár sinni öðruvísi fyrir borð, svo í sama stað kæmi niður. Voru þá t. d. teknar upp fjalir úr gólfinu, og vökvunum helt í grundvöll kirkjunnar, og þar fram eptir götunum. Hér á landi var í torfkirkjunum auðveldur aðgangur að því að fá handhægt sacrarium með litlum kostnaði. Þurfti ekki annað en að gjöra hvilft, eða geil í vegginn og hella í hana. Veggurinn saug þá í sig vökvana. Geilina mátti svo byrgja með hlera á vegg-þilinu. Styrkist sú skoðun að svo hafi verið mikið við það, að hinn sæli Guðmundur biskup bersýnilega af frásögninni í sögu hans notaði þekjuna á bænhúsinu á Hamri í Steingrímsfirði sem sacrarium[5]). Í kirkjunni á Gunnsteinsstöðum er sacrarium ennþá með ummerkjum. Í austurgafli kirkjunnar, sem er úr torfi, er, þar sem veggurinn tekur meðalmanni í geirvörtur, ferstrent gat í hann, sem er mjög tæpa hálfa alin á dýpt (sjá myndirnar 2 og 3. Mynd 1 sýnir kirkjuna að utan), og er þakið á gatinu rept upp með hvalbeini, svo ekki hrynji veggurinn ofan í.

---

1) *Omrids* bls. 113. sbr. III. kafla þessa rits. 2) Á fornu kirkjumáli merkir orðið skírnarlaug. 3) Þær hafa verið og eru enn lögboðnar í kaþólsku kirkjunni. 4) T. d. *D. I.* II, 30, 527, § 27, 528, 549, 797. 5) *B. S.* I, 607.

Botninn á gatinu (þ. e. hliðin lóðrétta á lóðrétta línu úr reptinu) er með einkennilegri keilulagaðri dæld, sem bersýnilega stafar af því, að þarna hefur að staðaldri verið helt niður einhverju, sem smám saman hefur skolað burt með sér nokkuru af moldinni, þar til dældin var komin. Það verður því að telja mjög svo vafalitið, að þarna sé sacrarium, og styrkir það enn að mun þá skoðun, að kirkjan á Gunnsteinsstöðum sé frá því fyrir siðaskiptin, þótt eðlilega verði það ekki nákvæmar ákveðið [1]).

Það er ekki ástæða til að gjöra kirkju þá, er Brynjólfur Jónsson frá Minnanúpi hefur lýst í Árbók Fornleifafélagsins [2]), og látið gjöra af líkan, sem geymt er í Þjóðminjasafninu [3]) að umtalsefni, af því að hún er ekki frábrugðin torfkirkjum eins og þeim er lýst hér framan, að öðru en því, að hún er með sperruþaki 2. tegundar 2. flokks, eins og Valtýr Guðmundsson skiptir þeim [4]). Þó er það afbrigði í þakinu, að langböndin liggja utan á ræfrinu milli mæniáss og skammbita, og að sperrurnar eru i tvennu lagi, efri sperrur og neðri. Neðri sperrur frá staflægjunni á skammbitann, en efri sperrur frá skammbita í mæniás. En óvíst er nema þetta stafi af rangri eptirtekt, og þó svo sé ekki, er óvist hve fornt þetta lag er. Eptirtektarverðast á kirkju þessari er það, að klukkurnar hanga í litlum aukaskammbita fyrir ofan skammbitann milli fyrsta og annars stafgólfs.

Hefur hér nú verið reynt að gefa sem glöggast heildaryfirlit yfir íslenzkar miðaldakirkjur alment, en það hlýtur að vera óhjákvæmileg undirstaða, ef gjöra á lýsingar á einstökum fornum kirkjum í smáatriðum (Detailbeschreibung).

---

1) Í fljótu bragði kynni manni að detta í hug að hér væri uppfylt vindauga á ferðinni. Svo er ekki. Þar eð ég innan skamms mun gjöra þessari einu íslenzku kirkju úr kaþólskum sið betri skil, skal ekki fjölyrt frekar um þetta hér. 2) *Á. Í. F. F.* 1897 »Hin síðasta útbrotakirkja á Íslandi«. 3) Nr. 4901 í safninu sbr. *Þjóðminjasafn* bls. 35. 4) *Privatb.* bls. 127.

## III.

# Hóladómkirkja utan og innan. Hús, gripir og bækur.

### Dómkirkjan sjálf.

Hver, sem með athygli hefur lesið kaflann á bls. 98—118, hlýtur að hafa veitt því eptirtekt, að íslenzkar miðaldakirkjur hafa fast verð, sem þær áttu að hafa altaf, og máttu ekki fara niður fyrir, og fyrndin á kirkjunum var miðuð við þetta ákveðna verð. Virðingin á tré- og torfkirkjum á bls. 111 sýnir hinsvegar, að verðið stóðst á við vissa lengd — og vitanlega breidd líka — á kirkjunum. Verð og lag var sama, óbreytanlegt, hver sem örlög kirkjuhússins urðu að öðru. Þetta kemur skýrt fram í bréfi frá 4. Janúar 1428, þar sem Kristín Björnsdóttir lofar að gjöra upp kirkjuna í Víðidalstungu, sem þá var nýbrunnin, »svo langa og breiða, sem hún kynni sannast að spyrja«[1]). Miðaldirnar breyttu ekki.

Ef Hólakirkjurnar eru athugaðar, falla þær þegar í stað í tvo flokka, kirkjurnar fyrir og eptir siðaskiptin. Kirkjurnar eptir siðaskipin, kirkja Guðbrands biskups og kirkja Friðriks V. koma því máli, sem hér er rætt, ekkert við. Kirkjurnar fyrir siðaskiptin falla í þrjá flokka: tvær kirkjur áður en Hólakirkja varð dómkirkja — kirkja Oxa og önnur Hólakirkjan —, kirkjur eptir að hún varð dómkirkja — kirkjur Jóns, Jörundar og Péturs —, og svo hin ófullgjörða kirkja Auðunnar. Tvær fyrstu kirkjurnar skipta hér engu máli, af því að þær voru ekki dómkirkjur, enda er það ekki nema sáralítið, sem menn vita um þær, og er það til týnt í fyrsta kafla

1) *D. I.* IV, 352.

rits þessa bls. 8—9. Sama er að segja um steinkirkjubyrjun Auðunar biskups, og er það, sem til er um hana, að finna á bls. 16—18 hér að framan[1]).

Hús þau, sem hér koma til greina, eru dómkirkjurnar þrjár, Jóns, Jörundar og Péturs.

Það er enginn efi á því, að dómkirkjurnar voru að því leyti með sama hætti og aðrar kirkjur, að þeim var haldið í sömu stærð og lagi. Þó að þær einhverra orsaka vegna færu af, voru þær bygðar upp alveg eins og þær voru áður. Brygði út af því í einhverju, er þess getið beinlínis eða óbeinlínis. Til dæmis er kirkja sú, er í Skálholti var bygð 1311, stærri en sú, sem fyrir var, því svo segir í annálum: »upphafin kirkjusmíð in *mikla* í Skálholti«[2]). Það er og heldur ekki neinn vafi á að kirkja sú, er biskup Ögmundur lét smíða eptir brunann 1525, hafi verið stærri en fyrirrennarinn; svo segir í kvæðinu um Ögmund:

> Stuttar áður stundir líða,
> enn stærri kirkju lét hann þá
> bragna láta byggja og smíða
> og búa til sem fljótast má[3]).

Það er heldur enginn efi á því, að það var langhentugast að hafa kirkjurnar eins altaf, svo opt urðu kirkjuskipti. Sama teikningin hefur þá verið notuð. Það hafa sem sé óefað verið hafðar teikningar, er svo stór og vönduð hús voru gjörð. Eru slíkir útlendir uppdrættir til allmargir, og má þar einna fremst nefna uppdráttinn af klausturkirkjunni í St. Gallen, sem er frá 9. öld[4]). Torfkirkjurnar íslenzku hafa óefað verið bygðar af augum, en stóru kirkjurnar eptir uppdráttum. Og það er svo að segja sagt beinlínis, að Ögmundur

1) Síra Jón Gíslason segir í *Einföld meining* bls. 12 að Auðun biskup hafi fyrstur manna búið hér til skeljakalk er hann bjó til »stofu sína, hvörja ecki þókti auðvelt að rjúfa«. Hvaðan hann hefur þetta veit eg ekki, en það hlýtur, ef satt er, að hafa verið í kirkjuna sem hann brúkaði skeljakalkið, en ekki stofuna, því hún var úr tré. 2) *I. A.* 53. 3) *B. S.* II, 309, 26 vísa. 4) *Ferguson* II, 213—17

biskup hafi gjört uppdrátt af hinni stóru kirkju, er hann hóf að byggja, því svo segir í kvæðinu um hann:

Reist var þetta rannið fríða,
ráðin lagði hann gjörvöll á
og þar eptir ýtar smíða[1]).

Það voru bygð fimm kirkjuhús á Hólum fyrir siðaskiptin, og kann mönnum að þykja það mikið, og æfi þeirrar kirkju hafa verið á hverfanda hveli. En ekki hafði t. d. dómkirkjan í Skálholti slitið færri húsum um sama tíma, og skal til samanburðar sett hér stutt æfisaga Skálholtskirkju:

1) Gissur hvíti lét byggja fyrstu kirkju í Skálholti[2]).
2) a) Gissur biskup lét byggja aðra kirkju í Skálholti, er Dalla móðir hans var dáin. Var kirkjan þrítug að lengd[3]),
   b) en Magnús biskup lét auka þá kirkju mikið[4]).
3) a) Klængur biskup lét byggja nýja kirkju 1153[5]).
   b) Páll biskup lét smíða við hana stöpul og Þorlákskirkju í stöplinum[6]),
   c) og var kirkjan 1270 orðin hrörnuð að þökum[7]).
4) Því lét Árni biskup Þorláksson gjöra nýja kirkju, er brann til kaldra kola 1309, og var þá beðið um alt Ísland til uppreistar kirkjunni og »stóðu margir þar vel undir«[8]).
5) 1310 kom Árni biskup út með kirkjuvið og 1311 hófst kirkjusmíðin »mikla«[9]), en sú kirkja fauk 1318 og stöpullinn með[10]),
6) a) og hlýtur þá Árni biskup Helgason að hafa bygt nýja kirkju, þó hvergi sé þess getið.
   b) Á dögum Vilkins biskups var stöpullinn orðinn svo hrör, að hann varð að byggja hann allan frá grunni[11]).
   c) 1417 lét Árni III. bæta kirkjuna að ýmsu[12]).

1) *B. S.* II, 309, 27 vísa. 2) *B. S.* I, 61. 3) *B. S.* I, 67. 4) *B. S.* I, 77. 5) *B. S.* I, 81—82. 6) *B. S.* I, 132. 7) *B. S.* I, 686. 8) *I. A.* 487. 9) *I. A.* 391—392. 10) *I. A.* 204. 11) *I. A.* 287. 12) *I. A.* 292.

d) 1471 er kirkjan og stöpullinn mjög litt standandi sakir viðaleysis og þurfa aðgerðar við, eigi þau ekki að falla, og krefst Sveinn biskup rekaviðartillags af kirkjum á Ströndum og Vestfjörðum [1]).

e) 1476 er stöpullinn endurreistur [2]).

f) 1525 brann kirkjan, og var hitinn svo mikill, að klukkurnar og koparinn af þakinu runnu [3]).

7) 1526 byggir Ögmundur biskup til bráðabirgða stóra kapellu [4]) sbr. vísuna:

Litla kirkju lét hann smiða,
svo lofið guðs mætti fremjast þá [5]).

8) a) Lét Ögmundur biskup um leið byrja á stórri kirkju:

Stuttar áður stundir líða,
enn stærri kirkju lét hann þá
bragna láta byggja og smíða [6]).

Var kirkjan eins og fyrirrennari hennar þakin kopar:

Kopar og eir lét kaupa og smíða [7]).

Komst kirkjan það langt á veg, að biskup gat vígt hana:

Vígði hann síðan vandað smíði [8]).

Var kirkjunni þá samt ekki lokið, og eptir að biskup misti sjónina, seinkaði smíðinu afarmikið:

Síðan tók að seinka smíði
sagðrar kirkju þaðan í frá [9]).

Stöpull kirkjunnar var fullgjörður 1537 [10]), sama árið og Ögmundur lét af biskupsdómi í fyrra sinni.

b) 1548, þegar Marteinn Einarsson tók við kirkjunni að Gissuri látnum, var kirkjan mjög hrörnuð af vatnsgangi og fúa [11]).

---

1) *D. I.* V, 604, (viðabréfið). 2) *D. I.* VI, 86. 3) *B. S.* II, 239. 4) *B. S.* II, 268. 5) *B. S.* II, 309, 24. vísa. 6) *B. S.* II, 309, 26. vísa. 7) *B. S.* II, 310, 28. vísa. 8) *B. S.* II, 310, 30. vísa. 9) *B. S.* II, 310, 32. vísa. 10) *D. I.* VI, 86. 11) *D. I.* XI, 647.

Á sama tíma sem Hólum nægðu 3 kirkjur, kom Skálholt 8 í lóg.

A. Jónskirkja var bygð um 1107; var húsið fagurlega gjört og ekkert til sparað[1]). Stóð hún alla leið fram til hér um bil 1294, að hún var tekin ofan, og hefur hún þá verið orðin mjög hrum, þó dyptað hefði verið að þaki og öðru um 1200[2]). Þegar Guðmundur biskup Arason dó 1237, var hún orðin svo léleg, að ekki var orðið óhætt að hringja í henni meiru en einni til tveimur klukkum í senn[3]). Ekki er til neitt mál á henni, eða lýsing á lögun hennar, en með skírskotun til þess, sem sagt hefur verið, má ætla, að hún hafi verið eins og kirkja sú, er Pétur biskup bygði, og vísast þangað um það efni. Kirkjan sneri austur og vestur eins og venja er til[4]). Upp með kirkjunni hafa verið reistar skorður eða stoðir til að styrkja hana. Sést þetta mjög greinilega á frásögninni af falli Halls Kleppjárnssonar í Guðmundarsögu, þar segir um Hall: »hann verr sik vel ok opar austr um kirkjuna ok síþan norðr um sönghusit, ok féll hann þar heá *stoðinne*. . . . En hann Jón gekk þá eitt fet að kirkjunne. . . . *Stoðin* varð blóðug mjög«[5]). Stoðir þessar hafa legið skáhalt upp undir vegginn, eins og myndirnar á töflu V sýna. Þessar stoðir hafa verið á öllum Hólakirkjum, þar til kirkja Péturs biskups fauk 1624. Betri lýsingu á þessum stoðum er ekki unt að fá, en í eptirfarandi tveim vitnisburðum um fok Péturskirkju, hverjum að kenna væri, og set ég þær hér.

(Bisk. Hól. Chart. Fasc. IV, 22. Frumrit í Þjóðskjalasafninu í Reykjavík.)

Þad auglysum. vottum og viðurkiennum vier eptterskrifader menn. Jon Einarsson. Jon Asgrijmsson. annar Jon Einarsson. Sveirn Þorsteinsson. og Asmundur Finnsson og fleijre adrer. ad vier vorum heimilisfaster ad Hoolum i Hialtadal. Anno 1624. vm haustid. og vorum

---

1) *B. S.* I, 163. 2) Ibid. sbr. þetta rit bl. 13–14, 3) *B. S.* I, 585. 4) *B. S.* I, 551. 5) L. c.

tilskickader ad *dijfta ad kirkiunne. sumer ad bera ad henne torf. hennar kör og stöpli nedann.* Enn sumer ad negla þad lauslegt var. og vmm ad bæta þad med þirfte. ad forlægi kirkjuprestsinz og Rǻdzmannsins. *So færdum vier og summleiger þær stoder i sporinn er med þurtte. er stodu vid somu kyrkiu. og settum steina oc hellur i jord. suo ad sömu stoder skylldu ecke færast.* Suo berum vier S(ira) Þorbergur Asmundsson. S(ira) Arngrijmur Jonsson prestar. og Þorbiorn Einarsson þad vitne. ad vier vissum þetta sama haust giört vera. Enn seige nockrer hier ǻ möte. edur sagt hafe. þa Reynast þad opinnber osanninde. Vilium vér þessa vors vitnisburdar bijkender verda. Og meire sanninde a giora. ef þurfa þyker. og setium vier greinder vottar svmleger vor nöfn med eigin hendi hier fyrir nedan. Enn hiner adrer handfesta Ara Magnussyne þennann sinn vitnisburd opinberlega. Datum ad Holum i Hialltadal Anno 1625 þann 13 dag Junij.

Jon Einarsson med Eiginn hendi
Jon Asgrimsson med eig. hendi
Arngrimur Jonsson med Eiginn hende (L. S.)
Þorbergur Asmundsson p(restur) (L. S.)
Þorbiorn Einarsson (L. S.)

(Bisk. Hol. Chart. Fasc. IV, 23. Frumrit í Þjóðskjalasafninu í Reykjavík.)

Vmm Domkyrkiuna.

Wier eptterskrifader menn Þorbergur Asmundsson kyrkiuprestur ᴂ Holum. Sira Arngrijmur Jonsson. Þorkiell Gamlason Hoola Rǻdzmadur. Þorbiorn Einarsson. Tumas Jonsson bryte. Sigurdur Jonsson vnderbryti. Jon Einarsson smidur. Jon Asgrimsson. annar Jon Einarsson. Gudlaugur Carson. Jon Arnason og Kolbeinn Þordarson heimilismen ǻ Hölum j Hialltadal opinnberum þeim ollum. er þetta Bref siǻ edur heyra. ad ærlegur mann Are Magnusson krafdi oss sanngiarnlegs vitnizburdar. Eptter þui vær villdum fyrir Gudi og konglegu valldi Bijkiender verda. *huorninn ad su*

*forgamla Holakyrkia hefdi ad stodum stadit oc studd verid.* leingst vm á medan vær höfum til vitad. oc suo eirninn nu vm þann tijma ad hun fiell. Somuleidis og i annan máta huortt ad hennar hefdi j haust ad var. og ádur enn hun fiell. giætt verid eptter veniulegum hætte. Og med þui oss heirer. eptter gudz bodi og natturlegum Rietti. yfer sannleikann ekki hilming ad draga Riettilega til krafder. þui i Gudz nafne Amen. Vottum oc vidurkiennum vier fyrrskrifader menn. ad vær hofum hier a Holum til vista verid. sumleger samfleijtt meir enn 15 áar og þadan af skiemur. enn einginn vor skiemur enn .V. ár. og seigium vier i allann sannleika. ad greind Holakyrkia var ad mestu riett standandi. þad menn máttu sia og skynia. ádur enn hun fiell og so þar firir. *og hun hafdi med sömu skordum oc stodum stadit allann þann tijma vær hofum til vitad og huorki fleijre nie færri vp(p)a huoruga sijdu. enn nu var hun med standandi sijdast. og þo ad fleijre stoder væri fyrir nordan fram enn fyrir suunan. þa var þad eptter biskupsinz sialfs skickan. Stod greind kyrkia med sömu öllum stodum. þa hun fiell. so vitum vier og i sannleika. ad kyrkiupresturinn oc Þorkiell Gamlason lietu somu stoder allar færa j haust eptter þörfum og eptter vanalegum hætte* vnder veturinn. þar med og ad kyrkiunne dubba og dijfta ofarlega og nedarlega. eptter þui framast var mogulegt vid ad sia og giora og epter efnum. so ad *torf var lœtid nedan vid stopul. kor og kyrkiu. ad vedur mætte ecki jnn komast.* Epter þui vane haffdi til verid. og þad var neglt og lagfært sem þurfte. Enn adur enn sama kyrkia fiell af þui suijplega fiukvidre af einum byl eda tveimur. med stopli. kor og kyrkiu. og henne med ollum støplum kollvarpadi fra hennar grundvallan. þa geingu hier vmm þad bijl hun fielt jardskialptar mickler. oc so þar firer. so ad smærre hus oll bijfudust. og þad hyggium vier sömu kyrkiu eirninn Reynt hafa. edur og verda meiga. ad med storminum. og þui ognarlega fiukvidri hafe hana losad og þannenn kollkastad. þuiat vær vitum j sannleika. ad

stormikil vedur onnur hafdi hun af stadit. enn þo var hun og ad falli kominn þridia dag huijtasunnu ä þui firra Are[1]. so ad þar mätte ecke siä vp(p)a millum. Edur huort hun mætte þad vedur af bera. og þad hyggium vier hana eirninn miog veijkt hafa. oc kunnum vier fyrir gudi og monnum eptter vorre samvisku hier ecki annad sannara vmm ad bera. huors vier vilium og med æru bijkiender verda. oc handlögdum vier greindum manni nefndum Ara Magnússyni so felldann vorn vitnisburd. hvar vier vilium og meire sannleika ä giora ef þurfa þyker. Enn til meiri stadfestu hier vmm þa þryckium vier voru jnncigli hier fyrir nedann. enn sumleger vnderskrifa þetta bref med eiginn hendi. huort ed skrifad var i sama stad þann 14 dag Junij a sama Äre og firre seiger[2].

| | |
|---|---|
| (L. S.) Arngrijmur Jonsson med Eigin hendi | Þorbiorn Einarsson (L. S.) |
| Jon Einarsson med E. h. | Jon Arngrimz(son) med E. h. |
| Þorkiell Gamlason med eigenn hendi | Gunnlaugur Carson E. h. |

Um leið og skjöl þessi lýsa stoðunum (»støplunum«), sanna þau og, að kirkjan hafi ekki breyzt í vöfunum. Sýna þau einnig, hvernig gengið hefur verið frá grunni kirkjunnar. Steinum hefur verið hlaðið upp, og púkkað vel undir; fundust slíkir undirveggir við norðausturhorn kirkjunnar (sjá mynd 9), og eins og skjölin bera með sér, voru steinarnir bundnir saman með torfi, aðallega til þess að ekki kæmist vindur undir kirkjuna. En á skjölunum virðist einmitt svo, að kirkjan muni hafa fokið af því, að ekki hafi verið nægilega vel frá henni gengið að þessu leyti. Á kirkju þessari var stöpull[3], en jafnframt virðist hafa fylgt henni klukknahús, laust við kirkjuna, því svo segir í Guðmundarsögu: »Kolbeinn stóð í *klukkna huse* ok lék sér at klukkunum«[4],

1) Þ. e. 18. Maí 1624. 2) Þ. e. 1625, þó að ártalsins sé ekki fyrri getið í bréfinu. 3) *B. S.* II, 158. 4) *B. S.* I, 551.

og var það ekki einsdæmi að svo væri (sbr. I. kafla), enda sýnist kirkjan í þá daga hafa verið afarauðug að klukkum [1]). Óefað hafa — í öllu verulegu — verið sömu stúkur á kirkju þessari og hinum síðari; þó er ekki getið nema um eina stúku, og var hún suður úr kirkjunni [2]) framanverðri [3]). Svo virðist sem framkirkjan hafi legið lægra en kórinn, því að getið er um þrep á milli sönghúss og framkirkju — sönghúsgráður [4]). Hve mörg ölturu hafi verið í kirkjunni, verður ekki séð, en hitt er víst, að háaltarið stóð laust frá vegg, svo gengt var á milli, því Guðrún kirkjukerling leyndist fyrir innan altarið er draugagangurinn stóð sem hæst [4]). Glergluggar munu engir hafa verið á kirkjunni, heldur aðeins göt með hlerum fyrir, því svo segir í Jóns biskups sögu, að Hildur nunna heyrði gauraganginn í kirkjunni, og gengi til. »Hún *lauk upp glugga* einum, *er var á söngþilinu, ok leit hun fram í kirkju*« [5]). En eptir þessu hafa kórgluggarnir vart verið meira en tæpir 150 cm frá jörð, það er meðalaugnhæð kvenna. Þetta gjörðist á dögum Ketils biskups (1122—1145), og hafa þetta verið óbyrgð op, því þá var ekki á glergluggum von; þeir eru í fyrsta sinni nefndir í máldaga um 1220 [6]), og þegar Páll biskup kom til stóls síns nývígður, er það haft til marks um rausn hans, að hann hafði með sér tvo glerglugga [7]). Um annan innri frágang kirkjunnar eru engin gögn önnur en þau, að í kirkjunni var fastur biskupsstóll (cathedra), því er bein Jóns voru tekin upp, *sat Brandur biskup* »*í* **stóli sínum í kantarakápu**« [8]). Hvort önnur sæti hafa verið á kór á þessari kirkju, verður ekki séð. Kringum kirkjuna hafa verið smákofar handa einsetumönnum [9]), og áfast sönghúsi sunnanmegin var einsetukofi (erimitorium) Hildar nunnu. Á Oxakirkju hafði verið blýþak [10]), og hefur varla verið minna haft við kirkju Jóns biskups. Þó að farið

1) *B. S.* I, 586. 2) *B. S.* I, 585. 3) *B. S.* I, 829 sbr. 885. 4) *B. S.* I, 206. 5) L. c. 6) *D. I.* I, 407. 7) *B. S.* I, 131. 8) *B. S.* I, 186. 9) *B S.* I, 239. 10) Bls. 8 í þessu riti.

væri í Skálholti þegar í stað að jarða biskupana innan kirkju, — var þar fyrstur jarðaður Kolur og hjá honum Ísleifur[1]), — komst sá siður ekki á á Hólum fyrri en seinna. Jón biskup Ögmundsson var jarðaður utan kirkju í hvelfingu til austurs, sunnan við kórinn[2]). Guðmundur biskup var aptur á móti jarðaður innan kirkju í stúkunni suður af framkirkjunni[3]), en þar var þá búið að jarða tvo presta áður, og lá hann á milli þeirra. Jörundur biskup fór 1275 í leiði Guðmundar[4]), en Auðun biskup tók bein hans úr jörðu[5]).

**B.** Jörundarkirkja var bygð um 1294. Jón Espólín tilfærir málið á henni. »Var hún at lengd vel L álnir, frammkyrkjan XIX álna breið, en XIII oc III þumlungar at hæð, kórinn XVII alna breiðr, stöpullinn XVII alna breiðr oc jafnlangur«[6]), segir hann, en hefur bersýnilega tekið sitt mál eptir biskupasögum síra Jóns Halldórssonar, því síra Jón segir: »var sú kirkja að leingd 50 álnir, sjálf framkirkjan var 19 álna breið, en xvj og 3 þumlunga há. Kórinn var 17 álna breiður. Stöpullinn var 17 álna langur og eins breiður«[7]). Þó að málunum beri ekki saman er auðséð sambandið á milli þeirra. Hinsvegar er og auðséð, að ekki er hér á ferðinni mál það, sem til er af kirkju Péturs, vegghæðin er önnur, og vantar kirkjubreidd um stúkurnar. En þó er þetta mál svo svipað málinu á kirkju Péturs, að það fyllilega sannar mál mitt, að Hóladómkirkja hafi í öllu verulegu altaf verið eins í kaþólskum sið. Þessvegna mega og myndirnar á töflu II—V, þó að þær séu gjörðar eptir málinu á kirkju Péturs, gefa nokkra hugmynd um Jörundarkirkju. Hið eina sem vitanlega er óvíst hvort eins hafi verið með kirkjunum er talan á stúkunum. Það er t. d. lítið sennilegt, að á kirkjunni hafi

1) *B. S.* I, 63—64. 2) *B. S.* I, 177, 250. 3) *B. S.* I, 585, 829, 885. 4) *B. S.* I, 609. 5) *B. S.* I, 829. 6) *A. Esp.* I, 33. 7) Biskupasögur Jóns Halldórssonar, æfi Jörundar. Er nú hdr. það af Biskupasögum, sem ég hef notað, og þá átti Jón heitinn Þorkelsson þjóðskjalavörður, faðir minn, í eigu Þjóðbókasafnsins.

verið Maríustúka. Í frásögninni af stefnu Jóns biskups Halldórssonar til Laurentiusar segir: »og sem hámessa söngst, og eptir offertorium í messunni, Þórður djákni (þ. e. sendimaður Jóns biskups) var kominn fyrir Maríualtari«[1]). Hefði Maríustúka verið á kirkjunni, hefði Maríualtarið og verið í henni, og myndi þá að öllum líkindum hafa verið kveðið svo að orði: »var Þórður djákni kominn á Maríustúku« eða eitthvað á þá leið. Nú reið Þórði djákna á að Laurentius heyrði stefnuna, en það hefði verið vanséð, ef altarið hefði verið í stúku, og því hefur hann valið altari, er í kirkjubúknum sjálfum var, — það var Maríualtari, og því hefur Maríustúka sennilega engin verið. Af útúrbyggingum voru með vissu þrjár á kirkjunni, stöpull, skrúðhús og kór. Stöpullinn[2]) var áfastur við kirkjuna, og voru dyr með hurð milli stöpuls og kirkju — kirkjudyrnar[3]). Sýnir staður sá, sem vitnað er til, að stöpullinn hefur ekki verið talinn kirkjupartur í þrengstu merkingu orðsins. Það mun þó varla liggja í því, að stöpullinn hafi verið opinn að neðan — klukknaport, — eins og staðurinn gæti gefið tilefni til að halda, með því lagi myndi kirkjunni hafa orðið of fokgjarnt. Hvort hafi verið »kirkja« í þessum stöpli, eins og var í Skálholtskirkjustöpli þeim, er Páll biskup bygði[4]), skal látið ósagt. Skrúðhús kirkjunnar er margnefnt[5]), og var það notað svo sem nokkurskonar kapitulahús. Biskup tók þar opinberlega á móti gestum[6]), og var þar altari, og lét biskup stundum syngja sér messu þar[7]). Kór kirkjunnar var greindur frá kirkjunni sjálfri með vegg, svonefndum lestrarkór (lectorium), og varð komist upp á hann[8]). Voru slíkir veggir með palli ofan á algengir í erlendum kirkjum[9]), sérstaklega enskum[10]), og eru sumstaðar til enn[11]). Á

1) *B. S.* I, 860. 2) *I. A.* 285. 3) *B. S.* I, 860. 4) Bls. 163 í þessu riti. 5) *B. S.* I, 823, 859, 884—5. 6) Ibid. 7) *B. S.* I, 874 sbr. 914. 8) *B. S.* I, 823 sbr. 885. 9) *Otte* I, 50—51. 10) *Cox: English church furniture* 82 ff. 11) Sá, er þetta ritar hefur séð lestrarkóra í dómkirkjunni í Havelberg, skamt frá Berlín, og í hinni fornu kirkju fransiskusarmunka í Rothenburg við Tauberfljót í Bayern.

lestrarkór var prédikað, þar stóðu söngmenn, og þar var lýst ýmsum markverðari lýsingum [1]), Milligerð sú milli kórs og kirkju, sem tíðkast hefur til skamms tíma á íslenzkum sveitakirkjum, er leifar af lestrarkór. Í grísk-kaþólsku kirkjunni tíðkast hann enn (íkonóstasis), og skiptir hann þar kirkjunum alveg í tvö hús. Veggur lestrarkórsins var opinn og pílárar í, og setti þá Auðun biskup [2]). Á kórnum var háaltarið, í fyrstu úr tré, en Auðun biskup lét gjöra það úr steini, og leggja þrep (gráður) í kringum það [2]). Var altarið holt innan, með járnhurð fyrir, og voru þar geymdir dýrgripir kirkjunnar [2]). Yfir háaltarinu stóð himinn — svonefnd húfa — á fjórum súlum. Lét Auðun biskup færa hana til, svo hana bæri betur yfir altarið, og penta hana. Yfir og aptur af altarinu (sjá töflu II) hefur Jónsskirn vafalaust staðið, eins og það gerði í Péturskirkju [3]) þó hvergi sé þess getið. Á kór var hásæti biskups [4]), og að öllum líkindum formar handa kórsbræðrum, en að því mun vikið í umtali um Péturskirkju. Gólfið í kirkjunni hefur annaðhvort verið hellulagt, eða úr tré, að minsta kosti; varð að brjóta upp gólfið þegar verið var að leita að beinum Guðmundar biskups, en svo myndi varla vera að orði kveðið um moldargólf. Kirkjan var með blýþaki eins og hinar fyrri kirkjur, enda getur máldaginn frá 1396 — tveim árum eptir fokið — um blý af kirkju.

C. Péturskirkja var bygð 1395, og stóð fram yfir siðaskiptin. Hefur síra Gottskálk Jónsson (f. 1524, d. 1590), sem þekti hana og sá bæði í kaþólskum og evangeliskum sið málin á henni í syrpu sinni, sem nú er í British Museum, en hann hefur ritað þau eptir máldagabók Ólafs Rögnvaldssonar, svo ekki þarf að efa að rétt sé með farið. »Kirkjan á Hólum í Hjalltadal eigur svo löng að vera. 50 álna löng, en 17 álner langur stöpullinn og svo breiður, en framkirkjan 19 álna breið, en um stúkurnar 15 álna og 20 breið, en kórinn 17.

---

1) *B. S.* I, 839. 2) *B. S.* I, 830 sbr. 890. 3) *D. I.* IX, 295. 4) *B. S.* I, 847, 874.

álna, en hæð framkirkjunnar hálf þriðja alin og tuttugu, og tveir þverfingur betur« [1]). Eptir þessu voru því málin:

1) Framkirkjan [2]) 50 álna löng, en 19 álna breið.
2) Framkirkjan 35 álna breið séu stúkurnar mældar með.
3) Stúkurnar (sem voru bæði suður og norður af kirkjunni) 8 álnir á dýpt ($\frac{35 \div 19}{2}$).
4) Kórinn 17 álnir að lengd.
5) Stöpullinn 17 álnir að lengd og 17 álnir að breidd.
6) Vegghæð kirkjunnar $23^1/_2$ alin og 2 þumlungar.

En alt er þetta íslenzkt mál [3]). Það veldur engum vandræðum að draga upp framkirkjuna, ferhyrning 50 $\times$ 19 álnir, né heldur að koma niður stöplinum norðan við hana — ferhyrning 17 $\times$ 17 álna. Um kórinn er það aðeins tekið fram, að hann hafi verið 17 álnir að lengd, en það virðist svo ofur sennilegt, að hann samræmisins vegna hafi verið eins breiður, og að jafnvel í málinu á eptir orðunum »en kórinn 17 álna« hafi átt að standa »og svo breiður«, en það fallið úr í afskriptinni, og hefur hann því á uppdrættinum (Tafla II) verið hafður svo. Yfir höfuð sýndist talan 17 vera, ef svo mætti segja, grundvallartalan í kirkjunni. Stöpull og kór hvert um sig 17 $\times$ 17 álnir, framkirkjan 50 álnir að lengd, eða hér um bil 3 $\times$ 17 (sem er 51), og stúkurnar 8 álnir að lengd, sem er tæplega $\frac{17}{2}$. Það er og auðséð að jafnhliða ferhyrningur (kvaðrat) er hin berandi mynd í kirkjunni. Stöpullinn er jafnhliða ferhyrningur, kórinn sama og framkirkjan er 3 jafnhliða ferhyrningar hver við endann á öðrum. Það er því bersýnilegt, að eigi að reyna að gjöra sér nokkra hugmynd um hvernig kirkjan leit út, verður að hafa þetta hugfast. Nú kann einhver að segja, að sá ljóður sé á þessu, að það sé alt saman ekki nema »hér um bil« og »tæplega« o. s. frv. Þetta er vitaskuld rétt, en þar til er því að svara, að þetta

---

1) *D. I.* V, 358. 2) Kirkja þýðir á þessum stað aðeins framkirkjan sbr. bls. 135—6. 3) Um íslenzka alin sjá *A. Í. F. F.* 1910 bls. 1—27.

er svona um alt. Mennirnir eru í daglegu tali taldir vera eins bæði vinstra og hægra megin, en þó er langt frá því að svo sé. Hlutir, sem venjulegast eru taldir beinir, óhornskakkir, reynast alls ekki vera það þegar á herðir. T. d. eru kórarnir á dómkirkjunni í Þrándheimi, Péturskirkjunni í Málmey, og þó sérstaklega á Sebalduskirkjunni í Nürnberg ramskakkir, þó ekki verði það séð með berum augum. Svo eru mælitæki — jafnvel hin beztu — ófullkomin, að ómögulegt er að byggja neitt hús hárrétt eptir ákveðnu máli, né heldur hægt að mæla það alveg rétt upp eptir á. Má sjá það á því, hvað málum þeim, sem gjörð hafa verið á hinni núverandi Hólakirkju, ber mikið á milli[1]), en þær mælingar eru að vísu allar gjörðar af leikmönnum á því sviði. En þó höfð séu beztu tæki, fer á sömu leið. T. d. sögðu af tveim trigonometriskum mælingum, sem gerðar voru á turni dómkirkjunnar í Freiburg í Breisgau, önnur hann 111,92 m. á hæð, hin 113,10 m., og af tveim stangarmælingum sagði önnur hann vera 115,65 m., en hin 115,84 m. á hæð[2]), en Kugler segir hann vera 120,83 m. (385 Rínarfet). Þetta mál dómkirkjunnar, sem óefað er fengið með því að mæla hana upp, en ekki er málið sem unnið skyldi eptir, er því nægilega nákvæmt til að sanna þetta mál mitt, og hefur eptir föngum verið farið eptir þessu, er verið var að gjöra uppdráttinn (Tafla II) af grunnfletinum, og kirkjunni sjálfri (Tafla III, IV, V).

Í máldögunum frá 1525 og 1550 eru taldar vera þessar útbyggingar úr dómkirkjunni:

Stöpull,
skrúðhús,
Maríustúka,
Önnustúka,
Krossstúka,
kapella og
kór.

---

1) Sjá bls. 26 í þessu riti. 2) *Otte* I, 75.

Stöpullinn var svo sem getið hefur verið 17 × 17 álnir íslenzkar. Um hæð hans er ekkert hægt að vita, en ætti kirkjan að samsvara sér nokkurn veginn, hefur hann að vegghæð ekki verið lægri en framkirkjan var löng, og hefur hann verið gjörður það á uppdráttunum, enda heldur hann þar með grundvallarhlutföllum kirkjunnar —, sem ekki virðast hafa verið gullna sniðið (sectio aurea). Stöpullinn hefur óefað verið gjörður úr lóðréttum stokkum, og hefur varla getað verið um það að tala, að hafa hann hærri en þetta úr því efni, og hefur þá þó orðið að skeyta saman trén. Utan var hann skorðaður með skástoðum, eins og öll kirkjan[1]) (sbr. Tafla III, IV, V). Var gengið inn í stöpulinn að utan um dyr[2]), og úr stöpli í kirkju um aðrar[2]), og mun hafa verið sá siður, að stöpull væri opinn nætur sem daga, en kirkjan ekki[2]). Voru 12 sperrur í stöplinum[3]), og lopt í honum að minsta kosti eitt[4]), og lá þangað stigi að neðan[5]). Á loptinu var að minsta kosti einn gluggi, — hvort það hafi verið glergluggi eða opin glufa sést ekki[5]) —, en vafalaust hafa þeir verið fleiri, þó ekki sé getið nema eins. — Á myndirnar hafa þeir verið settir til að setja á stöpulinn svip. Óvíst er hvort í stöpli Hólakirkju hafi verið kirkja á loptinu, eins og í Skálholti, eða ekkert nema klukknastólar. 1525 eru í stöplinum 12 klukkur, og 1550 nokkru fleiri, þar með Jónsklukka og Maríuklukka, sem síðar verður að vikið. Ólíklegt er að veggir stöpulsins hafi verið alveg lóðréttir, heldur mun þeim hafa hallað inn á við, svo að hann mjókkaði upp eptir. Það var mjög víða svo[6]), því með því móti tóku stöplarnir minna á sig í veðrum og voru stöðugri. Hvernig þaki stöpulsins hefur verið fyrirkomið er ekki kunnugt, á uppdrættina er það sett af handahófi í líkingu við það, sem á ýmsum trékirkjum var, en óefað hefur það verið úr blýi eða kopar.

---

1) *B. S.* II, 320. Magnús klerkur rendi sér niður stoðina. 2) L. c. 3) Lbs. 290. Fol. bls. 296 sbr. *A. Esp.* VI, 25 4) *B. S.* II, 320. 5) L. c. 6) *Olte* I, 32.

Um skrúðhúsið á kirkjunni er að eins getið, en því er að engu lýst. Þau voru optast norðan megin kirkjunnar, áföst kórnum, og innangengt í hann úr þeim [1]). Það er fjarska ólíklegt, að það hafi verið minna en stúkurnar, það er að segja 8 × 8 álnir íslenzkar. Varla hefur það þó heldur verið mikið stærra, því þá hefði það borið kórinn ofurliði. Hefði það stærra verið, hefði það hlotið að vera að minsta kosti 17 álnir á langveginn, ef hlutföll ættu ekki að raskast, en það væri bersýnilega of mikið. Á uppdráttunum er það því haft 8 × 8 álnir, með dyrum að utan inn og milli kórs og skrúðhúss. Í skrúðhúsinu hefur óefað verið altari, eins og var á Jörundarkirkju. Í skrúðhúsinu voru almaríur biskups, klerka- og djáknakistur geymdar, svo og ýms reiða kirkjunnar, t. d. 1525 þrjár kólflausar klukkur, og þar skrýddust og afskrýddust klerkar.

Stúkurnar voru þrjár: Maríustúka, Önnustúka og krossstúka, og eru þær allar nefndar í máldögunum 1525 og 1550 og lágu eins og kirkjumálið ber með sér út frá framkirkjunni. Hafa þær óefað, svo sem vant var um stúkur, verið með þrem veggjum, en opnar inn í kirkjuna. Þó aldrei sé getið um altari nema í einni stúkunni — Önnustúku [2]), var vitanlega altari á þeim öllum, sem og sést á því, hvaða gripir voru á þeim geymdir samkv. máldögunum 1525 og 1550, enda voru stúkur til þess eins ætlaðar, að þar væri ölturu, og hafði hver kórsbræðra eitt til að þjóna. Dýpt stúknanna (breidd frá kirkjuvegg) var 8 álnir, og verður að gjöra ráð fyrir sama máli á hinn veginn, annars myndu hlutföll kirkjunnar (kvaðratið) raskast. Gluggum hefur orðið að gjöra ráð fyrir á þeim, þó hvergi sé þeirra getið. Máldaginn 1550 getur um Jónsstúku, en þar er vafalaust ekki um stúku í eiginlegum skilningi að ræða, heldur sérstakan part af kórnum, og verður að því vikið síðar.

Kapella var með kirkjunni, og er hún nefnd í báðum máldögunum frá 1525 og 1550. Var hún og kölluð

1) *Otte* I, 104. 2) *D. I.* VIII, 732 f.

biskupskapella[1]), og hefur óefað verið alveg sérstakt hús, en hefur þó haft einn vegginn sameiginlegan með kirkjunni, og verið innangengt í hana úr kapellunni. Það er alveg víst, að kapella og stúka hefur ekki verið sama; annars hefði þetta verið nefnt biskupsstúka, en ekki biskupskapella. Það getur heldur enginn vafi leikið á því, að stúkurnar voru opnar inn í kirkjuna. Ekki getur það heldur verið efasamt, að kapellan var áföst við kirkjuna, og gengt á milli, því um Magnús klerk segir, að hann hafi komist »inn í kirkju og alt inn í biskupskapellu«[2]). Mismunurinn hlýtur því að hafa legið í því, að kapellan væri ekki opin inn í kirkjuna, enda ber hinn tilvitnaði staður það með sér hálft í hvoru, að svo hafi ekki verið. Orðatiltækið »inn í kirkju, og alt inn í biskupskapellu«, bendir eindregið á, að það hafi verið sérstakt hús. Það var mjög víða siður annarstaðar að hafa, þar sem dómkirkjur voru svo stórar, að engin leið væri að þær nálægt því fyltust að jafnaði, vegna tiltölulegrar mannfæðar í kring, áfasta við þær smákirkju, sem fullnægði hinum venjulegu þörfum, og sem notuð var hversdagslega, en að aðalkirkjan væri notuð á öllum hátíðum. Má þar til dæmis nefna Péturskirkjuna í Róm, þá sem var á undan þeirri er nú stendur[3]), klausturkirkjuna í Ainay í Lyon á Frakklandi[4]), dómkirkjuna í Parenzo á Ítalíu[5]), dómkirkjuna í Toul[6]), dómkirkjuna í Sekkau í Austurríki[7]) og miklu fleiri. Í raun og veru eru og kapítulahús þau, sem mörgum enskum dómkirkjum fylgja, samskonar kapellur[8]). Það mun mega gjöra ráð fyrir því, að Hóladómkirkja hafi rúmað 400—500 manns, — hin evangeliska dómkirkja, er nú stendur í Reykjavík, rúmar á gólfi vandræðalaust 470 manns[9]), og er hún 53 × 20 álnir danskar. Það er nú ekki ófróðlegt að sjá, hvaða

---

1) *B. S.* II, 320. 2) Ibid. 3) *Joseph: Geschichte der Baukunst* I, 248. 4) Ibid. II, 155. 5) *Kugler* II, 37. 6) Ibid III, 231. 7) *Otte* I, 61. 8) *Kugler* III, 161—162. 9) Þessa upplýsingu á ég dómkirkjuprestinum síra Bjarna Jónssyni að þakka.

kröfur hafa verið gjörðar til Hólakirkju um þetta. Árið 1398 var af vinnufólki 73 manns, 49 karlmenn, en 24 kvenmenn, á Hólum, og eru þar í ótaldir eyjamenn, torfmenn og sláttumenn, og auðvitað vinnufólk á staðarbúunum, sem sjaldnast var heima [1]). Gjöri maður ráð fyrir því, að verkafólk það, sem vantalið er, hafi verið 25, og prestar staðarins 8 [2]), biskup níundi, og milli 10 og 20 aðkomumenn, hafa sjaldan færri verið búsettir á Hólum en 125 manns. Það segir sig sjálft, að þetta fólk eitt hefur ekkert haft með svona stóra kirkju að gjöra. Vitaskuld voru sungnar messur hvern dag á Hólum, og það fleiri en ein [3]). Hvort hver prestur hafi sungið eina messu á dag, er samt óvíst, því óskylt var það í þá daga nema á jóladag, þá skyldi syngja þrjár [4]), en þetta gjörðu beztu klerkar, t. d. Þorlákur biskup [5]), og biskupar létu sér ant um að prestar syngju messu sem optast, »skrýðist opt í messu«, segir Páll biskup [6]). Hitt er þó víst, að um daga Laurentiusar biskups var daglega sungin hámessa [7]), og hefur það sennilega verið svo alla tíð. Á Hólum voru og sungnar tíðir daga sem nætur [8]), alveg eins og gjört var á klaustrum [9]). Það er alveg gefið, að heimafólk á Hólum hefur ekki nærri alt getað sótt messu daglega vegna starfa sinna, og tíðir hafa stólklerkar, að minsta kosti hversdagslega, orðið að syngja yfir sjálfum sér, enda var ekki skylt að hlýða messu nema hvern helgan dag [10]), eða að minsta kosti þriðja hvern, en annars var lögð við sekt [11]). Það var og gefinn hlutur, að ekki þurfti að búast við neinni aðsókn úr nágrenninu á virkum dögum, og var það því ógnar eðlilegt, að kapellan væri einmitt höfð undir hinar daglegu guðsþjónustur. Það var bæði hentugra og skemtilegra, og að búnaði til og bókum var kapellan

---

1) Talið saman eptir ráðsmanns reikningi um vinnukaup á staðnum *D. I.* III, 413—419. 2) Fjórir prestar, fjórir djáknar sbr. *D. I.* V, 360. 3) *D. I.* VIII, 732—733. 4) *D. I.* II, 29. 5) *B. S.* I, 104. 6) *D. I.* I, 372. 7) *B. S.* I, 874. 8) *B. S.* I, 846. 9) *D. I.* I, 492. 10) *B. S.* I, 164. 11) *D. I.* III, 93.

fult eins vel úr garði gjör og hver önnur kirkja (sjá skrárnar hér á eptir). Að vísu varð ekki hjá því komist, að kirkjan sjálf væri notuð daglega, því við sum ölturu var bundin messu- og tíðakvöð, t. d. við Önnualtari á Hólum, þar skyldi daglega sungin sálumessa og tíðir [1]). Ekki sýnast þó klerkar hafa gjört þeim guðsþjónustum mikinn kostnað, því þó Ólafur biskup ætlaðist til þess að kórsbróðir sá, er altarið hafði, syngi tíðirnar »með öðrum lærðum mönnum, sem hann (presturinn) kann til að fá«, gjörir hann hinsvegar ráð fyrir því, að »hann kunni og engvann að fá« [2]), og hefur þá áhugi leikmanna varla verið meiri. En þó kapellan væri höfð og nægði um virka daga, var hinsvegar aðsókn á helgum og stórhátíðum — sérstaklega á páskadag, er menn komu að taka guðs líkama [3]) — svo mikil að dómkirkjunum, að þær máttu ekki minni vera, ef vel átti að fara. T. d. var á upptökudag Þorláks svo mikil aðsókn að Skálholtskirkju, að »vesalingur mátti ekki komast að kirkju og helgum dómi Þorláks biskups fyrir sakir ófráleiks, áður en honum var skotið inn í kirkjuna fyrir ofan herðar mönnum, er svo stóðu menn þykt fyrir, að engan veg mátti rúm gefast« [4]). Á Hólum var kirkjusóknin á hátíðum engu síðri; svo dreymdi t. d. móður Laurentiusar biskups, »að hún þoktist vera komin til Hólastaðar einhvern hátíðisdag, er mikil sókn var til staðarins; þóttist hún varla inn komast í kirkjudyrnar fyrir mannþröng« [5]). Svo hefði hana varla dreymt, ef slikt hefði verið fátítt. Í tíð Jóns biskups Ögmundssonar komu á hverjum helgum degi 100—200 (stór = 120—240) til kirkju, og á páskum (skirdegi) um 400 (stór = 480) manns, karlar og konur [6]). Og enn meiri gat aðsóknin orðið að dómkirkjunum, þegar eitthvað alveg sérstakt var um að vera. Þórður Marteinsson skrifaði Pétri Sjálandssuperintendent Plade lýsingu á því, þegar herra Jón Arason hreinsaði dómkirkjuna í Skál-

1) *D. I.* VI, 218 sbr. VIII, 732. 2) Ibid. 3) *B. S.* I, 30. 4) *B S.* I, 311. 5) *B. S.* I, 790. 6) *B. S.* I, 168.

holti eptir Gizur Einarsson dauðan, og lét taka upp lík hans, og flytja það úr kirkjunni, en samkv. þá gildandi lögum var hann ekki kirkjugræfur, og segir Þórður þar meðal annars: »Haec impius ille homo coram omni populo, ubi fere octinginti homines congregati erant fecit«[1]). Hafi það verið átta stórhundruð, eru það 960 manns, og er það mikil aðsókn í strjálbygðu sveitahéraði. Það er vafalaust, að hinar mikilfenglegu guðsþjónustur hafa laðað fólkið, og það má hér taka það fram, að sú skoðun, sem margsinnis hefur verið barin fram, að almenningur hafi ekki haft af þeim not, af því að þær voru á latínu, er algjörlega röng. Þó fólkið að vísu skildi ekki latínuna, var það svo nákunnugt öllu efni og eðli guðsþjónustanna, að það kom fyllilega í skilnings stað. Kerlingin, sem hraut við altarishornið hjá Guðmundi presti Arasyni, vissi hvað messunni leið, og þekti hana út og inn; það sýnir viðtal hennar við Guðmund prest[2]). Prédikanirnar kunna að vísu einnig að hafa laðað, því nógu voru þær margar, þó þeirri bábilju sé enn haldið fram, að þær hafi litlar eða engar verið. Prestar áttu að prédika alla sunnudaga og hátíðisdaga[3]), eða nákvæmlega sama og evangeliskir prestar nú, en það var satt, að biskupar létu sér mismunandi annt um, að sú skylda væri af hendi innt; t. d. dró mikið úr því á dögum Páls biskups[4]). Það má því segja, að á hvorutveggja hafi verið jafnmikil þörf, kapellunni á virkum dögum og kirkjunni á hátíðum og þegar frammistöðuhald var, og er enginn efi á því, til hvers kapellan hafi verið notuð. Þó Jón biskup IV. (1426—35) gjöri ráð fyrir daglegri hámessu á kóri[5]), gat kapellan þó hafa verið til þá, því óefað er þetta messa sú, er kapitulinn skyldi hlýða daglega á dómkirkjukóri (missa conventualis), en hinsvegar er ekki ólíklegt, að hún hafi verið bygð um leið og Gottskalk biskup Keniksson lét smíða upp miðkirkjuna[6]). Kapellan er sett á kirkjuna norðanverða, af því

---

1) *D. I.* XI, 789. 2) *B. S.* I, 438. 3) *D. I.* III, 93 sbr. 615. 4) *B. S.* I, 140. 5) *D. I.* IV, 421. 6) *B. S.* II, 231.

að skrúðhús og kapellur, eins og þegar hefur verið tekið fram, venjulegast voru þeim megin kirkju, en á því, hvar leg í Jóns biskups VI. var og sona hans, sést greinilega, að kapellan lá við vesturenda framkirkjunnar. Breidd kapellunnar hefur óefað verið 8 álnir í samræmi við breidd stúknanna, og lengdin hefur af samræmisástæðum varla getað verið önnur eða minni en 17 álnir. Vegna þess, til hvers kapellan var notuð, er óhætt að gjöra ráð fyrir inngangi í hana að utan í öðrum hvorum endanum, og þá eins fyrir altari í hinum, svo sem tafla III og V sýna. Gluggar hafa auðvitað á henni verið, en eru á uppdrættinum settir af handahófi.

Í framkirkjunni sjálfri voru 16 sperrur[1]), og máldaginn 1525 telur alls 23 glerglugga frammi í kirkjunni. Er þar óefað átt við gluggana í framkirkju, stúkum og kapellu öllum saman, og hefur verið reynt að koma þeim fyrir á uppdrættina eins og hægt var. Gólf hefur óefað verið í henni, eins og var í kirkju Jóns biskups, og þá sennilega úr hellu. Upp á kórinn hafa óefað legið þrep, og verið lestrarkór á milli kirkju og kórs eins og á hinum fyrri kirkjum. Á miðju kirkjugólfi stóð altari, og var yfir því bríkin mikla, sem nú er í Hólakirkju[2]), en hún hefur aldrei verið þar á háaltarinu, eins og alment er haldið. Var það altari nefnt formessu-altari; var þar sungin formessa, en klerkur sá, er þjónaði presti í formessu, var nefndur formessuklerkur[3]).

Kórinn sjálfur tók við fyrir handan lestrarkórinn; á honum lá uppi á þrepum (gráðum) háaltari það, sem Auðunn biskup hafði gjöra látið, en yfir því hefur verið húfa, eins og sú er Auðunn biskup lét gjöra. Úr kórnum lágu dyr inn í skrúðhús, og stigar eða stigi upp á lestrarkór. Uppi yfir háaltarinu stóð, að því er máldaginn 1525 hermir, skrín Jóns biskups; var alabastursbríkin, sem nú er í Þjóðminjasafninu, á háaltarinu, og

---

1) Lbs. 290 fol. bls. 296 sbr. *A. Esp.* VI, 25. 2) Sbr. máldagana 1550. 3) *D. I.* IV, 422. Um formessu sjá undir bókum Hólakirkju.

auk þess 1550 fjögur líkneski með alabastur. Bar skrín Jóns upp yfir bríkina, og lá frá vestri til austurs aptur af altarinu. Á altarinu voru og önnur skrín minni[1]). Í Hólamáldaganum 1550 er nefnt »Jónslíkneski stórt forgylt í Jónsstúku«. Með Jónsstúku er vafalaust átt við þann part kórsins (eptri partinn, hákórinn), sem skrín Jóns stóð á, en ekki neina sérstaka stúku út úr kirkjunni. Það var algengt, að partar kórsins hefðu nafn af dýrlingi þeim, sem þar var geymdur. Svo er til dæmis eptri partur hákórsins í Westminster Abbey í London nefndur stúka ins blessaða Játvarðar (the chapel of St. Edward the Confessor)[2]), eptir helgum dómi hans, sem þar stendur. Líkneski Jóns hefur því sennilega staðið fyrir miðjum gaflvegg kórsins. Á kórnum voru 18 sperrur[3]), og að því er máldagarnir 1525 og 1550 herma 12 gluggar. Eru í því vafalaust og þeir gluggar, sem á skrúðhúsi voru, og hefur verið reynt á uppdráttunum, að koma þeim sem haganlegast fyrir. Gluggar hafa því alls verið 35 á kirkjunni, en ekki 38 eins og Þorláksannáll og Espólín segja[4]). Á kórnum voru 1525 fjórir formar svonefndir, og hafa þeir bersýnilega einnig verið þar 1550, því þá átti kirkjan fjóra formadúka. Á kirkjum, þar sem voru kapitular, það er að segja þar sem prestar eða klerkar lifðu saman munklífi, án þess þó að hafa unnið munksheiti, var eitt aðalstarf þeirra, að syngja tíðir á réttum stundum, bæði dag og nótt; gengu þeir þá til kórs, og settust þar í sæti, er á latínu hétu stalla, og voru beggja vegna á kórnum. Væru svo margir kanókar, að það þyrfti að hafa margar sætaraðir, hækkaði hver röð, er aptar var, um eitt þrep, og var hver röð nefnd forma, efsta röðin alta forma, en neðri raðirnar bassæ formæ[5]). Er þaðan komið íslenzka heitið formi, sem merkir slíka sætaröð á kór. Á klaustur-

---

1) Sjá Hólamáldagann 1525 sbr. *B. S.* II, 319, 330. 2) *Westlake: The New Guide to Westminster Abbey* London 1916 bls 26. 3) Lbs. 290. fol. bls. 296 sbr. *A. Esp.* VI, bls. 25. 4) L. c. 5) *Otte* I, 283.

kirkjum hétu formarnir sunnan megin formæ abbatis, en norðan megin formæ prioris[1]), þ. e. abótaformar og priorsformar, og er einmitt 1525 nefndur ábótaformi á Þingeyrum[2]). Nú var það víðast hvar á dómkirkjum, að þar voru kapítular, og leiða formarnir, sem í Hóladómkirkju voru, mann ósjálfrátt út í það, að athuga, hvort á íslenzku dómkirkjunum hafi ekki verið kapítular, þó að svo sýnist ef til vill í fljótu bragði sem það hafi ekki verið. Jón Sigurðsson neitar því afdráttarlaust, að kapitular hafi verið á biskupsstólunum, og segir að ekki hafi verið hirt um að setja þá, af því að Íslendingar hafi treyst fornum lögum sínum, »að þeir skyldu biskupar vera, sem kosnir væru af lærðum og leikum« hér á landi[3]). Hið fyrra er rangt og hið síðara er vafalaust misskilið. Það voru engin lög íslenzk, sem ákváðu að biskupar skyldu vera kosnir af alþýðu manna; það var venja hér eins og svo víða annarstaðar, og hafði sú venja vitaskuld ekki lagagildi lengur en sá eiginlegi kirkjulöggjafi — páfinn — vildi vera láta, en þegar í Decreto Gratiani[4]) og síðar í Decretaliis Gregorii[5]) er algjörlega bannað að leikmenn hafi nokkur afskipti af biskupskosningum. Það hefur því hér á landi aldrei verið um neina kosningu að ræða af hendi alþýðu, enda sýna þær »kosningar« íslenzkar, sem menn þekkja, þetta glögglega, því altaf þurfti eitthvert kirkjuvald að staðfesta þær. Þær voru því ekki annað en præsentatio, tillaga, ósk. Nú hefur Jón Sigurðsson bersýnilega ályktað, að engin kapituli hafi verið hér til[6]), af því að svo virðist sem enginn kapítulakosinn biskup hafi verið til á Íslandi. Það er von að svona sé ályktað, því kosningavald kapítulanna var hið mest áberandi starf þeirra, og í sjálfu sér hyrningasteinninn undir hinum miklu — alt of miklu — áhrifum þeirra á miðöldunum, völdum sem

---

1) Ibid. 2) *D. I.* IX, 313. 3) *D. I.* I, 425. 4) Pars prima canon 35 distinctio 63. 5) Caput 1, 51, 56, liber I, titulus 3. 6) Finnur biskup hefur að vísu haft hugboð um, að kapitular muni hafa verið á Íslandi. *Hist. eccl.* II, 374 sbr. 142.

tridentinska kirkjuþingið svipti þá með öllu, þó að kosningarréttinum fengju þeir að halda. Spurningarnar verða nú þrjár: 1°) var óhugsanlegt að kapítular væru til nema kórsbræður hefðu biskupskosningavald, 2°) voru nokkrir kapítular til á Íslandi, og 3°) voru nokkrir biskupar kosnir af íslenzkum kapítula.

Upprunalega voru kapítularnir ekki fólgnir í öðru en því, að klerkar dómkirkjunnar og embættismenn lifðu saman munkalifnaði, sváfu í sama húsi og borðuðu við sama borð, en biskup var yfirmaður þeirra. Þeir voru tvennskonar, dignitates, þ. e. kanókar, sem höfðu raunverulegt embætti á hendi með sérstökum skyldum, sem leiddu sérstaklega af þessari kanókastöðu, og auðvitað virðingar þær, sem fylgdu, og svo personatus, þ. e. kanókar, sem að vísu voru úr klerkastétt, en sem ekki tóku upp á sig aðrar skyldur með kanókdæminu, en skylduna til samvistar við aðra kórsbræður og til sameiginlegs tíðasöngs með þeim á kóri dómkirkjunnar. Personatus voru aptur með tvennu móti, canonici residentiales, þ. e. kórsbræður, sem áttu heima á dómkirkjunni, og voru skyldir þar að vera, og canonici non residentiales (rurales) þ. e. kórsbræður, sem ekki voru skyldir að dvelja á dómkirkjunni, heldur gegndu embættum úti um biskupsdæmið, og var það fyrir þeim kvaðalaus heiður. Svo var t. d. síra Sigurður Jónsson á Grenjaðarstað »kanunkur Þrándheimsdómkirkju«[1]), og var hann vitanlega canonicus non residentialis. Allar dignitates og aðrir canonici residentiales voru á framfærslu biskups, og fékk hann þeim lífeyrisstofn; hét hann praebenda á latínu, og er úr því orðið íslenzka orðið prófenta. Dignitates í kapitulunum voru:

1) Decanus (archipresbyter).
2) Scolasticus.
3) Primicerius (rector chori).

---

1) *D. I.* IX, 155. Finnur biskup segir prestana í Hítárdal, Odda og á Grenjaðarstað hafa verið kórsbræður Niðaróskirkju (*Hist eccl.* II, 373), og er það einkar sennilegt.

4) Poenitentiarius.
5) Theologus (lector).
6) Thesaurarius (sacrista).

Auk þess voru ýmsar aðrar dignitates, sem hér minna máli skipta, og ekki voru á öllum kapitulum. Þessir menn voru embættismenn og ráðgjafar biskups, hver á sínu sviði, og voru að því leyti valdamenn, en önnur og meiri völd höfðu þeir í öndverðu ekki. Drógu kanókarnir nafn sitt af reglunum, sem þeir héldu (canones), en kapítulinn nafn sitt af því, að daglega var lesinn yfir honum kapítuli úr reglunum. Þegar fram liðu stundir tóku kanókar víða að þreytast á sam- og munklífinu, og fengu biskupa til að skipta með sér fjármunum stólsins, og bjuggu úr því hver að sínum hlut, biskup að sínu (mensa episcopalis), og kórsbræður að sínu (massa communis), en kórsbræður skiptu víða sínum hlut upp í portiones, og fékk þá hver kórsbróðir sína, og mátti hann njóta vaxtanna af þeim höfuðstól. Við það að þurfa ekki að eiga fjárhag sinn undir biskupi urðu kórsbræður auðvitað sjálfstæðari, og gátu beitt sér og aðstöðu sinni gegn biskupi. Smám saman færðu þeir sig enn upp á skaptið, og þvinguðu fram réttinn til að kjósa biskup, og þar með voru þeir búnir að ná hámarki valda sinna, sem mörgum mátti minnisstætt verða, til dæmis Jörundi erkibiskupi í Niðarósi, og lýsir Laurentiusarsaga ágætlega öllum yfirgangi kórsbræðra við hann. Svo mátti og Auðuni biskupi rauða vera það minnisstætt, því hann hafði verið illvígastur í mótstöðunni við Jörund, og er lítill vafi á því, að Eilífur erkibiskup hafi verið þess valdandi, að hann varð Hólabiskup, og hafi honum þótt hann beztur í fjarska. En þessar breytingar frá hinni upprunalegu mynd kapitulanna fóru fyrst að gjörast á 9. öld, og biskup kaus kapítuli fyrst á öndverðri 12. öld. Breytingarnar komust á í hinum ýmsu biskupsdæmum á ólíkum tímum; í sumum komust ekki á nema nokkrar af þeim, t. d. fjárskiptin, en í sumum biskupsdæmum engar, uns kirkjuþingið í Trí-

ent (1545—1563) kom á kapítulana þeirri skipun, sem nú er á þeim[1]).

Þormóður Torfason segir í Noregssögu sinni: »Qvod ad islandicas res attinet, invenitur hoc anno (þ. e. 1267) Jörundo seu Georgio episcopo Holensi permissum ordinem canonicorum Holis instituere«[2]). Það er auðséð að Þormóður heldur, að Jörundur hafi fengið leyfi til að setja kapítula (kanóka) á biskupsstólinn, en hitt er jafnvist, að hann blandar því hér saman við, að Jörundur setti kanókaklaustur á Möðruvöllum í Hörgárdal 1295[3]), enda eru kapítular á íslenzku dómkirkjunum miklu eldri en svo; þó er aðeins svo örsjaldan getið um þá með því nafni, og ástæðan til þess er auðskilin. Biskupar vorir voru svo forsjálir, að láta þá aldrei breyta hinni upprunalegu mynd, svo að þeir höfðu altaf ráð þeirra í hendi sér, og þeirra gætti svo sem í engu; það er fyrst allra síðustu árin fyrir siðaskiptin, sem þeir sýnast ætla að fara að stinga upp kollinum. Það er svo að segja strax eptir að biskupsstólarnir eru komnir á stofn, að vart verður við kapítulana, ekki beinlínis, heldur sést að haldin hefur verið munkaskipun á tíðasöngnum til dæmis á Hólum, því þar er sungið daga og nætur[4]) og eins eru dignitates kapitulanna nefndar, og er það hvorttveggja ótvírætt mark. Þegar í sögu Jóns biskups verða fyrir manni tveir kórsbræður á Hólum. Rikinni hinn franski er erkiprestur — archipresbyter — þar[5]); var það dignitas, sem hafði á hendi sóknarpreststörfin við dómkirkjuna, og það er því gefið, að hvar sem fyrir manni verður síðar kirkjuprestur, og það er opt, þá er það erkipresturinn, kórsbróðir sá, sem æðstur var meðal dignitates, og hafði stjórn annarra kórsbræðra, enda felur Gottskalk biskup

---

1) Um kapítula sjá: *Tomassinus: Vetus et nova ecclesiæ disciplina circa benificia.* 1786 II, 767 ff. og *Hinschius: System des katholischen Kirchenrechts in Deutschland* 1869—97, II, 49 ff 2) *Thormodi Torfæi: Historiæ rerum norvegicarum* Kbh. 1711, IV, 347. 3) *A. I.* 261. 4) *B. S.* I, 847. 5) *B. S.* I, 173, 246.

II. kirkjupresti á Hólum umsjón með því, að sá kórsbróðir, er sálumessuprófentu þá hefur, er biskup stofnar 1520, vinni starfið með trúmensku[1]). Önnur dignitas er nefnd á Hólum í tið Jóns biskups, því þá er síra Gísli Finnason inn gauzki skólameistari[2]) — scolasticus — og er einmitt þetta latneska heiti notað hér á landi, því í Lögmannsannál segir, að 1317 væri síra Egill Eyjólfsson — síðar biskup — »á Hólum scolasticus«[3]), og Laurentius leggur til præbendu fyrir þennan kórsbróður; þeim, sem þá hafði stöðuna, gaf hann Vallastað í Svarfaðardal »segjandi að þann stað skyldi æ sá hafa og halda, sem skólameistari væri á Hólum«[4]). Þráfaldlega er nefndur rector chori[5]), sem var ein af dignitatibus. Poenitentiarius var sú dignitas, er fór með aflausnarvald í nafni biskups, og var um leið lögfræðisráðunautur hans. 1450 nefnir Jón biskup Vilhjálmsson í bréfi bróður Björn Jónsson poenitentiarius sinn, og bætir við »conventualis«[6]), en kapitulinn var einmitt »conventus«, svo þetta orð tekur af allan efa. Theologus var ráðunautur biskups í guðfræðilegum efnum, og sýnist ekki vera getið um þá dignitas í íslenzkum heimildum. Sacrista var sú dignitas, er gætti kirkjuskrúða og gersima, og er í Guðmundarsögu getið um Þorstein nokkurn faraprest, sem hafði það starf með höndum[7]), og víðar er þessa kórsbróður getið[8]), og sé vel og vandlega að gáð, finna menn víða getið um kórsbræður dómkirknanna. Það sýnist og ekki heldur vera miklum vafa undirorpið, að þar sem getið er um fremstu kennimenn[9]), fremstu presta[10]) eða kórpresta[11]), sé átt við kapitulabræður dómkirkjunnar. Alveg er það og tvímælalaust, að þegar Gottskalk biskup II. í testamentisbréfi sínu segir: »eðla herrar ábótarnir og herra priorinn og allir forprestar og svo allir aðrir kenni-

1) *D. I.* VIII, 733. 2) *B. S.* I, 168. 3) *I. A.* 266. 4) *B. S.* I, 850. 5) T. d. *B. S.* I, 846, *D. I.* VIII, 733 6) *D. I.* IV, 450 7) *B. S.* I, 609. 8) *D. I.* VIII, 693. 9) *B. S.* I, 857. 10) *B. S.* I, 861 11) *B. S.* I, 875, 876.

menn«[1]), geta forprestarnir illa verið aðrir en kórsbræðurnir. Það hefur verið bent á, að Laurentius biskup hafi stofnað skólameistarapræbendu, en aðrir biskupar hafa líka stofnað præbendur. Ólafur Rögnvaldsson stofnaði 1479 personatus. Leggur hann til þeim kórsbróður, sem syngja skuli þá daglegu sálumessu, er hann til setur, 4 hundruð, »og frí kost og mat heima á staðnum . . . sitjandi til borðs með kirkjupresti og liggja í prestabúri«[2]). Þetta eru alt í sjálfu sér góðar og fullgildar sannanir. En hitt tekur alveg af skarið, að skilríkar heimildir nefna kapítula bæði á Hólum og í Skálholti. 1441 ritar Eugenius páfi kapítulanum á Hólum bréf með Róbert biskupi Woodburn[3]). Þó páfastóllinn að vísu stundum hafi sýnt, að hann væri ekki sem allra kunnugastur kringumstæðum hér, þá er þó óhætt að trúa þessu, því 5. Maí 1430 skipaði Jón biskup Vilhjálmsson síra Sigurð Jónsson »í heiður og virðing kanunkligrar stéttar að blífa í vorri kirkju á Hólum til kost og fæðu þá sem hann vill . . . og eigi utan með voru lofi og samþycki brott fara þá honum líkar«. Skipar biskup hann »sem vorn sannan eigin son og lim vorrar kirkju« og skipar honum ævarandi »rentu og præbendu . . . 10 merkur af vorum peningum og góssi árlega«[4]). Hér þarf engu við að bæta; bréfið sjálft segir alt. Síðar í bréfabók Jóns biskups er latneskur formáli að skipunarbréfi Hólakórsbróður[5]). 10. Maí vinnur síra Sigurður kanókaeiðinn. Hann sver að vera Jóni biskupi hlýðinn og hollur »svo lengi sem hann er fyrsagðri (Hóla)kirkju . . . trúr faðir og verndari eptir ráði, forsjón, vísdómi og beskedligheit meiri parts capituli nefndrar kirkju á Hólum«[6]). Hér er ekki um neitt að efast, en hinsvegar sést hér glögglega bóla á byrjandi kapítulavaldi í skjóli biskups, og sér þar á, að hann var maður enskur, en ekki norrænn. Norrænir biskupar vissu hvað það var, að hafa yfir sér vofandi voldugan

---

1) *D. I.* VIII, 734. 2) *D. I.* VI, 218. 3) *D. I.* VIII, 40. 4) *D. I* IV, 411. 5) *D. I.* IV, 410. 6) *D. I.* IV, 414.

kapítula, þeim hefði aldrei dottið í hug að ýta undir það, að kapítulinn næði nokkru valdi, enda varð ekkert úr þessu eptir daga Jóns IV., þó honum væri full alvara; það sýnir kórprestatal hans[1]). En alveg undir siðaskiptin skýtur íslenzkur kapítuli upp kollinum, og í þetta skipti í syðra biskupsdæminu. 1519 senda fógeti, lögmenn, lögréttumenn og öll alþýða Kristjáni Danakonungi II. kveðju guðs og sína, og segja honum að Stephán biskup sé andaður: »Dar vm heft dat kapitel und dat gemeine rad in Skalholt ut gesandt einen fromen und ein werdig person herr Aumund abot in Videy um des willen dat herr Eirek de wolverdig artsbischop in Druntheim et cetera wille sinen gnaden und otmödigkeit an uns und en bewisen und wigen den sulwen herrn Aumund to einen vullmagtig bischop to Skalholt«[2]). (Því hefur kapítulinn og hið almenna ráð í Skálholti sent út fróman og verðugan mann herra Ögmund ábóta í Viðey, í þeim tilgangi, að herra Eiríkur velverðugur erkibiskup í Þrándheimi o. s. frv. vildi sýna oss og honum náð sína og velvild, og vígja sama herra Ögmund til fullvalds biskups í Skálholti.) Þetta er fullkomin sönnun þess, sem reyndar engin ástæða var til að efast um, að kapítuli hafi og verið í Skálholti, og eins hins, þó að hér sé að vísu ekki um hreina kapítulakosningu að ræða, því bréfið ber það með sér, að biskupsefni var og kosið af leikmönnum, að kapítulinn hafi að minsta kosti að þessu sinni átt hlut að biskupskosningunni. Þetta mál alt er efni í stóra ritgjörð, og er ekki hægt að gjöra því hér þau skil sem ber. *Það er þó hér með fullsannað, að á biskupsstólunum hafi verið kapitular, þó að þeir hafi aldrei náð þeim völdum, sem þeir náðu víðast hvar annarsstaðar, og gætti þeirra því sama sem ekki.*

Það er því ekki að furða, að Hóladómkirkja ætti kórsbræðra forma; voru þeir fjórir, og hafa óefað verið tveir hvorum megin kórs. Þessir formar voru enn í

---

1) *D. I.* IV, 421. 2) *D. I.* VIII, 694. Normaliserað af mér.

dómkirkjunni á Hólum 1692[1]), en þegar kirkjan er tekin út 1712 er sagt, að þá séu »hin gamaldags múkasæti burttekin« úr kórnum[2]). Auk formanna var vitanlega á kórnum biskupssætið, eins og á fyrri kirkjunum.

Ekki virðast hafa verið mikið fleiri ölturu í kirkjunni en þau sjö, sem tafla II sýnir, þ. e. sex auk háaltaris, því 1525 á kirkjan 8 altarisskrúða frammi í kirkju, og er það ekki nema rétt svo til skiptanna, en það þurfti þó að vera.

Skírnarfonturinn hefur óefað staðið rétt innan við kirkjudyrnar, í krókbekknum öðru hvoru megin. Svo var það siður, og leiddi það beint af því, að fyrri partur skírnarathafnarinnar fór fram utan kirkju — á Hólum væntanlega í stöplinum.

Í þessari kirkju hafa vitaskuld verið grafin mörg stórmenni, bæði leikir og lærðir, og veit nú enginn um flesta, hverjir verið hafa, né hvar verið grafnir. Árni Magnússon segir að það standi í Laurentíusar sögu að hann hafi kosið sér legstað í kórnum bak við altarið[3]). Nú stendur það að vísu ekki í sögunni, en aptan af henni vantar, og er einmitt sára líklegt eptir efninu að það hafi verið getið um þetta í kaflanum, sem nú er týndur. En Árni segir óefað rétt frá því, sem hann hefur lesið í Laurentíusar sögu, og hefur því leiði Laurentínsar verið komið fyrir á töflu II samkvæmt því. Árni segir og frá því, að hann hafi karlmannamegin í kirkjunni, þ. e. norðanmegin, séð marmarastein svo sem þriggja feta langan; hafi á honum verið mynd af biskupi með bagli í vinstri hendi, en blessandi með hægri; hafi staðið á steininum »Johannes biskup«, og hafi sumir sagt Árna, að það væri legsteinn Jóns biskups skalla, en honum þyki það ólíklegt. Aðrir hafi sagt, að þar lægi Hólabiskup af ensku kyni, en hann kveðst engan þekkja[4]). Það sýnist ekki vera neinum blöðum þar um að fletta, að hér sé um leiði Jóns biskups IV. Craxton

1) Hólaúttekt 1692; frumrit í Þjóðskjalasafni í Rvík. 2) Hólaúttekt 1712; á sama stað. 3) *D. I.* III, 606. 4) *D. I.* III, 609—10.

að ræða; hann var enskur. Að vísu var hann Skálholtsbiskup, en tryggð biskupa og presta til þeirra kirkna, er þeir vígðust til, var mikil bæði hér og annarstaðar, svo þetta er ógnar sennilegt[1]). Þegar biskup Jón VI. og synir hans Ari og Björn höfðu beðið píslarvættisdauða fyrir trú og þjóðfrelsi 7. nóvember 1550, voru þeir urðaðir í Skálholti. Vorið eptir sótti síra Sigurður kórsbróðir Jónsson líkami þeirra feðga í Skálholt. »Lágu þeir þar í jörðu frá 8. nóvembris fram að sumarmálum. Voru þá líkin sett á kviktré, og festar við þær smáklukkur og bjöllur, svo síhringt var þá börurnar hrærðust . . . Þeir ferðuðust með líkin til Hólastaðar, og voru þeir grafnir að messu á miðju kirkjugólfi yfirfrá kapellu«, segir Björn á Skarðsá[2]). Árni Magnússon segir í Hólalýsingu sinni: »Jóns biskups Arasonar, Ara og síra Bjarnar leg eru undir kirkjuþrepskildinum og hálf í stöplinum. Þá þeir voru grafnir, voru þau innan kirkju, sem síðan minkuð er að framanverðu«[3]). Kemur þetta heim hvað við annað, og sýnir meðal annars það, sem þegar hefur verið tekið fram, að biskupskapellan hefur verið áföst framkirkjunni mjög vestarlega. Það er alveg auðséð, hvernig kirkjan hefur flutst til í hvert skipti, sem hún var bygð upp eptir siðaskiptin. Í bæði skiptin hefur kirkjan mjókkað og stytst, og hefur í hvert skipti verið kubbað vestan af henni, og spænt norðan úr henni, svo að hún hefur færst til austurs og suðurs. Því er það að þeir feðgar eru komnir undir þröskuldinn, þegar Árni segir frá. Þegar steinkirkja sú, er nú stendur, var bygð, minkaði kirkjan enn að vestan og norðan og austan líka, og lentu þá leiði þeirra alveg utan kirkju, þó að þau samkvæmt lýsingunum í öndverðu lægju eins og tafla II sýnir. 1918 um sumarið gjörði sá er þetta ritar útgrepti norður á Hólum í þeim tilgangi að finna grunnmúrana undan hinum fornu kirkjum, en þar eð sú

---

1) Tilgáta útg. Fornbréfasafnsins (ibid.) um að þetta hafi verið mynd Jóns Ögmundssonar sýnist með engu móti ta staðist. 2) *A. B.* I, 182—4). 3) *D. I.* III, 610.

rannsókn leiddi lítið annað í ljós markvert en grafir þeirra feðga, þykir hlýða að lýsa henni hér[1]).

Það hafði verið búist við því, að slík rannsókn myndi gefa miklar upplýsingar um grunnfleti hinna fornu kirkna, en sú von brást með öllu, og er ástæðunnar skamt að leita. Hólakirkjurnar hafa frá öndverðu altaf verið á sama stað, og altaf hafa lík þau, sem til kirkju hafa komið, verið sett niður í sama kirkjugarðinn, sem enn er notaður, og hefur hann altaf verið með svipaðri stærð og hann er nú, hér um bil 3000 □ m. (sjá töflu I). Það segir sig því sjálft, að hann er útgrafinn endanna á milli, og að smám saman hafa lík verið sett þar niður, sem grunnmúrar kunna að hafa verið undir, og þeim þá verið um bylt, og þeir upprættir. Með járnkörlum var kannaður jarðvegurinn alstaðar kringum kirkjuna, þar sem ekki voru ný leiði fyrir, ef þar skyldi vera fast undir. Ýmist kom þó járnkarlinn í mold eða skriðumöl, nema á þrem stöðum. Austan við kirkjuna, milli nýs leiðis og kirkjugafls, varð grjót fyrir; var þar grafið niður, og fanst rétt undir sverðinum grjóthleðsla sú, sem sýnd er á töflu XI (sjá mynd 4; er kirkjuveggurinn þeim megin myndar, sem í kjöl ritsins veit), og var það grunnur undan skrúðhúsi því, sem verið hafði á kirkju þeirri, er nú stendur, og sem rifið var 1885. Sá greinilega marka fyrir dyrunum inn í það á austurgafli kirkjunnar utanverðum. Við norðausturhorn kirkjunnar varð og fast undir járnkarlinum liðuga alin frá kirkjuveggnum sem nú er; var

1) Sá er þetta ritar var árið 1920 búinn að semja nákvæma lýsingu á útgrepti þessum, og búinn að ganga frá henni til fullnustu undir prentun og afhenda hana. Eptir það hirti hann auðvitað ekki lengur um drög sín og uppteiknanir, og eru þau farin forgörðum. Hinsvegar hefur viljað svo slysalega til, að handritið hefur týnst í fórum þess, sem geymdi, eða öllu heldur reynst ófinnandi að honum látnum. Hér er því aðeins stuðst við uppdrætti þá, sem ritinu fylgja, og minni þess, sem ritar, svo að lýsingin er því nú ærið ónákvæm, og í raun réttri ófullnægjandi, en ekki verður úr því bætt sem komið er.

þar grafið niður, og komu þá á svo sem álnardýpi í ljós tvö veggjarbrot, bæði hlaðin úr stórum steinum; var annað hærra og nær kirkjunni lóðrétt upp og niður, hitt fjær, en utan í innra veggbrotinu. Var það svo sem ²/₃ úr feti lægra en innra veggbrotið, og miklu breiðara að neðan. Var innra veggbrotið úr miklu stærra grjóti en hið ytra. Náði ytri veggurinn að austan á svo sem miðjan innra vegginn, og hætti þar, og var auðséð að hann hafði aldrei náð lengra (sjá töflu IX og mynd 8 og 9). Var auðséð, að þetta var undirhleðsla undir grunnmúr tveggja húsa, og eins að ytri veggurinn var undirhleðsla undir húshorn. Hlaut því grunnur þess húss og húsið sjálft að hafa staðið töluvert miklu vestar og sunnar en innri veggurinn. Gat varla verið neinum blöðum um það að fletta, að innra brotið myndi vera undirhleðsla undan kirkju Guðbrands, og ytra brotið undan kirkju Péturs. Fyrir vestan stöpul kirkjunnar, sem nú stendur, er nokkurskonar hlað, sem er liðugar fjórar álnir á lengd, og upp að því liggur legsteinn Árna biskups Þórarinssonar. Sögðu elztu menn í sveitinni, að þar hefði aldrei verið neitt lík niður sett. Var hlaðið kannað með járnkarli, og reyndist allvíða fast undir. Var nú mælt hvað langt væri út fyrir þetta hlað frá þeim stað, þar sem ætla mátti, samkvæmt undirhleðslunni, að verið hefði austurgafl Péturskirkju, og reyndist legsteinn Árna biskups 48 álnir íslenzkar frá þeim stað. Nú voru þeir feðgar, eins og þegar hefur verið sýnt, grafnir rétt innan við framkirkjudyrnar á Péturskirkju, en framkirkja hennar var 50 álnir íslenzkar á lengd. Var því ekki með öllu vonlaust að koma niður á leifar þeirra feðga, þar sem þarna hafði aldrei neinn verið grafinn. Hinsvegar mátti ganga að því vísu, að gröfum þeirra hefði verið raskað og þær rændar af Gísla biskupi, er nýja kirkjan var bygð, eins og grafir annara[1]). Var þar því grafið niður; rétt undir yfirborðinu, svo sem tæpa hálfa aðra alin, kom niður á tvo

1) *Æ. J. P.* I, 203.

hlaðna veggi, er lágu frá austri til vesturs, og var tæp alin á milli þar sem breiðast var. Var syðri veggurinn mjög reglulega hlaðinn úr mikið til jafnstórum unnum hnullungum; var hann beinn og jafnbreiður, og vestur af honum fundust nokkrir trébútar og járnnaglar. Nyrðri veggurinn var úr óreglulegu, óunnu grjóti, breikkaði vestur mikið, og lá í bug (sjá töflu VII og VIII og mynd 10). Norður úr syðra garðinum neðanverðum og miðjum gekk flöt hella, og suður úr nyrðra garðinum samskonar hella, og stóðust þær mikið til á. Norðan við nyrðra garðinn, ofarlega í jarðveginum, lá allstór kalkhrúga, og eru það óefað leifar frá því að verið var að smíða kirkjuna, sem nú er. Með öllu er óljóst, hvað verið hefur hlutverk þessara garða eða hvenær þeir hafa verið gerðir. Kalkhrúgan hefði getað bent til þess, að það hefði verið gryfja, er múrsmiðirnir, er síðustu kirkjuna bygðu, hefðu gjört til að leskja í kalk sitt, en bæði var hún of lítil, og vantaði í hana eina hlið, og svo var ekki aðkenning af kalki í jarðveginum milli garðanna, svo slíkri tilgátu verður að hafna. En til þess að vera grafarhvolf voru veggirnir of svörgulslegir. Vestan við garðsendana kom niður á einskonar hvolf, afarlaust hlaðið úr óhöggnu grjóti, og var bustin á því hrunin inn. Var grjótið nú tekið ofan af, og moldinni, sem undir var, mokað burtu, og kom þá niður á leifar af þrem beinagrindum, allar af uppkomnum mönnum. Af nyrzta manninum var ekkert nema hvirfillinn af hauskúpunni, og austan við hana örlítið af frauðkendum beinum og viðarkolum. Af miðmanninum var meginið af höfuðskelinni niður að augum, upphandleggur með niðurhandlegg og rifbútur, og skamt þar austur af fótleggir annars fótar og fótrótarbeinið með, en leggirnir voru brotnir og höfðu skekst til suðurs (sjá mynd 11 og 12). Hefur þetta lík, eptir legu handleggsbeinanna að dæma, legið með samanlagðar hendur á brjóstinu — svo voru og lík lögð til á miðöldunum —, en hauskúpan lá í handkrikanum, en hrökk suður fyrir upphandlegginn þegar verið var að moka ofan af. Af syðsta

manninum var aðeins lítið brot af höfuðskelinni, og austur af henni frauðkendur hryggjarliður, og enn austar tveir járnbútar, sem gætu hafa verið úr kistu (sjá töflu VII og VIII). Með beinunum var allmikið af beinamold. Voru beinin tekin upp, og markað nákvæmlega fyrir, svo hægt væri að koma þeim kyrfilega fyrir á sama stað, ef með þyrfti. Voru beinin síðan flutt til Reykjavíkur og afhent þjóðminjaverði til geymslu. Höfuðskeljarnar bera það með sér, að maðurinn í miðið hafi verið elztur, höfuðsaumarnir eru algrónir, en mennirnir til beggja handa eru yngri, því saumarnir eru nokkuð opnir. Nú er spurningin: hvaða þrír menn — tveir yngri og einn eldri — geta verið grafnir saman, undir einu hvolfi á þessum stað? Og hver getur verið grafinn þarna, svo að hann hafi höfuð sitt undir hendinni eins og hinn blessaði Dionysius? Svarið getur ekki verið nema eitt, að þarna hafi fundist leifar Jóns biskups, síra Björns og Ara lögmanns, — guð þeirra sálir náði.

Áður en skilist er við kirkjuna að innan má geta þess, að kirkjan hefur óefað verið með opnum þakstól — ekkert lopt í henni — annars hefði varla verið tíundaður sperrufjöldinn eins rækilega og gjört hefur verið.

Kirkjan stóð á steingrunni, og voru steinarnir ekki bundnir saman með steinlími, heldur var troðið torfi inn á milli þeirra, svo vindur kæmist ekki undir hana; sýna það vitnisburðir þeir, sem birtir eru í upphafi kaflans. Af þeim sést og að kirkjan hefur verið studd af skástoðum (»skástífum«) báðum megin, eins og hinar eldri kirkjur.

Að því er gerð kirkjunnar viðvíkur, getur ekki annað verið, en að hún hafi verið bygð eins og Greenstead-kirkjan úr lóðréttum timburstokkum (sjá I. kaflann), enda benda skástoðirnar til þess. Óhugsandi er að hún hafi verið stafkirkja; það er ekkert sem bendir til þess, enda er hún of mjó í samanburði við lengdina til þess, að það geti borið sig. Að vísu er á einum stað getið um útbrot á kirkjunni; er það í síðari meðferðinni á

bætti Magnúsar Björnssonar af Jóni biskupi[1]). Í fyrri meðferðinni er þetta ekki nefnt. Síðari meðferðin er mjög breytt að orðalagi og, miðað við efnið, víðast hvar til hins verra, meðal annars um þetta. En lengdin útilokar að hún hafi verið blokkhús, þ. e. bygð úr láréttum timburstokkum. Hvað stíl kirkjunnar viðvíkur, er hann með öllu ókunnur. Þeir gripir, sem enn eru til úr Hólakirkju hinni fornu, eru allir með gotneskri gerð, og ef gjöra mætti ráð fyrir stílsamræmi milli hússins og gripanna, sem opt er, þá væri spurningunni auðsvarað, en það þarf varla að gjöra ráð fyrir því.

Kringum dómkirkjuna var múr; var hann gjörður upp úr því, sem komið var upp af steinkirkju Auðunar biskups, er hann dó, og stóð hann enn, er Árni Magnússon kom á Hóla, og mátti þá enn sjá, að það hafði átt að verða kirkja[2]). Múr þennan bygði Gottskalk biskup Keniksson[3]). Af þessum múr norðanverðum lágu göng á lopti á virki það, er Jón biskup hafði byggja látið og kallaði slot[4]).

Tafla II sýnir grunnmúr kirkjunnar, tafla III suðurhlið hennar, tafla IV norðurhliðina, en tafla V sýnir kirkjuna séða austur og vestur eptir.

---

**Gripir Hólakirkju.**

Af öllu kirkjuskarti eru kirkjufötin það, er mest ber á og mönnum verður starsýnast á. Þó að prestarnir vitanlega væru tígulegastir á þeim, voru þeir engu að síður eptirtektarverðir utan kirkju. Nú á dögum ganga prestar og munkar daglega, bæði heima fyrir og úti við, á auðkennisbúningi sínum. En svo mun ekki hafa verið hér á landi fyrir siðaskiptin. Að vísu virðist sú hafa verið venjan, að munkar bæru altaf þau föt, er þeirra reglu tilheyrðu. Þorlákur biskup helgi var

1) *B. S.* II, 330—31. 2) *D. I.* III, 610. Sbr. bls. 17 í þessu riti. 3) *B. S.* II, 231. 4) *B. S.* II, 444.

kanóki (Ágústínusmunkur) áður hann yrði biskup, en eptir það hélt hann »þó nálega í öllu kanókareglu, bæði í klæðabúnaði«[1]) og um annað. Eptir að hann var dáinn og í helgra manna flokki, birtist hann mönnum í kanókabúningi. Hann birtist eitt sinn konu, er Þorfinna hét; sér hún að »litlu síðar gengur þar inn maður hvítklæddur undir svartri kápu, hefur hann í hendi vatnker og stökkul. Þar kendi hún hinn heilaga Þorlák biskup«[2]). Að vísu hefur orðið hausavíxl á litunum, því kanókar voru á svörtum kufli með hvítt skrúð, en þó öfugt sé, er auðséð hvað við er átt. Laurentius hafði og verið svartmunkur (Benediktsmunkur) áður hann var biskup, en hann hélt fyrrum siðum, því »það er og merkjandi að hann hafði þann klæðabúnað, sem munkar hafa, kufl með skrúð (scapulare) yztan, því hann sagði það reglu, þó að biskupar væri af svartmunkalifnaði, þá ætti þeir að halda þann habitum, sem þeir voru af lifnaðinum kosnir«[3]). Hinsvegar sýnist svo sem munkar, að minsta kosti í Noregi, hafi stundum borið sömu föt og veraldarklerkar. 1459 gefur Torfi riddari Arason í testamentisbréfi sínu messubræðrum í Björgynjarklaustri »einn bláan stakk og brúna kápu með sylfurspenslum«, »Jtem bróður Marteini eina bláa treyju«[4]), og ekki hefði hann gjört það nema bræður hefðu mátt nota fötin. Þareð munkar hér á landi höfðu það til að vera í meira lagi gjálífir, eins og sjá má af því, að Möðruvallabræður brendu klaustrið í drykkjuslarki 1317[5]), og voru systur þar þó engu síðri, því systir Þóra Illugadóttir í Reynistaðarklaustri lét kringum 1431 fallerast með síra Þórði Roðbjartssyni kórsbróður á Hólum[6]), þá er ekki ólíklegt, að þeim hafi stundum orðið að kasta kuflinum. Veraldarklerkar hafa fyrst framan af kristni lítið tamið sér prestlega

1) *B. S.* I, 276. 2) *B. S.* I, 199. 3) *B. S.* I, 850. Þessi regla helzt enn (sbr. Caeremoniale episcoporum Lib. I. cap. II), en er ekkert farið eptir henni. 4) *D. I.* V, 189—90. 5) Sjá bls. 121 hér að framan. 6) *D. I.* IV, 457.

siðu. Riðu þeir með vopnum um héruð, og Sturlunga og Guðmundarsaga mora af dæmum þess, að prestar stóðu í mannslögum og allskonar harki. T. d. segir í Guðmundarsögu, að »Knútur prestur reið jafnan við vopn, því að hann var ódæll og embættislaus. Nú hleypur fram einn maður og laust aptur undir hnakkann Knúti presti og féll stálhúfan fyrir andlitið«. Hve lítið hann samdi sig að kennimannasiðum verður enn berar þegar hann var fallinn, því þá vildu þeir »höggva af honum fingurna og náðu eigi, því gull var á fingrinum«[1]), en öllum kennimönnum öðrum en biskupum var bannað að bera hringi. Það er með þessu hátterni von, að kirkjan láti sig það í fyrstu engu skipta, hvernig prestar búi sig, heldur reyni það eitt að hrífa af þeim vopnin. Því skipar Eiríkur erkibiskup svo fyrir 1189: »Kennimenn beri eigi vopn . . . og taki eigi þær sakir óskyldar á hendur sér, er þeir skuli annað tveggja með odd eða egg sækja«[2]), en föt klerka nefnir hann ekki. Svo sýnist vopnaburður mikið hafa lagst af, og bólar þá á viðleitni af hendi kirkjuvaldsins að koma skipulagi á fataburðinn, en þó er fyrst í stað ekki hærra á því risið, en að banna prestum að bera skræpótt klæði. 1269 skipar Árni biskup Þorláksson, að »prestar skuli eigi bera rauð klæði, gul eða græn, eða hálfskipt[3]) eða rend[4]), utan í vosi«[5]), en ekki minnist hann á það, að prestar láti skera sér klæði með sérstöku sniði, og er þarna í raun réttri komið endanlegt lag á föt presta,

1) *B. S.* I, 550. 2) *D. I.* I. 288—9. 3) Í þá daga þótti fallegt að láta liti í fötum standast ekki á. Væri kyrtillinn öðrum megin grænn, var hann t. d. hinum megin rauður. Við það er átt hér. 4) = röndótt. 5) *D. I.* II, 25. Í pontificale romanum, pars tertia, í áminningarræðu þeirri, er biskupar, samkvæmt ordo ad celebrandum synodum enn í dag eiga að halda yfir synodusprestum, er varað við rauðum og grænum fötum og leikmannafötum: »Nullus vestrum rubeis, aut viridibus vel laicalibus vestibus utatur«. Yfir höfuð er þessi ræðuformáli að efni og orðalagi svo svipaður sumum skriptaboðum íslenzkra biskupa, að það er hreint og beint athugunarefni.

sem helzt til siðaskiptanna, þ. e. prestar bera sama búning og aðrir, nema hvað hann skal vera einlitur og ekki með neinum ofannefndra lita, og var þetta fyrirkomulag einkar hentugt hér vegna staðhátta og veðra. Þó er bersýnilegt, að kirkjuvaldið vill helzt hafa presta í sérstökum búningi, því í skipan Eilífs erkibiskups og Jóns I. Halldórssonar frá 1323 er ekki prestum aðeins bannað að klæðast fyrnefndum litum, heldur »varast skulu þeir alla breytni í klæðnaði, lit og skurði í yfirklæðum sínum«[1]). Klæðaskurðurinn á því líka að vera einfaldur, elta ekki tízkuna. Illa hefur þó viljað ganga að halda því að prestum, og því ámálgar Jón biskup það enn 1345 með nokkrum þjósti »Item að allir klerkar leggi af fjölgeirunga[2]) innan manaðar«[3]), og hann herðir á því síðar í sömu skipan: »Prestar og djáknar skulu enga lausung á sér sýna eða leikaraskap í klæðabúnaði sínum«. Og farnir hafa prestar þá verið að seilast til vopna aptur, þó í litlu væri, því hann segir þeim að »bera hvorki stikkhníf né töskur[4]) eða dreglahúfur[5])

---

1) *D. I.* II, 532. 2) Siður var að skera klaufar í fötin og fella í þær geira af mislitu efni, og við þá er átt. 3) *D. I.* II, 791. 4) Á fötum manna voru í þá daga engir vasar, heldur báru menn það, sem þeir vildu með sér hafa, í posa eða tösku, sem hékk við beltið hægra megin, og draga einmitt vasarnir í frönsku, ensku og þýzku nafn af því (franska: poche, enska: pocket = posi, þýzka: tasche = taska). Er bann þetta vafalaust af sömu rót runnið og stikkhnífabannið, því þó menn bæru ekki hníf í belti, gat hann verið falinn í töskunni og ilt af sér leitt. Og var sú reynslan sumstaðar, því beint af þeirri ástæðu var 1563 bannað í Frakklandi að bera vasa *(Quicherat: Histoire du costume en France.* Paris 1877, bls. 400 ff.). Ekki munu þó biskupar sjálfir hafa farið mikið eptir þessu, því nefndur er í Hólamáldaganum 1525 pungur með silfurlinda. 5) Húfur úr lérepti. Stafar bannið vafalaust af því, að í þá daga var lérept dýrt. 1343 eru 6 álnir metnar á hundrað *(D. I.* II, 775). Sé hundrað talið jafnt 500 kr., sem þó vafalaust er of lítið, þá hefur alinin kostað liðugar 83 kr., enda var það haft í viðhafnarklæði eins og messuhökla *(D. I.* II, 359); það hefur því þótt gegndarleysi að vera með léreptshúfur og prestum ósamboðið. Hvílíkur munuður línklæði voru, sýnir skriptaboð Jóns biskups Sigurðssonar frá 1326. Þar er það

opinberlega«[1]). Og 1396 er þetta enn ekki komið í lag, því þá skipar Vilkin biskup: »prestar leggi af alla lausung og leikaraskap bæði í klæðabúnaði og vopnaburði«[2]). En vopnaburðurinn legst aldrei af. Teitur Þorleifsson ánafnar »mínum herra biskupinum (Ögmundi) korðahníf«, »ef hans náð vill litillæti til hafa að þiggja«, sem varla þarf að efa. Og til er á Hólum 1525 stikkhnífur silfurbúinn, sem voru þó sérstaklega bannaðir. En síðustu mennirnir á víginu, biskup Jón VI. Arason og síra Björn ríða altýgjaðir landshornanna á milli, hvernig sem klæði þeirra kunna að hafa verið á litinn. Aðallega hafa prestafötin verið brún og blá. Kápurnar, sem Torfi gefur messubræðrum, voru brúnar, en treyja bróður Marteins er blá. Er Laurentius síðar biskup Kálfsson kemur á garð Jörundar erkibiskups 1295, er hann á rauðum klæðum, og spyr erkibiskup hann hverju sæti. Laurentius ber við fátækt, sem ef til vill kann að hafa verið satt, og lætur erkibiskup fá honum af sér brún klæði sæmileg á hátíðar, og peninga að kaupa blátt klæði í hversdagsbúning, en skipar honum að gefa sveini sínum klæðin rauðu[3]). Af þessu má og sjá, að erkibiskup hefur borið sömu föt og aðrir prestar. Er Laurentius varð biskup, reyndist hann um þessi efni vandlátari við sjálfan sig og aðra en hann var áður um klæðin rauðu, því sjálfur gekk hann í kufli svartmunka, hafði vandlæti mikið um klæðaskurð lærðra manna, að »þeir hefðu engar sundurgerðir«[4]). 1478 er prestsfatalitur enn blár. Þá er síra Marteinn Einarsson að ráðstafa flíkum sínum fyrir andlátið, og gefur »Jóni bróður mínum bláan stakk«[5]). Sérstaklega sýnast prestar hafa lagt rækt við eitt fat, sem þráfaldlega er nefnt í sambandi við þá; það er vosstakkurinn. Hvers vegna

---

meðal annars lagt á þá, er drýgt hafa »hórdóm þann er karlar eigast við« að »varna við línklæðum« um jólaföstu og langaföstu (*D. I.* II, 596).

1) *D. I.* II, 800. 2) *D. I.* III, 615. 3) *B. S.* I, 800. 4) *B. S.* I, 849. 5) *D. I.* VI, 129.

hann sérstaklega var þeim svo kær, er ekki gott að segja, en undarlegt er það, að það eru einmitt vosklæðin, sem Árni biskup, eins og á var drepið, tekur undan í skipan sinni um litinn á fötum presta; þau máttu þeir bera með hvaða lit sem vildi. Það væri því ekki að undra, ef tilhaldssemin væri hér á ferðinni og tældi þá í hið litskrúðuga fat[1]). 1403 gefur síra Halldór Loptsson síra Jörundi Eiríkssyni vosstakk fótsíðan með skinnum fyrir að vera exsecutor testamentis síns[2]). 1411 gefur Þórður djákni á dánardægri síra Árna Eyjólfssyni borinn voskyrtil og hettu og hosur sér til bænahalds[3]). 1422 greiddi Katrín nokkur síra Ásgrími Snorrasyni vosstakk með briggishnappa með vír og spensl með silfur fyrir borð og kenslu Þorvarðar sonar síns[4]). 1470 ánafnar Einar bóndi Ormsson síra Jóni Snorrasyni »stakk minn og kápu ena útlenzku«, og segir sig sjálft, hvernig hún hefur verið á litinn, enda var kápan vosklæði; item gefur hann herra biskupi Sveini skinnakápu[5]), og hefur eptir þeim bókum fleiri munað í litklæðin en lágklerkana. Yfir höfuð sýnist prestum helzt ekkert hafa verið um það hugað, að vera öðruvísi búnir en annað fólk; t. d. gefur síra Þorbjörn 1290 Þingeyraklaustri prófentu sína og tilskilur að hann hafi mat og klæði slíkt sem aðrir prófentumenn. En það voru ekki fötin ein, er gátu sýnt prestskap kennimanna; það var skegg og háralag. Þar er fyrst að nefna krúnan. Fyrsta vígsla og lægsta, er klerkar tóku, var nefnd krúnuvígsla[6]), af því að biskup í henni skar hár þeirra. Eptir það rökuðu þeir að staðaldri á sér kollinn. Hafði krúnan á sér töluverða helgi; t. d. bitu járn ekki krúnu Bárðar Snorrasonar[7]). En það sýnast hafa verið nokkur vanhöld á krúnurakstrinum, því Laurentius biskup þykist þurfa að hafa mikið vandlæti um framferði lærðra manna og hárskurð[8]). 1323 skipa þeir Eilífur erkibiskup og Jón

1) Vosklæðaefni hvítt og svart er nefnt í *D. I.* IV, 418. 2) *D. I.* III, 687. 3) *D. I.* III, 739. 4) *D. I.* IV, 299. 5) *D. I.* V, 569. 6) *D. I.* III, 151. 7) *B. S.* I, 596. 8) *Ibid.* bls. 849.

Skálholtsbiskup, að »skegg sitt og krúnu skulu lærðir menn láta raka svo opt sem þarf, og hafa hárskurð kringlóttan svo stuttan að sýnist eyrnasnepill«[1]). Er þetta krúnulag kent við Pétur postula og nefnt tonsura Petri. Eins og sést á skipaninni, skyldu og klerkar vera skegglausir[2]). Ekki sýnist þó hafa verið farið neitt eftir þessu, og hafa jafnvel biskupar sjálfir verið með alskegg. Í handritasafninu í konungsbókhlöðunni í Stokkhólmi eru í tveimur íslenzkum handritum biskupamyndir; í öðru[3]) er mynd af tveim biskupum sitjandi á stólum, og eru báðir alskeggjaðir, en í hinu[4]) er mynd af biskupsvígslu, og á henni þrír biskupar og einn djákni, allir með alskegg. Á þessum öldum var fordild mikil manna á meðal, ekki aðeins um lit klæða og klæðaskurð, heldur kom það einnig fram í höfuðbúnaðinum, en hans gætti í þá daga miklu meira en nú; menn tóku nefnilega sáralítið ofan, og voru með höfuðfat jafnt í svefni sem vöku, og jafnt inni sem úti, og jafnvel í sjálfri kirkjunni tóku menn ekki ofan nema rétt stundum, og segir skipan Árna erkibiskups 1346 frá því, hvenær það hæfi; er guðspjall er lesið skulu allir »upp standa og taka ofan sín kaprún[5]) og standa svo berhöfði meðan lesturinn verður lesinn«. En strax hafa menn sett upp aptur, því síðar segir, að þá presturinn heldur upp líkamanum og blóðinu, skuli hver maður tjá ástsemi til síns skapara »með berum höfðum og knéfalli«[6]). Leifar af þessu sjást í því, að rómverskir prestar eru enn í dag með á höfðinu í kirkjunum innan guðsþjónustu. Það var því ekki nema von,

---

1) *D. I.* II, 532, endurnýjað af Jóni 1345, *D. I.* II, 804. 2) Prestar skulu enn bera krúnu, en hún er nú rakaður blettur í hvirfli, ríflega á stærð við tveggja króna pening, og eins skulu þeir vera rakaðir á kjálkum, en fara þó ekki eptir því nema í alkaþólskum löndum. Tonsura Petri sést enn sumstaðar á munkum. 3) *Stockh.* nr. 5 fol. 4) *Stockh.* nr. 16 4to. 5) Af caprona á miðaldalatínu. Í registri D. I., eins og staðurinn ber með sér, ranglega kallað höfuðfat presta. 6) *D. I.* II, 842 sbr. AM. 682 4to bls. 55.

að menn legðu mikla alúð við höfuðfötin. Menn báru að jafnaði hettu, er ekki var ósvipuð lambhúshettu, og féll niður um herðar, en gekk á hvirflinum út í totu, og var hún nefnd strútur. Hann var altaf að lengjast, og þótti því prýðilegri sem hann var lengri og mjórri, og var hann loks orðinn dragsíður og vel það, og brugðu menn honum þá um háls sér, en af því er það, að hálstrefill er nú sumstaðar nefndur strútur. Prestar hafa í þessu efni vafalaust tollað í tízkunni, og því er það, að Gyrður biskup í skipaninni 1359 kveður svo á, að prestar og djáknar »hafi eigi mjórri[1]) hettustrúta en tveggja fingra og eigi siðara en alnar«[2]). Hvort tekist hefur að halda strútnum í skefjum, er örðugt að segja, en hitt er víst, að prestar báru strút alveg fram að siðaskiptum. Þegar Jón biskupsefni Arason 1522 sendi síra Þorstein Gunnason á móts við síra Ólaf Gilsson, en vildi láta síra Ólaf halda, að þar væri biskupsefni sjálft, lét hann leggja yfir hann »sín klæði og húfu með strút sem þá var vísa«[3]), en þó hefur samt hatturinn þá verið farinn að bola henni út hér sem annarstaðar, því þegar síra Ólafur sér »biskupsefni«, hneigði hann honum mjög, og »stakk sínum hatt undir sína hönd«[3]). Fótabragð presta hefur verið hið sama og leikmanna; þó hafa skór ekki verið mislitir, eins og þá var siður, heldur dökkir. 1497 selur síra Einar Ölduhryggjarskáld Stepháni biskupi »5 par svarta skó fyrir 19 fiska«[4]). Ekki er heldur líklegt að prestar hafi mátt bera skó með trjónu fram, eins og þá þótti kurteisi, þó hvergi sjáist að það hafi bannað verið[5]).

Það liggur í augum uppi, að ekki hafa prestar getað

---

1) Í meginmálstextanum stendur breiðari, en neðanmáls í orðamun mjórri eptir þrem góðum handritum, og hefur Matthías Þjóðminjav. Þórðarson leitt athygli mína að því, að sá lesháttur sé réttari, sem óefað er. 2) *D. I.* III, 129. 3) *B. S.* II, 318. 4) *D. I.* VII, 378. 5) Hvort munkar hafa haft sérstakan fótabúnað hér, er ekki hægt að vita, en fundist hefur á Möðruvöllum í Hörgárdal skór af munki, og er hann brugðinn eða ofinn. (Geymdur í Þjóðminjas. í Rvík nr. 8688).

notað hin daglegu föt sín í kirkjunni undir skrúða. Vitanlega hefði verið mjög óhentugt, ef prestar hefðu þurft að fara í hempu við hvert tækifæri, en þau voru mörg, og höfðu þeir því sérstakt fat ermalaust og skósitt, sem þeir brugðu sér í utan yfir hversdagsfötin[1]) og var það nefnt

stakkur[2],
messufatastakkur[3])
messustakkur[4]) eða
skrýðingarkufl[5]).

Eru þeir lengi vel framan af opt nefndir í máldögum og altaf samhliða messufötum, en eftir miðja 15. öld örsjaldan, og er að siðaskiptunum líður aldrei. Voru þeir ýmist úr líni eða ullu. T. d. átti Bæjarkirkja í Borgarfirði kringum 1470 »línstakk undir messufötum að hafa og 2 ullstakka«[6]). Nú kann að þykja einkennilegt, að slíkt fat væri úr líni, en til þess liggja þó gildar ástæður. Auðgefið var það, að ef svörgulslegir stakkar voru bornir yfir þykkum fötum, hlaut að fara mjög mikið fyrir þeim, sem bar þau, og var það til mikils baga, því undirklæðin undir skrúðanum, serkir og sloppar, svo og messuskrúðinn sjálfur, voru opt mjög þröng. Og þess eru beint dæmi, að það hafi sakað. Um Laurentius biskup segir, að hann mátti »ekki sjá að djáknar hefðu rúma stakka undir messuklæðum og skrúðum. Svo hið sama skyldi enginn prestur eður djákni dirfast að hafa kápur undir sloppnum, svo að þar utan yfir hefðu þeir kantarakápur, segjandi þá rífa af sér skrúðann, er ofan var togaður um þá«[7]). Það var því von, að þeir, sem vel vildu, reyndu að hafa stakkana úr eins þunnu efni og hægt var, og var lín ágætlega til fallið. Hinir, sem léttúðugir voru, drifu sig í

1) Þetta fat þekkist og er notað enn, sem og afspringur þess, sem nú er viðhafnarfat preláta og heitir mantellettum (Caeremoniale episcoporum Lib. III, caput 2, 3). 2) T. d. *D. I.* IV, 104. 3) T. d. *D. I.* II, 62; víða hafa afskrifarar lesið messufatastokkur fyrir stakkur, og veldur því skilningsleysi. 4) T. d. *D. I.* II, 442. 5) *D. I.* III, 164. 6) *D. I.* V, 402. 7) *B. S.* I, 847.

skrúðann í svellþykkum kápunum, sem bæði voru ermalausar og skósíðar, og gera það kærulausir prestar svo sem enn í dag, og afleiðingin er hin sama og á dögum Laurentiusar biskups[1]). Stakkarnir voru í sjálfu sér skrúðanum nógu skeinuhættir, því þó efnið í þeim væri nægilega voðfelt, voru þeir afaroft lagðir skinnum[2]); var það eðlileg afleiðing af því, að hitunartæki öll voru ófullnægjandi, en við það urðu stakkarnir svörgulslegir og stirðir. Á ensku voru þessir stakkar nefndir »cassock« og á latínu »pellis«, af því að þeir voru optast skinnfóðraðir, en slopparnir draga hið latneska nafn sitt »superpellicium« af því að þeir voru hafðir utan yfir »pellis«[3]). Eins og sést á skipan Árna erkibiskups 1346 voru leikmenn optast með á höfðinu í kirkjunni, og sama var og um presta, og hafa þeir haldið þeim sið fram á þennan dag. Vitanlega gátu þeir ekki verið með sama höfuðbúnað og utankirkju. Höfðu þeir höfuðfat, er nefnt var birettum[4]); er það nú ferstrent, svo sem þverhandarhátt, og breiðara að ofan en neðan; fellur það fast að höfðinu, og ganga lóðréttir bogar frá fjórum hornum þess inn að miðju. Uppruni höfuðfats þessa skiptir hér engu máli, en það þekkist fyrst á 10. öld, og fram að siðaskiptum var það meðalhá húfa, opt lægri í kollinn miðjan en utan með, og var í honum hnappur eða skúfur[5]). Í íslenzkum heimildum er birettum

---

1) Það er bersýnilegt, að það hefur verið góðra klerka siður að fara úr kápunni ef þeir unnu prestsverk, eða svo gjörði Jón biskup helgi, sjá bls. 71 hér að framan. 2) T. d. *D. I.* IX, 318. Þetta er 1525 á Möðruvallaklaustri og í því sambandi, að enginn efi er á að um messufatastakk er að ræða. 3) Sjá *George Clinch: English costume*, London 1909, bls. 232—3. 4) Matthías Þórðarson segir í ritgjörð sinni um Hólakórkápuna, að birettum hafi að minsta kosti tíðkast á seinni öldum, og hafi verið tekið upp á eptir pillolus, og séu þau höfuðföt bæði upprunnin af kórkápuhettunni *(Á. Í. F. F.* 1911, 36, 38). En þetta er villandi, því birettum er miklu eldra en pileolus; um pileolus er fyrst talað á 14. öld, en um birettum á 10., og eiga þessi höfuðföt ekkert skylt við kápuhettuna. (Sjá *Braun: Paramentik* 206, 208). 5) *Braun: Handbuch der Paramentik* 206—7.

aðeins nefnt einu sinni, í veitingabréfi Marcellus Skálholtsbiskups, útgefnu í Kaupmannahöfn 1453 til Ólafs Rögnvaldssonar fyrir Oddastað. Segist Marcellus með því að fá honum bíretti sitt veita honum staðinn[1]). En Marcellus kom aldrei hingað til lands, svo hæpið er að ráða nokkuð af þessum stað. Hólakirkja átti

1374 skrýðingarkufl,
1396 húfur þrjár[2]),
1500 rauðan búning úr »serge« með öllu tilheyrandi, handa kapeláni biskups heima og á ferðalögum[3]),
1525 íkornaskinnsfóður undir stakk[4]).

I. **Skrúði.** Til þess að gjöra guðsþjónustuna hátíðlegri báru kennimenn í kirkju og við helgiathafnir sérstakan skrúða. Uppruni skrúðans skiptir hér engu máli, en hann hefur breyzt og þroskast, og gjörir það enn, þó hann í grundvallaratriðunum sé altaf hinn sami.

1) »te per biretti nostri traditionem investientes de eadem« (*D. I.* V, 102). Það hefur bersýnilega verið siður að biskup rétti þeim, er veitingu tók, bíretti sitt svo sem til auðsýningar. Er sá siður annars ókunnur. 2) Nefnt innan um eintóm kirkjuáhöld, svo hér sýnist lítill vafi á að átt sé við biretta. Wallem bls. 126 heldur, að hér sé um mitur að ræða, en þau voru aldrei nefnd öðru nafni. Neðanmálsgr. hans nær engri átt. 3) »Item vestimentum rubrum de serico cum omnibus pertinentiis pro capellano episcopi in domo et in via«. Rauður mun hér merkja sama og fjólublár. Kapelán biskups hefur, eins og áður hefur verið til getið, verið kórsbróðir, en þeir voru prelátar og báru um 1500 fjólubláar eða fjólurauðar hempur (*Rohrbach: Trachten der Völker*. Leipzig 1906, bls. 288). Serico mun ekki þýða silki þarna, heldur verður að leggja það út eins og stæði serica, sem þýðir »serge«; er það ullarferskepta með tvöföldu fyrirvafi. Máttu prelátar ekki hafa slík klæði nema úr ullu, eða camelot, sem er samskonar efni og serge (*Ceremoniale episcoporum*, Lib. I, cap. 3, 1) og er sú skipan frá árinu 1600. Pertinentia — tilheyrandi er vafalaust róket — sjá um það síðar, — sem slíkir kennimenn báru yfir hempunni. Hefur stóllinn átt þessi föt, svo biskup gæti á ferðalögum komið sæmilega fram. 4) Þetta er óefað fóður undir messufatastakk; það er geymt í kirkjunni. Var það algengt fóður í þá daga (*Troels-Lund: Danmarks og Norges Historie i Slutningen af det 16. Aarh.* I, 4, Kbh. 1882 bls. 203).

Það má skipta kirkjufötunum, eptir því til hvers þau voru notuð, í tvo flokka, messuföt og önnur kirkjuföt. Messuföt[1]) eða messuklæði[2]) eru opt nefnd og er það samnefni, en þýðing orðsins nokkuð á reiki, þó að öllum jafnaði eigi við sömu hluti, nefnilega höfuðlín, serk, linda, stólu, hökul og handlín, eða í stað hökuls súbtil eða dalmatiku. Í íslenzkum kirkjulögum var nákvæmlega tiltekið, hvaða föt skyldi hafa við messu, og skyldi hver prestur eiga messuklæði innan fimm ára[3]), en ella lúka 12 álnir[4]). Í skriptaboði Þorláks biskups frá 1178 er sagt, að prestar skuli hafa þessi messuföt: amettu og messuserk, stólu, hökul og handlín[5]); öll þessi föt ber því að skilja undir orðunum messuföt eða messuklæði. Eptirtakanlegt er það, að lindi er hér ekki nefndur á nafn, en síðar í sama skjali er sagt, að syngja skuli messu, þótt altarisdúkur sé óvígður eða lindi, og er því auðséð, að lindi er talinn með messufötum, þó gleymst hafi á fyrri staðnum. Í skriptaboði Jóns Halldórssonar frá 1326 eru þessi ákvæði tekin upp orði til orðs eins[6]), eins og líka skriptaboð þetta tekur upp alt skriptaboð Þorláks og skeytir við það[7]). Yfir höfuð hafa menn í þá daga haft það fyrir sið, að setja öll ofangreind föt saman sem eina heild, og skoða hin einstöku föt sem brot — brot úr messufötum, á sama hátt eins og nú á dögum handlín, stóla og hökull eru skoðuð sem heild, eða jafnvel hökull, dalmatikur tvær, kórkápa, þrjú handlín og tvær stólur, og gjörir sú skipting vart við sig hér á landi undir siðaskiptin. Það er því talað um messuklæði að öllu[8]), messuföt að öllu[9]), og um messuklæði og hökul umfram[10]) eða messuklæði

---

1) T. d. *D. I.* II, 120. 2) T. d. *D. I.* I, 252. 3) *D. I.* II, 791 sbr. III, 129. 4) *D. I.* III, 129. 5) *D. I.* I, 243. 6) *D. I.* II, 599. 7) Það er enginn vafi á því, að B-textinn *(D. I.* II, 604) af skriptaboðinu er rangur, er hann segir, að syngja skuli messu, þótt vanti altarisdúk eða linda eða handlín; þetta ber vafalaust að skilja svo, að syngja megi, þó þessir hlutir sé óvígðir sbr. *D. I.* I, 243. 8) T. d. *D. I.* II, 786. 9) T. d. *D. I.* II, 469. 10) *D. I.* II, 425.

þrenn, öll slitin, vantar eitt höfuðlín[1]), eða stóla laus[2]) o. s. frv., og sýnir það alt berlega, að messufötin eru afmörkuð heild, en hin einstöku föt aðeins skoðuð sem brot úr þeirri heild. En í orðinu messuföt og messuklæði var til bæði þrengri merking og víðari. Þrengri, þegar það var aðeins látið ná til höfuðlíns, serks, linda, stólu og handlíns, en hökullinn ekki talinn með. Nefnd eru messuföt ein með hökli[3]), fustans-hökull hvítur með messuklæðum[4]), fjórir pellshöklar með messuklæðum[5]), sjö guðvefjarhöklar með öllum messufötum og fimm aðrir og þau messuföt með[6]) o. s. frv. Víðari, þegar það virðist vera látið ná einnig til altarisblæja og allra þeirra dúka, er samkvæmt áðurnefndum skriptaboðum þurfti til messu, t. d. messuklæði með búnum blæjum (þ. e. altarisblæjum)[7]), messuklæði að öllu utan dúk[8]), messuklæði hin beztu með pellshöklum, fordúkum og hlöðum[9]) o. s. frv. Allvíða eru í máldögum nefnd messuföt, en engin altarisklæði[10]), og verður þá að álykta, að þau séu fólgin í messufötunum. Þessar tvær síðustu merkingar eru þó mikið fágætari, en sú er fyrst gat um, er sú hin algenga. Gerður er, en allsjaldan, greinarmunur á prestsmessufötum[11]) og djáknamessufötum[12]) eða djáknaklæðum[13]), og er með því átt við föt á bæði djákna og subdjákna, því getið er um djáknaklæði utan dalmatíka[14]). Verðmæti messuklæða er stundum nefnt. Tveggja marka messuklæði[15]), messuföt hundraðsverð[16]), hálfs annars hundraðs[17]), fyrir tvö hundruð[18]) o. s. frv., en dýrustu messuföt munu hafa verið um fjögur hundruð, »átta hundruð messuklæði tvenn hin beztu«[19]), og með því sýnist hámarkinu mikið til vera náð, en menn athugi verðið í

1) *D. I.* III, 534. 2) *D. I.* II, 450. 3) *D. I.* II, 261. 4) *D. I.* II, 636. 5) *D. I.* IV, 177. 6) *D. I.* II, 116. 7) *D. I.* II, 786, III, 554. 8) *D. I.* III, 536. 9) *D. I.* IV, 124. 10) T. d. *D. I.* II, 459, 465 og víðar. 11) T. d. *D. I.* II, 83. 12) T. d. *D. I.* II, 359. 13) *D. I.* II, 670. 14) *Ibid.* 15) *D. I.* II, 439. 16) *D. I.* III, 78. 17) *D. I.* III, 110. 18) *D. I.* II, 636. 19) *D. I.* II, 775.

sambandi við þann reikning verðaura, sem er hér á bls. 101. Ekki er það óhjákátlegt, þegar messuklæði alfær eru metin fyrir hálft þriðja kúgildi[1]). Messuföt voru, eins og nafnið ber með sér, föt þau, er prestar og klerkar notuðu við heilaga messu. Þau voru þó notuð til fleira en þess eins. Þá var sá siður í landi, og svo er enn um allan kaþólskan heim, að jarða alla klerka í fullum skrúða. Jón biskup Ögmundsson var grafinn í fullum skrúða[2]), svo og Guðmundur biskup[3]), svo og vafalaust allir biskupar í kaþólskum sið. Í máldaga Reykholtskirkju frá 1392 segir meðal annars: »líkakross með róðu á síra Ásbjörn að lúka fyrir ein messuklæði er síra (nafnið vantar) hafði í mold«[4]), og Bólstaðarhlíðarkirkja á 1393 messuföt »fáhæf utan til moldar«[5]). Af þessu er auðséð, að þetta sama hefur altaf verið haft við presta, jafnt hér sem annarstaðar, og eins að hér hefur mátt nýta til fullnustu þau klæði, er voru orðin óhæf ofanjarðar. Hvort prestar hér væru grafnir með kaleik, svo sem víða var gjört, er ókunnugt. Hóladómkirkja átti af messufötum:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1374. | 1) Messuklæði | beztu . . . . . . | 20 |
| | 2) —— | léttari . . . . . | 4 |
| | | Alls | 24 |
| 1396. | 1) Messuklæði | betri . . . . . . . | 20 |
| | 2) —— | léttari . . . . . | 4 |
| | | Alls | 24[6]) |
| 1525. | 1) Messuklæði | . . . . . . . . . | 11[7]) |
| | 2) —— | að öllu . . . . . | 6 |
| | 3) —— | vond og brestur á 3 höfuðlín og 2 handlín . . . . . | 13 |
| | 4) —— | . . . . . . . . . | 1[8]) |
| | | Alls | 31 |

1) *D. I.* VII, 738. 2) *B. S.* I, 176—7. 3) *Ibid.* 585. 4) *D. I.* III, 482. 5) *Ibid.* III, 545. 6) Þetta eru vafalaust sömu messuklæðin og til voru 1374, enda segir máldaginn: »var þessi skrúði flestur mjög slitinn«. 7) Hafa væntanlega verið sérstaklega ætluð biskupi, því þau eru geymd í biskupskistu. 8) Í biskupskapellu.

1550. 1) Messuklæði . . . . . . . . 5
2) —— . . . . . . . . 1[1])
Alls 6[2])

Eptir því hverjir notuðu skrúðann má skipta honum í fimm flokka: klerkaföt, subdjáknaföt, djáknaföt, prestsföt og biskupsföt, og enn má skipta honum í fimm flokka eptir því, hvernig hann var borinn: undirklæði, yfirklæði, auðkennisföt, fóta-, handa- og höfuðbúnaður og ýms önnur klæði, og þeirri skiptingu mun hér verða fylgt. En þó skal kirkjuskrúði sem snöggvast flokkaður eptir hinum fyrra hætti til glöggvara skilnings. Klerkur bar slopp, súbdjákni bar höfuðlín, serk, linda, súbtil og handlín; djákni bar sama að viðbættri stólu, en dalmatíku í stað súbtils, prestur sama nema hökul í stað dalmatíku, og biskup bar róket, höfuðlín, serk, linda, stólu, súbtil, dalmatíku, hökul, handlín, glófa, sandalía, rationale og mítur.

A. *Undirklæðin* voru: 1) höfuðlín, 2) serkur, 3) lindi, 4) sloppur og 5) róket. Öll voru þessi klæði að undanteknum linda úr líni.

1.) *Höfuðlín* (á latínu amictus eða humerale), var optast hér á landi nefnt því nafni; var þó einnig allopt nefnt

(h)ametta[3]),

sem var afbökun úr amictus. Var það líndúkur, 80—90 cm. á lengd, en 60—70 cm. á breidd, og voru í bæði horn hans á langveginn dregin löng bönd. Þetta fat báru þeir einir, er tekið höfðu hærri vígslurnar (þ. e. súbdjákni, djákni, prestur og biskup), en þó því aðeins að þeir skrýddust messufötum eða að minsta kosti serk. Á þeim langveginum, sem böndin voru, var á þeim öldum, sem rómversk kirkja helzt hér á landi, búningur; var hann um 40—50 cm. á lengd og 20—25 cm. á breidd, og

1) Voru þau tekin í Sauðafellsreið. 2) Ber þessi tala það greinilega með sér, að ekki koma öll kurl til grafar í máldaganum 1550. 3) T. d. *D. I.* II, 599.

settur á miðjan langveginn, og gekk fram á jaðar. Hét þetta á latínu parura, en á vora tungu búnaður[1]). Var hann með ýmsu móti, ýmist með hlöðum[2]), þ. e. borðum, og voru þeir ýmist úr málmi — höfuðlín með gullhlað[3]) — eða úr ýmiskonar vefnaði — búnaður á höfuðlín með baldurskinni[4]) — og voru þá opt stungnar myndir á búnaðinn. Einn slíkur hamettu-búnaður úr rauðu silki með gullsaumuðum myndum guðs og postula frá 13. öld er til í Þjóðminjasafninu í Reykjavík[5]), og er það einn af þeim gripum safnsins, sem gjörðir eru af mestri list; er hann alíslenzkur[6]) og hefur verið eign Hóladómkirkju. Þegar fram í sótti, var hér eins og annarstaðar farið að nota málmbúnað bæði á höfuðlín og annað — hametta og peningabúnaður upp á[7]); voru það smámálmflögur, opt mótaðar, og voru þær ýmist nefndir peningar eða flugur[8]). Höfuðlín voru altaf vígð[9]), og var það því kyst áður í það væri farið. Er prestur eða klerkur vildi skrýðast, lagði hann þann jaðar höfuðlínsins, er búnaðurinn var á, upp á höfuð, svo að búnaðurinn sneri upp og næmi eptri jaðarinn við hávirfilinn, og lægi búnaðurinn og sá partur línsins, er undir því var, fram yfir höfuð, en aðalpartur þess niður yfir hnakka og niður á herðar, en langjaðarinn með búningnum lagðist niður um gagnaugu og vanga, og var hornunum, þar sem böndin voru, brugðið í kross, og böndunum lagt aptur um handvegina um þvert bakið, og fram um handvegina aptur og þau svo bundin saman um geirvörturnar, en prestur kastaði síðan hettunni, er hann var í serkinn kominn, aptur af höfðinu og »leggur hana um kverkar sér«[10]). Höfuðlín heyrðu

---

1) *D. I.* II, 476. 2) *D. I.* II, 463. 3) *D. I.* IV, 86. 4) *D. I.* II, 476. 5) Nr. 2808b. 6) Á samstæðu fati saumuð mynd biskupanna Þorláks og Jóns. 7) *D. I.* V, 631. Ein slík til enn í Maríukirkju í Danzig. Hefi séð hana. 8) *D. I.* VII, 46. 9) *D. I.* II, 523 nefnir höfuðlín óvígt. 10) AM. 682. 4to bls. 42—3. Höfuðlín nú á dögum er altaf óbúið, og leggur prestur það nú um háls og herðar og bindur það eins og áður um brjóstið, og svo sem til minja um hinn fyrri sið, leggur hann jaðarinn á því sem snöggv-

til messufötum alfærum, og eru því nefnd sjaldnar en við mætti búast, vafalaust ekki nefnd nema þau væru stök. Að minsta kosti er ótrúlegt að Hóladómkirkja ætti ekki fleiri en nefnd eru í máldögum hennar. Hún átti

1396 höfuðlín [1])
1525 höfuðlín fjögur stök, og
1550 höfuðlín fjögur stök [2]).

2.) *Serkur* (lat. alba) [3]) var skósíð og rúm [4]), ermalöng skyrta úr líni, með þröngu höfuðsmáti og klauf úr því að framan niður á bringu; gengu úr því ermar skáhalt upp á við, og voru þær víðar upp við herðar, en þrengri um úlnliði. Voru báðir boðangar, bæði í bak og fyrir, jafnbreiðir alstaðar, en til þess að fatið félli fallegar, var á báðum hliðum feldur inn uppmjór, þristrendur geiri, sem náði upp undir handkríka, og breikkuðu serkirnir því mjög niður [5]), og voru á miðöldunum lítil afbrigði frá þessu sniði. Var fatið á íslenzku nefnt

serkur [6]) eða
messuserkur [7]).

Var serkur altaf hvítur (sbr. alba) og altaf vígður [8]), og var hann talinn með messufötum alfærum [9]) og er hann því nefndur sjaldnar, þó oft sé, en við er að búast. Serkir voru prýddir með búnaði eins og höfuðlín. Kirkjan á Hofi í Vopnafirði átti 1397 messuserksbún-

---

ast á hvirfilinn, áður en hann setur það á sig. Nokkrar gamlar munkareglur, t. d. Benediktsmunkar, hafa gamla lagið.

1) Aðeins eitt, og nær það engri átt; hún hlýtur að hafa átt eitt með hverjum messufötum að minsta kosti. 2) Vafalaust sömu höfuðlínin og hún á 1525. Orðið stök sýnir, að venjulega hafa þau fylgt messufötum, en þessi gjöri það ekki. 3) *Dietrichson* kallar fatið á bls. 140 ranglega camisia; það var róket (sbr. *Braun: Paramentik* bls. 201), sem það nafn bar. 4) AM. 682. 4to bls. 43. 5) Nú á dögum eru serkir jafnbola upp úr og ermarnar jafnvíðar við herðar sem úlnliði. 6) T. d. *D. I.* II, 692. 7) T. d. *D. I.* II, 453. Wallem ruglar bls. 122 saman slopp og serk og gjörir úr því eitt, sem er gjörsamlega rangt. 8) *D. I.* II, 677 nefnir serk óvígðan. 9) *D. I.* II, 777 nefnir serk lausan.

að[1]). Var búnaður þessi svipaður að stærð og höfuðlinbúnaður og var á fjórum stöðum, fáum centimetrum fyrir ofan fald, á jaðrinum miðjum bæði í bak og fyrir, og eins fyrir ofan bæði ermarop[2]). Er menn klæddust serknum, steyptu menn honum yfir höfuð sér og var hann síðan »togaður« ofan um þá[3]). Dómkirkjan átti:

1500. 1) Albæ fimm í biskupskistu.
2) — átta á hæstu hátíðum og stórhátíðum (in summis festivitatibus et duplicibus festis).
3) — ellefu (sex et quinque) einfaldar á þriggja lestra höldum og virkum dögum (festa trinum[4]) lectionum et feriæ).
4) — sex léttari (non tam bonæ) á hátíðum (duplex minor) og sunnudögum.

1550. Serkir tveir,

en auðvitað átti kirkjan miklu fleiri, minst jafnmarga og hún átti messuföt.

3.) *Lindi* (lat. cingulum) var optast úr líni, en gat þó verið úr silki og öðrum efnum; hann gat verið með öllum litum og var venjulega örmjór þáttur, er náði tvöfaldur ríflega mjög yfir um mjaðmir meðalmanns, og lögðu prestar og klerkar (súbdjáknar, djáknar, prestar og biskupar) hann tvöfaldan yfir um sig. Opt var hann band, um 3 cm. á breidd, og gengu úr því á móts við mjaðmirnar mjóir þræðir, er menn hnýttu að sér, en endarnir úr lindanum sjálfum féllu með allskyns prýði niður með lærum[5]). Lindanum var ætlað að halda saman serkinum, og stytta hann ef á þurfti að halda, því sama serkinn brúkuðu allir eptir

1) *D. I.* IV, 216. 2) Um 1500 er í Snóksdal *(D. I.* VII, 460) getið um serk ermalausan, en auðséð er á sambandinu, að hér er um skemd, en ekki einkenni á flíkinni að ræða, eins og registrið gefur í skyn. Serkir ermalausir þektust hvergi. 3) *B. S.* I, 847. 4) Svo í *D. I.* annaðhvort misprentun, mislestur eða misskript fyrir trium. 5) Á Hólafordúknum (þjóðminjas. Ísl. nr. 4380) sjást lindaendarnir niður undan dalmatíkum biskupanna.

þörfum. Svonefnt subcingulum (subcinctorium), fat, sem var eins í laginu og handlín og smokkað var upp á lindann, og borið á vinstri mjöðm af biskupum, samsvarandi epigónation hjá grískkaþólskum, er aldrei nefnt hér. Þó hafa norskir biskupar borið það[1]), en nú ber það páfi einn. Lindi er nefndur hlutfallslega sjaldan, sem kemur til af því, að hann var talinn með messufötum alfærum og felst undir því heiti. Wallem[2]) dregur af því, hve lindi er sjaldan nefndur í máldögum, þá með vægum orðum sagt einkennilegu ályktun, að hann hafi ekki verið talinn með messufötum. Auk þess sem lindi, eins og fyrir framan hefur verið sýnt, er talinn með messufötum, styrkist það einmitt af því, hve hann er til þess að gjöra sjaldan nefndur. Væri hann nefndur fjarska opt, mætti kannske bera það við að gjöra þessa ályktun. Í máldögum dómkirkjunnar er *aldrei* nefndur lindi, en það fat þekkist ekki með öðru nafni[3]), og er það bezta sönnunin, því enginn lætur sér til hugar koma að kirkjan hafi engan lindann átt[4]).

4.) *Sloppur* (lat. superpellicium, cotta) var ekki messufat, og þektist ekki fyrri en á 11. öld og var jafnvel ekki notað í Róm fyrri en í lok 12. aldar,[5]). En á Íslandi er fyrst getið um það 1179[6]) og er það eptirtakanlegt upp á það hve fljótt tízka gat borist hingað. Er fatið upprunnið af Englandi[5]), en Þorlákur II. Þórhallsson, sem settist á stól í Skálholti 1178, hafði numið í Lincoln á Englandi[7]), og væri þá ekki fjærri sanni að hann hefði innleitt það hér[8]). Nafnið sloppur er myndað beint af latneska heitinu superpellicium, en það er að því er Durandus segir[9]) dregið af því, að klerkar báru það utan yfir messufatastakknum, sem að jafnaði hafi verið skinnfóðraður, og hefur það verið óhjákvæmilegt

---

1) *Björgynjarkálfskinn* ved Munch bls. 84. 2) Bls. 122. 3) T. d. *D. I.* I, 244. 4) Silfurlindi sá með pung, sem nefndur er 1525, er ekki kirkjulindi. 5) *Braun: Paramentik* 104. 6) *D. I.* I, 255. 7) *B. S.* I, 92. 8) Ólafsmáldagar 1461 *(D. I.* V, 311) nefna engelskan slopp, en þar er þó vafalaust átt við að sé hann gjörður á Englandi. 9) *Rationale* fol. 26 dorso, fremri dálkur.

eins og upphitun þá var varið. Var sloppur ýmist úr líni[1]) eða lérepti[2]) og nefndur er sálúnssloppur[3]). Hvítur var hann og alveg skrautlàus fram á 17. öld. Í sniðum var hann að öllu eins og serkur, nema hvað ermarnar voru miklu víðari um úlnliði en um handveginn, því skotið var þrístrendum geira inn í ermarsauminn svipuðum hliðargeirunum á serknum, og náði þetta fat ekki nema ríflega niður á hné. Opt gat það haft það til að vera ermalaust; er það alkunna annarstaðar að og sést á Hólamáldögunum að það hefur verið til hér og jafnvel algengast. Stundum hafa þeir verið fóðraðir með skinnum[4]) og er það í góðu samræmi við fráganginn á þeirra tíma flíkum, sem þurftu að vera skjólbetri en nú gjörist nauðsyn. Fatið var nefnt:

sloppur[5]),
óttusöngvasloppur[6]) og
yfirsloppur[7]).

Var fyrsta heitið hið algengasta, en síðasta heitið kom og þó nokkuð opt fyrir. Er það myndað á svipaðan hátt og hið alþekta latmæli lagajúristi. Sloppur er afbökun úr superpellicium, en eptir að orðið var fullmyndað hefur mönnum þókt super — yfir — vanta og skeytt því framan við[8]). Sloppur var upprunalega hátíðafat og einkennisfat klerka þeirra, er tekið höfðu hinar minni vígslur (krúnuvígslur, ostiarius, lector, exorcista, acolythus)[9]) og svo er það enn. Á þrettándu öld fara

1) *D. I.* I, 266. 2) *D. I.* V, 303. 3) *D. I.* III, 560; um sálún sjá síðar. 4) *D. I.* II, 463. 5) T. d. *D. I.* II, 479. 6) T. d. *D. I.* II, 634. 7) T. d. *D. I.* II, 461. Á einum stað (*D. I.* IV, 104) er nefndur messusloppur, en þar hlýtur textinn að vera eitthvað beyglaður, því óhugsandi er að menn hafi kent þetta fat við messu, það var henni algjörlega óviðkomandi. 8) Á fornensku hét fatið overslop. Sjá orðabók Murrays. 9) Um vígslurnar sjá *D. I.* III, 151. Hér mætti benda á það, að nú á dögum er heitið klerkur notað um alla vígða menn, en það er rangt; það átti og á aðeins við þá, sem ekki hafa tekið prestvígslu eða þaðan af meira. Klerkar voru því: krúnuvígðir, ostiarii, lectores, exorcistæ, acolythi, súbdjáknar og djáknar, en aðrir voru prestar, og er þetta í samræmi við þýðinguna í orðinu latneska clericus. »Þar

prestar líka að nota fatið, og eru á því við tíðagjörð, — en víðast hvar var aðeins sunginn óttusöngur og aptansöngur — en þaðan stafar nafnið óttusöngvasloppur, og stendur heima strokkurinn og mjaltirnar með það, að það heiti kemur hér á landi fyrir fyrst 1318[1]) og má þar enn sjá, hve lengi tízkur hafa verið að berast hingað. En þegar á 11. öld var orðið alsiða úti í löndum að bera kórkápur við tíðasöng — þar af nafnið kórkápa, og þó sloppur væri áfram undir kórkápunni, þá var hann þó ekki lengur fatið, er einkendi þá athöfn. Það verður því nokkuð jafnsnemma að nafnið óttusöngvasloppur hættir að koma fyrir í máldögum hér og að orðið kórkápa er að tíðkast, hið fyrra 1452[2]), hið síðara 1461[3]), en þá er um leið orðinn víkkaður verkahringur sloppsins, því nú nota hann bæði klerkar og prestar, að undanteknum biskupum, við öll prestverk og guðsþjónustugjörð nema messu, en áður höfðu þeir notað þar serkinn[4]). Kórkápa hefur þó verið tíðkuð við tíðasöng jöfnum höndum við slopp um 1323, því í skipan Eilífs og Jóns segir að hver, er standi uppi í kór utan slopps eða kórkápu að tíðum gjaldi mörk[5]). Á prestastefnu átti hver prestur, eins og enn[6]), að sitja í slopp eða gjalda eyri, og mátti enginn ljá öðrum að viðlagðri eyrissekt, og skyldi hver prestur, er ekki ætti slopp, gjalda tvo aura[7]). 1345 er það enn áréttað, að prestar syngi tíðir annaðhvort í slopp eða kórkápu[8]),

---

voru með honum 3 ábótar, 2 munkar og nær 40 prestar og margt klerka« *(B. S.* I, 494). »Jólaveizlu lét hann jafnan sæmilega halda prestum og öllum klerkum« *(B. S.* I, 848). »Deyði þar þá 3 prestar og mesti hlutur *klerka*« *(Lögmannsannáll* 1404. *I. A.* 287). Mætti nefna ótal dæmi, er sýna þetta berlega. Orðabók Cleasbys gjörir ófullnægjandi grein fyrir þessu, og Fritzners ranga.

1) *D. I.* II, 445. 2) *D. I.* V, 101. 3) *D. I.* V, 285. 4) Í handritinu AM. 350. fol. er í upphafsstaf mynd af presti, sem er að skíra barn; er prestur á serk, og sýnir það, að prestar hafa þá ekki notað slopp við þesskonar tækifæri. Handritið er frá c. 1350. Mynd af upphafsstafnum er í *Kristinréttur hinn nýi*, útg. Gr. Thorkelin. Kbh. 1777. 5) *D. I.* II, 541. 6) Pontificale Romanum, pars tertia, ordo ad celebrandum synodum. 7) *D. I.* II, 541. 8) *D. I.* II, 733.

en fyrst á miðri 15. öld er kórkápan búin að ryðja út sloppnum sem tíðafati. Sloppar voru aldrei taldir með messufötum og eru því nefndir afaropt[1]). Sloppar voru altaf vígðir[2]). Dómkirkjan átti:

1374. Sloppa tíu.
1396. — — slitna[3]).
1525. 1) — níu uppgefna[3]).
2) — nýja átján,
3) Ermasloppa tvo[4]).
4) Ermaslopp[5]).
1550. 1) Sloppa fjórtán.
2) Ermaslopp[6]).

5) *Róket* (lat. rochettum, camisia) er hvergi nefnt í íslenzkum máldögum nema á Hólum. Upprunalega var það skósíður serkur, er minni vígslu klerkar báru er þeir þjónuðu í messu, og var það ýmist nefnt sarcos eða sarcotium, en smám saman fóru prestar að brúka það líka, og höfðu þeir það yfir stakk og undir höfuðlíni, eða slopp eptir því á hverju þeir voru. Fjórða kirkjuþingið í Laterani (1215) ákvað að biskupar skyldu, er þeir kæmu opinberlega fram, altaf bera það yfir hempunni, og á 14. öld bera það orðið biskupar einir, ábótar og aðrir prælátar, og altaf er þeir vinna biskupsverk, ef messa er undir höfuðlíninu, en annars í stað slopps. Roket var í sniðum sem sloppur, nema hvað það var með framþröngum ermum eins og serkur, og á 14. öld var það ekki skósítt eins og í fyrstu, heldur var það á sídd við slopp, og þó heldur lengra, náði ofan á miðja kálfa. Það var úr líni, hvítt á lit og að öllu óskreytt[7]). Dómkirkjan virðist aldrei hafa átt nema eitt eintak af þessu fati:

1) Bent hefur verið á, að Wallem ruglar saman slopp og serk. 2) *D. I.* III, 523 nefnir slopp óvígðan. 3) Sjálfsagt sömu og 1374. 4) Bersýnilega af þessu hafa og verið notaðir ermalausir sloppar hér, og þeir verið algengastir; annars myndi ekki vera tekið til, ef sloppar væru með ermum, heldur hitt, ef þeir væru ermalausir. 5) Sá er í biskupskistu, og því óefað ætlaður honum eða kapelán hans. 6) Sami og nefndur var 1525. 7) Nú er þetta fat hið prýðilegasta, með knipli og dýrum vefnaði.

1396. Raketum[1]) og
1525. Roket,

og sýnist engum blöðum vera um það að fletta, að það sé beint sama fatið, sem nefnt er í bæði skiptin, en eptir þeim bókum getur það ekki hafa verið mikið notað. Dómkirkjan á

1550 Rikkilín

og er þetta fat geymt í biskupskistu. Það getur leikið nokkur efi á því, hvaða fat það er, en af þessu ætti þó að mega ráða, að það væri sérstaklega ætlað biskupi. 1523 á Þykkvabæjarklaustur: »Item þrír sloppar og fjögur rikkilín«[2]), og má af því álykta, að það sé ekki sama og sloppur. En hitt, að þessi föt eru nefnd svona í einu andartaki, bendir þó til einhvers skyldleika. 1525 á Möðruvallaklaustur eitt rikiulín[3]). Kirkjuordinantian 1537 nefnir tvívegis rikkilín. Fyrri staðurinn: »og þá skal hann skrýðast alleinasta einum messuslopp eður rikkilíni«[4]), bendir á sama skyldleika slopps og rikkilíns eins og Þykkvabæjarmáldaginn. Á síðari staðnum er sagt, að sá, er biskup (superintendent) ætli að vígja, skuli skrýddur »einu rikkilíni og þar yfir einni kórkápu«, og þeir prestar, sem við kunna að vera, skulu »skrýddir rikkilínum«[5]). Á fyrri staðnum stendur í latneska textanum »alba«[6]) — serkur, og á síðari staðnum »superpellicium«[7]) -- sloppur; á honum er því ekkert að græða. En athugandi er hitt, að rikkilín er aðeins nefnt á dómkirkjum og klausturkirkjum, þar sem einmitt prelátar sitja, að sloppur og rikkilín er nefnt saman, en rikkilín og róket aldrei, og loks að í Hólamáldaganum 1550 er ekki nefnt róket það, sem kirkjan átti bæði 1396 og 1525, og blandast manni þá ekki hugur um, að rikkilínið er einmitt þetta sama róket. Hvernig fat það, er evangeliskir nefna rikkilín, hefur hlotið það heiti — en eins og ordinantian ber

---

1) Vafalaust ritvilla í frumskránni fyrir roketum. 2) *D. I.* IX, 190. 3) *D. I.* IX, 318. 4) *D. I.* X, 184. 5) *D. I.* X, 250. 6) *D. I.* X, 267. 7) *D. I.* X, 303.

með sér, hefur það fengið það strax — er ekki gott að gizka á, en orðið er bersýnilega afbakað úr þýzka orðinu röckelein. Eptir sniðinu að dæma er evangeliska rikkilínið afspringur sloppsins, en ekki róketsins; það sýna ermarnar.

B. *Yfirklæðin* settu svipinn á skrúðann; olli því bæði snið þeirra, litur, efni og listilegur frágangur með prýðilegum saum. Yfirklæðin voru fjögur: subtile eða tunicella, og bar súbdjákninn það fat, dalmatika, og var það messudjáknsfat, og hökull, sem prestar og biskupar báru, en öll voru þessi föt messuföt. Loks var og pluviale — kórkápan, sem prestar og biskupar báru við ýmsar athafnir aðrar en messu, og skal síðar vikið að sniði þessara fata og notkun. Nú á dögum skiptir afarmiklu máli, hvernig yfirklæðin eru á litinn, og eru fastar reglur um, hvenær hvern lit skuli nota — svonefndur litarkanon. Litirnir eru nú fimm: hvítt, rautt (rósalitur), grænt, fjólublátt (purpuri) og svart, en bannað er að nota gult og blátt.

Hvítt skal nota á þrenningarhátíð og allar hátíðir lausnarans, nema þær er á pínu hans minna, og allar hátíðir vorrar frúr, játendanna, við útför skírðra barna o. s. frv.

Rautt skal hafa á messum heilags anda, krossmessum, barnadegi, messum píslarvottanna o. s. frv.

Grænt á öllum virkum dögum og sunnudögum um árið, nema dýrlingsmessu eða kirkjuhátíð beri upp á, og ekki um langaföstu eða aðventu o. s. frv.

Purpuri á langaföstu og aðventu, imbrudögum o. s. frv.

Svart í sálumessum og á föstudaginn langa. Stundum má nota svart fyrir purpura og purpura fyrir svart.

Litarkanon þessi er lögleiddur af Píusi páfa V., en elzti litarkanon, sem menn þekkja, er frá því um 1200 og kendur við Innocentius III. (1198—1216), þó vafalaust hafi verið aðrir fyrir hann[1]). Er hann í öllu verulegu eins og sá er enn gildir, en almennu gildi náði

1) *Braun: Paramentik* bls. 53.

hann ekki, því hvert land og jafnvel hvert biskupsdæmi var, eins og þá var títt, að bauka fyrir sig með sínar kreddur. T. d. eru enskir litarkanonar frá 13. og 14. öld með sex liti: hvítt, rautt, grænt, svart, gult og blátt[1]), og eru tveir síðustu litirnir nú harðbannaðir. Hér á landi hafa yfirklæðin, eins og annarstaðar, verið mislit; sýna það bæði máldagarnir og þau miðaldamessuklæði, sem geymd eru í Þjóðminjasafninu — þau eru rauð, hvít, blá og svört[2]). En menn hafa hér á landi bersýnilega ekki verið sér neins litarkanons meðvitandi, heldur notað liti eptir því, sem mönnum bauð við að horfa í þann og þann svipinn, og var það í sjálfu sér ekki nema eðlilegt, því reglurnar bygðust á symbolik[3]), sem ekki var runnin af íslenzku hugarfari, og því Íslendingum fjarri. Hvergi í íslenzkum máldögum eru íslenzk messuföt flokkuð eftir litum — þó þeirra sé getið — þau eru annaðhvort flokkuð eftir verði[4]) eða eptir því, á hvaða hátíðum skyldi nota þau, eins og t. d. í Hólamáldaganum frá 1500, eða þá eptir efninu í þeim, eða það sem algengast er — alls ekki flokkuð. Hefði verið fastur litarkanon, og ákveðinn, mismunandi rík þörf fyrir ákveðna liti á messufötum, hefði verið einsætt að flokka fötin í skránum eptir litum, svo að sæist ekki aðeins hvað væri til, heldur einnig hvað vantaði. Máldagarnir sanna því sjálfir, að litarreglur voru hér á landi engar. Hinsvegar bera máldagarnir það með sér, að reynt hefur verið að koma slíkum reglum á, og eru það, eins og við mátti búast, útlendir biskupar — Vilkin[5])

---

1) *Braun: Paramentik* bls. 53. 2) Um þau sjá síðar. 3) Um það sjá *Rationale* fol. 33. Á miðöldunum átti symbolikin yfir höfuð upp á pallborðið hjá mönnum, ekki aðeins um kirkjuleg atriði, heldur og um borgaralega hluti, t. d. réttarfarið. Í *Hóm.* I, 98—103, og *Hóm.* II, 131—136 er nákvæm lýsing á symbolik íslenzkrar kirkjubyggingar. 4) T. d. *D. I.* VII, 738. 5) Hann hét ekki Vilkin Hinriksson, heldur Hugolino di Camerino (þorp í Macerata á Ítalíu), og var smábróðir, búsettur í Róm, er hann var gerður að biskupi 1392; eptir því virðist hann, og einnig af nafninu, hafa verið Ítali. Er hann fékk veitingu, var hann ekki prestur að vígslu *(D. I.* IX, 23—24). Það, sem segir um hann

og Auðun — sem eru að því. Máldagar þeir, sem um liti á yfirklæðum geta, eru flestir úr máldagabókum Vilkins og Auðunar biskups. Sumir máldagarnir fara mjög nákvæmlega út í litina, svo að bersýnilegt er, að ekki er af tilviljun, sem t. d. Stafholtsmáldagi nefnir:

hökul með lérept hvítan,
— — fustan —
— — — rauðan,
purpurahökul [1]),
léreptshökul bláan,
—— — annan,
—— hvítan og
dalmatíku bláa

og enn tvenn messuföt með ótilgreindum lit. Viðleitnin í þessum máldögum er greinileg, en upp frá því sýnist alt sækja í gamla horfið. Í þessum máldögum eru nefnd 63 yfirklæði með litum, höklar 42, dalmatíkur 5 og kórkápur 16. Litir höklanna voru þessir:

| | |
|---|---|
| rauðir | 14 |
| hvítir | 11 |
| bláir | 5 |
| svartir (dökkir, kolmerktir) | 4 |
| gulir | 5 |
| grænir | 2 |
| purpuralitir | 1 |
| | 42 |

Kápurnar voru svo litar:

| | |
|---|---|
| rauðar | 6 |
| hvítar | 4 |
| bláar | 1 |

í biskupatalinu í *Biskupasögum* Jóns Halldórssonar II, 386, leiðréttist hér með samkvæmt þessu.

1) Ég hefi hiklaust gengið út frá því, að hér væri um lit að ræða, því sú er venjulegust merking orðsins. Var það rauðblár litur, jafnvel rósrauður stundum eða svartblár. *Weiss: Kostümkunde* (Geschichte der Tracht und des Geräthes im Mittelalter. Stuttgart 1862) bls. 66. Þó var og vefnaður, nokkurskonar flugel, nefndur purpuri.

| | |
|---|---|
| svartar (myrkbláar, kolmerktar) | 4 |
| gul . . . . . . . . . . . | 1 |
| | 16 |

Dalmatíkurnar voru:

| | |
|---|---|
| hvítar . . . . . . | 2 |
| rauðar . . . . . . | 2 |
| blá . . . . . . . | 1 |
| | 5 |

Af þessu á að mega ráða, að algengustu litirnir hafi verið rautt, hvítt og svart, og kemur það heim við hina upprunalegu venju annarstaðar[1]). En eptirtakanlegt er, að gulur og blár skrúði, sem nú er harðbannaður, sýnist þá hafa verið alltíðkaður. Purpurahökull sá, er nefndur er, má ætla að hafi verið fjólublár. Nefndur er sálumessnahökull[2]), og er vafalaust með því átt við að hann sé svartur[3]). Auk einlitra yfirklæða, eins og hér hafa verið nefnd, gátu þau haft það til að vera marglit; nefndur er t. d. hökull með grænum hringum[4]) og hökull með rauðum og gulum röndum[5]), en sjaldan eru slík föt nefnd. Samanborið við það, hve afaropt messuföt eru nefnd, er litanna sjaldan getið; hinsvegar er mjög opt getið um það, úr hvaða efni yfirklæðin voru. Nefnd eru yfirklæði úr eptirfarandi efni:

Baldurskinn (baldikinn)[6]).
Bastard[7]).
Bukram[8]).
Flugel[9]).
Fustan[10]).

1) *Braun: Paramentik* 54. 2) *D. I.* III, 569. 3) Nú á dögum er skírðum ungbörnum ekki sungin sálumessa, heldur syngur prestur á hvítum skrúða messu af barnadegi. Hér á landi söng prestur sálumessu — og þá svartklæddur — fyrir öllum framliðnum, er barn var jarðað; þó var það ekki skylda, sbr. *D. I.* II, 799. Annars má sjá, að grænn litur hefur einnig verið sorgarlitur, því 1397 á Álptanesskirkja á Mýrum líkasálún grænt *(D. I.* IV, 187). 4) *D. I.* VI, 628. 5) *D. I.* IX, 735. 6) T. d. *D. I.* II, 448, 471. 7) T. d. *D. I.* IV, 202. 8) T. d. *D. I.* IV, 124. 9) T. d. *D. I.* IX, 735. 10) T. d. *D. I.* IV, 105.

Guðvefur[1]).
Lérept[2]).
Lín[3]).
Purpuri[4]).
Pell[5]).
Salún[6]).
Silki[7]).
Skínandi klæði[8]).
Sæi[9]).
Vefur[10]).
Vilja klæði[11]).

Það er annað hægra en að vita nú, hvaða efni þetta eru; sumpart eru heitin breytt, sumpart og mestan part eru efnin úr sögunni. Í útlöndum hétu efnin öðrum nöfnum, og þó maður komist fyrir málfræðilegan uppruna heitanna, er maður opt jafnnær, því þar er einnig búið að týna niður skilningnum á þessum heitum[12]).

Baldurskinn var silkidúkur, og dró hann nafn sitt af borginni Bagdad í Persíu. Hét hún á latínu Baldach, og var efnið því á latínu nefnt baldachinum, en það varð í íslenzkum munni að baldikinn og síðast baldurskinn[13]). Þessi austrænu efni voru alþekt í álfunni á miðöldunum, og voru aðallega notuð í messuföt, þó mjög opt væri ofnar í þau ókirkjulegar myndir: hundar, riddarar, tungl, nafn Mahomets og Allah og staðir úr kóraninum[14]) og því voru þau á þýzku kölluð »heidnisches Gewebe«[15]), en það varð á norsku að »æinn hæidneskur væfur«[16]) og á íslenzku að »heiðið stykki«[17]), sem því var sama og baldurskinn. Skrúðgöngumerki það frá Flatey á Breiðafirði, sem geymt er í Þjóðminjasafninu[18]), er úr baldurskinni.

1) T. d. *D. I.* I, 350. 2) T. d. *D. I.* I, 597. 3) T. d. *D. I.* II, 117. 4) *B. S.* I, 67. 5) T. d. *D. I.* I, 597. 6) T. d. *D. I.* IV, 181. 7) T. d. *D. I.* I, 592. 8) T. d. *D. I.* IV, 104. 9) T. d. *D. I.* IV, 149. 10) T. d. *D. I.* II, 359. 11) T. d. *D. I.* IV, 182. 12) Sbr. *Braun: Paramentik* bls. 7. 13) Um þessa og aðrar ummyndanir á erlendum orðum sbr. Alex. Jóhannesson: Hugur og tunga Rvík 1926. 14) *Ibid.* bls. 18. 15) *Ibid.* 16) *D. I.* II, 723. 17) *D. I.* III, 513. 18) Nr. 256.

Bastard var persneskur silkidúkur, sem dró nafn sitt af borginni Balsora (Batsra, Bassora) og var með svipuðum hætti og baldurskinn, enda hefur það silki óefað einnig verið kallað heiðið.

Bukram var ullardúkur, og blandað í mjúkum geitarhárum, mjög þjáll og fallegur, og dró hann nafn af borginni Buchara í Turkestan, og var hann á latínu nefndur bocaranum eða boqueranus, á frönsku bougran (bogram, barragan, bocarani, pukeranum, gogreni, gogran)[1]), en um gerð hans vita menn að öðru leyti lítið.

Flugel er svo alþekt, að ekki þarf að lýsa því; var það mjög notað í skrúða á 14., 15. og 16. öld, sérstaklega svonefnt sniðið (geschnittenes) flugel, sem var með mislitum rósum. Var slikt efni ítalskt í hökli þeim og tveim dalmatíkum, sem kallaðar eru með rósaflugel í Hólamáldaganum 1550, og biskup Jón VI. Arason lagði til. Er hökullinn til í þjóðminjasafni Dana[2]), en önnur dalmatíkan í Þjóðminjasafninu í Reykjavík[3]), og er búið að breyta henni í hökul; er munstrið sérkennilegt fyrir þann tíma (granateplamunstur).

Fustan var bómullarefni, hét á latínu fustanum, á frönsku futaine og á ítölsku fustagno. Þótti það allsæmilegur vefnaður, en um gerð hans er lítið kunnugt. Gæti hann dregið nafn sitt af latneska orðinu fustis — póstur — af því að randir væru í vefnaðinum (reps). Svo gæti það og verið af Fostat, nafni á bæ skamt frá Cairo[4]), sem nú er undir lok liðinn. Væri svo, hefur það verið þunnur, rauðleitur bómullarvefnaður[5]).

Guðvefur, á engilsaxnesku goþwef, sennilega fyrir cotwef, en cot dregið af cotta, sem á miðaldalatínu þýðir bómull. Eptir þessu hefur guðvefur verið bómullarvefnaður. Var bómullarvefnaður notaður mikið í messuföt á miðöldum, bæði hér og annarstaðar. Var þó sá vefnaður mjög ósvipaður bómullarvefnaði vorra

---

1) *Weiss: Kostümkunde* (Stuttg. 1862) bls. 547. 2) Nr. 16045. Mynd hjá *Wallem* bls. 124. 3) Nr. 6026. 4) *Weiss: Kostümkunde* (Stuttg. 1862) bls, 404. 5) Ibid.

tíma; hann var sterkur og þykkur, og var optast með ló á öðru byrðinu og opt ofinn með rúðóttum vef[1]), og var þá nefndur teflingur[2]) eða taflbyrðingur[3]). Þótti þessi vefnaður hinn sæmilegasti, var alldýr og algengur hér á landi.

Lérepti þarf varla að lýsa. Það var á miðöldum dýr vefnaður, eins og drepið hefur verið á. Var opt þrýst á það munstri og notað mjög í messuföt. Var það venjulegast einskepta, en miklu svörgulslegri en nú gjörist[4]).

Lin var sama og lérept, en optastnær smágerðara og pastursminna. Var bæði notað í yfir- og undirklæði.

Pell er dregið af latneska orðinu pallium (sbr. miðháþýzka orðið pfellel), sem á miðaldalatínu þýðir dýrindis vefnaður, á fornhollenzku pellen. Du Cange telur það í miðaldalatínu orðabók sinni dýrmætan silkivefnað (pannus sericus aut pretiosioris materiæ). Annars vita menn nú ekkert um, hvernig vefnaði þessum var háttað, nema hvað flestir telja hann purpuralitan[5]), á hverju sem það er bygt.

Purpuri var nokkurskonar flugelsvefnaður[6]), var hann með ýmsum litum, t. d. hvítur[7]) og jafnvel brúnn[8]), en óljóst er, hvernig litarnafnið hefur færst yfir á vefnaðinn.

Salún, á fornensku shaloon, var fíngert fjórskept ullarefni og lá fyrirvafið skáhalt, en ekki lóðrétt, á uppistöðuna, og var það kent við borgina Chalons á Frakklandi, en þar var þetta efni aðallega unnið í þá daga. Það var líkt að gerð efni því, sem nú er á frönsku nefnt »ras« (á ensku rash og þýzku rasch), en miklu

---

1) *Braun: Paramentik* 19. 2) T. d. *D. I.* IV, 139. 3) *D. I.* III, 81. 4) *Braun: Paramentik* 20. 5) Kæmi það heim við *D. I.* VII, 464, ef sericus þar þýddi úr silki, sem ég þó ekki held. 6) *Weiss: Kostümkunde* (Stuttg. 1862) bls. 529. 7) *B. S.* I, 67. Í veraldlegum fötum er hann og nefndur hvítur, sbr. *Erex saga* ved Cederschiöld Kbh. 1880 bls. 36. 8) *Fagurskinna* ved Finnur Jónsson Kbh. 1902—3 bls. 238, *Strengleikar* ved Keyser og Unger, Chria 1850 bls. 40.

finna, svipaðast smágerðu kamgarni. Var hér á landi mjög notað í messuföt og ýmsa dúka.

Silki þarf ekki að lýsa; efnið er alþekt, en ofið var það með ýmsu móti. Algengast var á miðöldunum svonefnt taft[1]), þar sem fyrirvafi og uppistöðu var brugðið við annan hvern þráð, eða vefur, sem á þýzku nefndist köper, þar sem brugðið var við þriðja, fjórða, fimta eða jafnvel sjötta hvern þráð og þar sem fyrirvafið lá skáhalt á uppistöðuna, eða þá svonefnt brocade (franska), þar sem fyrirvafið og uppistaðan mynduðu ekki munstrið, heldur var það sett með ívafi, sem ýmist var brugðið yfir, ýmist undir sjálft efnið, svo að munstrið lá laust utan á efninu, og mátti ná því af án þess að skemma efnið. Á brocade var úthverfa og ranghverfa, en hinn vefnaðurinn var eins báðum megin. Opt nefna máldagar silkiföt, og er stöku sinnum getið um munstur. Oddakirkja á 1488 hringahökul og annan hökul með grænum hringum[2]), og virðist það hafa verið fat úr brocade með grænu ívafi.

Skínandi klæði. Sagt er um Auðun biskup, að hann fengi til Hóla »góðan skrúða með hökli sæmilegum, er skarmandi var kallaður«[3]), en síðar er sami hökull kallaður »skínandi«[4]). Skálholtsdómkirkja átti og hökul, er skarmendingur hét[5]) og er það bersýnilega sama tóbakið. Í dönsku er til orðið skrameret, sem þýðir gullborðalagður; er það dregið af franska orðinu chamarré, sem þýðir sama, en það er af fornfranska orðinu simarre, á fornspönsku zamarra og ítölsku zimara. Af þessu er orðið skarmandi komið. Nafnorðið chamarure, dregið af chamarré, þýðir útsaumaður[6]). Algengt var á miðöldunum að sauma efni út með rósum, svo

1) *Braun: Paramentik* 13. 2) *D. I.* VII, 628. 3) *B. S.* I, 830. 4) *B. S.* I, 890. 5) *B. S.* I, 77. Um þetta orð hefur Aug. Gebhardt í *Arkiv för nordisk filologi* XXV, bls. 84 ff. ritað sérstaka grein, en mjög virðast skýringar hans hvíla á veikum grundvelli. 6) »»chammarré« avec la broderie« *Orðabók Littrés*, sbr. og fornfranska orðið escarimant.

að sýndist sem þær væru ofnar í[1]). Gæti verið að átt væri við þetta, eða við brocade með gullívafi. Skarmandi hefur verið lagt út skínandi, af því að menn hafa ef til vill sett það í samband við franska orðið charmant[2]).

Sæi er ekki dregið af franska orðinu soie, eins og ætla mætti, heldur af latneska orðinu sagun, sagium eða sagia, og var það vandaður ullarvefnaður[3]).

Vefur er sama og guðvefur.

Viljaklæði er komið af velum á latínu, sem verður voile á frönsku. Hvort það hefur verið samskonar efni og það sem nú er kallað voile, er ekki gott að vita, en hafi svo verið, sem vel mætti halda af nafninu, þá hlýtur það, úr því það var notað t. d. í kórkápur, að hafa verið miklu svörgulslegra, því voile er nú afarfíngerður og gisinn ullar- eða bómullarvefnaður, og að gerðinni til eins og taftsilki.

Um skreytingu yfirklæðanna skiftir nokkuð í tvö horn. Fyrir árið 1000 er hún svo að segja engin, en eptir það færist hún í vöxt og helzt enn, en hefur þó aldrei verið fegurri en á árabilinu 1250—1450. Það lítið, sem til er héðan af landi, er því alt frá bezta tímanum. Aðalskreyting var fólgin í útsaum. Allar miðaldirnar valdist lítið annað til að sauma en myndir af heilögum mönnum og atburðir úr lífi þeirra, eða myndir af guðdóminum og atburðum er hann snerta. Svo var og hér á landi. Höklarnir frá Þingeyrum[4]), Hítardal[5]), Vatnsfirði[6]), Reykjavík[7]) Sauðlauksdal[8]) og Hóladómkirkju[9])

---

1) Svo eru t. d. höklarnir nr. 3039, 3460, 4501 í Þjóðminjasafninu í Reykjavík. 2) Skýringar þeirra Kahle (í Arkiv för nordisk Filologi 20, 241—2) og Gebhardts (ibidem 25, 84—89) eru hver annari fráleitari. Sérstaklega er röksemdaleiðslan hjá Gebhardt veik. 3) Sjá *Á. Í. F. F.* 1911 42—3 ritgjörð Matth. Þórðarsonar: »Biskupskápan gamla«. 4) Þjóðminjasafn Íslands Nr. 1719. 5) Þjóðminjasafn Íslands Nr. 3039. 6) Þjóðminjasafn Íslands Nr. 3326. 7) Þjóðminjasafn Íslands Nr. 5593. Krossinn er að sögn hr. Matth. þjóðminjavarðar Þórðarsonar hlöð af kórkápu. 8) Þjóðminjasafn Íslands Nr. 2585. Aðeins krossinn af honum og framborðinn eru til. 9) Þjóðminjasafn Dana Nr. 16045.

eru allir með dýrlingamyndum, en hökullinn frá Þönglabakka[1]) með krossi og Kristi á, en kórkápan frá Hólum[2]) er með mynd af efsta degi á bakskildinum, en dýrlinga á boðöngum, og Reykhólahökullinn[3]), sem reyndar er sniðinn upp úr kórkápu, er með mjög skrítna og barnslega fallega lazursaumaða mynd af Nikulási á sjóferð — liggur maður sjóveikur í stafni. Aptur á móti er rósaverk og annað útflúr fátítt, sem nú er algengast. Þó er krossinn — fyr kórkápuboðangarnir — á Reykhólahöklinum og biskupsmítrið frá Skálholti[4]) saumað með blómum, og hökulkrossinn frá Saurbæ á Kjalarnesi[5]) er saumaður með fingalknum og tunglum og vafalaust austurlenzkur — heiðið stykki. Fram á 13. öld var mestmegnis saumað með hreinum gullþræði[6]), ekki eins og nú gullþræði, sem vafið er utan um silkisál, heldur sálarlausum gullvír laðardregnum, sem var eins og jólaglys það, sem kallað er nú englahár; var hann ekki eins og nú er saumaður niður á efnið (baldýring), heldur dreginn í gegnum það, og hlýtur því að hafa verið saumað á grind (ramma), og síðan hefur verið dregið yfir heitt gler eða eitthvað því um líkt, svo að ekki gúlpaði. Með þeim hætti er saumurinn á hökulkrossinum frá Saurbæ, stólunni og handlíninu frá Hólum[7]) og höfuðlins-búningnum frá sömu kirkju[8]). Þegar fram á 13. öld kemur, er farið að sauma með silki[9]), fyrst framan af með flatsaum, en síðan með hásaum, það er að segja, sumpart var lagt vax eða hör undir þræðina eða heilar pjötlur voru saumaðar niður á efnið, eptir því sem þurfti, svo myndin hækkaði; var sá saumur nefndur applikationssaumur, og er hann á öllum fötum þeim, sem hér hafa verið nefnd, og ekki eru gullsaumuð. Svonefndur lasursaumur (Arras-saum-

---

1) Þjóðminjasafn Íslands Nr. 277. 2) Þjóðminjasafn Íslands Nr. 4401. 3) Þjóðminjasafn Íslands Nr. 2458. 4) Þjóðminjasafn Dana Nr. 909. 5) Þjóðminjasafn Íslands Nr. 699 og 2539. 6) Nefnt er korporale með húsi gullsaumuðu *D. I.* IV, 139. 7) Þjóðminjasafn Íslands Nr. 6028 a—e. 8) Þjóðminjasafn Íslands Nr. 2808 b. 9) Nefnt korporalishús silkisaumað *D. I.* IV. 99.

ur, sbr. arest) var og mjög tíður, og hann var allra fegursti og dýrmætasti saumur miðaldanna. Á efnið, er útsauma skyldi, voru saumaðir niður gull- eða silfurþræðir, hver við annan, svo að heill grunnur myndaðist; var svo saumað yfir hann það sem mynda skyldi, þó svo að grunnurinn var látinn gægjast út, þar sem myndin skyldi vera björt; var og hér stundum notaður applikationssaumur með. Með þessu verki er herðaskjöldurinn á kórkápunni frá Hólum og Nikulásarmyndin á Reykhólahöklinum. Til var það og að sauma perlur og málmplötur til prýði á efnið, er útsauma skyldi, og jafnvel heilar myndir svo gjörðar. Korporalshúsið frá Skálholti [1]) er svo; er á það saumuð boðun Maríu með egta perlum og silfurplötum, og 1374 átti Hóladómkirkja »mitur með perlum«. En á korpóralshúsinu frá Grund í Eyjafirði [2]) er mynd af Maríu mey á tunglinu, öll úr silfri, og er kringum hana silfurdoppukrans, og á hornum hússins eru silfurdoppur. Nefnt hefur og verið höfuðlín með peningabúnaði. Optsinnis eru nefnd yfirklæði með hlöðum: dalmatika með hlöðum [3]), purpurahökull með góðum hlöðum [4]), kantarakápa með silkihlöðum [5]) o. s. frv.; voru það borðar, enda er orðið hlað beint málfræðilega sama og clavus (borði) á latínu [6]), og var alsiða á miðöldunum að hafa fötin borðalögð, og þá optast með gullborðum (chrysoclavi), en gullhlöð á yfirklæðum eru ekki nefnd hér á landi. Aptur á móti eru hér margopt nefnd gullhlöð á altarisdúkum [7]), og nefnd eru gullhlöð á stólur í Hólamáldögunum elztu. Frægust allra hlaða eru Kölnarhlöðin [8]). Uppistaðan í þeim var úr hvítu líni eða silki, en fyrirvafið úr mislitu silki eða svonefndu skinnagulli — tvinnamjóar skinnræmur gyltar. Vefnaðurinn var í sjálfu sér ekkert sérkennilegur, en munstrið var einkennilegt, og lágu um þvera borðana örmjóar rákir, ýmist blóm, skjaldarmerki eða árit-

1) Þjóðminjasafn Íslands Nr. 421. 2) Þjóðminjasafn Íslands Nr. 7053. 3) *D. I.* IV, 378. 4) *D. I.* IV, 188. 5) *D. I.* V, 583. 6) Eins og Clovis = Hlöðver er clavus = hlað. 7) T. d. *D. I.* IV, 107. 8) 1537 er nefndur dúkur með kolneskt verk *D. I.* X, 116.

anir, og var hver rákin með sínum lit: rautt, blátt, grænt, gult, sem svo aptur endurtók sig í ákveðinni röð. Með þessu móti verða borðarnir skemtilega skræpóttir, og er nú á dögum farið að búa þá til aptur. Aðallega voru þeir hafðir í hlöð á súbtíla og dalmatíkur. Kölnarborðastúfar frá Odda eru til[1]), og á Hóladalmatíkunni — nú hökli[2]) — eru og Kölnarhlöð. Vitanlega var frágangur skrúðans margvíslegur, og réðu honum alveg efni og ástæður.

1.) *Súbtíll* (subtile, tunicella)[3]). Þegar súbdjákninn hafði skrýðst höfuðlíni, serk og linda, steypti hann yfir sig fati með þessu nafni[4]). Báru það súbdjáknar einir, og hófst sá siður fyrst á 9. öld. Þó báru hann biskupar á sama hátt og súbdjákninn, en létu þó áður á sig stólu og brjóstkross, sem síðar verður getið. Var sá siður þó nokkuð á reiki, og var það fyrst á 12. öld orðin ófrávíkjanleg venja, að biskupar bæru bæði súbtíl og dalmatíku[5]). Hver hafi verið venjan hér á landi upphaflega, þó undir siðaskiptin hafi verið fylgt þeirri allsherjarreglu, er þá var komin alstaðar, er ekki gott að segja. Á þeim íslenzku biskupamyndum, sem til eru — 3 á altarisfordúk frá Hólum[6]), 2 á tabúlum fyrir altari frá Möðruvöllum í Eyjafirði[7]), ein á Ólafsmynd í húsi frá Vatnsfirði[8]) og 5 í tveim handritum í Stokkhólmi[9]), sem eru af íslenzkum uppruna, er ekki sjáanlegt annað en að þeir séu ekki nema á einu fati undir höklinum, og er það þá dalmatíka. Á Ólafsmyndinni er á annari húshurðinni mynd af Guðmundi biskupi góða, og er hann á engu nema serk undir höklinum. Það má því ætla, að biskupar hér hafi fyrst framan af ekki borið súbtíl, en að það síðar hafi orðið venja, enda á 1525

---

1) Þjóðminjas. Ísl. Nr. 2451. 2) Þjóðminjas. Ísl. Nr. 6026. 3) T. d. *D. I.* II, 657; III, 213; IV, 81; V, 282; IX, 305. 4) *Falk: Altwestnordische Kleiderkunde*, bls. 196, telur messufatastakk sama og súbtíl, en staðurinn, sem hann vitnar í (BS. I, 847), er gjörmisskilinn og sannar það, sem hér er haldið fram bls. 230—31. 5) *Braun: Paramentik* 112. 6) Þjóðminjas. Ísl. Nr. 4380. 7) Þjóðminjas. Ísl. Nr. 6430. 8) Þjóðminjas. Ísl. Nr. 3327. 9) Nr. 5 fol. og 16 4to.

Hóladómkirkja engan, fyr en biskup Jón leggur henni til einn súbtíl, og á hún engan annan 1550, en það verður ekki skilið öðruvísi en svo, að hann hafi útvegað hann til biskupsnota. Var hann í upphafi einkar óbrotið fat úr líni, skósítt og ermalangt, en smámsaman varð hann að fati úr dýrindis vefnaði[1]) útsaumað, og síðla á miðöldunum var súbtíllinn orðinn nákvæmlega eins og dalmatíkan, og þar með var súbtíllinn horfinn úr sögunni, en vitanlega var löngu áður farið að draga saman með þessum fötum, og djáknar og súbdjáknar farnir að nota dalmatíku jöfnum höndum. Sniðið á súbtílnum áður en hann fór að ganga saman, var sama og á serkinum, en um það vísast úr því til þess, sem sagt verður um dalmatíku. Getið er um súbtíla á 15 kirkjum öðrum en Hóladómkirkju í 21 máldaga, og eru þeir nema tveir frá hér um bil miðri 14. til hér um bil miðrar 15. aldar. Eiga 14 kirknanna jafnmarga súbtíla og dalmatíkur. Ein kirkja á aðeins súbtíl, ein kirkja á tvær dalmatíkur og súbtíl, og ein af kirkjum þeim, sem átti jafnmarga súbtíla og dalmatíkur eignast frá 1394—1461 einn súbtíl umfram. En fjöldi kirkna átti dalmatíkur án þess að eiga súbtíla. Væri sungin messa með djáknum — það þurfti minst djákna og súbdjákna — hlýtur eitt af tvennu að hafa átt sér stað, annaðhvort að súbdjáknarnir hafi sungið á messuserk einum og með handlín, eða að þeir hafi sungið á dalmatíkum eins og djáknar. Fyrri skoðunin styðst við það, að staður einn í Laurentiusarsögu bendir til að djáknar hafi sungið á serk einum og með stólu. Segir þar, að súbdjákn nokkur úr Fnjóskadal hafi komið á Valþjófsstað, og sagst þar vera messudjákn, og boðist til að lesa guðspjall í messunni, en það var messudjákns verk, og »var honum fengin stóla«[2]). Hér er ekki nefnt á nafn að honum hafi verið fengin dalmatíka, sem þó hefði átt við. En síðari möguleikinn byggist á því, að Hólamáldaginn 1525 nefnir

---

1) *Hólamáldaginn 1550 nefnir súbtíl með guðvef og dubult silki.* 2) *B. S.* I, 871.

engan súbtíl, en telur fram dalmatíkurnar í pörum: »10 pör«, »13 pör« o. s. frv., nefnil. önnur handa djákna, hin handa súbdjákna, og samkv. Hólamáldaganum 1550 lagði biskup Jón Arason til kirkjunnar messuhökul og tvær dalmatíkur með rósaflugel, en ekki dalmatíku og súbtíl. Er á þessu auðséð, að hætt er að kaupa til súbtíla, en þeir, sem nefndir eru um þetta bil, eru eptirlegukindur, og þeir eru því í raun réttri úr sögunni hér á landi um 1500, og hafa altaf verið fátíðir hér. Þó leggur biskup Jón Arason Hólakirkju til súbtíl, að því er máldaginn 1550 hermir. En það sannar mál mitt, að máldaginn 1525 nefnir engan súbtíl og máldaginn 1550 aðeins þennan eina. Með hvaða litum þeir hafa kunnað að vera, er ekki hægt að sjá. Hóladómkirkja átti:

1374. Súbtíla 28.
1394. — betri og léttari 24 [1]).
1500. 1) — 21 á móts við dalmatíkur jafnmargar.
2) Súbtíl stakan [2]).
1550. Súbtíl með guðvef og dubult silki [3]).

Eins og sést, minkar súbtílaeignin jafnt og þétt og er síðast 1525 engin. Getið er þess, að Hóladómkirkju hafi verið gefinn súbtíll í testamentisbréfi Magnúsar konungs Eiríkssonar og Blönku drotningar 1347 [4]), og er hann vafalaust í tölu þeirra, er að ofan getur.

2.) *Dalmatika* (tunica, dalmatica) var fat það, sem djákninn steypti yfir sig, á sama hátt og presturinn hökli, er hann hafði skrýðst höfuðlíni, serk, linda og öðru smáfati, stólunni, er síðar verður nefnt. Einnig klæddust biskupar því utan yfir súbtílinn, svo framarlega sem þeir notuðu hann, annars utan yfir serkinn. Dalmatíkur voru upprunalega daglegt fat heldri Rómverja, og voru þá á því tvö hlöð (clavi) í bak og fyrir.

1) Máldaginn segir til samans 48 dalmatíkur og súbtíla. Venjulega var jafnt af hvoru; svo var 1374, svo ég hefi gjört ráð fyrir sama hér. 2) Það er að segja, sem engin dalmatíka stenst á við. 3) Sá er biskup Jón lagði til. Væri líklegt, að hann hefði verið til þess eins ætlaður að biskup bæri hann undir dalmatíku sinni. 4) *D. I.* II, 845.

Fatið var skósitt og ermalangt. Báru djáknar það í fornkirkjunni. Var það fyrst úr líni og skarlati, en þegar fram um árið 1000 leið, fór fyrir því eins og öðrum yfirklæðum kirkjunnar, að það varð að skartfati miklu; hlöðin hurfu og fatið styttist, og nú á dögum nær það tæplega niður á hné, en hlöðin eru komin aptur. Það er ágætlega ljóst, hvernig dalmatíkur voru hér á landi, bæði af máldögunum, sem segja frá lit þeirra og efni, svo sem minst hefur verið áður, svo og af samtímamyndum, sem til eru enn, og segja gjörla til um lögun þeirra, og enn af því eina dalmatíkuslitri, sem til er, þó illa sé með farin, og ýmsum smábrotum, sem til eru enn. Um lögun dalmatíkna virðist aðeins eitt hafa skilið frá því sem nú er, og er það ermalengdin, og eptir henni voru til þrjár tegundir. a) *Dalmatíkur með ermum fram á úlnlið.* Á Hólafordúknum, sem minst hefur verið á, eru sýndir biskuparnir helgu: Þorlákur, Guðmundur og Jón. Eru þeir undir höklunum í dalmatíkum, er ná vel niður á kálfa, og eru ermarnar þröngar álíka og nú gjörast karlmannsermar, og ná þær fram á úlnliði; á báðum hliðum er stutt klauf upp í fatið, á lengd við klaufar á karlmannsskyrtum nú, og hlöð á því engin. Höfuðsmáttin er kringlótt og allvíð. Á Möðruvallabríkinni er Marteinn biskup sýndur tvívegis á samskonar dalmatíku; þó sýnist á annarri myndinni (efst í hægra horni) eins og brett sé upp á ermarnar eða þær hólkist upp, því vel skín á serkermarnar fram undan; djákni Marteins er og á þeirri mynd sýndur á samskonar fati. Til er líkneski tálgað úr tré með farg undan Múla á Skálmarnesi; er það af Stepháni frumvotti[1]), en hann var djákn að vígslu; er hann á samskonar dalmatíku að öllu, og hafa á henni engin hlöð verið. b) *Dalmatíkur með ermum, er ná fram á olnboga.* Á bríkum tveim fyrir og yfir altari frá Grund í Eyjafirði[2]) er sýndur sinn djákninn á hvorri,

1) Þjóðminjas. Ísl. Nr. 859. 2) Þjóðminjas. Dana Nr. 7724—5 Mynd í *Wallem* bls. 57.

og eru þeir báðir á dalmatikum; eru þær jafnlangar þeim, sem að ofan hefur verið lýst, en ermarnar ná ekki nema niður á olnboga, og hliðarklaufarnar eru mun hærri, ná upp um mjöðm, og er þar krókurinn farinn að beygjast til þess, sem verða vildi og nú er orðið, því nú eru dalmatíkur með klaufar, sem ná upp úr alla leið í handveginn, og eins eru ermarnar klofnar að neðan upp í handveg, svo að þeim svipar að því leyti til hökla, en ermarnar ná nú ekki nema aðeins niður fyrir axlir. Eiríkur Loptsson (d. 1473) hefur nú að vísu látið gjöra bríkurnar í Noregi, því á báðum er norsk áletran: »Eirikur Loptsson, han eigar«, en þó má ætla, að þetta eigi við Ísland engu síður en Noreg, því það eru einmitt slíkar dalmatíkur, sem Árni Magnússon hefur séð í Skálholti og á Hólum um aldamótin 1700. Hann lýsir þeim svo: »Dalmadika er utanhafnar messuklæði (svo sem fyrir hökul) af mislitu silkitöji, eða öðru svodan. Er ekki gjörð eins og hökull, helldur er hún jafnsíð alt um kring, og á mynd sem síðhempa órykt á öxlunum, sem skorin væri svo hátt upp í báðar hliðar, að stiglin næði alla leið upp undir handvegi. Ermar eru hér við örstuttar, og eitt hálsmál, sem ganga á ofan yfir höfuðið, því ekkert op er framan á annað eða neitt skorið ofan í barminn. Enginn er kross á baki dalmatíkunnar eins og á hökli. Ekki er stígl neitt framan eða aptan í boðangana, helldur alleina í hliðarnar upp undir hendur, sem áður er sagt. Vidi binas, eina á Hólum og aðra í Skálholti. Á þeirri dalmatíkunni, sem í Skálholti er, er lagdur breidur borði frá öxlunum og ofan að faldi bæði í bak og fyrir. Er þessi borði í einu lagi frá faldinum upp á öxl og so ofan að falldi hinumegin, og eru svo tvær raðir borða á hverjum boðangi rétt niður undan öxlunum; aptur er lagður borði yfir um þvert; gengur hann yfir um bakboðanginn alla götu upp við hálsmálið og svo út á ermarnar fremst, og gjörir svo tvo krossa. Á öxlunum gætir þessa aptan til, en framan til eru engir krossar. Enn framar er þessi borði lagður framan til um hálsmálið

(aptan til varð það ekki, því þverborðinn sem gengur út á ermarnar tekur það af) framan um ermarnar, sem eru heldur enn ekki víðar, ofan með þeim stóru stiglum beggja megin, í báðum hliðum og neðan um báða boðangana. En þessir borðar minnir mig ekki séu á Hóladalmadíkunni«[1]). Þriðji flokkurinn þekkist á ermunum; í honum eru c) *dalmatíkur ermalausar.* 1461 á kirkjan í Laufási dalmatíku ermalausa[2]). Þetta þektist einnig annarstaðar, því til er í þjóðminjasafni Dana[3]) dalmatíka frá Færeyjum, sem er ermalaus með öllu, og er sérstaklega eptirtektarvert, hve sú dalmatíka er stutt, mun varla ná lengra niður en á mið læri, og er sú dalmatíka með hlöðum. Sammerkt eiga öll þau föt, sem ofangreindar myndir sýna, í lengdinni og víddinni. Víddin er svo mikil, að fatið er í fellingum á öllum myndunum. Lengdin er sú hin sama sem þá tíðkaðist. Fat, sem í bak nær meðalmanni niður á miðja kálfa, er um 120 cm. á lengd. Á miðöldunum voru dalmatíkur 120—150 cm.[4]), og Hóladalmatíkan er 123 cm. á lengd í bak, svo lítill efi er á því, að ekki hefur verið af kubbað að neðan; að breidd er hún um 75 cm. í bak og eru allir saumar á henni, sem lóðréttir eru, gamlir. Er hún úr afarfallegu og fíngerðu ítölsku silkiflugeli bláu, og er hún samstæð við Hólahökulinn; hefur biskup Jón keypt hökul og dalmatíkur í einu og eru það alt samstæður. Það er um þennan skrúða, sem Ólafur Tómasson kvað:

Skínandi var skrúðinn einn o. s. frv.[5])

---

1) *D. I.* III, 607—8. 2) *D. I.* V, 267. 3) Því miður veit ég ekki númerið á henni, en hverjum sem í safnið kemur er vandræðalaust að koma auga á hana; hún hangir í glerkassa á vegg áberandi, og er auk þess eina dalmatíkan, sem höfð er til sýnis. Sá er þetta ritar hefur margskoðað hana. Hún er rauðleit. 4) *Braun: Paramentik* 113. 5) *B. S.* II, 487. Matthías Þórðarson vill í ritgjörð um Hólakápuna í *Á. Í. F. F.* 1911 bls. 52 láta þessa vísu eiga jafnvel við þessa »kórkápu, eða þann sama biskupsskrúða, sem hún hefur tilheyrt«. Ég held, þó litlu máli skipti, að vísan eigi við hökulinn og dalmatíkurnar, en ekki kórkápuna. Hún á

Allar eiga myndirnar, nema þær sem á Möðruvallabríkinni eru, sammerkt í því, að dalmatíkurnar eru með allbreiðum bryddingum á jöðrum, upp með klaufunum og við ermaop. Dalmatíkurnar á Hólafordúknum sýnast eiga að vera úr stórrúðóttu efni tvær, en ein úr stórröndóttu, hvað sem upp úr því er að leggja. Þó ekki séu nein hlöð á dalmatíkunum, sem myndaðar eru, hefur það óefað verið til. Kölnarborðabútarnir frá Odda hafa sjálfsagt verið hlöð af dalmatíku, og á Hóladalmatíkunni, breyttri í hökul, mynda samansaumaðir tveir Kölnarborðar krossinn. Hlöðin á dalmatíkunum voru borðar tveir í fyrir, er lágu frá utanverðu hálsmáli lóðrétt niður á fald, og lágu aptur tveir borðar samsíða milli þeirra lárétt. Var eins í bak. Var dalmatíka með stólu, handlíni, linda, serk og höfuðlíni nefnt

djáknsmessuföt [1]),
djáknaklæði [2]).

Dalmatíkan varð, þegar fram í sótti, einnig súbdjáknafat eins og bent hefur verið á. Hóladómkirkja átti:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1374. | | Dalmatíkur | 28. |
| 1396. | | —— | 24 [3]). |
| 1500. | | —— | 21. |
| 1525. | 1) | —— | 10 pör. |
| | 2) | —— | 13 — |
| | 3) | Dalmatíka stök. | |
| 1550. | 1) | Dalmatíkur | 5 pör hæf. |
| | 2) | —— | 7 — — |
| | 3) | —— | fern pör uppgefin. |
| | 4) | —— | fimm — —— |
| | 5) | —— | tvær. |

---

ekki inn í skrúðann, því þá væri hún úr sama rósaflugeli og hann. Hún er alveg sérstæð, og kórkápa getur varla kallast skrúði. En flugelið rauða í henni er vafalaust sama og í upphafi var, eins og líka er tekið skýrt fram af Matthíasi.

1) *D. I.* II, 359. 2) T. d. *D. I.* II, 670. 3) Samstæður við jafnmarga súbtíla; sjá neðanmálsgrein þar.

6) Dalmatíkur tvær með flugel[1]).
7) Dalmatíka stök.

1286 sendi Eiríkur konungur prestahatari síra Guðmund Hallsson til Íslands, og með honum pellzklæði sín hin beztu, sem hann hafði heitið að gefa dómkirkjunni, og voru úr þeim gjörðar dalmatíkur, segir Laurentíusarsaga[2]). Blanka drotning og Magnús konungur ánafna kirkjunni 1347 dalmatíku og fleira[3]).

Hér má geta þess, að hempa evangeliskra presta íslenzkra er ekki, eins og sumir[4]) halda fram, afsprengi dalmatíkunnar með stólu á, heldur er hún venjulegur stakkur veraldlegra á siðaskiptatímanum lengdur, en vængirnir og borðinn eru leifar af boðöngum og kraga á ermalausum stakk, sem prestar höfðu utan yfir (messufatastakk?), og nú er orðinn áfastur partur af hempunni. Svo sýnist sem evangeliskir hafi hér fyrst framan af notað dalmatíkur. Bæði gefur öll kirkjuskipan Kristjáns III. fulla ástæðu til að halda að reynt hafi verið að halda í ytri mann guðsþjónustunnar sem mest, og svo er hitt, að súbtíll sá, er samkvæmt máldaganum 1550 var lagður til af biskup Jóni og því spánúsanýr, er evangeliskir taka við, er í úttekt Hóla 1657[5]) talinn heill að neðanverðu, »þó lasinn og í sundur, en að ofanverðu ónýtur og útslitinn«[6]), en það getur tæplega komið til af notkunarleysi.

3.) *Hökull* (casula, planeta) hét fat það, sem prestar steyptu yfir sig, er þeir voru skrýddir höfuðlíni, serk, stólu og linda, en biskupar báru það utan yfir dalmatíkunni. Þegar skilist var áðan við klerka, eptir að þeir voru skrýddir undirklæðum, stóðu þeir með höfuðlínið uppi á hvirfli, eins og þar var lýst. Þegar súbdjákninn var búinn að taka á sig súbtíl eða dalmatíku, djákninn dalmatíku, presturinn hökul og biskup súbtíl, dalma-

---

1) Þetta eru dalmatíkur þær, sem biskup Jón lagði til með samstæðum hökli, og er önnur dalmatíkan, sú er opt hefur verið nefnd, til. 2) *B. S.* I, 794—5. 3) *D. I.* II, 845. 4) Svo sem *Dietrichson* bls. 143. 5) Þar að vísu nefnd dalmatíka, en þó auðþekkjanlega sama fatið. 6) *Á. Í. F. F.* 1911, 55.

tíku og hökul, feldu þeir höfuðlínið aptur af hnakkanum, og lagðist þá búningurinn á höfuðlíninu utan með hálsmáli yzta fatsins, og reis upp í hnakka, og upp með vöngum. Búið er lýsa efni í höklum, skreytingu þeirra og lit; hér kemur því sniðið eitt til greina. Það kemur víða fram, að menn halda að hökullinn sé afkvæmi tógunnar rómversku, en svo er ekki; hann er afsprengur yfirhafnar, sem pænula var nefnd, og sem var almenn manna á milli á 2. öld e. Kr. Elztu höklarnir, sem nú þekkjast, og fornar prestamyndir, sýna hökulinn alveg með sama sniði, og hökull grískkaþólskra, sem enn heldur pænulu-nafninu (phelonion), er svo að segja alveg eins og pænulan rómverska. Alveg fram á 13. öld hélzt það lag, en síðan var farið að smádraga úr því. Þó hélt það grundvallareðli sínu alla leið fram á 16. öld; þá var farið að hrófla við því líka, og úr því stórhrakar fatinu, þar til það er orðið að því viðrini, sem það nú er jafnt með kaþólskum sem evangeliskum, að vísu altaf hafandi svipaða lögun, en búið að missa hið innra lögmál, sem eitt olli fegurð þess, missir, sem ekki er hægt að bæta upp með útsaum, gulli og gimsteinum. Hökullinn var upprunalega fat breitt að neðan og mjótt upp í odd. Væri það þanið, var það rétt »rotations«-keila. Var oddurinn annaðhvort sniðinn af, eða klauf upp í fatið frá oddi svo sem höfuðsmátt. Mynduðu axlalínur fatsins ávalt 90° horn, og væri fatið skorið niður úr og flett úr því, hlutu boðangajaðrarnir eðlilega að mynda beina línu, og alt var fatið því hálfur cirkill, en boðangajaðrarnir diameter hans. Væri dregin lína milli þeirra punkta, þar sem axlarlínur fatsins skáru cirkilinn, og lóðréttar línur úr þeim punktum á diameterinn, mynduðu þessar þrjár línur, ásamt diameternum, hálfan, rétthyrndan jafnhliða ferhyrning. Fatið var því sniðið »ad quadratum«[1]).

---

1) Hinn andríki norski fræðimaður Fr. Macody Lund hefur fyrstur veitt þessu lögmáli eftirtekt og því, að það gilti um kirkjur miðaldanna. Hafa skoðanir hans hér um við óyggjandi

Fat þetta var afarfallegt vegna hinna miklu fellinga, sem á það féllu, og það hafa vafalaust fyrstu íslenzku biskupar notað. Hins vegar var það allóþjált í vöfunum vegna þess að það féll langt fram yfir hendur. Var því gripið til þess að stytta axlarlínurnar; við það misti fatið að vísu hálfcirkillögunina, er það var útflett. Eins var farið að stytta frampartinn, svo að radius cirkilsins var aðeins að finna í lengd baksins, en kvadratslögmálið helzt þó óbreytt, því ef framlengdar eru línur hinna útflettu boðangajaðra og axlarlínurnar, kemur alt í sama stað niður. Fyrst styttust axlarlínur, svo að fatið varð sem kvaðrat, síðan, svo að það varð sem tígull, og náðu axlarlínurnar þá svo sem niður á alnboga. Svo lengi sem það lag hélzt, gengu höklarnir beint upp í hnakka og var ekkert sniðið úr fyrir öxlum, en eptir að axlarlínan var skroppin svo saman, að hún náði ekki niður fyrir axlir, var tekið úr fyrir öxlunum, svo að hálsmálið lá þétt með hálsinum, sem síðan hefur haldist, og var þar með lögmálið úr sögunni. Var það verk renaissancestefnunnar, eins og svo mörg önnur, breyting til hins verra í kirkjulistinni. Til eru íslenzkar myndir af tveim höklasniðum. Á Hólahandlíninu [1]) eru myndir af biskupum Þorláki og Jóni; eru þeir báðir á höklum með hinu upprunalega pænulusniði. Biskuparnir á Hólafordúknum, Möðruvallabríkinni og Ólafshúsinu frá Vatnsfirði eru á höklum með svo styttum axlarlínum, að þeir eru sem kvaðrat í laginu. Og af þeim fjórum höklum af Íslandi, sem til eru úr kaþólskum sið, eru þrír frá Hítardal [2]), Njarðvík [3]) og Hofi í

rök að styðjast, og hefur hann sett þær fram í ritinu »Ad quadratum« Oslo 1919. Er það of langt, og því efni er hér liggur fyrir óviðkomandi, að lýsa því lögmáli, og vísast um það til ofannefnds rits, en höfundur þess hefur aðeins athugað það í sambandi við kirkjuhúsin, en sá er þetta ritar hefur veitt því eptirtekt, að það á og við messufötin, og á þá óefað við fleira af kirkjugripum, og væri rannsókn á því ærið efni í ritgjörð.

1) Þjóðminjas. Ísl. nr. 6028 d—e. 2) Þjóðminjas. Ísl. nr. 3039. 3) Þjóðminjas. Ísl. nr. 3460.

Álptafirði[1]) — tígulmyndaðir, og lúta kvadratslögmáli Macody Lunds. Hinn fjórði — Hólahökullinn — er alveg með renaissancesniði, og lýtur því ekki lögmálinu. Lögmálið er óyggjandi, ef meta skal aldur hökla. Höklar, er því lúta, eru ekki mikið yngri en frá um 1500; höklar, sem ekki lúta því, ekki mikið eldri en frá um 1500. Fram yfir siðaskiptin voru höklarnir á bak þetta 120—150 cm. á lengd. Prýddir voru höklarnir með borða á jöðrum[2]) og í hálsveg, og efnið saumað með rósum; svo á þrem ofannefndum höklum. Í fyrir lá stafur frá hálsmáli lóðrétt niður á fald, og svo er á höklum þeim og myndum, sem getið hefur verið um. Á baki var kross milli hálsmáls og falds, og þvertré yfir lóðrétt eins og enn tíðkast; svo á þeim fjórum höklum, sem til eru. Það var og til, að þverálmurnar á krossinum lágu skáhalt upp á við og yfir axlirnar fram á brjóst og mættust þar við efri endann á stafnum á framstykkinu. Svo t. d. á Möðruvallabrikinni, og er einn slíkur hökulbúningur til frá Sauðlauksdalskirkju[3]). Vafalaust hefur það komið fyrir, að höklarnir væru óskreyttir; t. d. er Guðmundur biskup á óskreyttum rauðum hökli á Ólafsmyndinni frá Vatnsfirði. Höklar voru optast fóðraðir, en bar þó til að svo væri ekki[4]). Af höklum átti Hóladómkirkja

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1374. | 1) | Hökla | 19 betri. |
| | 2) | — | 21 léttari. |
| 1396. | 1) | — | 20 betri. |
| | 2) | — | 20 léttari. |
| 1500. | 1) | — | handa biskupi á hæstu hátíðum 8. |
| | 2) | — | handa prestum á stórhátíðum 8. |
| | 3) | — | á hátíðum 4. |
| | 4) | — | hæfa á smáhátíðum 6. |
| | 5) | — | einfalda fyrir einfaldar hátíðir og níulestra höld[5]) og á virka daga 7. |

1) Þjóðminjas. Ísl. nr. 4501. 2) *D. I.* VI, 628. 3) Þjóðminjas. Ísl. nr. 2585. 4) T. d. *D. I.* IV, 74. 5) Vafalaust misskrift eða lestur fyrir þriggjalestrahöld.

1525. 1) Hökla 32.
2) — 13 staka.
3) — 4 —
4) — 2[1]).
1550. 1) — 19.
2) — 19 (aðrir).
3) Hökul slitinn.
4) — einn.
5) Messuhökul með rósaflugel[2]).
6) Hökul[3]).

Í Laurentiusarsögu er getið um, að Auðun biskup hafi lagt dómkirkjunni til »skrúða með höklinum skarmandi«[4]), og hefur verið minst á það orð hér á undan. Þegar Magnús konungur og Blanka gjörðu erfðaskrá 1347, ánöfnuðu þau Hóladómkirkju hökul með fleiru[5]).

4.) *Kórkápa* (cappa, pluviale). Um efni þeirra, skreyting og lit hefur verið getið að nokkru. Að öðru leyti getur hér nægt að vísa til ágætrar ritgjörðar eptir Matthías þjóðminjav. Þórðarson »Biskupskápan gamla« í Árbók Fornleifafélagsins[6]), þar sem kórkápum alment og eðli þeirra á ýmsum tímum er nákvæmlega lýst, og eins er Hólakórkápunni vel lýst og fylgja myndir. Ég vil þó auka við nokkrum smáatriðum, sem í þessu sambandi mega koma að haldi. Á bls. 49 gefur höf. í skyn, að hnappur sá, sem talinn sé úr kápunni í úttektinni 1569, hafi getað verið skúfhnappur niður úr skildinum, en það virðist einkar ólíklegt; hitt er líklegra, sem hann getur til á bls. 54, að það hafi verið kingja til að hneppa með. Slíkir skúfar þekkjast fyrst seint, enda virðist kápuskjöldurinn bera það með sér, að ekkert vanti á hann. Rétt segir höf. til á bls. 43 um merkingu orðsins silfurflingja, að það sé áhald til að krækja saman kápunni. Það er komið af miðaldalatínu-

1) Í biskupskapellu. 2) Sem biskup Jón lagði til ásamt tveimur samskonar dalmatíkum. 3) »Við Ós« þ. e. í kirkjunni við Kolbeinsárós. 4) *B. S.* I, 830 sbr. 890. 5) *D. I.* II, 845. 6) *A. Í. F. F.* 1911 36—59.

orðinu pilingellus, sem merkir áhald, sem eitthvað er bundið við[1]). Vísa Ólafs Tómassonar held ég, eins og áður er tekið fram, að eigi við hökulinn og dalmatikurnar, en ekki jafnframt við kápuna, sem litlu máli skiptir. Höfundur segir á bls. 42, að kantarakápur hafi líklega verið teknar á Sauðafelli; til þess bendir ekkert. Af kirkjugripum var tekið ein messuklæði og kaleikur. Höf. furðar sig á því, hve fáar voru kápur á Hólum 1550, sem vonlegt er, en það hlýtur að vera af því, að máldaginn greinir ekki alt. Höf. tekur það fram bls. 40, að engin óbrengluð forn kórkápa af Íslandi sé til nema Hólakápan, en til er meginið af einni kápu — er það Reykhólahökullinn[2]), og á Reykjavíkur-[3]) og Þingeyrahöklunum[4]) eru bútar af kórkápuborðum og skildi. Þessar upplýsingar á ég höf. sjálfum að þakka. Hér verður að taka það fram, að kórkápan var eins og hökullinn sniðin ad quadratum. Til skýringar á orðunum kórkápa og kantarakápa þykir hlýða að segja nokkuð gjör af notkun hennar. Var hún upprunalega fat smáklerka á sama hátt og sloppurinn, og voru þeir á henni, er þeir sungu á kórnum, þ. e. a. s. voru cantores, svo hefur og verið hér, þar af kantarakápa = cantoriskápa, sem kemur fyrir allopt í D. I. Á 11. öld tóku prestar og biskupar einnig að nota kápurnar og þá við öll önnur tækifæri en messugjörð, sérstaklega við tíðasöng á kórnum, og um leið smálagðist niður að smáklerkar notuðu þær; breyttist þá og heitið með breyttri notkun í kórkápa, en þó hélzt forna nafnið alla tíð og var algengast. Kórkápa er fyrst nefnd 1461[5]), og má af því ráða, að þá hafi kórkápan verið orðin presta- og biskupaflík, en hætt að vera smáklerkafat, og má af því enn fremur sjá, hve lengi sá siður hefur verið að berast hingað. Kór- eða kantarakápur voru einnig nefndar kápur og var það allalgengt[6]). Hóladómkirkja átti:

---

1) Sbr. orðabók *du Canges.* 2) Þjóðminjas. Ísl. nr. 2458. 3) Þjóðminjas. Ísl. nr. 5593. 4) Þjóðminjas. Ísl. nr. 1719. 5) *D. I.* V, 309. 6) T. d. *D. I.* III, 304.

1374. Kápur betri og léttari 52.
1396. — 48.
1500. — 48.
1525. 1) — 21.
2) — 19.
3) Kápu 1[1]).
1550. 1) Kápur heilar 8.
2) — uppgefnar 4.
3) Kantarakápu með flugel[2]).

1283 andaðist Margrét Noregsdrottning og »gaf hún möttul sinn til Hólakirkju og lét Jörundur biskup gjöra úr kápu, er síðan er kölluð drottningarnautur«[3]). Þegar Magnús konungur Eiríksson og Blanka drottning gjöra testamenti sitt 1347, ánafna þau Hóladómkirkju eina kórkápu með öðru fleira[4]).

C. *Auðkennisföt.* Þó að þau föt, er nú hefur verið getið um, séu í sjálfu sér öll auðkennisföt, þá eru þó nokkur föt, sem sérstaklega eru ætluð til að sýna tign þess er ber þau, annaðhvort beinlínis með því að þau séu borin, eða óbeinlínis með því hvernig þau eru borin. Allir, þeir sem hinar meiri vígslur höfðu þegið, báru eitthvert slíkt auðkennisfat. Auðkennisfötin eru: handlín, stóla, pallium og að nokkru leyti rationale.

1.) *Handlín* (manipulus, mappula, fano) var — og er — auðkenni subdjákna, og var borið á vinstri niðurhandlegg. Báru það og allir þeir er hærri vígslu höfðu — djaknar, prestar og biskupar, — og á sama hátt. Var þetta fat aðeins borið í messu. Fat þetta hefur borist í kirkjuskrúðann úr borgaralegum fötum. Rómverjar báru sveitadúk, sem þeir að vísu aldrei notuðu, heldur báru fyrir siðasakir, svipað og karlmenn nú eru með mislitan silkivasaklút í brjóstvasanum, og úr honum er fatið til orðið. Upprunalega var það úr líni. En þegar komið var fram á 9. öld, var það búið að missa alt eðli sveitadúks — og orðið að

1) Hefur vafalaust verið ætluð biskupi, því hún er geymd í biskupskistu. 2) Það er sú, er Jón biskup VI. lagði til og nú er í Þjóðminjas. Ísl. 3) *I. A.* 260. 4) *D. I.* II, 845.

mjóu skrautbandi úr dýru efni og með prýðilegan saum. Og i þeirri mynd hefur það verið, er það kom fyrst hingað til lands, þó nafnið handlín bendi til annars. Það var venjulegast um 45 cm. að lengd upp að miðju, en 5—8 cm. að breidd. Á miðjunni var kross og hvildi hann á handleggnum. Neðst breikkaði handlínið út í spaða, svonefnd blöð[1]), og var á báðum endum kögur. Nú á dögum er handlínið altaf samstætt við hökulinn eða dalmatíkuna, og úr sama efni og þau föt, en ekki þurfti svo að vera í fyrri daga, og ekki heldur hér á landi, því hvorki eru handlín á biskupamyndunum á Hólafordúknum né Möðruvallatabúlunni samlit höklunum. Eitt íslenzkt handlín er til; það er frá Hóladómkirkju[2]). Er það úr rauðu silki gullsaumað upp úr og niður úr; á spöðunum eru myndir af íslenzku dýrlingunum Þorláki og Jóni, og eru skúfar neðan á þeim. Er þetta með fegurstu kirkjufötum, sem Þjóðminjasafnið á[3]). Venjulegast voru stóla og handlín samstæð, og svo einnig hér á landi, enda nefna máldagarnir opt stólu og handlín í einu andartaki[4]), en úr sama efni og yfirklæðin hafa þau ekki að jafnaði verið. Þau eru nefnd bæði úr baldursskinni, pelli og guðvef[5]). Þó að handlín séu allopt nefnd í máldögum, er það þó sjaldnar en maður ætti von á, en það liggur í því, að þau eru talin með messufötum, og því ekki nefnd sérstaklega nema þau væru stök; bera Hólamáldagar þess ljósastan vottinn. Hólakirkja átti auk þeirra, sem falin voru í messuklæðum:

1374. Handlín forgylt[6]).
1395. ——

2.) *Stóla* (stola, orarium) var og er auðkenni djákna, presta og biskupa. Djáknar báru hana frá vinstri öxl niður á hægri mjöðm[7]); prestar báru hana

---

1) *D. I.* III, 523. 2) Þjóðminjas. Ísl. nr. 6028 d—e. 3) Við handlínið er til samstæð stóla. 4) T. d. *D. I.* II, 476, 680 og víðar. 5) Ibid. og *D. I.* IV, 75. 6) Þetta er óefað sama handlínið, sem Þjóðminjasafnið nú á. 7) Einkennilegt er það, að

um hálsinn og krosslögðu hana á brjóstinu[1]), en biskupar létu hana um hálsinn, svo hún lafði beint niður yfir báðar axlir. Báru þessir kennimenn fatið næst serkinum. Um uppruna stólunnar er alt óljóst, þó að það sé víst að hún hafi verið raunverulegt fat í öndverðu, en þegar kristni kom hingað til lands, var farið eins fyrir henni, eins og handlíninu; hún var orðin að mjóum afarlöngum borða með blöðum á endum, og skreytt fögrum saumi og úr dýrindis vefnaði. Alt sem að ofan hefur verið sagt um handlín á einnig við stólu. Lengd stólunnar var ákveðin á kirkjuþinginu í Lüttich (1287), og skyldi hún vera skósíð. Þegar Árni Magnússon kom á Hóla í byrjun 18. aldar, var þar »aflangur strimill, bordýraður að báðum jöðrum, og skósíður báðum megin þá maður leggur hann um hálsinn. Neðan til í báða enda breiðkar hann nokkuð og er þar á bordýrað sanctus Petrus á annann endann, enn annan sanctus Paulus. Þeir segja það sé lindi til að stytta slopp með og það mun svo vera«[2]). Það er samt ekki, heldur er auðséð á lýsingunni að þetta er sama stólan, sem nú er geymd í Þjóðminjasafni Íslands[3]); er hún að gerð og efni alveg samstæð við handlín það, sem lýst var að ofan, nema hvað á henni voru þessar postulamyndir, og hafa þau föt óefað heyrt saman. Skósíð er stólan ekki lengur og er því búið að sníða mikið úr henni. Brot af hvítri stólu með peningabúnaði er og til í Þjóðminjasafni voru[4]); eru það báðir endarnir með blöðunum, en alt miðbikið vantar; er hún í Þjóðminjasafns-leiðarvísinum[5]) kölluð »altarisstólur« af

---

Stephánsmyndin frá Múla á Skálmarnesi (Þjóðminjas. Ísl. nr. 859), sem á að sýna djákna, ber stóluna rangt, ekki um öxl á mjöðm, heldur lóðrétta eins og biskupar gjöra. Um stólu sem auðkenni messudjákna sjá *B. S.* I, 871.

1) Sjá upphafsstafinn að Kristinrétti Árna biskups í handritinu AM. 350 fol. Mynd af stafnum aptan við útg. Thorkelins af Kristinréttinum Kbh. 1777. Er prestur að skíra barn, skrýddur serk og með krosslagða stólu á brjóstinu. 2) *D. I.* III, 607. 3) Nr. 6028 a—c. 4) Nr. 423. 5) *Þjóðminjasafn* bls. 25.

því, að bútarnir hengu síðast á altari í Skálholti. Nú er hvergi í íslenzkum miðaldaheimildum getið um altarisstólur, þó að þær þekkist frá öðrum löndum, og í evangeliskum sið var það svo algengt að klippa niður, og klessa upp einhversstaðar af handahófi, því sem til var frá fyrri tímum, að ekkert er hægt að leggja upp úr því til hvers stólubútarnir hafa síðast verið notaðir. Ég er fullsannfærður um að hér sé um messustólur að ræða. Stólur báru prestar og biskupar við öll prestsverk líka, þó þeir væru ekki skrýddir messufötum, heldur aðeins slopp eða kórkápu. Hólakirkja átti auk stóla þeirra sem messufötum fylgdu:

1374. 1) Stólu forgylta[1]).
2) Stólubúninga þrenna[2]).
3) Vænt hlað af stólu með gullsvíra[3]).

1396. 1) Stólubúninga þrjá[4]).
2) Stólu.

1550. Stólur tvennar.

3.) *Pallium* var auðkenni erkibiskupa. Er því lýst vel í íslenzku fornbréfasafni[5]). Þó er frásagan um uppruna þess röng, því fatið á rót sína að rekja til gríska kirkjufatsins omophorion. Gleymst hefur og að geta þess, að saumaðar voru í þá daga tvær blýplötur í báða enda á því, hvernig sem á því hefur staðið. Lengd sú, sem gefin er upp þar, er of lítil fyrir þá tíma, var það venjulegast yfir 3 m. og borið af vinstra hné upp yfir vinstri öxl, háls og niður á kvið hægra megin og þaðan upp yfir vinstri öxl og niður í hnésbót. Pallium var bundið við persónu þess er það hafði og var það með honum grafið, og ekki misti hann þess, þó hann legði af erkibiskupsdóm. Enginn íslenzkur biskup hefur haft pallium, nema Jón V. Gerreksson, því hann hafði

1) Sú er Þjóðminjasafnið á nú. 2) Hér er átt við borða og annað þvílíkt. 3) Í *D. I.* stendur: »vaant hlad af stolu med gull. suirar«, sem enga meiningu gefur, og held ég beri að skilja það svona, hvernig sem setningin kann að hafa misfarist. Máldaginn prentaður eptir frumriti. 4) Bersýnilega sömu og 1374. 5) *D. I.* I, 586—7.

áður verið erkibiskup í Uppsölum. Biskupinn á Möðruvallatabúlunnni er með pallium. Var notkun pallii bundin við ákveðna daga, og er hægt að fylgja því eptir palliumsbréfunum í íslenzku fornbréfasafni, hvernig þeim er altaf að fjölga þangað til 1253[1]), að þeir eru hér um bil eins og nú[2]).

4.) *Rationale* var fat, sem aðeins sumir biskupar báru, og var því varla auðkennisfat þeirra; það voru langfæstir sem notuðu það. Það er fyrst getið um það 980, og ekki er kunnugt að aðrir hafi notað það en 16 þýzkir biskupar[3]) og tveir óþýzkir (Aquileja og Krakau)[4]), og notuðu þeir það aðeins með höppum og glöppum. Hvarf það smám saman svo að nú nota það aðeins fjórir biskupar. Það hlýtur því að stórfurða mann að Hóladómkirkja á

1374 Rationalia tvö, og
1396 —— —[5]),

en vitanlega hafa þau verið notuð úr því þau voru til. Þetta er mjög einkennilegt, þar sem notkun fatsins var svona takmörkuð, og þar sem jafnvel sjálfur páfinn notaði það ekki. Olmer hefur í riti sínu[6]) talið rationalia þau, er Hólamáldagarnir nefna, vera rit Durandusar með því nafni, og sem hér er margvitnað í, en það fær ekki staðist, því í máldaganum 1396 er þetta rit einmitt talið sér á parti auk þessara áhalda. Registur fornbréfasafnsins telur þau og ranglega með bókum[7]). Einhverja grein verður að reyna að gjöra sér fyrir því, hvernig þetta fágæta fat hefur borist út til Íslands[8]). Biskuparnir fyrstu, Ísleifur og Gissur, höfðu

1) *D. I.* I, 583. 2) Pontificale romanum: de pallio; sbr. Cæremoniale episcoporum Lib. I, cap. 16, 4. 3) Þar í taldir biskuparnir í Toul og Lüttich, sem þá lágu undir Þýzkaland andlega og veraldlega. 4) *Braun: Paramentik* 174. 5) Vafalaust hin sömu. 6) Bls. 42. 7) *Wallem* bls. 126 fer þó rétt með þetta. 8) Það virðist að vísu svo sem Íslandsbiskupar hafi ekki verið einasta undanteknigin frá reglunni; norskir biskupar virðast og hafa borið rationale. Í Björgynjarkálfskinni er getið um rationale í því sambandi, að enginn efi getur á leikið, að átt sé við fatið,

verið við nám í Herfurðu á Saxlandi[1]), og í einum stað er jafnvel sagt, að Ísleifur hafi verið vígður í Herfurðu[2]). Nú var hið forna biskupsdæmi Minden (liðið undir lok 1648) eitt af þeim 16, sem rationale notuðu, og borgin Herfurða lá einmitt í því biskupsdæmi — bærinn liggur eitthvað 30 km. suðvestur af Minden. Væri nú einkar sennilegt, að þeir feðgar hefðu tekið upp klæðaburð þess biskupsdæmis, er þeir höfðu sótt mentun í, og að rationale hefði þannig borist hingað með þeim. Úr því það var í landið komið, er það auðskilið, að Hólabiskup hafi tekið það upp líka; það hefur verið metnaðaratriði, og Jón Hólabiskup I. var lærisveinn Ísleifs og hafði á honum hinar mestu mætur. Annars má hver trúa því hér um, er honum þykir líklegast. Rationale hefur um síðir lagst niður á Hólum, því aldrei er þess getið í þrem síðari skránum. Hitt er og eptirtektarvert í þessu sambandi, að engin af þeim íslenzku biskupsmyndum, sem hér hefur verið margvitnað í, sýna rationale. Rationale á rót sína að rekja til pallium; hefur biskupa langað til að hafa einhverja svipaða prýði því, sem erkibiskupar einir báru, enda er rationale nauðalíkt því, optast band yfir um brjóst og herðar, er lafir niður í bak og fyrir, en á öxlum, brjósti og baki málmskildir. Var það borið utan á höklinum eins og pallium. En þar skilur pallium og rationale, að pallium var, og er enn, óskreyttur ullarlindi, en rationale var skartgripur með gimsteinum og dýrum saum[3]).

D. *Fóta-, handa- og höfuðbúnaður* kom aðeins til greina hjá biskupum og háklerkum. Að vísu báru prestar húfu (birettum), sem búið er að tala um[4]), en hún var þó ekki aðeins kirkjufat, heldur og notuð

---

en ekki bókina (*Björgynjarkálfskinn* ved Munch. Oslo 1843 bls. 84).

1) *B. S.* I, 27, 153. 2) Ibid. bls. 216. 3) Frekar um rationale sjá *Otte* I, 281. 4) Af íslenzkum birettis virðast vera til tvær myndir, á Pl. 5 og 12 aptan við *Harry Fett: En islandsk Tegnebog fra Middelalderen*, Chria 1910.

utan kirkju í daglegu lífi. En þau föt, sem hér koma til greina, voru aðeins skrúði.

1.) *Fótabúnaður* var tvenns konar. a) Sokkar (tibialia, udones, caligæ). Þeir voru alla leið fram á 12. öld hvítir og saumaðir úr líni; upp frá því fóru þeir að vera mislitir, saumaðir úr öðru efni, jafnvel silki, eða þá brugðnir. Voru sokkar þessir bundnir upp um hnéð. Slíkir sokkar eru aldrei nefndir hér, og ekki sést á íslenzkum biskupamyndum, hvort þeir hafi verið notaðir, sem þó ekki þarf að efa, úr því það var venja annarsstaðar. — b) Skór (sandalia, calceamenta, campagi) voru upprunalega ilskór, eins og eitt latneska nafnið ber með sér, en á 11.—13. öld verða úr þeim fullkomnir skór, stundum með sóla undir, þó venjulegast sólalausir, fyrst framan af úr leðri, síðarmeir úr silki og öðrum vefnaði, mislitir og útsaumaðir með dýrindis saum. Á 13. öld var algengt að borði lægi frá rist ofan á tábrodd, og út úr honum svo sem miðjum borðar skáhalt í áttina til stóru og litlu táar; var þessi mynd áþekk fork í laginu. Biskuparnir þrír á Hólafordúknum eru með lifrauða skó, sóla- og hælalausa, með borðum lögðum í forkmynd. Biskuparnir á Hólahandlíninu eru á samskonar skóm að öllu, nema hvað liturinn verður ekki greindur. Biskupinn á Möðruvallabríkinni er með lifrauða skó óskreytta. En á Ólafsmyndinni frá Vatnsfirði er Guðmundur biskup með svarta skó, sem varlegast er þó að leggja lítið upp úr, því myndin er mjög barnalega gjörð, t. d. eru 6 fingur á vinstri hendi. Sérstakir kirkjusokkar og skór tíðkuðust í öndverðu með öllum klerkum, en á 11. öld voru þeir orðnir sérfat biskupa og annarra klerka í sömu eða hærri metorðum. Af skóm átti dómkirkjan

1374. Sandalia þrenn.
1396. —— fern.
1525. —— ein.
1550. 1) —— með skinn.
2) —— með flugel (lagt til af Jóni VI. og óefað samstæður við flugelshökulinn).

2.) *Glófar* (chirothecæ, manicæ) tíðkuðust ekki fyrri en í lok 9. aldar, og voru frá öndverðu biskupsfat. Hefur ýmsum getum verið að því leitt, hvað valdið hafi því, að þeir voru teknir upp, og þykir það sennilegast, að það hafi verið gjört til þess eins, að auka prýði skrúðans. Altaf höfðu glófarnir fingur (ekki »belgvetlingar«), og voru ýmist saumaðir eða brugðnir; þó þekkjast aðeins prjónaðir glófar frá 13. öld. Á sömu öld hækkuðu þeir upp á handlegg og komu á þá víðir laskar (manicalia, pugnalia), sem gengu niður í mjóan odd undir handleggnum. Fram á 12. öld voru glófar úr líni, úr því aðallega úr silki. Fram á 13. öld voru þeir altaf hvítir, úr því mislitir. Á 12. og 13. öld var venjulegast á handarbakinu kringlótt silfurplata mótuð [1]) (tasellus, monile), eða þá svipuð mynd saumuð í glófann, og laskarnir útsaumaðir. Þórir erkibiskup gaf Páli biskupi »glófa virðulega« 1210 [2]). Á Hólafordúknum eru biskuparnir með hvíta glófa með háum og víðum löskum og rauða skildi á handarbökum. Á Möðruvallatöflunni og Ólafsmyndinni frá Vatnsfirði eru biskuparnir með hvíta glófa með háum og víðum löskum, og á einni Möðruvallamyndinni með rós á handarbaki. Hóladómkirkja átti

1374. Glófa þrenna.
1396. — —
1525. — sex pör.
1550. — fimm pör slitin.

Skó og glófa bera biskupar nú á dögum aðeins með messufötum, á miðöldum þó einnig með kórkápu.

3.) *Mitur* [3]) (mitra, infula) er höfuðfat — kóróna — biskups, og hefur menn allengi greint á um, hvenær það sé til komið. Jesúmunkurinn Joseph Brauns, sem er merkasti skrúðafræðingur vorra tíma, segir í einu riti

1) Sbr. *Heilagramannasögur* I, bls. 54. 2) *B. S.* I, 143. 3) Orðin hornahöttur og hornaskálkur í Bragðamágussögu eru biskupsheiti, en ekki míturs, eins og Falk heldur í *Altwestnordische Kleiderkunde*, Chria 1918 bls. 93.

sínu: »Mítrið er fyrst til komið um miðja 10. öld, og upp runnið úr Rómi, og breiðist þaðan kringum árið 1000 út um önnur vesturlönd, en áður var enginn biskupshöfuðbúnaður til á vesturlöndum, hvorki heilagt höfuðband né djásn«[1]), eins og sumir hafa haldið fram. Ber hann aðallega það fyrir sig, að Amalarius af Metz nefni hvergi mítur, og að Pseudoalcuinus (lok 9. aldar) beinlínis þvertaki fyrir að slíkt höfuðfat hafi verið til um hans daga, og eins að mítur sé ekki nefnt í skjölum fyrri en í búllu Leós páfa IX. til Eberhards af Trier 1049. Sá er þetta ritar hefur ekki fyrir sér rit Pseudoalcuini, svo hann getur ekki sannprófað hvort Braun hafi rétt eptir þeim höfundi eða misskilji hann, — sem þó varla þarf að gjöra ráð fyrir. En rétt er það, að Amalarius minnist ekki á mítur í riti sínu »De ecclesiasticis officiis« II. bók kap. 15—25, og ekki heldur í kap. 26[2]), þar sem þó fastlega mætti við því búast, og kemur það vel heim við skoðun mína, því Amalarius deyr 836, og fyrsta skjal, sem ég veit nefna mítur, er frá 846. Amalarius sannar því eins og skjölin það eitt, að mítur hafi þá ekki verið orðinn partur af biskupsbúningi (ornatus integer), heldur sérstakt heiðursmerki veitt af páfa. Það er hinsvegar sannanlegt, að mítur var farið að nota utan Rómar fyrir miðja 9. öld — það er að segja rúmum 150 árum fyr en Braun heldur, — því mítur er nefnt í páfabúllum frá 846 og síðan, og getur vel verið fyr, þó hér séu ekki gögn fyrir hendi til að rannsaka það. 846 veitir Sergius páfi II. Ansgaríusi erkibiskupi í Hamborg pallium: »Vér skipum svo fyrir að þú og allir eptirkomendur þínir á Hamborgarstóli skuli bera pallium« — og svo eru tilteknir dagarnir er það skuli gjört — »og skreyta höfuð þitt mitru og láta bera kross fyrir þér«[3]). Í þessu bréfi er mítrið ekkert nýtt hugtak;

---

1) *Braun: Paramentik* 165. 2) *Migne* CV 1095—1102. 3) »Decernimus quoque tibi . . . . ornari . . . . caput tuum mitra, portare ante te crucem«, *D. I.* I, 26, prentað eptir Lappenberg († 1865) Hamburgisches Urkundenbuch I, nr. XI.

það er bersýnilegt á því, að það hefur þá verið alþekt, og jafnvel gamalt, en hitt er jafn auðséð, að ekki hafa allir biskupar borið það eins og nú, heldur aðeins þeir, sem höfðu þar til sérstakt páfaleyfi. Nákvæmlega sama klausa stendur orði til orðs í búllu Hadríanusar páfa II. til Rimberts erkibiskups í Hamborg frá 872[1]). 920 veitir Jóhannes páfi X. Unna erkibiskupi pallium og segir: »Einnig leyfum vér þér að auðkenna höfuð þitt með mítri, sem er auðkenni Rómverja«[2]), og er á þessu auðséð, að á þessu ári hefur mítur tíðkast, en þó ekki án leyfis utan Rómar. Nú hefi ég fyrir mér þrjú pallium-bréf, Aðaldags frá 948[3]), Unvans frá 1022[4]) og Aðalberts frá 1044[5]) og er mítur þar ekki nefnt á nafn. Af því má þó hvorki álykta, að mítrið hafi þá ekki verið þekt, né að það hafi verið orðið alment biskupshöfuðfat, því 1053 veitir Leo páfi X. Aðalbert leyfi til »að láta bera fyrir yður krossmark« og »auðkenna höfuð þitt með mítri, sem er auðkenni Rómverja«[6]), og þetta síðara leyfi staðfestir Victor II. 1055 með nákvæmlega sömu orðum[7]), sem sýnir, að hvorugt væri rétt, heldur að Aðalbert fengi leyfið fyrst þá. Það er því einnig miður áreiðanlegt hjá Braun, að mítrið hafi frá því árið 1000 verið orðið alment á vesturlöndum, heldur mun hitt réttara, sem hann segir, að mítrið hafi fyrst verið orðinn sjálfsagður höfuðbúnaður biskupa um miðja 12. öld.

---

Frumritið er nú týnt, en var til skamms tíma í borgarskjalasafninu í Stade. Hafa Hamborgarbréfin að ástæðulausu verið rengd af sumum. Bréfin eru í heild sinni ófölsuð; hinsvegar hefur verið fiktað eitthvað óhönduglega við þá staði í þeim, sem geta víðernis Hamborgarbiskupsdæmis, svo að það yrði sem mest, og hefur það valdið ómaklegri grunsemd á þeim.

1) *D. I.* I, 38, tekið eptir Lappenberg. Frumbréfið er til í Stade. 2) »Caput quoque tuum mitra, quod est insigne Romanorum permittimus insigniri« *D. I.* I, 47 eptir Lappenberg. Frumritið í Stade. 3) *D. I.* I, 48. Frumritið er ekki til, og hefur bréfið verið rengt fyrir þá sök, að páfinn þérar Aðaldag, en þetta kom opt fyrir, þótt afbrigði væri, t. d. í palliumbréfi Aðalberts, og er til af því frumrit. 4) *D. I.* I, 51. 5) *D. I.* I, 55. 6) *D. I.* I, 59—60. Frumritið þúar og þérar jöfnum höndum. 7) *D. I.* I, 61.

Það er því vafalaust, að Ísleifur fyrsti Íslandsbiskup hefur aldrei borið mitur, en hann fékk biskupsvígslu af Aðalbert þeim, er að ofan getur, 1056 eða ári síðar, en Victor páfi staðfestir rétt hans til að bera mitur. Það er jafnvel alls óvíst, hvort þeir Gizur eða Jón I. Hólabiskup hafi mítur borið; að Jón er með mítur á Hólahandlíninu þarf ekki að koma til af öðru en því, að þegar handlínið var gjört, voru íslenzkir biskupar altaf með mitur, en það er saumað fyrir eða um 1300. Gefið er og, að flökkubiskupar þeir, er hér komu fyrir og eptir árið 1000, hafa míturlausir verið. Nú segir að Aðalbert hafi fengið Ísleifi »alla þá reiðu, er hann þurfti að hafa með biskupstign«[1]), og sama segir að Hartvíg Magdeborgarbiskup hafi fengið Gissuri[2]), en fleira var biskupsreiða en mitur. Þrjár miturgerðir hafa verið til, og vafalaust allar þekst hér. Sú hin elzta gerð var kollhúfa, ýmist uppmjó eða kollótt, með hlaði um og böndum lafandi niður að aptan. Hélzt þetta lag langt fram á 12. öld. Á 12. öldinni rísa upp úr húfunni á báðum hliðum tveir hólar, sem mjög fljótt urðu að hvössum oddum, og lá band yfir miðja húfuna upp úr hlaði, svo húfan héldist niðri í miðjunni. Á miðri 12. öld er húfunni snúið, svo að hornin rísa upp af enni og hnakka, og er þar með komið mitrið í þeirri mynd sem það enn tíðkast. Var mitrið sniðið »ad quadratum«, áður en renaissancinn kom til, og voru hliðarjaðrarnir ýmist lóðréttir eða slúttu fram yfir sig. Að sama skapi sem hökullinn var minkaður, hækkaði mitrið, uns það á baroktímanum var orðið að fáranlegu bákni. Á miðöldunum voru mitrin 19—35 cm. á hæð og úr dýrum vefnaði útsaumuðum, margvísleg að lit. Biskuparnir á Hólafordúknum eru tveir með blá mitur, en einn með rautt. Á Möðruvallabríkinni eru allir biskupar með hvít mitur; eins er Guðmundur á Ólafsmyndinni frá Vatnsfirði. Og hið eina íslenzka mitur, sem til er[3]) og er frá Skálholtsdómkirkju, er

1) *B. S.* 62. 2) *Ibid* 67. 3) Þjóðminjasafn Dana nr. 99.

blátt; set ég hér lýsingu á því eptir þjóðminjavörðinn herra Matthías Þórðarson, sem hann góðfúslega hefur lofað mér að nota: »Biskupsmítur úr bláu flugeli, lagt gullofnum borðum umhverfis að neðan við jaðra á bustum beggja vegna, og langsum á miðjum báðum bustum, en beggjavegna við hinn síðastnefnda borða eru saumuð á hvern bustarhelming tvö fimmblaðablóm gullsaumuð. Eru hin efri minni en þau neðri. Eitt af þeim er af, en kniplað eða heklað blóm saumað á í þess stað. Að innan er hvítt lérept á báðum bustunum, og hart, svart skinn (pergament) á milli laga, en fóður og koll vantar í mítrið. Það er 63 cm. að ummáli að utan. Burstirnar eru 30 cm. í miðju, en á hliðum við samskeytin 11 og 13,5 cm.[1]). Mítrið er frá Skálholtsdómkirkju; er á því útlent verk, talið frá 1550. Gefið safninu 3. Júní 1813 ásamt mörgum öðrum forngripum af Skúla justitsráð Thorlacius«. Mál af öðru íslenzku mítri er til. Handritið AM. 666, b. 4to hefur Árni Magnússon fengið í Skálholti, segir hann þar um: »Þetta var innan í biskupshúfu í Skálholti 1703«. Hefur það verið innan í burstunum til að gjöra þær stinnar, og er það sniðið upp í odd og vitanlega nákvæmlega eptir lagi mítursins. Hefur það verið 57,2 cm. (28,6 $\times$ 2) að ummáli og bustarhæðin 20 cm.[2]), en um hæð hliðarsaumanna er mér ókunnugt. Nokkrum cm. verður að bæta við fyrir vefnaðinum, en hefur það þó verið mun minna en hitt Skálholtsmítrið. Sanna málin að þetta er ekki innan úr því mítri. Þau mítur, sem sýnd eru á myndum þeim, sem nefndar hafa verið, eru með samskonar hlað með jaðri og Skálholtsmítrið, og með annað lóðrétt niður úr bustaroddum. Biskupamyndirnar í Stockh. nr. 5 fol. og 16, 4to eru og með samskonar mítur. Aptur úr mítrum löfðu venjulegast tveir borðar alllangir (fanones); sjást þeir á myndunum, sem getið er, en vantar á Skálholtsmítrið, hvort sem þeir hafa

---

1) Þ. e. að segja á því allveruleg skekkja. 2) *Skrá um Árnasafn* II, 77.

áður verið eða ekki. Mítur voru allopt gimsteinum sett og perlum; svo er t. d. um mítur Guðmundar á Ólafsmyndinni frá Vatnsfirði, og slíkt mítur átti Hóladómkirkja. Til voru og mítur úr málmi t. d. silfurmítrið, sem nú er geymt í Pembroke College í Cambridge[1]), og er full ástæða til að ætla, að Hólabiskupar hafi átt slík málmmítur. Mítur brúkuðu biskupar við öll biskupsverk, nema þegar þeir báðust fyrir, eða guðs líkami var nærstaddur. Dómkirkjan átti

1374. 1) Mítrur tvær.
2) Mítur með perlum[2]).
1394. Mítur fjögur.
1525. 1) Mítur þrjú.
2) Kórónur tvær með silfur[3]).
3) Míturhús tvö[4]).
1550. 1) Mítur tvö.
2) Silfurkórónur tvær[5]).
3) Míturkoddi[6]).

E. *Ýmsir hlutir* voru það, sem til skrúða má telja, þó að þeir ekki beinlínis væru föt. Not þeirra voru þó slík, að þeir máttu teljast til fata í víðtækri merkingu, þar eð þeir altaf voru notaðir með skrúðanum, og voru sumir þeirra til lítils annars en skarts eins.

1) *Cox: English church furniture* bls. 56—57. 2) Er ekki ólíklegt, að hér sé komið mítur það, er Eiríkur erkibiskup sendi Laurentiusi biskupi 1330, og sem talið var bezt mítur á Hólum *(B. S.* I, 872, 912), og sem Laurentius söng fyrst með á Jónsmessu 1330, en það var vígsludagur hans *(Í. A.* 269). 3) Þykir mér sennilegast, að hér sé um silfurmítur að ræða; styrkist það mjög vel við það, að getið er um míturhús jafnmörg á Hólum, en venjuleg mítur voru ekki húsþurfi (lögðust flöt saman). Svo voru mítur og stundum hér á landi nefnd kórónur. Þórir erkibiskup sendi Páli biskupi 1210 »kórónu gullsaumaða« *(B. S.* I, 143). 4) Þau voru algeng, svo er t. d. míturhús Vilhjálms biskups af Wykeham enn til í New College í Oxford. *Cox: English church furniture* bls. 57—58. 5) Hinar sömu og fyr. 6) Þegar biskup ekki notaði mítrið í kirkju eða prócessíum, var það borið fyrir honum. Að mítrið hefur verið borið á kodda, sýnir ótvíræðlega að um málmmítur var að ræða. Mítur úr vefnaði eru ekki til slíks löguð.

1.) *Fingurgull* báru biskupar svo að segja frá öndverðu, bæði til skarts og svo sem í virðingarskyni. Talið er að Pétur postuli hafi fyrstur borið hring, hvað sem hæft er í því, en fyrir bragðið er páfahringurinn enn nefndur fiskarans hringur (annulus piscatorius), og er hann opt í bréfum, er Ísland snerta, nefndur svo[1]). Hvenær alment hefur orðið að allir biskupar bæru hringinn er erfitt að segja, en vafalaust hefur það verið fyrir árið 1000; decretalia gjöra ráð fyrir því[2]), og í leiði Absalons erkibiskups, sem dó 1201, fanst, þegar það var opnað 1827, hringur. Páll biskup þá af Þóri erkibiskupi »fingurgull dyrlegt« og af Nikulási Oslóarbiskupi annað, »er vó 2 aura og steinn í virðulegur«[3]). Jón biskup Ögmundsson var grafinn með fingurgulli, og sést á sögunni að hann hafi þegið það í vígslunni, eins og biskupar gjöra enn, því svo segir sagan: »»Leitið nú eptir vandlega, hvort hann hafi þá hluti alla í skrúðinu, sem hæfa og tilheyra hans vígslu«. Þá var um leitað og rannsakaðist svo til, að þeir höfðu eigi dregið á hönd hinum heilaga Jóni biskupi fingurgull hans«[4]). Fyrir því var og fingurgullið nefnt vígslugull[5]). Óhætt virðist því að gjöra ráð fyrir því, að fingurgull hafi tilheyrt biskupsskrúða áður en kristni hófst hér í landi. Nefnt er hér vígslugull með helgum dómum Jóns biskups í, og var slíkt algengt; átti það Laurentius biskup og gaf á banabeði sira Agli Eyjólfssyni, er varð biskup eptir hann[6]). Var þetta talið dæmi forspektar og vísbending um hvern kjósa skyldi. Kom þetta optar fyrir. Þorlákur biskup gaf Páli biskupi fingurgull sitt »og var það forspá hans tignar, því að hann varð biskup eptir hann«[7]). Gullið báru biskupar ýmist á græðifingri, t. d. á Möðruvallatabúlunni, eða vísifingri, t. d. á Ólafsmyndinni frá Vatns-

---

1) T. d. *D. I.* VIII, 480. Var hringurinn notaður til að innsigla með páfabréf þau, er breve eru nefnd (þar af orðið bréf). 2) *Decretalia* caput 15, liber 3, titulus 1. Þau urðu að lögum 1234. 3) *B. S.* I, 143. 4) *B. S.* I, 177 sbr. 251. 5) *I. A.* 269, 397. 6) *B. S.* I, 877 sbr. annála. 7) *Ibid.* bls. 110, 296.

firði og Hólafordúknum, og ýmist á efsta lið fingurs (á Möðruvallatabúlunni) eða miðlið (hinar myndirnar), og altaf utan á glófunum, er þeir voru með þá. Í máldögunum er Hóladómkirkja talin eiga

1374. Gull fimm.
1396. — —[1].
1525. — eitt.

Það segir sig nú sjálft, að dómkirkjan hefur átt fleiri gull en þetta. Þegar Laurentius biskup deyr, átti Hólakirkja 10 gull, sem hann hafði lagt til[2]), og gaf hann þó tvö. Hitt er afarlíklegt, að þau hafi ekki að jafnaði komið til framtals í máldögum, af því þau hafa verið í vörzlum biskups sjálfs, og svo var einmitt með gull þau, er Laurentius biskup lagði til.

2.) *Brjóstkross* (pectorale) verður fyrst eptir siðaskiptin óaðskiljanlegur hluti biskupsskrúðans; áður var það hverjum í sjálfsvald sett að bera hann eða ekki, en ekki er kunnugt hvenær sá siður fyrst hófst, og enn þann dag í dag er brjóstkrossinn ekki með þeim skrúða, sem biskupi er fenginn í vígslunni[3]). Var hann úr dýrum málmi og borin í keðju um hálsinn næst serk. Venjulega voru helgir dómar í krossinum. Ekki er ólíklegt að þrír krossar, sem nú eru í Þjóðminjasafni Íslands[4]), hafi getað verið biskupskrossar, þó ekki sé það óyggjandi. Hóladómkirkja átti:

1374. Silfurkross lítinn.
1396. Kross lítinn.

Er það vafalaust sami krossinn í bæði skiptin. Það er óhætt að telja ábyggilegt, að hér séu biskupskrossar á ferðinni. Bæði eru þeir á báðum stöðum nefndir í því sambandi, að beint verður að álykta að það séu pectoralia: »gull fimm og silkipungur, silfurkross lítill og rationalia tvö«, því þetta eru alt samskonar gripir, og

---

1) Óefað hin sömu og fyr. Í máldögunum báðum stendur »gull fimm og silkipungur« og hefur sá pungur vafalaust verið ætlaður undir gullin. 2) *B. S.* I, 874. 3) *Pontificale* »de consecratione electi in episcopum«. 4) Nr. 902, 903 og 1962.

svo er hitt, að 1763, þegar verið var að byggja dómkirkju þá er nú er, var farið í grafir hinna fornu biskupa, og fanst í þeim meðal annars brjóstkross með keðju; tók Gísli biskup Magnússon hann til sín, og sendi hann síðan til Kaupmannahafnar[1]).

3.) *Bagal* (baculus, pedum) bar hver biskup nema páfinn einn, og var það siður frá ómunatíð, og skiptir hér engu máli um uppruna hans. Þegar kristni kemur hingað til lands, var bagallinn að mestu orðinn sem nú. Var hann löng stöng, og efst á henni hnúður, og fyrir ofan hann ýmist bognaði stöngin eða sveiflaðist út í krók. Var bagallinn venjulegast rífleg mannhæð, og ekki digurri en að vel mátti greipa hann. Bagallinn var altaf úr góðum efnum, kopar, tönn (eða fílabeini) eða silfri og jafnvel gulli, með prýðilegu verki á króknum, stundum með helgum dómum og gimsteinum settur, og afaropt var á hann grafið spakmæli; alþekt er vísan: »Attrahe per curvum, rege medio, punge per imum« (Seiddu með bugðunni, stjórna með miðjunni, stingdu með oddi). Optast var broddur í neðri enda, en borinn var bagallinn í vinstri hendi, og altaf þegar biskup var í skrúða. Við hnúðinn á baglinum var stundum festur svonefndur bagaldúkur (fanon), og þá hafa íslenzkir biskupar brúkað. Í bréfi til Jóns biskups VI. 1541 kvartar Ögmundur biskup undan því, að »bagaldúkar og það annað clenodium, sem vér höfum kirkjunni (þ. e. Skálholtsdómkirkju) lagt, er borið hingað og þangað«[2]). Á Hólafordúknum eru allir biskuparnir með háa bagla, bagaldúkslausa, rauða með bláum krók, og bláa með rauðum krók, en þá liti er ekki að marka, koma þeir til af því, að blátt og rautt skiptist á í myndinni. Biskuparnir á Hólahandlíninu eru með oddmjóa bagla niður, dúklausa, en Guðmundur á Ólafsmyndinni frá Vatnsfirði er með bagal með gimsteinum settan krók, og hvítan

---

1) *Æ. J. P.* I, 203. Auk þess fundust 6 gullhringar. 2) *D. I.* X, 601.

bagaldúk við. Á Möðruvallabríkinni ber biskup á aðalmyndinni bagalstöng með krossi í stað króks (pedum rectum), en sá bagall hefur alla tíð verið sérréttur páfa, og mun þetta haft svona svo sem til að auka veg dýrlingsins, sem sýndur er; á myndinni í efra vinstra horni ber djákni venjulegan bagal fyrir biskupi. Til er í þjóðminjasafni Dana tannbagall[1]), sem, að því er norskur fræðimaður Nicolaysen[2]) telur, kom til Danmerkur frá Þrándheimi 1577, og heldur hann, að það muni vera sami bagallinn og Margrét haga gjörði úr tönn, og Páll biskup gaf Þóri erkibiskupi[3]). Þetta getur þó ekki verið rétt, því bagallinn er ekki frá Þrándheimi, heldur frá Sór á Sjálandi og er ábótabagall. Hóladómkirkja átti

1374. 1) Tannbagla þrjá búna.
2) Bagal með kopar smeltan[4]).

1396. 1) Tannbagla þrjá.
2) Koparbagal[5]).
3) Bagal með silfur, er herra Pétur[6]) lét gjöra.

1525. 1) Bagla tvo.
2) Bagal með kopar[7]).

1550. 1) Tannbagal.
2) Koparbagal.
3) Bagalstöng með tönn silfurbúna.

4.) *Knjádúkur* (gremiale) var dúkur, sem breiddur var á skaut biskups, er hann sat í sæti sínu, svo að ekki saurguðust messufötin af handsvita, — er prestar sátu í skrúða, lögðu þeir nefnilega flata lófana á lærin, — og svo ekki kæmi í þau olía við prestvígslur og slíkar athafnir. Hann var í fyrstu úr líni og nytjadúkur, en síðar úr silki og dýrum vefnaði, og státsflík. Hans er fyrst getið um 1300, og notuðu hann jöfnum höndum

1) Nr. 9074. Mynd af honum í *Worsaae: Nordiske Oldsager i det kgl. Museum i København,* Kbh. 1859 bls. 150. 2) I [Norsk] *Historisk Tidskrift* 3. Række 1, bls. 152—153. 3) *B. S.* I, 143. 4) = emaleraður — af ítalska orðinu smalto. Var smelting helzt unnin í Limoges á Frakklandi, og á Írlandi. 5) Sömu og 1374. 6) þ. e. Pétur Hólabiskup Nikulásson. 7) Sami og fyr.

biskupar og prestar. Svo var og hér á landi, því nefndir eru knjádúkar annarstaðar en á biskupsstólum og klaustrum, reyndar aðeins tvisvar[1]), en úr því hans er svo sjaldan getið í máldögum kirkjunnar, mun hann hafa verið fátiður hér. Hann er notaður enn í dag[2]). Hóladómkirkja átti

1374. 1) Knjádúk.
2) —— glitaðan hálf átta alin[3]).
1396. ——.

5.) *Eldböllur* (calefactorium, pomma calefactoria) var kúla, hol að innan; var hún fylt með kolaglóð — sumstaðar með heitu vatni, — svo prestur gæti yljað sér meðan á messunni stóð; annars gat hann í óupphituðum kirkjunum að vetrarlagi orðið svo loppinn, að hann steypti niður kaleiknum, sem þótti mikið óhapp. Sérstaklega voru það hefðarklerkar, sem notuðu hann, og þjóðhöfðingjar notuðu hann einnig. — Með klerkum er þetta áhald nú úr sögunni, en hjá þjóðhöfðingjum tíðkast hann enn, og er nú orðinn að skartgrip, sem hafður er til að tákna vald konungs, svonefnt ríkisepli. Hóladómkirkja átti

1374. Koparböll gyltan.
1396. Eldböll.
1525. Calefactorium.
1550. —— [4]).

Nafnið í máldaganum 1396 ber það með sér, að áhaldið var hér hitað með kolaglóð. Wallem[5]) segir: »da dette redskab opregnes mellem bispeskrud som bispestav og

1) *D. I.* II, 679, IV. 104. 2) *Wallem* bls. 126 segir að svo litlar upplýsingar séu um knjádúkinn, að ekki sé hægt að vita til hvers hann hafi verið notaður. Auk þess sem hann er notaður enn, lýsir Grandisson biskup honum og notkun hans nákvæmlega í kirkjuskipan sinni 1339. Sama gjörir Durandus í *Rationale*, og er þetta gott sýnishorn af Wallem. 3) Hvernig á þessari óralengd stendur, er ekki gott að gjöra sér grein fyrir. Ef til vill hafa djáknar biskups átt að njóta góðs af því líka, er þeir sátu með honum, og er þó ótrúlega langt. 4) Öll árin sjáanlega sami hluturinn. 5) Bls. 84.

mitra, tör det anses som et eget, antageligt kostbart kar, maaske nærmest = varmebækken«. Þetta er alveg áreiðanlega rétt, og er hægt að vita það með fullri vissu. Hikið á þessum höf. hérna sýnir, að hann er að gizka alveg út í loptið, eins og svo opt endranær, þó svo hittist á að rétt sé. Hann er einnig »meget tilbøjelig til at antage« að calefactorium og eldböllur sé sama. Hér þarf ekki að »antage« neitt; það er áreiðanlegt.

Áður en skilist er við skrúðann, skal það tekið fram, að ábótar báru nákvæmlega sama skrúða og biskupar, væru þeir prestvígðir, sem svo að segja altaf var, en príórar klæddust engum sérstökum skrúða.

II. **Olturu og altarisskrúði.** Því hefur áður verið lýst, hve mörg ölturu Hóladómkirkja átti, hverjum þau voru gefin, og hvar í dómkirkjunni þau voru. Þó að ölturun sjálf að vísu altaf muni hafa verið naglföst, þá var þó allur hinn ytri búningur þeirra laus, og verður hann því að teljast með gripum kirkjunnar. Um upprunann skiptir hér engu máli, nema um eitt atriði, það að ölturun voru í fyrstu grafir píslarvottanna í katakombunum í Róm, eða borð, sem yfir þeim stóðu. Þess má geta, að hin venjulega skýring á uppruna altaris kristinna manna, að það sé afspringur altaris Gyðinga eða heiðingja, er röng. Altarið á uppruna sinn í venjulegu matborði (sbr. kvöldmáltíðina), eins og þau gerðust í þá daga, og voru á fyrstu öldum kristninnar venjuleg matborð höfð fyrir ölturu. Uppruni altarisdúkanna skiptir og hér engu máli, en þó má einnig geta þess, að hin venjulega skýring, að þau hafi verið notuð í virðingarskyni við sakramentið, er röng[1]. Dúkurinn er blátt áfram afsprengur venjulegs borðdúks, enda voru þeir notaðir fyrstu aldirnar. Á kvöldmáltíðinni var á fyrstu öldunum meiri máltíðarblær en síðar varð, og nú er.

A. *Ölturu* munu hér allajafna hafa verið úr tré, þó að hvergi sé þess beint getið. Hins vegar er sagan

1) *Braun: Paramentik* 211.

af grjótaltari því, sem Auðun biskup lét gjöra[1]), og sem minst hefur verið á, svoleiðis, að það er auðséð á henni, að það hefur þótt fádæmalegt, að hafa það úr því efni, en fyrir utan stein getur ekki verið öðru efni til að dreifa en tré. Þar sem segir í skipan Eilífs og Jóns: »En ef á altari kemur eður öðrum stað, eður stein, þá skal prestur þann dropa sem gjörst má með tungu sinni af sleikja, og skafa síðan eptir eður úr telgja, og brenna spónuna«[2]), er auðsjáanlega aðallega átt við ölturu úr tré. Ekki hafa ölturu að jafnaði sjálf verið með neinni prýði, voru aðeins ferstrendir stallar skrautlausir. Biskupasögurnar og annálarnir eru óþreytandi í því að geta þess, hverja prýðingu kirkjuhöfðingjarnir veittu dómkirkjum sínum, og er auðséð á öllu, að þeir segja heldur vel en vart, en ekki er þess getið með einu orði, að neitt hafi verið annað vel um altari Auðunar en það eitt, að það var úr grjóti. Þegar Lögmannsannáll getur um það, að Árni III. Skálholtsbiskup hafi 1417 látið »smíða 4 altare í Skálholtskirkju umfram þau er áður voru«[3]), minnist hann ekki einu orði á prýði þeirra, sem við hefði mátt búast, hefði hún verið nokkur, og þegar síra Steinmóður leggur Grenjaðarstaðarkirkju til »altari tvö með búnaði«[4]), á máldaginn engin góð orð um prýðing þeirra. Þegar Sigurður kórsbróðir Jónsson er að afhenda Hólastað eptir föður sinn biskup Jón VI. látinn 1550, er ekki hægt að liggja honum á hálsi fyrir það, að hann lýsi ekki smásmuglega ágæti þeirra hluta, er biskup Jón hafði lagt til, en um altarið, sem hann gaf, hefur hann ekkert að segja nema: »Ein forgylt brík á miðju kirkjugólfi með altari og öllum sínum búningi«. Skrautleysi altaranna sjálfra er í raun og veru af þessu fullsannað, en hitt herðir þó á því, hvað máldagar opt nefna marga hluti, sem ætlaðir voru til að hylja eðlisnekt þeirra á einmitt þeim stöðum, þar sem eðlilegast

1) *B. S.* I, 830. 2) *D. I.* II, 561—2. 3) *I. A.* 292. 4) *D. I.* III, 582.

hefði verið að skreyta ölturun sjálf, og sem óþarfir hefðu verið, ef þau hefðu sjálf verið með einhverri prýði, t. d. framhliðin (frons) o. s. frv. En eitt er bersýnilegt af lýsingunni á Auðunaraltari, sem sé að ölturun hafa þá, eins og enn í dag er siður hér á landi, verið skápur undir það, sem kirkjan átti, og er sá siður vafalaust jafngamall kristni hér á landi[1]). Um Auðunaraltarið segir, að það hafi verið »holt innan og fyrir járnhurð, svo að þar má í geyma dýrgripi staðarins, svo að ekki sakaði fyrir eldi og öðrum hlutum«[2]), og því virðist með öllu útilokað að ölturun hafi verið borð í venjulegum skilningi, eins og stundum bar við annarstaðar. Árni Magnússon nefnir hvolfið í sambandi við komu sína á Hóla, og hafði þá myndast sú þjóðsaga, að það hefði verið haft fyrir fangelsi, og var það þá kallað »kárína« að því er Árni segir[3]). Nú kveða kirkjulögin þegar hjá Gregoríusi[4]) svo á, að ekki megi syngja messu nema við altari, er sé úr steini og með heilli steinplötu áfastri að ofan[5]) (altare fixum), eða að minsta kosti væri laus steinn (gestatorium, viaticum) á altarinu[6]), og átti í altarinu eða steininum að vera helgir dómar[7]); átti hvorttveggja að vera vígt vígslu þeirri, sem consecratio er nefnd, en vígsla sú, er benedictio nefndist, nægði ekki[8]). Sömu skipanir allar finnast í skriptaboði Þorláks biskups 1178. Þar segir að prestur skuli hafa vígðan altarisstein fastan eða lausan[9]). Úr því að tréölturun voru hið algengasta hér á landi,

1) 1525 voru geymdar í háaltari á Þingeyrum »margar latínubækur góðar og illar«. *D. I.* IX, 313. 2) L. c. Slíkir »eldfastir« skápar eru víða í fornum ölturum erlendis, en ekki kann sá er þetta ritar neina tilvitnun í rit því til sönnunar, en séð hefur hann það víða t. d. í Struxdorf, Thumbye, Uelsbye o. v. í hinu forna biskupsdæmi Slésvík. 3) *D. I.* III, 607. 4) Sjá um hann undir »bækur Hólakirkju« 5) *Liber decretalium* Caput 1, 3, liber III, titulus 40. Vitanlega er venjan miklu eldri. 6) *Ibid.* Caput 12, liber IV og V titulus 7. 7) *Decretum Gratiani* Pars III de consecratione canon 26, distinctio 1. (Um þetta rit sjá »Bækur Hólakirkju«.) 8) *Ibid.* canon 30, 32 distinctio 1. Um vígsluaðferðir þessar sjá »Bækur Hólakirkju«. 9) *D. I.* I, 243.

var vitanlega altaf notaður altarissteinn. Þó er vitaskuld ekki fortakandi, að fleiri kunni að hafa verið steinölturu en háaltarið á Hólum; t. d. á Hreppbólakirkja 1474 þrjá altarissteina lausa og hinn fjórða fastan í altarinu[1]), og gæti það eptir orðalaginu vel hafa verið altare fixum; hins vegar er altarissteinn svo opt nefndur, að það sannar það, sem hér er haldið fram. Lausir steinar eru nefndir opt endranær[2]). Opt eru altarissteinar nefndir búnir[3]) og jafnvel silfurbúnir[4]), og nefndir eru steinar kassaðir[5]), en það er alt hið sama. Svo var mál vaxið, að ekki mátti syngja við stein brotinn, og þar eð enginn gat vígt stein annar en biskup, gat vegna vegalengdar verið erfitt að bæta í skarðið, ef brotnaði, og höfðu menn þá til að varna því umgjörðir um steinana, og er við þær átt með þessu, en efnin réðu hversu veglegar þær urðu. Að því er til vígslunnar kemur, virðist hafa oltið á ýmsu, því nefndir eru bæði altarissteinar óvígðir og vígðir[6]), og þykir ekki ósennilegt, að þeir hafi verið notaðir, þótt óvígðir væru, en vænta má, að það hafi þó verið undantekning. Með helgum dómum áttu ölturun og altarasteinarnir að vera af því, að messurnar voru í öndverðu sungnar yfir gröfum píslarvottanna[7]), en hér á landi hefur þó líklega sjaldnast verið helgur dómur í altarissteinum, og má ráða það af því, að stöku sinnum eru nefndir steinar með helgum dómum (reliquiis)[8]); hefði það verið venjan, hefði það helzt aldrei verið nefnt. Svo segir og í lýsingu þeirri á páskasiðunum, er hér er opt vitnað í í þessu riti: »Síðan antiphona eða responsorium af þeim helgum dómum er þar eru í *altari ef það er vígt*«[9]). Þetta virðist taka af skarið, því þarna er gjört ráð fyrir að skeð geti að altari sé notað, þó óvígt sé og helgra-

---

1) *D. I.* V, 774. 2) T. d. *D. I.* II, 668 o. v. 3) T. d. *D. I.* II, 452. 4) T. d. *ibid.* 5) *D. I.* III, 572 6) T. d. *D. I.* IV, 121. 7) Svo er enn, sjá bænina i upphafi messu: »Oramus te domine per merita sanctorum tuorum, quorum reliquiæ hic sunt o. s. frv«. *Missale*, ordo missæ. 8) T. d. *D. I.* IV, 68. 9) AM. 266 4to.

dómalaust. Þó að þetta sé fáheyrt annarstaðar, er það þó einkar trúlegt hér á landi, því hér var lítið og illa farið að kirkjulögum, enda þekkingin á þeim sjálfsagt takmörkuð og lítill kostur helgra dóma. Hóladómkirkja átti

1374. Tvo altarissteina búna.
1396. — —— — [1])
1550. Altarissteina 6 lausa.

Sýnir síðasta talan að rétt sé, að ekki hafi verið nema 7 ölturu í dómkirkjunni, eins og áður hefur verið tekið fram. Háaltarið var úr steini og þurfti því engan á það; með hverju hinna 6 var einn altarissteinn fastur og einn laus til vara. 1525 voru ekki nema 6 ölturu — biskup Jón VI lagði til formessualtarið, hið sjöunda.

Ýmsar tegundir altara eru nefndar:

Háaltari, var altari það sem á kórnum stóð; var það stærsta altari kirknanna og voru þar sungnar hæstu messur. Hvergi er það nefnt nema þar sem fleiri ölturu voru.

Formessualtari stóð við lestrarkórinn, og er skýrt frá notkun þess í kaflanum um bækur Hólakirkju.[2])

Útaltari[3]), framaltari[4]), smáaltari[5]), litla altari[6]) og minna altari[7]) voru nöfn á ölturum, sem stóðu hér og hvar um kirkjuna. Voru þau oftast gefin, og þá með þeirri kvöð, að sungnar (sagðar) væri á ákveðnum tíma ákveðnar messur, t. d. sálumessur, við þau, og voru slík ölturu á miðöldum opt mýmörg á hverri kirkju. Voru þau nefnd eptir dýrlingi þeim, er þau voru helguð, t. d. Maríualtari, Jónsaltari o. s. frv.

Á Hólum voru alls 7 ölturu 1550, og mjög víða voru fleiri ölturu en eitt[8]), en maður veit beint, að á Þingeyrum voru 1525 5 ölturu[9]), á Möðruvöllum í

1) Sjálfsagt sömu og fyr, en nokkuð virðast þeir fáir. 2) Skýringin hjá *Dietrichson* bls. 87 á tilgangi þeirra er ekki rétt. 3) T. d. *D. I.* II, 62. 4) T. d. *D. I.* IV, 130. 5) T. d. *D. I.* IV, 206. 6) T. d. *D. I.* II, 691. 7) T. d. *D. I.* II, 461. 8) Alstaðar þar sem háaltari er nefnt. 9) *D. I.* IX, 312—13.

Hörgárdal 5 ölturu[1]), á Melstað 3 ölturu[2]) og á Munkaþverá jafnvel 6—7 ölturu[3]). Er það blátt áfram furðulegt, að menn skuli hafa verið að hlaða jafnmörgum ölturum inn í jafnlitlar kirkjur sem hér voru, jafnlítið notagildi og þau höfðu.

Hér á landi getur þrenns konar frágangs á ölturum: a) ölturu bríkarlaus, b) ölturu með brík upp af, og c) ölturu með brík upp af og upp af henni töflu, og rekur hvað annað að því er til tímans kemur. Er þetta alveg í samræmi við þróunina annarstaðar. Reyndar hefði maður ekki átt að geta átt von á bríkarlausum ölturum hér, því bríkin kom á altarið um leið og kirkjur voru austraðar[4]), og gjörðist það löngu áður en Ísland tók kristni. Hér er brík nefnd fyrst í máldaga Laufáskirkju 1318[5]). Að vísu er nefnt bríkarklæði í tveim máldögum frá 1180[6]), en úr því ekki fyrri en 1318 í máldaga Garðs í Kelduhverfi[7]). Af þessu má ráða, að þó bríkur hafi komið hér fyrir, hafi þær fyrst verulega farið að tíðast um 1300; styrkist það mjög af því, að staðir þeir í máldögunum, sem nefna brík, eru mjög víða af útgefanda Fornbréfasafnsins taldir viðbætur[8]), en sumstaðar er beint tekið fram, að bríkurnar séu nýtillagðar kirkjunum[9]). Fyrir 1300 hefur því altarið allajafna verið bak- og bríkarlaus stallur, en eftir 1300 er bríkin nefnd að staðaldri. Brík þýðir óefað bakið upp af altarinu (retabulum, superfrontale) og ekkert annað; stöðugt er talað um »brík yfir altari«. Ótalsinnum er það nefnt svo[10]), en að eins á einum stað er nefnd »brík fyrir altari«[11]). Um frágang á bríkunum segir fátt í upphafi, en það eitt er sýnilegt, að

1) *D. I.* IX, 316—17. Á báðum þessum stöðum stenst tala altarissteina á við altaratöluna. 2) *D. I.* IX, 326. 3) *D. I.* IX, 305—6. 4) Sjá kaflann hér á undan. 5) *D. I.* II, 449. 6) *D. I.* I, 266, 268. 7) *D. I.* II, 427. 8) T. d. *D. I.* II, 458, 459, 699 o. v. 9) T. d. *D. I.* II, 449, 450; á síðari staðnum sést af mannanöfnum að viðbótin er frá 15. öld. 10) Í *D. I.* IV einu 35 sinnum. 11) Tvær bríkur, önnur yfir háaltari og hin frammi fyrir. *D. I.* V. 314.

bríkin var frá öndverðu og fram úr altaf sérstakur hlutur, og aldrei óaðskiljanlegur partur altarisins. Það er fyrst eptir miðbik 14. aldar að máldagarnir segja nokkuð um frágangin á bríkunum, en af því má ráða, að hann hafi í upphafi verið alllítilsigldur, enda var bríkin þakin klæðum, eins og mun verða vikið að síðar, og er jafnvel ástæða til að balda, að hún hafi stundum með engri sérstakri prýðingu verið sjálf, heldur blátt áfram dregin vefnaði, því í byrjun 14. aldar er nefnd »brík með baldurskinn«[1]). Úr því eru nokkuð greinilegar frásögur. Er bríkin altaf að þrýkka og vafalaust að bækka, unz hún lækkar og verður að stalli þeim, sem nú tíðkast (predella), en ofan á hann kemur heljarstór brík, altaristaflan eins og bún gjörist nú (retrotabulum). Nefnd er brík pentuð[2]), með förgu[3]), steind[4]), með gylt silfur[5]), gylt[6]) og brík með glas[7]), bvernig sem bún annars kann að hafa verið. Enn fremur er nefnd alabastursbrík[8]), brík með alabastur forgylt[9]) og brík með hurðum[10]) og er bríkin þarna bersýnilega á leiðinni yfir í retrotabulum-altarið, altarið með töflu upp af bríkinni, en það verður fyrst greinilega fyrir manni 1461 í Miklagarði[11]). Þar á kirkjan brík útskorna »með krossi, burðum og stöplum«[12]). Þetta er gotnesk vængja-altaristafla, og er í miðjunni mynd af pínu lausnarans og á hurðunum skornar myndir eða málaðar, en upp af töflunni turnar — stöplar mjóir, háir og spengilegir til að koma í hana teygjunni, leitinni upp á við, sem auðkennir gotneska sniðið, og er hvað greinilegast á síðgotneskum blutum[13]). Um slíkar

1) *D. I.* II, 448. 2) T. d. *D. I.* III, 163. 3) T. d. *D. I.* III, 515. 4) T. d. *D. I.* IV, 88. 5) *D. I.* IV, 55. 6) *D. I.* IV, 139. 7) *D. I.* V, 631. 8) *D. I.* V, 409. 9) *D. I.* V, 308. 10) *D. I.* VI, 630. 11) *D. I.* V, 313 sbr. 350. 12) Á báðum stöðunum stöplum, ekki stólpum. 13) Hér hefur *Wallem* (bls. 54—55) á báðum hinum tilvitnuðu stöðum auðsjáanlega mislesið prentið. Hann hefur lesið stólpum fyrir stöplum. En það er mergurinn í staðnum — stöplarnir — turnarnir. Fyrir bragðið sér hann ekki gotneska sniðið, sem einmitt stöplarnir einkenna. Hann fer að bera þessa brík saman við danskt og sænskt altari, sem hann auðsjáanlega

töflur er annars ekki getið beinlínis, og bersýnilegt á öllu er að þær hafa verið að byrja að ryðja sér til rúms, er siðaskiptin tóku fyrir alt saman. Þó eru afarmiklar líkur á því, að brík sú, sem Magnús biskup III. Eyjólfsson lofar að leysa til sín frá Oddakirkju fyrir 20 hundruð friðvirt, ef til stefja kæmi, svo framt sem þær tvær hurðirnar, sem þá voru ekki heima, kæmi heim í Odda óskemdar[1]), hafi verið með þessu sniði, og hlýtur hún eptir þessum orðum að hafa verið bákn. Væri ekki ósennilegt, að þær tvær myndir frá Odda, sem Þjóðminjasafn Íslands á[2]), og bersýnilega eru úr stórri altarisbrík, einmitt væru úr henni. Nefndur er »skorningur yfir altari«[3]) og þykir Wallem vera »tvivlsom betydning«[4]) í því; það sýnist þó engum vafa undirorpið, að »skorningur« sé myndað af að skera eins og »giorningur« af að gera, og að hér sé um útskorna brík að ræða. Til eru bríkur af báðum tegundum. Alabasturbríkurnar frá Hólum[5]), Reynistað[6]) og Hítardal[7]) eru af fyrri tegundinni (retabula), og tvenn brot af slíkum töflum eru og til í safninu hér frá Kirkjubæ í Hróarstungu[8]) og Selárdal[9]). Alabasturbríkur þessar eru gjörðar á Englandi og kendar við Nottingham, sbr. bls. 24 hér að framan. Af síðari tegundinni (retrotabula) eru altaristafla frá Ögri af kolneskum skóla[10]) og brot úr samskonar töflum frá Reykholti[11]) og frá Hraungerði[12]); er minst af þeim eptir og

---

skilur ekki heldur, og ekki hafa neina líkingu við íslenzku bríkina, nema um þá hluti, sem hann gizkar á að hafi verið á þeim, en ekki eru. Alt staðlaus hugarburður. Eitt sinn hefur hann á öðrum stað þessa tilvitnun rétta, en auðséð að það er af tilviljun.

1) *D. I.* VI, 630. 2) Nr. 2673—74. 3) *D. I.* IV, 194. 4) Bls. 54. 5) Þjóðminjas. Ísl. nr. 4634. 6) Þjóðminjas. Ísl. nr. 1064. 7) Þjóðminjas. Ísl. nr. 3617—22. 8) Þjóðminjas. Ísl. nr. 4635. 9) Þjóðminjas. Ísl. nr. 2105. Held aptur á móti ekki, eins og *Þjóðminjas.* bls. 7, að alabasturmyndin frá Staðarfelli (nr. 3920) sé brot úr slíkri töflu, heldur heil eins og hún er. 10) Þjóðminjas. Ísl. nr. 3435. 11) Þjóðminjas. Ísl. nr. 4333. 12) Þjóðminjas. Ísl. nr. 4881. *Þjóðminjas.* bls. 10 telur hana frá síðari öldum, sem ekki þarf að vera víst.

það breytt mjög. Erlendis (í Danmörku) mun vera ein alabastursbrík héðan og ein brík máluð frá Grund[1]) af fyrri tegundinni og verður að henni vikið síðar. Á Möðruvöllum í Eyjafirði er og enn samskonar brík með alabastur og sennilega víðar. Alabasturbríkur sýnast hafa verið í miklu afhaldi hér, eins og reyndar annarstaðar. Hóladómkirkja átti

1525. 1) Bríkur tvær með alabastur.
2) Brík með stein.

1550. 1) Brík í krossstúku með alabasturstein[2]).
2) — máluð í Önnustúku[3]).
3) Bríkur tvær í Maríustúku.
4) Forgylt brík á miðju kirkjugólfi með altari og öllum búningi sínum[4]).
5) Maríulíkneski og Jósefslíkneski í einni brík.

Mótsetning við brík er tabulum, tabula eða tafla (frontale, antimensale); var það skreytt plata, er huldi alla framhlið altarisins, — alla nekt hennar; er hún í mótsetningu við »brík *yfir* altari« nefnd »tabulum fyrir altari«[5]), og er tabulum og brík oft nefnt saman og má af því ráða að þau hafi þá verið samstæð. Einstöku sinnum er nefnt tabulum yfir altari, en örsjaldan, svo það raskar ekki meiningunni um hina venjulegu merkingu orðsins. Nefnd eru tabula gylt[6]) og með gullfarg[7]) og lítið tabulum eneum deauratum[8]) (úr kopar gylt), svo og tabula úr tönn með gulli og silfri, sem Páll biskup hafi ætlað að láta Margrétu högu og Þorstein skrínsmið smíða, þó það færist fyrir vegna andláts biskups[9]), og jafnvel er nefnt tabulum með pappír[10]), sem Wallem[11]) þó breytir í pergament. Tabúlur hafa farið að tíðkast hér

---

1) Þjóðminjas. Dana nr. 7725. 2) Er það varla sú, sem nú er í Þjóðminjasafninu; hún var á háaltarinu og er, hvernig sem á stendur, ekki nefnd. 3) Allar þessar bríkur eru af eldri gerðinni. 4) Þessa brík lagði biskup Jón til, og er þetta sama bríkin og enn er í kirkjunni; er hún af yngri gerðinni (retrotabulum); var hún höfð á formessualtari. 5) T. d. *D. I.* III, 328. 6) *D. I.* IV, 55. 7) *D. I.* V, 583. 8) *D. I.* II, 679. 9) *B. S.* I, 143—4. 10) *D. I.* V, 302. 11) Bls. 53.

og verið innleiddar um sama leyti og bríkur. Tabulum er fyrst nefnt 1269[1]), en úr því ekki fyrri en 1318[2]). Tabúlur tvær íslenzkar eru til; önnur, frá Möðruvöllum í Eyjafirði, er í Þjóðminjasafni voru og hefur verið margnefnd hér. Er á hana miðja skrifaður Marteinn biskup, en honum var kirkjan helguð[3]), og sín hvorum megin tvær myndir úr lífi Marteins. Svipar henni mjög til norskra tabúla (Kaupangur-tabúlunnar í Þjóðminjasafni Dana), en er þó áreiðanlega íslenzk. Er hún frekar einkennileg en falleg. Hin er í Þjóðminjasafni Dana; er hún frá Grund og fylgir henni brík sú, er áðan gat um, og er á bríkina og tabúluna skrifuð sama myndin, en hvorttveggja er norskt. Þó merkilegt sé, er þess hvergi getið í máldögunum að Hólakirkja hafi átt tabúlu neina, og víst er það, að háaltarið hefur að minsta kosti fram yfir daga Laurentiusar biskups verið tabúlulaust, því Einar Hafliðason segir 1331 við Skúla Ingason: »Mikin fögnuð má biskup láta smíða kirkjunni til prýði með þessu brendu silfri og gulli, ef hann vill láta gjöra skrín eða tabula fyrir altari«[4]), og líklegt er að hún hafi aldrei átt neina, enda var þess engi þörf, ef fordúkar voru nógir og góðir. Um hæð altara, breidd og lengd veit maður ekki annað en það, sem ráða má af málinu á dúkum, fordúkum og tabúlum. Hólafordúkurinn er 189 × 94,5 cm, Möðruvallatabúlan 120 × 94 cm[5]), Grundartabúlan 151,5 × 97,5, fordúkurinn frá Draflastöðum 100,5 × 112, og fordúkurinn frá Klausturhólum nokkuð minni (báðir eru í Þjóðminjasafni voru — um þá síðar —), og má þar af sjá hæð og lengd þeirra altara, er þeir dúkar og tabula hafa verið fyrir. Um breidd altaranna verður lítið vitað, en altarisdúkurinn frá Hólum[6]) er 78,5 cm, og dúkurinn í Þjóðminjas. Ísl. nr. 2371 er 74 cm breiður, en á lengd eru þeir 205 og 117 cm og sýna breidd þeirra altara, sem þá báru. Sigurður

---

1) *D. I.* II, 62. 2) *D. I.* II, 448. 3) Sjá bls. 46 hér. 4) *B. S.* I, 875. 5) Henni hefur Matthías Þórðarson lýst vel í *Á. Í. F. F.* 1913, 64—78. 6) Sjá um hann síðar.

málari segir[1]), að altarið, sem er í Hóladómkirkju (1874), sé »alveg eins og Laurentiussaga lýsir því í 32. kap. og mun vera hið sama óbreytt; að minsta kosti er það úr eins rauðu grjóti og sagan getur um og holt innan með járnhurð fyrir«. Hvaðan Sigurður hefur þetta, er ekki gott að vita, en hitt er víst, að árið 1918 var ekkert hvolf inni í altarinu sjáanlegt, og því ekki heldur nein járnhurð fyrir, og ekki er heldur kunnugt, að altarinu hafi verið neitt breytt síðan kirkjan var bygð, enda ber altarið það með sér, að það hefur ekki verið hróflað við því, hvað þá heldur múrað upp í það síðan. Altarið stendur nú upp við kirkjugaflinn, en hafi verið hvolf í altarið, hefur það verið aptantil á altarinu; svo er á öllum ölturum með hvolfi, sem sá er þetta ritar hefur séð. Nú stendur austurveggur kirkjunnar mun vestar en austurveggur fyrri kirkna. Sé altarið fornt, hefur það áður staðið laust við vegginn og gæti því vel verið, að veggurinn hefði byrgt fyrir hvolfið, er hann var fluttur upp að altarinu. Sá er þetta ritar barði 1918 altarið utan með hamri til þess að heyra ef tómahljóð væri, en svo reyndist ekki, sem ekki þyrfti að vera að marka, ef veggirnir væru þykkir. Altarið ber þess ekki neinar menjar að það hafi verið vígt — sjá um það þar sem talað er um altarisstein — og í útliti altarisins er ekkert sem bendir til, að það þurfi að vera eldra en kirkjan sjálf, nema tvent. Annað að það er jarðfast, hitt að það er upp af því steinstallur. Öll steinölturu í kaþólskum sið voru jarðföst, voru þau beint bygð yfir hyrningarstein kirkjunnar. Nú hefur alabastursbríkin að sögn[2]) staðið undir stóru bríkinni, en það getur ekki hafa verið í kaþólskum sið, því stóra bríkin var ekki á háaltari, heldur á formessualtari. Hinsvegar átti kirkjan 1525 tvær alabastursbríkur og sést það á upptalningunni hér að framan, að 1550 var önnur þeirra í Krossstúku, en um hina er ekki getið.

---

1) *Skýrsla um forngripasafn Íslands* II. Kbh. 1874 bls. 39.
2) *A. Í. F. F.* 1882—95 bls. 95.

Kemur það fráleitt til af því, að hún hafi verið frá gengin, heldur af hinu, að hún hafi staðið á háaltarinu. Þegar svo stóru bríkinni eftir siðaskiptin var bætt ofan á, hefur orðið að byggja steinstallinn, sem nú er, undir hana, því ofan á alabasturtöflunni gat hún ekki staðið, til þess var hún of þung. Nú er bríkin mikla mun breiðari en altarið, og er steinstallurinn jafnbreiður henni, en jafnhár alabasturbríkinni (78,7 cm), og sýnir það glögglega að hann er viðbót við altarið, tilkomin eins og hér hefur verið greint. Hefði altarið og stallurinn verið bygt um leið, mundi hvorttveggja hafa verið jafnbreitt. Nú er framhliðin á Hólaaltarinu jafnstór fordúknum, en altarið og fordúkurinn jafnbreitt og alabastursbríkin er löng. Af því er auðráðið, að bríkin og dúkurinn eru af sama altari; hitt mætti ef til vill segja, að altarið væri nýtt og bygt handa fordúknum og alabastursbríkinni. Þetta held ég þó ekki. Altarið er að öllum líkindum altari Auðunar biskups, fordúkurinn af því, alabastursbríkin sú upprunalega brík þess og kemur þetta heim við breiddina á Hólaaltarisdúknum. Virðist Matth. Þórðarson vera á svipaðri skoðun[1]), en um þetta verður þó ekkert sannað nema altarið sé rifið. Breiddin á Hólaaltarinu er 78,5 cm, lengdin er 189 cm og hæðin 107 cm. Það er ekki með stærstu ölturum, en þó svo vænt að það hæfir háaltari, en ekki útaltari. Af því að hæð Hólafordúksins og tabúlanna frá Grund og Möðruvöllum er svo að segja eins, sést, að hin venjulega hæð altaranna muni liggja einhverstaðar milli 90 og 110 cm, lengdin milli 120 og 200 cm, en breiddin einhverstaðar um 80 cm. Um stærð bríkanna (retabulæ) er lítið hægt að segja, nema stærðina á þeim sem til eru. Hólabríkin í Þjóðminjasafninu er 189,5 × 92 cm, Reynistaðarbríkin er 186 × 58,5 cm og Grundarbríkin 159 × 55 cm. Hinar er ekki að marka, því þeim hefur verið breytt. Af stærri bríkunum er Ögursbríkin lokuð 130 cm og opin 258 cm, en bríkin á Hólum er hæst í miðið

---

1) *Á. Í. F. F.* 1913 bls. 65.

163 cm og lægst 126 cm á hæð, en á breidd lokuð 163 cm, en opin 326,5 cm. Um verðlag bríka og tabúla veit maður lítið, Oddabríkin mikla er lögð til jafns við 20 hundruð fríðvirt[1]), og nefnd er brík fyrir hundrað[2]) og tabulum fyrir 3 hundruð[3]). Altarið íslenzka var greinilegt bríkaraltari (retabulum-altari), en svo er nefnt altari það, er hér hefur verið lýst; bendir útbúningur þess allur annar og í sömu átt. Tvent var sérkennilegt við þetta altari, — krossinn upp af bríkinni og helgiskrínið á henni eða fyrir ofan og aptan hana. »Kross yfir altari«[4]), »kross yfir altari með líkneskjum« (þ. e. Maríu og Jóhannesi)[5]), »Maríulíkneski undir krossi yfir altari«[6]), »bílæti er standa yfir altari«[7]), »brík með krossi og undirstöðum«[8]), jafnvel »blöð yfir Jónsaltari«[9]) og þvílíkt og annað eins kemur þráfaldlega fyrir í máldögum, og er ekki hægt að villast á þessu. Þegar miklu bríkurnar fara að tíðkast, hverfa líkneskjurnar af sjálfu sér — í því efni fullnægir bríkin — og krossinn flyzt niður á altari. Skrínin stóðu ýmist á altari[10]) eða yfir, og fór það eptir stærð skrínanna, sem sjá má af frásögunni um Guðrúnu kirkjukerlingu; þegar hún sá ofsjónunum, hljóp hún á kórinn og »greip ofan af altarinu kistil er í voru helgir dómar og hafði í faðmi sér«[11]). Annars, ef skrínið var stórt, stóð það á stalli fyrir aptan altarið og sneri í það gaflinum, og bar hann yfir bríkina[12]). »Skrín og brík yfir altari«[13]), »kistill og í helgir dómar upp af kross«[14]), »krossar tveir og skrín yfir altari og brík«[15]), slík orðatiltæki máldaganna sýna glögt, að svona var skrínunum fyrir komið, og er það alveg í samræmi við venjuna annarstaðar. Um skrín Þorláks biskups segir beint, að það hafi staðið yfir háaltari[16]), og af öðrum stað sést og, að það hefur

1) *D. I.* VI, 630. 2) *D. I.* II, 635. 3) *D. I.* VII, 738. 4) *D. I.* IV, 113. 5) *D. I.* III, 268. 6) *D. I.* III, 32. 7) *D. I.* V, 674—5. 8) *D. I.* V, 297. 9) *D. I.* V, 631. 10) *D. I.* I, 351 og víðar. 11) *B. S.* I. 206 sbr. 256. 12) Um það, hvernig úr þessu fyrirkomulagi verður altaristaflan eins og hún er nú sjá *Dietrichson* bls. 94—5. 13) *D I.* III, 80. 14) *D. I.* II, 437. 15) *D. I.* III, 519. 16) *B. S.* I, 124.

ekki verið á altarinu, heldur viðlosa því; »gengu þau þá í kirkju um aptansöng og komu um hymna fyrir Magnificat undir skrín Þorláks biskups«[1]). Yfir háaltari Hóladómkirkju stóð skrín Jóns biskups eins og sagt hefur verið. Þegar segir, að Nikulás ráðsmaður hafi lagt staðarlyklana á skrínin[2]), þegar hann flúði fyrir háaltarið undan ofríki Ögmundar biskups, á vafalaust að standa: á skrínið, þ. e. Jónsskrín, enda stendur svo í annari frásögu[3]). Bríkarölturu voru til forna opt svo gjörð, að yfir þeim var himin á fjórum súlum, og stóðu súlurnar út af hornum altarisins, og var handa presti og þeim, sem honum þjónuðu, nægilegt rúm undir þessum himni. Var hann ýmist úr steini eða tré. Voru það helzt háölturu og önnur hefðar-ölturu, er með þeim útbúnaði voru. Eins og áður hefur verið sagt, var háaltari Hóladómkirkju með þeirri gerð. Staður sá, er vitnað var í, leyfir engan efa. Þar segir, að Auðun biskup hafi látið »penta húfuna, færa innar húfuna á háaltarið; voru þar (þ. e. undir húfunni) áður kistur og annar harki«[4]). Húfan er óefað sá himin, sem kallaður var á latínu ciborium[5]). Háaltarið í Skálholtsdómkirkju var og með húfu, og virðist Páll biskup hafa látið gjöra hana, því hann lét síðasta sumarið sem hann lifði koma húfuvið úr Noregi[6]). Getið er þess í Oddaverjaannál, að húfa Skálholtskirkju hafi farist í brunanum 1309[7]), en þó er staðurinn bersýnilega eitthvað brenglaður. Optast var það, að í miðri húfunni hengi huslkerið — ílátið undir sakramentið —; mun þetta altari einmitt draga af því nafn sitt »ciborium«, sem dregið er af »cibus«. Hér á landi er einmitt einu sinni á 15. öldinni getið um »huslker hanganda«[8]), og er þetta alt full sönnun þess, að þessi altaristegund hafi

---

1) *B. S.* I, 382. 2) *B. S.* II, 319. 3) *B. S.* II, 330. 4) *B. S.* I, 830 sbr. 890, sem þó segir altarið fært innar í húfuna, sem kemur í sama stað niður. 5) *Wallem* bls. 55 vill helzt koma hér að fornri húfu vondri í D. I. V, 301, sem vitanlega er biretti eða fontshúfa, en játar þó, að það sé í lausu lopti. 6) *B. S.* I, 144. 7) *I. A.* 487. 8) *D. I.* V, 325.

verið notuð hér stundum. Milli stoðanna á húfualtarinu voru teinar, á þeim hengu tjöld, sem draga mátti frá og fyrir. Voru tjöld þessi nefnd vængir, og eru hér á landi nokkrum sinnum nefndir vængir með teinum[1]) og himintjöld[2]), sem vafalaust er sama. Það styður auðvitað það, að hér hafi verið notuð húfuölturu, en er þó engin sönnun, því vængir voru á miðöldum hafðir fyrir ölturum, þó húfa væri engin. Wallem segir, að »spörgsmaalet om ciboriealter er ikke derved bragt til nogen afgörelse«[3]). En rökin eru svo rík, að enginn, sem nokkurn skilning hefur á þessum efnum, getur efast um að húfan sé himininn yfir »ciborie«-altarinu. Skiljum vér svo við altarið með tabúlu fyrir, hrík yfir, krossum, líkneskjum og skrínum á, og húfuna með vængjum yfir öllu saman.

B. *Altarisskrúði.* Kirkjan hefur alla daga verið, og er enn, elsk að dúkum, einkennilega elsk að dúkum, ef svo mætti segja. Hún prýðir kirkjuna og altarið á alla lund með skartgripum, smíðuðum af mikilli list úr dýrustu efnum, og heldur sig svo með skrúðofna og saumaða dúka til að fela alt saman. Var altarið sérstaklega þeirri prýði búið, því ef svo bar undir, gat altarið verið alþakið klæðum. Fyrir tabúlunni var fordúkur, á altarinu sjálfu altarisblæjurnar og corporale, á bríkinni bríkarklæði, og voru þessi klæði öll kölluð altarisbúnaður[4]), búnaður á altari[5]), búningur á altari[6]), altarisskrúði[7]), svo og altarisklæði[8]). Er enginn vafi á því, að þetta orð hafi svipað víðtæka merkingu og orðið messuklæði og tákni sama og altarisbúnaður, þó að það venjulegast hefði þrengri merkingu (dúkarnir á altarið), og er opt erfitt að greina, hvort sé merkingin þrengri eða rýmri. Auk þess eru vitanlega partar af einstökum altarisklæðum líka taldir með altarisbúnaðinum og fólgnir í honum, svo t. d. altarisbrún. Auk þess

1) T. d. *D. I.* III, 582. 2) *D. I* II, 484. 3) Bls. 56. 4) Sbr. *D. I.* II, 562. 5) T. d. *D. I.* II. 439. 6) T. d. *D. I.* II, 62. 7) Kemur aðeins fyrir í Hólamáldaganum 1550. 8) T. d. *D. I.* I, 255.

verður að telja klæði huslkersins, því það átti ból á altarinu eða í grend við það, og svo altarisvængina og sudarium — fórnarklæðið með altarisbúningi, þó ekki séu þessi klæði fólgin í því nafni, eins og miðaldirnar notuðu það. Ekki er nefnd önnur skipting á altarisbúnaði en hvort hann sé hátiðabúningur[1]) eða hversdagsleg altarisklæði[2]), hvort hann sé föstubúnaður[3]) (þar um hér á eptir) eða venjulegur búnaður og hvort hann sé til háaltaris[4]) eða útaltara[5]). Heila altarisbúnaði virðist dómkirkjan hafa átt þessa:

1374. 1) Háaltarisklæði 5.
 2) Hversdagsaltarisklæði 6.

1396. 1) Háaltarisklæði 5.
 2) Útaltarisklæði 4.

1525. 1) Háaltarisklæði 7 með hversdagslegum og föstuskrúða.
 2) Altarisskrúðar fram í kirkju 8 með brúnum, brestur til tvo vígsludúka og einn saurdúk.
 3) Altarisskrúðar 8 fornir og brestur til 4 vigsludúka og einn saurdúk.
 4) Föstuskrúðar 5 og brestur einn saurdúk og vígsludúk.

1550. 1) Skrúði til háaltaris hversdagslegur alfær með bríkarklæði.
 2) Altarisklæði[6]).
 3) Altarisklæði með þelaðan refilsaum 7 með einu við Ós[7]).
 4) Altarisklæði með krosssaum[8]).

1.) *Altarisdúkar* hafa verið notaðir frá upphafi kristninnar, og hefur altaf verið skylda að nota þá, er messa var sungin. Tala þessara dúka hefur á ýmsum tímum og ýmsum stöðum verið mjög misjöfn. Hið

---

1) T. d. *D. I.* VII, 288. 2) T. d. *D. I.* IV, 135. 3) Óalgengt. Kemur óviða fyrir nema í Hólamáldaganum 1525. 4) T. d. *D. I.* III, 258. 5) T. d. *D. I.* IV, 193. 6) Í biskupskapellu. 7) Þ. e. Kolbeinsárós. Biskup Jón lagði til. 8) Biskup Jón lagði til.

alþekta skriptaboð Píusar I. páfa[1]) skipar að hafa fjóra dúka. Aðrir skipa meira að segja að hafa þá fimm, en Durandus nefnir tvo: »duplici mappa debet operiri attare«[2]). Hér á landi gjöra tveir siðir vart við sig í þessu efni. Hinn eldri var sá að hafa ekki nema einn dúk, eða að það að minsta kosti nægði að hafa hann ekki nema einn. Skriptaboð Þorláks segir: »syngja skal messu þótt altarsdúkur sé óvígður eða lindi«[3]) og tekur skriptaboð Jóns biskups I. Halldórssonar ákvæðið upp óbreytt[4]), og er hér bersýnilega aðeins ætlast til að dúkurinn sé einn. Hefur hann að jafnaði einnig verið nefndur blæja[5]) eða altarisblæja[6]) og er það heiti nefnt síðast 1461[7]), en hefur þá um skeið aðeins verið nefnt á stangli. — Yngri siðurinn var að hafa dúkana tvo, vígsludúk og saurdúk[8]) og eru báðir nefndir í fyrsta skipti 1461[9]), og má af því ráða, að þá sé gamli siðurinn alhorfinn og hinn nýi kominn á. Hann hefur þó verið orðinn löngu kunnur og verið að smáfærast yfir, því allopt er fyrir þann tíma talað um »altarisklæði með dúkum« eða eitthvað á þá lund, og getur það vegna fleirtölunnar »dúkum« aðeins átt við yngri siðinn, og er svo í fyrsta sinn til orða tekið 1331[10]). Eptir því hefur hinn nýi siður verið rúmlega 100 ár að komast á. Altarisdúkar

---

1) Útdráttur úr því er í breferinu í þriðja ræðingnum á messudag hans 11. Júlí. 2) *Rationale* fol. 5. 3) *D. I.* I, 244. 4) *D. I.* II, 599. Í B-textanum bls. 604 stendur: »Syngja skal messu, ef nauðsyn ber til, þótt missi altarisdúks« o. s. frv. Að orðfæri er staðurinn óbjagaður, en að efni til gjörbrenglaður. Þetta er óhugsandi að sé rétt, það er þvert ofan í öll kirkjulög allra tíma og alla venju. Í statútu Wilhjálms biskups af Worchester 1229 segir: »Tria lintea, sive unum benedictum, ad minus«, þrír líndúkar, eða að minsta kosti einn vígður, og eru það lægstu kröfur, sem gjörðar hafa verið, enda leggur skipan Eilífs og Jóns eyris sekt við að syngja messu svo altarisblæju vanti *(D. I.* II, 562), sbr. *Braun: Paramentik* bls. 213. 5) T. d. *D. I.* I, 266. 6) T. d. *D. I.* II, 668, 7) *D. I.* V, 309. 8) *Wallem* bls. 125 getur ekki frætt mann á öðru um þessa dúka en því, að hann botni ekkert í (staar mig ikke klart), hvernig sambandi þeirra og corporalanna sé varið. 9) *D. I.* V, 251, 274. 10) *D. I.* II, 666.

voru altaf úr líni[1]), og er hreinasta undantekning, ef þeir eru úr bómull[2]). Blæjan í eldri siðnum og vígsludúkurinn í hinum nýja voru sama fatið, að því leyti sem þau lágu næst altari, og var latneska heitið chrismale — vígsludúkur þýðing á því — af því dregið, að sá dúkur var lagður á altari, þegar biskup var nýbúinn að olea það með krisma. Blæjan í eldri siðnum var að því leyti sama og saurdúkurinn, að hún lá efst á altarinu og hlaut ytra útlit hennar að draga dám af því. Vígsludúkur er opt nefndur, og þarf ekki um það að efast, að hann hafi altaf verið úr líni, þó hvergi sé þess getið. Hins er og hvergi getið, að hann hafi prýddur verið með saum eða á annan hátt, og er það ekki nema eðlilegt, þareð hann sást aldrei[3]). Um altarisblæjuna eða blæjudúkinn, sem stundum er svo nefndur[4]), er öðru máli að gegna; vitanlega var hún úr líni, en hins vegar prýdd með allskyns útflúri, af því að hún var yzt fata. Nefnd er blæja blámerkt[5]) og hvít[6]), en að getið er um þann lit, sem eðlilegastur var, sýnir glögglega, að venjulegast voru blæjurnar mislitar. Blæjur eru og nefndar með tefling[7]), búnar með pelli[8]) og óbúnar[9]) og virðist af því sennilegt, að þær hafi og að jafnaði verið búnar. Saurdúkur, dúkur[10]), altarisdúkur[11]), messudúkur[12]) og yfirdúkur[13]) er alt sama altarisfatið. Það er auðséð. Aldrei er getið um það úr öðru efni en lérepti og það aðeins tekið fram tvisvar[14]), og er það þó afaropt nefnt, þó ekki sé getið úr hverju; svo sjálfsagt hefur þótt að það væri úr lérepti. Hinsvegar er

1) *Rationale* fol. 5 gjörir að vísu ráð fyrir að altarisdúkar geti verið úr silki. 2) *Braun: Paramentik* bls. 214. 3) Ekki sést, að hér hafi verið notaðir vaxbornir vígsludúkar eins og annarstaðar var gjört, til að hindra að altarið drykki í sig blóðið, ef kaleikurinn steyptist niður, sem gat hlotist mikið vastur af. 4) *D. I.* IV, 214. 5) *D. I.* II, 472. 6) *D. I.* III, 518. 7) *D. I.* III, 558. 8) *D. I.* II, 442. 9) Ibid. 10) *D. I.* II, 769. 11) *D. I.* III, 502 og víðar. 12) *D. I.* II, 576. 13) *D. I.* V, 403. 14) *D. I.* III, 482, IV, 158. Á síðara staðnum er nefnt bleikt lérépt. Það hefur eptir því verið til að nota óbleikt lérept; annars hefði ekki þurft að taka þetta fram.

opt getið um allskonar skraut á því, en hefði, þar sem blæjan er, verið um vígsludúk að ræða, hefði það ekki komið fyrir; það var, eins og bent hefur verið á, óþarfi. Sjaldan eru nefndir litir. Hvítt er nefnt[1]) og mun því algengast hafa verið að þessi dúkur væri mislitur; annars hefði ekki þurft að taka það fram. Blámerktir dúkar eru og nefndir allopt[2]), en blámerktur þýðir blár, eins kolmerktur þýðir svartur. Eru allglöggar lýsingar á frágangi saurdúka. Þeir eru nefndir búnir[3]) og óbúnir[4]), með hlaði[5]) og gullhlaði[6]), sprangaðir[7]), sem þýðir lagðir með silfurplötum, þ. e. peningabúnaði[8]), og »með 17 peningum smeltum og gyltum«[9]), með rauðum silkibúningi og peningum[10]), með heiðið stykki[11]) og með rautt skinn að framan[12]); svo og er nokkrum sinnum nefndur dúkur með typping[13]). Typping er það, sem nú er kallað kniplingar. Á þýzku heitir það »Spitze«[14]) — oddur, broddur — og á frönsku »dentelle«, af latneska orðinu »dens«, sem þýðir tönn, toppur, oddur. Orðið typping er því ekki annað en þýðing á »Spitze« eða »dentelle«, og alveg á sama hátt þýðir og orðið oddabúningur, sem opt kemur fyrir[15]), sama. Að því er til vefnaðarins og saumaskaparins kemur, eru nefndir saurdúkar glitaðir[16]), — er það orð komið af miðaldalatínu-orðinu gliphaticus, sem aptur er komið af glissum, sem þýðir dýrindis-líndúkur, og dregur hann nafnið af því að á hann stirnir[17]), — blásaumaðir[18]), með röndum[19]), sem merkir, að um dúkinn þveran voru með jöfnu millibili saumaðar randir, hringofnir[20]) og með röndum hringofnir[21]).

---

1) *D. I.* II, 79. 2) T. d. *D. I.* III, 522. 3) *D. I.* IV, 108. 4) *D. I.* III, 526. 5) *D. I.* IV, 149. 6) *D. I.* IV, 78. 7) T. d. *D. I.* II, 448. 8) Sbr. *Lexicon infimæ latinitatis* undir orðinu sprangatus, sem þýðir »laminis argenteis ornatus«. 9) *D. I.* IV, 61. 10) *D. I.* IV, 130. 11) *D. I.* IX, 330. 12) *D. I.* IV, 100. 13) T. d. *D. I.* IV, 117. 14) Lögmannsannáll nefnir »spiza«. *I. A.* 270. 15) T. d. *D. I.* V, 308. 16) T. d. *D. I.* V, 297. 17) *Lexicon infimæ latinitatis* undir því orði. Bent er þar á, að orðið gæti verið af griphatus, af því að í dúkinn væru ofin fingalkn (gripho). 18) *D. I.* III, 519. 19) *D. I.* V, 282. 20) *D. I.* VII, 448. 21) *D. I.* IX, 317.

Getið er um dúka vígða[1]) og óvígða[2]), og bendir það til, að ekki hafi dúkarnir hér, frekar en víða annarstaðar, að jafnaði verið vígðir, nema vígsludúkurinn einn. Svo sýnist sem brúnin hafi opt verið áföst vígsludúknum[3]) eða einhverjum dúkanna[4]). Styðst það af lýsingu þeirri á búnaðinum, sem hér hefur verið gjörð, og einnig af því, hve brún er tiltölulega sjaldan nefnd sér. Stærð dúkanna fór eptir ölturunum; nefndur er dúkur þriggja álna langur og álnar breiður[5]), svo og sex álna langur dúkur[6]), og um stærð þeirra tveggja, sem enn eru til, hefur áður verið getið. Hvernig dúkarnir hafi farið á altarinu, er ekki gott að segja. Á altarismynd þeirri, sem er á Möðruvallatabúlunni, fellur dúkurinn jafnt niður yfir brúnir altarisins á alla vegu, alveg eins og borðdúkur — altarið er bríkarlaust. Hóladúkurinn hefur fallið alveg að brúnum altarisplötunnar og sama mun vera um dúkinn nr. 2371 í Þjóðminjasafni. Sama hefur vafalaust verið um dúkinn þriggja álna langa og álnar breiða, en dúkur sá hinn sex álna langi hefur óefað lafað niður að jörð til altarisendanna, en ekki fallið yfir brún að framan eða aptan, og hefur altari það, sem hann hefur á verið, verið um 200 cm á lengd, hafi það verið c. 94 cm á hæð, sem venjulegast var. Hóladúkurinn er úr hvítu lérepti og yfir hann þveran fimm randir saumaðar um 11 cm breiðar, og er aðalliturinn í þeim blár (svonefnt Perugiaverk). Dúkurinn nr. 2371 er og úr lérepti og í miðju saumaður (ofinn?) með marglitum tiglum; til endanna eru tveir auðir geirar; á hvorum enda eru saumaðar tvær línur með letri, sem lesa skal frá efstu línu vinstra megin yfir neðstu línu hægra megin, neðstu línu vinstra megin og upp á efri línu hægra megin. Stendur þar: »Ave Maria, hjálp mér þá, ave María«. Höfðu miðaldamenn

1) *D. I.* IV, 84. Sumstaðar (t. d. *D. I.* IV, 123) eru nefndir dúkar »veigaðir« og virðist einsætt, að það sé við afskript eða á annan hátt, aflagafært úr vígður. 2) *D. I.* IV, 59. 3) *D. I.* V, 278. 4) *D. I.* III, 502. 5) *D.* I. IX, 330. 6) *D. I.* V, 631.

gaman af því að láta bæði letur og liti ganga kráku-stig[1]). Hóladómkirkja átti

1374. 1) Altarisdúka 6 búna.
2) Altarisblæjur vígðar 3.
3) —— óvígðar 2.
4) Búning á altarisdúk sæmilegan.

1396. Búning á dúk sæmilegan.

1525. 1) Vígsludúk.
2) Dúka nýja 4 með saurdúkum á hátíðum.
3) — 3 hversdagslega.

1550. 1) Altarisdúka 4.
2) Glitdúka 5.
3) Vígsludúk 1.
4) Saurdúka 3.
5) —— 18.
6) Saurdúk silfurneraðan[2]) og vígsludúk.

*Corporale* var dúkur, sem breiddur var ofan á saurdúkinn, er messa var sungin, og stóð á honum kaleikurinn og lá á honum brauðið eptir að því hafði verið fórnað[3]). Var dúkur þessi í öndverðu svo stór, að hann náði yfir alt altarið[4]), en um árið 1000 fór að draga úr honum, og mun hann fljótlega hafa orðið sem hann er nú, 45—50 cm á hvern veg, og þó heldur stærri. Fyrsta skipti er hér getið um corporale í Jóns biskups sögu. Þurfti Jón að kljúfa helgan dóm Marteins biskups, en tímdi því ekki, og lagði hann svo á altarið undir corporale hjá kaleiknum, og var hann sprottinn í tvent eftir messu[5]). Einkennilegt er það, að sagan nefnir dúkinn corporalia í þolfalli eintölu. Handritið AM. 266, 4to gjörir sama nokkrum sinnum, og hefur jafnvel myndina corporaliam. Af Jónssögu biskups sýnist sem ekki sé um annað en smádúk að ræða. Í máldögum

1) Sbr. Hólafordúkinn og kórkápuna frá Hólum, að því er litina snertir. 2) Svo *D. I.*, en í handritinu stendur: »silfur-ueradur«, sem óefað er misskript fyrir »silfuruiradur« — silfurvíraður. 3) Sjá þar um *Missale* romanum. 4) Sbr. *ἀντιμίνσιον*, corporale hjá grísk-kaþólskum, þó að það að nokkru leyti, þó dúkur sé, komi í stað altarissteins. 5) *B. S.* I. 169.

er corporale fyrst nefnt í byrjun 14. aldar[1]). Af því ræður Wallem[2]), að corporalia hafi ekki verið notuð hér fyrri en á 14. öld, sem auðvitað er rangt, eins og sagan af Jóni biskupi ber með sér. En það er auk þess boðið af Gratian[3]) og 1178 af Þorláki biskupi, að ekki megi syngja messu korpóralslaust[4]), en skipan Eilífs og Jóns leggur við merkursekt, ef út af er brugðið[5]), og þarf hér um ekki að fjölyrða frekar. Cederschiöld heldur[6]), að corporale sé fólgið undir orðinu altarisklæði, en svo er ekki; það er undir orðinu messuklæði, sem það geymist, eins og skriptaboð Þorláks ber svo glögglega með sér. Tilgangurinn með corporale var sá, að gjöra það léttara að halda sakramentinu frá þeim hlutum öllum, er vanhelgi gæti lagst á, og var því dúknum aðeins brugðið upp þegar farið var með guðs líkama. Dúkurinn var notaður til fleira en að láta sakramentið standa á honum. Prestur þurfti nákvæmlega að gæta þess, að ekki félli fluga, maðkur eða óhreinindi í kaleik, sem prestur mátti ekki neyta háskalaust, því af því hlauzt mikill trafali fyrir hann[7]). Til að forðast þetta, brugðu prestar horninu á corporale yfir kaleikinn eptir offertorium. Þetta hefur óefað verið svona hér á landi. Sýnir það staður sá í Jónssögu, sem vitnað var í. Jón lætur helgan dóm Marteins *hjá* kaleik, en *undir* corporale. Nú stóð kaleikur *á* corporale, svo þetta verður að skilja svo, sem dómurinn hafi legið á corporale, en undir því horni, sem yfir kaleik var brugðið. Ekki er heldur nefndur patínudúkur (palla) hér á landi fyrri en alveg undir siðaskiptin eða 1525 og þá ekki nema tvisvar[8]). Patínudúkurinn var í öndverðu samanbrotið corporale, en síðar smádúkur, er lagður var yfir kaleikinn[9]). Meðan sá siður tíðkaðist að brjóta korpóralshornið yfir kaleikinn, hefur korpórallinn hlotið að

---

1) *D. I.* II, 442. 2) Bls. 125. 3) Decretum, pars tertia de consecratione, canon 46, distinctio 1. 4) *D. I.* I, 243. 5) *D. I.* II. 562. 6) *A. O.* 1887 69. 7) Sjá *D. I.* II, 562. 8) *D. I.* IX, 306, 313. 9) Nú er hann hafður stinnur, en það var hann ekki í öndverðu.

vera nokkuð stærri en nú er, svo að það væri hægt. Þó að sá siður sé nú löngu aflagður, og corporale nú aðeins notað sem dúkur undir sakramentið, eimir á einkennilegan hátt enn þá eptir af siðnum. Enn þann dag í dag biður biskup, er hann vígir corporale, guð að blessa »linteamen istud ad tegendum involvendumque corpus et sanguinem domini«[1]) — þennan líndúk, sem á að þekja með og vefja í líkama drottins og blóð. Enn skyldi á skírdag leggja oflátu þá, sem vígð var til neyzlu á föstudaginn langa (præsantificata, sem föstudagsmessan dregur nafn sitt »missa præsanctificatorum« af), »í miðjan corporalinn, svo ekki sé í brotunum, og láti síðan í pung sinn[2]) og láti á patínu, og setji kaleikinn hreinlega í messufatakistu«[3]). Corporale var ávalt úr líni og skrautlaust; mátti enginn snerta það óþvegið nema prestur einn, því það hafði snert guðs líkama, enda varð prestur að þvo það sjálfur. »Corporale skal prestur þvo við altari í hreinni munnlaug, og steypa vatni í sacrarium því sem þvegið var í; má hann og fá djákna, síðan hann hefur skolað, að þvo betur«[4]). Svo að síður væri hætta á að óvígðar hendur snertu corporale, var það geymt í sjerstöku hylki, svo og til þess að hver gæti borið það sem vildi. Þessi hylki voru með tvennu móti, corpóralshús[5]) (á latínu: domus corporalium, á miðlágþýzku: korporalienhus), er var ferstrendur stokkur með loki, og fóður[6]) (bursa corporalium), það er að segja taska úr vefnaði. Í húsinu komust fyrir nokkrir corporalar í einu, í fóðrið ekki nema eitt. Nefndir eru corporalar 7 í 5 húsum[7]). Fóðrin og húsin voru hin skrautlegustu. Getið er um korpóralshús silkisaumað[8]) og gullsaumað[9]). Ekki mega menn láta villa sig um stærð á corporale af því að registrið við D. I. IV getur um »corporalia laus 15 álna með

---

1) Sjá *Pontificale*, de benedictione corporalium. 2) Það er huslpungurinn; sjá um hann síðar. 3) AM. 266, 4to, bls. 2. 4) *D. I.* II, 562. 5) T. d. *D. I.* III, 69. 6) *D. I.* III, 171. 7) *D. I.* IV, 21. 8) *D. I.* III, 519. 9) *D. I.* IV, 139.

rent klæði pítalsett«, því þetta eru tveir póstar í verunni: »tvenn corporalia laus« og »15 alnar (svo rétt) með rent klæði pítalsett«. Til eru 4 íslenzk miðalda korpóralsfóður. Eitt er enn í Skálholti, en annað þaðan[1], 26 × 26 cm, úr rauðu flugeli með silfurplötum á hornum og jöðrum, og er perlusaumuð á það mynd af boðun Maríu. Er það innan og neðan fóðrað með lérepti, og fellur loka aptur yfir og er hnept með hneslum. Þriðja er frá Grund í Eyjafirði[2]; hefur fráganginum á því verið lýst hér áður; það er úr rauðu flugeli og fóður og lokun með sama hætti og á hinu, stærð 23 × 22 cm. Í þjóðminjasafni Dana er fjórða fóðrið[3], og er það útsaumað í bak og fyrir, opið að ofan, lokulaust[4]. Fóðrið frá Skálholti er óefað útlent. Hóladómkirkja átti:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1374. | 1) | Corporalia | betri 10. |
| | 2) | —— | léttari 3. |
| 1396. | 1) | —— | betri 10. |
| | 2) | —— | léttari 5. |
| 1525. | 1) | Korpóralshús | 9 með korpórölum. |
| | 2) | —— | 2 með 2 korpórölum hvert. |
| | 3) | —— | 1 með 20 korpórölum. |
| 1550. | 1) | —— | 16 með 15 korpórölum. |
| | 2) | —— | 6 með nokkrum korpórölum vondum. |

Þegar ekki var verið að syngja messu við altarið, var annar dúkur á því yfir saurdúknum til hlífðar og var hann nefndur *altarisklæði* eða klæði[5], á latínu vesperale, og dró hann það nafn af því að hann lá á altarinu meðan tíðir voru sungnar, og lá því í augum uppi, að hann þurfti að vera prýðilegur. Það er enginn vafi á því, að þetta er ekki sama fat og neinn dúkanna, sem lýst hefur verið, því aldrei er getið um altarisklæði í

1) Þjóðminjas. Ísl. nr. 421. Mynd af því léleg í *Á. Í. F. F.*, góð í *Gaimard*. 2) Þjóðminjas. Ísl. nr. 7053. 3) Þjóðminjas. Dana nr. CLIV, mynd hjá Wallem bls. 128. 4) Þjóðminjas. Ísl. nr. 6229 er fimta korpóralsfóðrið héðan, en er allhæpið að það sé frá því fyrir siðaskiptin. 5) T. d. *D. I.* IV, 100.

sambandi við messusöng í biskupastatútunum, heldur altaf dúka. Aldrei eru heldur nefndir dúkar úr öðru en lérepti, eins og vera átti, en aðeins örfáum sinnum er nefnt altarisklæði úr lérepti[1]). Svo er og altarisklæði nefnt í sama andartaki og dúkur, t. d. á Þykkvabæjarklaustur 1340 »altarisklæði níu með dúkum búnum«[2]) og tekur þetta af öll tvímæli. Nefnt er altarisklæði úr búkram[3]), fustan[4]), guðvef[5]), pelli[6]), salúni[7]), silki[8]), sæi[9]), flandri[10]), bastarði[11]), sindel[12]), skínandi klæði[13]) og baldurskinni[14]), og sést á þessu, að altarisklæðið svarar að efni til til yfirklæðanna úr messufötunum, á sama hátt og dúkarnir svara til undirklæðanna. Altarisklæðið hefur oftast verið mislitt; steint er það opt nefnt[15]), og jafnvel er nefnt, með hverju það hafi verið litað, t. d. með enskan lit[16]), en aðrir litir en rauður[17]) og grænn[18]) og blámerkt[19]) eru ekki nefndir. Altarisklæðið var með margskonar búnaði, með hlöðum[20]), gullhlöðum[21]), með smásilfurpeninga 30 (þ. e. sprang)[22]), með skjöldum sex[23]) og með oddabúningi forgyltum[24]), og er þar átt við gullkniplinga, eins og bent hefur verið til. Að því er til vefnaðar og saumaskapar kemur er nefnt klæði glitað[25]) og með tefling[26]), en það myndi nú vera kallað rúðótt eða stykkjótt, það er að segja að skiptast á mislitir og hvítir ferhyrningar. Loks er nefnt

---

1) *D. I.* VI, 74, 734. 2) *D. I.* II, 737, sbr. og III, 338, og enn víðar. 3) T. d. *D I.* IV, 191. 4) T. d. *D. I.* IV, 175. 5) T. d. *D. I.* IV, 133. 6) T. d. *D. I.* IV, 135. 7) T. d. *D. I.* IV, 143. 8) T. d. *D. I.* IV, 78. 9) T. d. *D. I.* IV, 180. 10) T. d. *D. I.* V, 308. Þetta er klæði. Flandrarar voru beztir klæðavefarar á miðöldum. 11) T. d. *D. I.* IV, 146. 12) *D. I.* III, 174. Er það sama og cendal á latínu, en það er silkitegund sú, sem nú er kölluð taft (ofið eins og lérept), sbr. *Braun: Paramentik* II. útg. 243. 13) T. d. *D. I.* IV, 108. 14) T. d. *D. I.* II, 448. 15) T. d. *D. I.* III, 515. 16) *D. I.* III, 482. 17) T. d. *D. I.* III, 206. 18) T. d. *D. I.* IV, 100. 19) *D. I.* IV, 220. 20) *D. I.* II, 635. 21) *D. I.* IV, 68. 22) *D. I.* IV, 61. Hálfleiðinleg symbólík, ef manni dettur í hug Júdas. 23) *D. I.* VI, 629. Eru þeir nú á Oddabrúninni í Þjóðminjas. Ísl. nr. 2669. 24) *D. I.* V, 308. 25) *D. I.* IV, 78 og víðar. 26) T. d. *D. I.* IV, 139.

klæði, sem gjört er á crucifixum — krossmark[1]). Nefnt er hversdagslegt klæði[2]), og verður þá að gjöra ráð fyrir, að til hafi verið hátíðaklæði. Um verð á klæðum er litið til; »altarisklæði fimm með dúkum í 4 hundruð«[3]) er nefnt, svo og »altarisklæði og dúkur metið hálfa mörk«[4]). Hóladómkirkja átti:

1374. 1) Altarisklæði 3 með búkram.
2) Hversdagsaltarisklæði.

1550. 1) Altarisklæði 2.
2) —— með krosssaum[5]).
3) —— 7 með þelaðan refilsaum, þar í eitt við Ós[6]).

Í registri D. I. V er nefndur »bjarnfeldur á altari«, en bjarnfeldar hafa aldrei verið notaðir á altari. Er rangt tekið saman í registrinu; á altari á ekki við bjarnfeldur, heldur við það sem á eptir fer í máldaganum[7]). Nefnd er í nokkrum örfáum máldögum sótdript yfir altari[8]). Hér er vitanlega ekki um neitt liturgiskt altarisklæði að ræða, heldur um einhvern ótindan dúk, sem breiddur var ofan á hina dýru altarisdúka til að hlífa þeim við sóti og ryki, þegar kirkjan stóð ónotuð, og er hér því um engan kirkjugrip að ræða. Það hefur verið í sjálfsvald sett, hvort menn notuðu slíkt eða ekki.

*Bríkarklæði* (superfrontale, retrodorsale) kemur afaropt fyrir[9]) og er það einnig nefnt bríkartjald[10]) eða bríkarbúningur[11]). Var það haft yfir altari í bríkar stað og tíðkaðist mjög á Frakklandi, Englandi og Niðurlöndum[12]). Hér á landi sýnist hvorttveggja hafa verið til, að hafa það í bríkar stað og utan á bríkinni. Í elztu máldögunum, þar sem getið er um bríkarklæði, eru engar bríkur nefndar, nema þá í viðbótum frá síðari tímum, og hefur bríkarklæðið þá óefað verið hengt á

---

1) *D. I.* VI, 28. 2) T. d. *D. I.* IV, 148. 3) *D. I.* II, 775. 4) *D. I.* IV, 118 5) Biskup Jón lagði til. 6) Lagt til af biskup Jóni. Ós = Kolbeinsárós. 7) Wallem hefur líka veitt þessu eftirtekt. 8) *D I.* III, 451, 585 o. s. frv. 9) T. d. *D. I.* II, 460. 10) *D. I.* II, 696. 11) *D. I.* I, 268. 12) *Braun: Paramentik* II. útg. bls. 197.

vegg í bríkar stað. Síðar eru beint nefnd klæði til að hylja með bríkina, t. d. »dúkur yfir brík«[1]), og hefur það væntanlega verið gjört hversdagslega, en bríkin svipt klæði, svo hún ljómaði í allri dýrð á hátíðum, svipað eins og stóru vængjabríkurnar nú á dögum eru lokaðar nema á hátíðum[2]). Bríkarklæðin voru ekki hlífðarklæði, heldur skrúðklæði; það sýnir frágangurinn. Nefnt er bríkarklæði steint (þ. e. litað)[3]), rent (með röndum)[4]), með bastarð og silki[5]) og með baldurskinn[6]). Nefnt er og bríkarklæði hversdagslegt[7]), og er það bersýnilegt, að það á að koma í bríkar stað, enda er aðeins í yngri viðbót við máldagann, þar sem það er nefnt, getið um brík[8]). Hóladómkirkja átti:

1374. Bríkarklæði fimm.
1396. —— —
1525. —— þrjú á háaltari.

*Fordúkur* (antependium, frontale) var dúkur, sem notaður var fyrir altarið á sama hátt og bríkarklæði fyrir bríkina. Orðið fordúkur gat að vísu stundum merkt sama og brún, en það var sjaldan, og verður að sjá það á sambandinu í hvert skipti hver merkingin er. Hann var ýmist í stað tabúlunnar fyrir altarinu eða hengdur yfir hana og þá af sömu ástæðum. Um antependium er þess sjaldan getið, úr hverju efni það væri; þó er eitt sinn nefndur strigi[9]). Um frágang þess að vefnaði og saum er aldrei talað. Opt sýnist antependium hafa verið áfast við altarisdúkana; t. d. er nefnt »ante-

1) *D. I.* III, 584. 2) Bríkurnar af eldri gerðinni (retabula) voru opt með vængjum (hurðum), t. d. alabastursbríkur þær allar, sem nefndar hafa verið. Auðséð er þó á alabastursbríkinni frá Reynistað, að aldrei hefur henni verið ætlað að vera lokuð um guðsþjónustutímana, því hurðirnar eru misbreiðar, svo lokuð stæði hún ekki fyrir miðju altari. 3) *D. I.* III, 784. 4) *D. I.* IV, 100. 5) Ibid. 6) *D. I.* II, 447. 7) *D. I.* IV, 100. 8) Við máldaga þenna er athugandi, að fyrri partur hans er eldri en 1397, en aðeins síðari parturinn er frá því ári, þó ekki geti útgáfan þess. Í niðurlagi hans stendur: »Tabulam fyrir altari og annað litið yfir altarabrík«; í hdr. stendur þó: »Tabulum o. s. frv. litið fyrir altari, brík«, sem auðgefið var. 9) *D. I.* V, 346.

pendium með glituðum dúkum«[1]), og stundum við brúnina líka: »þrenn antependia háaltaris með dúkum og fordúkum«[2]) og var það alsiða annarstaðar um þær mundir[3]). Máldagar Hólakirkju nefna aldrei antependia, hvernig sem á því stendur, vitanlega þó ekki af því að hún ætti engin, enda er hinn margnefndi fordúkur Þjóðminjas. Ísl. nr. 4380 frá Hólum (Hólafordúkurinn), og hefur kirkjan vafalaust átt fleiri.

*Brúnir*, fordúkar (frontellum, aurifrisium, prætexta) voru borðar, sem lágu meðfram fremri brún altarisins og voru ýmist lausir[4]), áfastir við antependium, eða við dúkana: »12 altarisdúkar og á þessum ein slitin brún«[5]). Var brúninni ætlað að hylja samskeyti milli dúka og antependium eða tabúlu. Brúnir eru og nefndar með kirkjutjöldum. Altarisbrúnir voru afarskrautlegar að öllum búningi, og þó hvergi sé um efnið getið, hefur það fráleitt verið síðra. Sérstaklega sýnist það hafa verið tízka að hafa þær sprangaðar (með silfurplötum). Nefnd er brún og lagður á borgarbúnaður gyltur með silfur[6]), með gyltum peningabúnaði[7]), með silfurskjöldum og perlum[8]), með silfurbúningi forgylt[9]), með 10 skjöldum með silfur og tveir smápeningar milli hvers skjaldar[10]), með látúnsskjöldum[11]), með gullblað[12]) og gulllögð[13]), svo og fitalögð[14]); er það sama og pítallagður[15]), sem dregið er af petalum á miðaldalatínu og þýðir gullplata; er það því sama og sprangaður. Aðeins ein altarisbrún af Íslandi frá þessum tímum er nú til; hún er frá Reykjum í Tungusveit[16]); er hún krossofin og

1) *D. I.* II, 691. 2) *D. I.* III, 213. 3) *Braun: Paramentik* II. útg. bls. 195. 4) T. d. *D. I.* I, 402. 5) *D. I.* III, 502. 6) *D. I.* IV, 100. Með þessu er óefað átt við búnað með múr(vígis-)lögun, sem allalgengur var í útsaumi, t. d. á hökulkrossi í Maríukirkju í Danzig og handlíni í kirkjunni í Pontigny á Frakklandi. 7) *D. I.* V, 631. 8) *D. I.* V, 308. 9) *D. I.* V, 307. 10) *D. I.* VII, 41. 11) *D. I.* IX, 317. 12) *D. I.* V, 308. 13) *D. I.* V, 345—6. 14) *D. I.* III, 570. 15) *D. I.* II, 635. 16) Þjóðminjas. Ísl. nr. 51. Altarisbrúnin í sama safni nr. 1145 frá Skálholti er óefað frá miðöldum, en hefur þá verið hlöð á kantarakápu að dómi Matth. Þórðarsonar þjóðminjav. og hefur hann óefað rétt fyrir sér í því.

stendur á með gulli: »Assumta est maria in celum«. Brúnin frá Odda[1]) er ný að uppruna, en peningarnir á henni hafa á miðöldunum verið á annari brún. Hóladómkirkja átti:

1525. 1) Háaltarisbrún með skjöldum og silfurbúningi.
2) Brúnir tvær stakar.
3) Brún staka.

1550. 1) Hátíðabrún á háaltari með búningi.
2) Brún eina[2]).

*Sudarium* hét dúkur, sem á miðöldunum var notaður af djáknanum, er hann fyrir offertorium í messunni bar kaleik og patínu til altaris. Er það fyrirrennari fats þess, sem nú er nefnt herðavelum og notað er til hins sama, en er upp komið eptir siðaskiptin. Hefur hingað til verið haldið, að sudarium væri dúkur til að þurka af kaleiknum eptir berging (purificatorium), og stafar sá misskilningur af því, að í útgáfunni af orðubók Jakobs Gajetanusar hefur misprentast mappula ad tergendum — fyrir tegendum — calicem (dúkur til að þurka — fyrir hylja — kaleikinn). Ekkert veit maður um útganginn á honum. Hann eru nefndur hér stöku sinnum[3]), og Hóladómkirkja átti

1374. Sudaria fimm.
1396. —— þrjú.

Sýnist dúkurinn því hafa horfið, er að siðaskiptum dró.

*Hulduklæði yfir propitiatorium.* Sakramentið var að staðaldri geymt í íslenzkum kirkjum, eins og í öllum öðrum kaþólskum kirkjum bæði fyr og síðar. Ekki mátti þó fyrna brauðið meira en mánuð[4]). Um það, hvernig geymslunni var varið, er lítið hægt að sjá. — Jörundur erkibiskup skipar: »Eucaristiam skulu prestar geyma í læstri hirðslu, að enginn ofdirfðarfullur megi til ná«[5]), og skipan Eilífs og Jóns segir, að prestar skuli geyma »eucaristiam í kirkju sinni í læstri hirðslu, svo

1) Þjóðminjas. Ísl. nr. 2669. 2) *Wallem* segir rangt og ófullnægjandi frá altarisbrún og er ómögulegt að eltast við að leiðrétta það lið fyrir lið. 3) T. d. *D. I.* II, 479. 4) *D. I.* I, 435. 5) *D. I.* II, 276.

að engin óhreinindi nái til«, og leggur afsetningu við, ef »komi að mús eður hundur eður önnur óhreinindi«[1]). En máldagarnir nefna sakramentisker með ýmsum nöfnum — sem síðar mun getið — og var propitiatorium eitt þeirra. Codex Scardensis[2]) segir, að prestur skyldi geyma oflátuna, er vígð var á skírdag, »hreinlega í messufatakistu eða almaríu«, og hefur sakramentið vafalaust að jafnaði verið geymt þar. Nú var og siður að hengja upp sakramentið, og þektist sá siður hér. Var þá venja að hylja propitiatorium með dúk — hulduklæði. Það má telja óyggjandi, að sakramentið hafi, að minsta kosti undir siðaskiptin, verið geymt hangandi í Hóladómkirkju, því hún átti

1525. 1) Hulduklæði yfir propitiatorium, og
2) silki yfir öðru (propitiatorio).

Slíkir dúkar þekkjast nú fáir[3]), en afsprengur þeirra er konopeum, fat það sem leggja skal yfir sakramentishirðsluna, samkvæmt Caeremoniale episcoporum, en er svo að segja hvergi haft[4]).

*Handklæði* (manutergium) var eðlilega til hér til forna á hverri kirkju, því hver prestur þvoði sér tvisvar í hverri messu, og auk þess fyrir og eptir. Um handaþvottinn eptir messuna er getið í Guðmundarsögu; hann þó sér ofan á pálma, sem á gólfinu lágu, því sacrarium var ekkert hjá altari[5]). Í hverri kirkju var og er enn svonefnt sacrarium[6]); þangað er steypt vígðu vatni og öðru því, sem ónýtt er af ýmsu, er helgidóminn snertir, svo það lendi ekki fyrir hunda og manna fótum. Því var það, að Guðmundur biskup lét hella vatni því, er hann vígði með krossana, sem segir í Selkolluþætti, niður í þakið á bænhúsinu undir Hamri[7]),

1) *D. I.* II, 518. 2) Fyrri parturinn AM. 266, 4to. 3) Einn er í kirkjunni í Hesset í Suffolk á Englandi, *Cox: English church furniture* bls. 41. 4) Sá er þetta ritar hefur hvergi séð það nema í Jóhannesarriddarakirkjunni í Rothenburg o. T. í Bayern, og er það einstaklega ólögulegt og svipljótt. 5) *B. S.* I, 440—41. 6) Leifar af sacrarium er í Ólafskirkju á Gunnsteinsstöðum, og er þar um getið áður. 7) *B. S.* I, 607.

að þar hefur ekki sacrarium verið. Yfir sacrarium þvoðu prestar sér eptir messu, því þeir höfðu snert guðs líkama, og brot úr honum gátu setið á fingrum, og þurkuðu sér svo með sérstöku handklæði, en notuðu annað í messu[1]). Var hið fyrnefnda nefnt sacrarium-handklæði[2]), en hitt aðeins handklæði[3]) og eru bæði nefnd fjarska opt í máldögum. Nefnt er handklæði veigað[4]) (þ. e. vígt), en nú er það ekki siður að vígja þau. Handklæðin voru úr góðu efni — t. d. er nefnt glit[5]) —, og voru þau opt með miklu skrauti. Nefnt er í máldaga »handklæði yfir líkneskjum«[5]), en það er vafalaust einhver misskript. Þó var handklæði notað til fleira en þess sem nafnið segir. Í Codex scardensis[6]) segir: »Langa frjádag móti nóni skal leggja á altarið blæju, óbúna altarisblæju, og handklæði sínum megin hvort«, og ennfremur: »en þá er sagt er í passíunni[7]): Partiti sunt vestimenta mea[8]), þá skal kippa handklæðunum af altarinu«. Þetta á að vera svo sem ímynd þess að Kristur var sviptur klæðum, enda er altarið ímynd Krists, og helzt sá siður enn, þó á þann veg, að prestur afskrýðir nú altarið að lokinni messu. Hóladómkirkja átti:

1374. Handklæði 6.
1396. —— 8.
1525. 1) —— glituð 2, hálf sjötta alin hvort.
2) —— 3.
3) —— 2, annað með glit og hitt með sprang.
4) Sacrarium handklæði 4.
5) Handklæði glituð 4.

---

1) *Braun: Paramentik* II. útg. bls. 227. Lá við hálfseyrissekt, ef prestur hafði ekki hreint handklæði. *D. I.* II, 562. 2) T. d. *D. I.* IV, 270. 3) T. d. *D. I.* II, 378. 4) *D.* I. IX, 317. Þetta orðtæki er fátítt og er sennilegast að það sé misskript eða mislestur fyrir vígður. Þó er ekki með öllu fortakandi að það væri annað, t. d. dregið af bicha á miðaldalatínu = hind, eða af einhverju sliku. 5) Ibid. 6) Fyrri partinum, AM. 266 4to. 7) Píslarsagan eftir Jóhannes, sem sungin er í guðspjallsstað á föstudaginn langa. 8) Þ. e. Þeir skiptu klæðum mínum (með sér); Jóh. 19, 24.

1550. 1) Handklæði 4.
2) Sacrarium handklæði[1]).

*Krismaklæði* er hvergi nefnt nema í máldögum Hólakirkju, og er það að vonum, úr því að engir Skálholtsmáldagar eru til, því það gat ekki komið fyrir nema á dómkirkjum. Á skírdag skyldi biskup á dómkirkju sinni vígja sjúkraolíu (oleum infirmorum), skírnarolíu (oleum cathecumenorum) og gjöra krisma (chrisma), og var skírnarolían og efnið í krismað (línolía og balsam) borið fram fyrir biskup »involutum cum mappula, quam diaconus ipse circa collum posuit« vafið í dúk, sem djákninn sjálfur bar um hálsinn, og var það ekki svipt þessum dúk fyrri en vígslunni var lokið[2]). Um þennan dúk tekur pontificale ekki annað fram en að hann eigi yfir krismaefninu að vera »de panno sericeo albo«, en yfir hinum »de sericeo panno alterius coloris«[3]). Nú á dögum er ekki haft sérstakt klæði til þessara þarfa, eins og ekki heldur þarf samkvæmt orðalagi fyrirmælanna, heldur er notaður herðadúkur sá, sem hafður er til að bera með sakramentið. Sá dúkur var ekki til nema á einstöku stað fyrir siðaskiptin. Það var því ofur eðlilegt, að á miðöldunum væri hafður til þess sérstakur dúkur og sýnir lengdin, $4^1/_2$ og $5^3/_4$ alin, að honum hefur verið brugðið um herðar, svo hann hafi lafað niður um bæði brjóst, og gat hann þá vel hulið ílátin eins og til stóð. Manni gæti dottið í hug, að hér væri um vígsludúk á altari, sem á latínu heitir chrismale — krismadúkur — að ræða, og styður lengdin það að vísu. Vígsludúkur var þó ávalt úr líni, en þessir dúkar eru úr dýrmætum silkivefnaði, svo það eitt út af fyrir sig er nóg sönnun, og hitt, að krismaklæði er hvergi nefnt nema á biskupsstólnum, tekur alveg af skarið. Dúkur þessi þekkist hvergi annarstaðar en hér á landi sem sérstakt klæði. Hóladómkirkja átti:

1) Í biskupskapellu. 2) *Pontificale*, de officio in feria quinta in coenae domini. 3) Ibid.

1374. 1) Krismaklæði skínanda með baldakin kvartil fátt í sex álnir.
2) Krismaklæði skínanda með pell hálf fimta alin.
3) Skínandi klæði fimm álnir[1]).

1396. 1) Klæði með baldikin hálf sjötta alin.
2) Pellzklæði hálf fjórða alin.
3) Skínandi klæði fjórar álnir[2]).

Að dúkarnir eru þrír styður enn þá skoðun, sem fram hefur verið sett. Var einn fyrir skírnarolíuna, annar fyrir balsamið, en hinn þriðji fyrir krismaolíuna, og að þeir eru sitt með hverju móti kemur heim við ummælin í pontificale. Að báðir eru nefndir krismaklæði kemur heim við heitið á keri því, sem allar þrjár olíur voru geymdar í saman, en hét þó krismaker[3]).

*Vængir* (vela, alae) voru dúkar, sem hengdir voru um altarið, svipað og dyratjöld nú á dögum. Voru þeir meðfram altarinu á báðar hliðar eins og nafnið ber með sér. Er allsendis óvíst, að vængirnir séu upprunnir af þeim fjórum tjöldum (tetravela), sem snemma voru notuð í Róm og luktu um altarið á alla vegu, og enn eru leifar af í grísk-kaþólsku kirkjunni. Væri altarið húfualtari, hengu vængirnir á teinum á milli súlnanna, er báru húfuna, en annars hengu þeir á veggföstum örmum, eða að reistar voru 4 súlur, sín út af hverju horni altaris, og voru teinar á milli þeirra tveggja og tveggja. Uppi á súlum þessum voru afaropt englar, er báru ljósastikur, og voru í þeim höfð kerti. Enginn vafi er á því, að þeir »englar tveir með gyltum stikum« og »englar tveir litlir með bjöllum og gyltum stöngum«, sem Hólamáldagarnir 1525 og 1550 geta, eru einmitt af slíkum súlum. Nefnd eru himintjöld í einum máldaga[4]) og eru það vafalaust vængir undir húfu (himin). Getið er um langvængi á Hlíðarenda[5]). Milli 1399 og 1404

1) Þetta er óefað einnig krismaklæði. 2) Óefað krismaklæði og bersýnilega alt sömu klæðin og 1374. 3) *Wallem* bls. 126 telur krismaklæðið óráðanlega gátu. 4) *D. I.* II, 484. 5) *D. I.* IV, 69.

lagði síra Steinmóður ríki Grenjaðarstaðakirkju til 4 vængi[1]), og á kirkjan þá enn 1461[2]) og tvo af þeim 1522[3]), svo þeir hafa enzt forsvaranlega. Er tekið fram að vængirnir væri með teinum. Ekki skulu menn láta það, að vængir þessir eru fjórir, tæla sig til að halda, að hér sé um tetravela að ræða. Þeir voru gefnir með tveim ölturum, þ. e. tveir með hvoru. Annars er hvergi getið um vængi nema á Hólum[4]). Sést á lýsingunni, að þeir voru með mikilli prýði. Um tilgang vængjanna segir í prestastefnuskipan úr Soissons frá 1404: »Cortinæ sint circa altare, ne sacerdos a circumstantibus turbetur, maxime ubi est frequentia populi« — vængir séu um altari, svo prestur truflist ekki af þeim, sem hjá eru, sérstaklega ef mannmargt er[5]). Um 1725 voru enn notaðir vængir á Hólum, því Árni Magnússon fékk það ár nákvæma lýsingu á þeim vængjum, sem þá voru hangandi. Var einn hvoru megin altaris og saumaðar á góðar bænir og myndir helgra manna[6]). Færir útgefandi Fornbréfasafnsins góð rök fyrir því, að vængirnir séu gerðir á árabilinu 1535—50. Er þó á lýsingunni ekki hægt að þekkja að það sé neinn af þeim vængjum, sem getið er í máldaganum 1550. Hóladómkirkja átti

1525. 1) Vængi fyrir háaltari þrenna.
2) — hversdagslega.
3) Föstuvængi.

1550. 1) Vængi tvenna með sprang[7]).
2) — með borusaum[7]).
3) 8 hversdagsvængi og 2 af þeim vel færa.
4) Vængi eina.
5) Væng lítinn með glit[8]).

Eins og vikið hefur verið að, eru nefndir altaris-

---

1) *D. I.* III, 582. 2) *D. I.* V, 280. 3) *D. I.* IX, 322. 4) Þó eru þau tvö sparlök, sem nefnd eru í Viðeyjarmáldaga (*D. I.* III, 213), sennilega vængir. 5) *Braun: Paramentik* II. útg. bls. 200. 6) Lýsingin prentuð í *D. I.* III, bls. 610—11. 7) Biskup Jón lagði til. 8) Í biskupskapellu. Hvernig á því stendur, að hann er ekki nema einn, er ekki ljóst. Væri líklegast af því, að annar altarisgaflinn hefði staðið við vegg.

búnaðir hversdagslegir og á hátíðir. Er engum blöðum um það að fletta, að munurinn hefur legið í meiri eða minni prýði á frágangi. Hitt er aptur á móti óljóst, hver munur hefur verið á föstubúnaði og öðrum búnaði altarisins, ekki af því að ókunnugt sé, hver tilgangur væri með honum, heldur af hinu, að máldagar lýsa aldrei föstubúnaði, svo að séð verði, með hvaða hætti hann var. Tilgangurinn var með ytra merki að sýna hrygð þá og alvöru, er vera átti í huga hvers kristins manns í tilefni af píslum og dauða lausnarans. Nú á dögum eru þau klæði altarisins, er ekki eiga að vera skrautlaus og úr líni, um föstuna og aðventuna fjólublá að lit — litur iðranar og yfirbótar. En hér á landi þektu menn á miðöldunum ekki litarreglurnar, og er því ómögulegt að vita, til hverra ráða þeir hafa gripið í þessu efni.

C. *Kirkjuskrúði* var og ýmislegur annar en sá, sem beint, eins það sem áður hefur verið nefnt, leiddi af lögboðnum eða venjulegum kirkjusiðum (ritus). Dúkar og tjöld voru beinlínis tízka á miðöldum og þóktu falleg, og voru það í raun og veru. Eins var það, að þar sem kirkjuhúsin sjálf — eins og t. d. hér á landi — ekki voru, og vegna efnisins í húsunum og fjárhagsins, ekki gátu verið prýðileg, var reynt að bæta úr þessu með handhægu móti. Nekt húsanna var klædd með dúkum, og þá var hægt að leggja til eptir því sem efnin leyfðu. Sumir slíkir dúkar áttu og rót sína í gamalli venju, sem að vísu var utan við kirkjusiðina (arituel) og því ekki skylda að halda.

1.) *Hulduklæði.* Það var afgamall siður um föstutímann, að hylja allar myndir og alt, sem glitrandi var með blæjum, svo sem til að beina athygli safnaðarins en betur að pínu og dauða frelsarans. Nú á dögum hefst það með öskudegi, en á miðöldum með mánudegi í föstuinngang eða jafnvel með septuagesima. Ekki sést, hvernig það hefur verið haft hér. En að öðru leyti virðist því hafa verið eins varið hér og annarstaðar. Það eru krossarnir, líkneski, skriptir, helgiskrínin og

textarnir[1]), sem var byrgt. Það er dúkur yfir krossi[2]) eða krossdúkur[3]), dúkur yfir líkneski[4]) eða yfirdúkur[5]) eða tjald yfir líkneski[6]) og opt tilgreint yfir hvaða líkneski[7]), skrínklæði[8]), textadúkar[9]) og dúkar yfir skriptum[10]), sem íslenzkir máldagar nefna. Optast voru þessir dúkar annarstaðar úr líni, en bæði þekkjast þar þó steindir dúkar, silkidúkar og silkisaumaðir dúkar[11]). Líkneskjadúkar eru hér nefndir með glit[12]), sprang[13]), hálfur með sprang og hálfur með glit[14]), með tefling[15]), svo og með röndum[16]) og blámerktir[17]). Nefnt er og silkiskaut yfir vorri frú[18]). Skríndúkur er nefndur með rauðu silki[19]), og er það að vonum, að helgir dómar væru prýðilega til fara. Hóladómkirkja átti eptir máldögunum ekki mikið af slíku. Hún á

1396. 2 skríndúka og

1525. hulduklæði yfir Jónshöfði,

en hefur vitanlega átt miklu meira, þótt það komi hvergi fram. Sumstaðar hefur verið siður að hafa dúka yfir líkneskjum til að hlífa þeim við sól og sóti, því nefndir eru »sólardúkar 2, yfir Nikolaum og Ceciliu, með bláum röndum«[20]) og sótdriptir yfir líkneskjum og skriptum allopt[21]), en ekki sýnist Hóladómkirkja hafa átt neitt af því, ef máldögunum skal trúa. Hér má og nefna, að reynt var að hylja mót líkneskjanna við stallinn, sem þær stóðu á, með brún[22]), svo að alt yrði að einni heild, og eins að láta þær njóta sín sem frekast var hægt, með því að hafa dúk fyrir aptan þær, svo þær skæru sig vel úr; því nefndur er »dúkur glit-

---

1) Hér verður að hafa hugfast, að textarnir stóðu á ölturum til prýði og voru spjöldin skartgripir. 2) *D. I.* IV, 49. 3) *D. I.* IV, 153. 4) *D. I.* III, 547. 5) *D.* I. III, 177. 6) *D. I.* II, 480. 7) T. d. dúkur yfir Petro, *D. I.* III, 157 o. s. frv. 8) *D. I.* IV, 108. Skrínklæði lágu þó stundum á skrínum alt árið. 9) *D. I.* IV, 104. 10) *D. I.* II, 443. 11) *Braun: Paramentik* II. útg. bls. 234. 12) T. d. *D. I.* III, 160. 13) T. d. *D. I.* IV, 161. 14) *D. I.* III, 583. 15) T. d. *D. I.* III, 558. 16) T. d. *D. I.* VIII, 770. 17) T. d. *D. I.* V, 297. 18) *D. I.* V, 345. 19) *D. I.* IX, 328. 20) *D. I.* IX, 328. 21) T. d. *D. I.* II, 378, 668 o. s. frv. 22) T. d. *D. I.* V, 301.

aður á hákór bak við líkneskin«[1]) og þekkist hvortveggja siðurinn annarstaðar. Hér sýnist og eiga bezt við að minnast á róðukyrtlana. Það virðist hafa verið siður hér á landi sumstaðar, að klæða líkneskjurnar á krossum í föt, því tvívegis er getið um krossa klædda[2]), og einu sinni er getið um silfurbelti um kross[3]) og það í Görðum á Akranesi. Sá siður var þó lítt þektur í útlöndum, og er ekkert hægt að segja um, hvort fatið hafi verið mittisskýla (»silfurbelti«) eða alfatnaður. Sama kirkja átti og »3 róðukyrtla og einn hlaðbúinn«[4]). Registur D. I. heldur bersýnilega, að hér sé um kyrtla á krossa að ræða, en það er þó afarvafasamt. Kirkjan á ekki nema tvo krossa og er annar smeltur, og sýnist því, úr því svo var, að einn kyrtill hefði nægt. Hinsvegar á kirkjan í þennan mund þrjú líkneski, af Maríu, Jóhannesi og Laurentiusi, og hafa fötin því verið á líkneskin, enda var það altítt annarstaðar — og er enn, jafnvel utankirkju[5]). Nú þýðir róða ekki að eins kross, heldur líkneskja, og í sambandi við kross líkneskjan á krossinum, sbr. kross með róðu[6]), og er alþekt Hofróða, Maríumynd klædd, sem tildurrófur enn bera heiti eptir. Róðukyrtill þarf því engan veginn að vera á kross. Ekki sést að Hóladómkirkja hafi átt neitt slíkt nema

1550. Englaskrúða,

sem sýnist hafa verið skrúði á engla 4 gylta, sem hún átti 1525, en ekki eru nefndir í máldaganum 1550.

2.) *Föstutjald* (velum quadragesimale). Sá siður reis upp um ár 1000, að breiða fyrir kórdyrnar á föstunni stórt tjald, er huldi bæði prest og altari sjónum fólksins; lá það á jafnlengi og hulduklæðin, það er að segja til miðvikudags fyrir páska, að sögð eru í passíu þessi

---

1) *D. I.* V, 308. 2) *D. I.* III, 87, 241. 3) *D. I.* III, 69, sbr. IV, 196. *Wallem* segir bls. 37, að Múlakirkja eigi Maríumynd með gullbelti og vísar til D. I. V, 284, en þar er getið um: »Maríulíkneski með einu gullnistu«. Wallem hefur því hér alveg misskilið »oldnorsk«-una. 4) Ibid. 5) Sbr. Manneken-pis í Bruxelles. 6) *D. I.* III, 482.

orð: »Et obscuratus est sol et velum templi scissum est medium«[1]). Var það úr ýmsu efni: ull, barchent, silki, og með ýmsum lit og klofið í miðju. Var það aðallega fyrir háaltari, þó einnig kæmi það fyrir fyrir útölturum, og var það á þýzku nefnt »Hungertuch« — hungurdúkur[2]). Hér á landi er nokkuð opt nefnt föstutjald[3]) og langaföstutjald[4]), og nefnt er föstutjald bæði frammi í kirkju og fyrir háaltari[5]), svo auðséð er, að það hefur einnig verið notað fyrir útölturum. Hóladómkirkja átti:

1525. Föstutjöld tvö, annað vont.

1550. ——— með sprang, en mestur hluti nýr, þó nokkuð fornt utan með[6]).

3.) *Lektaradúkur* (pulpitale) var renningur, sem breiddur var yfir lektarana og náði hann niður að gólfi bæði hið fremra og eptra, en var jafnbreiður lektaranum. Voru lektaradúkar afaralgengir hér sem annarstaðar og nefndir ýmist lektaradúkar[7]) eða lektaratjöld[8]). Lektaradúkar eru nefndir óvígðir[9]) og hafa þeir eptir þeim bókum verið vígðir hér, en það er nú fátítt. Annarstaðar voru þeir úr allskonar efni og með allskonar lit. Hér eru nefndir lektaradúkar glitaðir[10]), sprangaðir[11]), glitaðir og sprangaðir[12]), blámerktir[13]) og með röndum[14]). Nefndur er lektaradúkur hálf sjötta alin[15]) og má af því marka hæð lektarans, — liðug $2^1/_2$ alin íslenzkar. Hóladómkirkja átti samkvæmt máldaganum

1396. Lektaradúka 3 glitaða,

en hefur vitanlega átt miklu fleiri.

4.) *Fontklæði.* Á laugardaginn fyrir páska vígði prestur skírnarvatn til ársins[16]) og var það geymt í fontinum alt árið. Varð síðan að gæta þess vandlega,

---

1) AM. 266, 4to. 2) *Braun: Paramentik* II. útg. 234—5. 3) T. d. *D. I.* II, 441. 4) T. d. *D. I.* II, 445. 5) *D. I.* V, 308. 6) Lagt til af biskup Jóni. 7) T. d. *D. I.* II, 693. 8) *D. I.* I, 420. 9) *D. I.* III, 171. 10) T. d. *D. I.* II, 482. 11) T. d. *D. I.* II, 635. 12) *D. I.* V, 631. 13) *D. I.* III, 514. 14) *D. I.* V, 299. 15) *D. I.* V, 308. 16) Sjá AM. 266, 4to bls. 3.

að ekki kæmust saurindi í vatnið. Svo segir skipan Eilífs og Jóns: »Prestar skulu halda og hafa fonta sína hreina, þétta og vel lokaða«[1]), og var til þess venjulega notað lok, svonefnd húfa — sjá um hana þar sem talað er um font. Slíkt klæði þekkist hvergi fyr né síðar nema hér á landi, og er því engar leiðbeiningar að hafa um notkun þess. Þó er ekki nema tvent til, annaðhvort að klæðið væri til gagnsemdar og þá, þar sem fontvígsla var, sem ekki var alstaðar, ætlað til að byrgja fontinn, ef ekki var húfa til á hann, svo ekki óhreinkaðist vatnið, eða hitt, að það væri aðeins til prýði, til að hylja nekt fontanna, sem stundum ekki mun hafa af veitt, ef trúa skal máldögum Ólafs Rögnvaldssonar[2]), sem á hverri kirkjunni eptir aðra nefna »fontur vondur« eða eitthvað þvílíkt. Síðari tilgátan er sennilegust, en það verður að vera á biðangri að vissa fáist um þetta, þar til meiri gögn finnast. Um fráganginn á fontklæði er aldrei getið, það yfir höfuð ekki nefnt nema fontklæði[3]), eða þá svo til tekið: »fontur og klæði með«[4]), en afarvíða er það til. Hóladómkirkja átti

1525. Fontklæði tvö.

5.) *Merki*[5]) eða *gunnfánar*[6]) (vexillum) koma fyrst til skjalanna á 10. öld, svo nokkru nemi, og eru þeir svo undir komnir, að fyrir neðan krossinn á uppihaldskrossum var, svo sem til prýði, farið að binda dúk. Úr þeim dúk urðu svo fánarnir og því eðlilega á miðöldunum litlir. Voru og eru þeir enn optast á einn veg, hanga lóðrétt niður af þverslá og eru klaufir upp í að neðan, en þversláin er fest á stöng, og er upp af henni kross; var hann í öndverðu aðalatriðið, en eptir því sem fáninn dafnaði, vesladist krossinn upp og er nú á dögum orðinn aukaatriði, þó opt sé hann prýðilegur. Hér eru nefndar merkistengur[7]) og látúnskrossar á merkistöngum[8]). Um efni og frágang var sem annar-

1) *D. I.* II, 518. 2) *D. I.* V, 247—361. 3) T. d. *D. I.* II, 616. 4) *D. I.* I, 597. 5) T. d. *D. I.* I, 592. 6) T. d. *D. I.* I, 255. 7) T. d. *D. I.* IX, 191. 8) *D. I.* V, 308.

staðar; efnið gat verið hið einfaldasta eða hið bezta og merkin gátu verið með prýðilegum saum. Nefnd eru silkimerki[1]), rauð silkimerki[2]) og merki silkisaumað með veandasaum[3]). Til er íslenzkt merki[4]) frá Flatey á Breiðafirði, á lengd 97 cm, á breidd 46 cm, tvíklofið að neðan og grænt og gylt kögur á oddunum. Það er úr rauðu silki, sem nú er að vísu fölnað, og ofnir í hringar og í þeim á víxl hjörtur, örn, maður og fiðrildi (»heiðið stykki«); er saumaður yfir það þvert og endilangt mjór léreptskross, og það hangir á mjóu, rauðu, nýlegu kefli. Er frá 13.—14. öld. Í forngripasafninu í Björgvin er eptirtektarverður norskur fáni og markaður á Ólafur konungur. Merki voru borin í prósessíum og stóðu í kirkjum til prýði, en prósessíur voru gjörðar »með krossum og kertum, með merkjum, reykelsiskerum, acerrum og mörgum dýrðligum, helgum dómum«[5]). Hóladómkirkja átti

1525. 1) Merki 1 með silki.
2) — 2 með steint lérept.
3) Merkistengur tvær.

1550. Merki fjögur.

6.) *Líkaábreiðsl* (pallium mortuorum) var altaf notað á miðöldum og var það af eðlilegum ástæðum, því lík voru þá sjaldnast grafin í kistum[6]) — ef svo var, voru þær optast loklausar, sbr. fundinn í Herjólfsnesi —, unz að siðaskiptum leið, heldur voru þau saumuð í dúka[7]), enda

1) *D. I.* III, 160. 2) *D. I.* II, 474. 3) *D. I.* V, 583. Mun það ef til vill dregið af vivendum á latínu (á frönsku viande), sem þýðir (meðal annars) kvikindi, og merkir þá að saumuð hafi verið á merkið dýr, t. d. hirtir, sem ekki var óalgengt. 4) Þjóðminjas. Ísl. nr. 256. 5) *B. S.* I, 258. 6) Sumir biskuparnir fornu voru í kistum grafnir, t. d. Guðmundur Arason *(B. S.* I, 828), aðrir, t. d. Jón Ögmundsson, ekki *(B. S.* I, 176—177). Dæmi eru þess, að lík væru grafin í steinþrær eins og Páll biskup *(B. S.* I, 132) og þá auðvitað í engri kistu annarri. Bein Odds Þórarinssonar voru sett í kistu, er þau voru tekin upp 1279 *(B. S.* I, 711). 7) Sjá t. d. *I. A.* 288 sbr. þjóðsöguna »Þú átt eptir að bíta úr nálinni« og *B. S.* I, 444 og 529. Enn 1548 eru hefðarmenn grafnir kistulausir, t. d. Gissur biskup Einarsson. Þórður Marteinsson segir:

stóðu þau uppi afarstutta stund[1]) og þurfti að klæða sem mest af þeim ógnarsvip dauðans. Voru líkin innsaumuð lögð á barir og breitt yfir klæðið meðan sálumessan var sungin og jarðarförin fór fram, en svipt af rétt áður en grafið var. Er klæðið ýmist nefnt líkaábreiðsl[2]), líkaáklæði[3]), líkakult[4]), en það er dregið af latneska orðinu cultra, sem þýðir ábreiða, eða líkasálún[5]), og má af því sjá, að það efni hefur verið i þau haft. Á einum stað er getið um líkaáklæði engelskt[6]). Voru þessi klæði við svo að segja hverja graptarkirkju. Hóladómkirkja átti:

1374. Klæði með crucifixo[7]).

1525. Grafarklæði,

og er sú eign minni en við var að búast, komi öll kurl þar til grafar.

7.) *Koddar* (cusini) voru á miðöldum notaðir undir texta og messubækur, ýmist til að bera þá eða liggja undir þeim á altari. Sömuleiðis voru þeir hafðir á altari undir messubókina, og var það alsiða til skamms tíma[8]). Eins voru þeir notaðir til að bera á mítur fyrir biskupum og ábótum (sjá það sem sagt er um mítur). Hér á landi eru hvergi nefndir messubókarkoddar með nafni, en textakoddar allopt[9]). Að því er til efnisins kemur er nefndur silkikoddi[10]). Hóladómkirkja átti

1374. Kodda þrjá með silki[11]).

1525. Textakodda tvo.

8.) *Sœtabúnaðurinn* í miðaldakirkjunum var með

---

»Let hann (þ. e. herra Jón) grafa upp legstað Gissurar Einarssonar, góðrar minningar, mikils guðs orðs vinar, og svo láta bein hans með líni því, sem um þau var, í sekk og flytja úr kirkjuuni og varpa í holu nokkra«. D. I. XI, 258.

1) Sjá t. d. *B. S.* I, 585. 2) T. t. *D. I.* II, 445. 3) T. d. *D. I.* III, 587. 4) T. d, *D. I.* II, 442. 5) T. d. *D. I.* III, 171. 6) *D, I.* V, 256. 7) Er óefað graptarklæði. 8) Rubricæ generales í Missale romanum titulus XX, nefnir aðeins kodda, en ekki lektara, sem nú er alstaðar notaður undir messubók. 9) T. d. *D. I.* IV, 208. 10) *D. I.* III, 213. 11) Í textanum stendur: »koddar þrír með silkisessur þrjár«, en á vitanlega að lesast: »koddar þrír með silki, sessur þrjár«. Í registrinu kemur þessi misskilningur aptur.

tvennu móti: sessur og klæði; voru sessurnar (bancalia) til að mýkja sætin og klæðin til að prýða og gjöra sætið heitara. Nefndar eru sessur[1]), bólstrar[2]) og langsessur[3]); eru þær nefndar á Möðruvallaklaustri, svo bersýnilega er um formasessur að ræða. Dúkarnir eru ýmist stólklæði[4]), formadúkar[5]) eða frammistöðuformadúkar[6]) (um þessar sætategundir sjá áhöld Hólakirkju), og er nefnt að dúkur í frammistöðuforma sé langur[7]), en það kemur heim við skilgreining sætaheitanna. Erlendis voru þessir dúkar lítt kunnir. Hóladómkirkja átti

1374. 1) Sessur þrjár[8]).
2) Stólklæði tvö.
1396. 1) Sessur fjórar litlar[8]).
2) — tvær illar.
3) — tvær langar.
1525. 1) — þrjár[8]).
2) Skinnsessu eina.
3) Formadúka sex.
1550. 1) Sessu í frammistöðustól.
2) — stóra[9]).
3) Formadúka fjóra.
4) Áklæði í frammistöðustól.

Það er eptirtakanlegt, að formadúkar eru ekki nefndir í tveim elztu Hólamáldögunum, og kemur það heim við það, að formar fóru fyrst að tíðkast um miðja eða í lok 13. aldar[10]), og tízkurnar voru stundum lengi að komast hingað.

9.) *Tjöld* (cortinae, tapeta) var framan úr öldum altítt að nota til að prýða kirkjuveggi, þó vitanlega aðallega þar sem ekki voru pentaðir veggirnir eða lagðir dýrum steini, t. d. marmara eins og tíðkaðist síðar. Voru tjöldin úr dýrum efnum: líni, ull eða silki, og voru

1) T. d. *D. I.* II, 467. 2) T. d. *D.* II, 427. 3) *D. I.* IX, 317. 4) T. d. *D. I.* V, 402. 5) T. d. *D. I.* III, 536. 6) T. d. *D. I.* IX, 313. 7) *D. I.* V, 548. 8) Bersýnilega í frammistöðuforma (handa presti og tveim djáknum, og ef svo bar undir rector chori). 9) Lögð til af biskup Jóni. 10) *Otte* I, 283.

þau með prýðilegum saum eða vefnaði. Hér á landi eru í máldögum nefnd fimm veggtjöld: refill, tjald, brún, borði og bjór. Það er óefað, að siðurinn að tjalda kirkjur er hér á landi að uppruna veraldlegur, en hitt er óvíst, hvort hér sé upprunalegra að tjalda veggi og hafa á þeim refla, eins og opt er getið í íslenzkum sögum, eða þá að marka »ágætlegar sögur á þiliviðinum og svo á ræfrinu«[1]). Víst er og, að algengt var frá fyrstu kristni að tjalda kirkjurnar. Kringum 1200 skrýðir Einar djákn Hólakirkju á móti messudeginum[2]), og 1199 gjörist ein af jarteinum hins blessaða Þorláks biskups með þeim ummerkjum, að »menn voru að tjalda kirkju á einhverjum bæ, en þeir tjölduðu sönghúsið«[3]) o. s. frv. Af þessu sést bæði að siðurinn er gamall, en fyrst eru tjöld nefnd 1120[4]), og eins hitt, að tjöldin voru hátíðaföt kirknanna, en ekki hversdags.

a.) Refillinn sýnist hafa verið nokkurskonar áauki ofan við tjöldin. Í Björgynjarkálfskinnu segir: »tveir hlutir af kornum tjaldaðir með reflum fornum með undirtjöldum«[5]), svo og í jarðabók Ásláks Bolts: »Jtem þrja refla, item tvo duka til undirtielld«[6]), og enn segja norskar heimildir: »reflar med undirtjöld«[7]), og svo segir Pétursmáldagi: »reflar um alla kirkju og engin tjöld undir«[8]). Það er þarna auðséð, að refillinn er sérstakur dúkur viðlaus tjöldum, en þó áauki við þau, ofan við þau á veggnum. Einhverstaðar hef ég heyrt eða lesið, en veit ekkert hvar, að Auðun biskup hafi fyrstur haft hingað refla, og er það vitanlega eins og hver önnur þjóðsaga, þó ekki sé af öðru en því, að svo skrítilega vill til, að refill er nefndur fyrst í kirkjumáldaga sunnan af landi sama ár og Auðun tók biskupsdóm 1313[9]). En hitt er gefið, að reflar eru útlendir að uppruna og er einn refill heimsfrægur, refillinn í

---

1) *Laxd.* 98—99. Slíkar þiljur frá Möðrufelli í Þjóðminjas. voru nr. 6069 a—e og 7015 a—h. *A. Í. F. F.* 1916, 26—30. 2) *B. S.* I, 179. 3) Ibid 340. 4) *D. I.* I, 174. 5) Bls. 83. 6) *Aslak Bolts Jordebog*, Oslo 1852, bls. 113. 7) *D. N.* II, 41. 8) *D. I.* III, 521, sbr. V, 291. 9) *D. I.* II, 378.

ráðhúsinu í Bayeux á Frakklandi; er á honum sýnd herferð Vilhjálms bastarðar til Englands. Sænskir reflar veraldlegir eru til og heita á því máli bonad[1]). Hér á landi hafa reflar óefað bæði utan kirkju og innan verið með myndum; nefndur er Martínusrefill á Grenjaðarstöðum[2]), er það að vísu tæplega kirkjurefill[3]), en hefur þó á hann verið mörkuð æfi hins blessaða Marteins, er Grenjaðarstaðakirkja var helguð, og voru slíkir sagnareflar ekki með öllu fásénir. 1406 vottar Logi Stigsson officialis, að Steinmóður prestur Þorsteinsson hafi meðal annars gefið Hóladómkirkju refil, »sem á er Nikulássaga«[4]), en ekki sést hvort átt er við kirkjurefil. Hvammskirkja í Laxárdal á aptur á móti sýnilega kirkjurefil, 24 álna; á hann er mörkuð Karlamagnússaga[5]). Hvað hátt refillinn hefur hangið á vegg hefur farið eptir hæð tjaldsins. Hvað breiður refillinn hefur verið til uppjafnaðar, er ómögulegt að segja, og reflar þeir, er þjóðminjasafn vort á, eru allir rekkjureflar frá því eptir siðaskiptin og skipta því hér engu máli, þó auðséð sé, að verið sé í gerð þeirra að stæla forna refla »með heiðið stykki«[6]). Bayeux-refillinn, sá er nefndur var, er nákvæmlega 50 cm á hæð. Lengd refla er víða nefnd, 8 álnir[7]), 9 álnir[8]), 12 álnir[9]), 17 álnir[10]) og alla leið upp í 52 álnir varmæltar[11]), alt íslenzkt mál, og að því er til verðmætisins kemur, er nefnt »hálft fjórða hundrað í reflum«[12]). Að hve miklu leyti þeir hafi að jafnaði náð um kirkjuna, má sjá af orðatiltækjum, svo sem »refill utar um kirkju«[13]), »refill í sönghúsi«[14]), »um þvert yfir altari«[15]) og »um bjór í sönghúsi«[16]). Frágangur refla er þrívegis nefndur utan Hólamáldag-

---

1) *Hildebrand* 76. 2) *D. I.* III, 711. 3) Skjalið er afhending á veraldlegu góssi staðarins; hann er talinn innan um stofubúnað. 4) *D. I.* III, 710. 5) *D. I.* III, 174. 6) Sbr. *Þjóðminjas.* 64—5. 7) *D. I.* II, 378. 8) *D. I.* II, 440. 9) *D. I.* II, 786. 10) *D. I.* II, 476. 11) *D. I.* III, 482. *Wallem* 27 heldur að »varmæltur« sé efnið í reflinum. Hann virðist ekki vera stálsleginn í miðíslenzku, sem hann, guð veit hvers vegna, altaf kallar »oldnorsk«. 12) *D. I.* II, 581. 13) *D. I.* II, 463. 14) Ibid. 15) *D. I.* IV, 67. 16) *D. I.* IV, 164.

anna; í eitt skiptið línrefill[1]), annað »reflar með ullþelum«[2]) og hið þriðja »skrúðreflar 2 góðir norrænir«[3]), og má af því ráða tvent, að hafðir hafi verið sérstakir reflar svo sem spari[4]), svo og hitt, að altítt hafi verið að hingað hafi flutzt útlendir reflar. Þareð reflarnir héngu fyrir ofan tjöldin, lágu þeir við beran kirkjuvegginn, en til að hlífa þeim við sagga og fúa, voru lagðir undir þá dúkar. »Línrefill dúklaus«[5]), »reflar með líndúkum«[6]) og »dúkar undir reflum«[7]). Wallem virðist halda[8]), að reflarnir hafi legið með dúknum ofan á tjöldunum ofanverðum. Ef svo hefði verið, hefðu hlífardúkarnir verið óþarfir. Á vegginn í kirkjunni í Råda í Svíþjóð eru um 1300 málaðir reflar og tjöld undir; eru tjöldin greinilega viðlosa reflana[9]), svo hér á er enginn efi. Hóladómkirkja átti:

1374. Forna refla góða átta álnum fátt í 200 álna.

1396. 1) Refla 100 álna.

2) Refil nýþelaðan.

3) Eina ferskeptu[10]).

b.) Tjöldin tóku við fyrir neðan refil; voru þau og stundum nefnd sparlök[11]). Þó að þau væru víða mjög ríkmannleg, sýnist ekki hafa verið því að heilsa hér. Nefnt er lérept um kór[12]), ferskepta[13]), steintjald[14]) eða steinklæði[15]), og hæst kemst það að nefnt er sprangtjald[16]) og »blátt klæði og saumað á og refill umfram«[17]), en einu sinni er getið um að tjöld séu útlenzk[18]). Um lengd eða breidd á tjöldum er hvergi getið, nema kirkjutjöld hálffimtug[19]), en mjög opt er tiltekið hvað þau nái. »Tjöld um alla kirkju«[20]), »tjöld

1) *D. I.* IV, 137. 2) *D. I.* III, 718. Eru tæplega kirkjureflar. *Wallem* 27 misles velþelum fyrir ullþelum. Misskilur alt um efni refla. 3) *D. I.* II, 463. 4) *Wallem* bls. 26—7 heldur, að skrúðreflar sé »tautologiskt«, svipað og gufudampur, en það merkir vitanlega sérstaklega vandaða refla. 5) *D. I.* IV, 137. 6) *D. I.* III, 718. 7) *D. I.* II, 463 og víðar. 8) Bls. 26. 9) *Hildebrand* 83—4. 10) Óefað refill þarna. 11) *D. I.* III, 84. 12) *D. I.* V, 277. 13) *D. I.* III, 160. 14) *D. I.* II, 441 og víðar. 15) *D. I.* II, 427 og víðar. 16) *D. I.* V, 309. 17) *D. I.* II, 427. 18) *D. I.* VII, 82. 19) *D. I.* II, 635. 20) T. d. *D. I.* II, 117.

umhverfis kirkju«[1]), »kirkjutjöld öll«[2]), »kirkja altjölduð«[3]), »tjöld um sönghús«[4]), »sönghústjöld«[5]), »steintjöld yfir altari«[6]) mætir manni svo að segja við hvert fet um máldagana, eða eitthvað svipað. Sumar kirkjur létu sér ekki nægja að vera tjaldaðar um kór og framkirkju, heldur var og tjaldaður stöpullinn í sumum[7]), og þó nokkrar kirkjur voru svo efnum búnar að geta tvítjaldað sig[8]). Svo að tjöldin skemdust ekki af raka úr veggnum, voru lagðir dúkar undir þau eins og reflana. »Tjöld um framkirkju dúkalaus«[9]) og »dúkur með tjöldum«[10]) verða fyrir manni svo að segja eins opt og tjöldin sjálf. Verðs er stundum getið á tjöldum: »tjöld til átta aura«[11]), »tjöld umhverfis kirkju hálft annað hundrað«[12]), »tvö hundruð í tjöldum«[13]), »kirkjutjöld hálffimtug með dúkum fyrir 4 hundruð«[14]). Hvernig tjöldin voru hengd sést ekki, en líkast er að þau hafi verið fest á nöglum, með nokkru millibili, og lagst í fellingum niður af þeim og bogum á milli þeirra. Hóladómkirkja átti

1374. Tapeta tvö.
1396. — tvö.
1525. Tjöld sex steind með lérept.
1550. 1) Tjöld með refilsaum óþeluð um allan kór.
 2) Steintjald fyrir altari.
 3) Borusaumstjald á Jesúkór (þ. e. hákór).
 4) Tjöld ofin fram í kirkju tvö, sitt hvorum megin, svo löng sem kirkjan er[15]).

c.) Brún og borði sýnist óefað vera hið sama og refill. Er hvorttveggja nefnt á sama hátt og hann, t. d. »tjöld og borðar umhverfis kirkju«[16]) eða »tjöld um alla kirkju og brún«[17]). Bæði brún og borði er nefnt með

1) T. d. *D. I.* II, 484. 2) T. d. *D. I.* I, 416. 3) T. d. *D. I.* II, 437. 4) T. d. *D. I.* I, 409. 5) T. d. *D. I.* I, 405. 6) T. d. *D. I.* V, 265. 7) *D. I.* II, 85. Páll biskup lét tjalda stöpulinn í Skálholti, og átti til þess þrenn tjöld. *B. S.* I, 132. 8) *D. I.* IV, 238, II, 779 og víðar. 9) *D. I.* II, 616. 10) *D. I.* II, 683. 11) *D. I.* II, 119. 12) *D. I.* II, 775. 13) *D. I.* II, 771. 14) *D. I.* II, 635. 15) Alt lagt til af biskup Jóni. 16) *D. I.* II, 781. 17) *D. I.* III, 522.

dúkum[1]) og er því ekkert að efa. Nefnd er brún með ullþel[2]). Hóladómkirkja átti

1374. Borða fimtiger álna og sex.

d.) Bjór hét sá partur af kirkjugafli, er lá ræfra milli, og var þar hengt tjald, sem nefnt var bjórtjald[3]) eða bjór[4]). Bjórarnir voru auðvitað tveir[5]) og eru þeir því optast nefndir í fleirtölu og þá optast í sambandi við tjöld, t. d. »tjöld umhverfis kirkju og bjórar«[6]). Hvergi er getið um stærð, verð eða frágang á bjórum. Hóladómkirkja átti

1374. Bjóra 6.

Þegar stundir liðu fram, og helgi- og hátíðisdögum fjölgaði — en þeir voru, þegar að siðaskiptunum leið, orðnir æðimargir — fóru menn að gefast upp á því að vera að tjalda kirkjurnar og rýja á víxl, og kringum 1300 og úr því er ekki borið við að taka ofan tjöldin. Það er þá orðið svo ríkt í mönnum að kirkja standi altaf altjölduð og ekki þurfi að vinna það starf, að þegar verið er að ganga frá þeirri meðferð af Jónssögu Hólabiskups, sem útgefandi Biskupssagna kennir við Gunnlaug munk og rituð er um 1300[7]), þykir sagan af Einari djákna, sem sagt var frá hér áður, sem eptir elztu sögunni skrýddi kirkju á móti Andrés messudegi, svo óeðlileg, að því er breytt í að hann hafi verið að skrýða altari[8]). Eftir það er tjöldum og reflum vitanlega miklu hættara við skemdum, og því varð að varna. Dúkar þeir, sem, eins og getið var um, voru undir þeim hafðir til að verja þau slagningi, voru liður í þeim vörnum, enda eru þeir fyrst nefndir eptir 1300. En vitanlega hlaut og að setjast á þau ryk og aðallega sót úr glóðarkerjum og kertum. Var því daglega brugðið fyrir tjöldin sótdriptum, og eru orðatiltæki eins og »tjöld umhverfis kirkju, bjór og sótdript«[9]) eða »kirkja altjölduð með bjórum og sótdriptum«[10]) úr því mjög algeng. Á hátíð-

1) T. d. *D. I.* III, 527, 566. 2) *D. I.* III, 718. 3) *D. I.* II, 768 og víðar. 4) *D. I.* II, 427 og víðar. 5) *D. I.* V, 251. 6) *D. I.* I, 402. 7) Sjá bls. 11 hér að framan. 8) *B. S.* I, 253. 9) *D. I.* II, 484. 10) *D. I.* II, 437.

um og tyllidögum hefur sótdriptinni verið svipt af. Óefað hafa sótdriptirnar verið svo frágengnar að lýti væri ekki að, sem ráða má af því að nefndar eru sótdriptir blámerktar með tjöldum[1]). En þrátt fyrir sótdriptir og dúka hafa engin íslenzk tjöld geymst nútíðinni.

10.) *Gólfábreiður* (substratoria) voru á miðöldunum tiltölulega fátíðar bæði hér og annarstaðar. Var það að vonum úti í löndum, þar sem gólfin opt voru skínandi listaverk (mosaik o. s. frv.), en ekki er gott að gizka á, hverju hér hefur valdið. Einkennilegastar og algengastar gólfábreiður eru bjarnskinnin. Voru hvítabjarnarskinn, að því er Olaus Magnus segir, höfð á altarisþrepum[2]). Bjarnfell[3]) og bjarnskinn[4]) eru nefnd opt, og er jafnvel stundum greint svo nákvæmlega frá, að nefnt er bjarnskinn af hún[5]); optar er þó farið miður nákvæmlega í sakirnar og látið duga að kalla það fótaskinn[6]) þó efalítið sé átt við bjarnskinn. En ekki var bjarnfeldum ætlaður sá starfi einn að verja fætur kennimanna kali. Þá var sá siður, að þeir sem höfðu útistöður, það er að segja, vegna afbrota sinna áttu ekki kirkjugengt, stóðu berfættir fyrir kirkjudyrum, og var sá siður hér á landi, að fá þeim bjarnfeld til að standa á, svo að þeir króknuðu ekki með öllu út af[7]). Nefnd er og ábreiða[8]), ábreiðsl[9]), fótaklæði[10]), kögur[11]) og salún[12]), og segja þau nöfn öll vel til sín nema salún, enda er sagan af því bæði merkilegt og skemtilegt sýnishorn af refilstigum málsins. Svo sem minst hefur verið á, voru líkaábreiðsl opt úr salúni og drógu af því heitið líka-

---

1) *D. I.* II, 455. 2) »Ita et de reliquis animalibus damnosis in tota Septentrionali plaga observatur, salvo quod pelles grandium ursorum præsærtim alborum, scabellis sacrorum altarium, ne frigus sacerdotibus noceat, substernentur«. *Olaus Magnus: De gentibus septentrionalibus historia.* Amberg 1599. Lib. IV, cap. XVI, bls. 157. 3) T. d. *D. I.* II, 469. 4) T. d. *D. I.* II, 453. 5) *D. I.* III, 550. Registur við D. I. V nefnir »bjarnfeldur á altari«, en það er tekið ranglega saman. 6) T. d. *D. I.* II, 427. 7) *B. S.* I, 855. Sbr. Skriptabréf síra Þórðar Roðbjartssonar 1431 *D. I.* IV, 457. 8) T. d. *D. I.* IV, 374. 9) T. d. *D. I.* II, 459. 10) T. d. *D. I.* II, 474. 11) *D. I.* III, 553 og víðar. 12) T. d. *D. I.* II, 635.

salún, en af því virðist hafa leitt tvent, að ábreiðsl annarsvegar hafi alment hlotið nafnið salún, en salúnsvefnaður hinsvegar hafi hlotið nafnið ábreiðsl; gólfdúkar eru, eins og tekið var fram, greinilega nefndir salún, en í máldaga einum er nefnd ábreiðslkápa[1]), þ. e. kantarakápa, og verður hvergi séð, að ábreiðsl sé eðlilegt samheiti við neitt það efni, er í kápur væri hæft, nema einmitt við salún og þá í orðunum líkaábreiðsl — líkasalún; en salún var algengt kantarakápuefni, svo sem getið hefur verið. Ekki er talað um, hvar í kirkjunum fótaskinnin og ábreiðslin voru höfð, en eðlilega hlýtur það að hafa verið þar sem kennimenn helzt höfðust við, fyrir altari[2]), formum, stólum og lektörum. Um frágang og verð hermir hvergi, nema hvað nefnt er ábreiðsl á fimm aura[3]). Hóladómkirkja átti

1374. Kögra þrjá.
1396. Bjarnfeldi átta.
1525. 1) Bjarnfeldi fjóra.
 2) Kögra fjóra nýja.
 3) Kögur lítinn með sækögur[4]).
 4) — fornan.
1550. 1) Bjarnfeldi tvo.
 2) Feldaslitur tvö.
 3) Kögurfeldi þrjá[5]).

11.) *Ýmiskonar dúka og efni* er Hólakirkja talin eiga, sem sumpart ekki verður ráðið í hvað er eða ekki er kirkjuskrúði eins og það liggur fyrir, en vel hefði mátt verða, ef úr hefði verið unnið, blátt áfram ósniðnir dúkar. Hóladómkirkja átti

1369. Pálmadagsdúka tvo.

Hvergi er í neinum, hvorki eldri né yngri, kirkjusiðabókum getið um neina slíka dúka, ekki heldur nefnir handritið AM. 266, 4to, sem á bls. 2 lýsir nákvæmlega

1) *D. I.* III, 123. 2) Sbr. tilvitnuð ummæli Olai Magni. 3) *D. I.* II, 430. 4) Þ. e. kögur (»frunsur«) úr sæi. 5) Með kögurfeldur er óefað átt við skinn, sem lagt er klæði undir og utan með, svo úr því verði kögur.

kirkjusiðunum á pálmadag, þá með einu orði. Ekki er og heldur neitt atriði í helgisiðunum, það er gefi vísbendingu um nokkra þörf á slíkum sérstökum dúkum, og er því blátt áfram ógjörningur að gjöra sér með vissu í hugarlund við hvað er átt. Ef til vill gætu dúkarnir hafa verið hafðir undir greinarnar sem vígðar voru á pálmadag, þó hvorki sé þörfin brýn né greinileg.

Enn átti Hóladómkirkja

1525. Himna tvo.

Frá því á 12. öld hafði verið siður að páfinn léti bera yfir sér himin (baldachinum). Er Kristslíkamadýrkunin fór að magnast eptir að lögtekinn var dýridagur, var farið með guðslíkama í processíum undir himni, er fjórir menn báru á stöngum, og var það orðið alsiða á 14. og 15. öld. Það er óefað átt við tvo slíka himna hér, og hafa þeir verið fágæti. Magnús lagabætir gaf Árna biskupi Þorlákssyni »baldiken það, sem hann gaf herra Runólfi í Veri ábóta«[1]). Hér gæti auðvitað verið átt við himin, orðanna vegna, en vegna tímans (lok 13. aldar) verður að álíta að átt sé við silkiefnið austræna með því nafni.

Það hefur fráleitt verið fátítt að kirkjur væru forsjálir búmenn og ættu efni bæði í föt og dúka, því að ekki var þá, eins og nú, hægt að fara í búðina, ef eitthvað vantaði, enda eru þess dæmi, að kirkjum hafi verið gefin fataefni og það ríkulega. Í erfðaskrá Björns Jórsalafara 1405 segir: »Item gefur eg kirkjunni í Vatnsfirði 12 stikur með bleikt lérept til messuklæða og þar til hökulsefni«[2]), en það var ekki lítið sem mátti gjöra af messuklæðum úr 12 stikum (ríflega 10 m). Á dómkirkjunni hlaut þetta að vera sérlega nauðsynlegt, því hún gat þurft að sjá öðrum kirkjum fyrir skrúða, en þar eð enginn gjaldeyrir var til í landinu, varð hún að hafa auðæfi sín í einhverju og voru dúkar sæmileg eign, enda opt notaðir til greiðslu í viðskiptum manna á meðal einmitt af kirkjulegum stofnunum[3]). Hóladómkirkja átti

1) *B. S.* I, 713. 2) *D. I.* III, 702—3. 3) T. d. *D. I.* V, 722.

1374. 1) Átta álnir með strik[1]).
2) Gullhlöð smá fimm.
1396. Fjórar álnir strik.
1525. 1) Búkram með fargan[2]) 40 stikur[3]).
2) —— ófargað 30 stikur.
3) Stafadúk[4]) 30 stikur.
4) Kolneskt[5]) 20 stikur.
5) Dúk glitaðan 20 stikur.
6) — — 10 stikur.
7) Arest[6]) 100 stikur.
8) Varpaðan dúk 10 stikur.
9) —— — 7½ alin.
10) Hringofna dúka (síridúka) 2, hvor 6 stikur.

III. **Kirkjuáhöld.** Þó að það séu kirkju- og kennimannaskrúðarnir og kirkjusiðirnir, sem settu svipinn á guðsþjónustuna, þá eru þó kirkjuáhöldin, sem mikið minna ber á, að öllu leyti þýðingarmeiri, ekki aðeins fyrir helgi sakir, af því að þau komast í náið samband við sakramentin, heldur og fyrir það, að án þeirra, sumra að minsta kosti, var og er beint líkamlega ómögulegt að koma helgiathöfnunum í framkvæmd. Má skipta kirkjuáhöldunum í 10 flokka: 1) Sakramentisáhöld, 2) Vatnsker, 3) Helgir dómar og skrín, 4) Ljósog eldsáhöld, 5) Píslarmörk, 6) Líkneski, 7) Sæti og lektarar, 8) Klukkur, 9) Hirðslur og 10) Graftól.

1.) Sakramentin eru, svo sem kunnugt er, 7 talsins og þarf til framkvæmdar 6 þeirra — skírnar, altaris, biskupanar, skripta, prestvígslu og oleanar sakramentanna — sérstök áhöld.

a.) Altarissakramentið er framið á altari; þarf til

---

1) Strik og strip (norskt) er einskonar röndóttur silkivefnaður. Hefur Matth. þjóðminjav. Þórðarson góðfúslega látið mér þessa fræðslu í té. 2) = steint. 3) Stikan = 2 álnir; alin = 46 cm. 4) Gæti verið sama og fustan, ef það orð, eins og getið hefur verið til, væri komið af latneska orðinu fustis — póstur, stafur. 5) Kölnarvefnaður var á miðöldum frægur, sérstaklega messufataefni. 6) Mislitur líndúkur, kendur við borgina Arras á Frakklandi, sbr. *Lexicon infimæ latinitatis.*

þess, auk þeirra dúka, sem getið hefur verið, og altarissteins, kaleik og patínu[1]). Uppruni og þróun skiptir hér engu máli, því þegar kristni fluttist hingað, voru bæði búin að fá á sig það snið, sem þau hafa enn: bikarsbolli á fæti og diskur er fellur yfir bollann. Eitthvað virðist patínunotkun þó hafa verið takmörkuð fram á miðja 14. öld, því Jón biskup Sigurðsson býður í skipan sinni 1345, að prestar »neyti guðs líkama af patínu«[2]). Ekki eru til nein íslenzk ákvæði um, úr hverju kaleikur og patína skyldu vera, en í Gratian er tiltekið, að þessi áhöld megi vera úr gulli, silfri eða tini, en bannað að þau sé úr kopar, messing, tré eða gleri[3]). Að vísu eru hér nefndir gullkaleikar[4]), silfurkaleikar ógyltir[5]), silfurkaleikar gyltir[6]) og algyltir[7]), en eptir reglunni hefur þó ekki verið farið nema þegar svo bar undir, því einnig er nefndur glerkaleikur[8]), koparkaleikur[9]) og eirpatína[10]). Um fráganginn er stundum getið, t. d. »gullkaleikur með gyltum smisum«[11]), »kaleikur með víravirkjum algyldur«[12]), en langoptast er þess þó getið, hvað kaleikarnir vegi, séu þeir úr dýrum málmi, t. d. »kaleikur er stendur 11 aura«[13]), »silfurkaleikur gyltur er vegur 12 aura«[14]). En hér um eru svo miklu betri gögn en máldagarnir, nefnilega kaleikarnir sjálfir. Í Þjóðminjasafninu í Reykjavík eru að minsta kosti 11 kaleikar, sem áreiðanlega eru frá miðöldum[15]), allir úr silfri og hinir prýðilegustu að gerð, sumir með rómönsku sniði, sumir með gotnesku, og eru tveir þeirra, annar frá Skálholti[16]) og hinn frá Grund[17]), sannnefnd listaverk, og er hinn síðarnefndi settur gimsteinum.

1) T. d. *D. I.* I, 243. 2) *D. I.* II, 795. 3) Decretum, pars tertia de consecratione, canon 44, 45, distinctio I, sbr. Decretalia Gregorii caput 5, liber I, titulus 14. 4) T. d. *D. I.* I, 417. 5) T. d. *D. I.* II, 737. 6) T. d. *D. I.* I, 402. 7) T. d. *D. I.* II, 259. 8) *D. I.* III, 512. 9) *D. I.* VII, 43. 10) *D. I.* IX, 322. 11) *D. I.* IV, 104. 12) Ibid. 13) *D. I.* II, 378. 14) *D. I.* II, 463. 15) Nr. 2596, 3436, 5599 a—b, 5908, 6120 a—b, 6168 a—b, 6236, 6267 a—b, 6440 a—b, og auk þess tveir í Vídalínssafni. 16) Nr. 2596. 17) Í Vídalínssafni.

Hafa beztu kaleikar opt verið það; að minsta kosti var gullkaleikur sá, er Klængur biskup lagði Skálholtskirkju, settur gimsteinum[1]). Í þjóðminjasafni Dana eru og til þrír, en hinn fjórði að dómi Wallems[2]) er kókoshnot silfurbúin og komin frá Odda. Wallem kvartar undan því, að ekki sé getið um þennan kaleik í Oddamáldögum, en það er engin furða, því þetta hefur aldrei í upphafi kaleikur verið. Það sýnir lag og hvað eina; þvottur hans við altari væri erfiður; í stuttu máli, það er litúrgiskt ómögulegt. Hann er veraldlegur bikar, svokallað mösurker, sem opt er nefnt[3]). Verðmæti kaleika er nokkrum sinnum nefnt, t. d. kaleikur virtur á 4 hundruð[4]), kaleikur fyrir hálfa fimtu mörk[5]). Optast var kaleikur nefndur því nafni; þó er til messukaleikur[6]) og kirkjukaleikur[7]). Fyrir mun það hafa komið, að gefin væru til veraldleg ker, svo af þeim væru gjörðir kaleikar; getið er um »silfurskál til að gjöra af kaleik«[8]). Getið er um kaleikshús[9]). Kaleik hverjum fylgdi patína samstæð, og var á barminn optast markaður kross (vígslumark), en þar mynnist prestur við hana áður en hann brýtur á henni brauðið í messunni. Hóladómkirkja átti:

1374. 1) Gullkaleika tvo.
2) Kaleika gylta sjö.

1396. 1) Gullkaleika tvo.
2) Kaleika gylta sjö.
3) —— ógylta þrjá.

1500. Kaleika 6 og 1 brotinn (ɔ: alls 7); tveir af þeim, sem eru dýrlingaeign[10]), eru úr gulli, hinir gyltir nema tveir.

1525. 1) Gullkaleik með gullpatínu, er vegur nær hálfa níundu mörk[11]).

---

1) *B. S.* I, 83. 2) Myndaðir hjá *Wallem* 73. 3) T. d. í Hólamáldögunum 1374 og 1396. Dregur nafn af borginni Mosul í Persíu. 4) *D. I.* II, 775. 5) *D. I.* II, 771. 6) *D. I.* V, 301. 7) *D. I.* V, 266. 8) *D. I.* IV, 154. 9) *D. I.* VI, 328. 10) Siður var að gefa gripi til ákveðins altaris og var þá talið gefið þeim dýrling, er altarið var helgað. 11) Er þetta kaleikurinn, er danskir rændu á Hólum og biskup Gottskálk lagði til.

2) Silfurkaleika 19 með patínum.
1550. 1) Gullkaleik hálfa níundu mörk[1]).
2) Kaleika átta með patínum.
3) —— litla fimm[2]).
4) Kaleik einn[3]).

Laurentius biskup lét gullsmið þann, er Eyjólfur hét, smíða handa dómkirkjunni kaleik sæmilegan, sem gæti verið annar þeirra gullkaleika, sem dómkirkjan á 1374. Í þessu sambandi má geta þess, að Wallem tekur það réttilega fram, að ekki bendi neitt á, að hér á landi hafi verið notuð sía við kaleiksvínið eða að leikmenn hafi drukkið blóðið um pípu, og er það sízt að furða, því sá siður var aldrei til á Norðurlöndum, sem hann vill þó láta hafa verið[4]). Ber hann fyrir sig, að í skrá yfir gripi, sem teknir hafi verið um siðaskiptin á Ólafskirkju í Wisby á Gotlandi, sé nefnt: »1 Rorichin do man spollinge dorch gegeben«. Þennan stað hefur hann þó misskilið, því þetta þýðir: »pípa, sem þeim er spilla niður er gefið um«, og er það auðséð, að þetta er ætlað örvasa prestum, svo þeir steypi ekki niður sakramentinu, er þeir syngja messu, en það þótti hið mesta óhapp, ef slíkt bar undir, og hlauzt af margskonar bjástur og umstang, svo sem getið er. Á sama stað segir Wallem, að á Tjörn sé 1394 nefndur spónn til að »flytja obláturnar úr huslkerinu«. Er þessi skýring á brauðspónum röng, sem minst gjörir til, því þeir tíðkuðust aðeins í austurlenzku kirkjunum. Spónninn á Tjörn er reykelsisspónn.

Sakramentið var framleitt í kaleik og á patínu undir messu, en aldrei utan. Fyrir því varð að geyma það, svo að það væri sjúkum til reiðu milli messna. Sá siður var hér á landi jafngamall kristni, og brann fyrsta Hólakirkja, sú er Oxi bygði á árabilinu 1050—1106, upp »með öllu skrúði sínu og leyndum dómi guðs«[5]).

1) Þetta er kaleikurinn, sem danskir rændu á Hólum og biskup Gottskálk lagði til. 2) Biskup Jón lagði til. 3) Var tekinn í Sauðafellsreið. 4) *Wallem* 76. 5) Sjá bls. 8 í þessu riti.

Biskupastatútur kveða svo á, að eucharistiam skuli geyma í læstri hirðslu, svo enginn maður eða óhreinindi nái til, og leggja afsetningu við, ef hundur eða mús kemst í[1]), sem eptir þessum bókum ekki hefur verið dæmalaust. En geymt mun það að jafnaði hafa verið í messufatakistu[2]). Ekki máttu prestar geyma þjónustu lengur en mánuð og skyldu þá endurnýja[3]). Var sakramentið geymt í sérstöku keri, sem nefndist ýmsum nöfnum: propitiatorium[4]) — og var það heiti algengast —, þjónustuhús[5]), þjónustuker[6]), þjónustubuðkur[7]), huslker[8]), sem dró nafn sitt af gotneska orðinu hunsl, sem þýðir brauð, eucharistiarium[9]), en sakramentið heitir á grísku *ευχαριστια,* og guðslíkamahús[10]). Varð vitanlega að hafa það úr góðum efnum eins og kaleikinn, enda eru þau nefnd með silfur[11]), með silfur gylt[12]), með silfur og kopar utan[13]), með kopar[14]), forgylt með kopar[15]), og með tönn[16]). Nefnd eru og nokkur ker, sem auðsjáanlega hafa ekki í öndverðu verið ætluð undir sakramentið, svo sem »silfurhirðsla lítil er geymt er í corpus Christi«[17]) og »filsbeinsbuðkur er fyrir huslker er haft«[18]). Wallem heldur[19]), að oflátubuðkur og baksturbuðkur séu heiti á huslkeri, en það er með öllu rangt og gjörósamrýmanlegt eðlilegum skilningi á fyrirbrigðum rómverskrar kristni, því engum kaþólskum leikmanni, hvað þá heldur presti, en þeir hafa samið máldagana, hefur nokkurn tíma dottið í hug að kalla guðslíkama bakstur eða oflátu; því veldur trúin á svonefnda transsubstantiation, þ. e. að brauð og vín sé sannarlega, virkilega og verulega líkami Krists

---

1) *D. I.* II, 276, 518. 2) Sbr. AM. 266, 4to, bls. 2. 3) *D. I.* I, 435. Nú á dögum má ekki geyma guðslíkama lengur en hálfan mánuð; mygla sækir sem sé ákaft á brauðið. 4) T. d. *D. I.* II, 433. 5) T. d. *D. I.* III, 171. 6) T. d. *D. I.* II, 440. 7) T. d. *D. I.* II, 446. 8) T. d. *D. I.* III, 213. Skýringin í registri D. I. II, er röng. 9) T. d. *D. I.* IV, 181. 10) T. d. *D. I.* III, 531. 11) T. d. *D. I.* III, 160. 12) T. d. *D. I.* II, 681. 13) T. d. IV, 74. 14) T. d. *D. I.* IV, 117. 15) T. d. *D. I.* IV, 423. 16) T. d. *D. I.* IV, 107. 17) *D. I.* II, 474, III, 160. 18) *D. I.* IV, 138. 19) Bls. 75.

og blóð aðeins í gerfi brauðs og víns. Oflátubuðkar eru vitanlega ílát undir óvígt altarisbrauð. Gerð á huslkerjum var með ýmsum hætti; það gat verið fótarlaus baukur með loki og það gat verið lokað ker á stétt[1]), og optsinnis var það í dúfulíki; var það og opt hengt upp í húfuna yfir altarinu. Ekki virðist það hafa verið algengt, en fyrir kom það, því nefnt er »huslker hangandi«[2]). Venjulegasta heitið latneska á huslkeri var pyxis. Margsinnis er getið um þyngd á huslkeri úr göfugum málmi, t. d. propitiatorium 6 aura af silfri[3]) og þar fram eptir götunum. Á fráganginn er sjaldan minst; þó er nefnt »eucharistiarium með silfur gylt og grafið og amúlerað«[4]) og »propitiatorium með silfurbúnaði og ofan á hani«[5]). Um verðmæti huslkerja er til nógu skemtilegt og greinargott gagn; það er kaupbréf um slíkt ker frá 1473. Steingrímur Ísleifsson selur Einari bróður sínum ábóta á Munkaþverá propitiatorium með silfur, er vegur vart fjórar merkur, »klaustrinu til heiðurs og sæmdar og fullrar eignar«, en fyrir það skyldi ábóti gjalda 10 málnytu kúgildi og fimm geldfjár kúgildi eptir vorlagi, tvítuga voð, 2 stikur klæðis og 2 klippinga upp á hvert ár meðan fimm hundruð stæðu eptir ógreidd[6]). Mikið gat myntarleysið gert miðaldaviðskipti kringileg. Huslker íslenzk eru engin til nú svo vitað sé. Nú er það auðskilið, að ekki hefur verið hægt að bera sakramentið til sjúkra í huslkerjunum sjálfum; það hefði verið of óhentugt, ef um langa leið hefði verið að ræða og í vondu veðri, og eru til tvenn ákvæði um það, annað frá 1290 í skipan Jörundar erkibiskups; þar segir, að prestar skuli, ef leið sé löng, bera sakramentið »á hálsi sér í hreinum pungi eða skjóðu og geyma vandlega það, sem afgengur«[7]); hitt er í skipan Eilífs og Jóns frá 1323, og þar segir: »Prestur skal hvern tíma er hann fer í hérað í nauðsýn til sjúks

1) Stéttarker, sem opt eru nefnd í máldögum, eru að jafnaði ekki huslker, heldur bikarar til veraldlegra nota, þó svo sé ekki í Hólamáldögunum. 2) *D. I.* V, 325. 3) *D. I.* II, 456. 4) *D. I.* IV, 181. 5) *D. I.* III, 565. 6) *D. I.* V, 722. 7) *D. I.* II, 276.

manns hafa með sér viaticum[1]) hreinlega geymt í handbók og bera sjálfur fyrir sér á brjósti bæði til kirkju og frá og eigi öðrum í hendum fá, nema prestur sé eða djákn«[2]). Auðséð er, að hér hafa báðar aðferðirnar verið hafðar, því allopt eru nefndir huslpungar[3]) eða pungar[4]), og hafa þeir verið vandaðir eins og sómdi, enda er nefndur bæði huslpungur með pell[5]) og silkipungur[6]), en um geymslu sakramentisins í handbók segir Hólamáldaginn 1550 glögglega. Í huslkerjum og öðrum sakramentishirðslum átti Hóladómkirkja:

1374. 1) Propitiatorium Maríu með silfur.
2) Stéttarker.
1396. 1) Propitiatorium lítið.
2) Stéttarker gylt.
1500. Propitiatoria 2 úr silfri gylt.
1525. 1) Propitiatorium[7]) stórt forgylt.
2) —— lítið með silfur.
1550. Propitiatorium[8]) með silfur, sem hafa má í handbókarhúsum[9]).

Eptir að festum corporis Christi — dýridagur, nýjahald — var orðið lögmætur helgidagur um alla kirkjuna, er eins og breytist dýrkun altarissakramentisins og taki stakkaskiptum á ytri manninn. Sakramentið er úr því ekki aðeins »guðslíkami, er kallast englabrauð og vegfarandi manna fæða«[10]), heldur verður það nú nokkurskonar helgur dómur, sem það reyndar altaf hafði verið, en nokkuð í sama skilningi og dómar helgra manna. Helgir dómar voru hafðir til sýnis á altarinu og bornir í prósessíum, og varð úr því að koma sakramentinu fyrir í þar til hæfu keri. Um nokkurt skeið höfðu í útlöndum þekst svonefnd monstrantia eða osten-

---

1) Vegarnesti. Svo er sakramentið nefnt, er það er fært deyjandi mönnum. 2) *D. I.* II, 527. 3) T. d. *D. I.* II, 404. 4) T. d. *D. I.* III, 522. 5) *D. I.* IV, 196. 6) *D. I.* III, 288. 7) Í textanum stendur proficiatorium. 8) Í textanum stendur prostorium. 9) Er hér átt við huslker, sem bera má sakramentið í til sjúkra, og sést, að það var haft í húsunum, en ekki í bókinni sjálfri. 10) Sjá *B. S.* I, 249.

soria, þ. e. sýniker undir helga dóma; voru það glerhylki í prýðilegri umgjörð og á fæti þar sem geyma mátti helgan dóm sýnilegan[1]). Þetta ker var með örlitlum breytingum tilvalið undir sakramentið. Það var kaleiksfótur, en miklu stærri, ofan á honum mikil gotnesk turnbygging og í henni miðri glergluggi eða horn, en fyrir aptan hann var sakramentið haft fest í tunglmyndaða kló, sem nefnd var lunula eða pyxis. Það er fyrst eptir 1316[2]), að sakramentis-prósessíurnar (teosphoriskar prósessíur) hefjast, og með þeim fara sakramentis-monstransarnir að verða algengir. Fyrsta sinn er hér á landi sýnist vera nefnt monstrans er 1391, og er ekki von á því fyr; þá á Grenjaðarstaðarkirkja »propitiatorium og annað innaní«[3]), og getur þar ekki verið átt við annað en monstrans með lunula. Að svo sé í raun réttri, sést á lýsingunni á monstransi því, sem Möðruvellir í Eyjafirði eiga 1461, »propitiatorium með kopar forgylt og er horn í miðju og annað lítið með silfur þar innaní«[4]). Monstransið er fyrst nefnt því nafni hér á landi 1488 í Odda. Monströns voru og eru enn dýrgripir mestu bæði að efni til og frágangi og voru það vitanlega eins hér sem annarstaðar. Monströns eru hér svo sjaldan nefnd, að auðséð er, að þau hafa aðeins verið búin að tylla hér tánni, en ekki koma fyrir sig fótunum, er siðaskiptin komu. Héðan af landi eru nú engin monströns til. Monstransfótur sá, sem Sigurður málari telur forngripasafnið eiga[5]), er fótur undan píslarmarki af alveg sérstakri gerð, sem síðar mun vikið að. Þykir Sigurði áletrunin »Jesus Nasarenus rex judæorum« mæla á móti því, að fótur þessi geti verið undan krossi, sem vitanlega er mesta fjarstæða; þetta stóð á krossi Krists og á flestum eptirmyndum hans. Hóladómkirkja átti

1500. Propitiatorium úr silfri og í því pyxis úr silfri undir guðs líkama.

---

1) *Otte* I, 208. 2) Það ár var Dýridagur gerður að allsherjar helgidegi, en lögtekinn hér 1325. *I. A.* 305. 3) *D. I.* IV, 21. 4) *D. I.* V, 307. 5) *Skýrsla um Forngripasafn* II, Kbh. 1824, 31. Þjóðminjas. Ísl. nr. 415.

1550. 1) Monstrancium stórt forgylt með silfur.
2) —— minna.

Aðalefnin í sakramentinu voru vín og brauð. Svo sem kunnugt er, neyttu aðeins prestar vínsins, og skyldi það vera hreint drúfuvín (vinum de vite)[1]), blandið vatni, þó ekki meira en svo, að enn mætti vín kalla; en vínið skyldu prestar taka hjá prófföstum, en prófastar hjá biskupi[2]). Siglingin var stundnm ekki góð, og varð þá erfitt með aðdrætti á víni; t. d. kom 1350 ekkert skip af Noregi til Íslands, og var »vín lítið, svo að lagðist af messusöngur að öllum útkirkjum á landinu«[3]), og var það ekki fyrsta skipti; 1326 hafði líka verið svo vínfátt í Skálholtsbiskupsdæmi, að sumstaðar lagðist af messusöngur[4]). Árið 1202 kom hingað til lands Jón Grænlendingabiskup Sverrisfóstri og gaf hann »mönnum ráð til, hversu vín skal gjöra af krækiberjum, eptir því sem Sverrir konungur hafði honum fyrir sagt«[5]); hefur þetta óefað átt að miða til, að ekki félli messusöngur sakir vínskorts, þótt ógild yrði reyndar innsetningin að lögum. Vínið og vatnið var haft í tveim litlum könnum (ampullæ), sem á íslenzku voru nefndar ýmist ampli, ampull, hömpull eða ömpull; var vínið í annari, vatnið í hinni. Amplar voru ýmist úr dýrum málmi með fögruverki — »amúlleraður ömpull«[6]) — eða úr lakara efni, t. d. tini[7]), og voru þeir stundum, svo að síður félli þeir um koll, settir á gálga, svonefndan könnustól[8]). Þegar Árni Magnússon kom á Hóla, var þar til ömpull, og lýsir hann honum svo: »Ampli er lítil vambarkanna, loklaus, með handarhalldi, meinast hafa verið brúkað til vatns, sem blandaðist í kaleik. Ein fylgir Hóladómkirkju, er af silfri. Vidi«[9]). Undir vatnið sýnast stundum hafa verið höfð horn[10]), og voru þau kölluð messuhorn[11]) eða vatnshorn[12]). Nú eru engir hömplar til af Íslandi. Hóladómkirkja átti:

---

1) Decretum Gratiani, pars III, de consecratione, canon 1—7, distinctio 2. 2) *D. I.* II, 800, sbr. IV, 588. 3) *I. A.* 355. 4) *I. A.* 396. 5) *B. S.* I, 135. 6) *D. I.* III, 242. 7) *D. I.* III, 482. 8) *D. I.* III, 577. 9) *D. I.* III, 608. 10) *D. I.* III, 528. 11) *D. I.* V, 267. 12) *D. I.* IX, 317.

1374. 1) Ampla tvo með silfur.
2) — þrjá með kopar.
3) — tvo með tin.
1396. 1) — tvo með silfur.
2) — tvo með kopar.
3) — tvo með tin.
1525. 1) Silfurhömpla tvo.
2) Tinhömpla tvo.
3) Koparhömpul.
4) Tinhömpul[1].
1550. 1) Koparhömpla tvo.
2) Hömpla tvo[2].

Annað aðalefnið í sakramentinu var brauð, og skyldi það eptir fornum sið kirkjunnar vera gjört úr hreinu hveiti og vatni og vera ósýrt (panis azymus)[3]; voru það oflátur með sama hætti og við þekkjum þær nú, og voru þær tvennskonar: stórar til að brjóta í messunni, minni til að gefa söfnuðinum, og voru markaðar á þær myndir eða stafir, t. d. Alpha og Omega eins og Laurentiusarsaga segir. Bakaðar voru ofláturnar á hverjum kirkjustað, en taka skyldu prófastar hveiti á biskupsstólnum og býta út með prestum sínum[4]. Bakað var brauðið með sérstökum járnum — töngum, baksturjárnum, sem víða eru nefnd[5], — en til að stinga oflátuna út úr brauðhleifnum var notað svonefnt oflátujárn[6] (ferrum characteratum, ferrum oblatorum)[7], og var það síðan geymt í oflátubuðk[8] eða baksturbuðk[9], þar til það var notað. Kirkjur áttu sjaldan bakstur fyrirliggjandi, því honum var mjög myglugjarnt, og það er því að vonum, að hann er ekki nefndur nema einu sinni[10]. Í Þjóðminjasafni voru eru til 4 baksturjárn[11],

1) Í biskupskapellu. 2) Bersýnilega sömu hömplarnir öll árin. 3) Sbr. Decretum Gratiani, pars tertia de consecratione, canon 4, 5, distinctio 2. 4) *D. I.* II, 800, sbr. IV, 588. 5) T. d. *D. I.* I, 266. 6) T. d. *D. I.* III, 1. 7) *Otte* I, 234. 8) T. d. *D. I.* IV, 44. 9) T. d. *D. I.* III, 514. 10) *D. I.* III, 518. Wallem heldur bls. 78, að kirkjubakstur »trygt kan betragtes som synonymt med baksturjárn«, sem vitanlega er fáránleg vitleysa. 11) Nr. 4036, 4396, 6179, 6231.

en óvíst er hvort nokkurt þeirra er frá miðöldum, og eitt þeirra er með ártalinu 1668[1]), en er þó sennilegt, að þau hafi altaf verið svipuð; eru það tangir með löngum sköptum, með breiðum, ferstrendum kjapti; í hann var deiginu helt og sem snöggvast brugðið í eld. Oflátujárn það, sem þar er til[2]), er bersýnilega mjög ungt. Oflátubuðkar frá miðöldum þekkjast engir. Hóladómkirkja átti:

1374. Baksturmunnlaug[3])
1396. 1) Baksturjárn fimm.
2) Sáðajárn[4]).
1525. 1) Baksturjárn þrjú.
2) Öskjur fjórar[5]).
1550. 1) Baksturjárn þrenn.
2) Eskjur tvær[5]).

Hér má geta um einkennilegt áhald, þó Hóladómkirkja eigi það ekki, og það er aðeins nefnt einu sinni, á Saurbæ á Kjalarnesi 1220; það er skafjárn[6]); er það nefnt innan um eintóma kirkjugripi og auðséð, til hvers það er ætlað. Svo segir í skipan Eilífs og Jóns: »Með allri geymslu skulu prestar sjá að engi óhreinindi komi í kaleik, og að engi dropi megi úr honum koma de sanguine Christi (þ. e. af blóði Krists) á klæði eður á altari. En ef fyrir sakir vangeymslu kemur á corporale eður á altarisblæju, þá skal þvo yfir kaleik með þrennum vötnum, og skal þá ablutionem (þ. e. eiginlega úrþvætti, þvottavatn) sjálfur prestur taka, en ef á altari kemur eða á öðrum stað eður stein, þá skal prestur þann dropa, sem gjörst hann má með tungu sinni afsleikja og *skafa* síðan eptir eða telgja og brenna spón-

1) Nr. 4036. 2) Nr. 5551. 3) Vafalaust skál til að geyma í bakstur; hann hefur sjálfsagt verið uppgangssamur á Hólum. Wallem heldur bls. 78, að þetta sé áhald til að baka oflátur í, en það nær engri átt; þær voru bakaðar í járni — annars hefðu þær orpist. 4) Hér er vitanlega um einhverja misskript að ræða, en það er nefnt í sama andartaki og baksturjárnin og hlýtur því að vera oflátujárn. 5) Sýnist ekki geta verið annað en oflátubuðkar. 6) *D. I.* I, 402.

una og steypa ösku í altari eða hjá, svo að eigi verði troðin«[1]). Skafjárnið er bersýnilega til þess ætlað að skafa með altarið, ef svo misferst með blóð Krists sem skipanin gjörir ráð fyrir.

b.) Við skírnarsakramentið, biskupan, prestvígslu og olean var viðhöfð smurning, og til hennar höfð þrennskonar olía, er biskupar einir gátu vígt, og gjörðu þeir það á skírdag. 1202 fór Jón Grænlendingabiskup »í Skálholt á fund Páls biskups og kom þar að skírdegi og vígðu þeir báðir mikinn krisma«[2]). Olíurnar eru sjúkraolía (oleum infirmorum), skírnarolía (oleum catechumecorum) og krisma (chrisma). Olíurnar tvær fyrrnefndu voru annaðhvort línolía eða viðsmjör, alt eptir efnum og ástæðum, og enginn eðlismunur þeirra annar en vígsluformálinn. Krisma aptur var línolía eða viðsmjör blandið balsami. Vígir biskup fyrst örlítið balsam á patínu og síðan olíuna, sem ætluð er í krismað, blandar þá hvorutveggju saman og blessar það síðan, og er það þá krisma orðið. Balsam er ilmandi smyrsl, er draga nafn sitt af borginni Balsora í Persíu og eru unnin úr austrænum viði, sem á latínu heitir balsamodendron gilladense, og eru þau smyrsl enn þann dag í dag afardýr. Það væri því ekki nema vonlegt, þó hér hefði stundum orðið balsamskortur; þó er þess hvergi getið, en hætta hefur þótt á því, því útlendir biskupar, sem vilja gjöra hinum íslenzku félögum sínum vel til, slægjast eptir að gefa þeim balsam. Eilífur erkibiskup gefur Laurentiusi biskupi tvo balsambuðka[3]), og Nikulás biskup í Osló sendi Páli biskupi »balsam svo mikinn að von var að það yrði aldrei að vandræðum síðan, en ekki var annað jafntórugætt, er að skyldu þurfti að hafa, hafði það og kostað eigi minna en nokkrar merkur brends silfurs«[4]), og er hér auðfundinn feginleikurinn yfir því, að nú þurfti ekki að óttast skortinn. Olíur nýjar skyldu prestar taka á hverjum 12 mánuðum[5]) af

1) *D. I.* II, 561—2. 2) *B. S.* I, 135. 3) *B. S.* I, 872. 4) *B. S.* II, 143. 5) *D. I.* II, 805.

prófóstum sínum, sem aptur tóku krismuna á biskupsstólnum[1]). Geyma skyldu prestar olíurnar vandlega og hreinlega í læstri birðslu, nákvæmlega eins og altarissakramentið, og lá við afsetning, ef út af brá[2]). Þegar prestar hér á landi oleuðu, notuðu þeir til þess oddmjóa spýtu, sem þeir vættu í olíunni; annarstaðar notuðu menn pensil eða þumalfingurinn, eins og nú er algengast. Spýta þessi var nefnd krismaspýta, og var ekki talið helgidagsbrot að tálga hana, jafnvel þó á jóladag eða páskadag væri[3]). Sjúkraolían var notuð, er veita skyldi sjúkum oleunarsakramentið (extrema unctio); var með henni gjört krossmark á skilningarvitin fimm: augu (sjón), eyru (heyrn), nef (þefjan), munn (smekk) og hendur (tilfinning), svo og á lendar og fætur. Leikmenn voru smurðir í lófann, prestar á handarbakið, — þeir höfðu í prestvígslunni verið smurðir í lófann, og ekki mátti tvísmyrja sama líkamsbluta. — Voru síðan bundnir dreglar um hina oleuðu staði, svo sem við skírn og biskupan[4]). Með skírnarolíunni gjörði prestur fyrir skírnina kross á bak og brjóst skírnarþega[5]), en eptir skírnina smurði hann höfuð hans með krismu[6]) og þurkaði síðan olíuna af. Í biskupan smurði biskup þann, er ferma skyldi, í kross með krismu; voru síðan knýttir svo breiðir dreglar um höfuð þess, er fermdur var, að krismakrossinn hyldist; lágu dreglarnir á í þrjár nætur, og lá við skript, ef af féllu; síðan var leyst frá og höfuðið þvegið í lút og vörmu vatni, en dreglarnir brendir[7]). Við prestvígslu smurði biskup hendur prestlingsins með skírnarolíu (ekki krismu), og í biskupsvígslu smyr vígslubiskup höfuð vígsluþega með krismu. Með krismu smurði og biskup í altarisvígslu altari í kross á 15 stöðum, 5 þar sem helgur dómurinn var geymdur og 5 á steininn, sem lokaði þeim stað, sinn í hverju horni og einn í miðið, og svo aptur, er búið var að leggja hann

1) *D. I.* II, 800. 2) *D. I.* II, 518. 3) *D. I.* II, 800, 811. 4) *B. S.* I, 111. Nú er sú tízka af, og er olían þurkuð af jafnharðan. 5) *D. I.* II, 516. 6) Ibid. 7) *D. I.* II, 50, sbr. Kristinrétt Árna biskups kap. 21.

yfir, og smurði hann síðan altarið í kross á 5 stöðum með skírnarolíu, á hverju horni og í miðið, og gjörði hann það tvívegis, og svo smurði hann með sama hætti altarisstein, er hann vígði hann. Er biskup vígði kirkju, smurði hann 12 staði á kirkjuveggnum, 5 krossmörk á hvern með krismu, og því vígðist í veggjum kirkja[1]). Með krismu smurði biskup og patínu og kaleik í vígslu þeirra gripa. Geymdar voru allar þrjár olíur í einu keri, með sínu hólfi fyrir hverja tegund, og var það kallað krismaker[2]), er það nefnt úr tönn[3]), grafið með tönn[4]) og með kopar[5]). Vafalaust er það, að fjölmargir af buðkum þeim, sem eru nefndir, eru krismabuðkar, og er það einna bersýnilegast af því, að í Saurbæjarmáldaga eru nefndir buðkar þrír[6]), auðsjáanlega sinn undir hverja olíutegund. Íslenzk krismaker eru nú engin til. Hóladómkirkja átti:

1374. 1) Buðk með silfur.
 2) Buðka þrjá með balsamum[7]).
 3) Könnubrot og aðra með oleum[8]).

1396. Silfurbuðk.

1525. 1) Krismaflöskur þrjár með silfur.
 2) Tinflöskur tvær.
 3) Krismaker tvö.
 4) Balsamum.

1550. 1) Krismaflöskur þrjár með silfur.
 2) Látúnsbuðk.

c.) Aðalefnið, sem notað var í skírninni, var vatn, en auk skírnarolíunnar og krismunnar var og notað salt. Skyldi prestur gefa barninu »salt vigt«[9]) og sagði um leið eitthvað á þessa leið: »Accipe sal sapientiæ, pro-

---

1) *N. G. L.* V, 24. 2) T. d. *D. I.* I, 219. 3) *D. I.* II, 677. 4) *D. I.* IV, 182. 5) *D. I.* IV, 372. 6) *D. I.* I, 402. 7) *Wallem* bls. 79 heldur, að hér sé um krismaker að ræða, sinn buðkinn undir hverja olíutegund, en það er misskilningur af því sprottinn, að hann veit ekki, að balsamum er aðeins efni í krisma, sem biskupsstólarnir vitanlega urðu að leggja til, og þetta er geymsluker undir það. 8) Hér er vafalaust um óvígða olíu að ræða. 9) *D. I.* II, 35.

pitiatio sit tibi in vitam æternam«[1]), þ. e.: Meðtak salt og veitist þér náð í eilífu lífi. Var skírnarsaltið haft í sérstöku keri, sem ýmist var nefnt saltker[2]), saltkall[3]) og salthömpull[4]). Hólastaður á að vísu 1374 eitt saltker lokað, en auðséð er á öllu, að þar er átt við veraldlegt saltker. Tvær voru tegundir vatns, er nota mátti við skírnir. Hið venjulega skírnarvatn, vigt á laugardag fyrir páska[5]), var blandið salti, skírnaroliu og krisma og var geymt í skírnarfonti 12 mánuði. Fyrir því var ákveðið, að prestar skyldu hafa fonta sína hreina, þétta og vel lokaða[6]), því skírnarvatnið stóð með þeim allan ársins hring, en saltið og smyrslin vörnuðu því, að vatnið fúlnaði. Nú var það, að ekki voru fontar á öllum kirkjum, en þar sem engir voru, skyldi ekki heldur vígja skírnarvatn, og tóku vígslubréf kirkna til, hvort þar skyldi font vígja[7]). Annarsvegar mátti hvergi börn skíra »nema þar sem fontar voru til þess skipaðir«[8]); hinsvegar skipuðu yngri íslenzk kirkjulög svo fyrir, og hefur það óefað ekki verið nýbreytni, að ekki mætti halda barni óskírðu nauðsynjalaust lengur en fimm nætur[9]). Var því brýn nauðsyn annaðhvort að koma barninu til kirkju, þar sem fontur var, eða hitt, að skíra barnið heima fyrir. Það gátu vitanlega verið mikil vandkvæði á því að koma hvítvoðungi þriggja til fjögurra nátta að vetrarlagi og hvernig sem viðraði, ef til vill yfir fjallveg, og jafnvel verðandi að trúa einhverjum og einhverjum fyrir til kirkju, enda sýnir sagan af Selkollu í Guðmundarsögu, að stundum gat ilt af hlotist[10]). Nú sýna margendurtekin og nákvæm ákvæði, bæði Grágásar, Kristinréttar og biskupastatútna, að afar-algengt hefur verið að skíra heimaskírn. Þó að tiltekið væri reyndar, að ekki mætti gjöra slíkt nema í ýtrustu neyð, hafa menn einhvern veginn haft lag á að smokka sér inn undir heimildina; annars væru ákvæðin tæplega

1) *Pontificale.* 2) T. d. *D. I.* III, 581. 3) T. d. *D. I.* IV, 21. 4) *D. I.* IX, 317. 5) Sjá AM. 266, 4to. 6) *D. I.* II, 565. 7) *D. I.* V, 493. 8) *D. I.* II, 756. 9) *N. G. L.* V, 20. 10) *B. S.* I, 664—5.

eins mörg og greinileg. Nú segir í skipan Árna erkibiskups, að ef skírt sé heimaskírn, skuli prestur, ef hann sé á bænum, skíra frekar en aðrir[1]), og er þar með gert hlaupvítt í þá eiginlegu heimaskírn; presturinn er aðeins sóttur og svo skírir hann úr venjulegu vatni, og þá lá auðvitað ekkert á að færa barnið til prests, svo að hann gæfi því salt og oleaði það og krismaði[2]) og skírði það varaskírn[3]). Mátti við slíka skírn nota vatn, sjó og bræddan snjó, en ekki hráka[4]). Er bersýnilegt, að þetta hefur opt komið fyrir, því annars myndi ákvæðið ekki vera endurtekið jafnopt. En hrákaskírnin er vafalaust sprottin af því, að fáfróður almúgi hefur misskilið það, þegar prestur rauð hráka á nef og eyru skírnþega[5]), eins og enn er gert. En vatn þetta skyldi vígja og það leikmaður, ef ekki vildi betur til; er hann vígði, skyldi hann svo mæla: »Eg vígi þig, vatn, í nafni föður, og gjöra kross á vatninu með hendi sinni hinni hægri, og sonar, og gjöra annan kross á vatninu, og anda heilags, og gjöri hinn þriðja kross á vatninu; hann skal bregða þumalfingri sínum í kross á vatninu við hvert orð þeirra þriggja«[6]). Er þetta afarmerkilegt atriði, því hvergi þekkist, að leikmenn hafi vígt vatn, nema úr Grágás og svo í Noregi í Eiðsifaþingslögum. Tvennskonar var skírnaraðferðin: að ausa vatni þrisvar (baptizare insuper fundendo)[7]) og með því að dýfa þrisvar í (mergendo), og var það formlega aðferðin. Í fyrsta upphafsstafnum í handritinu AM. 350 fol. er ljómandi skemtileg og greinileg mynd af barnsskírn[8]) og er barninu þar drepið alsnöktu í skírnarsáinn. Dýfa skyldi barninu þrívegis í vatnið, fyrst á grúfu og síðan sitt sinni á hvora hliðina[9]). Skírnarvatnið var geymt í fonti[10]) — af latneska orðinu fons, uppspretta —; var fonturinn mjaðmarhár stallur og í hann gróp, en þar í

1) *D. I.* II, 839 sbr. *Grg.* I, 4. 2) *D. I.* II, 30—31. 3) *D. I.* II, 516—17. 4) *D. I.* II, 798. 5) *D. I.* II, 31. 6) *Grg.* I, 5—6, II, 4, III, 4. 7) *N. G. L.* V, 20. 8) Kristinréttur nýi, útg. Thorkelins Kbh. 1777, hefur mynd af stafnum. 9) *D. I.* II, 839. 10) T. d. *D. I.* I, 417.

var skál, svonefnd skírnarmunnlaug[1]) eða kirkjumunnlaug[2]). Fontarnir munu sennilega hafa verið úr tré optast nær, og er þó nefndur fontur úr pjátri[3]). Til var að geyma skírnarvatnið í skírnarsá[4]), skírnarkatli[5]) eða skírnarsteini[6]). Með skírnarsteini er átt við font, eins og við nú köllum það, úr steini; heitir skírnarfontur enn »skírnarsteinn« — Taufstein — á þýzku. Skírnarkatlar voru afaralgengir; voru þeir úr eir eða þvílíku og mjög djúpir, og er í útlöndum fjöldinn allur af þeim enn við líði[7]). Hvort átt sé við tréílát með orðinu skírnarsár, svipað og sár þýðir nú, skal ekki gizkað á, en á skírnarmynd þeirri, sem áðan gat um, sýnist skírnarfatið vera trog úr tré, sem stendur á trépstalli. Skírnarmunnlaugar þær, sem í fontinum voru, voru ekki munnlaugar í venjulegum skilningi, heldur víðari og dýpri, því barnið átti að komast ofan í, og hefur jafnvel stundum verið ketill, því nefndur er fontur með katli[8]). Skírnarskálar, eins og þær þekkjast nú, eru aldrei eldri en frá lokum 15. aldar, því þá lagðist fyrst fyrir óðöl niðurdýfingarskírnin, og sjaldan koma þær fyrir úr kaþólskum löndum. Fontunum, kötlunum og steinunum var lokað með loki, sem kallað var húfa eða umbúningur (opercula); er svo tiltekið: fonthúfa forn[9]), umbúnaður um font[10]), fontsumbúnaður[11]), skírnarketill með fontsumbúnaði[12]), kirkjusár með umbúnaði[13]) o. s. frv. Upp af húfunni var krossmark, svonefndur fontkross[14]), og sýnist velta á ýmsu með gerð; er nefndur fontkross með silfur[15]), smeltur[16]), með kopar[17]) og með járn tinaður[18]). Fontarnir hafa sennilega verið lítt prýðilegir, og hafa þeir til að bæta úr því verið huldir klæði, fontklæði, eins og frá hefur verið skýrt hér. Íslenzkir miðaldafontar eru nú engir til,

---

1) *D. I.* IV, 110. 2) *D. I.* II, 692; þýðir þó stundum annað. 3) *D. I.* V, 631. 4) *D. I.* I, 255. 5) *D. I.* IV, 57. 6) *D. I.* III, 260. 7) *Otte* I, 314 ff. 8) *D. I.* III, 482. 9) *D. I.* X, 557. 10) *D. I.* I, 420. 11) T. d. *D. I.* II, 427. 12) *D. I.* II, 681. 13) *D. I.* II, 452. 14) T. d. *D. I.* III, 170. 15) *D. I.* IV, 182. 16) *D. I.* V, 594. 17) *D. I.* V, 315. 18) *D. I.* V, 633.

nema skírnarsteinninn á Bessastöðum, ef ráða má af frárenslinu í botni hans. Hóladómkirkja átti:

1374. Fontsumbúning.
1396. Fontsumbúnað.
1525. Kross lítinn upp úr fonti.
1550. Fontsumbúning nýjan.

d.) Skriptasakramentið var í því fólgið, að skriptabarnið játaði syndir sínar, en prestur leysti það. Svo sem í ráðningarskyni laust prestur skriptabarnið fyrst eitt sinn og síðan þrjú í kollinn[1]). Er hreinsaðar voru kirkjur (reconsiliatio ecclesiæ) — en það var aflausnarathöfn — voru notaðir lausnarvendir. Svo segir Þórður Marteinsson um biskup Jón 1548, er hann hreinsaði Skálholtskirkju, að fyrst hafði hann stökt um hana vígðu vatni: »deinde virga quadam omnes templi postes januas, omniaque altaria percussit«[2]) — síðan barði hann allar kirkjustoðir, dyr og öll ölturu með vendi nokkrum[3]). Lausnarvendir eru hvergi nefndir í máldögum.

2.) Vatn var mjög svo notað í kirkjunni auk þeirra nota, sem af því voru höfð í altaris- og skírnarsakramentunum. Notkun vatnsins er tvennskonar. Vatn vígt með salti í — svo það fúlnaði síður — var notað af lærðum og leikum til að stökkva á sig, er menn gengu í kirkju eða úr; á helgum dögum vígði prestur vatnið fyrir embætti og gekk síðan fram um alla kirkju og söng: »Asperges me domine«, 50.[4]) Davíðssálm 7—8, og stökti á fólkið, en fólkið flutti síðan vatn heim með sér[5]); var og þetta vatn notað við allskonar vígslur (benedictiones, ekki consecrationes). Vatn óvígt var

1) *B. S.* II, 248—9. Frásögnin þar um lausnarvöndinn er vafalaust rétt; hann þekkist annarstaðar að, en um höggatöluna er ilt að vita; að öðru leyti er frásagan mjög aflagafærð. 2) *D. I.* XI, 788. 3) Enn þann dag í dag gjörir Rituale romanum (Tit. III, caput 3) ráð fyrir því, að lausnarþegi sé barinn á öxlina, sé hann opinberlega afleystur, þó það muni nú sjaldan vera gjört. 4) Í evangeliskum biblíum 51. 5) *B. S.* I, 248, 247—8. Sá siður helzt enn.

notað við handþvotta prestanna. Vatnskerjum má því skipta í tvo flokka: vatnsílát er vatn var geymt á og vatnsílát er vatninu var helt á. Fyrri flokkurinn skiptist í tvo flokka: vígðsvatnsílát og þvottavatnsílát.

a.) Vígðsvatnsílát voru tvennskonar, ílát, sem altaf voru í kirkjunni á sínum fasta stað, þangað sem fólkið sókti sér vígt vatn, og ílát, sem höfð voru til að geyfa með við vígslur og annað þvílíkt. Ílát, sem höfðu sinn fasta stað, voru pottur[1]), vatnsker[2]), vatnssteinn[3]), kirkjubolli[4]), kirkjusár[5]), vatnssár[6]) og vatnsbolli[7]). Geyfikerin (vasa lustralia) voru aptur á móti ketill[8]), kirkjuketill[9]), skjóla[10]), vatnsskjóla[11]), vatnsklukka[12]), vatnsketill[13]) og vatnskall (vatnskarl)[14]). Orðið vatnskall þýðir bæði vígðsvatnsílát[15]) og þvottavatnsílát, og af því að orðið vatndýr kemur fyrir, hafa sumir viljað draga þá ályktun, að vatnskall væri ker í mannsmynd, en svo er ekki. Ker slík í mannslíki eru afarfáséð, en orðið kall (karl) er tillíking úr katl af ketill[16]). Svipuð orðmynd er til í sænsku, vattenkärl, en kärl stendur fyrir käril, sem er smækkunarorð af kar[17]). Skjólurnar voru pottar með höldum, optast úr messing[18]) eða kopar[19]) og er nefnt verðmæti þeirra á stundum, t. d. hundraðsketill[20]), og hengu þeir milli þess að verið var að brúka þá á ákveðnum stað í kirkjunni, t. d. festir á brúnaásinn[21]) eða frammi fyrir kórsdyrum[22]). Hverri vígðsvatnsskjólu fylgdi svonefndur stökkull[23]), stökkvill[24]) eða vatnsstökkull[25]) (aspergil-

---

1) T. d. *D. I.* II, 460. 2) T. d. *D. I.* I, 269. 3) T. d. *D. I.* I, 408. 4) T. d. *D. I.* II, 427. 5) T. d. *D. I.* II, 261. 6) T. d. *D. I.* IV, 172. 7) T. d. *D. I.* II, 443. 8) T. d. *D. I.* I, 402. 9) T. d. *D. I.* III, 662. 10) T. d. *D. I.* I, 408. 11) T. d. *D. I.* I, 255. 12) *D. I.* V, 774. 13) T. d. *D. I.* III, 70. 14) T. d. *D. I.* II, 668. 15) Vatnskall til vígðsvatns *D. I.* IV, 62. 16) Sbr. orðið vatnskallspottur i eignaskrá Vatnsfjarðarkirkju 1596 AM. 262, 4to, bls. 62. Á sama stað er nefnt vatnskallsdýr og sýnist það taka af skarið. 17) *Dalin: Ordbok öfver svenska sproket*, Stockholm 1850 I, 390. 18) *D. I.* III, 922. 19) *D. I.* IV, 47. 20) *D. I.* III, 322. 21) *B. S.* I, 804. 22) *B. S.* II, 248, ekki yfir kórsdyrum eins og þar stendur. 23) Skjóla og stökkull *D. I.* II, 78. 24) *D. I.* I, 408. 25) *D I.* III, 69.

lum). Var það stutt stöng og neðan á henni hár, en þeim var dýft í skjóluna. Í lok 16. aldar er stökkli lýst svo sem kýrhala litlum krosslögðum í skapti[1] og fær sú lýsing staðist, því á þýzku heitir stökkull »Weihwedel« — vígsluhali — og á frönsku »goupillon« — refshali — af fornfranska orðinu »goupil«, refur. Ekki eru stökklar nefndir úr öðru efni en beini[2]. Nefnd er og vígðsvatnskanna[3]) og vatnsberi með tin[4]) og er þar vafalaust um samskonar ílát að ræða, aðeins með sérstöku lagi.

b.) Þvottar voru miklir í kirkjusiðunum. Fyrir og eptir messu þvoði prestur sér í skrúðhúsi eða þar sem hann skrýddist, svo og í messunni eptir offertorium[5]). Voru þessir handþvottar og ýmsir fleiri gjörðir úr venjulegu vatni, sem helt var yfir hendur prests, en undir var haldið skál eða var sacrarium. Koma fyrir þessi nöfn á þvottavatnsílátum (aquamanilia): kanna[6]), vatndýr[7]), horn[8]) og vatnskall. Það er enginn efi á því, að vatnskall gat einnig verið þvottavatnsílát. Nefndar eru t. d. »þrjár munnlaugar stórar með fjórum vatnsköllum«[9]); virðist hér ekki vera um að villast, og því síður á vatnskalli »með loki og tveim stútum«[10]), sem beinlínis hefur verið ætlaður til að hengja upp svo að mætti hella úr honum með því að halla honum. Vatnskallarnir sýnast hafa haft það til að vera á fæti[11]). Hvort hirtir þeir tveir af messing, sem kirkjan á Völlum átti[12]), hafi verið vatndýr, eins og Wallem heldur[13]), skal látið ósagt, þó ekki sýnist það líklegt. En hitt er víst, að járnkarlar þeir, sem Wallem nefnir[13]), voru ekki vatnsílát, heldur járnkarlar til að pjakka mold eins og þeir eru notaðir enn í dag. Það var algengt, að slíkar könnur væru í dýrslíki og eru tvær slíkar til, önnur frá Holtastöðum í þjóðminjasafni voru[14]) en hin

1) *B. S.* I, 248. 2) *D. I.* III, 105. 3) *D. I.* VI, 333. 4) *D. I.* VII, 42. 5) *B. S.* I, 440–41. 6) *D. I.* II, 682. 7) T. d. *D. I.* II, 679. 8) »horn og handklæði« *D. I.* I, 408. 9) *D. I.* IX, 307–8. 10) *D. I.* VIII, 595. 11) *D. I.* III, 718. 12) *D. I.* II, 455. 13) Bls. 81. 14) Nr. 1854.

frá Vatnsfirði í þjóðminjasafni Dana[1]). Eru það ljón með stút í kjaptinum, en vatninu var helt á um lítið gat í kollinum.

c.) Er presturinn þvoði sér við altarið, var haldið undir munnlaug[2]), altarismunnlaug[3]) eða kirkjumunnlaug[4]) (pelvis) og var þvottavatninu helt úr henni í sacrarium þar sem það var til. Utan messu þvoði og prestur sér yfir sacrarium, annars yfir munnlaug. Sacrarium var munnlaug með gati í botni, svo að úr gæti runnið í einhvern þann stað, sem ekki yrði troðinn; fyrir því eru orðatiltækin sacrariumker[5]), sacrariumsár[6]) og sacrariummunnlaug[7]). Nefnt er sacrarium með blý[8]). Í sacrarium var steypt vatni og hverjum þeim vökva, sem beinlínis eða óbeinlínis hafði komist í námunda við það sem heilagt var, t. d. sakramentið, en var ónýtt orðið, svo og ösku og svipuðu, sem eins stóð á með. Sacrarium var optast hjá altari[9]). Væri ekki til sacrarium, skyldi steypa slíku »í altari eður hjá, svo að eigi verður troðið[10]), og var því jafnvel, ef svo bar undir, steypt í kirkjuþekju[11]).

Af vatnskerjum átti Hóladómkirkja:

1374. 1) Kirkjuketil.
   2) Munnlaugar þrennar smeltar.
   3) Sacrarium munnlaug.

1396. 1) Vatnskalla fjóra, hinn fimta með tin.
   2) Kirkjuketil með munnlaug, brotið hvorttveggja.
   3) Munnlaugar sex smeltar.

1525. 1) Skálar stórar fjórar.
   2) Látúnsmunnlaug.
   3) Sacrarium munnlaugar fimm.

1550. 1) Vatnskall og munnlaug stóra.
   2) Sacrarium munnlaugar fimm.

---

1) Eptirmynd í Þjóðminjas. Ísl. nr. 2369. 2) T. d. *D. I.* II, 62. 3) T. d. *D. I.* II, 378. 4) T. d. *D. I.* II, 359. 5) *D. I.* III, 537. 6) *D. I.* V, 252. 7) *D. I.* II, 361 og víðar. 8) *D. I.* IV, 128. 9) *B. S.* I, 440. 10) *D. I.* II, 562. 11) *B. S.* I, 907.

3.) Ákall dýrlinga er jafngamalt kristni. Í upphafi héldu kristnir menn samkomur sinar í Katakombunum, grafskýlum sínum, og var það upphaf að heiðrun helgra dóma. Þegar þeir fóru að hafast við ofanjarðar og reisa kirkjur, fluttu þeir lík píslarvottanna með sér og bjuggu veglega um þau. Þegar fram í sótti og kristni útbreiddist og kirkjum fjölgaði voru dýrlingarnir ekki nógu margir til þess að hver kirkja gæti búið að sínum, svo að grípa varð til þess að skipta hinum helgu dómum, og áður en varði var það orðið bæði trúarnauðsyn og metnaðaratriði að hver kirkja ætti sem mest af þeim, og svo stóðu sakir er kristni kom hingað til lands. Þegar hingað til lands kom, féll siðurinn í góðan jarðveg, því fátt er mönnum eðlilegra og jafnframt skyldara en að tigna þá menn liðna, er menn virtu lífs, og það því fremur sem treysta mátti fulltingi þeirra í fyrirbænum við guð. Og þó að oss nú, er vér lítum á jartegnabækur hinna íslenzku dýrlinga, þyki þær allbarnalegar, þá skal ekki gleyma því, að þeir menn, sem þá lifðu, voru börn sinnar aldar svo sem vér vorrar, að upp munu renna þeir tímar, þegar vér erum löngu dauðir, er stökkvi bros yfir einmitt því í voru fari, er oss var helgast og verður þó engu vanhelgara fyrir það. Það má sjá á mörgu, hverja feikna þýðingu helgir dómar höfðu fyrir íslenzkt miðaldaþjóðlíf. Það þykir t. d. annálsvert, að 1299 »kom af helgum dómi Magnúsar eyjajarls í Skálholt«[1]). Það eru hérlendis ekki kirkjurnar einar, sem seilast eptir helgum dómum, einstaklingarnir eru fíknir í þá. Guðmundur prestur Arason safnar sjálfur helgum dómum[2]), hann gefur þá vinum sínum, svo sem Sigurði Ormssyni[3], jafnvel Jón biskup helgi gefur manni af beini Marteins biskups[4]) og Rafn Sveinbjarnarson varði í Rómaferð sinni fé sínu í helga dóma[5]) og var þó um hans daga bannað að selja helga dóma, það var simonia[6]). Venjulegast var helgur dómurinn partur af líkama dýrlingsins og þá helzt

1) *I. A.* 145. 2) *B. S.* I, 440. 3) *B. S.* I, 468. 4) *B. S.* I, 169. 5) *B. S.* I, 642. 6) Decretalium Gregorii, Caput 3, liber III, titulus 45.

partur af beinum hans, og því meiri því betri. En menn létu sér nægja minna, t. d. mold úr leiði hins helga Þorláks biskups; var hún að minsta kosti til í tveim kirkjum[1]) og hefur óefað verið til víðar, en nokkuð langt sýnist farið, þegar Páll biskup lætur greipa í fingurgull sitt blöðrustein, sem fyrir tilstyrk hins heilaga Þorláks á upptökudegi hans flaut frá getnaðarlimi pilts nokkurs[2]), en svona var tiðarandinn. — Virðing sú, er menn sýndu hinum helgu dómum, samsvaraði alveg þessu. Guðmundur prestur Arason lét menn á helgum dögum kyssa helga dóma[3]) og helzt sá siður enn meðal kaþólskra. Og ekki gat Guðmundur biskup vitað helga dóma i höndum bannfærðra[4]), sem reyndar ekki var von. En voru nú þessir helgu dómar ósviknir? Það rýrir í engu gildi þeirra, sem ósviknir voru, að játa það, að afarmikill hluti helgra dóma á miðöldum var svikinn; var það ekki kirkjan, sem gjörði það, heldur óvandaðir menn og græddu á fé, en kirkjan hefur altaf verið að reisa rammari og rammari skorður við þeirri prettvísi. Á miðöldunum sjálfum hafa menn efast um helgi dómanna. Þorsteinn Þraslaugarson segist ekki vita, hvort séu hrossbein eða helgra manna, er Guðmundur Arason fer með[8]). Vissast er að ganga út frá því, að meginið af helgum dómum, sem ekki voru af íslenzkum dýrlingum, eða dýrlingum úr nágrannalöndunum, hafi verið svikið, og í því efni er eptirtektarvert, hve örsjaldan máldagarnir geta um, hvaða helgir dómar séu í skrínunum og kistlunum, sem kirkjurnar eiga. Og jafnvel getur verið ástæða til að rengja ágæti íslenzkra helgra dóma, t. d. helgan dóm Guðmundar biskups, því Laurentiusar saga segir, að þegar Auðun biskup hafi látið taka bein hans úr jörðu, hafi menn eigi vitað hvar bein hans og leg var[5]). Helgan dóm Þorláks aptur á móti þarf ekki að efa. Það er vitanlega mjög óvíða, sem til hafa verið stórir partar

---

1) *B. S.* I, 340, 375. 2) *B. S.* I, 310. 3) *B. S.* I, 449. 4) *B. S.* I, 493. 5) *B. S.* I, 829.

af líkum dýrlinganna (reliquiæ insignes), venjulegast hafa það verið smábrot eða örður, það sýna nöfnin á ílátunum (reliquiaria): ker[1]), skrín[2]), koffur[3]), kistill[4]), hirðsla[5]), hringur[6]) og texti (bók)[7]). Wallem[8]) segir að ekki sé hægt að koma þessum nöfnum heim við samtíma latnesk heiti og telur þau, og meðal þeirra feretrum, sem þó ekki þýðir ílát undir helga dóma, eins og hann heldur, heldur prósessíuburir undir skrín[9]). Þetta eru alt ílát, sem voru kunn um allan heim. Eins og getið hefur verið um, áttu helgir dómar að vera í altarissteinum og ölturum, en mun þó fátítt hafa verið hér á landi, því sjaldan er þess getið, og þeir fáu steinar, sem til eru, eru ekki með þeim frágangi. Frágangurinn á skrínunum var hinn prýðilegasti. Þó fyrir komi einföld tréskrín[10]), er hitt þó algengara, að þau séu úr kopar[11]), silfri[12]) eða hvorttveggju[13]), með tönn[14]), steind[15]), smelt[16]) eða gylt[17]), eða að minsta kosti búin[18]). Ýms skrín voru með sérstakri gerð, t. d. eru nefndir skildir með reliquiis[19]) og stundum gulllagðir[20]). Algengt var það, ef kirkjur áttu heila limu, höfuð eða hönd af dýrlingi, að búa um þá í skrínum, sem gjörðir voru í líkingu þeirra með göfugum málmi og dýrum steinum, t. d. átti Breiðabólstaðarkirkja í Fljótshlíð hönd »Johannis Holensis með armleggjum«[21]). Meðferðin á skrínunum virðist, þó undarlegt sé, hafa verið misjöfn. Hrafnagilskirkja á 1461 »lítil skrín tvö með silfur og er í burtu af báðum endunum á hvoru skríninu og neðan í kringum af báðum«[22]) og getur það ekki hafa verið af góðri meðferð. Ekki bera nöfnin á ílátunum það með sér, hvernig þau hafi verið í laginu, en venju-

---

1) *D. I.* III, 405. 2) *D. I.* III, 523. 3) Ibid. 4) *D. I.* II, 408. 5) *D. I.* III, 517. 6) T. d. *B. S.* I, 877. 7) *D. I.* VI, 333. 8) Bls. 63. 9) Í orðubók Rúðubiskupsstóls virðist orðið þó þýða huslker. *Ordo ecclesiæ Rothomagensis.* 10) T. d. *D. I.* IV, 52. 11) T. d. *D. I.* II, 695. 12) T. d. *D. I.* III, 197. 13) T. d. *D. I.* V, 307. 14) T. d. *D. I.* IV, 164. 15) T. d. *D. I.* II, 441. 16) T. d. *D. I.* V, 408. 17) T. d. *D. I.* IV, 148. 18) T. d. *D. I.* IV, 187. 19) T. d. *D. I.* III, 522. 20) T. d. *D. I.* III, 512. 21) *D. I.* III, 269. 22) *D. I.* V, 315.

legast var, eptir að kristni komst á hér, að það væru stokkar í laginu sem hús með risi og burst. Eru þau tvö, sem til eru, bæði með því lagi. Er annað frá Valþjófsstað í þjóðminjasafni voru[1]) og er það úr tré lagt gyltum og gröfnum koparþynnum og hefur verið sett kristöllum. Hitt er frá Keldum og geymt í þjóðminjasafni Dana[2]) og af sömu gerð, nema hvað koparþynnurnar eru drifnar. Eptirtakanlegt er það á Valþjófsstaðaskríninu, hve gatið á botninum, þar sem láta skyldi inn um hina helgu dóma, er litið, ekki að ummáli nema á borð við eldspítustokk, svo ekki hafa þeir verið miklir um sig. Auk þess sem slík ílát sem þessi voru höfð undir helga dóma, voru allopt notaðir pungar[3]). Um stór skrín gat ekki verið að ræða nema utan um íslenzku dýrlingana tvo, Þorlák og Jón, og svo Guðmund, sem raunar hvorki frá formsins hlið né í framkvæmdinni var dýrlingur[4]). Lýsing ágæt á einu stóru

1) Nr. 3612; lýst með mynd í *Á. Í. F. F.* 1898. 2) Nr. CMXXXIII. Mynd hjá *Wallem,* 64. 3) T. d. *B. S.* I, 375. 4) Í sjálfu sér voru báðir, Þorlákur og Jón, ekki löglegir dýrlingar; helgi þeirra var lögtekin af alþýðu og biskupum á alþingi (communi episcorum et populorum consensu). En skömmu áður en sú samþykt var gjörð, hafði Alexander páfi III (1159—81) lagt öll slík mál undir páfa einan (Decretalia Gregorii caput 1, liber III, titulus 45, sbr. caput 3, liber III, tit. 45). Engu að síður voru þeir haldnir sem heilagir og tíðir þeirra sungnar, og varð helgi þeirra lögfest af ólöglegri venjunni (consuetudo contraria specialis contra legem), og sér það á, því ekki eru þeir í martyrologio. Um Guðmund er öðru máli að gegna; dómur hans var að vísu tekinn upp, en tíðir voru honum engar sungnar né messur, heldur þvert á móti sálumessur *(B. S.* I, 829); jartegnir hans voru því kirkjuréttarlega séð ekkert annað en, ef svo mætti segja, skottulækningar. Safnast höfðu 1522 um 200 rínargyllini til að koma Guðmundi í helgra manna tölu *(D. I.* IX, 120) og afhenti Jón biskup VI. Ólafi erkibiskupi Engilbrigtssyni þá peninga, en erkibiskup lofaði að láta kanonisera Guðmund, »ef það væri guðs vilji« *(D. I.* IX, 336). En það var ekki, sem ekki heldur var von til, því Guðmundar saga ber það með sér, að hann var varla með réttu ráði, og hugsaði ekki um annað en að verða dýrlingur hvað sem kauraði og var hann léleg skræmimynd af hinni miklu fyrirmynd sinni, Thomasi erkibiskupi. Páfastóllinn var ófáanlegur til að kanoni-

skrínanna er til, á Þorláksskríni. Safnast hafði fé til skrínsins úr öllum nágrannalöndunum, Noregi, Englandi, Svíþjóð, Gautlandi, Gotlandi, Danmörku, Skotlandi, Orkneyjum, Suðureyjum, Hjaltlandi og Grænlandi, en mest þó af Íslandi[1]). Mannfólkið er samt við sig, sparsemdarmönnum og apturhaldsmönnum þókti eins og vant er nóg um og varð umtal af[2]). Skrínið smíðaði maður, sem Þorsteinn hét og eptir það var kallaður skrínsmiður. Var það gjört af gulli, gimsteinum og brendu silfri og kostaði 4 hundruð hundraða eða einhverstaðar milli 150—200,000 krónur. Var skrínið meira en þriggja álna (ísl.) langt, en áður hafði lengsta skrín á Íslandi verið álnarlangt[3]). Til samanburðar má nefna, að skrín Karlamagnúsar í Aachen er 2 m á lengd og skrín austurvegsvitringanna í Köln er 1,72 m á lengd. Það er auðséð á öllu, að skrín þetta hefur þolað samanburð við það, sem til var bezt úti í löndum. Skrínið stóð uppi á og aptur af altarinu og var gengt alveg að því[4]) og var það þakið klæðum með tröfum[5]); grindur hafa þó að öllum líkindum verið um, svo menn ekki gerðust of nærgöngulir við skrínið[6]). Helgiskrínunum var ekki ætlað neitt sérstakt verk í kirkjunni, þau voru dýrlingunum til heiðurs, almenningi til uppbyggingar og kirkjunni til prýði og borin voru þau í processium[7]); svo var t. d. Jóns skrín Hólabiskups borið í processiu á páskadag[8]). Til jafnaðar stóðu skrínin á ölturum eða á kór[9]). Um skríndúka hefur verið getið. Hólakirkja átti:

1374. 1) Buðka með reliquiæ tvo.
2) Buðk með reliquiis.
3) Pung — —

---

sera hann fyrir minna en 3000 hertogadali (ducata), en vildi hinsvegar lofa að heiðra hann og syngja honum tíðir fyrir 300 hertogadali í málfærslugjöld, bréfalausn og »gjöf« til Pucci kardínála og annara (*D. I.* IX, 229), sem var tæplega þrisvar meira en Guðmundar-féð nam, svo úr því varð ekkert. Nokkuð svipað guðsdómi þetta.

1) *B. S.* I, 313. 2) *B. S.* I, 216. 3) *B. S.* I, 143. 4) *B. S.* I, 382. 5) *B. S.* I, 347. 6) Sbr. *B. S.* I, 829. 7) *B. S.* I, 258. 8) *B. S.* I, 893. 9) *B. S.* I, 186, 256.

1525. 1) Sankti Jóhannes (Jóns biskups) skrín yfir háaltari.
2) Góða Guðmundar skrín.
3) Smáskrín tvö.
4) Sankti Johannis höfuð með silfur forgyltri mítru, með víravirki og steinum sett[1]).
5) Sancti Johannis hönd alt til olnboga, gjör með silfur og steinum sett[2]).

1550 er skríneignin nákvæmlega sama og 1525, en þá sýnist Jónshöfuðið vera orðið eitthvað laskað, því sér á parti er nefndur hnappur af Jónshöfði með silfur og lítið brotasilfur.

Á dögum Jóns biskups I. stóð kistill með helgum dómum á háaltarinu[3]) og gæti það hæglega hafa verið sá dómur Marteins biskups, sem kirkjan átti[4]). Laurentius biskup lét gjöra Laurentiusskrín og var geymt í því langt bein — væntanlega upphandleggur eða lærleggur — og stóð það yfir háaltari á Hólum[5]). Þegar kirkjan fauk 1394 var helgum dómum bjargað[6]). Það er því varla nokkur efi á að þau smáskrín tvö, sem tveir síðustu máldagarnir nefna, hafi verið Marteins- og Laurentiusskrín.

4.) Ljós- og eldáhöld skipta miklu máli í kirkjusiðunum, og kerti þau, sem nota skal við messu altaf, hvort sem bjart er eða dimt, eiga rót sína að rekja til katakombu-guðsþjónustanna, sem halda varð við ljós, hvernig sem stóð á degi. Ljós þau, sem brend eru fyrir helgimyndum, eiga rót sína í lömpum þeim, sem voru látnir loga fyrir gröfum píslarvottanna í katakombunum, svo menn rötuðu á þær[7]). Þegar hingað kom kristni, var að mestu komin sú skipan á ljósa- og eldfæranotkun, sem enn helzt. Hvað lítið af ljósum hefur verið notað við messur hér á landi er bágt að segja, en ljós varð að vera og átti það að vera vax-

1) Í því var hausinn geymdur. 2) Hin höndin var á Breiðabólstað í Fljótshlíð, en henni fylgdu armleggir. 3) *B. S.* I, 206, 256. 4) *B. S.* I, 169. 5) *B. S.* I, 874. 6) *I. A.* 367. 7) Þrír slíkir lampar eru til í Fiskesafninu í Þjóðminjasafninu í Reykjavík.

ljós[1]). Hefur eptir þeim bókum nægt eitt kerti; hinsvegar er enginn vafi á því, að hámarki ljósadýrðarinnar er náð með þeim 30 kertum annars hundraðs (150), sem loguðu er Þorlákstíðir voru sungnar fyrst, því það er tekið til marks um ástúð manna við dýrlinginn[2]). Í flestum eldri máldögunum eru ákvæði um lýsingu kirkna og flest á þá leið, að lýsa skuli kirkju frá Maríumessu hinni fyrri (15. Aug.) til hinnar síðari (8. Sept.) fyrir helga daga, en úr því hverja nótt, unz líður páskavika[3]). Oftast voru kertin á altarinu tvö. Durandus segir: »In cornibus altaris duo sunt candelabra constituta — mediante cruce faculas ferunt accensas«[4]) og kemur það heim við myndina í efra vinstra horni Möðruvalla-tabúlunnar; þar er verið að syngja messu við altari með tveim kertastikum. Heitið var kertistika[5]) eða stika[6]) og voru þær úr ýmsu efni, með járn[7]), messing[8]), kopar[9]), pjátur[10]), blý[11]), tré[12]); téstika steind[13]) og rend[14]), járnstika tinuð[15]), koparstika smelt[16]) eru nefndar, og nefndar eru kertastikur flæmskar[17]). Venjulega voru kertastikurnar allháar stangir (um 30 cm, en þó hærri eða lægri) á breiðum fæti og breikkuðu þær að ofan út í plötu, en upp úr henni járntittur 3—4 cm og á hann var kertinu stungið. — Engir stjakar íslenzkir frá miðöldunum eru nú til, en fætur undan tveimur eru til frá Saurbæ og eru í rómönskum stíl forkunnar fallegir, svo og stjakabrot jarðfundið[18]). Messustikurnar tóku aldrei nema eitt kerti hver og stóðu aptan til á altarinu, undir bríkinni, ef hún var nokkur. En stikur voru og hafðar endra nær á ölturum og gátu þær þá verið með ýmsu móti, aðallega með fleiri pípum. Nefndar eru stikur fyrir 4 ljós[19]), 8 kerti[20]), 11 kerti[21]) og þar fram eftir götunum, og

1) *D. I.* I, 243—4. 2) *B. S.* I, 313. 3) T. d. *D. I.* 275. 4) *Durandus* fol. vij recto. 5) T. d. *D. I.* I, 256. 6) T. d. *D. I.* IV, 372. 7) T. d. *D. I.* II, 683. 8) T. d. *D. I.* II, 66. 9) T. d. *D. I.* II, 576. 10) T. d. *D. I.* IV, 372. 11) T. d. *D. I.* IV, 685. 12) T. d. *D. I.* II, 468. 13) T. d. *D. I.* II, 467. 14) T. d. *D. I.* IV, 172. 15) T. d. *D. I.* III, 446. 16) T. d. *D. I.* IV, 74. 17) T. d. *D. I.* IV, 113. 18) Þjóðminjas. Ísl. nr. 6269 a—b, 6704. 19) *D. I.* IV, 62. 20) *D. I.* V, 279. 21) *D. I.* IV, 195.

væru álmurnar á þeim bognar, voru þær ýmist nefndar krókstika[1]) eða talknstika[2]). Kertastikur voru og hafðar fyrir líkneskjum[3]) og stórar kertastikur stóðu á kórgólfi, svo sem annarstaðar tíðkaðist. Nefnd er járnstika mikil[4]) og standstika með járn[5]) og er auðséð við hvað er átt. Var þessum stikum aðallega ætlað að lýsa upp kórinn, svo að söngmenn sæju til. Verð á kertastikum er stundum nefnt, t. d. tvær merkur fríðar fyrir kertastiku[6]), kertastika fyrir hundrað[7]) og fyrir 3 hundruð[8]). Kirkjuhvolfið sjálft var lýst með hjálmum[9]) eða kertahjálmum[10]); hengu þeir í lopti og voru úr kopar[11]), látúni[12]), járni[13]) eða tré[14]). Það er enginn vafi á því, að kertahjálmur með 12 kertum, eins og sá sem nefndur er í Jónssögu[15]), er með því stærsta sem hér hefur þekst þá, það er auðséð á frásögunni. Annars eru nefndir ljósahjálmar með 6[16]) og með 5[17]) pípum. Nefndur er »hjálmur fyrir vorri frú«[18]) og »fyrir sancti Johannes«[19]), og er það óefað, að hér er átt við ölturu þessara dýrlinga, en ekki líkneski eins og Wallem heldur[20]). Verðmætið var vitanlega misjafnt, 10 aurar[21]), 4 merkur[22]) og hundrað[23]) er nefnt. Páskakerti var kerti það nefnt, sem vígt var á laugardaginn fyrir páska, og er þeirri athöfn lýst í AM. 266 4to. Var kerti þetta venjulega risavaxið og stóð á háum stjaka norðanmegin háaltaris og logaði á því við hverja messu, sem sungin var við það altari alt fram til hvítasunnu. Ekki hafa allar kirkjur haft efni á því að hafa veglegt páskakerti,

---

1) T. d. *D. I.* II, 437. 2) *D. I.* II, 455. Dregur væntanlega nafnið af því að álmurnar sveigjast upp á við líkt og beinin í tálkni; leiðir það hugann að hinum sjöörmuðu Títusstikum, sem algengar voru á miðöldum. 3) T. d. *D. I.* II, 637. 4) *D. I.* I, 417. 5) *D. I.* IV, 284. 6) *D. I.* IV, 65. 7) *D. I.* IV, 100. 8) *D. I.* IV, 139. 9) T. d. *D. I.* III, 446. 10) T. d. *D. I.* III, 80. 11) T. d. *D. I.* IV, 423. 12) T. d. *D. I.* V, 208. 13) T. d. *D. I.* IV, 162. 14) T. d. *D. I.* V, 337. Tréhjálmur sá, sem er í Þjóðminjas. Ísl. nr. 4395 er frá því eptir siðaskiptin. 15) *B. S.* I, 185. 16) *D. I.* V, 269, VIII, 595. 17) *D. I.* VII, 738. 18) *D. I.* V, 332. 19) *D. I.* V, 631. 20) Bls. 106. 21) *D. I.* VII, 738. 22) *D. I.* VII, 443. 23) *D. I.* VII, 667.

og hefur því hér á landi tiðkast sá ósiður, sem enn er víða við lýði, að hafa stórt kertislíkan úr tré og festa ofan á það eða í það venjulegu kerti, því opt er nefnt páskakerti úr tré[1]). Páskakertin voru, hvort sem þau voru úr vaxi eða tré, hin prýðilegustu, förguð með öllum regnbogans litum, og nefnd eru páskakerti steind[2]). Stjakinn undir páskakertinu var ýmist nefndur páskastika[3]), páskakertisstika[4]), umbúnaður með páskakerti[5]), stólpi undir páskakerti[6]), páskastöng[7]) og páskastaur[8]), og eru þrjú síðustu heitin þýðing á columpna paschalis, latneska heitinu á páskakertisstiku. Í skipan Árna biskups Þorlákssonar segir, að þá er presturinn heldur uppi holdi og blóði vors herra Jesu Christi í messunni, skuli »halldið upp logandi vaxkerti hjá prestinum«[9]). Eru slík kerti nefnd uppihaldskerti[10]); voru þau digur og fönguleg í öndverðu, en brátt dró úr því, og það urðu úr þeim venjuleg kerti, sem sett voru á sérstakar stikur, svonefndar uppihaldsstikur[11]), burðarstikur[12]) eða blys[13]), eða að það fór sem með páskakertið, að það varð »uppihaldskerti með tré«[14]) og þekkjast báðir siðirnir enn. Uppihaldsstikur hafa væntanlega að jafnaði verið úr tré, því nefnd er uppihaldsstika skorin[15]), og þær tvær uppihaldsstikur íslenzkar, sem til eru[16]), eru úr tré rendar, gyltar og steindar og að hæð 184,5 cm. Margar kirkjur áttu slíkar stikur og sumar allmargar. Af öðrum áhöldum til að bera kerti má nefna kertagrind[17]), kertafjöl[18]) og kertaformi[19]). Það er alveg óefað, að kertafjöl og kertagrind er sama og áhöld þau, sem nefnd voru á latínu herciæ (herfi) og rastella (hrífa); voru þessar

---

1) T. d. *D. I.* II, 665. *Wallem* bls. 104 heldur að páskakerti þýði páskakertisstika, og er það vitanlega einber misskilningur, sbr. AM. 266, 4to. bls. 3. 2) *D. I.* IV, 62. 3) *D. I.* III, 555. 4) *D. I.* III, 446. 5) *D. I.* III, 257. 6) *D. I.* IX, 313. 7) *D. I.* V, 267. 8) *D. I.* III, 559. 9) *D. I.* II, 29. 10) *D. I.* III, 528. 11) T. d. *D. I.* V, 267. 12) T. d. *D. I.* V, 281. 13) *B. S.* I, 804. 14) T. d. *D. I.* IV, 172. 15) *D. I.* V, 341. 16) Þjóðminjas. Dana nr. 12,577. Mynd hjá *Wallem*, 105. 17) *D. I.* II, 429. 18) *D. I.* II, 694. 19) *D. I.* V, 315.

kertagrindur með því lagi er nöfnin segja til, og er auðvelt að koma þeim heim við íslenzku heitin; hefur Wallem réttilega veitt þessu eptirtekt[1]). Kertaformi er hinsvegar óefað sama og »Kerzstall« á þýzku, sem dregið er af latneska orðinu stallum (sætaröð), en stallum hét á íslenzku formi[2]). Var það 13 eða 15 kerta grind þristrend, sem notuð var um tíðir í dymbilvikunni, og var fyrir hvern sálm Davíðs, sem sunginn var, slökt eitt kerti, unz eptir var eitt kerti í toppnum. Til að skara kertin var hafður klofi[3]), kertaklofi[4]), skarklofi[5]) og skari[6]). Kertin voru úr vaxi og voru þau stundum mislit, t. d. græn[7]), og gátu sumar kirkjur verið ótrúlega auðugar að þeim, svo átti Höskuldsstaðakirkja 1501 500 (þ. e. 600) kerti[8]). Um stærð kerta er óljóst getið. Nefnd eru þrjú kerti, er vógu 11 aura[9]) eða 3,3 aura hvert. Mörk vax kostaði eyri[10]); hefur hvert þeirra því verið liðugt hálft annað pund. G-texinn af skipan Péturs Hólabiskups minnist á þyngd kerta[11]), en því miður er einhver ruglingur á honum, svo að ekki er hægt að sjá hvað meint er — hann nefnir 100 kerti er vega pund, og nær það engri átt. Eitt sinn er getið um lengd á kerti; í jartegnabók Þorláks biskups er sagt að menn hafi heitið það til lífs uxa einum vænum, að gefa Þorláki kerti, er næði yfir um uxann; var kertið 5 álnir ísl. (c. 226 cm) á hæð og brann hjá dómi Þorláks[12]). Kertin voru geymd í kertastokk[13]) eða kertakistu[14]), því annaðhvort varð að geyma þau liggjandi eða hangandi, svo þau svignuðu ekki. Kirkjur áttu, sem eðlilegt var, opt vax í fórum sínum, því sennilega hafa þær steypt kerti sín sjálfar, en sjaldan var það mikið, þetta mörk[15]), þrjár merkur[16]), hálf fjórða mörk[17]) o. s. frv.; var það geymt í sérstakri hirðslu, vaxstokk[18]). Hvort

1) *Wallem* bls. 105—6. 2) Sbr. um sæti. 3) T. d. *D. I.* II, 693. 4) T. d. *D. I.* II, 427. 5) T. d. *D. I.* V, 267, sbr. clou á frönsku. 6) T. d. *D. I.* III, 531. 7) *D. I.* V, 266. 8) *D. I.* V, 346. 9) *D. I.* V, 327. 10) *D. I.* II, 170. 11) *D. I.* III, 474. 12) *B. S.* I, 347. 13) T. d. *D. I.* II, 403. 14) T. d. *D. I.* III, 528. 15) T. d. *D. I.* III, 516. 16) T. d. *D. I.* III, 517. 17) T. d. *D. I.* IV, 236. 18) T. d. *D. I.* V, 267.

vaxið hefur verið íslenzkt skal látið ósagt, en ekki er ólíklegt að býflugur hafi verið hafðar á klaustrunum, enda eru til villibýflugur hér á landi. Við siðaskiptin hefur býflugnabúunum verið steypt, er klaustrin voru upphafin; vera má að villibýflugurnar séu afkomendur þeirra býflugna. Vax hefur þó bersýnilega verið flutt inn, því kaupsetning í Vestmannaeyjum við enska frá 1420 tekur til verð á vaxi[1]). Það hefur vafalaust verið siður, síðan kristni hófst hér og þar til siðaskiptin skullu á, að láta ljós — ofurlitla týru — loga þar sem hold og blóð lausnarans var geymt. Í fyrstu hafa það eins á Englandi verið steinar með bolla klappaðan í; kölluðu Englar þetta »cresset«[2]), en vér kölluðum það »lýsisteina«[3]). Er einn slíkur lýsisteinn til í Flatey á Breiðafirði, sem verið hefur þar í kirkjunni[4]), og tveir eru til í þjóðminjasafni voru[5]). Nefnd er og lýsimunnlaug[6]) og kirkjubolli[7]), og með honum spýta, sem bersýnilega er ætluð til að færa fram kveikinn með, en þessi áhöld öll eru auðsæ millistig milli lýsisteinsins og kolunnar. Wallem hefur[8]) séð það alveg rétt, að kolan var svona sibrennandi týra hjá sakramentinu, en furðar sig á því, hve tiltölulega sjaldan hennar er getið, en það er ekki að marka, því hún var, það sýna lýsingarnar, svo tiltölulega ómerkilegt og verðlaust áhald, að ekki er að furða þó hún félli úr máldögunum, það gjörði það sem stærra var. Það er bersýnlegt, að kolan[9]), lýsikolan[10]) og kirkjukolan[11]) eru áhöld, sem leysa lýsisteininn, sem auðvitað ekki þókti nógu fíngerður af hólmi. Kolurnar voru litlar skálar með trjónu og upp eptir henni lá kveikurinn; heitið kola, eins og það hefir verið notað til skamms tíma, segir það. En grútarlamparnir okkar eru alls ekki íslenzkir að uppruna og samskonar lampar þekkjast í öðrum löndum[12]). Það er ekki mikið sem í kirkjukolurnar hefur verið

1) *D. I.* IV, 277. 2) *Cox: English church furniture,* bls 320—21. 3) *D. I.* I, 266. 4) Sjá bls. 130—31 hér. 5) Nr. 1908, 7866. 6) *D. I.* II, 62. 7) *D. I.* II, 429. 8) Bls. 108—9. 9) *D. I.* III, 102. 10) *D. I.* II, 378. 11) T. d. *D. I.* III, 85. 12) Sbr. v. Jaden: Húsmunir; *Óðinn* V, 68.

borið; þær voru úr tré[1]), steindar[2]), úr járni[3]), messing[4]) og látúni[5]). Sumar kolur sýnast hafa staðið eða verið reknar í vegg, en aðrar hafa hangið[6]), og hefur jafnvel verið hægt að draga þær upp og ofan og voru þær þá nefndar dráttarkolur[7]). Kolur voru ekki aðeins hafðar fyrir sakramentinu, heldur og fyrir myndum eða ölturum dýrlinga[8]). Kolurnar voru ekki altaf með einni trjónu og einum kveik, t. d. er nefnd koparkola sexhyrnd[9]) og hefur hún vafalaust verið með jafnmörgum kveikjum. Eptir kolurnar, og þó jafnhliða þeim, koma lamparnir[10]). Þeir eru eins og kolurnar úr tré[11]), járni[12]), messing[13]), eir[14]) og gleri[15]). Lampar sýnast hafa verið með tvennu móti eða jafnvel þrennu; ekki ósennilegt, að þeir hafi verið alveg sama og kolurnar, jafnvel optast, en stundum hafa þeir verið innri skál í kolunum, því nefnd er kirkjukola með lampa úr járni[16]). Kemur þetta heim við nútíðarmálvenju; kola er einföld skál með kveik, en lampi tvær skálar, önnur ofan í hinni og með einum kveik. Það hefur verið til, að lamparnir væru á stöng sem stóð á fæti, svo að mætti færa þá upp og ofan; »lampur með messing og járnstiku undir«[17]) er óefað slíkur lampi; sama er að segja um stiku þá með járnlampa, sem Reykjahlíðarkirkja átti 1394[18]). Slíkir lampar voru alþektir og hafa til skamms tíma verið notaðir upp til sveita erlendis. Voru þessir standlampar stundum með fleiri en einni trjónu, t. d. tveimur; urðu þeir þá mjókkandi til endanna og eins og skip í lagi, og er ég í engum vafa um að járnstika sú með skipi, sem nefnd er í fatabúri á Hólum 1396[19]), hafi verið slíkur lampi, en kirkjugripur var það ekki eins og Wallem heldur[20]). Járnskip þau, sem nefnd eru

---

1) T. d. *D. I.* V, 338. 2) *D. I.* II, 62. 3) T. d. *D. I.* III, 173. 4) T. d. *D. I.* IV, 162. 5) T. d. *D. I.* V, 338. 6) *D. I.* V, 274. 7) *D. I.* V, 631. 8) Ibid.; *D. I.* IV, 194. 9) *D. I.* III, 703. 10) T. d. *D. I.* II, 436. 11) *D. I.* III, 575. 12) T. d. *D. I.* III, 527. 13) T. d. *D. I.* III, 69. 14) T. d. *D. I.* III, 156. 15) T. d. *D. I.* III, 575. 16) *D. I.* V, 297. 17) *D. I.* IV, 158. 18) *D. I.* III, 584. 19) *D. I.* III, 613. 20) Bls. 104.

í máldögum og hann heldur[1]) vera lampa[2]), munu ekki vera það, heldur reykelsisstokkar. Í kolum og lömpum hefur óefað verið brent lýsi, þar af nafnið lýsikola, og hafa kirkjurnar haft ílát undir það, lýsiker[3]) og lýsikistur[4]), en þær eru vitanlega ekki með kirkjugripum teljandi. Sama er að segja um skons[5]) og skriðljós[6]), sem nokkrum sinnum er nefnt og er eitt sinn talað um skons úr látúni[7]). Eru það luktir, skriðljós venjuleg opin lukt, en skons — af latneska orðinu sconsa — lukt þar sem hægt var að byrgja ljósið án þess að slökkva það. Þessum áhöldum var vitanlega ekki ætlað að vinna neitt kirkjulegt verk, það var geyfiljós til allra nauðsynja. Hugsanlegt er þó, að prestar hafi látið bera skriðljós fyrir sér, er þeir báru sakramentið til sjúkra, eins og annarstaðar var siður[8]), enda segir í skipan Jörundar erkibiskups, að prestar skuli, er þeir beri sakramentið til sjúkra, láta bera fyrir sér logandi kerti, nema vegalengd hamli[9]). Laurentius biskup las á morgnana psaltara við skons og sofnaði síðan[10]); hefur hann bersýnilega notað skons, svo hann gæti byrgt ljósið er hann svæfi. Færi hann aptur á móti að kveldi að gá að hátterni manna inni í bæ, lét hann bera fyrir sér skriðljós[11]). Vitanlegt var það, að kveikja þurfti einhvern veginn á kertunum, en þó er ekki nema einu sinni nefnt eldsvirki[12]), en þau munu að jafnaði hafa þókt of ómerkileg til þess að menn teldu þau. Hóladómkirkja átti:

1374. 1) Altarisstikur úr kopar gyltar fjórar.
2) Járnstikur litlar fjórar.
3) Járnstiku stóra[13]).

---

1) Bls. 104. 2) Kertagrind sú með skipslögun frá Urnæskirkju, sem Wallem nefnir í riti sínu: Lys og Lysstel i norske Kirker og Hjem, Oslo 1907, bls. 9, og hefur mynd af, hefur óefað ekki verið neitt algengt ljósáhald, heldur miklu fremur verið haft með því lagi, svo sem til gamans. 3) *D. I.* II, 665. 4) *D. I.* II, 427. 5) *D. I.* II, 483. 6) Ibid. 7) *D. I.* 594. 8) *Otte* I, 171. 9) *D. I.* II, 276. 10) *B. S.* I, 847. 11) *B. S.* I, 849. 12) *D. I.* I, 255. 13) Vafalaust á gólf.

4) Formessustiku með kopar[1]).
5) Blys tvö (= upphaldsstikur).
6) Önnur betri.
1396. 1) Koparstikur fimm.
2) Járnstikur fimm[2]).
3) Járnstika með skipi. (Bersýnilega lampi.)
1525. 1) Koparstikur 18.
2) Upphaldsstikur 6.
3) Lampur.
4) Englar tveir litlir með bjöllum og gyltum stöngum[3]).
1550. 1) Koparstikur 11.
2) —— 2 góðar.
3) —— 2 fyrir bríkinni.
4) Koparstjaki.
5) Koparhjálmur.
6) Járnhjálmar þrír.
7) Englar tveir með gyltum stikum[3]).

Það er æfagamall siður að brenna reykelsi í guðsþjónustunni, og hafa kristnir tekið þann sið eptir gyðingum. Þegar kristni barst hingað var siðurinn að öllu með þeirri mynd sem hann hefur enn. Reykelsið er ímynd bænarinnar[4]) og var í virðingarskyni borið yfir ýmsa hluti er þeir voru vígðir, svo sem kerti á kyndilmessu, ösku á öskudag, og pálma á pálmasunnudag[5]), svo og yfir sakramentið utan messu og innan[6]). Eins var um helga dóma, altari, biskupa, presta og klerka og allan söfnuð, og haft var það í prócessium[7]). Var því brent í keri, sem optast var nefnt glóðarker[8]),

1) Stiku þessa skyldi nota við formessu — lakari stika; — hún ekki seráhald. Að hún er ein bendir til þess, að á Hólum hafi þá aðeins verið haft eitt kerti við formessu. 2) Sýnir að mjög lítið af þessum gripum fórst í fokinu 1396; þetta eru með tölu sömu stikur og 1374. 3) Áður hefur verið bent á, að hér muni að ræða um ljósberandi engla, er stóðu á stöngum, sem báru altarisvængina. Þó var ekki fátítt að venjulegir altarisstjakar væru í engilsmynd, er bæri stjaka *(Otte* I, 169). 4) Opinb. Joh. 5) AM. 266, 4to bls. 2. 6) Ibid. bls. 3. 7) *B. S.* I. 258. 8) T. d. *D. I.* I, 251.

stundum eldker[1]) og örsjaldan reykelsisker[2]) (thuribulum). Var það gert úr tveim skálum, sem hvolft var saman; á neðri skálinni var stétt svo hún fengi staðið, og þrjár eða fjórar lykkjur á barminum, en efri skálin var götótt og með lykkjum á barminum, sem stóðust á við lykkjur neðra kersins. Í lykkjur neðra kersins var fest jafnlöngum keðjum eða stöngum, sem voru dregnar upp um lykkjur efra kersins, og mættust keðjurnar í plötu, sem þeim var fest á. Opt var í toppinn á efri skálinni fest keðja, sem lék um gat á plötu þessari, svo hægt væri að draga upp efri skálina og þar með opna kerið. Í neðri skálina voru lögð glóandi viðarkol og á þau stráð reykelsi (olibanon, thus), og var kerinu síðan lokað og veifað; við það fór súgur um götin á efri skálinni, er sogaði ilmandi reykinn út með sér. Reykelsi var ýmist storknuð viðarkvoða úr reykelsistrénu (Boswellia), eða myrra, storknuð kvoða úr balsamviðinum (Balsamodendron); hér á landi var sama nafnið notað um báðar tegundirnar. Glóðarkerjaskálarnar voru opt með dýrasta verki, opt myndaðar svo sem hús með gluggum, sem þá voru súggöt. Á sumum glóðarkerjum voru festar langar[3]), á öðrum stuttar eða svo sem engar[4]). Nefnd eru glóðarker með kopar[5]) og með silfur forgylt[6]). Nefnt er glóðarker fyrir mörk[7]), glóðarker vel gjört með góðan kopar fyrir 12 aura[8]) og reykelsisker fyrir 2 hundruð[9]). Heilt reykelsisker íslenzkt er í þjóðmenjasafni Dana[10]) og neðri bolli af einu í þjóðmenjasafni voru[11]); er hann með kringlóttri stétt undir og ekki stærri en lítill tebolli. Svo er þar og efri skál af einu[12]); er það úr eir og lykkjurnar í enn, en síðan hefur því verið breitt í ljósastjaka. Reykelsið var í kirkjunni haft í sérstöku keri (acera, navis, pyxis)[13]), og var það ýmist

1) T. d. *D. I.* II, 427. 2) T. d. *D. I.* III, 160. 3) *D. I.* III, 450. 4) Nefnd eru glóðarker festarlaus, en þar mun verið að segja galla á glóðarkerinu. 5) *D. I.* IV, 75. 6) Ibid. 7) *D. I.* III, 196. 8) *D. I.* VII, 738. 9) *D. I.* V, 341. 10) Nr. CXXI. 11) Nr. 3751. 12) Þjóðmenjas. Ísl. nr. 5899. 13) *Wallem* nefnir það bls. 82. »incensorium«; það þýðir þó venjulegast glóðarker.

nefnt reykelsisbuðkur[1]), reykelsisstokkur[2]), myrruker[3]) eða skip[4]). Er síðasta heitið dregið af því, að ílátið var í laginu sem bátur er stóð á fæti; var lok yfir honum öllum, en mátti opna hálft[5]). Með reykelsisstokk eru opt nefndir spænir[6]); voru þeir ætlaðir til að flytja reykelsið úr stokknum yfir í glóðarkerið. Voru spænirnir á stærð við venjulega kaffiskeið. Öll skip, sem nefnd eru, eru úr járni. Reykelsisstokkar eru nefndir úr kopar, smeltir[7]) og amalieraðir[8]), sem er sama. Eldberar[9]) eða eldberaker[10]) voru nokkurskonar skaptpottar og voru kolaglæður í reykelsiskerin sóttar í þeim innan úr bæ[11]). Varð þessi glóð kirkjunum opt skeinuhætt og olli brunum, t. d. í Holti undir Eyjafjöllum[12]) og í Skálholti[13]). Nefndur er eldberi með kopar[14]). Voru þessi áhöld að vonum mjög forgengileg, og þarf ekki að furða þótt komi fyrir eldberi »og allur í sundur bollinn«[15]). Glæðurnar voru færðar úr eldberanum yfir í glóðarkerið með töngum, svonefndum glóðarjárnum[16]). Hóladómkirkja átti:

1374. 1) Glóðarker tvö með silfur.
2) —— gylt.
3) —— tvö með kopar.
4) Aceru smelta.

1396. Sama og 1374, en að auki silfurspón lítinn[17]).

1500. Sama og fyr, nema annað koparglóðarkerið.

1525. 1) Glóðarker tvö með silfur.
2) —— með kopar.
3) Myrrruskip tvö og annað með látúnsskeið[18]).
4) Eldbera vondan.

---

1) *D. I.* II, 709. 2) *D. I.* III, 527. 3) *D. I.* V, 341. 4) T. d. *D. I.* III, 446. 5) *Wallem* heldur bls. 106, að þetta sé ljósáhald, en sú skýring er ekki eðlileg. 6) T. d. *D. I.* V, 267. 7) *D. I.* II, 709. 8) *D. I.* IV, 219. 9) T. d. *D. I.* I, 269. 10) *D. I.* III, 574. 11) *D. I.* IX, 519. 12) L. c. 13) *B. S.* II, 321. 14) *D. I.* V, 256. 15) *D. I.* VI, 28. 16) T. d. *D. I.* I, 270. Registrið við *D. I.* II, segir ranglega að það sé baksturjárn. 17) Í myrruskipið. 18) *Wallem* segir bls. 83 neðanm.: »látuns maa henföres til mirruskip, ikke til skeið«, en það er rangt.

1550. 1) Glóðarker með silfur.
2) —— með kopar.
3) Myrruskip með kopar.

Þar sem vax og reykelsi var notað í öllum messum og tíðum, þurfti hver kirkja að vera hæfilega birg af þessu, enda á hver kirkja um aðra þvera »þrjár merkur vax«[1]) »níu merkur vax«[2]) o. s. frv. Sumar eiga, sem getið er, svo hundruðum skiptir af vaxkertum, og t. d. »10 merkur vax og reykelsi«[3]), »hálf mörk reykelsis«[4]), »fimm merkur meður reykelsi«[5]) o. s. frv., það jafnvel fátækustu kirkjur. Það er því síst að furða þótt Hóladómkirkja eigi:

1374. 1) Vax sex og halfan (3 + 3½) fjórðung.
2) Reykelsi 26 merkur.

1396. 1) Vax þrjá fjórðunga.
2) Reykelsi ellefu merkur.

1525 Myrrusekki þrjá.

5. Píslarmörk voru í fyrstu kristni ekki í þeim hávegum höfð, sem síðar varð, þó að kristnin ætti sinn veg mjög krossi Krists að þakka. Mun orsökin sú, að krossinn var um sinn hafður sem kvalatól glæpamanna. Eptir að Konstantin keisari hafði sigrað Maxentius 312 undir merki krossins, fór móðir hans Elín (Helena) til Jórsala, fann kross Krists í jörðu, tók hann upp, og var það hinn dýrasti helgur dómur. Nam Konstantin krossfestingu úr lögum, og úr því var krossinn merki kirkjunnar. Krossmarkið olli eptir það því (sbr. bls. 155—163), að kór kirknanna var fluttur frá vesturendanum í austurendan. Eptir það komu og allar signingarnar, aðalatriði allra vígslna, inn í kirkjusiðuna, og var nú varla svo aum kirkja, að ekki ætti hún kross einn eða fleiri. Krossar voru tvennskonar: krossmörk (ornamentale), sem að eins sýndu sjálfa lögun krossins, en ekki hinn krossfesta nema þá óverulegan, annað hvort steindan eða upphleyptan, og róðu-

1) *D. I.* II, 667. 2) *D. I.* II, 778. 3) *D. I.* II, 449. 4) *D. I.* II, 62. 5) *D. I.* II, 442.

krossar með Krist festan á (crucifixa). Fyrri gerðin var í upphafi algengust, en hér á landi sýnist hvorttveggja hafa þekst jöfnum höndum, því nefnt er krossmark [1]), teikn [2]), crucifixum [3]), kross [4]), róðukross [5]), kross og á róða [6]) eða kross með líkneski [7]). Í krossmörkunum hafa því mæst tveir tímar, ekki búnir að útkljá það, sem þeim bar á milli. Það, sem enn er til af íslenzkum miðaldakrossum sýnir og þetta. Íslenzkir krossar voru úr tré [8]), ýmist steindir [9]) eða ómálaðir [10]), úr alabastri [11]), messing [12]), eir [13]), látúni [14]) eða kopar [15]), ýmist ósmeltir eða smeltir [16]), úr silfri [17]) eða tönn [18]). Þeir eru nefndir búnir [19]) þ. e. a. s. þaktir málmþynnum, búnir með silfur [20]), gulllagðir [21]), pítallagðir [22]) (= búnir), gyltir [23]), smeltir [24]) og steindir [25]). Krossar með líkneskjum eru nefndir oftar en einu sinni [26]), og er með því óefað ekki að jafnaði átt við það, að undir krossinum stæðu líkneskjur af Maríu og Jóhannesi, eins og beinast lægi við, heldur hitt að á örmum krossins væru líkneskjur af Maríu og Jóhannesi, en af Adam undir róðunni, eins og þekkist á íslenzkum krossum [27]). Er það og bersýnilegt á því, að nefndir eru oftar en einusinni krossar með þrem líkneskjum [28]). Gerð og frágangi smeltra krossa hefur Matth. Þórðarson lýst vel [27]); er það verk optast kent við Limoges á Frakklandi, þar sem mest og bezt var að því unnið. En merkilegt er það, að þetta verk

1) T. d. *D. I.* I, 597. 2) *D. I.* VI, 328. 3) *D. I.* III, 289. 4) *D. I.* III, 515. 5) *D. I.* III, 69. 6) *D. I.* III, 557. 7) *D. I.* II, 471. 8) T. d. *D. I.* II, 446. 9) *D. I.* II, 688. 10) T. d. *D. I.* IV, 593. 11) *D. I.* VII, 456; sá steinn tíðkast annars fyrst hér um 1500. 12) T. d. *D. I.* II, 682. 13) T. d. *D. I.* IV. 101. 14) T. d. *D. I.* II, 434—5. 15) T. d. *D. I.* III, 581. 16) T. d. *D. I.* I, 476. 17) T. d. *D. I.* IV, 21. 18) T. d. *D. I.* IV, 159. 19) T. d. *D. I.* III, 515. 20) T. t. *D. I.* VI, 328. 21) T. d. *D. I.* III, 238. 22) *D. I.* II, 635. 23) T. d. *D. I.* III, 81. 24) T. d. *D. I.* II, 665. 25) T. d. *D. I.* II, 361. 26) T. d. *D. I.* II, 434. 27) Þjóðmenjas. Ísl. Nr. 788, 2445 og 7032; sbr. ágæta grein um »róðukrossa með rómanskri gerð«, eptir Matth. Þórðarson, *Á. I. F. F.* 1914, 30—37 og leiðréttingar hans við þá ritgjörð í sama riti 1918, 33—35. 28) T. d. *D. I.* II, 474, III, 84 o. s. frv.

virðist hér á landi hafa verið kent við Írland og smeltir krossar optast nefndir írskir krossar[1]). Írskum krossum er í ritgjörð um Skálholtsbiskupa, ritaðri 1593, lýst svo, að þeir séu gjörðir af leiri og smeltir í steinar[2]). Þótt lýsingin sé röng, sést þó á henni, hvað við er átt, smelta krossa með bjargkristöllum eins og krossinn í Þjóðmenjas. Ísl. nr. 7032 og krossa sama safns nr. 788 og 1499, en smaltið hefur í augum höf. orðið að leir. Nefndur er og »írskur kross brotinn og úr steinarnir sumir«[3]), bendir það alt á einn veg. Með orðinu guðspjallakross[4]) mun ekki átt við neinn sérstakan frágang, nema hvað hann var prýddur merkjum guðspjallamannanna, sínu á hvorri álmu. Orðið hlaðkross í registrum Fornbréfasafnsins er einkar villandi, það er ekki krossmark, heldur kross á fati, messufati eða altarisklæði. Til var að hafa krossróður í fötum, því nefndir eru krossar klæddir[5]) og óklæddir[6]) og var jafnvel brugðið silfurbelti yfir um þá[7]). Eins og getið er voru krossar hafðir á ölturum, og voru þeir ýmist lausir við þau eða fastir og stóðu þá á stalli[8]) eða undirstöðum[9]) og hafa þeir þá ef til vill verið í bríkarstað. Einn slíkur kross frá miðöldunum er til í þjóðmenjasafni voru[10]), er hann frá Haga, gjörður úr eik og ef til vill íslenzkur. Annar er þar og smeltur með steinum[11]). Aðrir róðukrossar, sem safn vort á nú, með undirstöðum, eru allir gerðir upp úr bríkum eptir siðaskiptin[12]). Hins vegar eru til í safninu brot af krossum og róður af krossum, sem verið hafa með undirstöðum[13]) og eru sumir með gotneskri, aðrir með rómanskri gerð, ýmist úr tré eða kopar, smeltir eða lagðir málmþynnum. Fyrir processíum voru bornir krossar á háum stöngum; nefndur er kross á stöng[14]) og kross og silfurbúin stöng undir[15]). Á þessa

1) T. d. *D. I.* III, 527. 2) *B. S.* II, 248. 3) *D. I.* VI, 333. 4) T. d. *D. I.* III, 241. 5) *D. I.* III, 87, III, 241. 6) *D. I.* III, 87. 7) Sjá »hulduklæði«. 8) T. d. *D. I.* III, 242. 9) T. d. *D. I.* III, 92. 10) Nr. 2062. 11) Nr. 7032; lýsing í *Á. Í. F. F.* 1918 33–35. 12) Nr. 2070, 2090, 2134–38. 13) Nr. 240, 262, 788, 1855, 2139, 2445, 4499, 4751. 14) *D. I.* IX, 305. 15) *D. I.* IV, 48.

krossa hefur verið minst að svo miklu leyti sem gunnfáninn á upptök sín í þeim. Þeir voru að öllu með sama frágangi og krossar með undirstöðum, nema hvað stöngin kom í stað undirstöðu; var optast broddur í krossinum, sem rekinn var ofan í stöngina. Eru tveir slíkir krossar í þjóðmenjasafni voru[1]), er annar krossmark og hinn róðukross. Nefndur er eitt sinn kross »með stög«[2]), sem hlýtur að vera misskript fyrir stöng og því burðarkross. Sérstök gerð á þessum krossum tíðkaðist á Englandi, og sýnist hún — af því að þjóðmenjasafn vort á brot af þremur slíkum — og hafa tíðkast hér á landi. Krossar þessir eru ekki eldri en frá 15. öld. Til sparnaðar voru þeir svo gerðir, að nota mátti þá bæði sem altariskrossa og burðarkrossa. Var krossinn sjálfur með titt niður úr sér; var hann rekinn niður í stöng, eða undirstöðu eptir því hvort nota skyldi hann sem burðarkross eða altariskross. Fylgdu honum líkneskjur af Maríu og Jóhannesi á lausum álmum, er hafa mátti undir honum[3]). Nr. 415 í þjóðmenjasafninu, sem í skránni[4]) er kallað monstsansfótur, er í raun réttri stallur undan slíkum krossi. Á nr. 3224 í sama safni eru álmur með myndum Maríu og Jóhannesar og Kristsróðu af slíkum krossi. Nr. 4404 í safninu er og slíkur kross, er hann með hinum einkennilega breiða, stýfða broddi. Eru þessir krossar svo líkir krossunum hjá Cox[5]) að það tekur af skarið, og svo líkir innbyrðis, að þeir hljóta að vera gjörðir á sama tíma, og jafnvel í sömu smiðju. Með orðatiltækinu kross með líknekjum gæti vitanlega líka verið átt við sama. Þar eð þeir þó eru sjaldan nefndir eptir 1400, en hinir krossarnir eru 15. aldar verk, getur það ekki borið sig. Matth. Þórðarson álítur krossinn þjóðmenjas. Ísl. nr. 788 — og hlýtur það einnig að ná til nr 4499 — geti hafa verið processíukross[6]); dregur hann það af því, að krossinn hef-

1) Nr. 911, 4811. 2) *D. I.* II, 663. 3) *Cox: English church furniture*, bls. 54. Með myndum. 4) *Skýrsla um forngripasafn Íslands* II, Kbh. 1874, bls. 31—32 sbr. *Þjóðmenjasafn* bls. 14. 5) L. c. 6) *Á. Í. F. F.* 1914, 34.

ur verið lagður málmþynnum bæði framan og aptan. Af þessu er þó varla ályktandi um það. Kirkjugripir miðaldanna eru sjaldan með »ranghverfu«. Krossar voru hafðir víðar en á öltörum. Sérstaklega var algengt að hengja stóra krossa í eða yfir kórdyrum. Svo eru nefndir »stór kross yfir kór«[1]), »kross frammi á kór«[2]), »kross yfir kórdyrum«[3]) o. s. frv. Af slíkum krossum eru nú ekki til nema tveir, sem með vissu eru frá miðöldunum; þeir eru í þjóðmenjasafni voru nr. 4795 og 1581. Hinn síðarnefndi fanst í helli, norður í landi; hefur verið fólginn þar svo hann ekki lenti í hershöndum siðaskiptamanna. Það eru því fleiri en Gissur Einarsson, sem hafa amast við krossmörkunum. Klausturhólakrossinn[4]) er sami krossinn, sem getið er um hjá Wallem[5]), hann er frá því eptir siðaskiptin, gerður í Hamborg 1592, og hefur á honum staðið:

> **Effigiem Christi qui transis pronus honora,**
> **non tamen effigiem sed quem designat adora.**

Þarna er, þó versið að vísu sé gamalt[6]) og ekki óalgengt á krossum í kaþólskum sið, sennilega verið að slá varnagla siðaskiptanna við því, að myndinni sé sýndur sami heiður og í kaþólsku. Það mætti því álykta að krossinn nr. 4522 í þjóðmenjasafni voru, sem gerðarinnar vegna vel gæti verið úr kaþólskum sið, væri frá því eptir siðaskiptin, því hann er með samskonar áletran:

> **Non deus est, sed sculpta deum præsentat imago;**
> **qva visa tu in mente colas id qvod cernis in illa.**

Af slíkum krossum öðrum, sem þjóðmenjasafn vort á, eru að eins tveir, sem til greina gæti komið að væru úr kaþólskum sið[7]), hinn þriðji[8]) er áreiðanlega yngri en siðaskiptin. Aðrar tegundir krossa voru fontkrossar (sjá font) og líkakrossar[9]). Voru hinir síðarnefndu processíukrossar, einfaldir að gerð og bornir á stöng fyrir líkfylgdum. Annarstaðar var það allkunnur siður, að

---

1) *D. I.* III, 89. 2) *D. I.* II, 781. 3) *D. I.* II, 378. 4) Þjóðmenjas. Ísl. nr. 4447. 5) Bls. 39—40. 6) Versið er í *Rationale* fol. 5 dorso. 7) Nr. 3341, 2397. 8) Nr. 1931. 9) T. d. *D. I.* II, 474.

geyma helga dóma í krossmörkum — líka öðrum en þeim, sem bornir voru á brjósti; er ekki getið um slíkt hér nema einu sinni, »silfurkross með helgum dómum«[1]). Krossar voru optast vígðir[2]). Um verðmæti krossa er sjaldan getið, einu sinni er nefndur »kross með líkneskjum. jafngóður fjórum mörkum«[3]). Af krossum átti Hóladómkirka:

1396. Krucifixum[4]).

1525. 1) Koparkross forgyltan með undirstöðum.
2) Kross uppi yfir kórdyrum gyltan.
3) Kross með undirstöðum í krossstúku.
4) Merkiskrossa tvo.

1550. 1) Koparkross á háaltari[5])
2) Píslarmark yfir háaltari gjört með tönn.
3) Stóran kross yfir kórdyrum.
4) Látúnskross.
5) Píslarmark.
6) —— annað[6]).

Átt hefur kirkjan fjölda krossa fyrir 1396; svo er t. d. getið um að 1224 hafi brostið þar úr krossi[7]) og þókti ganga jartegn næst. Á dögum Auðunnar biskups hefur og kirkjan átt stóran kross, sem stóð innarlega í kirkjunni og var helgur dómur Guðmundar biskups settur fyrir framan hann[8]). Kross sá sem nú er í dómkirkjunni er líklega frá því eptir siðaskiptin.

6) Sá siður er æfagamall í kristni, að kirkjur séu prýddar myndum dýrlinga, sérstaklega þeirra er kirkjur eru helgaðar. Er þetta svo áreiðanlegt, að opt má ráða helgun kirkju af myndaeign hennar. Á myndunum er sýndur guðdómurinn og ýmsar persónur hans, dýrlingarnir og jafnvel heilir viðburðir úr sögu þeirra. Skal ekki vikið að myndum, sem eru á tabúlum, bríkum, dúkum og krossum, þær hafa sérstakt hlutverk að inna í kirkjunni. Hér er átt við myndir þær, sem stóðu hér

1) *D. I.* II, 474. 2) *D. I.* I, 135 og víðar. 3) *D. I.* II, 743. 4) Fokið 1394 hefur verið nærgöngult við krossana, úr því kirkjan á ekki nema einn. 5) Bersýnilega sami og 1525. 6) Í biskups kapellu. 7) *I. A.* 186. 8) *B. S.* I, 829.

og hvar i kirkjunni, henni til prýðis og dýrlingunum til heiðurs. Ekki verður hægt að gjöra þeim nein fullnægjandi skil hér, því ikonographian — myndafræðin — er langviðtækasta grein kirkjufornfræðinnar, og myndi hún — þó að eins við Ísland væri miðað — verða of rúmfrek [1]). Myndir guðs og heilagra voru gjörðar eptir alveg föstum reglum; hafði hver sitt auðkenni svo að hann þektist frá öðrum, og skal að því vikið nokkuð. Guð faðir er öldungur með kórónu, ríkisepli og veldisprota. Kristur er ýmist skegglaus [2]) eða með alskegg klofið eins og enn er venja, og eins og hann er sýndur á öllum krossmörkum þeim, sem nefnd hafa verið, en alt af ungur maður [3]). Hann ber opt ríkisepli og kórónu eða þyrnikórónu; auðkenni hans eru naglaförin fjögur og síðusárið (stigmata). Heilagur andi er sýndur í dúfulíki. Af því að dýrlingar þeir, sem kirkjur hér hafa verið helgaðar, vafalaust hafa verið sýndir hér á myndum, skal getið auðkenna þeirra.

*María guðs móðir:* lilja eða einhyringur eða sveinninn Jesús; er hún stundum krýnd [4]), standandi á hálftungli [5]) eða í sporöskjulöguðum baug úr stjörnum (mandorla) [6]). *Pétur postuli:* lyklar [7]). *Ólafur konungur:* öxi [8]), maður [9]) eða undir fótum dreki með mannshöfði kryndu [10]); líka ríðandi [11]). *Þorlákur biskup:* ekkert. *Nikulás biskup:* bók og þrjár kúlur; akkeri; lægir sjó og vinda [12]). *Jón postuli:* örn (guðspjallamerkið); kaleikur og í naðra [13]). *Jón skírari:* guðslamb [14]). *Andrés post-*

1) Merkast rit í þeirri grein: *Kunstle: Ikonographie der Heiligen*, Freib. im Br. 1926. 2) Svo t. d. í *AM.* 479 4to. 3) Til eru ýmsar lýsingar á Kristi t. d. í Prosographiu Lentulusar og hjá Jóhannesi frá Damaskus, sem þykjast vera sannsögulegar, en eru hugarburður einn, og ber ekki saman. 4) T. d. *AM.* 249 4to (íslenzkt hdr.) 5) Þjóðmenjas. Ísl. nr. 3340. 6) T. d. á Grundarkorpóralshúsinu, Þjóðmenjas. Ísl. nr. 7053. 7) Þjóðm. Ísl 3482. 8) Þjóðm. Ísl. 3327. 9) AM. 68 fol. 10) AM. 160 4to. 11) *D. I.* II, 469. 12) Á skildi Reykhólakórkápunnar (Þjóðm. Ísl. 2458) er hann á skipi að lægja öldurnar. Einn skipverji spýr í stafni. 13) Á Hítardalsbríkinni, Þjóðm. Ísl. 3317—22. 14) AM. 233 a. fol.

*uli:* á eða með skákross[1]). *Míkael höfuðengill:* spjót eða sverð. *Tómas erkibiskup:* sverð stendur í höfði hans. *Laurentínus píslarvottur:* með rist[2]) eða logandi dalmatíku. *Marteinn biskup:* með sverð eða gæs eða skiptum kufli eða ríðandi[3]). *Katrín mær og píslarvottur:* hjól og sverð[4]). *Magnús Eyjajarl:* sverð[5]). *Cecilía mær:* stendur í katli; sár á hnakka; leikur á organ (á síðari öldum). *Blasius biskup:* ullarkambur; tvö krosslögð kerti. *Páll postuli:* sverð eitt[6]); jafn vel tvö. *Stephán frumvottur:* steinar. *María Magdalena:* smyrslabuðkur. *Barlam postuli:* hnífur; ber afflegna húð sína á handlegg. *Jakob postuli eldri:* pílagrímsbúningur eða sverð. *Margrét mær:* dreki og sverð. *Agatha mær:* töng og eldberi. *Anna móðir Maríu:* sýnd með Maríu og Jesú (mettercia)[7]), stundum berandi Maríu og María Jesúm[8]). *Augustínus kirkjufaðir:* hjarta með eina eða tvær örfar í gegnum. *Clemens páfi:* akkeri. *Sebastíanus píslarvottur:* nakinn, bundinn við staur, gegnstunginn með örfum, stundum ríðandi með örfar í hendi. *Agnes mær:* lamb. *Ambrosius biskup:* býflugnabú og svipa. *Barbara mær:* guðslíkamahús; sverð. *Benedikt ábóti (frá Nurcia):* bikar og í naðra, eða brotin krús. *Cosmas og Damianus píslarvottar:* meðalaglös og læknisáhöld. *Dominicus píslarvottur (Africanus):* stjarna á enni eða brjósti. *Egidius ábóti (Gísli):* hind. *Dionysius píslarvottur:* höfuðlaus; ber höfuðið í hendinni. *Gallus ábóti:* bjarndýr. *Germanus píslarvottur:* ekkert. *Gervasius & Protasius píslarvottar:* Gervasius með kylfu eða hamar, Protasius með sverð. *Gregorius páfi:* dúfa á öxl hans. *Guðmundur biskup:* ekkert. *Hieronymus kirkjufaðir:* ljón[9]). *Lúkas guðspjallamaður:* vængjaður uxi. *Mauritius & socii:* blakkur riddari með fána og sjö stjörnum í hendi. *Mattheus postuli:* vængjaður maður (guðspjallamerki), eða atgeir. *Ellefu þúsund meyjar:* örvar. *Lucia mær:* ber

1) Þjóðm. Ísl. 2441. AM. 646, 4to. 2) Svo á Grundartabúlunni í þjóðmenjas. Dana. 3) Á Möðruvallatabúlunni í þjóðmenjas. Ísl. 6430. 4) Þjóðm. Ísl. 4333. 5) Þjóðm. Ísl. 2027. 6) Á Reynistaðabríkinni. Þjóðm. Ísl. 1064. 7) Þjóðm. Ísl. 2027, 2069. 8) Svo á myndinni á Hólakórkápunni. 9) Mynd hans á Hólakórkápunni.

út stungin augu sin á skál eða bók; svöðusár á bringu. *Sixtus (Xystus) páfi:* ölmusupungur, sverð. *Sunnefa:* heldur á bjargi. *Thómas postuli:* lensa og hornmál (vinkill). *Urbanur páfi:* sverð. *Vincentius djákni:* hrafn.

Eitt var sameiginlegt með öllum helgimyndum, að um höfuðin var optast geislabaugur. Það er ekki að marka þó hann sé ekki á þeim myndum, sem nú eru til, hann er brotnaður af. Myndirnar voru með þrennu móti, skornar, steyptar eða högnar (sculpturæ), pentaðar (picturæ), eða hvorttveggja. Höggmyndirnar voru nefndar líkneski[1]), pentmyndirnar voru nefndar skriptir[2]), spjöld[3]) eða blöð[4]). Var málverkið og nefnt flatskript[5]) í mótsettningu við blað með uppkast[6]), sem var mitt á milli líkneskis og skriptar (relief), en orðið bilæti[7]) (Billede af Polypthychum) er nafn á hvaða mynd sem er. Þó þýðir líkneski á stöku stað máluð mynd — flatskript — t. d. Maríulíkneski á blaði[8]) o. s. frv. Líkneski koma fyrir úr kopar[9]) messing[10]), alabastri[11]) og tré, þótt aldrei sé það nefnt, svo hefur það þótt sjálfsagt, enda er fjöldin allur af líkneskjum, sem enn eru til úr tré. Trélíkneskjur voru optast holar (hola ofan í höfuð og hvilft í bak) svo að þær springju síður. Skyldi viður vel þur, en þar sem hann sprakk var felt og límt og lagður yfir magfaldur límplástur, síðan var alt líkneskið grunnað með stempur (af latnesku sögninni temperare), sem var límkvoða, og fágað nema þar sem gullfarga eður silfurfarga skyldi; þar var en borið á stempur og lagt ofan í stemprið blautt blaðsilfur og síðan gljáð með úlfs- eða hundstönn; var síðan dreyft á gullfargi nokkrum sinnum. Þegar þurt var orðið, var það af líkneskjunni, sem penta skyldi með steini (mála) grunnað

1) T. d. *D. I.* III, 350. 2) T. d. *D. I.* II, 576. 3) T. d. *D. I.* II, 448. 4) T. d. *D. I.* III, 512. 5) *D. I.* II, 576. 6) *D. I.* IV, 514. 7) *D. I.* V, 520. 8) *D. I.* III, 528. Úr þessari óreglulegu notkun orðsins líkneski gjörir Wallem (bls. 40) alt of mikið, og það er beint rangt að orðið skript sé nokkurntíma notað í merkingunni líkneski. 9) T. d. *D. I.* IV, 49. 10) T. d. *D. I.* IV, 196. 11) T. d. *D. I.* IV, 78.

með hvítu og bleiku og síðan pentað með þeim litum sem hæfði. En litina skyldi blanda (mala, það voru steinlitir) með olíu og tempra (breyta litbrigðum) með hvítum lit. Svona lýsir eitt merkilegt íslenzkt handrit líkneskjusmíð[1]), og eru þær líkneskjur, sem nú eru til gjörðar á þann veg, jafnvel líkneskjur gjörðar löngu eftir siðaskiptin t. d. Ólafslíkneskið frá Kálfafelli[2]), sem er frá 17. öld. Af flestum gömlum myndum er nú forni liturinn farinn, en nýtízku grindverkalitur kominn í staðinn. Frá skriptunum var gengið alveg eins ef þær voru gerðar á tré[3]); væru þær gjörðar á skinn eins og væntanlega opt hefur verið, að minsta kosti öll blöð, var frágangurinn annar. Líkneski voru alt af pentuð, slétt pentuð[4]) sem kallað var, og ef meira var við haft með silfur- eða gull-farg[5]). Það er bersýnilegt á leiðarvísinum um líkneskjusmíð að það hefur verið til að þau væru gjörð hér á landi, enda er nefnt »Önnulíkneski með íslenzkt fargan«[6]), en ekki eru nú til mörg, sem bera það með sér að þau séu hérlend smíð. Mun þó algengara hafa verið að líkneskin væru erlend, því bæði er getið um líkneski keypt í Noregi[7]), og þegar Hóladómkirkja 1329 eignast Guðmundarlíkneski, kemur það út[8]), og er því ytra gert. Um umbúnað líkneskja er opt sagt að þær séu með »húsi og hurðum«[9]); er í þjóðmenjasafni voru ein slík Ólafsmynd[10]) og er hún greinilega íslenzk. Ein slík Maríumynd íslenzk er til í þjóðmenjasafni Dana[11]). Önnur Maríumynd í þjóðmenjasafni Dana, sem Wallem[12]) telur vera Maríumynd í húsi og hurðum, er greinileg brík yfir altari. Með ein-

1) *Kålund: Alfræði íslenzk.* Kbh. 1908. bls. 89—91. 2) Þjóðmenjas. nr. 3165. Að dómi Matth. Þórðarsonar norskt *Þjóðmenjasafn* bls 10. 3) T. d. Möðruvallatabúlan. 4) T. d. *D. I.* III, 263. 5) T. d. *D. I.* V, 302. 6) *D. I.* VII, 199. 7) *D. I.* IV, 106. 8) *I, A.* 206. 9) T. d. *D. I.* V, 302. 10) Nr. 3327. Wallem segir bls. 48 að í þjóðmenjasafni sé mynd af Maríu og Önnu 1,10 m. á hæð, og sé hún með hurðum. Á hann þar, að því er virðist, við nr. 2069, en hún er hurðalaus. 11) Nr. 19014. Mynd hjá Wallem bls. 47. 12) Bls. 46; mynd hennar á sömu síðu.

kennilegri líkneskjum má telja »Jónshöfuð með diski«, sem Glaumbæjarkirkja átti 1461[1]), — mynd af höfði Jóns skírara, en hann var hálshöggvinn og höfuð hans fært dóttur Herodias á diski (Matth. 14, 8.), hér á landi hafa slíkar myndir verið hafðar yfir kórdyrum[2]). Þessi mynd var all algeng í útlöndum[3]). Um verð líkneskis er sjaldan getið; nefnt er líkneski, er eigi hefur kostað minna en 6 aura í Noregi[4]). Skriptirnar voru ýmist gerðar á tré eða bókfell. Tréskriptir eru nú engar til, en í allmörgum íslenzkum handritum eru til skriptir, það er að segja stór málverk, og er ekki átt við smámyndir í upphafsstöfum[5]). Skriptirnar sýndu ekki að eins mannsmyndir heldur og heila viðburði, svo sem »skript sú, sem er á uppreistarsaga«[6]). Skriptir voru eins og líkneskin bæði steindar[7]) og gyltar[8]). Á flatskriptir og skriptir með uppkast hefur verið drepið. Segir efnið þar nokkuð til. Skriptir með alabastur[9]), tönn[10]) og tin[11]) hljóta að hafa verið upphleyptar. Gætu tannmyndirnar í Þjóðmenjas. Ísl. nr. 81 og 420 og Maríumyndin úr tönn, sem er í Vídalínssafni verið »skriptir með tönn«. Sama er um Þjóðmenjas. Ísl. nr. 2444, ef að sú tilgáta mín, að þetta sé textaspjald, skyldi vera röng[12]) sem varla kemur til. Nefndar eru skriptir með hurðum[13]) og hafa það væntanlega verið skriptir með uppkast. Getið er nokkurra íslenzkra myndasmiða. Stefán Hauksson, sá er þjónaði Laurentiusi biskupi veturinn 1322—23 var »hinn mesti meistari á margar listir, gullsmíð, gröpt og uppkast«[14]) og hefur hann eptir þessu verið höggmyndasmiður. Í »Alfræði íslenzk« í kaflanum um líkneskjusmíð er bréf frá manni, sem kallar sig T, til múnks, sem kallaður er bróðir Magnús[15]), og

1) *D. I.* V, 331. 2) *D. I.* V, 631. 3) *Otte* I, 578. 4) *D. I.* IV, 106. 5) T. d. AM. 68, 233, 249 c, d, e fol. 135, 233, a 479 4to, Gl. kgl. sml. 3270, 4to. Stockholmssafn 5, fol., 16., 4to, Þjóðm. Ísl. nr. 4678, og miklu víðar. 6) *D. I.* II, 665. 7) *D. I.* IV, 44. 8) *D. I.* II, 117. 9) *D. I.* IV, 47. 10) *D. I.* IV, 62. 11) *D. I.* II, 741. 12) Eg er alveg ósamþykkur Matth. Þórðarsyni (*Þjóðmenjasafn* 13) um að þetta geti hafa verið paxspjald. 13) T. d. *D. I.* III, 520. 14) *B. S.* I, 843. 15) Kålund: Alfræði íslenzk bls. 89.

hljóta báðir að hafa verið líkneskjusmiðir. Með Hákoni Björgynjarbiskupi Þórissyni var á árabilinu 1335—1338 Þórarinn nokkur Eiríksson, sem kallaður var pentur. Hafði honum orðið það á að særa síra Ásgrím í Vatnsfirði í kirkjugarði [1]), og því flúði hann á vegu Björgynjarbiskups. Er Björgynjarbiskup hvað eptir annað að biðja gott fyrir hann við þá Jónana, Halldórsson og Indriðason, Skálholtsbiskupa [2]) og segir, að Þórarinn kunni »nokkuð svo« að penta og skrifa. Magnús prestur Þórhallsson lýsti alla Flateyjarbók [3]) þ. e. að segja málaði í henni myndirnar, en um hann vita menn ekkert annað, þó hann reyndar komi við tvo gjörninga vestra 1397 [4]). Enn er getið um að Bjarni jungherra Ívarsson lýsti messubók þá, er hann gaf Múnkaþverárklaustri 1473, en Jón Þorláksson hafði skrifað [5]). Marteinn, síðar evangeliskur biskup, Einarsson hafði lært málverk í Englandi, og málaði að fyrirlagi Ögmundar biskups Skálholtskirkju þá er brann 1526 [6]), en hvort hann hefur verið húsamálari eða listmálari hermir sagan ekki. Sama er að segja um Atla prest og skrifara, sem á dögum Páls biskups pentaði alt ræfur og bjórinn í Skálholtskirkjustöpli [7]). Svo mun hér óhætt að nefna Margréti högu, konu Þóris prests, og Þorstein þann, er Þorláksskrín smíðaði [8]), þó að þess sé um hvorugt beinlínis getið að þau hafi smíðað líkneskjur. Hóladómkirkja átti:

1374. Mannlíkan tvö með kopar gylt.
1396. Sama.
1525. 1) Maríulíkneski tvö gylt (í Önnustúku).
2) Sama (í Maríustúku).
3) Jóns líkneski baptistæ með stein.
4) Jóns líkneski [Hólabiskups] stórt forgylt [9]).

1) *I. A.* 349. 2) *D. I.* II, 723, 731. 3) *Flateyjarbók* Oslo 1860—68 I, framhlið blaðsins, sem er framan við fyrstu síðu (blaðsíðutalslaus). 4) *D. I.* VI, 32—34. 5) *D. I.* V, 728. 6) *B. S.* II, 251—52. 7) *B. S.* I, 132. 8) *B. S.* I, 143—4. 9) Þetta er óefað sama líkneskið, sem Auðun biskup hóf samskot til um Skagafjörð og hver skattmaður skyldi gefa einn klipping til. *B. S.* I, 893.

5) Guðmundar líkneski gylt[1].
6) Ólafs líkneski með stein, lítt gylt.
7) Ólafs líkneski gylt.
8) Englar fjórir gyltir.
9) Thumas líkneski eða Nikolai[2].
10) Þrjú líkneski með stein, lýtt gylt, yfir kórdyrum.
11) Látúnslíkneski lítil tvö.
12) Líkneski með stein.
13) Meyjalíkneski 4.
14) Koparhöfuð tvö[3].
15) Líkneski fimm[4].

1550. 1) Maríulíkneski tvö með hurðum[5].
2) Jóns líkneski, baptistæ með alabasturstein.
3) Jóns líkneski stórt forgylt í Jónsstúku[6].
4) Guðmundarlíkneski.
5) Ólafs líkneski með stein.
6) — — stórt forgylt.
7) Önnu líkneski.
8) Líkneski fjögur yfir háaltari með alabasturstein.
9) Líkneski tvö með stein.
10) Látúnsbiskupar tveir[7].
11) Líkneski.

1) Sama líkneskið og hingað fluttist til lands 1329. *I. A.* 206. 2) Það var ekki með öllu dæmalaust að menn ekki vissu hvers var mynd, það hefur væntanlega vantað auðkennið. T. d. er nefnd »Skript sancte Lucia enn sumir kalla heimram« *(D. I.* IX, 196). Oddakirkja átti Heimramslíkneski *(D. I.* VI, 630) og Illugi nokkur Heimramsson er nefndur fyrir norðan land 1494 *(D. I.* VII, 229). Er þessa getið af því, að erfitt hefur reynst að koma heitinu heim við nokkurn dýrling — mun þó vera Emmeramus píslarvottur úr Regensburg (messa 22. sept.). 3) Þarf ekki að vera líkneski, en ekki hægt að heimfæra það annað en hingað. 4) Í biskupskapellu. 5) Kirkjan á og »kross með festi á Maríulíkneski« og þá væntanlega annað af þessum. 6) Bæði líkneskin sömu og til voru 1525. Með Jónsstúku er ekki átt við sérstaka stúku, heldur þann part kórsins — austari partinn — þar sem Jónsskrín stóð. 7) Þetta eru sömu líkneskin, sem kirkjan átti 1374 og alt af síðan.

12) Koppur[1]) með silfur á Maríulíkneski annað.
13) Líkneski þrjú lítil[2]).

Á þessu má sjá að líkneskin dreyfðust um alla kirkju, en héldu sig ekki einvörðungu á kórnum, eins og Wallem segir[3]). Það er mjög einkennilegt að kirkjan 1374 og 1396 á ekki nema tvö koparmannlíkan, ef eptir máldaganum er farið, því bæði veit maður að Guðmundarlíkneskið var keypt 1329, að Jónslíkneskið útvegaði Auðun biskup og að líkneski þessi björguðust í fokinu 1394[4]), enda eru þau til bæði 1525 og 1550. Það er því víst að þessir máldagar eru ekki tæmandi. Það má merkilegt heita að máldagarnir engar skriptir nefna, því vitanlega hefur kirkjan átt töluvert af þeim, en svona er það. Wallem segist[5]) ekki vita til að líkneskjum eða myndum væru gefnar gjafir, sem hengdar væru hjá þeim (vótívgjafir). Þetta var þó algengt hér; það er enginn vafi á því, að gullnistu og silfurkrossar þeir, sem hengdir voru á líkneskin voru einmitt gjafir af því tæi. 1522 hét Ögmundur biskup í sjávarháska á höfuðdrottninguna »jungfru sanctæ Mariæ, sem heiðrast og dyrkast á Hofstöðum fyrir norðan land í Hólabiskupsdæmi (Hofstaða-María)«, »að láta gjöra skip af silfri um fimm lóð og hengja upp í sagðri Hofstaðakirkju«[6]), og opt er þess getið í jartegnabók Þorláks biskups, að dýrlingnum væri gefið vax, vaðmál o. s. frv., þó það sé nokkuð annars eðlis.

7.) Þegar búið var að brjóta brauðið í messu og hafa yfir »Agnus dei« gaf prestur pax sem kallað var[7]), þ. e. að segja hann og djákninn kystust fyrir altarinu og buðu hvor öðrum frið (»Pax tecum«). Með sama hætti kystust djákni og súbdjákni og svo koll af kolli allir á kór eptir mannvirðingum, en í kirkjunni skyldi »hver annan kyssa, karlmenn sín í millum, en kvenmenn sín í millum« og skyldi »sá koss vera með fullum kærleika svo af hjarta sem af líkam«[8]), segir árið 1346. Síður

1) Stendur svo í frumr., en á óefað að vera hnappur. 2) Í biskupskapellu. 3) Bls. 43. 4) *I. A.* 368. 5) Bls. 44. 6) *D. I.* IX, 98. 7) AM. 266, 4to bls. 3. 8) *D. I.* II, 842—3.

þessi var auðvitað töluverðum vandkvæðum bundinn, og á 13. öldinni fór hann að leggjast niður, og voru menn í staðin látnir kyssa svo nefnt paxspjald[1]) eða paxblað[2]) (osculatorium, pax). Hófst sá siður á Englandi um 1250[3]), en hér sýnist hann vera að komast á fyrri helming 14. aldar, því fyrst er paxspjald nefnt hér 1307, en kirkjuskipan Árna erkibiskups 1346, sem vitnað var í, gjörir ekki ráð fyrir þeim[4]). Bar prestur eða djákn það til fólksins í bandi — strengjum —, sem hann hafði um hálsinn og fastir voru á spjaldinu; því er nefnt paxblað strengjalaust[5]). Ekki voru þessir strengir, eins og Wallem heldur, ætlaðir til að hengja upp paxspjaldið á vegg[6]). Wallem styður þessa skoðun sína með því, að getið er um »paxspjald lítið á altari fyrir Bartholomeo«[7]). Einstökum dýrlingum og öltörum gáfust opt gripir, sem ekki skyldi nota nema þar, og svo er bersýnilega hér. Pax hvorki stóð eða hékk á altari eins og Wallem heldur, það hékk um hálsinn á presti meðan verið var að nota það, annars var það geymt þar sem bezt gengdi. Gerðin var ýmisleg. Paxspjöld eru nefnd úr tré[8]), steind[9]) með blek (þ. e. a. s. teiknuð)[10]), gylt[11]) með uppkast (ɔ: relief)[12]) og írsk[13]), en þau voru smelt og sett steinum. Paxspjöld voru bæði búin til hér og eins innflutt[14]). Munurinn á paxblaði og paxspjaldi, hafi hann verið nokkur, var sá að spjaldið var úr tré, en blaðið úr bókfelli. Orðin páskablað[15]) og páskaspjald[16]) er stundum koma fyrir eru óefað afbökun á orðunum paxblað og paxspjald, því ekkert kirkjuáhald þekkist, sem hægt væri að samstæða þau við. Á paxspjöldin voru markaðar ýmsar myndir, guðslömb, krossfestingin, María með

1) T. d. *D. I.* II, 361. 2) T. d. *D. I.* II, 428. 3) *Cox: English church furniture* bls. 49. 4) *Wallem* segir bls. 85, að paxspjald væri »den plade, hvorpaa nadvergæsterne trykkede kys under den hellige kommunion«; það er rangt. 5) *D. I.* II, 551. 6) Bls. 86. 7) *D. I.* III, 515. 8) *D. I.* V, 307. 9) *D. I.* V, 405. 10) *D. I.* III, 583. 11) *D. I.* IV, 139. 12) *D. I.* III, 590. 13) *D. I.* V, 314. 14) *D. I.* V, 319. 15) T. d. *D. I.* III, 256. 16) T. d. *D. I.* III, 515.

Jesú [1]) o. s. frv. Í leiðarvísir um Þjóðmenjasafnið [2]) eru talin seks paxspjöld þar, en það fær ekki staðist. Þrjú af þeim (nr. 1722, 2104, 2552) eru áreiðanlega frá því eptir siðaskiptin, tvö (nr. 37, 2129) eru áreiðanlega textaspjöld, og hið sjötta (nr. 2444) að öllum líkindum einnig. Aptur á móti er í þjóðmenjasafni voru lítið paxspjald úr málmblendingi og á mörkuð María með Jesú og latínubæn; á bakinu eru móttök fyrir strengi [3]). Hóladómkirkja átti:

1374. 1) Paxspjöld smá þrjú.
2) — stór tvö.

1396. Paxspjöld fimm.

1525. 1) 7 pax, 4 hversdaglega, en 2 hátíðlega, annað gylt [4]).
2) 3 spjöld gylt á formessualtari [5]) á hátiðir.
3) Stórt agnus [6]) með silfur.

1550. Pax fimm.

8.) Í kirkjum eins og hómilíubókin lýsir þeim [7]) voru setupallar með veggjum fram [8]). Ekki sýnist þó alment hafa verið til þess ætlast að menn sætu í kirkjunum. »Standi karlmenn sunnan í kirkjunni, en konur norðan« stendur í skipan Árna biskups 1269 [9]). Hinsvegar gjörir þó skipan Árna erkibiskups ráð fyrir því, að menn megi »sitjandi messu hlýða« að nokkru [10]). Þegar fram á 15. öldina líður eru þó nokkrum sinnum nefndir kirkjubekkir. 1487 átti kirkjan á Reynivöllum í Kjós að »vera með gólfi og bekkjum« [11]), og 1491 þarf að bæta Eyrarkirkju í Bitru »að þaki og bekkjum innan« [12]). Hér sýnist siðurinn vera að komast á. Bekkir voru annarstaðar í kirkjum á Norðurlöndum, og enn eru til í þjóðmenjasafni Dana bekkjarbrúðurnar úr dómkirkjunni í Kirkjubæ á Færeyjum. Í dómkirkjunni á Hól-

1) *Cox: English church furniture* bls. 50. 2) *Þjóðmenjasafn* bls. 13. 3) Nr. 1922. 4) Ekki nema 6 þó seu kölluð 7. 5) Þetta þýðir ekki að þau stæðu á formessualtari, heldur að þar skyldi nota þau. 6) Pax var stundum nefnt agnus. 7) Sjá bls. 170—76. 8) Sjá mynd XV, h. 9) *D. I.* II, 50. 10) *D. I.* II, 842. 11) *D. I.* VI, 587. 12) *D. I.* VII, 86.

um voru og bekkir, að minsta kosti að einhverju leyti. Hvort knébeðir hafi verið í kirkjum svo sem nú tíðkast er óvíst, að vísu er talað um að menn í kirkjum falli á knébeð[1]), en af því er þó ekkert ákveðið hægt að ráða. Um formana (stalla) á stærri kirkjum, klausturkirkjum og dómkirkjum, þar sem klerkar, konventu- og kórs-bræður sátu og fluttu tíðir sínar, hefur verið talað. Nú sátu prestar þegar messan var flutt, meðan sungnir voru vissir partar hennar; þurftu þeir því að hafa stól til þess, enda eru opt nefndir stólar á kirkjum, sem ekki geta hafa verið til annars. Nöfnin voru margvísleg: stóll[2]), kirkjustóll[3]), setstóll[4]), prestsstóll[5]) og frammistöðustóll[6]), en það var kallað að hafa frammistöðu að syngja messu eða tíðir. Að því er efnið snertir er nefndur fjalastóll[7]) og eikarstóll[8]). Um frágang stólanna er nefnt, að þeir séu læstir[9]) eða að geyma megi í þeim messuföt[10]), eða þeir eru blátt áfram nefndir messufatastólar[11]), sem bersýnilega alt er sami frágangurinn. Í skrúðhúslausum kirkjum, þar sem prestur hafði alla bækistöð sína fyrir og eptir embætti á kórnum eins og alment var[12]) mátti til með að nota hverja skonsu undir messureiðu, og voru stólarnir kjörnir til að hafa geymslu undir setunni. Þar sem færi var á því, að prestur syngi messu með djáknum þurfti annað hvort þrjá stóla, sinn handa hvorum djákna og presti, eða bekk handa öllum. Grundarstólarnir í þjóðmenjasafni Dana[13]) eru óefað prests og djáknastóll, en ekki húsbónda og hústrúarstóll eins og Matth. Þórðarson vill vera láta, í annars ágætri grein um þá[14]). Dregur hann það af því að annar stóllinn er minni. Þessir stólar voru þó í upphafi *þrír* eins og Matthías færir góð rök fyrir. En til hvers var þá þriðji stóllinn? Annar stóllinn er minni, og ef þriðji stóllinn væri til enn myndi hann

1) T. d. *B. S.* I, 352. 2) T. d. *D. I.* I, 255. 3) T. d. *D. I.* III, 169. 4) T. d. *D. I.* V, 315. 5) T. d. *D. I.* IV, 64. 6) T. d. *D. I.* IX, 314. 7) *D. I.* III, 566 8) *D. I.* VII, 740. 9) T. d. *D. I.* V, 252. 10) *D I.* II, 466. 11) *D. I.* V, 675. 12) *B. S.* I, 438. 13) Nr. 7726 og 7727. 14) *Á. Í. F. F.* 1917, 1—8 með myndum.

jafnstór minni stólnum. Grundarstólarnir eru óefað frammistöðustólar, stóri stóllinn preststóll og minni stóllinn annar djáknastóllinn, en þriðji stóllinn sem nú er týndur, var hinn. Stóllinn frá Draflastöðum[1]) er og óefað preststóll. Allir eiga þessir stólar sammerkt í einu, að það má geyma í setunum, sem eru kassar, og annar Grundarstóllinn (7727) er beint læstur. Á stærri kirkjum, þar sem daglega var höfð frammistaða, skiptust prestar kirkjunnar vikulega á að syngja hámessuna og tíðirnar, og var kallað að sá er það gerði hefði vikuhald[2]) (hebdomadarius); á slíkum kirkjum var frammistöðuformi þ. e. að segja einn stóll þrískiptur. Nefnt er: »þrír dúkar með einum löngum á frammistöðuforma«[3]). Þetta er ekki hægt að misskilja, dúkarnir þrír eru hver á sitt sæti (bancalium), en langi dúkurinn er á bakið (dorsale). Voru frammistöðuformar (lat. scamnum) alþektir annarstaðar, og allvíða úr steini og veggfastir[4]). Framistöðustólarnir voru ýmist úr tré eða járni sbr. stólaeign Hólakirkju. Auk hinna fjögra naglföstu kórsbræðraforma átti Hóladómkirkja:

1396. Járnstól nýan.
1525. 1) Járnstóla tvo.
2) Stóla tvo.
1550. Frammistöðustóla tvo og þriðja járnstól.

9.) Er sungnar voru messur eða tíðir, höfðu klerkar fyrir sér bækur. Voru bækurnar hafðar á lespúltum, svo nefndum lektörum[5]) eða bókalektörum[6]). Voru þeir þrennskonar: altarislektarar, guðspjallalektarar og gólflektarar. Altarislektarar (lectorilia gestatoria) voru lausir á altarinu og báru þeir messubókina; það eru nefndir »lektarar litlir á altari«[7]) allopt; víðast þar sem nefndir eru lektarar í máldögunum, er átt við þá. Þessir lektarar stóðu ýmist sunnan eða norðan á altari eptir því hvar prestur stóð í þann svipinn. Það er því allundarlegt að getið er um lektara fastan við altari[8]), og verður

1) Þjóðmenjas. Ísl. nr. 443. 2) *B. S.* II, 146. 3) *D. I.* V, 548. 4) *Otte* I, 291. *Cox: English church furniture* 67—74. 5) T. d. *D. I.* I, 402. 6) T. d. *D. I.* III, 92 7) T. d. *D. I.* V, 702. 8) *D. I.* IV, 172.

að skilja það svo, að hann hafi verið hlekkjaður við altarið á svo langri festi, að hægt hafi verið að flytja hann til eptir þörfum. Guðspjallalektarar [1]) stóðu á gólfi norðan megin altaris og voru gólffastir (lectorilia stataria); báru þeir textann er djákninn söng guðspjall. Gólflektarar eða lektarar með gólfum [2]) voru með tvennu móti, fastir (stataria) og lausir (gestatoria). Fastir lektarar stóðu á miðju gólfi og báru hinar stóru tíðabækur, aspiciensbækur, sem allir gátu lesið á í senn. Lausir lektarar voru bæði guðspjallalektarar og tíðalektarar, og fluttir til eptir þörfum. Var hægt að leggja þá saman eins og lektarana í stiftskirkjunni í Oberwesel [3]), og voru þeir því og nefndir bókaskref [4]). Hæð gólflektara má marka af því, að nefndur er lektaradúkur glitaður hálf sjötta alin (ísl.) [5]). Þessir dúkar féllu gólfsíðir niður i bak og fyrir; hefur því lektarinn verið hér um bil 2³/₄ al. ísl. á hæð. Lektarar voru og nefndir bókaformar [6]) eða bókastólar [7]); þetta er vafalaust og sýnir það orðatiltækið »bókarstóll lítill á altari« [8]). Nefndur er lektari með reiðustól [9]). Í skipan Jóns Halldórssonar [10]), og reyndar víðar, er reiða nefnd svo að hún getur ekki annað merkt en sakramentið; merkir reiðustóll því hirzlu undir sakramentið, sakramentishús (repositorium). Í Sturlungu (Oxfordútg. I. 227) segir að maður hafi verið særður í kirkju »innar við reiðustól«; hefur verkið þótt að verra, er það var unnið hjá sakramentinu. Reiðustóll var prýðileg hirzla, er stóð á háum stöpli, og var hún í flestum erlendum kirkjum, en hér sýnist hún hafa verið fátið; var sakramentið hér optast geymt í messufatakistu eða almaríu (sbr. bls. 395). Hóladómkirkja átti:

1525. 1) Lektara tvo.

2) Lektara litla fjóra á öltörunum,

en það segir sig sjálft, að ekki koma öll kurl til grafar.

10.) Í fyrstu kristni tíðkuðust klukkur ekki, en voru

---

1) *D. I.* IV, 169. 2) *D. I.* IV, 195. 3) *Otte* I, 302. 4) T. d. *D. I.* IV, 86. 5) *D. I.* V, 308. 6) T. d. *D. I.* V, 403. 7) T. d. *D. I.* II, 62. 8) *D. I.* IV, 62. 9) *D. I.* II, 408. 10) *D. I.* II, 809.

alsiða í heiðni. Þegar um hægðist fyrir kristnum tóku þeir upp siðinn, enda höfðu Gyðingar notað þær. Á 9. öld voru þær af nýju orðnar alsiða. Klukkna er hér getið frá fyrstu Íslands byggingu. Þegar Ingólfur kom hingað »voru hér menn kristnir, þeir er Norðmenn kalla papa«, sem skildu eptir hér »bækur írskar og bjöllur og bagla«[1]). Var þá notkun klukkna að mestu eins og nú er. Klukkur voru með þrennu móti. Stórar klukkur — útiklukkur[2]), samhringjur[3]), söngmeyjar[4]) er ýmist voru í stöpli, klukknahúsi, eða utan á suðurgafli kirknanna[5]), og smáklukkur[6]) á kór[7]) eða bjöllur á kór[8]), smábjöllur[9]) og handklukkur[10]), uppihaldsklukkur[11]) og handbjöllur[12]). Útiklukkurnar voru notaðar til að kalla saman söfnuðinn til guðsþjónustu. Þær voru optast gjörðar úr bronsi, venjulegast c. 80% kopar og 20% af tini og ofurlítið af silfri. Ef fleiri klukkur voru, voru þær samstiltar í prim, terts, kvint og oktav (þríhljóm) og hétu þá söngmeyjar[13]) eða samhringjur. Klukkum var hringt allan ársins hring nema frá skírdegi — þá voru klukkustrengir knýttir upp — og til Gloría á laugardag fyrir páska[14]). Þegar prestur gekk til altaris og frá, var hringt smábjöllum (campanella) á kór. Þégar haldið var upp holdi og blóði vors herra Jesu Christi skyldi klykt til þess[15]), og voru til þess hafðar handklukkurnar og handbjöllurnar (tintinnabula). Þó var frá skírdegi til laugardags fyrir páska í stað þeirra notað áhald, sem kallað var dymbill. Er því um 1636 lýst svo í eignaskrá Vatnsfjarðar kirkju: »Eirn dymbill eður þríhyrnt tré með nockrum gömlum järnpijpum

---

1) *Íslendingabók* útg. Golther Halle a. d. S. 1892. bls. 4. sbr. *Hauksbók* Kbh. 1892—96, bls. 4. 2) T. d. *D. I.* II, 359. 3) *D. I.* II, 438 og víðar. 4) *D. I.* I, 471. 5) Sjá II. kafla ritsins. 6) *D. I.* III, 72. 7) T. d. *D. I.* III, 572. 8) *D. I.* V, 314. 9) *D. I.* III, 125. 10) *D. I.* III, 81. 11) *D. I.* III, 121. 12) *D. I.* III, 566. 13) Auk annara klukkna lét Laurentius biskup flytja söngmeyjar fimm norður á Möðruvelli, er hann var að koma klaustrinu þar á laggirnar aptur. *B. S.* I, 858. 14) AM. 266. 4to bls. 2. 15) *D. I.* II, 24.

og stiett af trie under«[1]). Þessi lýsing virðist þó eins og hún er eiga við hljóðfæri, nema rétt lýsing á tveim mismunandi hlutum hafi brenglast saman. Dymbill var tréplata og á henni hamar, sem barðist við plötuna ef hún var skekin. Dymbill er víða nefndur[2]) og á einum stað jafnvel dynbjalla[3]), sem er bersýnileg leiðrétting afskrifara, er kannast hefur við það orð úr Gretlu. Varla er þó skildleiki með þeim orðum, og ekki við orðið dumbell, sem Cleasby nefnir, því dumbell þýðir rambald. Eins hefur og verið gizkað á, að dymbill væri af dumbur. Sennilegast er það með hljóðlíkingu dregið af latneska orðinu tintinabulum, sem þýðir klukka. Nefnd er böng[4]). Er það óefað klukka, sem ekki var hringt með streng, heldur barin með kólfi — bönguð og böng (flt. bengur) beint myndað af sögninni að banga. Elztu klukkur eru mikið til jafn víðar að ofan og neðan, en yngri klukur víðari að neðan. Ofan á klukkunum voru margir kengir (corona) og í þá fest rambaldið. Á stóru klukkunum voru opt áletranir. Af áletrunum á íslenzkum klukkum er kunnust þessi:

Vox mea est bamba, possum depellere Satan[5])

Áletranir tvær á klukkum Hóladómkirkju eru prentaðar annarstaðar í riti þessu[6]). Klukkusteypari þekkist sá einn, er í þeim áletrunum getur: Hinrik Koch í Hamburg. Virðist Hólakirkja bæði fyrir og eptir siðaskiptin hafa látið gjöra klukkur sínar þar, því ein klukka var steypt þar fyrir Ólaf Hjaltason[7]). Vígsla klukkna var nefnd skírn — af því að klukkurnar voru þvegnar í vígslunni[8]); fengu þær í vígslu nafn af þeim, sem þær voru helgaðar. Svo var til Ólafsklukka á Völlum í Svarf-

1) Ny kgl. Sml. 1847, 4to fol. 61—66. 2) T. d. *D. I.* III, 257. 3) *D. I.* IV, 130 sbr. orðamuninn. 4) T. d. *D. I.* III, 502. 5) *Jón Árnason: Þjóðsögur og æfintýri.* 6) Bls. 59. 7) *D. I.* III, 609; á henni stóð: Herra Ólafur heiðursmann | eð hélt með prýði Hólarann | meta klukku innt staðarins torg | meta maka lét in Hamborck. Svona höfðu Hamborgararnir áletrunina. Í Árbókum Espólíns er vísan rétt. 8) *Pontificale romanum*, de benedictione signi vel campanæ.

aðardal 1525[1]) og postulaklukkur á Hólum, en Laurentius biskup lét flytja þær norður á Möðruvelli[2]). Klukkur drógu og stundum nafn af gefandanum t. d. Pétursnautur, Árnanautur[3]). Í þjóðmenjasafninu eru til nokkrar klukkur frá því fyrir siðaskiptin. Hóladómkirkja átti:

1525. 1) Klukkur 12 uppi í stöplinum, 1 kólflaus niðri.
2) Smáklukkur 7.
3) Klukkur 3 kólflausar í skrúðhúsinu.

1550. 1) Klukkur stórar 7.
2) —— minni 4.
3) Smáklukkur 7.
4) Smábjöllur 3.
5) Klukku stóra, Jónsklukku[4]).
6) Maríuklukku stóra, átti kirkjan sjálf til hennar koparinn[4]).
7) Klukkur tvær stórar nýjar[5]).
8) Klukku eina litla[5]).

Klukkukostur fyrir 1525 hefur óefað verið nægur, því dómkirkjan gat á dögum Laurentiusar lagt Möðruvöllum til að minsta kosti 7 klukkur. Í lýsingu á útför Guðmundar biskups[6]) sést að kirkjan hefur átt margar klukkur, minst 5–6.

11.) Utanum hinar margvíslegu eigur kirknana þurfti auðvitað hirzlur, enda gjörir skipan Eilífs og Jóns ráð fyrir að hver kirkja eigi læsta hirzlu[7]). Aðallega eiga kirkjurnar kistu undir messuföt, og auðséð er á AM. 266, 4to að það er einasta hirzlan, sem búist er við á kirkjum, því þar segir (bls. 2) að á skírdag skuli láta sakramentið »hreinlega í messufatakistu eða almarium, ef til er«. Messufatakista[8]) og messuklæðakista[9]) eru algengustu heitin; sjaldnar er nefnd skrúðakista[10]) og einu sinni skrúðastokkur[11]). Eru þessi ílát nefnd

1) *D. I.* IX, 333. 2) *B. S.* I, 858. 3) *D. I.* I, 472. 4) Þetta er önnur þeirra klukkna, sem biskup Jón lagði til, sjá bls. 59. 5) »Við Ós« þ. e. í kirkjunni við Kolbeinsárós. 6) *B. S.* I, 585–6. 7) *D. I.* II, 518. 8) T. d. *D. I.* II, 359. 9) T. d. *D. I.* II, 428. 10) T. d. *D. I.* III, 160. 11) *D. I.* V, 262.

bæði læst[1]) eða með lás[2]) og ólæst[3]). Að því er til efnisins kemur er nefnd járnkista[4]), þó vitanlega hafi kisturnar að jafnaði verið úr tré. Um gerðina er þess einu sinni getið að kista væri flatlokuð[5]). Minst hefur áður verið á messufatastóla. Annarstaðar voru algengar sérstakar hirzlur undir einstök föt t. d. kórkápur[6]); hér á landi mun þó litið hafa verið af slíku, þó nefnd sé að vísu höklakista[7]). Til er í þjóðmenjasafni voru[8]) prýðileg, útskorin framhlið af skrúðakistu, frá Skálholtskirkju með gotneskri gerð, flæmsk að uppruna[9]) og frá 15. öld. Frá sama tíma er *skrúðakista frá Hóladómkirkju*[10]) járnbent; böndin þó nokkuð skemd, en annars óbrotin. Nefnt er almarium[11]) eða almaria[12]), skápur, sem ætlað var að geyma kaleik og patinu og slíka kirkjugripi. Þó sýnir Hólamáldaginn 1550 að hún hafi hér einnig verið höfð undir messuföt. Almaría er dregið af latneska orðinu armarium (af arma: vopn, áhald)[13]). Undir bækur kirkna voru hafðar bókakistur[14]) eða bókastokkar[15]). Hóladómkirkja átti:

1374. 1) Kistur 6 læstar.
 2) — 3 ólæstar.
1396. — 2[16]).
1500. Biskupskistu.
1525. 1) Biskupskistu.
 2) Klerkakistur tvær.
 3) Klerkaalmariu.
 4) Djáknakistur tvær.
1550. 1) Biskupskistu.
 2) Klerkakistur tvær.
 3) Kaleikaalmariu.

---

1) T. d. *D. I.* II, 449. 2) *D. I.* V, 331. 3) T. d. *D. I.* II, 693. 4) *D. I.* V, 266. 5) *D. I.* V, 346. 6) *Cox: English church furniture*, bls. 316—17. 7) *D. I.* IV, 114. 8) Nr. 2437. 9) *Þjóðmenjasafn*, bls. 34 segir hana þýzka. 10) Þjóðmenjas. Ísl. Nr. 8313. 11) T. d. *D. I.* III, 160. 12) T. d. *D. I.* IX, 306. 13) *Wallem*, bls. 96. nefnir stakk, og messufatastakk með hirzlum, en það er eins og hver maður sér misskilnigur. 14) T. d. *D. I.* II, 454. 15) *D. I.* III, 577. 16) Bersýnilega hefur farið nokkuð af kistum í fokinu 1394.

4) Djáknakistur þrjár.
5) Höklaalmaríu[1].
6) Kistur stórar, góðar, járnaðar þrjár[2].
7) Stokkar 6 góðir.

12.) Flestar kirkjur áttu graftól[3] þ. e. þelahögg[4], klakahögg[5] eða grjótbrjót[6] til að pjakka með jarðveginn og pál og reku[7] til að taka með gröfina. Venjulegast var að jarðsetja lík kistulaus hér á landi[8]. Andlit hins látna var nakið fram á síðustu stundu, og þá fyrst saumuð yfir það blæja[9] eða líkvitill[10]. Stóðu líkin síðan á börum[11] og áttu margar kirkjur það áhald[12]. Yfir þær og líkið var lagt líkaábreiðsl[8]. Stundum var, þegar börurnar stóðu í kirkju, höfð grind[13] utan um þær, en undir ábreiðslinu, svo það færi betur. Yfir gröfina tekna voru lögð grafartré[14] — eins og enn er, og líkið lagt á þau. Er renna skyldi því ofan í gröfina var það gjört með krókum, sem fest var í líkaumbúnaðinn, en krækt úr er líkið var komið á sinn stað, og hafa þeir því vafalaust verið á stöngum. Voru áhöld þessi nefnd líkabroddar[15], krakar[16] eða líkakrákar[17]. Hefur nokkuð verið um merkingu orðsins skrifað[18], en allar skýringar sem fram hafa komið eru bersýnilega rangar. Skýringin, sem hér er sett virðist til mála geta komið. Sögnin að kraka þýðir enn sama og að krækja (kraka eitthvað upp úr t. d. sjónum). Hólamáldagarnir nefna engin graftól, en vitanlega hefur dómkirkjan átt þau til[19]).

13.) Þegar komið er út fyrir hið þrönga svið al-

---

1) Það mun vera þetta sem *Wallem* (bls. 97.) hefur mislesið bókaalmaría. 2) Þjóðmenjas. Ísl. nr. 8313 vafalaust ein þeirra. 3) *D. I.* I, 420. 4) *D. I.* I, 402. 5) *D. I.* II, 425. 6) *D. I.* IV, 148. 7) *D. I.* II, 442. 8) Um greptrun og umbúnað líka, sjá bls. 326—7. 9) *I. A.* 288. 10) *D. I.* I, 404. 11) *B. S.* II, 146. 12) T. d. *D. I.* II, 455. 13) T. d. *D. I.* V, 631. 14) *D. I.* V, 267. 15) T. d. *D. I.* V, 252. 16) *D. I.* II, 442. 17) T. d. *D. I.* I, 417. 18) T. d. *Lærdómslistafélagsritin* VII, 248—50, VIII, 71—6. 19) *Wallem* telur (bls. 116) broddstaf með graftólum; það er rangt. Broddstafi áttu kirkjurnar handa prestunum, er þeir á vetrardögum þurftu að syngja á útkirkju. Skipan Gyrðs biskups sýnir og að kirkjan lét sér ant um að prestar kæmust klakklaust kirkna á millum (*D. I.* III, 130).

litúrgiskra gripa, eiga kirkjurnar afarmikið af hlutum, sem sumpart eru alveg ókirkjulegir, svo sem ýmisleg búsgögn t. d. kvarnir[1]) o. fl., en sumpart beinlínis eða óbeinlínis koma að haldi við kirkjusiðina. Þegar út í það er komið fara máldagarnir að gjörast ónákvæmir. Hólamáldaginn 1396 segir þetta beint sjálfur í niðurlaginu, þar stendur: »eru nú óreiknuð sum ornamenta kirkjunnar«. Hóladómkirkja átti:

1550. Kirkjutölur með agat[2]).

Þetta er óefað einasti vottur talnabanda hér. Múnkar höfðu að vísu afarlengi talið bænir sínar á hnútum á snæri, en hinn heilagi Dominicus de Guzman kom á talnabandskeðju með kúlum í munkareglu sinni árið 1240. Það varð fyrst alment á 16. öldinni, en hefur bersýnilega verið farið að tylla hér tánum er siðaskiptin hófust. Af öðrum slíkum hálflitúrgiskum gripum sem Hóladómkirkja átti skal fyrst telja:

1550. 1) Skæri.
2) Klippujárn tvenn,

og voru þau geymd í kaleikaalmaríu, og því enginn vafi á, að það séu skæri þau, sem biskupar notuðu er þeir vígðu klerka krúnuvígslu. Var það fyrsta vígslan, er kennimenn tóku og klipti biskup þá höfuð þeirra á fjórum stöðum[3]), en upp frá því áttu þeir að raka krúnu sína. Máldagarnir telja Hóladómkirkju eiga:

1374. Kamb og busta.
1396. Sama.
1525. Kamba tvo annan með tönn, en annan með tré.
1550. Sama.

Slíkt áttu margar kirkjur[4]), og áttu jafnvel spegil[5]) eða skuggsjón[6]). Þegar prestar skrýddust komst hár

1) Cederschiöld segir í *A. O.* 1887 bls. 59, að kvarnir þær, sem eru nefndar í máldögum hafi verið bafðar til að mala hveitið í ofláturnar, og hefur Wallem það eptir honum (bls. 77). Þetta er þó rangt; biskupsstólarnir sáu fyrir hveiti, en prófastar býttu því út með prestum (*D. I.* II, 800). Kvarnirnar voru venjuleg búsgögn. 2) Í biskupskapellu. 3) *Pontificale romanum*, de clerico faciendo. 4) T. d. *D. I.* II, 429. 5) *D. I.* III, 564. 6) *D. I.* IV, 172.

þeirra opt í ólag, og voru þessi týgi höfð til að hagræða því aptur. En átti dómkirkjan:

1396. Stafi tvo.

1525. Frammistöðustafi tvo.

Kapituli var á Hólum, sem getið hefur verið (bls. 210—15). Var einn kórsbræðra forsöngvari (primicerius) og bar hann staf, sem hann stjórnaði með söngnum, og er »taktstokkur« vorra daga afsprengur hans. Eru þetta slíkir stafir. Voru þeir háir sem baglar og opt jafn prýðilegir þeim (sbr. nr. 121 í Domschatz í Köln).

Einkennilegt er hve dómkirkjan á mikið af mælitækjum, og að þau skulu vera úr göfugum málmum, bendir til að þeim hafi verið ætlað að mæla eitthvað annað en ótindan varning; en hvað? Það mun þó engin ráðgáta vera. Í vorþingssamþykt Árnesinga um fjárlag, sem Jón Sigurðsson telur vera frá 1200 eða eldri segir: »Gull ok silfr skal vega at metum biskups eða þeim öðrum, er þar sé jöfn við«[1]). Er hér bersýnilega um vogartæki til slíks að ræða. Kirkjan má því með sanni heita löggildingarstofa þeirrar tíðar, þar sem henni var ætlað að hafa bæði rétta vog og stiku[2]). Áhöldin eru talin með kirkjugripum eins og þau væru í þeirra röð, sýnir það hve hæpið er að fara eptir því, í hvaða sambandi máldagar telja gripi. Dómkirkjan átti:

1374. 1) Mensura með silfur.
2) —— — — (annan).

1396. 1) —— — —
2) Mensura.

1500. Mensura þrjá.

1525. 1) Metaskálar.
2) Reizlu.

1550. Mensura þrjá með silfur.

Meðal þeirra hluta, sem Hóladómkirkja á bæði 1525 og 1550 er lausnarsteinn. Aðrar kirkjur eiga slikisteina[3]) til að slétta með tröf sín — corporalia og slíkt, og sólarsteina[4]) (»sólskífur«) jafnvel með umbúningi[5]), en

1) *D. I.* I, 316. 2) Sbr. bls. 93 þessa rits. 3) T. d. *D. I.* II, 403. 4) T. d. *D. I.* II, 451. 5) *D. I.* III, 560.

lausnarstein á engin önnur. Það var suðrænn ávöxtur, sem barst hingað með Golfstraumnum. Eg hlýt að fallast á skoðun Wallems[1]) að hér sé einhver hjátrú á ferðinni. Miðaldakirkjan var annað en hjátrúarlaus, t. d. var almenn trú að corporale varnaði eldsuppkomu. Því buðu kirkjuskipanir frá Cluny að alt af skyldi corporale vera til taks í kirkjunum[2]). Hvaða hjátrú fylgdi veit ég þó ekki.

Getið var hér um íslenzkan listamann í Noregi, Stephán Hauksson. Svo segir að Laurentius biskup léti »hann búa Jóns bolla Hólabiskups, hvern hann hafði til Róms«[3]). Var þetta minnisskál Jóns biskups ætluð til veraldlegrar drykkju. Af stað þessum sýnist Laurentius hafa farið til Rómar, með bollann, í því skyni að gefa hann þar. Með öllu er þó ókunnugt að Laurentius hafi þangað komið, enda á Hóladómkirkja:

1374. Jónsbolla með loki.
1396. —— — —
1550. Jónskúpu með loki.

Sögnin er því eitthvað skekt.

Þeir kirkjugripir, sem hér hefur verið fjallað um lúta flestallir að hinni andlegu starfsemi kirkjunnar eða voru kristninni til prýði. Þó bregða máldagarnir upp annarri ásjónu kirkjunnar, og skal að eins drepið á það til gamans. Hóladómkirkja átti nefnilega:

1396. 1) Hálsjárn og
2) Fíngrajárn tvenn,

og er þetta nefnt beint innan um kirkjugripina: »crucifixum, fingrajárn tvenn, járnstika með skipi, sessur 2 illar, hálsjárn, messubrefver«. Eptir farandi klausa úr Flateyjarannál[4]) er nægileg skýring við þetta: »Jón biskup [Sigurðsson] fangaði Arngrím, Eystein og Magnúr bræður í Þykkvabæ fyrir það er þeir höfðu barið á Þorláki ábóta sínum. Þeir urðu og opinberir að saurlífi, sumir að barneign. Var Arngrímur settur í tájárn, en Eysteinn í hálsjárn. Hólabiskup [Ormur Ásláksson]

1) Bls. 123. 2) *Braun: Paramentik* II. útg. bls. 208. 3) *B. S.* I, 843 sbr. 900 4) *I. A.* 402 sbr. 274.

fangaði þrjá bræður á Möðruvöllum og járnaði fyrir þær sakir hann gaf þeim«.

Hóladómkirkja átti:

1396. 1) Kirkjubrotsvið.

2) Glergluggabrot og

3) Blý af kirkju,

og voru það leifar úr kirkjufokinu 1394.

14.) Áður en skilist er við gripi Hólakirkju skal minst á áhald, sem Hóladómkirkja vafalaust hefur átt; það er *organ*. Þegar þeir biskuparnir Jón Halldórsson og Laurentius voru í málaþjarki sínu út úr Möðruvallaklaustri, sendi Jón biskup síra Arngrím Brandsson, síðar ábóta utan sín vegna. En síra Arngrímur sló slöku við málareksturinn, og var í þess stað að nema organlist[1]) eða organsmið[2]) eða hvorttveggja hjá meistara nokkrum. Var sú list þá ný í Noregi, því organsláttar er fyrst getið þar á dögum Eiríks konungs prestahatara (1280—1299)[3]). Orgön voru ekki merkileg í þá daga — um 12 pípur með jafnmörgum tónum. Þó að málareksturinn færi síra Arngrími lítt úr hendi, hafðist það af ferð hans, að hann var með »organum« meðferðis þegar hann kom heim 1329[4]). Áhald þetta hefur þótt hið mesta gersemi, og óefað verið afardýrt, enda var það um þær mundir alls ekki búið að ryðja sér neitt verulega til rúms í álfunni; það varð ekki fyrri en á 15. öld. Það er því ekki að furða þó að langt líði þar til getið sé um organ aptur í íslenzkum heimildum. 1394 átti Miklabæjarkirkja í Blönduhlíð »járnstyku með pípur að sungið er við«[5]) og er hér óefað átt við organ. Miklabæjarkirkja var í betri kirkna röð, — þar voru tveir prestar og djákni[6]), — en ekki með allra stærstu kirkjum. Úr því bæði syðri dómkirkjan og nágrannakirkja Hóladómkirkju áttu organ, hefur metnaður Hólabiskupa sennilega séð fyrir því að dómkirkjan væri ekki síðri. Í eignaskrá Vatnsfjarðarkirkju frá 1636 er

1) *B. S.* I, 868. 2) *B. S.* I, 908. 3) *Dietrichson* bls. 124. 4) *Í. A.* 397. 5) *D. I.* III, 565. 6) *D. I.* V, 360.

nefndur: »einn dymbill eður þríhyrnt tré með nokkrum gömlum járnpípum og stétt af tré undir«[1]). Er auðséð að þetta er ekki dymbill, þótt svo sé kallað, heldur vafalaust organ, sem hefur verið ónýtt orðið. Það hafa ef til vill víðar verið til orgön á Íslandi á miðöldum, þó nú sjái þess hvergi stað; Íslendingar voru og eru enn nýungagjarnir og tilhaldssamir, og spyrja þá ekki alt af pyngju eða forsjálni ráða.

---

### Bækur Hólakirkju.

Þegar rent er augum yfir bókaskrár íslenzkra kirkjumáldaga reynist eignin bæði lítil og ófjölskrúðug. Eru það allajafna lítið annað en tíðabækur, sem fyrir manni verða, og þó af svo skornum skamt, að sumar kirkjur eiga engar, en aðrar svo fáar að ekki voru þær messu- eða tíðafærar á sínar eigin bækur. Hér áttu ekki að eins minni kirkjur hlut að máli, heldur einnig heldri kirkjur. T. d. vantaði Sauðaneskirkju 1360 tíðabækur frá páskum til Jónsmessu eða 2—3 mánuði[2]). Mun hér orsökin til þess að Gyrður biskup skipar 1359 að prestar skuli hafa eignast tíðabækur innan fimm ára[3]). En um vandræðin verður að kenna hinu gífurlega bókaverði þeirra daga. Aðrar bækar, sem kirkjur áttu voru helst heilagramannasögur á norrænu, íslendingasögur og íslenzk guðslög og manna. Af útlendum bókum var sáralítið, og mun því meðfram hafa valdið kunnáttuleysi klerka[4]). Ýmsar heldri kirkjur eru þó í þessu efni betur á vegi staddar, svo Reykholtskirkja, sem 1358 átti 33 bækur[5]); ekki er þó getið hvers efnis þær voru, en allar voru þær metnar á 10 hundr. Sé hundrað reiknað á 350 kr. eins og gjört er í B-dálkunum á bls 102—117 í þessu riti, sem mun of lítið, hefðu þær alls kostað

---

1) Ny kgl. Sml. 1847, 4to bls. 61—66. 2) *D. I.* I, 156. 3) *D. I.* III, 129 sbr. *D. I.* II, 791 og *Grg.* I, 18. 4) Hvað af þeim var heimtað, sjá *D. I.* III. 151. 5) *D. I.* III, 123.

3500 kr., eða að meðaltali hver 106 kr. 33 aur. í nútíðarfé; mundi bókaeign manna lítil nú, ef bækur væru með því búðarverði. Kirkjan á Völlum í Svarfaðardal átti 1318 101 bók[1]); mun sú mikla bókaeign stafa af því, að sú kirkja var gefin kórsbróður þeim á Hólum, er þar var skólameistari, sem æfinleg prófenta[2]). Þetta eru stór bókasöfn á þeirrar tíðar vísu hérlenda, en það er að vonum að þeirra er annars helzt að leita á klaustrum og dómkirkjum, og hafa slíkar stofnanir snemma verið birgar af bókum, því þegar klaustur var sett á Helgafelli 1186 (flutt úr Flatey) átti það þegar 100 (120?) bækur[3]). Fer hér tafla yfir stærstu kirknabókasöfn þar sem tilgreind eru bókanöfn, og er þeim flokkað eptir efni:

| | Vellir 1318 | Viðeyjarkl. 1397[4]) | Möðruvallakl. 1461[5]) | Möðruvallakl. 1525[6]) | Munkaþverá 1525[7]) | Reynistaður 1525[8]) | Þingeyrar 1525[9]) |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| I. Helgisiðabækur ....... | 18 | 4 | 79 | 73 | 66 | 26 | 32 |
| II. Lögfræðirit .......... | » | 2 | 4 | » | 1 | » | » |
| III. Heilög Ritning, guðfræði- og uppbyggingarrit..... | 15 | 37 | 22 | 1 | » | 1 | 1 |
| IV. Kenslubækur ......... | » | 8 | 3 | » | » | » | » |
| V. Norræn rit .......... | 3 | 9 | 19 | » | 15 | 12 | 10 |
| VI. Ónafngreind rit ....... | 65 | » | » | 2 | » | » | 3 |
| Alls | 101 | 60 | 127 | 76 | 82 | 39 | 46 |

Þótt nútíðarmanni finnist lítið um tölurnar eru þetta stór bókasöfn[10]). Í þessu efni sem öðrum ber þó Hóladómkirkja höfuð og herðar yfir aðrar kirkjur. Það eru

1) *D. I.* II, 455. 2) Bls. 213 í þessu riti. 3) *D. I.* I, 282. 4) *D. I.* IV, 110—11. Máldaginn líklega ófullkominn. 5) *D. I.* V, 286—91. Átti auk þess »margar skrár aðrar mjög gamlar«. 6) *D. I.* IX, 317—18. 7) Ibid. 305—7. 8) Ibid. 320—21. 9) Ibid. 313—14. Allir máldagarnir frá 1525 væntanlega ófullkomnir. 10) Um íslenzk fornbókasöfn hefur Emil Olmer ritað gagnslitla bók: *Bogsamlingar i Island 1179—1490*, Göteborg 1902.

einir Hólamáldagarnir frá 1374, 1396, 1525 og 1550, sem telja fram bækur kirkjunnar. Eptirfarandi tafla sýnir bókatölu hvers máldaga flokkaða eptir efni:

| | 1374 | 1396 | 1525 | 1550 |
|---|---|---|---|---|
| I. Helgisiðabækur | 8 | 56 | 105 | 112 |
| II. Guðfræðirit, predikanir, uppbyggileg rit | » | 10 | 25 | 3 |
| III. Heilög Ritning, einstök rit hennar | » | 2 | 4 | 2 |
| IV. Kirkjulög | » | 13 | 6 | » |
| V. Kenslubækur, sagnfræðirit | » | 6 | 6 | » |
| VI. Nafngreind rit íslenzk | » | 17 | 20 | 3 |
| VII. Ónafngreind rit | » | 130 | 166 | » |
| Alls | 8 | 234 | 332 | 120 |

Í máldaganum 1396 er stofninn undir VII. lið þessi: »hálfur fimti tugur bóka í spjöldum«, »spjaldalausar 60«, »ótaldar skrár, hálfur þriðji tugur, ónýtar«. Í máldögunum 1374 og 1550 koma bersýnilega ekki öll kurl til grafar. Máldaginn 1396 sýnir, sem vitanlegt var, að tjónið af fokinu 1394[1]) er mjög ýkt í annálum. Ef bækur hefðu allar farist, eins og þeir herma, ætti kirkjan að hafa keypt 234 bækur á 2 árum. Séu tvær bækur látnar jafngilda hundraði, sem nærri lætur, væri það jafnt tæpu hundraði hundraða tólfræðu, eða tæpar 42,000 kr. sé hundrað reiknað 350 kr. Þetta nær auðvitað engri átt. Bókaruslið, sem kirkjan átti það ár tekur af öll tvímæli, því enginn lætur sér detta í hug að kirkjan hafi farið að kaupa það tvö árin þar á undan.

Ekki þykir ástæða til að telja hér rit þau hin norrænu, er kirkjan hefur átt; segir titill þeirra þeim, er máldagana nota, til sín. Sama er og um þau rit, sem svo eru titluð, hvort sem það er á latínu eða islenzku, að það liggur á lausu, og skal þó gjörð ein undantekning. 1525 átti kirkjan biblíu á norrænu. Þótt talið sé að Guðbrandur biskup hafi fyrstur þýtt bibliuna á islenzku, eins og hann sjálfur gefur í skyn í formálanum fyrir henni, hefur hann þó einmitt sjálfur seinna, að því er virðist tilneyddur, í formálanum fyrir Summaria orðið

1) Bls. 15 í þessu riti.

að játa að hann stæði þar á gömlum merg. Að hann hafi notað þýðingu Odds Gottskálkssonar svo ótæpt, að kalla megi að hann hafi prentað hana upp dylst engum, sem saman ber. Nú gæti biblía sú, er dómkirkjan átti 1525 auðvitað verið hin norska biblíuþýðing eða biblíuútdráttur, sem kallaður er Stjórn. Eins vel gæti þó verið, og er jafnvel líklegra, að þetta væri sjálfstæð íslenzk biblíuþýðing, og styðst það við margt. Í biskupasögum og heilagramannasögum úir og grúir af tilvitnunum í biblíuna, er öllum háttar svo, að lítt er hugsanlegt að þær séu þýddar í hvern svipinn úr látneska textanum. Og eins er í hómilíunum og samskonar ritum. Í Árna safni eru og ýmisleg brot að því er virðist úr fornum biblíuþýðingum. Um Jón biskup Arason er kunnugt að hann lét prenta helgidagapistla og guðspjöll á Breiðabólsstað [1]), eða jafnvel guðspjöllin fjögur; voru þau á íslenzku og hafa þótt hlutgeng úr því Brynjólfur biskup lét grafa þau með sér [2]). En er og þess að geta, að víst er um heila kafla ritningarinnar að þeir hafa fyrir siðaskipti verið til á íslenzku, því Möðruvallaklaustur átti 1461 bæði Genesis (1. Mósebók) og Makkabeabækurnar í íslenskri þýðingu [3]). Þó að það kynni að sýnast óþarfi má og geta þess hér, að það hefur aldrei í kaþólskum sið verið mönnum meinað að hnýsast í ritninguna.

Upptalning helgisiðabókanna mundi og vera alveg gagnslaus nema fylgdi nákvæm skýring helgisiðanna í þá daga, sem væri ærið efni í stórt rit, og verður ekki farið út í það hér, því sumum kynni annars að þykja vikið full langt frá aðalefni þessa rits. Hér skulu því að eins skýrð þau bókaheiti og orð í bókaheitum í Hólamáldögunum, sem ekki eru auðskilin, svo að menn að þessu leyti megi hafa nokkurt gagn af þeim.

I. **Messu- og tíðabækur.** Vegna þess hve bækur voru dýrar, var langalgengast að bækur þessar væru ekki í heilu líki, heldur í mörgum pörtum, svo að margar

---

1) *B. S.* II, 441. 2) *Biskupasögur Jóns Halldórssonar* II, 377. 3) *D. I.* V, 290.

bækur þurfti unz komin var heil tíða- eða messubók. Var reynt að hafa þessa skiptingu sem haganlegasta og eðlilegasta efni bókanna. Alment var að þær næðu að eins yfir nokkurn part ársins t. d. messubók frá Jónsmessu baptistae til Maríumessu fyrri, og tíðabókum var og stundum, eins og enn í dag, skipt eptir árstíðum t. d. brefveri tvö, annað á vetur annað á sumar. Hitt var ekki síður alment að skipta þeim niður í de tempore, de sanctis og commonsbækur (commune suffragium), eptir innri skiptingu ritanna. De tempore bók náði yfir stórhátíðirnar og þær messur, sem eptir þeim fóru (sunnudagar), de sanctis bók náði yfir helgra mannamessur, nema örfáar, er af sérstökum ástæðum hafa lent í de tempore partinum, en commonsbók náði yfir sameiginleg messu- og tíðaform þeirra dýrlinga, er svo eru neðarlega á metorðastiganum, að þeir hafa ekki sérstakt messu- eða tíðaform, t. d. messubók de tempore, brefver de sanctis, brefver með common. Það var og mjög algengt að hafa báðar skiptingar í senn, svo messubók de sanctis frá Jónsmessu baptistæ til Theodori martyris. Langalgengast var þó að safna einstökum samstæðum pörtum tíða eða messu, þeim er breytilegir eru, á eina bók, því á þann veg mátti kurla niður í smæst kver.

A. *Messubækur* höfðu að geyma helgisiðu þá, er hafðir voru er altarissakramenti var framið, en sú athöfn hét messa. Hólamáldagar nefna þær bækur messubók, missale (latneska heitið), og altarisbók. Orðið messubók hefur þó þráfaldlega þrengri merkingu; merkir þá hverja bók er heldur einhvern messupart, sbr. messubók er heldur grallara. Formessubók og formessukver, sem er sama, nefna þeir og. Voru á því kveri messur þær er syngja skyldi við formessualtari [1]) (altare laicorum), sem var altari þar er messur voru sungnar við fyrir almenning, mótsett háaltari, þar sem kórsbræðrum á dómkirkjum, og munkum og nunnum á

1) Sjá bls. 207 þessa rits.

klaustrum var sungin skyldumessa þeirra (missa conventualis)[1]), svo og almenningi á hæstu hátiðum. Þegar messubókin var bútuð niður í einstaka parta messunnar kom ekki alt af að eins einn til greina í einu heldur opt tveir eða fleiri. Fyrir manni verður collectarium bók sem hélt messubæn fyrir pistil (collecta, oratio), fyrir lágasöng (secreta) og eptir holdtekju (postcommunis); annarstaðar hélt þó bók með þessu nafni á miðöldum ekki messu heldur tíðabænir. Það tekur þó af skarið um að hér hafi ekki verið svo, að Hólakirkja átti 1525 collectarium með gröll[ur]um, en grallari (graduale) var lítill ritningarstaður (responsorium), er var víxlsunginn eptir pistil. Grallari, gradall (graduale) var bók er í öndverðu hélt grallara einan, en síðar alla hina breytilegu kórsöngsparta messunnar (introitus, graduale, alleluja, tractus, offertorium, communio); heita þeir á lat. versus og er þar af versagrallari, sem er sama og grallari. Kyriale hélt þá parta messunnar, sem kórsungnir eru, en eru eins í öllum messum (Kyrie, Gloria, Credo, Sanctus, Agnus dei) svo og messusvör. Passionall hélt píningarsögurnar þrjár (Matth., Mark., Joh.), sem sungnar eru á pálmadag, þriðjudag í dymbilviku og föstudaginn langa[2]). Sequentiur (sequentiae) eru ljóð er sungin voru eptir grallara, og nú eru að mestu horfin. Bókin er þær geymdi hét sequentionarium eða sekventiubók. Guðspjöllin fjögur voru á textum eða textabókum (textus evangeliorum) og tónuð eptir honum í messunni; voru þau optast í dýrindisspjöldum. Geta má þess hér, að Hólakirkja átti 1550 guðspjallabók með pappír á norrænu, og er það líklega sú, er Jón biskup VI. lét prenta. Lágisöngur var sá partur messunnar er geymdi innsetningarorðin og annað þar að lútandi, og var nefndur svo af því að hann var hafður yfir í hljóði, var og kallaður kani (á lat. canon); hann var á kanabókum. Eins og tekið hefur verið fram er skiptingin ekki alt af sjálfri sér samkvæm og fyrir

1) Bls. 206 hér. 2) Annarstaðar stundum tíðir píslarvotta.

kemur að jafnvel alveg ósamstæðir hlutir lenda saman t. d. kanabók er heldur orationes í hátíðamessum og benedictiones epistolis, sem er misskript fyrir episcopi; blessanir er biskup gaf voru til forna með afarmörgum hætti þó nú séu þær að eins með einum. Skipting þessi er og samfara skiptingu í de tempore og de sanctis, og nær stundum um part úr ári. Væru bækurnar með nótum voru þær nefndar syngjandi. Orðið historia í messubókartitli merkir messuskipan einstaks dags (officium).

B. *Tíðabækur* höfðu að geyma helgisiðuna á hinum einstöku bænastundum dagsins (tíðir, horae) og var skipt með alveg sama hætti og messubókum. Nafnið á ritinu sem heild er brefver (breviarium), historíubók, tólf mánaða tíðir. Frammistöðubækur voru afarstór brefver, er ætlað var að standa á kóri, og voru með svo stóru letri að margir gátu lesið á þær og úr fjarska; voru líka kallaðar aspiciensbækur. Ferðabrefverin hafa auðvitað verið mjög lítil. 1550 átti kirkjan »brefver 17 á pappír prentuð hér í landi«, sem Jón Arason gaf út 1534[1]). Samsvarandi grallaranum, hélt lesgrallarinn (antiphonarium) ritningarstaði tíðanna (antiphonae)

1) Isaak Collijn bókav. í Stokkhólmi hefur þóttst finna tvö blöð úr því í bandi á ísl. handr. þar. Páll E. Ólason tekur þetta opt upp eptir honum og kallar á einum stað bókina »Breviarium (eða Missionale) Holense« (*Upptök sálma og sálmalaga.* Rvík 1924, bls. 26). Helgisiðarit með heitinu missionale hefur aldrei verið til, en sé átt við missale, þá er það heimildarlaust, því í titlinum, sem Grunnavíkur-Jón tilfærir orðrétttan er bókin kölluð »breviaria«. Ég get þess hér að P. E. Ó. hefur í sama riti (bls. 27) misskilið orðið »adauctum« í niðurlagi brefversins; það þýðir þar ekki »aukið« heldur »prýtt«. Blöðin, sem Collijn fann geta þó ómögulega verið úr Breviarium Holense, því þau eru í 8vo, en Grunnavíkur-Jón, sem sá það, segir að það hafi verið »forma quarta«, og með latneskum söngvum með fegurstu lögum. Á blöðunum eru antiphonur og yfir þeim ættu nóturnar að vera, en eru engar. Jón segir og bókina hafa verið með rauðum greinirósum (lemna, lemma), en greinirósirnar á blöðum Collijns eru svartar. Þau samsvara því ekki lýsingunni og hljóta að vera úr öðru brefveri.

með nótum. Psaltarinn hélt Davíðssálma og var honum skipt niður á dagana til söngs, en lokið á mánuði. Hymnarius hélt ymna tíðanna og var einn í hverri hinna 8 tíða sólarhringsins. Capitularius hélt capitula, smákafla úr ritningunni er tónaðir voru í hverri tíð. Lesbók hélt les þau, sem í tíðunum voru (í óttusöng og prima) 9 eða 3 (sbr. þriggja lestra hald, níu lestra hald) og voru úr ritningunni, kirkjufeðrunum og heilagra manna sögum[1]). Stundum voru brefver skorðuð við einstakar hátíðir eða hátíðakerfi t. d. jólabrefver, páskabrefver, langaföstubrefver, eða einstakar tíðir svo sem prímalestrarbók, eða tíðategundir t. d. sálutíðabók (fyrir framliðnum). Enn fremur var tíðunum skipt eptir metorðaflokkum[2]) t. d. lesbók de sanctis um öll duplex. Nefndir eru Maríupsaltarar; voru það ljóðaðar tíðir guðs móður til dýrðar, sem voru mikið um hönd hafðar af klerkum, en ekki voru þær lögskipaðar eða liður í helgisiðakerfinu. Tíðabækur voru nefndar nótaðar eða syngjandi ef með nótum voru; annars lesandi. Með tíðabókum verður að telja martyrologium[3]), skrá yfir dýrlinga kirkjunnar flokkaða eptir helgidögum; var sungið á dómkirkjum á hverjum degi hverra messur bæru upp á næsta dag.

II. **Orðubækur** (ordinalia, orður) voru leiðarvísar um messu- og tíðasöng allan ársins hring og héldu skrá yfir alla breytilega parta messu og tíða með tilgreindum upphöfum, og jafnvel lýsingum á einstöku fátíðum athöfnum[4]). Ekki var þó hægt að syngja tíðir eða messur á þær. Eru nokkrar til í Árnasafni.

III. **Aðrar helgisiðabækur.** A. *Biskupsbækur* (pontificale)[5]) voru handbækur er héldu biskupsverk (biskups, prests, kirkju- og krismavígsla, biskupun barna o. s. frv.).

---

1) Sbr. *B. S.* I. 401—4. 2) Hér á landi: summum festum, duplex major, minor, semiduplex, simplex. (*D. I.* VII, 464). Annarstaðar eilítið frábrugið. 3) Í máld. 1550 er í Fornbréfasafni nefnt »mortuarium«. Í frumr. stendur »mom̄« og á vafalaust að lesa úr því »martyrologium«. 4) T. d. AM. 791, 4to. 5) *Olmer* heldur bls. 8 að þetta séu »Biskupasögur«; það er rangt.

Ferðabók biskups var sama rit í handhægara frágangi. Hér var en sem fyr klofið úr, því dómkirkjan átti kirkjuvígslukver.

B. *Handbók*, pastorall hafði að geyma prestsverk (skírn, hjónavígslu, særingar, kertavígslu og ösku, yfirsöngva, prosessíur o. s. frv.). Einnig hér var klofið úr benedictionale, bók er hélt yfirsöngva presta, sem flestir voru fyrir- og yfirbænareðlis (benedictiones invocativæ), er engum hlut veittu innra, óafmáanlegt helgimark, í mótsetningu við vígslur biskupa (consecrationes), sem veittu óafmáanlega eðlishelgi (benedictiones constitutivæ). Eins var klofið frá processionale, er hélt leiðarvísir um prósessíur.

C. *Tonaríus* var forsögn með nótum um tón guðspjals, pistils, bæna, lestra, kapítula o. s. frv. og 8 lögum við psaltarann og lofsöng Maríu »Magnificat« (Luk. 1. 46—55) og hið 9. við Ps. 113 (114 eða 115 í ísl. biblíum). Eru lögin við psaltarann og »Magnificat« í AM. 792 4to[1]).

IV. **Aðrar bækur Hóladómkirkju**[2]).

A. *Postillur.*

1. Sermonsbók stór, er heitir Vincentius, sermones Vincentii de sanctis, = »Sermones de tempore et de sanctis« eptir Vincentius Ferrerius de Valentia, predikarabróður, d. 1419 (dýrlingur).
2. Sermonsbók de Jacobi Voragine, = Sermones eptir Jakob de Voragine, predikarabróður og erkibiskup (1230—98), frægan ræðumann.

B. *Guðfræði og uppbyggingarrit.*

1. Rationale = »Rationale divinorum officiorum« eptir Guillelmus Durandus biskup (d. 1333), frægan skólaspeking og lögfræðing (doctor resolutissimus), eða »Divinorum officiorum ac eorundem rationum brevis

1) Prentað bls. 144, í »*Íslenzki þjóðlagasafn*« hjá Bjarna Þorsteinssyni, sem þó ekki hefur áttað sig á hvað það væri.
2) Þeim titlum er segja greinilega til sín og þeim, sem eru svo almennir að ekkert verður af ráðið er slept.

explicatio«, einnig nefnt »Rationale div. offic«., eptir Johannes Beleth (d. 1202).

2. Vitta patrum = »Vitæ patrum«, eptir Hieronymus kirkjuföður.
3. Dialogus = »Dialogus de vita et miraculis patrum« eptir Gregor páfa mikla; var til á íslenzku [1]).
4. Flores virginis = »Flores excerpti ex opusculis S. Bernardi abbatis in laudem virginis gloriosae« eptir Hilarion munk.
5. Glossa psalterii. — Höf. ókunnur. Ritið prentað einu sinni fyrir 1500, en ókunnngt um ár og stað.
6. Expositiones evangeliorum = Guðspjallaskýringar Gregors páfa mikla.
7. Strepitus judicii = »Strepitus judicialis« eptir heilagan Ephräm (Syrus, d. 375).
8. Thomas de Aquina, prima pars sancti Thomae de Aquina = »Summa theologiae« eptir Th. de Aquina (doctor angelicus), d. 1274.
9. De tractatus virtutum = »Tractatus de vitiis et virtutibus« eptir sama.
10. Manipulum curatorum = »Manipulus curatorum« eptir Guido de Monte Rochen (15. útg. 1470).
11. Albertus magnus = »Compendium theologicae veritatis« eptir Albert greifa af Bollstädt (d. 1280), biskup í Regensburg.
12. Summa angelica = »Summa angelica de casibus conscientiae« eptir Angelus de Clavasio.
13. Dormi secure = »Sermones dormi secure« eptir Johannes de Verdena.
14. Brigitarbók í norrænu = »Revelationes S. Birgittae« eða »Orations S. Birgittae«; af síðara ritinu 8 útg. fyrir 1500.
15. Alexander = »Summa universae theologiae« eptir Alexander magnus (doctor irrefragabilis), d. 1345.

---

1) *D. I.* IX, 314. Brot prentað í *Leifum*, 18—86, 151—154.

C. *Kirkjulög.*

1. Decretum, decretum Gratiani = Fyrsta heildarlagasafn fyrir alla kirkjuna, er Gratian munkur og háskólakennari í Bologna safnaði 1140—1150.
2. Decretalium Gregorii, decretalius Gregorii, decretales, decretorum = Decretales Gregorii, sem Raymund af Pennaforte samdi upp úr kirkjulögum eptir daga Gratians; einnig nefndt »Liber extra (þ. e. extra decretum)«; er í 5 bókum.
3. Sextus, sextus decretalium = Kirkjulög frá dögum Gregors IX. til daga Bonifacius VIII. Talin sjötta bók af decretaliis; þar af nafnið.
4. Clementinae dextera et sinistra pars = »Constitutiones Clementinae«. Klemes páfi V. safnaði kirkjulögum frá Bonifaciusi VIII. fram á sína daga, og er það þetta rit. Stundum nefnt liber septimus. Ritin 1—4 hétu einu heiti »Corpus juris canonici« og voru lög kirkjunnar fram til 1917, að lögbók Píusar X. »Codex juris canonici« nam þau úr gildi.

D. *Lagaskýringar* (glossa — lagaskýringar — og apparatus — réttartilfelli (concret) með lausnum).

1. Casus Johannis = Commentaria Johannis de Anania við Decretales.
2. Casus Bernhardi, liber casuum decretalium = »Casus longi super quinque libros decretalium« eptir Bernhard Parmensis.
3. Godfredus = »Summa super titulos decretalium« eptir Godfred af Trani.
4. Remundus, summa Remundi = »Summa de casibus poenitentialibus« eptir Raymund af Pennaforte.
5. Formularius = Laga — og bréfaformæli; kunnast er slíkt rit eptir Carolus Manekea.
6. Resolutorius dubiorum circa celebrationem = »Resolutorium dubiorum circa celebrationem missarum occurrentium« eptir Johannes de Lapide.
7. Corrector = »Corrector sive medicus« 19. bók af »Collectarium Brocardicum« eptir Burkhard af Mainz.

8. Modus legendi = »Modus legendi abbreviaturas in utroque jure«. Útg. Nürnberg 1476.

E. *Fræðirit.*

1. Doctrinale = »Doctrinale clericorum« eptir Alanus ab Insulis.
2. Ecclesia historia = Kirkjusaga Eusebiusar eða Beda munks.
3. Brito = »Dictionarius Britonum continens tria idiomata videlicet brittanicum, gallicum et latinum«. Brito er til í AM. 203, 8vo.
4. Catholico[n] = Brito. Brito var líka kallaður »Catholicon abbreviatum«.
5. Ysodorus ethymologiarum = »Libri viginti ethymologiarum« eptir Isodorus Hispalensis, biskup í Sevilla (d. 536).
6. Huguicio = »De vitricationibus muneralium vocabulorum« eptir Ugution.
7. Grecismus = Kenslubók í grísku eptir Eberhardus Bethuniensis.
8. Discipulus = Elucidarius; prentaður (eptirmynd) Kbh. 1869 og í Hauksbók Kbh. 1896.
9. Lombardica historia = »Legenda aurea sive historia lombardina« eptir Jacobus de Voragine; heimsfrægt rit. Hér er varla um »De gestis langobardorum« eptir Paulus diaconus að ræða, þó að það rit væri þýtt á íslenzku.
10. Bohetius de philosophiae consolatione = »De philosophiae consolatione« eptir Annius Manlius Torquatus Severinus Boetius. Skýringar til við það rit eptir Thomas de Aquina.

F. *Ýmislegt.*

Proprietarium = Máldagabók.

## Lagfæringar og viðaukar.

Bls. 13, 10. l. a. n. ef gamla, l. ef hin gamla. Bls. 29. í talinu; á eptir Á á Rangárvöllum komi: Akrar í Blönduhlíð: Pétur postuli (D. I. XII, 26). Bls. 30, í 18. nmgr. 253 l. 254. Bls. 31, í talinu aptan við Bjarnarnes í Hornafirði; María komi: Ólafur (Eptir 1491—1518; D. I. VII, 35). Bls. 31, í talinu; á eptir Breiðabólsstaður í Ølfusi komi: Breiðholt: Blasius (B. S. I, 390). Bls. 35, í talinu; á eptir Flatey á Breiðafirði komi: Flugumýri: Pétur postuli (D. I. IV, 511). Bls. 36; á eptir Glæsibær: Nikulás komi: María, Mikael (D. I. II, 358). Bls. 41 í talinu; á eptir Hvoll í Saurbæ komi: Húsafell: María, Cecilia (D. I. VII, 737). Bls. 41, í 14 nmgr. 265 l. 266. Bls. 48, 4. l. a. o. Pétur postuli l. María, Pétur postuli, Dionysius, Barbara. Bls. 48, í talinu; á eptir Reykholt í Reykholtsdal komi: Reykir í Flókadal: María Magdalena (D. I. III, 671). Bls. 48, 4. nmgr. 466 l. 477. Bls. 54, í talinu; á eptir Viðivellir komi: Víðvík: Ambrosius (D. I. IV, 511); á eptir Þverá í Laxárdal í Þingeyjarsýslu komi: Þverá í Skagafirði: Pétur (D. I. IV, 511). Bls. 55, 3. nmgr. 443 l. 444. Bls. 71, 7. l. a. n. spargit l. spergit. Bls. 81, 8. l. a. n. synlegt l. nauðsynlegt. Bls. 92, 16. l. a. o. á eptir nagla [10]) komi: Þess eru og dæmi að börn léku sér í kirkjum (B. S. I, 792). Bls. 111, 8. l. a. o. alua l. alna. Bls. 113, 11. l. a. n. á undan Eptir komi: c). Bls. 120, í upptalningunni; á eptir Svínafell komi: Höfðabrekka c. 1178 (B. S. I, 282). Bls. 121, í upptalningunni; á eptir Dómkirkjan í Skálholti komi: Steinar undir Eyjafjöllum 1320 (I. A. 204); á eptir Dómkirkjan á Hólum komi: Möðruvellir í Hörgárdal 1421 (I. A. 293). Bls. 125, í upptalningunni; á undan Kirkja Oxa Hjaltasonar komi: Bær á Rauðasandi (B. S. I, 645), Bær í Borgarfirði (B. S. I, 645); á eptir kirkja við Kolbeinsárós komi: Valþjófsstaður (B. S. I, 285). Bls. 130, í 4. nmgr. 1877 l. 1887. Bls. 131, í 7. nmgr. á eptir bls. komi: 50. Bls. 139, 15. l. a. o. hellakirkjur l. hellrakirkjur; 20. l. a. o. ískra l. írskra Bls. 210, 17. l. a. o. kanókdæminu l. kanókadæminu. Bls. 224, 8. l. a. o. pontificale l. Pontificale. Bls. 226, 12. l. a. n. munka l. munka, og. Bls. 231, 6. l. a. n. pillolus l. pileolus. Bls. 248, 21. l. a. n. á eptir hringum [4]) komi: (= síridúkur sbr. D. I. III, 123, af fornfrönsku orði ciré). Bls. 249, 1. l. a. n. bls. 13 l. bls. 14. Bls. 250, 10. l. a. n. þunnur, l. þunnur, optast. Bls. 254, 6. l. a. o. barnslega fallega l. barnslega, fallega. Bls. 261, 6. l. a. o. þekkist l. þekkist og. Bls. 284, 7. l. a. o. eptir baculus, komi: cambucea. Bls. 287, 13. l. a. o. Olturu l. Ølturu. Bls. 292. 20. l. a. n. tíðast l. tíðkast. Bls. 295, 17. l. a. o. antimensale l. antemensale. Bls. 309, 9. l. a. o. eptir skyldi komi: prestur. Bls. 322, 11. l. a. n. úr; l. úr,. Bls. 344, 2. l. a. n. 1824 l. 1874. Bls. 349, 3. l. a. n. 111. l. 111, 145. Bls. 351, 1. l. a. o. salt l. salt vizkunnar. Bls. 370, 7. nmgr. lesist D. I. V, 594. Bls. 377, 19. l. a. n. monstsansfótur l. monstransfótur.

## Efnisyfirlit.

**Ritinu fylgja XVI uppdrættir og 12 myndir.**

# SAFN

TIL

## SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENSKRA BÓKMENTA

AÐ FORNU OG NÝJU

GEFIÐ ÚT

AF

**HINU ÍSLENSKA BÓKMENTAFJELAGI**

**V. 1.**

REYKJAVÍK
PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJUNNI GUTENBERG

# SAFN

TIL

## SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENSKRA BÓKMENTA

AÐ FORNU OG NYJU

GEFIÐ ÚT

AF

HINU ÍSLENSKA BÓKMENTAFJELAGI

V. 2.

REYKJAVÍK
PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJUNNI GUTENBERG

# SAFN

TIL

## SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENSKRA BÓKMENTA

AÐ FORNU OG NÝJU

GEFIÐ ÚT

AF

HINU ÍSLENSKA BÓKMENTAFJELAGI

V. 3.

REYKJAVÍK
PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJUNNI GUTENBERG

# SAFN

TIL

# SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENTA

AÐ FORNU OG NÝJU

GEFIÐ ÚT AF

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFELAGI

V. 4.

REYKJAVÍK
PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJUNNI GUTENBERG

## Leiðréttingar (við nr. 6)

Bls. 73. 1. l. a. n. XII l. XIII.
81. 8. l. a. n. sýnlegt l. nauðsynlegt.
82. 7. l. a. o. unum l. num.
92. 16. l. a. o. nagla l. nagla, þetta greinilega.
93. 12. l. a. n. nn l. ff.
100. 4. l. a. o. tæpur l. liðugur.
110. 7. l. a. n. vel l. vel til.
123. 3. l. a. n. III. l. 111.

# SAFN

TIL

# SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENTA

AÐ FORNU OG NÝJU

GEFIÐ ÚT AF

**HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI**

V. 5.

REYKJAVÍK
PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJUNNI GUTENBERG

# SAFN

TIL

## SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENTA

AÐ FORNU OG NÝJU

GEFIÐ ÚT AF

**HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI**

**V. 6.**

REYKJAVÍK
PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJUNNI GUTENBERG

# SAFN

TIL

SÖGU ÍSLANDS OG ÍSLENZKRA BÓKMENTA

AÐ FORNU OG NÝJU

GEFIÐ ÚT AF

**HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI**

V. 6.

REYKJAVÍK
PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJUNNI GUTENBERG

